# TÍÐINDI

FRÁ

# ÞJÓÐFUNDI

ÍSLENDÍNGA

# TÍÐINDI



# ÞJÓÐFUNDI



## ÍSLENDÍNGA

## árið 1851.

*Ritnefndarmenn:*

**Pètur Pètursson,** prófessor,
**Jens Sigurðsson,** kennari,
**Gísli Magnússon,** kennari.



REYKJAVÍK.

Prentuð í prentsmiðju landsins,

1851.

## YFIRLIT EFNISINS.

### I. Konúngleg frumvörp.



### II. Þíngsköp.



### III. Fyrirspurnir.

## IV. Ýmisleg skjöl, er fram voru borin á þínginu.

*A.*



*B.*



---

LAUGARDAGINN 5. dag júlím. 1851 söfnuðust 42 þjóðfundarmenn ásamt stiptamtmanninum yfir Íslandi, greifa af *Trampe*, og eptir boðum hans í alþíngissalnum um hádegisbil. Síðan var gengið til kirkju, og eptir saung og prèdikun, sem biskupinn yfir Íslandi hèlt út af Lúk. 17., 20.—21., gengu menn aptur til alþíngissalsins, og setti stiptamtmaður þjóðfundinn með eptirfylgjandi ræðu:

*Háttvirtu fundarmenn, fulltrúar Íslendinga!*

Þegar vor mildasti konúngur árið 1848 skipaði ríkisfund, til að ræða stjórnarskipun ríkisins framvegis, gat hann ekki tímans vegna látið Íslendínga velja sèr fulltrúa sjálfa. Í brèfi sínu frá 23. degi septemberm. 1848 gjörði hann grein fyrir þessu, og lofaði um leið, að fundur skyldi verða haldinn í landi hèr, til að segja álit sitt um þær aðalákvarðanir, sem virtust nauðsynlegar til að skipa stjórnarlögun landshluta þessa samkvæmt aðalstjórnarskipun ríkisins.

Konúngur vildi, að fundur þessi yrði í júlímánuði 1850, en þetta var, sem opið brèf frá 16. d. maím. fyrra árs skýrir frá, ómögulegt; bauð hann því öllum þeim, sem hann hafði nefnt í fundinn, og þeim, sem þar til voru þjóðkjörnir, að koma til Reykjavíkur 4. d. júlím. þessa árs, og lèt þess um leið getið, að þeim þar yrði skýrt frá öðru því, er hèr að lýtur og þörf er á að vita.

Tími sá er nú kominn, háttvirtu fulltrúar! sem þèr eigið að takast á hendur ætlunarverk þetta, sem bæði er mikilsvert fyrir land og lýð, og miklum vanda og ábyrgð bundið; en enda þó stjórnin, að því er hlutaðeigandi ráðherra hefur skýrt mèr frá, hafi gjört þær ráðstafanir, að allir mættu vænta, að allt það, er fundurinn þarf, ætti nú að vera komið híngað, hef eg þó til

þessa dags ekki fengið neitt af því, og get eg því ekki enn lagt frumvarp stjórnarinnar fyrir þennan heiðraða fund.

Ei að síður er eg yður, heiðruðu fundarmenn! samdóma í því, að rèttast sè að setja fundinn í dag, svo að tíminn ekki verði ónýtur, einkum þar eð fundarmenn þó, hvort sem er, verða að verja nokkrum dögum, til að kjósa sèr embættismenn og semja sèr þíngreglur.

Mèr er sönn gleði að geta sett þann fund, sem eg hef örugga von um, að efla muni hið sanna gagn þeirrar „eldgömlu Ísafoldar", og eykst ei gleði mín alllítið við það, að nú höfum vèr sannar fregnir um, að stríð það, sem ríkið svo lengi hefur átt í, er nú heiðarlega á enda kljáð.

Látum oss, heiðruðu fulltrúar Íslands! í skauti friðarins, með eindrægni og stöðugri gætni, vinna að Íslands sönnu framförum og eflíngu, og með því áformi lýsi eg þá yfir í nafni konúngs,

*að fundurinn er settur.*

Að ræðulokum svaraði einn þíngmanna: *lengi lifi konúngur vor, Friðrik hinn sjöundi!* og tóku þíngmenn undir í einu hljóði.

Því næst skoraði stiptamtmaður á amtmann *Melsteð*, svo sem hinn elzta meðal þíngmanna, að gánga til fyrirsætis og stjórna þínginu, þar til kjörbrèf væru rannsökuð og forseti kosinn; tókst amtmaður *Melsteð* þetta á hendur, og nefndi til skrifara þá prófessor *Pètur Pètursson* og kandídat *Jón Sigurðsson*.

Forseti stakk upp á, að kjörbrèfin yrðu rannsökuð á þann hátt, að þíngmenn skiptu sèr í tvo flokka eptir hlutfalli, og skyldi hvor flokkurinn rannsaka annars kjörbrèf. Var þetta samþykkt af öllum. Eptir að þíngmenn höfðu dregið sig saman eptir hlutföllum, 21 í hvorn flokk, gengu þeir hvor um sig í önnur herbergi, og að stundu liðinni komu þeir aptur, og skoraði forseti á framsögumenn flokkanna að skýra frá, hvort nokkuð hefði fundizt útásetníngarvert við kjörbrèfin.

Kandídat *Jón Sigurðsson* skýrði frá, sem framsögumaður flokksins A, að rannsökuð hefðu verið kjörbrèf flokksins B, og taldi nöfn flokksmanna; höfðu þar engin mótmæli fram komið, og flokkurinn ekki fundið annað athugavert, en að einn af hinum konúngkjörnu þíngmönnum, biskup *Thordersen*, hafði

ekki kjörbrèf sitt við höndina, en þar eð kosníng hans var þjóðkunnug, þótti flokknum engin ástæða að vefengja hana í neinu.

Prófastur *Hannes Stephensen* skýrði því næst frá, sem framsögumaður fyrir flokkinn B, hversu farið hefði fram um rannsókn kjörbrèfa flokksins A. Voru þar ekki heldur nein mótmæli fram komin, og ekki fundið annað athugavert, en að tveir hinna konúngkjörnu manna, prófessor *Pètur Pètursson* og amtmaður *Melsteð,* höfðu ekki kjörbrèf sín á þíngi; en þar eð kosníng þeirra hafði verið auglýst, eins og áður er sagt, var hún af engum dregin í efa.

*Stiptamtmaður* sannaði enn fremur, að stjórnin hefði skýrt sèr frá, að konúngur hefði kjörið alla þessa menn til þíngs, sem nú var getið.

*Forseti* lýsti því rèttkjörna þíngmenn alla þá, sem á þíng voru komnir, og voru það þessir:

*A. Þjóðkjörnir:*

1. úr Norðurmúlasýslu:
   Sigurður Gunnarsson, prestur, frá Desjarmýri.
   Guttormur Vigfússon, stúdent, frá Arneiðarstöðum.
2. úr Suðurmúlasýslu:
   Hallgrímur Jónsson, prófastur, frá Hólmum.
3. úr Skaptafellssýslu:
   Jón Guðmundsson, sýslumaður.
   Páll Pálsson, prófastur, frá Hörgsdal.
4. úr Rángárvallasýslu:
   Páll Sigurðsson, hreppstjóri, frá Árkvörn.
   Magnús Stephensen, sýslumaður, frá Vatnsdal.
5. úr Vestmannaeyjum:
   Magnús Austmann, stúdent.
6. úr Árnessýslu:
   Jóhann Briem, prófastur, frá Hruna.
   Gísli Magnússon, skólakennari, í Reykjavík.
7. úr Gullbríngu- og Kjósar-sýslu:
   Jens Sigurðsson, skólakennari, í Reykjavík.
   Guðmundur Brandsson, hreppstjóri.
8. úr Reykjavík:
   Kristján Kristjánsson, land- og bæjar-fógeti.
   Jakob Guðmundsson, prestur, frá Kálfatjörn.
9. úr Borgarfjarðarsýslu:

Hannes Stephensen, prófastur, frá Ytrahólmi.
Sveinbjörn Hallgrímsson, í Reykjavík.
10. úr Mýra- og Hnappadals-sýslu:
Jón Sigurðsson, hreppstjóri, frá Tandraseli.
Magnús Gíslason, sýslumaður.
11. úr Snæfellsnessýslu:
Páll Melsteð, sýslumaður.
Árni Böðvarsson, prestur, frá Sveinstöðum.
12. úr Dalasýslu:
Guðmundur Einarsson, prestur, frá Kvennabrekku.
Þorvaldur Sívertsen, umboðsmaður, frá Hrappsey.
13. úr Barðastrandarsýslu:
Brynjólfur B. Benediktsen, kaupmaður, úr Flatey.
Ólafur E. Johnsen, prestur, frá Stað á Reykjanesi.
14. úr Ísafjarðarsýslu:
Jón Sigurðsson, kandídat, frá Kaupmannahöfn.
Lárus M. Johnsen, prófastur, frá Holti í Önundarfirði.
15. úr Strandasýslu:
Ásgeir Einarsson, bóndi, frá Kollafjarðarnesi.
Þórarinn Kristjánsson, prófastur, frá Prestbakka.
16. úr Húnavatnssýslu:
Jósep Skaptason, hèraðslæknir, frá Hnausum.
Sveinn Níelsson, prestur, frá Staðastað.
17. úr Skagafjarðarsýslu:
Stephán Jónsson, hreppstjóri, frá Reistará.
18. úr Eyjafjarðarsýslu:
Eggert Briem, sýslumaður, frá Espihóli.
Ólafur Briem, timburmeistari, frá Grund.
19. úr Suðurþingeyjarsýslu:
Jón Jónsson, hreppstjóri, frá Múnkaþverá.
Jón Jónsson, bóndi, frá Grænavatni.
20. úr Norðurþingeyjarsýslu:
Björn Jónsson, verzlunarfulltrúi, frá Akureyri.
Björn Halldórsson, kandídat frá prestaskólanum.

*B. Konúngkjörnir:*

Helgi G. Thordersen, biskup yfir Íslandi.
Páll Melsteð, amtmaður yfir vesturamtinu.
Halldór Jónsson, prófastur, frá Hofi í Vopnafirði.
Pètur Pètursson, prófessor.
Þórður Jónasson, assessor í yfirdóminum

Stiptamtmaðurinn lagði fram brèf frá *Jóni* bónda *Samsonssyni*, þjóðkjörnum fundarmanni frá Skagafjarðarsýslu, til stiptamtsins, dagsett 24. d. júním. þ. á.; segir hann þar, að sökum háskalegrar biltu af hesti hafi hann meiðzt á höfði og útlimum, og sè því ekki fær til að mæta á fundinum. Einnig lagði stiptamtmaður fram brèf frá hinum fyrsta konúngkjörna þíngmanni, konferenzráði *Þórði Sveinbjörnssyni*, að hann treystist ekki að sinni, sjúkleika vegna, að koma á þíng, en muni síðar tilkynna forseta, hvort forföll þessi við haldist. Enn framar tilkynnti stiptamtmaður, að annar þjóðfundarmaður Árnesínga, *Þorleifur Guðmundsson Repp*, málfræðíngur í Kaupmannahöfn, hefði brèflega tilkynnt sèr, að hann hefði eigi treyst sèr, sjúkleika vegna, að koma til þíngs, og hefði stiptamtmaður því jafnskjótt látið boða til kjörþíngsins, og var þar valinn *Gísli Magnússon*, skólakennari, sem nú er annar þíngmaður Árnesínga.

Forseti gat þess, að hèr væru ekki á þíngi tveir af hinum þjóðkjörnu þíngmönnum, annar hèraðalæknir *Gísli Hjálmarsson* frá Suðurmúlasýslu, en annar *Loptur* bóndi *Jónsson* úr Vestmannaeyjum. Viðvíkjandi hinum fyrra var skýrt frá því, að hann hefði afsalað sèr kosníngu, þar eð hann sæi sèr ekki kost á að sækja þíng; hefðu síðan verið valdir þrír menn, hver eptir annan, en allir afsakað sig, og var þá ekki tími til að kjósa optar, en um þetta voru þó engar skriflegar skýrslur til þíngs komnar.

Viðvíkjandi *Lopti* bónda afhenti fyrsti þíngmaður Rángvellínga forseta brèf nokkurt, og óskaði að lesið væri; las forseti það með þíngsins samþykki, og er það þannig hljóðandi:

Af því að við vottanlega getum sannað, að þèr hafið stutt að útbreiðslu hins svo nefnda mormóniska trúarflokks hèr á eyjunni, og af því við viljum ekki gefa okkar atkvæði til þess manns, sem ekki játar þau í fèlaginu viðteknu trúarbrögð, þá aptur köllum við hèr með það kjörbrèf, sem þèr 24. d. maímán. í fyrra fenguð, til að vera þjóðfundarmaður Vestmannaeyja, undir eins og við getum þess, að sá sjötti af yðar kjósendum, *Runólfur Magnússon*, er tepptur á fastalandinu, og hefur ekki getað komizt til eyjarinnar á nokkru tímabili.

Þetta viljum við kunngjöra yður til nauðsynlegrar eptirrèttíngar, að þèr þurfið ekki að gjöra yður ómak nè kostnað

að mæta á þjóðfundi Íslendínga, er haldast á 4. d. júlímán. næstkomandi í Reykjavík.

Vestmannaeyjum dag 28. maím. 1851.

*Abel. H. Jónsson. J. Einarsson. M. Austmann.*
*Gísli Jónsson.*

*Til sáttasemjara og meðhjálpara mr. L. Jónssonar.*

Stiptamtmaðurinn auglýsti, að mál þetta hefði komið til amtsins, og hefði það ritað sýslumanni á Vestmannaeyjum, að þjóðfundurinn einn, en enginn annar, ætti um að dæma, hvort nokkur væri hæfur fundarmaður og rèttkjörinn eður ekki.

Því næst beiddi forseti menn, að taka til forsetakosníngar, með skrifuðum seðlum á venjulegan hátt; en þegar seðlar voru ritaðir, og hann varð þess var, að hann mundi hafa flest atkvæði til forsetadæmis, óskaði hann, að annar skrifaranna læsi upp seðlana, en annar ritaði atkvæði, og var það leyft; kosníngin fèll þannig.

Atkvæði alls 42; þar af hlaut amtmaður *Melsteð* 39 atkvæði; *Kristján Kristjánsson* 2 og kandíd. *Jón Sigurðsson* 1.

*Forseti:* Eg kann að sönnu þeim heiðruðu þjóðfundarmönnum innilegar þakkir fyrir það traust, er þeir hafa borið til mín með því að kjósa mig til forseta; en eg óttast fyrir því, að mig skorti bæði reynslu og krapta, til að geta uppfyllt svo þær skyldur, sem kosníng þessi leggur mèr á herðar, sem eg sjálfur mundi óska, og þíngið hefur rètt til að krefjast. Samt vil eg eigi hika við að takast forsetastörfin á hendur, þar eg bæði vona, að þíngmenn muni virða mèr til vorkunnar það, sem mèr kann yfir að sjást, og leiðbeina mèr, þar sem eg kann að skeika.

Því næst var kosinn varaforseti, og fèllu atkvæði á þá leið; alls greidd 41 atkvæði; þar af hlaut *Kristján Kristjánsson* 19, kandídat *Jón Sigurðsson* 14 og fjórir þíngmenn aðrir 1—3 atkvæði hver; lýsti því forseti, að *Kristján Kristjánsson* væri kjörinn til varaforseta á fundinum.

Þar næst voru skrifarar kosnir, og var því hreift af einum þíngmanni, að kjósa þrjá eða fjóra, en annar gat þess, að þar eð menn mættu gjöra ráð fyrir að kosnir yrðu embættismenn á ný, þegar þíngskapareglur væru samþykktar, þá mundi nú ekki þurfa að kjósa nema tvo skrifara þángað til, svo sem tíðkazt hefði á hinum fyrri þíngum; var þá ályktað, að tvo skrifara skyldi kjósa að sinni, og hlutu þeir

kandidat *Björn Halldórsson* 32, og
sýslumaður *Páll Melsteð* 19 atkvæði.

Næst þeim hafði sýslumaður *Jón Guðmundsson* 10, og 11 aðrir þíngmenn frá 1—4 atkvæða hver; lýsti því forseti tvo hina fyrst nefndu kjörna skrifara þjóðfundarins.

Eptir þetta sagði forseti fundi slitið, og ákvað næsta fund á mánudaginn þann 7. þ. m.; skyldi þá kjósa nefnd til að semja þíngskapareglur handa fundinum.

---

## 2. fundur, 7. d. júlím.

Allir á fundi; þíngbók frá fyrsta fundi upp lesin og samþykkt.

Kandíd. *Jón Sigurðsson:* Í boðunarbrèfi konúngs 16. d. maím. í fyrra er ákveðið, að þjóðfundur þessi skuli verða settur 4. d. júlím. í ár, en eins og vèr vitum, þá er fundurinn ekki settur fyr en daginn eptir. Það er eðlilegt, að kjósendur vorir og öll alþýða spyrji, hvað þessu valdi, og það er skylda vor þíngmanna, að gjöra grein fyrir því að voru leyti, hvers vegna vèr tökum ekki fyr til starfa. Þetta hafa einnig þíngmenn látið sèr vera hugfast, og í því skyni hèldu þeir fund 4. d. júlím. um hádegisbil, á þeim degi og þeirri stund, sem þeir áttu von á, að stjórnin mundi láta þá vita það, „sem þörf er á að vita", eins og boðunarbrèfið segir. Þíngmenn kusu þá, eins og þèr vitið, þrjá menn, til að fara til stiptamtmanns, og spyrja hann, hvað því ylli, að fundur var ekki settur á ákveðnum tíma, og færðu þeir honum brèf, sem þíngmenn samþykktu, þannig hljóðandi:

Þjóðfundarmenn allir, þeir sem vèr vitum von á til þíngs, eru nú komnir híngað til Reykjavíkur, samkvæmt boðunarbrèfi konúngs 16. d. maím. 1850, og í þeirri von, að þjóðfundurinn yrði settur í dag, eptir þeim skilníngi, sem þeir nálega allir hafa á orðum boðunarbrèfsins, í sambandi við kosníngarlaganna 21. grein, og samkvæmt því, sem slík brèf hafa verið skilin að undanförnu, bæði hèr og í Danmörku. Þar eð þèr nú, hávelborni herra! eruð almennt talinn sem ætlaður til stjórnarinnar erindsreka á fundinum, leyfum vèr oss, eptir umboði þíngmanna, að spyrja yður, hvort að þèr hafið ekki umboð af konúngs hendi til að setja þjóðfundinn, og ef þèr hafið það, hvort það er þá vegna þess, að þèr hafið annan skilníng á boðunar-

brèfinu en vèr, að þèr hafið ekki sett þíng í dag, eður það er annara orsaka vegna, og enn framar, hve nær vèr megum vænta, að þèr munið setja þíngið, til þess að skýra frá öllu því hèr að lútandi, sem þörf er á að vita, eptir loforði stjórnarinnar í niðurlagi hins upphaflega nefnda boðunarbrèfs.

Reykjavík 4. d. júlím 1851.

*Jón Sigurðsson.* *Hannes Stephensen.* *Jón Guðmundsson.*

S. T.

Herra stiptamtmanni, greifa af *Trampe.*

En hann svaraði oss samdægris á þessa leið:

Þèr hafið, heiðruðu fundarmenn! spurt um, hvað því valdi, að fundur sá, sem boðaður er í brèfi konúngs frá 16. d. maím. 1850, ekki sè settur í dag.

Út af fyrirspurn þessari læt eg yður vita, að eg ekki hef ástæðu til, að setja fundinn í dag, þar eð eg hvorki hef í höndum nokkra vissu um, hver konúngsfulltrúi verði, en það er fulltrúi konúngs, sem setur fundinn, nè þau skjöl, sem leggja á fyrir fundinn.

Þar eð eg þó hef nokkra ástæðu til að halda, að eg þegar sè skipaður fulltrúi konúngs á fundi þessum, og hlutaðeigandi stjórnarherra brèflega hefur skýrt mèr frá, að herskipið Flora ætti að fara frá Leith þann 25. f. m., og færa mèr það allt, sem fundurinn þyrfti við, er eg fús, af því eg veit það er sameiginleg ósk allra fundarmanna, að setja fundinn á morgun, svo að tíminn, þángað til skip það, er nú gat eg um, kemur, verði hagnýttur til að velja embættismenn fundarins, og búa til fundarreglur.

Samkvæmt þessu vona eg, að allir fundarmenn mæti í alþíngisstofunni kl. 11½ fyrir miðjan dag á morgun.

Íslands stiptamtshúsi 4. dag júlím. 1851.

*J. D. Trampe.*

S. T.

herra sekríteri *Jón Sigurðsson,*
— prófastur *Hannes Stephensen* og
— sýslumaður *Jón Guðmundsson.*

Nú æskjum vèr, að þessi brèf fylgi þíngbókinni, til þess að menn sjái, hvað því hafi valdið, að þíngið var ekki sett þann dag, sem lögin höfðu til tekið.

Forseti kvað þá fyrst liggja fyrir, að kjósa nefnd til að semja þíngsköp handa þessum þjóðfundi; hann stakk upp á 7 manna nefnd, og samþykktu það allir þíngmenn. Hlutu þeir flest atkvæði: kandíd. *Jón Sigurðsson* og *Kristján Kristjánsson* fógeti, 40 hvor, *E. Briem* sýslumaður 39, *Jón Guðmundsson* sýslumaður og *Halldór Jónsson* prófastur, 38 hvor, *H. Stephensen* prófastur 37, og prófessor *P. Pètursson* 35.

*Jósep Skaptason:* Þar eð þíngið nú hefur valið hina sömu menn í nefnd til að yfirvega þíngsköpin, og þíngmenn áður höfðu kosið 4. dag þ. m. þá til bráðabyrgða, og til að flýta fyrir umræðum þíngskapanna, og þar eð eg hef komizt að því, að þessi nefnd þá strax tók til starfa; þar eð eg enn fremur hef orðið þess var, að þíngmenn eru mjög óánægðir yfir því, að sitja hèr aðgjörðalausir og eyða tíma til ónýtis fyrir þá sjálfa og peníngum landsmanna, léyfi eg mèr að biðja forseta, að spyrja nefndina, hvort hún ekki muni verða svo snemmbúin með starfa sinn í dag, að þíngsköpin geti komið til umræðu á þínginu í kvöld, og ef hún neitar því, þá að spyrja hana að, nær þíngið megi vonast fyrst eptir áliti hennar.

*Forseti:* Nefndin mun hvorki vera búin að ljúka af þessum starfa, nè svo lángt komin, að fundur verði ákveðinn í kvöld. En samt má, ef mönnum sýnist svo, spyrja nefndina um, hve nær hún gjöri ráð fyrir að verða búin.

Kandíd. *Jón Sigurðsson:* Nefndin er fyrst nú löglega kosin á þínginu til að íhuga þetta mál, og því sýnist mèr það móti öllu formi, að spyrja hana um það í þetta sinn, hve nær hún muni fá lokið af starfa sínum.

*Forseti:* Eg er því samþykkur, og eg álít það ekki hjálpa, að reka á eptir nefndum í vandaverki. Þíngmenn eru víst allir sannfærðir um, að nefndin muni vinna verk sitt svo fljótt og vel, sem henni er unnt.

*Jósep Skaptason:* Eg vona, að eg hafi ekki verið misskilinn svo, sem eg væri að reka eptir nefndinni. Eg vildi einúngis gjöra mönnum kunnuga þánka fleiri þíngmanna, sem þeir hafa látið í ljósi við mig.

Kandíd. *Jón Sigurðsson:* Sem nefndin og veit.

Forseti kvað þá ekki vera fleira fyrir hendi að sinni; sleit

hann því fundi, og hèt að slá upp í lestrarsal þíngsins, hve nær næst yrði fundur haldinn.

---

## 3. fundur, 10. d. júlím.

Hinn konúngkjörni þíngmaður, konferenzr. *Þ. Sveinbjörnsson*, er áður hafði skýrt konúngsfulltrúa frá forföllum sínum, mætti á þessum fundi.

*Konúngsfulltrúi:* Eg leyfi mèr hèr með, að lesa þessum heiðraða fundi konúngsbrèf frá 19. d. maím. þ. á., sem skipar mèr að mæta á fundi þessum sem fulltrúa konúngs.

Samkvæmt konúngsbrèfi því, er nú greindi eg frá, á eg að leggja fyrir fund þennan frumvarp til stjórnarskipunar Íslands framvegis, og kosníngarlaga til ríkisfundarins, frumvarp til kosníngarlaga til alþíngis eptirleiðis, og frumvarp, sem inniheldur nokkrar ákvarðanir um verzlun á Íslandi.

Það er harla leiðinlegt fyrir mig, að þurfa að skýra fundinum frá, að, enda þótt innanríkisráðherrann í brèfi til mín frá *10. d. fyrra mánaðar* kveði svo að orði, að öll þau framvörp, sem nú gat eg um, fylgdu brèfi hans, bæði á íslenzku og dönsku, engin af þessum frumvörpum fylgdu brèfinu eða voru innan í því umslagi, sem látið hafði verið utan um brèfið í hinni íslenzku skrifstofu í Kaupmannahöfn, nema frumvarpið um verzlunina.

Samt sem áður sèst þó á því umgetna brèfi ráðherrans, að afskriptin af þeim hèr greindu skjölum koma með skipi nokkru, sem heitir *Lucinde*, og er það skip farið frá Höfn hèr um bil fyrir 4 vikum; sömuleiðis sèst af þessu brèfi, að frumvarpið til stjórnarskipunar Íslands er allt að einu og eptirrit það, sem eg hef fengið; þó vil eg geta þess, að við 30. grein er bætt nokkru samkvæmt 26. grein í kosníngarlögum Danmerkur.

Eg leyfi mèr því, að leggja þetta eptirrit sem frumvarp fyrir fundinn til stjórnarlögunar Íslands framvegis; sömuleiðis legg eg fram frumvarp það, sem eg gat áðan, um verzlun á Íslandi, og vona eg, að sè mögulegt, að þýða þessi lagafrumvörp á íslenzku, svo fundurinn geti haft þeirra full not. Eg vona, að hið umrædda skip komi híngað að fárra daga fresti, og fáum við þá, eins og eg gat um áðan, eptirrit af öllu því, sem oss vantar.

Engu að síður liggur það í augum uppi, að þessar kríngumstæður hljóta að tálma aðgjörðum fundarins töluvert, og get eg einúngis gjört þá athugasemd hèr við, að eg skal taka fullkomlega tillit til þessa, þá eg ákveð, hve lengi fundurinn skuli standa.

*Forseti:* Eg vil leyfa mèr að spyrja hinn háttvirta konúngsfulltrúa að, hvort hin íslenzka þýðíng frumvarpanna sè komin.

*Konúngsfulltrúi:* Nei.

*Forseti:* Mèr lízt ráðlegast, að byrjað sè þá hið bráðasta á þýðíngu frumvarpanna, og einkum því um verzlunarlögin, því eg get til, að það muni vera styttra, en frumvarpið um stjórnarskipunina, en fyrir þíngið verður ekki lagt fram nokkurt frumvarp *til umræðu,* nema það sè á íslenzku. Eg ímynda mèr, að þýðíngunni muni verða lokið um það leyti, að búið er að ræða þíngsköpin, svo þá geti þíngið strax tekið til að ræða frumvörpin. Eg vil biðja þíngið að láta álit sitt í ljósi um þetta.

Kandíd. *Jón Sigurðsson:* Eg ímynda mèr, að sú þýðíng, er hèr ræðir um, geti komizt í hága við þá, er konúngsfulltrúi sagði að von væri á. Yrði nú nokkur talsverður munur á þessum þýðíngum, þá mundi sú, er hèr væri gjörð, ekki verða tekin til greina. Mèr virðist, að nú sem stendur geti menn ekki tekið frumvörpin til greina, fyr en þíngsköpin eru rædd.

*Forseti:* Þegar þeir fundarmenn, sem þar til eru færastir, vinna að þýðíngunni, þá er ekki að óttast, að meiníngamunur verði milli hennar og þýðíngar þeirrar, sem kemur frá stjórninni, þó lítilfjörlegur orðamunur geti átt sèr stað. Eg sè því ei annað, en byrja verði undir eins á þýðíngunum, hvað mèr og virðist vera meiníng margra þíngmanna.

*Jakob Guðmundsson:* Mèr þykir það miklu skipta, hvort konúngsfulltrúi lætur snúa frumvörpunum, eða forseti annast þýðíngu þeirra. Því láti konúngsfulltrúi snúa þeim, þá getur enginn ágreiníngur orðið um meiníngu eða þýðíngar orða, af því hann er einn um þýðínguna, og þíngið hefur þá enga ábyrgð á henni.

*Forseti:* Þegar þýðíng frumvarpanna kemur frá stjórninni, þá mun hún verða lögð til grundvallar fyrir umræðurnar. Annars hefur stjórnin híngað til annazt slíkar útleggíngar.

*Jón* hreppstjóri *Sigurðsson:* Mèr þykir óskandi, að ef farið verður að þýða, og þíngræðunum um þá þýðíngu verður komið lángt, er hin útlögðu frumvörp stjórnarinnar koma, þá verði þýðíngin, sem hèr er gjörð, tekin til jafns við hina.

*Forseti:* Það er of snemmt, að vekja nú þegar máls á þessu efni.

*Jósep Skaptason:* Þó að svo kynni að verða, að þýðíng verzlunarfrumvarpsins tæki styttri tíma, þá lízt mèr þó, að þýðíng stjórnarfrumvarpsins ætti að verða í fyrirrúmi, því þíngmenn munu hafa mestan áhuga á því.

*Halldór Jónsson:* Eg get ekki betur sèð, en að þýðíngarnar á báðum frumvörpunum geti orðið samfara, því það er völ á mörgum mönnum, sem færir eru um slíkan starfa.

*Forseti:* Það var einmitt hið sama, sem eg ætlaði að segja, og verð eg að álíta, að þíngið fallist á, að frumvörpunum sè snúið, og óska því, að þíngið styðji að þýðíngunni það framast verður.

*Guðmundur Brandsson:* Eg aðhyllist það, er þíngmaður Húnvetnínga sagði, því það er auðsætt, að verzlunarmálefnið hlýtur að verða undir því komið, hvernig stjórnarfrumvarpinu reiðir af á þínginu, og hverjar aðalreglur þar verða að öðru leyti samþykktar sem undirstaða stjórnarskipunar hèr á landi eptirleiðis.

*Eggert Briem:* Mèr getur ekki skilizt, að samþykki þíngsins þurfi, hvað þýðínguna snertir, því konúngsfulltrúi tekur ábyrgð á henni.

*Forseti:* Þetta er að sönnu satt, en menn verða að athuga, hvernig á stendur. Útleggíngarnar eru enn ekki komnar frá stjórninni, og bezt fer á því, að greitt sè fyrir málefnunum eins og kostur er á.

*Jakob Guðmundsson:* Eg fellst á það, er þíngmaður Eyfirðínga mælti; en að öðru leyti ímynda eg mèr, að sèrhver af þíngmönnum verði fús á að aðstoða konúngsfulltrúa, hvað þýðínguna snertir, án þess hann gjöri það í nafni þíngsins.

*Konúngsfulltrúi:* Útleggíngu þessa á ekki að nota nema um stund, en ekki sem lagafrumvarp, því eg vona, að skipið komi að fárra daga fresti, og eg fái þá það, sem vantar; hún er einúngis til bráðabyrgða um fáa daga.

*Guðmundur Einarsson:* Mèr finnst, að þegar úr vöndu er að ráða, að bezt sè að sameina meiníngar þíngmannsins úr

Reykjavík og hins konúngkjörna þíngmanns úr Múlasýslu, þeirra er nú mæltu fyrir skemmstu, þannig, að þeir menn, sem færastir eru til þess, styrki að því, að þýðíngarnar á eptirriti beggja frumvarpanna komist sem fyrst; því enginn veit, hvað frumritanna sjálfra er lángt að bíða; þó tel eg sjálfsagt, að þíngmenn þeir, er að þýðíngarstörfum þessum kunna að vinna, vinni að þeim sem að því leyti ábyrgðarlausir utanþíngsmenn.

*Pètur Pètursson:* Með því það hefur bæði verið tekið fram, að ei mundi vera beinlínis skylda þíngsins, að annast þýðíngu frumvarpanna, og aptur á hinn bóginn verið látið í ljósi, að hver af þíngmönnum mundi vera fús á að styðja að henni eptir megni, þá virðist mèr ekki vera þörf á því, að lengja fremur umræður um þetta efni.

*Guðmundur Brandsson:* Hafi jeg skilið konúngsfulltrúann rètt, að þýðíngin ætti ekki að leggjast fram eins og reglulegt frumvarp, þá skilst mèr ekki, að það geti verið til annars en kostnaðarauka, að útleggja hana og prenta, sem þó víst mundi þurfa, ættu þíngmenn að hafa hennar nokkur not.

*Konúngsfulltrúi:* Það er auðvitað, að þegar frumritin koma, verða þau lögð fram sem regluleg frumvörp.

*Halldór Jónsson:* Þó að von sè á þýðíngunni, getur það þó brugðizt, að hún komi, og komi hún ekki innan skamms, er áríðandi fyrir þíngið að vita, hvort sú þýðíng, er hèr yrði gjörð, ætti að leggjast sem frumvarp fyrir þíngið.

*Guðmundur Einarsson:* Mèr virðist það vera tilgángslaust, að byrja á þýðíngunni, ef ekki á að ræða hana eins og framlagt frumvarp.

*Jakob Guðmundsson:* Eg get ekki betur sèð, en að það sè skynsamlega gjört af konúngsfulltrúanum, að byrja nú þegar á þýðíngunni, því bæði munu margir af þíngmönnum vera fúsir á að aðstoða hann í því, með því þeir enn þá ekki hafa miklum störfum að gegna, og líka getur það dregizt, að skip það komi, er þýðíngarnar á að flytja.

*Forseti:* Eg er sannfærður um, að allir þíngmenn muni vinna að þýðíngunni eptir mætti, og sjálfur skal eg styðja að því, eins og mèr er unnt.

Síðan sagði forseti fundi slitið, og kvaddi þíngmenn til fundar um hádegi daginn eptir.

---

## 4. fundur, 11. d. júlím.

Allir á fundi; þínghók upp lesin og samþykkt.

*Forsetiú* Eg leyfi mèr fyrst að geta þess, að konúngsfulltrúi hefur skýrt mèr frá því, að hann hefur tekið skólaumsjónarmann *Pètur Guðjónsson* fyrir skrifara sinn.

Samkvæmt dagskránni var tekið til umræðu frumvarp nefndarinnar til þíngskapa fyrir þjóðfundinn, og er það þannig látandi:

*I. Um þíngmenn.*

1.

Þíngmenn eru friðhelgir; þíngið eitt á sök á ræðum þíngmanna, og þó því að eins, að kært sè jafnskjótt og ræðan er haldin; utanþíngs er hver þíngmaður vítalaus fyrir ræður sínar og atkvæði á þíngi.

2.

Standandi skal hver þíngmaður tala, nema forseti leyfi, og snúa máli sínu til forseta eða til þíngsins, en ekki ávarpa neinn þíngmann sèr í lagi eða með nafni.

3.

Sá á fyrst að tala, sem fyrstur stendur upp; standi tveir eða fleiri upp jafnsnemma, sker forseti úr, hver fyrst skal tala, en greini menn á um það, skera þíngmenn úr með atkvæðum.

4.

Sèrhver þíngmanna á rètt á, að bera upp uppástúngu um hvað sem er, eptir þeim reglum, sem settar eru um meðferð mála á þíngi.

5.

Enginn nema forseti má lesa upp ræðu sína skrifaða af blöðum.

6.

Heimilt er þíngmanni að tala svo lengi sem hann vill í senn, meðan hann gjörir eigi þíngsafglöpun.

7.

Það er þíngsafglöpun, ef maður fer utan við efni það, sem í umræðu er; eða ef maður ryfjar upp útkljáð mál, til að kvarta yfir málalokum; eða ef maður atyrðir þíngið eða nokkurn þíngmann á nokkurn hátt, svo sem fyrir vónskufull ráð eður illan vilja; eða ef maður beitir konúngi og vilja hans í

því skyni, að beygja frjáls atkvæði manna; eða ef maður hefur hótanir í frammi um nokkurt ofríki á nokkurn veg í sama skyni.

8.

Þegar þíngsafglöpum verður, er forseti skyldur að áminna eða kalla til reglu; en gjöri hann það ekki, á hver þíngmanna rètt á að krefjast reglunnar, en forseti sker úr málinu eða skýtur til þíngsins.

9.

Ef sá, sem þíngsafglöpum gjörði, vill eigi hlýða úrskurði forseta, á hann rètt á að krefja þíngs atkvæða; en gángi atkvæði honum á móti, og sýni hann enn þverúð, má forseti stínga upp á, að vísa honum af þíngi um eina stund eða lengur, eptir því sem sök er til; en sýni hann optar slíka þvermóðsku, má vísa honum af þíngi um lengri tíma, og taka af honum dagpenínga hans um þann tíma, sem hann er rækur gjör.

10.

Skyldur er hver þíngmaður að mæta á fundum, nema forföll banni, og skal hann skýra forseta frá í tækan tíma, hver þau eru, en forseti lýsir því á fundi.

11.

Skyldur er hver þíngmaður að takast á hendur það starf, sem hann er kosinn til, nema þíngið sjálft veiti honum lausn frá því; ella verður hann sekur um þíngsafglöpun.

## *II. Um embættismenn þíngsins.*

12.

Þíngmenn skulu kjósa einn forseta, tvo varaforseta og fjóra skrifara. Forseti og varaforsetar verða hver um sig að vera kosnir með meiri hluta allra atkvæða, sem greidd eru og gild; skrifarar skulu þeir vera, sem með flestum atkvæðum verða til þess kjörnir.

13.

Fái enginn meiri hluta allra atkvæða í fyrsta sinn til að vera forseti eða varaforseti, skal kjósa á ný á sama hátt; nái enn enginn svo mörgum atkvæðum, skal kjósa um þá tvo, sem flest atkvæði hafa hlotið; fái þeir enn jafnmörg atkvæði, skal hlutkesti ráða.

14.

Forseti boðar fundi, setur þá og stýrir þeim, samkvæmt

þíngsköpum þeim, er þíngið setur sèr. Hann sèr um öll þíngstörf og hagar þeim, tekur við öllum skjölum þíngsins, og stendur fyrir öllum ritstörfum þess og reikníngum.

15.

Forseti má engan þátt taka í umræðum mála á fundum að efninu til, nema því að eins, að hann víki úr forsetasæti á meðan.

16.

Þegar forseti gegnir eigi sjálfur störfum sínum, gengur annarhvor varaforsetanna í hans stað, hvor sem hann til nefnir.

17.

Skrifarar safna atkvæðum á fundum, og greiða fyrstir atkvæði sín; þeir skipta störfum með sèr að forseta ráði.

18.

Skrifarar annast, að ritaðar sèu þíngbækur: 1, dagbók, sem skýrir frá stuttlega öllum þeim skjölum, er til þíngsins koma, hve nær þau koma, hver meðferð þeirra er, og hvernig afdrif þeirra verða á þínginu. 2, gjörðabók, sem skýrir frá stuttlega, hvað fram fer á þíngi á degi hverjum. 3, brèfabók, sem rita skal í allt það, sem frá þínginu er sent með forseta nafni undir.

19.

Skrifarar hafa aukaskrifara til aðstoðar sèr, til að rita ræður þær, sem haldnar verða á fundum. Þeir skulu sjá um, að þær sèu ritaðar og lagðar fram til sýnis öllum þíngmönnum innan sólarhríngs frá því fundi er slitið, og skulu þær vera annan sólarhríng til sýnis. Skyldir eru þíngmenn, hver um sig, til að aðstoða ritarana, til að fá ræðurnar sem fyllstar og rèttastar.

*III. Um nefndir.*

20.

Nefndir eru tvenns konar: hlutfallsnefndir og kosníngarnefndir.

21.

Hlutfallsnefndir eru settar á þann hátt, að forseti skiptir öllum þíngmönnum í þrjá flokka eptir hlutfalli, og er hver flokkur nefnd fyrir sig, kýs sèr forseta og skrifara, og ræðir það mál, sem fyrir liggur á sama hátt og í nefndum tilkast, en ritar ekki álitsskjöl (sbr. 42. gr.).

22.

Kosníngarnefndir eru þannig settar, að hver þíngmaður

ritar á seðil nöfn þeirra manna, sem hann vill kjósa, jafnmörg og ákveðið er að vera skuli í nefndinni; sè á einhverjum seðli fleiri nöfn eða færri, en vera á, eða ef nafn einhvers er svo ógreinilega ritað, að ekki verði lesið eða greint frá öðrum, þá er sá kosníngarseðill ónýtur, og má sá, sem ritaði, ekki kjósa upp aptur í það sinn.

23.

Nefndarmenn skal kjósa með meiri hluta allra atkvæða, þeirra er greidd eru og gild; fái ekki nógu margir svo mörg atkvæði í fyrsta kjöri, skal kjósa þá, sem vantar, á sama hátt; fáist enn ekki full atkvæðatala, skal nefna til þá, sem flest atkvæði hafa, tvöfalt fleiri en þá, sem kjósa þarf; fái þá tveir eða fleiri jafnmörg atkvæði, skal hlutkesti ráða.

24.

Bæta má mönnum við kosníngarnefndir, ef þær óska þess og þíngið samþykkir.

25.

Hver kosníngarnefnd kýs sèr forseta og skrifara, og framsögumann, þegar hún hefur mál til meðferðar á þíngi. Til framsögumanns má kjósa hvern sem vill af nefndarmönnum.

26.

Þegar nefndir hafa fundabók sèr, skal nefndarskrifarinn rita í hana á nefndarfundum. Bókina skal gjöra með forseta ráði, og staðfestir hann hana, en síðan skal hún fylgja skjölum þíngsins.

27.

Þíngið kýs tvær fastar nefndir, og skulu þrír menn sitja í hvorri; þær eru: tíðindanefnd og þíngskapanefnd.

28.

Tíðindanefndinni er ætlað, að standa fyrir útgjörð þíngtíðindanna með umsjá forseta. Þeir skipta störfum með sèr að forseta ráði.

29.

Þíngskapanefndinni er ætlað, að hugleiða allt það, sem bæta má þíngreglurnar, og bera upp um það frumvörp sín fyrir þínginu.

## *IV. Um meðferð mála á þíngi.*

30.

Ætlunarverk þíngsins á hverjum degi og fundartími skal

vera ákveðið fyrirfram; það heitir *dagskrá*, og má forseti eigi breyta henni, nema með samþykki þíngsins.

31.

Forseti skal við hver fundarlok birta dagskrá til næsta fundar; óski þá tíu þíngmenn breytínga í dagskránni, skal skjóta því til atkvæða þíngsins.

32.

Þegar fundur hefst, skal forseti láta lesa gjörðabók frá fyrra fundi, og skrifar hann og einn skrifaranna undir, þegar hún er samþykkt; síðan lætur hann lesa dagskrána.

33.

Engin umræða um mál nè atkvæðagreiðsla má fram fara, nema á lögmætum fundi.

34.

Þá er lögmætur fundur, þegar þrír hlutir þíngmanna eru á fundi, eða fleiri, en ella eigi.

35.

Sèrhver uppástúnga á að vera: 1, skrifleg, og 2, framborin af nafngreindum þíngmanni; að öðrum kosti má hana ekki til greina taka.

36.

Forseti tekur við öllum uppástúngum þíngsins vegna, og skal hann boða þær á fundi; síðan skulu þær vera til sýnis, þar til ákveðið verður á dagskrá, hve nær þær skuli koma fram á þíngi; þá skal leita atkvæða, hvort prenta skuli áður málið kemur til umræðu; verði því neitað, þá er uppástúngunni hrundið, og má ekki bera hana upp óbreytta á því þíngi.

37.

Heimilt er að taka aptur uppástúngu eða frumvarp, hversu lángt sem umræðu er komið, enda er og hverjum þíngmanni heimilt, að taka að sèr þá uppástúngu, sem annar sleppir.

38.

Þegar uppástúnga er prentuð eða lagafrumvarp, þá skal líða eigi minna en sólarhríngur til þess það er til umræðu tekið.

39.

Ekkert lagafrumvarp er fullrætt, nema það sè þrisvar rætt á lögmætum fundi.

40.

Fyrsta umræða skal vera um aðalefni og undirstöðu frumvarpsins, og má þar eigi ræða um einstakar greinir þess, nema

til að styrkja mál sitt. Við lok umræðu sker þíngið úr með atkvæðum, hvort meðferð málsins skuli lengra gánga.

41.

Ef þíngið samþykkir, að málið skuli lengra gánga, þá skal þegar ákveða, hversu með skuli fara, hvort nefnd skuli setja eða eigi, og hvernig.

42.

Nú eru hlutfallsnefndir settar, þá skal ákveða, hvort álitsskjal á að rita, og hversu kjósa skal nefnd til þess, hvort kjósa skuli alla í þínginu einúngis, eða skuli þíngið kjósa nokkra, en flokkarnir hina.

43.

Álitsskjöl nefnda skal prenta, og skal svo til haga, að þíngmenn hafi tíma til að kynna sèr þau og bera upp breytíngaratkvæði sín, en forseti lætur prenta þau og auglýsa, áður en málið gengur til annarar umræðu.

44.

Í annari umræðu skal rannsaka greinir frumvarpsins hverja um sig, og ræða breytíngaratkvæði. Atkvæða skal leita um hverja grein og um breytíngaratkvæði. Seinast skal leita atkvæða um það, hvort frumvarpið skuli koma til þriðju umræðu, þannig sem það er þá orðið.

45.

Í þriðju umræðu verður frumvarpið rætt með þeim breytíngum, sem samþykktar eru í annari umræðu; þá má eigi taka við breytíngaratkvæðum, nema þau sèu borin upp af hendi nefndar þeirrar, er í málinu var sett, eður af tíu nafngreindum þíngmönnum, og skulu þau vera birt að minnsta kosti deginum áður.

46.

Þegar umræðu er lokið og atkvæði greidd, skal forseti láta lesa upp frumvarpið, svo sem það er þá orðað, og spyrja þíngið: „Vill þíngið játa, að þetta allt sè þannig lögleitt"?

47.

Við fyrstu og þriðju umræðu mála má enginn þíngmanna taka optar til máls en tvisvar, nema uppástúngumaður og framsögumaður.

48.

Þegar mál er í umræðu á þíngi, má stíga upp á, að kjósa nefnd í mál, eða einstakt atriði þess, eða vísa til rann-

sóknar í nefnd, sem áður var kosin, og skal skera úr því þá þegar; setja má slíkum nefndum frest, hve nær þær skuli hafa tekið saman atkvæði sitt.

49.

Þegar mál er tekið til umræðu, má stínga upp á, að frestað verði umræðu þess, annaðhvort um ákveðinn tíma eða óákveðinn, og skal skjóta því til atkvæða þá þegar.

50.

Nú vilja menn, að þíngið beri upp fyrir konúngi álit sitt eða uppástúngu um eitthvert efni, eða bænarskrá, og skal þá fyrst boða það og síðan ræða á tveim fundum, áður það sè fullráðið.

51.

Nú vilja aðrir, að þessu máli verði eigi gaumur gefinn; þá má stínga upp á þegar í upphafi umræðu, að málinu sè frá vísað, og má þá engin umræða fram fara, fyr en um það eru atkvæði greidd, en verði sú uppástúnga samþykkt, er málið fallið; þá má og stínga upp á, að þíngið taki til dagskrár sinnar; verði það samþykkt, fer á sömu leið.

52.

Uppástúngur þíngskapanefndar má útkljá í tveimur umræðum á þíngi.

53.

Nú vill þíngmaður bera upp fyrirspurn til erindsreka stjórnarinnar um eitthvert mál, og skal hann þá fyrst fá forseta fyrirspurn sína ritaða með nafni, síðan skal forseti boða það á næsta fundi og spyrja þíngið leyfis, hvort sú fyrirspurn megi framgáng fá, og skal leita atkvæða um það; verði það leyft, þá lætur forseti prenta fyrirspurnina, og ákveður, hvern dag hún skuli fram koma.

54.

Breytíngaratkvæði öll skulu vera skrifuð með nafni og fengin forseta á þeim tíma, sem boðaður verður, áður en mál kemur til umræðu í annað eða þriðja sinn.

55.

Breytíngaratkvæði eiga að vera svo orðuð, að þau eigi beinlínis og orðrètt þar við, sem þeim er ætlað.

56.

Heimilt er hverjum þíngmanni, að krefjast þess, að breytíngaratkvæði sè frá vísað; þíngið sker þá úr því án umræðu.

57.

Forseti eða tíu nafngreindir þíngmenn eiga rètt á, að stínga upp á, hve nær sem þeim lízt, að lokið sè umræðu um mál, og skal þá þegar gánga til atkvæða um það, en þíngmenn þeir, sem tala vildu, eiga rètt á að segja til sín áður, og láta það bóka.

58.

Þíngmenn einir mega bera fram bænarskrár eða skjöl frá utanþíngsmönnum; skal afhenda það forseta, og skýrir hann frá því á fundi, og lætur leggja það fram á lestrarsal þíngsins undir umsjón skrifaranna. Sè þess óskað af þíngmanni, að nokkurt þvílíkt skjal sè lesið á þíngi, þarf til þess samþykki meira hluta þíngmanna.

## V. *Um atkvæðagreiðslu.*

59.

Atkvæðagreiðsla fer fram eigi fyr, en lokið er umræðu máls, annaðhvort af því enginn kveður sèr hljóðs framar, eða af því, að þíngið ályktar, að umræðu skuli lokið vera.

60.

Forseti skal sjá um, að reglulegar atkvæðaskrár sèu prentaðar handa hverjum þíngmanni, áður til atkvæða kemur, og skal þar hvert atriði standa í þeirri röð, sem hann vill hafa því til atkvæða skotið.

61.

Atkvæðagreiðsla er með tvennu móti; önnur er sú, að forseti biður menn upp standa í sæti sínu, fyrst þá, sem fallast á það, sem upp er borið, og síðan þá, sem á móti eru; hin er sú, að kallaðir sèu þíngmenn með nafni til atkvæða, bæði þeir sem eru með og á móti.

62.

Atkvæðagreiðsla með nöfnum fer því að eins fram, að hin fyrri atkvæðagreiðsla sè óglögg, eða að sjö þíngmenn óski hennar brèflega, og skal bóka nöfn þeirra.

63.

Þegar nafnakall er til atkvæða, er engum leyfilegt að fara af þíngi, nè draga sig undan atkvæði.

64.

Úr því byrjuð er atkvæðagreiðsla má ekki stínga upp á, að máli sè frestað.

65.

Enginn má tala um efni máls, þegar atkvæðagreiðsla er byrjuð, nè á neinn hátt reyna að hindra atkvæðisfrelsi þíngmanna, en tala má stuttlega um atkvæðagreiðsluna sjálfa, og stínga upp á, að haga henni öðruvísi, þó svo, að upp á því sè stúngið, áður en gengið er til atkvæða um hverja grein.

66.

Það er regla, að breytíngar breytíngaratkvæða skal fyrst til atkvæða bera, síðan breytíngaratkvæði, og seinast hið upphaflega frumvarp.

67.

Enginn má greina ástæður fyrir atkvæði sínu meðan á atkvæðagreiðslu stendur.

68.

Nú vill maður leggja lagalýritt fyrir lög eður ályktun, sem gjörð eru á þíngi, þá skal hann gjöra það, þegar hann er kvaddur atkvæðis, annaðhvort í fám orðum munnlega, eða fá lýritt sinn skrifaðan forseta, og skal lesa hann upp og leggja til gjörðabókar.

69.

Þínghöld fara fram í heyranda hljóði; forseti skal sjá um, að tilheyrendur gæti allrar siðsemi, og hefur hann vald til, að vísa þeim burt, sem af því bregða, ef þeir vilja eigi hlýðnast áminníng hans.

70.

Forseti eða tíu þíngmenn mega stínga upp á, að þínghöld um eitt eður annað mál fari fram að luktum dyrum, og sker þíngið úr með atkvæðum.

71.

Breyta má af þíngreglum í einstökum tilfellum, ef þrír hlutir þíngmanna leyfa, þeirra er á fundi eru.

---

*Forseti:* Eg álít hentugast, að ræða frumvarpið í köflum, og eru þá í 1. kaflanum 1.—11. grein, en síðan hverja grein fyrir sig. Vil eg biðja þíngmenn, er breytíngar vilja gjöra, að koma með breytíngaratkvæði sín í skipulegri röð, samkvæmt

frumvarpinu. En seinna skal eg til taka tímann, hve nær þau eigi að vera tilbúin.

Forseti skoraði síðan á framsögumann nefndarinnar, kandídat *Jón Sigurðsson*, að lesa upp 1. kafla frumvarpsins.

*Framsögumaður* las upp kaflann og mælti: Nefndinni hefur ekki þótt nauðsyn, að færa til ástæður fyrir frumvarpinu; og eg skal ekki heldur lengja umræðurnar að þessu sinni með munnlegum ástæðum, fyr en jafnóðum og það verður rætt af þíngmönnum, og mun nefndin taka þeim breytíngum og leiðréttíngum, sem hún sèr að á rökum eru bygðar.

*Forseti:* Eg leyfi mèr að vekja máls á einu atriði, áður en farið er að ræða frumvarpið. Það er ákveðið í 15. grein þess, að forseti skuli víkja úr sæti, ef hann vill taka þátt í umræðum mála að efninu til, og er þetta góð regla. En nú getur verið, að eg vildi tala um einhverjar greinir frumvarps þessa, hvað efnið snertir. Það er sjálfsagt, að þetta frumvarp hefur form og efni, eins og hvert annað frumvarp; en efni þess er þó eiginlega það, að skipa það form, í hverju málin skuli hèr á fundinum ræðast, og forseta, sem á að sjá um, að rèttu formi sè fylgt í meðferð málanna, er einkanlega áríðandi, að þíngsköpin að efninu til verði vel samin. Eg vil því skjóta því til þíngsins, hvort eg á að víkja úr forsetasætinu, þegar eg tek þátt í umræðum frumvarps þessa að efninu til.

*G. Brandsson:* Eg get ekki skilið, að frumvarpið bindi hendurnar á forseta í þessu efni, á meðan það er ekki samþykkt á þínginu.

*Framsögumaður:* Þíngmaðurinn, sem seinast talaði, hefur rètt að mæla. Forseti getur án efa tekið þátt í umræðunum, því heldur sem það er leyft í alþíngistilskipuninni, og sem framsögumaður mæli eg ekki á móti, að forseti taki þátt í umræðunum.

*Varaforseti:* Það er aðgætandi, að eptir þessum reglum er eg ekki löglega kosinn varaforseti, og gæti því, ef svo bæri undir, ekki gegnt forsetastörfum.

*Framsögumaður:* Eg held, að þetta sè ekki annað en misskilníngur; því að kosníng varaforseta er gengin á undan frumvarpinu, og er hún í fullu gildi, að minnsta kosti þángað til þíngsköpin eru samþykkt. Það er líka sjálfsagt, að þegar kjósa skyldi forseta eptir þíngsköpunum, þá væri rèttast, að

sá varaforseti, sem seinast var kosinn, standi fyrir þeirri kosníngu.

*H. Stephensen:* Mèr finnst ekkert athugavert um það, að forseti geti nú tekið þátt í umræðunum, en öðru máli er að gegna, þegar til atkvæða er gengið.

*Forseti:* Það var líka meiníng mín viðvíkjandi því, sem þíngmaður Borgfirðínga sagði, að forseti mætti taka þátt í umræðunum, þángað til að til atkvæða kæmi.

Forseti skoraði þá á þíngmenn, að taka 1. gr. frumvarpsins til umræðu.

*P. Pètursson:* Eg hef að sönnu tekið þátt í störfum nefndarinnar, en þó eru það einstök atriði, sem eg vil leyfa mèr að vekja máls á. Hvað þessa 1. gr. snertir, þá sýnist mèr hún vera óþörf, af því að hin borgaralega löggjöf veitir þíngmönnum fullkomna vernd og friðhelgi. Þar að auki finnst mèr greinin ekki vera öldúngis rètt, þar sem hún miðar til, að enginn utanþíngsmaður gjöri þíngmönnum neinn óskunda; því til þess yrði þíngið að hafa löggjafarvald, en það höfum vèr ekki. Þíngsköpin eru einúngis reglur fyrir þíngmenn, án þess að vera staðfest af konúngi. Eg vil því leyfa mèr, að geyma mèr það breytíngaratkvæði, að fyrstu grein sè sleppt, og tölurnar lagaðar eptir því.

*Varaforseti:* Það er merkilegt, að hinn konúngkjörni þíngmaður, nr. 42 í nafnalistanum, tekur sèr nú þetta breytíngaratkvæði, og verður fyrstur til þess, að bera það fram, þar sem hann þó, sem nefndarmaður, hefur áður verið með greininni. Það er auðvitað, að hèr eru einúngis gefnar reglur fyrir þíngmenn, en ekki fyrir aðra, og eg er sannfærður um, að nefndinni hefur aldrei komið annað til hugar.

*P. Pètursson:* Viðvíkjandi þessu, sem 1. þíngmaður Reykjavíkurbæjar sagði nú, játa eg að vísu, að eg mælti ekki móti því í nefndinni, að þessi grein stæði í frumvarpinu, en þá var hún í öðru sambandi, þar sem hún stóð í fyrsta uppkastinu undir nr. 3., og er það satt, að eg færði þá engin mótmæli móti henni, en ekki afsalaði eg mèr rètt til þess, að gjöra það hèr í þíngsalnum. Hvað hitt snertir, að ekki sè ætlað til friðhelgi fyrir þíngmenn fyrir utan þíng, þá er það gagnstætt orðum greinarinnar.

*Varaforseti:* Það er auðvitað, að það er hægt, að snúa út úr orðum greinarinnar, en til þess var ekki ætlazt, og engum

í nefndinni mun hafa komið til hugar, að hún yrði svona skilin. Aptur gæti eg fallizt á, að greininni væri breytt að orðunum til.

*Jak. Guðmundsson:* Fyrstu orðin í greininni lýsa því, að nefndin hafi hèr meint með þíngmönnum þíngið sem heild, og að þeir innangrinda væru friðhelgir, svo ef þeir, sem fyrir utan væru, gjörðu þeim nokkurn óskunda eða trufluðu þíngið, ætti það sem heild, eða forseti í þíngsins nafni, að bera sig upp um það fyrir hlutaðeigandi yfirvaldi, er lögreglu ætti að gæta. Sèu orðin svona skilin, þá virðist mèr, að þau megi standa óbreytt.

*Varaforseti:* Það væri líka þíngsafglöpun, ef forseti ætti í hvert skipti að kalla þá til reglu, er einhvern óskunda gjörðu utanþíngs.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Hvað þessa grein snertir, þá skil eg hana eins og hinn konúngkjörni þíngmaður, sem seinast talaði. Mèr sýnist hún ekki geta staðið eins og hún er; því eptir orðunum er hún tvíræð. Nefndarmenn hafa, ef til vill, ekki meint það, sem orð greinarinnar virðast benda til, og af því fleiri að líkindum geta skilið hana eða misskilið eins og eg, þá verð eg að óska þess, að henni sè breytt.

*Varaforseti:* Eg hef ekki mælt í móti breytíngum á greininni, og eg ímynda mèr, að það sè ekki meiníng nefndarinnar.

*Jón Guðmundsson:* Eg held, að það þurfi ekki annað, en lesa yfirskript frumvarpsins; hún lýsir því bezt, að hèr er ekki verið að ræða um lög fyrir utanþíngsmenn; og þessi 1. gr. miðar einúngis til, að við halda góðum þíngsköpum, og er þess vegna nauðsynleg.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Orðið „utanþíngs" í greininni getur ekki átt við þíngið hèr í salnum. Eg ætla því, að seinasta setníngin í greininni ætti að falla úr, og það gjöri eg mèr að breytíngaratkvæði.

*Varaforseti:* Eg get þó ekki sèð, að niðurlag greinarinnar megi falla úr, því það gildir ei fyrir aðra en þíngmenn sjálfa, en væri þýðíngarlaus lög fyrir utanþíngsmenn.

*H. G. Thordersen:* Mèr virðist meiníng greinarinnar sè góð, ef orðatiltækjunum í niðurlaginu væri breytt.

*Jak. Guðmundsson:* Mèr virðist, að niðurlag greinarinnar eigi að vera óraskað, þegar menn bera það saman við 7. grein, þar sem tekið er fram, að enginn megi atyrða þíngið eða

nokkurn þíngmann á nokkurn hátt; því fylgi menn þeirri reglu, er ei hætt við, að þíngmenn tali það á þínginu, er þeir sèu vítaverðir fyrir utanþíngs, og því ætti þíngið sök á því, ef einstakir menn væru víttir fyrir það utanþíngs, er þeir hefðu talað á þíngi.

*G. Einarsson*: Þessi meiníng vakti einnig fyrir mèr, og ætlaði eg að fram bera hana; en nú þarf eg þess ekki.

*Forseti:* Það er einkum byrjun 1. greinar: „Þíngmenn eru friðhelgir," sem eg held að bæði sè óþörf og kannske ískyggileg. Greinin er óþörf, því af landsmönnum er þínginu ekki hætt við neinum árásum; þeir hafa híngað til sýnt kurteysi og góða hegðun við þíngið. Til stjórnarinnar getur þetta ekki miðað; því ekki veitir hún þess konar þíngum neitt ofríki. Þó hún hafi rètt til þess, að slíta þíngi þessu, nær hún vill, því þíngtíminn fyrir þennan fund er hvergi til tekinn, þá getur grein þessi ekki þar til miðað. Stjórnin hefur, eptir tiltekinn tíma, einnig rètt til, að slíta ríkisþíngi Dana nær hún vill. En greinin er einnig ískyggileg; því það er kunnugt, að orðin í byrjun greinarinnar standa í grundvallarlögum Dana, og eru þau þó í sannleika engar eintómar þíngreglur. Eg fellst fullkomlega á orð hins 5. konúngkjörna þíngmanns. Löggjöfin ver þíngið fyrir öllum óskunda, og veitir því næga friðhelgi. Það er víst, að þessi orð, eptir eðlilegri þýðíngu, eru ekki reglur fyrir þíng, heldur lög fyrir allt landið, og þau lög hefur þíngið ekki vald til að setja. Mèr þætti vel til fallið, að nefndin tæki til íhugunar aptur þessi orð, og að byrjun greinarinnar yrði úr felld, en ekki lízt mèr, að greinin falli öll burtu; því ákvarðanir seinni hluta hennar eru nauðsynlegar. Eptir alþíngistilskipuninni var ákveðið, að þíngmenn skyldu tala eptir beztu sannfæríngu, og leiðir það af þess háttar ákvörðun, að þíngmenn geta ekki verið vítaverðir fyrir orð sín. Yrði aptur einhver þíngmaður fyrir ósæmilegum atyrðum, yrði það að dæmast eptir landslögunum, en fyrir því hefur híngað til ekki þótt þurfa að gjöra ráð í þíngreglum, og með því að það hefur aldrei komið fyrir, þá mun ekki þurfa að búast við því nú. Ef 5. konúngkjörni þíngmaður hefði ekki geymt sèr breytíngaratkvæði það, að greinin skyldi falla burt, þá mundi eg hafa gjört það.

*Framsögumaður:* Mèr skilst ekki betur, en forseti meini, að þíngmenn sèu friðhelgir; mèr virðist því ekki nein orsök

til, að draga orðin út. Þetta eru reyndar almenn orðatiltæki, sem koma fyrir í lögum, en um skilníng þeirra getur samt ekki verið neinn ágreiníngur, og þau segja ekki annað en það, sem er í raun og veru; því varla mun mönnum þó detta í hug, að lýsa því í þíngsköpunum, að menn sèu ófriðhelgir. Sama er að segja um síðari hluta greinarinnar, að mèr virðist engin þörf, að fella hann burtu, þegar hann er rètt skilinn.

*Forseti:* Framsögumaðurinn hefur nokkuð misskilið mig. Það er meiníng mín, að þíngmenn sèu friðhelgir eptir þeim almennilegu lögunum, en að nú þurfi ei að fara að skapa slíka friðhelgi með nýjum lögum. Höfuðástæða mín er, að greinin er óþörf, og að orðin í henni geta valdið misskilníngi; þau eiga heima í grundvallarlögum, en hèr á einúngis að gefa lög fyrir þíngið, og þíngið eitt fjallar um þessar reglur, en ekki konúngur.

Um 2. gr. varð engin umræða, og var þá 3. gr. tekin til umræðu.

*Forseti:* Eg veit ekki, hvað segja skal um niðurlag greinarinnar, þar sem segir, að þíngið skuli skera úr, hvor tala eigi fyr, þegar tveir þíngmenn standa upp jafnsnemma. Það hefur híngað til verið siður, að forseti skeri úr öllu þess konar. Mèr fyrir mitt leyti virðist óþarft, að leita atkvæða þíngsins um það, sem ekki er mjög mikilvægt í þíngreglunum. En að öðru leyti finn eg ekki neitt að greininni.

*Varaforseti:* Sú ákvörðun, sem gjörð er í þessari grein, er gjörð handa forseta að miklu leyti. Það ríður raunar ekki á því, hver fyrstur talar, en því að eins er ákvarðað, að forseti skuli hafa fyrsta úrskurð, að hann er ekki nema einn maður; fari nú svo, að ágreiníngur verði um það, hver tala skuli, þá er hinn seinni úrskurður ætlaður þínginu, af því að fleiri menn hafa fleiri augu en einn maður, og betur sjá augu en auga. Það er og auðsætt, að sèrhverjum forseta hlýtur það að vera geðfeldara, að skjóta til þíngsins.

*Forseti:* Það er auðvitað, að það verður ábyrgðarminna fyrir forseta, að skjóta úrskurði slíkra mála til þíngsins, heldur en að skera sjálfur úr þeim. Sú regla er og víða höfð, að menn rita nöfn sín á lista hjá forseta, ef menn vilja tala á þíngi, og gengur þá eptir röð, þannig að hinn efsti á listanum talar fyrst. Þá má einnig koma þeirri reglu við, að þeir tali á

víxl, sem eru með og mót málinu; en þessari aðferð virðist ekki mjög nauðsynlegt að fylgja hèr.

*Varaforseti:* Fyrst að forseti viðurkennir, að betra sè að skjóta málinu til þíngsins, þá virðist mèr, að það ætti að standa í þínglögunum; því auðvitað er, að hann heldur vill gjöra það að lögum en ólögum, en að ólögum yrði það, ef það stæði ekki í þínglögunum.

*þ. Sveinbjörnsson:* Mèr finnst ekki þurfa að ræða þetta mál lengur frá þessari hlið; því fyrir utan konúngsfulltrúa sèr forseti betur úr sæti sínu, en hinir aðrir þíngmenn, hver fyrstur verður til að standa upp, eptir afstöðu sætanna í salnum.

*Varaforseti:* Það er þó einmitt afstaðan, sem ollir því, að forseti getur ekki úr sæti sínu sèð þetta. Eg vil taka til dæmis þá tvo þíngmenn, er sinn situr við hvorn borðsenda í salsendunum, nú standa þessir báðir upp álíka snemma, og getur þá forseti varla sèð, hvor þeirra fyrri stendur upp.

*Framsögumaður:* Eg er fastur á því, að niðurlag þessarar greinar standi óraskað, og að þíngið eigi kost á að skera úr, hver tala skuli, ef fleiri en einn standa upp undir eins; þegar þíngið á að skera úr, þá er því helgaður sá rèttur, að mega heyra einn fremur öðrum, eptir því sem það vill.

*Forseti:* Eptir greininni verður forseti að skera úr, hver tala skuli; og opt getur orðið hætt við, að ágreiníngur verði á milli manna um það, hver fyrstur hafi upp staðið; ef að nú er heimtað, að ræðan um þetta mál falli niður, þá hlýtur sá að verða fyrir hallanum, er seinna stóð upp, og sem þess vegna á seinna að tala. Hafi nú forseti í slíku tilfelli skorið úr, og ágreiníngur kemur upp eptir það, svo skotið er málinu til þíngsins, þá má vel vera, að sá fái að tala, sem forseti ákvað að bíða skyldi, og þá talar sá, sem þíngið vill heldur heyra.

*Varaforseti:* Það er sjálfsagt, að þegar einn maður sker úr, þá verður enginn ágreiníngur; en eigi þíngið að skera úr, þá verður heldur enginn ágreiníngur, því þá ræður atkvæðafjöldi, en sá úrskurður þarf raunar miklu lengri tíma. Yfir höfuð getur ágreiníngur orðið, nema einn skeri úr, ef hann er ekki sjálfum sèr sundurþykkur.

*Forseti* kvaddi til umræðu um 4. grein, og tók enginn til máls.

5. grein.

*Forseti:* Mèr skilst, að konúngsfulltrúi sè líka undan skilinn hèr, eins og forseti.

*Framsögumaður:* Nefndinni fannst ei þurfa að ákveða neitt um konúngsfulltrúa, heldur mætti eiga undir, að þíngið, eða forseti þíngsins vegna, og hann mundu koma sèr saman, og jafna með sèr þetta mál.

6. grein.

*Forseti:* Eg að mínu leyti hef ekkert á móti þessari grein, nema það, að mèr finnst seinasta orðið óviðfeldið, og vildi eg helzt óska, að menn leituðu annars orðs á þessum stað.

*Varaforseti:* Svo ljótt sem orðið kann að sýnast, þá er það samt gott og gamalt, bæði sem mál og orð.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Eg vildi heldur, að menn kölluðu það *þíngspjöll; því þíngsafglöpun* er allt of sterkt, og er eg samhljóða forseta. Það er líka hverjum einum auðsèð, að þær yfirsjónir, er fyrst eru taldar í 7. grein, eru ei sama eðlis, sem það, er hún seinast nefnir, svo að hvorttveggja megi rèttilega fela undir sama nafni.

*Jak. Guðmundsson:* Eg skírskota því til nefndarinnar, hvort efni þessarar greinar ekki sè í sambandi við 7. gr.; þar er talað um marga hluti, sem kallaðir eru *þíngsafglapanir,* en menn geta þó ekki talið þær allar. Mèr sýnist það mætti vel fara, ef 7. grein væri breytt þannig, að orðin: „það er þíngsafglöpun", væru tekin framan af, og greinin látin byrja svona: „Enginn má" o. s. frv. Síðan vil eg, að 6. gr. sè sett aptan við 7. gr.; hún verður þá öll í góðu sambandi við 8. gr., sem verður eptir minni uppástúngu 7. grein.

*G. Einarsson:* Í tilliti til þess, er rætt var fyrir skemmstu um orðið „þíngsafglöpun", þá hygg eg, að sá meiníngamunur jafnist, ef orðinu „þíngmálaspjöll" er bætt inn í, og áskil eg mèr breytíngaratkvæði á þá leið.

*Framsögumaður:* Mèr finnst ekki nauðsynlegt, að breyta svo gömlu og reyndar alkunnugu orði; orðið þýðir, hvort sem er, ekki annað en það, að breyta móti rèttum reglum.

*Forseti:* Orðið er reyndar gamalt og *classiskt,* en það er þó nú haft í annari merkíngu en áður, og getur líka minnt á annað orð, sem óþarfi er að minnast á.

*P. Sigurðsson:* Það finnst mèr, að orð 7. greinar ekki sèu eins ljós og vera skyldu eða samkvæm meiníngunni; því þegar maður í íslenzku máli segist beita nokkrum hlut, þá meinar hann með því hlutinn sjálfan, svo sem að sláttumaður beiti ljánum, smiðurinn hníf eða öxi, o. s. frv. Það getur því

ekki átt sèr stað, að nokkur hinna heiðruðu þíngmanna beiti konúngi sjálfum, heldur valdi hans eða vilja.

*P. Pètursson*: Eg ætla, að varla þurfi að gjöra ráð fyrir, að þetta komi fyrir á þínginu, og finnst mèr því, að þessi orð: „ef maður beitir konúngi og vilja hans“ o. s. frv., mættu fara burtu. Þegar menn töluðu um, að beygja frjáls atkvæði manna, þá hljóta menn líka að til taka vilja þjóðarinnar, og þá geta menn líka talað um, að beita vilja hennar, en þó vil eg ekki ráða til, að því sè bætt inn í.

*H. G. Thordersen*: Í 7. grein eru upp taldar margar þíngsafglapanir, en mèr líst svo, sem 11. grein standi í sambandi við 7. grein; því þar er ein þíngsafglöpun nefnd með skýrum orðum, og hún stendur ekki í 7. grein. Mèr finnst bezt fara, að allar þíngsafglapanir væru taldar upp í einu, sem lipurlegast og stuttorðast og gagnorðast. En það er og aðgætandi, að það er ekki svo auðvelt, að gefa vel fastar reglur fyrir og gjöra ráð fyrir þíngsafglöpunum; því slík spjöll mega verða á næsta margvíslegan hátt, og eru öldúngis komin undir þeim kríngumstæðum, sem, máske sín í hvert sinn, og sín með hverju móti, orsaka þíngsafglöpun. Það er komið undir tilfinníngu forseta, að finna þíngsafglapanir, og til að afstýra þeim, þarf þann sèrlega hæfilegleika, sem menn kalla *Tact*.

*Jak. Guðmundsson:* Eg er samdóma herra biskupinum, og leyfi eg mèr að skírskota þessu til nefndarinnar, eins og eg sagði fyr. Annars finnst mèr, að ef menn ættu að segja með almennum orðatiltækjum, hvað þíngsafglöpun er, þá sè það allt þíngsafglöpun, sem gagnstætt er þíngskapareglum. Eg er á því, að forseti skeri úr, hvað gagnstætt sè þíngsköpum, en ef menn ekki láta sèr lynda úrskurð hans, þá skeri þíngið úr.

*Forseti:* Mèr finnst svo, sem opt geti orðið örðugt fyrir forseta, að fylgja 7. grein, eins og hún er í frumvarpinu. Það getur opt orðið, að þau spjöll, sem gjört er ráð fyrir í greininni, verði ekki fullkomin, og er þá opt illt, að dæma um eðli þíngsafglapanarinnar, eða jafnvel að sjá, hvort hún hefur orðið til eða ekki. Engu að síður finnst mèr margt í greininni, sem vel hæfir að gjöra ráð fyrir, svo sem að fara utan við efni það, sem ræða á; það er og ósiður, að ryfja upp útkljáð mál, til að kvarta yfir málalokunum; sama er og að segja um styrði gegn þínginu eður þíngmönnum; en mèr finnst samt minni nauðsyn vera á, að geta þess; því slíkt mun varla fyrir koma. Aptur

á móti er það mikið vandasamt, og, ef til vill, ómögulegt, að skera úr því, hvað sèu vonzkufull ráð og illur vilji, því slíkir hlutir eiga sèr svo margar og flóknar rætur, og koma opt fram huldir, þó þeir sèu til, svo menn ekki sjá þá. Það, sem stendur um konúng og vilja hans, og um atkvæði manna, og um hótanir, það finnst mèr mega burt falla; því ef nokkur gjörir sig sekan í þessum hlutum, þá er það óyggjandi, að hvorki þíngið nè forseti muni þola slíkt, heldur kalla til reglu í því máli.

*G. Brandsson:* Eg fellst á það, sem hinn háæruverðugi konúngkjörni þíngmaður sagði áðan, að 11. gr. gæti átt við enda 7. greinar, og vil eg, að menn hnýti henni þar við þannig: „eða ef nokkur mælir ástæðulaust á móti þeim störfum, er þíngið leggur á hann". Með þessu móti má út rýma 11. gr.

*Forseti:* Þessu get eg ekki verið samdóma; því í 7. gr. er talað um umræður þíngmanna á þínginu, en í 11. gr. er talað um störf þeirra yfir höfuð, og virðist mèr því, að báðar greinirnar ættu að standa eins og þær eru. Að öðru leyti skýt eg máli þessu til nefndarinnar.

*G. Brandsson:* Eg ímynda mèr samt, að það sè þíngsafglöpum, að neita starfa á þínginu, og finnst mèr því, að þessi grein gæti vel sameinast 7. greininni.

*L. Johnsen:* Eg álít, að þessi orð: „ef maður beitir konúngi" o. s. frv., eigi ekki að falla úr greininni; en það finnst mèr, að sleppa ætti orðunum: „í því skyni"; því það er ekki auðvelt, að dæma um tilgáng manna af orðunum, nema menn tali svo berlega, að það liggi í augum uppi, að það sè til að beygja frjáls atkvæði manna. Eg ætla mèr því að bera fram það breytíngaratkvæði, að orðunum: „í því skyni", o. s. frv., sè sleppt úr.

*P. Pètursson:* Mèr virðist samt þýðíngarlaust, að mega ekki nefna vilja konúngs, og það yrði þó meiníngin, ef orðunum „í því skyni" væri sleppt, og því finnst mèr þessi orð vera öldúngis ómissandi.

*L. Johnsen:* Eg held, að enginn maður geti skilið orðið „beita" á þá leið, að ekki megi nefna konúng eða vilja hans; því það væri og ósanngjarnt að heimta, að menn mættu ei nefna nafn konúngs, en eg ætla, að hèr liggi sama meiníng í orðunum: „að beita", eins og í orðunum: „að ógna".

*P. Pètursson*: Þá eru orðin: „í því skyni", einúngis útskýríng þess „að heita", og því vil eg ekki láta fella þau úr.

*Jak. Guðmundsson*: Gjöri menn sèr grein fyrir hugsun þeirri, sem hefur vakað fyrir nefndinni, þá mun það hafa verið meiníng nefndarinnar, að koma í veg fyrir, að menn segðu á þíngi: „það er ekki til neins að fara þessu á flot, af því konúngur vill það ekki", eða „af því þjóðin vill það ekki"; því menn ættu ekki að dæma um málefni eptir vilja og eiginráðum einstakra manna, heldur eptir sanngjörnum og skynsamlegum ástæðum, sem dregnar verða af eðli málsins sjálfs; því vèr eigum að gjöra oss von um, að bæði konúngur og þjóðin vilji fallast á það, sem er skynsamlegt og sanngjarnt í sjálfu sèr.

*G. Vigfússon*: Eg hafði áður látið í ljósi nokkrum nefndarmönnum meiníng mína um 7. greinina, og það einmitt á sama veg, sem hinn konúngkjörni þíngmaður fyrir skömmu hreifði í ræðu sinni; því áskil eg mèr nú það viðaukaatkvæði, að við niðurlag þessarar greinar, eptir orðin: „í sama skyni", sè bætt: „eða á nokkurn annan hátt brýtur á móti þessum þíngreglum", og þá einnig, að niðurlag 11. greinarinnar sè úr fellt, þetta nefnilega: „ella verður hann sekur um þíngsafglöpun", sem ónauðsynlegt; því 7. grein með viðauka mínum nær yfir allt framvarpið, og tekur af skarið.

*Forseti:* Mèr finnst rètt, það sem þíngmaður Ísfirðínga sagði, að seinustu orðin: „í því skyni", eigi ekki við, og megi falla burtu; því það er ekki auðvelt, að dæma um innvortis hugrenníngar eða tilgáng manna; en þetta er að minni hyggju hin bezta röksemd fyrir því, að allur sá hèr nú umræddi kafli greinarinnar ætti burtu að falla.

*Framsögumaður*: Eg vil geta þess viðvíkjandi allri greininni yfir höfuð, að slíkar greinir, líks innihalds, standa í flestum þíngsköpum, og má af því ráða, að öðrum mönnum hefur þótt nauðsynlegt, að gjöra ráð fyrir þessum spjöllum, þó menn hèr greini á í þessu efni. Það er raunar sjálfsagt, að á þíngum koma venjur, og venjur koma því til leiðar, að hægra er að sjá hlutinn, af því hann ítrekast svo opt, en þó verður aldrei hjá því komizt, að margt verði eptir, sem menn hljóta að vera í vafa um. Engu að síður mega menn ekki álíta þessar reglur sem ónýtar; því það, að þær eru tilsettar annarstaðar, sannar, að menn álíta þær nytsamlegar; það þykir og ljótt, að fylgja ekk góðri reglu, en ef regla er ekki sett, þá verður

reglu ekki heldur fylgt. Í þessum reglum eru einúngis taldir þeir hlutir, er menn álíta sem venjulega galla á ræðum manna, og sem þess vegna liggur beinast við að nefna. Eptir minni meiníngu ætti engu atriði að sleppa úr greininni. Annað mál finnst mèr það vera, hvort menn fallast á uppástúngu þíngmannsins úr Múlasýslu um viðaukaatkvæði eður ekki, þó mèr virðist ekki bera nauðsyn til þess.

*Forseti*: Þegar menn ræða á þíngi um stjórnarmálefni og opinberar þarfir landsins, þá verður það opt ekki hægt, að komast hjá að nefna konúnginn, eða minnast þess, að málefnin eru að lyktum undir hann borin. Þetta má og vel vera, þegar það liggur beint við, og er gjört á tilhlýðilegan hátt; en að blanda nafni konúngs inn í þíngsköpin, virðist mèr ekki hlýða; því þíngið er þar að tala um sig sjálft, og reglur þær, er það setur sèr í meðferð málanna, sem ekki eru lög fyrir aðra; og umræða um þínglög er því allt annað, en umræða um landslög.

*Varaforseti*: Mèr finnst það samt vera óþægilegt fyrir sèrhvern forseta, að banna þann hlut, sem ekki er tekinn fram í þíngskapalögunum. Getur mèr ekki betur skilizt, þegar eg virði fyrir mèr þetta mál nákvæmar, en að ræðurnar lúti að því, eða komist í það horf, að nafn konúngs verði álitið óverðugt til að nefnast, og einmitt þennan hlut vildi eg kalla ótilhlýðilegan.

*P. Pètursson*: Þar sem menn tala um, að „beita konúngi", þá má líka tala um, að *beita þjóðinni*, og er það álit mitt, að slík orðatiltæki ættu að falla burtu. Það gildir einu, hvort heldur menn tala um, þegar það er gjört á þennan hátt; því með þessu móti verður konúngur, þjóð og stjórn að álítast sem ofríki.

*Framsögumaður*: Eg get þó ekki verið því samdóma, að þannig sè til orða tekið, því þá yrði orðatiltækið svo almennt, að það skildist varla, t. a. m. ef það ætti að skiljast undir „ofríki", að beita konúngi eður vilja hans. En þar sem forseti áleit það óþarft, að taka þessar þíngreglur fram, þá mundu sumir þó verða, sem ekki fyndu skyldu sína, að hlýða þeim reglum, sem ekki standa í þíngsköpunum, og mundu skírskota máli sínu til þíngsins, ef forseti bannaði slíkt eptir sínum hugþótta.

*Forseti*: Það er þó ætlun mín, að þíngið ekki geti bundið hendur á forseta, og neytt hann til að gjöra, hvað sem það vill, eða brúkað hann eins og *maskínu*. Það er auðvitað, að

sérhver þíngmaður hefur rétt til, að skjóta máli sínu til atkvæða þíngsins; en blandi nokkur nafni konúngs ótilhlýðilega inn í umræður á þínginu, þá er eg sannfærður um það, að þíngmenn og framsögumaðurinn sjálfur muni verða fúsir á, að aðstoða forseta í, að slík óregla verði niður bæld.

*H. Stephensen*: Það er mèr ekki skiljanlegt, að ótilhlýðilegt sè, að nefna konúng á þíngi eða í þínglögunum, því vèr stöndum, hvort sem er, allir í sambandi við konúnginn; konúngur kýs menn, til að tala við sig fyrir hönd vora; hann sker úr þeim málum, sem undir hann verða borin. Af þessum rökum álykta eg, að vèr einlægt megum og hljótum að nefna konúnginn og vilja hans. En þessu orðatiltæki: „að beita konúngi", finnst mèr að ekki ætti að breyta eða víkja við.

*Á. Böðvarsson*: Eg er samþykkur hinum virðulega þíngmanni Borgfirðínga í þessu, og er eg þess fullviss, að menn komast ekki hjá, að nefna konúng og vilja hans. Það er og mitt atkvæði, að forseti banni samkvæmt þíngskaparèglum, en þykir aptur vandasamt fyrir hann, að skera úr, nær einn nefni nafn konúngs, til að reyna þar með að beygja atkvæði manna.

*Forseti:* Eg hef einúngis haldið mèr til greinarinnar í frumvarpinu, og hef ekki á móti öðru, en að nefna nafn konúngs á ótilhlýðilegan hátt. Og af því eg ekki get gjört mèr í hugarlund, að nokkur fari til þess, þá finnst mèr sá kafli, sem gjörir ráð fyrir því, öldúngis ónauðsynlegur.

Þá var næsta grein rædd.

*G. Brandsson:* Viðvíkjandi 9. gr. vil eg leyfa mèr að spyrja, hvort það sè meiníngin, að þíngið skeri úr með atkvæðagreiðslu, hver hafi gjört sig sekan í þíngsafglöpun.

*Framsögumaður*: Já.

*G. Brandsson*: Þá stíng eg upp á, að bætt sè í greinina: „þíngmenn úrskurði með atkvæðagreiðslu, að þíngmanni sè vísað burtu af þíngi."

*Framsögumaður*: Nefndin hèlt, að þetta væri sjálfskilið.

*Forseti*: Er þá meiníngin, að þíngmaður skuli algjörlega rekast af þíngi?

*G. Brandsson*: Eg meina ekki nema um stund.

*Forseti:* Viðvíkjandi niðurlagi greinarinnar finnst mèr það vera nóg refsíng, að vísa burt af þíngi, en of hart máske, að taka líka dagpenínga af þíngmanni.

*G. Brandsson*: Er þá meiníngin sú, að þíngmaður skuli missa dagpeníngana fyrir allan daginn, eða ekki nema fyrir þann hluta dags, sem honum er vísað af þíngi?

*P. Pètursson*: Hèr er gjört ráð fyrir, að þíngmaðurinn láti þvermóðsku í ljósi, og brjóti optar en einu sinni, og þegar svo stendur á, er það ekki of hart fyrir neinn þíngmann, að missa dagpeninga sína.

*P. Sigurðsson*: Þíngsafglöpunin getur verið misjöfn, og eptir því hlýtur hegníngin að fara, sem við henni liggur.

*O. E. Johnsen*: Eg er samþykkur því, er hinn konúngkjörni þíngmaður, sem síðast mælti, sagði. Annars gæti maður ímyndað sèr, að einhver þíngmaður kynni að sýna þverúð, svo hann gæti löglega verið laus við út um bæ, af því hann hirti ekki um, að vera á þeim eða þeim fundi, ef hann samt fengi að halda dagpeníngum sínum.

*Forseti*: Viðvíkjandi því, sem þíngmaður Rángvellínga sagði, get eg þess, að hèr er einúngis verið að tala um samkynja afbrot.

Síðan var 10. gr. tekin til umræðu.

*Jak. Guðmundsson*: Þegar eg ber þessa grein saman við greinina á undan, finnst mèr það sanngjarnt, að sá, er ei kemur á þíng, án þess að sanna forföll sín, missi dagpeninga sína.

*H. Stephensen*: Mèr finnst það athugandi, að ákveða, hvað forföll sèu. Eptir minni ætlun geta það hvorki verið embættisstörf nè annað, og ekkert annað en sjúkdómur. Eg vil því geyma mèr það viðaukaatkvæði, að „forföll" í greininni sè skýrt með „sjúkleiki".

*P. Pètursson*: Eg er á sama máli um þetta og þíngmaðurinn, sem seinast talaði.

*Varaforseti*: Þessu er eg öldúngis ósamþykkur. Önnur tilfelli, eins og það, sem um var getið, geta að borið. Eg tek til dæmis, ef nákominn ættíngi dæi, þá væri óviðurkvæmilegt, að neita þíngmanni, að fylgja honum til grafar, og fullnægja þannig hinni viðkvæmustu tilfinníngu. Það væri hart, að svipta þíngmanninn dagpeníngum við slíkt tækifæri. Það er allt annað, að sýna þvermóðsku, en að hafa einhver forföll, sem ekki eru sprottin af vondum vilja. Þó fellst eg á það, að þeir missi dagpeninga sína, sem ekki geta sannað forföll sín. Embættisforföll mega öldúngis ekki tálma.

*P. Pètursson*: Hvað það tilfelli snertir, er hinn þjóðkjörni

þíngmaður, sem seinast talaði, minntist á, þá er það að vísu satt, að það er sárt, að geta ekki fylgt líki ættíngja síns til grafar, en það á hèr við, eins og annarstaðar, að nauðsyn brýtur lög. Reykjavíkurbúar hljóta í þessu að vera undir sömu lögum og aðrir þíngmenn, sem annarstaðar eiga heima; því þeir mundu ekki geta fullnægt þess konar skyldum, og fyrir oss er það ekki meiri nauðsyn.

*Varaforseti:* Eg er samþykkur því, að Reykjavíkurþíngmenn búi sèr ekki til aðrar reglur. En einmitt af því, að þeir eru svo fáir, getur slíkt ekki að borið nema fyrir einstökum, og ættu þá ekki lögin að tálma þeim frá, að fullnægja svo háleitri skyldu.

*H. Stephensen:* Viðvíkjandi því, sem hinn fyrri fulltrúi Reykvíkínga mælti nú, ímynda eg mèr, að það sè hægt fyrir Reykjavíkurbúa, að gegna hvorutveggja; því þíngsetan varar ekki allan daginn, og mætti þá víst haga svo til, að jarðarförin kæmi ekki í bága við þíngið. Vèr, sem erum lengra að, erum neyddir til að sitja kyrrir, þó slíkt bæri oss að höndum. Sè eg því ekki annað ráðlegt, en að binda forföllin við sjúkdóma.

*J. hreppst. Sigurðsson:* Þess vildi eg óska, að forföllin væru til tekin.

*G. Einarsson:* Eg ímynda mèr, að þessi misskilníngur hverfi allur, ef við enda greinarinnar er bætt: „en hver þíngmanna, sem ekki mætir á fundum, án þess hann sanni forföll sín, er þíngið álítur lögleg og gild, hann missir daglaun sín í það skipti".

*G. Brandsson:* Eg held það mætti bæta við einni grein, hvar öll forföllin væru til tekin til enn frekari útskýríngar, t. a. m. sjúkdómar, tímaleysi vegna þínganna, heimiliskríngumstæður, fyrirvinnumissir, o. s. frv.

*Jak. Guðmundsson:* Eg verð fastlega að mæla á móti því, að farið sè að telja upp einstök tilfelli, því þau geta verið óteljandi. Eg fellst fullkomlega á það, sem í greininni stendur, að þíngmenn skýri forseta frá forföllum sínum, og forseti aptur þínginu, og þíngið skeri svo úr forföllum. Eg get ímyndað mèr mörg önnur tilfelli en þau, sem á hefur verið minnzt, sem upp á gætu komið fyrir þeim, sem búa í eða í grennd við Reykjavík, og sem þíngið mundi taka til greina. Eg tek til dæmis, að biskupsfrúin leggist veik, og gjöri eg

þá ráð fyrir, að þíngið mundi álíta slíkt fullgild forföll fyrir biskupinn frá þíngsetu. Öll þess konar tilfelli eiga að mínni ætlun að vera komin undir úrskurði þíngsins.

*H. G. Thordersen*: Að minni ætlun fer bezt á því, að greinin standi óbreytt, en að forseti og þíngið skeri úr, hvað sèu gild forföll eða ekki. Til dæmis að taka er það boðið af konúngi, að *synódus* skuli halda 10. d. júlím., eins og öllum þíngmönnum er kunnugt, og þessu boði hlýt eg að hlýða ásamt fleirum eða færri af þíngmönnum. Mèr sýnist þá óviðurkvæmilegt, ef vèr af þessum orsökum yrðum sviptir dagpeníngum vorum, og verð eg því að mæla sterklega fram með greininni óbreyttri.

*Jak. Guðmundsson*: Þegar þíngið eða forseti álítur forföllin ekki vera gild, þá lízt mèr rètt, að sá missi dagpenínga sína, sem bar slík forföll fyrir sig.

*G. Einarsson*: Samkvæmt því, er eg mælti ekki alls fyrir laungu, áskil eg mèr viðaukaatkvæði við grein þessa á þá leið: „að mæti einhver ekki á þíngi, og geti þó ei sannað forföll sín með þeim ástæðum, er þíngið fellst á, að sá hinn sami missi daglaun sín í það skipti“.

*G. Brandsson*: Með tilliti til þess, sem hinn háæruverðugi konúngkjörni þíngmaður áðan mælti, get eg ekki fallizt á, að embættisannir teljist með forföllum. Eg veit ekki betur, en að til sè brèf frá innanríkisráðgjafanum, er bjóði þíngmönnum, að láta aðra annast embætti sitt á meðan þeir eru á þíngi; enda álít eg ekki þjóðfundinn neitt aukaverk, heldur aðalverk, meðan á honum stendur, sem því heimti allan hug og alla kostgæfni fulltrúanna. Eg er líka á þeirri meiníngu, að hann verði nógu dýrkeyptur, þó alls hins leyfilega sè gætt, sem horfa má til sparnaðar.

*Ó. E. Johnsen*: Mèr lízt, að greinin standi óumbreytt. Það mundi vera hægt, að fara í kríngum eða hártoga allar reglur í slíkum tilfellum; lögleg forföll geta og mörg talizt. Að sönnu hafa stiptsyfirvöldin boðið embættismönnum í sveit, að setja menn í staðinn fyrir sig, til að gegna embættum þeirra á meðan þeir væru á þínginu; en mættu það ekki lögleg forföll teljast, ef embættismenn hèr í Reykjavík, t. a. m. landsyfirrètturinn, þyrftu að gegna embættisstörfum sínum, og gætu enga embættismenn fengið fyrir sig? Virðist mèr því bezt, að greinin standi óumbreytt, þar lítt mögulegt mun, að til

greina öll forföll, eða fyrirbyggja alla misbrúkun, ef menn vildu brúka sig til þess.

*G. Brandsson*: Eg stefndi hvorki á landsyfirrèttinn eða biskupinn, nè nokkurn einstakan mann, heldur ætlaði eg þetta vera nauðsynlega reglu, og það þá reglu, sem ætti að gánga jafnt yfir, að svo miklu leyti, sem henni yrði við komið. Það gæti líka án hennar farið svo, að fundur yrði ekki haldinn, ef mjög margir þættust forfallaðir, og væri það þá bersýnilegur kostnaðarauki, ef þannig til tækist.

*Forseti*: Á öðrum þíngum er aldrei spurníng um, að fresta fundi, þó nokkra þíngmenn vanti, einúngis að svo margir sèu við staddir, sem lögin ákveða, til þess lögmætur fundur sè. Mèr virðist því bezt, að greinin standi óumbreytt, og það því heldur, sem það mun vera meiníng meira hluta þíngmanna. Hún er reyndar máske harðari, en á slíkum þíngum almennt er við tekið; því víða annarstaðar eru menn ekki einu sinni skyldir til, að koma á þíng. En ákvarðanir greinarinnar bera vott um þá virðíngu og rækt, er þíngmenn hafa á fundinum.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg skildi svo orð hins annars þíngmanns úr Gullbríngu- og Kjósar-sýslu, að þíngmenn úr landsyfirrèttinum mundu vera skyldir til, að fá menn í staðinn fyrir sig. En hann hefur ekki gætt að því, að þeir eru konúngkjörnir, og að það þess vegna ekki væri þeirra skylda, heldur konúngsins, að útvega aðra í staðinn, ef svo bæri undir; en eg held það kynni að verða konúnginum eða hans umboðsmanni hèr harla erfitt, ef ei að öllu ómögulegt, eptir sem nú á stendur.

*G. Brandsson*: Þetta er, að því leyti mèr finnst, ekki annað en misskilníngur. Eg svaraði einúngis orðum þíngmannsins úr Barðastrandarsýslu. Eg meinti engan einstakan embættismann, heldur alla undantekníngarlaust.

*Forseti* tók þá 11. gr. til umræðu, og gat þess, að seinustu orð hennar gætu eptir sinni ætlun fallið burtu; því ákvarðanir hennar væru ei að síður fullkomnar.

*Jak. Guðmundsson*: Það leiðir af sjálfu sèr, að ef 7. gr. er breytt eptir því, sem umræður þíngmanna hafa fallið, að niðurlag þessarar greinar verður þá og að falla burtu.

*H. Stephensen*: Eg get þó ekki fallizt á, að niðurlagi þessarar greinar sè slep pt. 7. gr. hljóðar um annað, og stæði

ekki þetta niðurlag, gæti svo farið, að þingmenn þverskölluðust og gjörðu sig seka í þingsafglöpun.

*Jak. Guðmundsson:* Þegar rætt var um breytingarnar við 7. greinina, var það tekið fram um leið, hvað þingsafglöpun væri, og því þarf ekki slíkra ákvarðana hèr.

*H. Stephensen:* Þingmaðurinn, sem seinast talaði, álítur það efalaust, að breytingarnar á 7. gr. fái framgáng. En yrði það ekki, virðist mèr, að niðurlagið á 11. gr. sè nauðsynlegt.

*Jak. Guðmundsson:* Eg er því samþykkur, að ef engin breyting er gjörð á 7. gr., þá þurfi ekki að eins að standa niðurlag 11. gr., heldur þurfi jafnvel að taka það upp við flestar greinir þingskapanna, að það sèu þingsafglapanir, ef móti þeim er brotið, og væri það leiðinleg upptekníng. Eg get því ekki fallizt á, að farið sè að telja upp öll atvik þingsafglöpunar, af því eg álít það ómögulegt í einni grein, og vil því að eins taka það fram með almennum orðum.

*Forseti:* Þingmaðurinn, sem nú settist niður, hefur rètt að mæla; því það er ekki nauðsynlegt, að fara að telja upp öll tilfelli þingsafglöpunar. Vilji einhver þingmanna ekki takast á hendur störf þingsins, þá eiga þar við ákvarðanir 9. gr., og eptir þeim verður hann sekur í þingsafglöpun, hvort sem niðurlagi þessarar greinar er haldið eða ekki.

*H. Stephensen:* Mèr virðist, að hèr sè orðinn allur annar samanburður og önnur skoðun. Þingmaðurinn úr Reykjavík gat ekki um, að þetta heyrði undir 9. greinina.

*H. G. Thordersen:* Mèr virðist þó, að það þurfi ekki að koma til af þvermóðsku, að einhver þingmanna takist ei störf þingsins á hendur. Hans sannfæring getur verið sú, að hann finni sig ekki mann til þess, eða kríngumstæður hans þannig lagaðar, að honum sè það um megn. Þegar svo á stendur, finnst mèr það vera ísjárvert, að láta það varða þingsafglöpun! Eg kann bezt við, að ei sè beitt of mikilli hörku, heldur breyti mannúðlega hver við annan.

*Jak. Guðmundsson:* Það er þó auðvitað, að álit hvers einstaks þingmanns verður að lúta fyrir áliti þingsins. Að öðrum kosti gæti svo farið, að enginn þættist hæfur til, að takast á hendur störf forseta, skrifara, eða þingskapanefndar, o. s. frv.

*H. G. Thordersen:* Það er ekki meining mín, að til sèu tekin nein einstök störf, er þingið snerta, heldur hitt, að menn gefi gaum að þeim kríngumstæðum, sem á góðum eða sann-

gjörnum rökum eru byggðar. Eg er sannfærður um, að sèrhver þíngmanna álítur það heiður sinn, að vera kosinn af þínginu til slíkra starfa, og tekst þau fúslega á hendur, þegar kríngumstæðurnar eru því ekki til tálmunar.

*H. Stephensen*: Í greininni stendur: „nema þíngið sjálft veiti honum lausn frá því". Af þessu er auðráðið, að ei á að fara eptir því, hvert álit þíngmaðurinn hefur á sjálfum sèr, heldur hvaða álit þíngið hefur á honum. Það væri líka töluverður brestur á kurteysi, að þykjast vera hæfastur allra þíngmanna til þess eða þess starfa. Fyrst að þíngið getur leyst menn undan störfum, ef gildar ástæður eru fundnar til þess, held eg bezt fari á því, að greinin standi óbreytt með öllu.

*H. G. Thordersen*: Eg felli mig við það, er seinast var sagt, ef niðurlagi greinar þessarar er sleppt. Mèr virðist það ekki vera mannúðlegt, að svipta þíngmann dagpeníngum fyrir það, að hann tekst ekki á hendur þann starfa, sem hann finnur sig ófæran til. Það á sjálfsagt að vera aðalreglan, að þíngmenn takist þíngstörf á hendur, þegar þeir geta ekki gefið gildar ástæður.

*P. Pètursson*: Það er sjálfsagt vilji þíngsins, bæði að nota beztu kraptana til þíngsins starfa, og gæta jafnframt alls sparnaðar í útgjöldunum. Ef að nú þíngið getur sannfærzt um, að einhver sýni þvermóðsku í því, að takast ekki störfin á hendur, virðist mèr það vera rètt, að svipta hann dagpeníngum. Við það sparast tilkostnaður að tiltölu við það, sem kraptarnir sparast. Mèr virðist því, að ákvörðunin í niðurlagi greinarinnar sè ekki of hörð; því þíngmenn geta búizt við lausn frá störfum þíngsins, þegar þíngið sèr, að hún er á gildum ástæðum byggð.

*St. Jónsson*: Mèr getur ekki fundizt, að ákvörðun 9. gr. um dagpenínga eigi heima í þessari grein. Þar er verið að tala um, hver að sè rækur af þíngi, en í 11. gr. er ekkert orð um að vísa af þíngi, þeim sem þar ræðir um, og því er ekki hægt, að svipta hann dagpeníngum.

*P. Pètursson*: Það mun vera komið undir forseta úrskurði, hversu lengi vísað er burtu af þíngi, og hversu lengi dagpeníngar eru teknir af þíngmanni.

*Framsögumaður*: Forseti á einúngis með, að gjöra uppástúngu um þetta.

*Jak. Guðmundsson*: Niðurlag þessarar greinar stendur í

sambandi við 7. gr. Ef að henni er breytt, eins og umræður hafa fallið, þá verður niðurlag 11. greinar óþarft.

Því næst var annar kafli frumvarpsins tekinn til umræðu, og las framsögumaður hann upp, 12. — 19. gr.

12. gr.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Nefndin hefur líklega með þessari tiltekníngu atkvæðafjöldans meint meira en helmíng (Svar: já); en mèr finnst efasamt, hvort ekki geti fleiri en einn hlotið jafnmörg atkvæði.

*Framsögumaður*: Fái fleiri en einn jöfn atkvæði, þá má hlutkesti skera úr.

*H. Stephensen*: Það er þó ómögulegt, að fleiri en tveir hljóti flest atkvæði, þegar ekki er kosinn nema einn.

*Framsögumaður*: Að vísu getur það borið við, að fleiri fái meiri hluta atkvæða en tveir, þegar tvo á að kjósa eða fleiri, en það mundi sjaldan að bera.

*Forseti*: Þá er að ræða um 13. gr.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Með tiltekníngu fjölda atkvæðanna í 23. grein hefur nefndin líklega meint sama, sem í greininni, sem nú var rædd, og í 13. grein.

*Framsögumaður*: Það var reyndar meiníngin, en nefndarmenn hafa síðan sèð, að betra mundi verða, að breyta nokkuð greininni, svo hún yrði ekki misskilin.

*Á. Böðvarsson*: Það legg eg til, að þar sem stendur í 13. grein: „skal kjósa á ný á sama hátt“, þá falli þessi orð burtu; því mèr virðist það vera tilgángslaust, að láta sömu kosníngu fara tvisvar fram; því eg get varla ímyndað mèr, að nokkrum snúist svo hugur strax í stað, að hann fari að nefna aðra menn rètt á eptir, og finnst mèr þetta því vera að eins til tafar.

*H. Stephensen*: Þegar svo fer, að enginn einn hefur fengið nóg atkvæði, þá er vel til fallið, að valið sè aptur, því maður getur verið í fyrra sinni óviss, en síðar viss, svo ekki þurfi að grípa til þeirra úrræða, að varpa hlutkesti.

*Forseti*: Það er þó nauðsynlegt og vel til fundið, að valið sè tvisvar milli allra þíngmanna; því þó enginn hafi, þá fyrst er kosið, fengið meira en helmíng atkvæða, fer þó opt svo, að við hina aðra óbundnu kosníngu falla atkvæðin svo, að nógu margir fá þann tiltekna atkvæðafjölda, svo ekki þarf að taka til þeirra úrræða, að taka til þriðju kosníngar, sem er bundin og einskorðuð við þá, er flest atkvæði hafa fengið við fyrri

kosníngarnar, og einúngis eru tvöfalt fleiri að tölu en þeir, er kjósast eiga.

*Forseti* kvaddi þá til umræðu um 14. gr.

*G. Einarsson*: Í þessari grein er talað um, að forseti sjái um öll þíngstörf, og þegar hún er skoðuð í sambandi við 19. grein, þá er það auðsèð, að forseti á að sjá þínginu fyrir aukaskrifurum; því það er líka innifólgið í þíngstörfum. Það er nú nauðsynlegt, en eg álít líka nauðsynlegt, að þíngið eigi rètt á, að það fái að skera úr um tölu og laun þeirra, svo það geti komið út í þíngtíðindunum, bæði hvað margir skrifararnir sèu, og hvað há laun þeir hafa, og hafa greiðendur þíngkostnaðarins rètt á, að fá að sjá, til hvers þeim peníngum er varið, sem þeir eiga að greiða, og vil eg því leyfa mèr að koma með það viðaukaatkvæði: „þó má forseti ekki ákveða tölu skrifara og laun þeirra, nema með samþykki þíngsins á lögmætum fundi".

*H. Stephensen*: Eg er á gagnstæðri meiníngu og sá heiðraði þíngmaður, sem nú mælti. Forseti og þíngskrifarar eru ritstörfum kunnugastir, en flestir þíngmenn mjög svo ókunnugir, og sýnist mèr því hentugast, að forseti ásamt þíngskrifurum sjái fyrir aukaskrifurum; því þínginu er það mjög áríðandi, að öll ritstörf gángi fljótt, og sèu sem bezt af hendi leyst.

*G. Einarsson*: Eg held, að bezt sè, að forseti komi sèr saman við þíngmenn um, hverjir verði aukaskrifarar, og hver laun þeir fái, því við það minkar ábyrgð forseta, en allir sjá, að mikill vandi liggur á forseta, þegar hann skal einn ákveða um þetta, og þess vegna hvíla á honum einum ámæli, ef til vildi, fyrir töku of margra aukaskrifara með of háum launum.

*Framsögumaður*: Eg vil leyfa mèr að spyrja hinn heiðraða þíngmann, er nú mælti, hverju hann hefur hugsað sèr að koma til vegar með uppástúngu sinni; hvort hann ætlast til, að þíngið ónýti samning forseta, ef hann hefur þegar gjört samning, eða þetta á að ná til aukaskrifara framvegis, en skrifarar munu vera teknir nú með sömu kjörum og á sama hátt og áður, og þíngsköpin eru að eins fyrir þetta þíng; get eg því engan veginn sèð, til hvers uppástúnga þessi geti leitt nú sem stendur.

*G. Einarsson*: Eg vil ekki tala um uppástúngu mína framar, þegar hún er skoðuð frá þessari hlið. Það vakti fyrir

mèr, að það, sem hinn heiðraði framsögumaður mælti, gæti átt sèr stað á þessum fundi, en eg vildi þá stínga upp á þessu vegna þínga framvegis.

*Forseti:* Eg hef tekið þessa skrifara, þegar eg var búinn að bera mig nákvæmlega saman við hina kunnugustu menn, og ráðfæra mig við þá, bæði þá, sem áður höfðu verið forsetar og þíngskrifarar, og er þessu nú öllu raðað niður eptir því, sem oss sýndist að bezt mundi vera. Eg er líka hræddur við, að eiga þetta undir atkvæðum þíngmanna; því þeir þekkja ekki allir vel til, hvað mikið útheimtist til, og hvílíkt vandaverk það er, að koma ritstörfum í reglu til bókunar og prentunar. Það vakti fyrir forseta og þeim mönnum, sem völdu skrifara, að spara hvern skildínginn. En eg held, að það geti aldrei verið hagkvæmt, að þíngið ákveði um laun skrifaranna; því ef þíngmenn ákveða of lítil laun, svo að forseti geti ekki útvegað hæfilega skrifara, þá fellur vandinn og ábyrgðin á þíngið, og þá sýnist beinast við liggja, að þíngið útvegi þá menn sjálft.

*G. Einarsson:* Eg vil því, að þíngið samþykki og komi sèr saman við forseta um, hvað mikil laun að skrifarar fái. Eg er óvanur þíngstörfum, og leiði því hjá mèr, að tala mikið um þau, en það þykir mèr ósanngjarnt, að aukaskrifarar fái jöfn laun þíngmönnum.

*Þ. Sivertsen:* Sè það þannig, að búið sè að semja við vissa menn, þá fellst eg á meiníngu hins heiðraða þíngmanns, er nú mælti, að því leyti, sem laun þeirra snertir, og finnst mèr ósanngjarnt, að þeir fái eins mikil laun og þíngmenn, því þeir hafa minna fyrir, og slökkva litlu, eða ekki eins miklu, niður. Eg held líka, að hæfilega og góða aukaskrifara væri eða yrði að fá fyrir töluvert minna kaup, og ætla eg það hverjum þíngmanni, að vilja brúka og hlynna að hæfilegum og sómasamlegum sparnaði, eins í þessu sem öðru. Eins finnst mèr, að ræða þíngmannsins sè á góðum rökum byggð, þar sem hún lýtur að því, að lètta ábyrgð á forseta; því ef forseti semur, þá liggur ábyrgðin á honum, en ef þíngið samþykkir, þá hvílir ábyrgðin á því með, og finnst mèr, að forseti gæti allt að einu eins ákveðið eða stíngið upp á um tölu og laun skrifaranna, og þíngið síðan samþykki. Af þessum ástæðum get eg ekki annað en fallizt á uppástúngu hins heiðraða þíngmanns.

*Jón* hreppst. *Jónsson:* Eg verð fyrir mitt leyti að játa það, að mèr er enn óljóst um tölu aukaskrifaranna, og hver laun

þeim eru ætlað, eins hvernig haga eigi þingskriptum þeirra nú á annan veg, en verið hefur, og vildi eg gjarnan, og munu fleiri þingmenn vilja það, fá að heyra nokkuð hèr um, svo menn gætu haft á því ljósa skoðun.

*Forseti:* Eg hef að vísu engan samning gjört við þingskrifarana, en hitt þykir mèr tilhlýðilegt, að þeir hafi sömu laun, og þeir hafa haft að undanförnu.

*P. Melsteð*: Eg vil geta þess, að nú þegar eru útnefndir 6 aukaskrifarar til bráðabyrgða; reynist þeir vel, þá verður þeim haldið, en að öðrum kosti ekki; við höfum ætlazt til, að þeir fengi 3 rbdd. um daginn, eins og að undanförnu. Mèr finnst og, þegar um laun aukaskrifara skal tala, að þau verði ekki vel borin saman við laun þingmanna; því skrifarar þessir eru í allt annari stöðu á þinginu heldur en þingmenn. Laun aukaskrifaranna eru í rèttum skilníngi vinnu - eða verka-laun, en dagkaup þingmanna er nokkuð annað.

*B. Halldórsson*: Með tilliti til þess, sem þingmaðurinn úr Suðurþingeyjarsýslu kvað sèr vera óljóst um störf aukaskrifaranna, vil eg bæta því við, að aukaskrifararnir innanþings eru 4, og skiptast þeir á 2 og 2; hinir 2, sem utanþings eru, eru ætlaðir til að hjálpa þeim við hreinskriptir, sem við vorum hræddir um að þeir kæmust ekki sjálfir yfir; en tilgángur okkar var, að losa þingmenn sem mest verður frá því, að skrifa þingræður sínar sjálfir, sem gengizt hefur við á undanförnum þingum.

*G. Einarsson*: Mèr er óljúft, að lengja þingræðurnar; en þó get eg ekki varizt þess, að mèr finnst, að staða þingmanna sè kostnaðarmeiri; þeir hafa farið frá búum sínum og embættum, og hafa orðið að fá mann í sinn stað, en hinir koma að aðvífandi, og geta því staðizt við minni laun, og finnst mèr því of mikið, að þeir fái 3 rbdd. um daginn.

*B. Halldórsson*: Það er ekki enn búið að semja neitt um laun aukaskrifaranna, svo mèr sýnist óþarft, að ræða frekar um þetta mál nú. Að loknu þingi mun forseti með samþykki þingmanna út býta þeim sanngjörnum launum, eptir því sem menn þá sjá, að þeir hafa haft mikið að starfa, og hvernig þeir hafa leyst þetta starf sitt af hendi.

*G. Einarsson:* Þá er eg ánægður, því þá kemst viðaukaatkvæði mitt að.

*H. Stephensen*: Það á ekki við, að tala hèr um þetta;

þeir menn, sem hafa áður verið á þíngum, vita, að opt hefur verið kvartað yfir því, hvað erfitt það sè fyrir þíngmenn, að skrifa upp ræður sínar á sama degi og þeir hafa haldið þær, einkum þar eð þeir hafa orðið að vera búnir að ljúka störfum sínum fyrir 12. stund daginn eptir, og má þá sjá, hvað mikið þeir hafa að gjöra, þar sem fundir eru opt mjög lángir, og má eg því fullyrða, að allir, sem þekkja nokkuð til þessa, muni gjarnan vilja, að lètt sè skriptum á þíngmönnum; en hvað því viðvíkur, að laun aukaskrifara þykja of há, þá verður að gá að, hvað mikið þeir skrifa, og það þykir mèr merkilegt, ef þíngmenn vilja láta sèr farast ver, en *privat*mönnum, sem láta skrifa fyrir sig; því eg gjöri ráð fyrir, að hver muni skrifa 12 arkir á dag, og það eru 3 rbdd., og það þykir of mikið.

*G. Einarsson:* Það er gamalt orðtæki, að laun krefji verka, og því finnst mèr rèttast, að þíngmenn skrifi sjálfir ræður sínar; en hvað lögboðnu gjaldi í dómsmálasökum viðvíkur, þá finnst mèr, að það eigi hèr ekki við.

*Forseti* kvað umræðu lokið um þessa grein, og tók 15. gr. til umræðu.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Mèr er ókunnug ástæðan fyrir því, að forseti skuli þurfa að fara á annan stól til að tala, og þá getur gengið svo, að fyrst komi annar varaforseti í hans stað, og svo fari hann, og síðan komi hinn, og þetta gángi koll af kolli; vil eg því, að greinin falli úr; að minnsta kosti hefur það ekki komið að neinum skaða, að slíkt hefur ekki verið áður við haft.

*Jak. Guðmundsson:* Eg get ekki verið samþykkur hinum heiðraða konúngkjörna þíngmanni, er nú mælti, að greininni sè sleppt; því það mun fara óreglulega fram og verða til ógagns, t. a. m. þá þíngmenn eru að tala með og mót í einu máli, og forseti segir, að mál sè fullrætt, en fer síðan í stólnum að taka fram einhverja uppástúngu og mæla fastlega með henni; því mèr virðist þíngið geta auðveldlega leiðzt í villu með þessum hætti.

*Þ. Sveinbjönsson:* Það er þó að minni meiníngu í augum uppi, að verkun orða forsetans á þíngmenn má vera hin sama, hvort sem hann talar þau frá forsetastólnum, eða frá öðrum lægri.

*Varaforseti:* Það er svo ákveðið í þíngskapalögunum, að hver þíngmaður megi tala einúngis tvisvar, en forseti aptur á mót svo opt, sem hann vilji; mætti hann þannig ræða

efni málanna, gæti hann átt seinasta orð, og haft, ef til vill, of mikla verkun á þíngið og úrslit málanna.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Það er þó víst ekki varaforsetans meiníng, að forsetinn aldrei hætti að tala, af því hann situr á forsetastólnum. Eg sè ekki heldur, að þíngsköp þessi neinstaðar leyfi forseta, að taka optar til máls um efni máls en öðrum fundarmönnum, að uppástúngu- og framsögu-mönnum fráskildum. Mín meiníng er því, að greinin eigi að úr fellast.

*Framsögumaður:* Eg veit ei dæmi til, að forseti megi taka þátt í umræðum málanna, hvað efninu við víkur, nema í ráðgefandi þíngum, og sýnist liggja beint við, að svo hljóti að vera; því þess konar þíng hafa allt annan blæ og aðra þýðíngu, en þau þíng, sem hafa úrskurðarvald; á þeim þíngum er það sumstaðar bannað, að forsetar taki nokkurn þátt í umræðum málanna, en hèr er ekki farið lengra, en að hann megi það, með því að fara úr forsetasæti.

*H. Stephensen:* Það vakti fyrir nefndinni, þegar hún samdi þessar þíngskapareglur, að bezt væri, að fyrirbyggja þá óánægju, sem áður hefur verið út af því, að forseti talaði í forsetastóli.

*Forseti:* Eg fyrir mitt leyti álít greinina góða og vel til fallna; en hvað það áhrærir, er framsögumaður minntist á, hver munur væri á því, hvað mikið frelsi forseti hefði á ráðgefandi og valdameiri þíngum, þá vil eg geta þess, að *Schow* vèk úr forsetastól á Hróarskeldufundinum, þegar hann vildi tala um efni málsins.

*H. Stephensen:* Í þíngskapareglum þessum mun þess ei vera getið, hvort forseti megi tala jafnopt og aðrir.

*Forseti:* Jafnopt.

*H. Stephensen:* Þá vil eg, að það sè til tekið.

*Framsögumaður:* Það þótti ekki nauðsyn að taka fram í þíngskapalögunum, af því, að þegar forseti talar sem þíngmaður, þá er hann undir þíngmannarètti.

*Forseti:* Það var líka mín meiníng.

*Ó. E. Johnsen:* Má forseti lesa ræðu sína skrifaða af blöðum?

*Forseti* tók þá 16. gr. til umræðu.

*P. Pétursson:* Eptir greininni á varaforseti að kjósast af forseta, en mèr finnst, að það sè samkvæmara því, hverja þýð-

ingu að atkvæði þíngmanna eiga að hafa, að sá, sem hefur fleiri atkvæði, gángi strax í stað forseta.

*Jak. Guðmundsson*: Eg vil heldur, að greinin sè óhögguð; því eg held, að atkvæði manna sèu í meiri blindni, heldur en forseti, og því álít eg hentugast, að hann til taki, hvor varaforsetinn skuli í hvert skipti gegna forsetastörfum, eptir því sem hann sèr hentugast.

*H. Stephensen*: Eg vil taka fram eitt atriði, til að sýna, að bezt sè fallið, að forseti ráði, en ekki atkvæðafjöldi, hver gegna skuli forsetastörfum. Nú vill forseti ræða eitt mál, og máske annar varaforseti líka, og þá má það vera eptir samkomulagi, hver gegnir forsetastörfum.

*J. Skaptason*: Mèr virðist, að ef svo ber undir, að forseti vill tala á einhverjum fundi, þá væri það vel til fallið, að varaforseti strax í byrjun fundarins settist í forsetastól, svo þeir ekki einlægt væru að hafa sætaskipti, er mèr virðist gæti truflað störfum forseta.

*H. Stephensen*; Það getur þó verið, að forseti ekki finni strax, að hann vilji tala á fundinum.

*Forseti* tók síðan 17. gr., þá 18. gr., þá 19. gr., og varð engin umræða um neina þeirra.

Því næst var þriðji kafli framvarpsins tekinn til umræðu, og las framsögumaður hann upp, 20.—29 gr., og mælti: Eg vil einúngis leyfa mèr að geta þess við 23. grein, að betur kynni að fara, að setja púnkt eptir orðin: „kjósa þarf", og fella úr orðið „þá", er á eptir kemur; mætti það þá skiljast um alla atkvæðagreiðsluna.

*Forseti*: Eg vil einúngis geta þess, að mèr finnst orðið „hlutfallsnefnd" ekki vera vel til fallið. Orðið „nefnd" eru menn vanir að brúka, þegar kosið er í nefndir, en ekki þegar hlutkesti ræður. Eg hygg betur við að hafa „deild" eða „flokkur". Ef nefndinni eða þínginu litist um það hið sama sem mèr, þá mætti hafa tillit til þess í 21. gr.

*H. Stephensen*: Orðið „nefnd" er gott orð, og vèr erum orðnir því svo vanir. Mismunurinn er sá, að hèr er kosið eptir hlutföllum, en annars kostar með ritnðum seðlum.

*Jak. Guðmundsson*: Þegar eg gef gætur að þýðíngum beggja orðanna, felli eg mig betur við að brúka „deild". Orðið „nefnd" er komið af sögninni „að nefna", eður því, að menn eru

annaðhvort munnlega eða skriflega nefndir í nefnd, og lýsir þannig fremur annari aðferð.

*Framsögumaður*: Það, sem nefndin hafði fyrir sèr, var sú tilhögun, sem við gengst á þíngum. Orðið „flokkur" eða „deild" táknar venjulega slíka tilhögun, er föst og ákvörðuð gengur í gegnum allt þíngið. Það var ekki tilgángur nefndarinnar, að mynda neina þess konar deild, heldur hitt, að gefa þíngmönnum tækifæri á, að fá aðgáng til einstakra málefna, sem vandasöm væru; þetta vildi nefndin láta í ljósi með orðinu „hlutfallsnefnd". Vilji þíngmenn heldur hafa orðið „deild" eða „flokk", er eg því ekki fyrir mitt leyti mótfallinn.

21. gr. var því næst tekin til umræðu, en um hana urðu engar umræður.

Því næst var 22. gr. tekin til umræðu.

*J. Skaptason*: Mèr virðist, að í niðurlagi greinarinnar mætti bæta við: „nema hann gefi sig fram, og lagfæri kosníngarlista sinn, meðan á kosníngunni stendur". Það kynni þó svo á að standa, að það stæði á miklu, að atkvæði það, er þannig frá gengur, legðist til annars hvors atkvæðaflokksins.

*H. Stephensen*: Það held eg sè ekki ráðlegt; því með þeim hætti gæti kosníng þíngmannsins orðið ófrjáls; því hann kynni að fara eptir því, sem hann heyrði lesið upp á seðlunum á meðan.

*P. Pètursson*: Það er líka ómögulegt að vita, hverjum kosníngarseðillinn til heyrir, þegar ekkert nafn stendur undir honum.

*J. Skaptason*: Eg ætlaðist til, að sá, er seðilinn hefði skrifað, gæfi sig sjálfkrafa fram, áður kosníngunni væri lokið.

*P. Sigurðsson*: Það er auðvitað, að sá hinn sami, sem leiðrètta vill kosníngarseðil sinn, verður að gefa sig fram.

*Framsögumaður*: Það er engin orsök fyrir hann, að gefa sig fram. Þar að auki gæti þetta valdið mestu óreglu. Það gæti að borið, að þíngmaður vildi breyta atkvæði sínu, þættist hafa skrifað rángt, og heimtaði, að hann mætti lagfæra, til þess að geta kosið einhvern annan.

*Forseti*: Það er nauðsynlegt, til að tryggja kosníngar, að greinin standi eins og hún er.

Þá var 23. gr. tekin til umræðu.

*Forseti*: Mèr þykir hèr einúngis athugandi, hvort til nefndarkosnínga þurfi að útheimtast meiri hluti allra atkvæða

*(absolut Pluralitet);* því það getur hæglega að borið, að við það verði talsverð tímatöf. Menn hafa opt á slíkum þíngum látið sèr nægja, að velja þá, er fleiri atkvæði hafa fengið en aðrir *(relativ Pluralitet),* þó ei hafi það verið meira en helmíngur allra atkvæða; því þessi aðferð er lángt um tafarminni. Að sönnu er það mikið, sem mælir fram með hinni fyrri kosníngaraðferð, sèr í lagi þegar um vandasöm mál er að gjöra, en samt ímynda eg mèr, að seinni kosníngaraðferðina megi vel við hafa, einkum ef menn utanþíngs bera sig saman um völin, eins og stundum hefur verið gjört. Eg skýt því til nefndarinnar og þíngsins, hvort breyta skuli greininni eða ekki.

*Framsögumaður:* Það er að sönnu satt, er hinn háttvirti forseti sagði, að sú kosníngaraðferð, sem hèr er farið fram á, tekur lengri tíma; en mèr virðist þó, að það eigi að vera aðalreglan. Annars getur það að borið, að menn komist í nefndir með 4. eða 8. parti atkvæða, og það er líka hætt við því, að meiníngar nefndarmanna verði þá fremur á reiki. Eg álít það nauðsynlegt, að greinin sè óbreytt.

*Jak. Guðmundsson:* Það er eitt atriði í sambandi við þetta, sem eg vildi drepa á, að, verði því haldið um hlutfallsnefndir, sem stúngið hefur verið upp á, þá verða þíngmenn kunnugri hver öðrum, og færari um, að kjósa í kosníngarnefnd.

*Forseti:* Mèr virðist það rètt, sem nú var mælt; því það er ætlun mín, að það sè helzta nytsemi hlutfallsnefndanna, að þíngmenn kynnist betur, hverjir færastir sèu til þess, að vera kosnir í nefndir. En eg talaði einúngis um þá, sem kosnir eru í þínginu sjálfu. Um orðatiltækið „hlutkesti“ vil eg geta þess, að menn eru opt vanir, að láta aldur ráða í slíkum tilfellum; því hann þykir jafnan heiðurs verður.

*Hallgr. Jónsson:* Það er máske ekki svo hægt að vita ætíð aldur þíngmanna.

*Forseti:* Eg gjöri ráð fyrir, að hver þíngmaður viti, hvað hann er gamall, og skýri rètt frá því.

*H. Stephensen:* Menn eru nú stundum ekki farnir að gjöra mikið úr aldrinum, og það er ekki lángrar stundar verk, að draga um tvo seðla.

*G. Brandsson:* Mundi það ekki vera nóg, þar sem í greininni stendur: „að nefndarmenn skuli kjósa með meiri hluta allra atkvæða þeirra, sem greidd eru og gild“, að í stað þess komi: „með einum þriðjúngi“ o. s. frv.? því að með þeirri til-

högun gætu fleiri tekið þátt í nefndarstörfum, en ef hinni uppástúngunni yrði fylgt, og þar með kynntust menn því betur málunum og meðferð þeirra. Eg held líka, að störfum nefndanna, ef þær væru margar kosnar, yrði dembt að mestu leyti á sömu menn, ef grein þessi stæði óbreytt.

*H. Stephensen*: Það hefur að undanförnu verið kvartað yfir því, að sumir þíngmenn kæmust aldrei í nefndir, en nú er eptir þíngsköpunum byggt fyrir það. Nú eru hlutfallsnefndir kosnar, og um gagn það, sem af þeim getur leitt, felli eg mig við það, sem þíngmaðurinn frá Reykjavík sagði. En ísjárvert virðist mèr, að skirrast við, að kjósa menn í nefndir, þó þeir hafi miklum störfum að gegna, því þannig getur þíngið misst af góðum mönnum.

*P. Sigurðsson*: Eg vil leyfa mèr að spyrja, hvort nefndarkosníng sè gild eða ekki, ef helmíngur atkvæða fæst.

*Framsögumaður*: Hún er þá ógild.

*S. Gunnarsson*: Eg veit ekki, hvort öðrum þíngmönnum finnst eins og mèr, að eitthvað vanti í greinina. Eg kynni betur við, að bæta við á eptir „kjósa þarf" þessum orðum: „og velja meðal þeirra þann eða þá, sem vantar".

*Framsögumaður*: Eg held það sè rèttara, sem þíngmaðurinn frá Múlasýslu fór fram á, og fellst eg á það.

Um 24. gr. var ekkert rætt; var þá 25. gr. tekin til umræðu.

*S. Gunnarsson*: Mèr virðist vera dálítil mótsögn í niðurlagi 25. gr., þegar það er borið saman við upphaf hennar. Það virðist sem sè, að niðurlagið bendi til þess, að ekki megi kjósa hvern sem vill til forseta og skrifara, og vildi eg því orða greinina svona: „Hver kosníngarnefnd kýs sèr forseta og skrifara, þegar hún tekur mál til meðferðar, og þá hún hefur ritað álitsskjal sitt, kýs hún sèr framsögumann".

*Jón Guðmundsson*: Það er vani, að hver nefnd kjósi sèr framsögumann; og það var álit nefndarinnar, að líka mætti kjósa til framsögumanns þann, sem síðar væri við bætt í nefndina henni til aðstoðar, eins og að undanförnu hefur tíðkazt.

*S. Gunnarsson*: Þetta hugkvæmdist mèr ekki.

26. gr. tekin til umræðu.

*J. Skaptason*: Eg álít það rèttast, að hverri nefnd væri gjört það að skyldu, að hafa fundabók; því og ímynda mèr, að

það geti verið til mikils stuðníngs fyrir nefndarmenn í störfum þeirra, og einkum fyrir þann, er semja ætti nefndarálitið.

*Framsögumaður*: Það væri kannske reglulegra; en nefndin hèlt, að störfin yrðu vafníngssamari, og málefnin stundum svo lítilfjörleg, að ekki þyrfti bókar með.

*J. Skaptason*: Ef að það er lítilfjörlegt, sem fram fer í nefndinni, þá er því hægra að bóka það.

*Framsögumaður*: Það væri þó lítilfjörlegt, að fara að hafa bók, sem ekki þyrfti nema eína örk í, eða láta sömu bókina gánga milli margra nefnda.

*Forseti* tók þá 27. gr. til umræðu og mælti: Hvað tíðindanefndina snertir, þá hafa aldrei verið nema tveir menn í henni að undanförnu, en eg felli mig vel við uppástúngu nefndarinnar, að í henni sèu þrír.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Hvað þíngskapanefndina áhrærir, þá er mèr ekki ljóst, hvað hún á að gjöra; þessi þíngsköp eiga þó ekki að gilda nema fyrir þetta þíng. Eg veit ekki, hvort að öðrum sýnist það sama og mèr, að hún sè óþörf, og ekki nema til tímatafar. Til þess virðist mèr og benda ákvörðunin í 52. gr., að uppástúngur þessarar nefndar eigi að útkljá í 2 umræðum á þíngi.

*Jón Guðmundsson*: Það var meiníng nefndarinnar, að þíngskapanefndin tæki við öllum þeim breytíngum, sem hver einstakur þíngmaður kynni að vilja gjöra, og lèti álit sitt í ljósi um þær; því reynslan mun sanna, að ýmislegt í þíngsköpunum sè athugavert, og þyki þurfa breytínga við. Er þá auðsjáanlega betra, að hafa vissa nefnd til þess, að taka við öllum þess konar breytíngaruppástúngum á þíngsköpunum, en að velja nýja nefnd í hvert skipti.

*Jak. Guðmundsson*: Hvað því viðvíkur, er hinum konúngkjörna þíngmanni, er síðast mælti, þótti athugavert, að þíngskapanefndin og uppástúngur hennar yrðu þínginu til tafar, þá ætla eg, að við því megi búast, að, sèu breytíngarnar ómerkilegar, muni þíngið ekki gefa þeim gaum, en ríði þær á miklu, þá er það tilvinnandi, að ræða þær.

*H. Stephensen*: Mèr virðist hèr ekki mega gleyma 71. gr. Ef hún stendur, þá er auðsèð, að nefndin er til flýtis, en ekki til tafar. Þíngsköpin eru ekki heldur svo alfullkomin, að ekki sè ráð fyrir gjörandi, að þörf þyki á að breyta þeim.

*S. Gunnarsson*: Mèr kom til hugar, að það væri vel til fallið, að kjósa reiknîngsnefnd forseta til aðstoðar.

*Framsögumaður*: Það er engin ástæða til þess fremur hèr en annarstaðar. Forseta er það ekki of vaxið, að annast reiknîngana, og híngað til hefur það verið vani, að hann annaðist einn um alla reiknínga.

*Forseti* tók þá 28. gr. til umræðu, og sagði, að við mætti bæta eptir „forseta“: „eða aukaforseta“.

*H. Stephensen*: Það er aðgætandi, að þá er varaforseti í forseta stað.

*Framsögumaður*: Úr þessu er skorið í 16. gr.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg leyfi mèr að spyrja, hvað nefndin leggi í „útgjörð“.

*Framsögumaður*: Það sem tíðkanlegt hefur verið, að standa fyrir prentun og þess konar.

*G. Brandsson*: Mèr finnst vera nokkur ósamkvæmni í orðaskipuninni í 28. gr., þar sem „þeir“ svarar til „tíðindanefndar“. Þess vegna sýnist mèr mætti haga orðum hennar þannig, að í staðinn fyrir „þeir“ komi „nefndarmenn“ o. s. frv.

*H. Stephensen*: Nefnd getur aldrei verið einn maður.

Þá var 29. gr. tekin til umræðu.

*Jak. Guðmundsson*: Mèr kemur til hugar viðvíkjandi því, er hinn fyrsti konúngkjörni þíngmaður sagði um þíngskapanefndina, að við mætti bæta, að þegar nefndin ber upp breytíngar, þá gefi þíngmenn fljótt atkvæði sitt um gildi þeirra.

*Framsögumaður*: Það er tekið fram í 52. gr.

*Forseti* lèt þá umræðum slitið, og gat þess um leið, að lögulegast mundi, að semja breytíngaratkvæðin, eptir það að búið væri að ræða frumvarpið allt, og fá þau síðan framsögumanni. Sagðist framsögumaður ekkert hafa á móti því.

Þá var fundi slitið, og næsti fundur ákveðinn um 11. stund að morgni.

---

## 5. fundur, 12. d. júlím.

*Varaforseti* settist í forsetasæti og mælti: Forseti hefur tilkynnt mèr, að hann vegna óumflýjanlegra anna ekki geti mætt í dag, og beiddi mig, að gegna forsetastörfum í sinn stað.

Var þá þíngbók frá síðasta fundi lesin og samþykkt.

*Varaforseti* gat þess, að konúngsfulltrúi hefði afhent sèr

3 framvörp, sem hann hefði fengið frá stjórninni, og út býtti þeim síðan meðal þíngmanna.

*Varaforseti*: Eg álít, að ekki sè tími til, að setja nefnd í þessi mál, og vil eg því skjóta því til þíngsins, hvort það ekki vill setja hlutfallsnefnd í hin merkilegustu.

*Framsögumaður*: Það er ekki eptir rèttu formi, meðan þíngskapareglurnar eru enn ekki samþykktar.

*H. Stephensen*: Hlutfallsnefndir eru hèr enn með öllu óþekktar.

*Varaforseti*: Eg leyfi mèr að eins, að stínga upp á þessu, í því skyni, að með því móti yrði flýtt fyrir meðferð málanna, en það er sjálfsagt, að það verður að vera á valdi þíngsins, og að það nú getur ekki orðið, fyrst þíngmenn mæla móti því.

Síðan beiddi hann framsögumann, að lesa 4. kaflann af þíngsköpunum.

*Framsögumaður* las 4. kaflann.

*Varaforseti* tók síðan 30. gr. til umræðu.

*J. Skaptason*: Eg get ekki betur sèð, en 30. gr. sè svo náskild 31. gr., að betur færi á, að þær báðar væru hafðar í einni grein. Fyrri partur 30. gr. er líkur fyrra parti 31. gr., og síðari partur 30. gr. á heima hjá seinna parti 31. gr., þar sem er ákveðið lögmálið fyrir forseta og leyfið fyrir þíngið í einu og sama efni; þessu á ekki að tvískipta, og leyfi eg mèr því að stínga upp á, að það verði ein grein þannig:

„Forseti skal við hver fundarlok birta næsta þíngtíma, og hvað þá skal vera umræðuefni; heitir það dagskrá; henni má forseti ekki breyta, nema með samþykki þíngsins; en ef 10 þíngmenn óska breytíngar á henni, skal skjóta því til atkvæða þíngsins".

*Jens Sigurðsson*: Eg ætla þó eðlilegra, að hafa það í tveimur greinum; því að í 30. gr. er getið um, að forseti geti stúngið upp á breytíngu á dagskránni, en í 31. gr. aptur á móti, að 10 þíngmenn hafi leyfi til að æskja þess. En eg vildi og leyfa mèr að spyrja nefndina að, hvort að í 30. gr., þar sem talað er um samþykki þíngsins, sè meint meiri hluti þíngsins, eða þíngið allt.

*Framsögumaður*: Meiri hluti þíngsins.

*Jón Guðmundsson*: Eg vil hafa greinirnar eins og þær eru. 30. gr. getur um, hvað dagskrá sè, en 31. gr., hvernig henni má breyta; en það verður fjær rèttum hugsunarreglum,

að slengja báðum greinunum saman; það er líka vanalegt, að í fyrri greininni sè efnið tekið fram svona yfir höfuð, en í hinni seinni aptur útlistað nákvæmlega, hvernig því skal haga.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg veit ekki, hvort að nefndin hefur ætlazt til þess, að dagskráin sè hengd upp. Það hefur verið vani áður, að forseti hefur hengt hana upp á lestrarsalinn, en nefndin hefur ekki getið þess, og álít eg, að hitt sè betra; því allir geta kannske ekki heyrt hana, þegar forseti lætur lesa hana. Það er líka erfitt fyrir forseta, að vita æfinlega fyrir fram, hvaða mál verða rædd næsta dag, vegna þess, að nefndarálitin eru ekki búin, og að lyktum getur svo að borið, að einhver sè burtu af þíngi, og getur því ekki heyrt hana lesna. Eg óska því, að ákvörðun um þetta sè bætt við greinina.

*J. Skaptason*: Það sem þíngmaður Skaptfellínga mælti, að það væri fjærri rèttum hugsunarreglum, er ekki satt, og leyfi eg mèr að lesa upp aptur breytíngaratkvæði mitt (hann las). Þetta fylgir hvað öðru í þánkanum, og er því engan veginn mótstríðandi rèttum hugsunarhætti.

*Framsögumaður*: Í tilliti til þess, sem hinn konúngkjörni þíngmaður áðan mælti, þá er það reyndar satt, að það stendur ekki í greininni, að forseti eigi að slá dagskránni upp, en það er regla, sem er sjálfsögð, þó hún standi ekki. Það sama gjöra og forsetar annarstaðar, þó þess sè ekki getið í reglum þeim, sem þeir hafa; en það má samt bæta því inn í, ef vill. En hvað því viðvíkur, að forseti geti ekki daginn fyrir ákveðið, hvað ræða skuli næsta dag, þá er það eitt af því, sem forseti verður að jafna við þíngmenn; því það er ómögulegt, að ná öllu svo inn í reglurnar, að ekki verði að brúka lag á báðar síður. En ástæður fyrir breytíngaratkvæði þíngmannsins frá Húnavatnssýslu get eg ekki sèð. Það er sjálfsagt komið undir smekk, og það kann að vera sparnaður, að gjöra eina grein úr tveimur; en aðrar ástæður sè eg ekki.

*Halld. Jónsson*: Orðin, sem standa í 30. gr.: „með samþykki þíngsins“, eru að minni meiníngu engum vafa undirorpin; því það er sjálfsagt sama og meiri hluti þíngmanna; samber 8. gr.; en þar sem annað er meint, er það með berum orðum tekið fram, t. a. m. í 71. gr., þar sem nefndir eru ¾ þíngmanna.

*Varaforseti*: Þar eð líka hefur verið talað um 31. gr., þá vil eg taka 32. gr. til umræðu.

*Jak. Guðmundsson*: Í þessari grein stendur, að forseti

og 1 skrifaranna skrifi undir, þegar gjörðabók er samþykkt; en mèr finnst, að betra kynni að vera, að forseti spyrði, áður en hann skrifar undir, hvort nokkur þíngmanna hafi að gjöra nokkra athugasemd við það, sem skrifað er.

*H. Stephensen*: Mèr sýnist, að greinin megi vera óbreytt án nokkurs viðauka. Allir hafa opin eyrun, þegar lesið er; sèu þau lokuð, opna þeir þau um seinan, þegar allt er búið, og segja: „Nú er rángt bókað", og er þessi viðauki með öllu óþarfur.

*Ó. E. Johnsen*: Fyrir aptan orðið „samþykkt" sýnist vanta, hvort af forseta eða þínginu.

*H. Stephensen*: Það er auðvitað af þínginu.

*Framsögumaður:* Um samþykki forseta þarf ekki að taka fram; því forseti samþykkir með undirskript sinni. Að öðru leyti er það mjög auðveld regla, að forseti spyrji þíngmenn eptir að bók er lesin: „Mælir nú nokkur á móti því, sem bókað er?" gjöri það enginn, þá er bókin samþykkt, og bóka skrifarar það.

*Halld. Jónsson*: Þíngið samþykkir með þögninni.

*Varaforseti*: Það mun optast nær ekki verða neitt að setja út á þíngbókina, og því sýnist mèr bezt, að láta það gánga af þegjandi.

*Jak. Guðmundsson*: Eg leyfi mèr að spyrja hinn háttvirta varaforseta, hvort eg ekki mætti tala nokkur orð, sem ekki verði bókuð; því þau eiga ekki heima á fundinum.

*Varaforseti*: Það get eg ekki leyft, án þess þíngið samþykki.

*Varaforseti* tók 33. gr. til umræðu.

*J. Skaptason*: Mèr sýnist betra, að það hángi saman, sem saman á. Þessi grein á við 34. gr., og er því bezt, að sameina þær; því af 33. gr. verður ekki við fyrsta álit sèð, eins og hún er nú, að hún standi í sambandi við 34. gr., og fyrst þá, þegar fyrri greininni er hnýtt aptan við þá síðari, verður meiníngin ljós, og leyfi eg mèr því að stínga upp á, að 33. og 34. gr. verði ein grein, og þannig orðuð: „Þá er lögmætur fundur, þegar ⅔ þíngmanna eru á fundi, eða fleiri; því má engin umræða eða atkvæðagreiðsla fram fara, nema á þvílíkum fundi.

*Framsögumaður:* Eg held vèr sèum allir svo góðir lagamenn, að vèr misskiljum ekki þessar greinir, og enginn sparn-

aður verður heldur við uppástúnguna; því greinin verður lengri, en þær tvær voru áður.

*J. Skaptason*: Eg er ekki að tala um nokkurn sparnað.

*Ó. E. Johnsen*: Mèr finnst tómur óþarfi að breyta greinunum.

*Varaforseti* tók 34. gr. til umræðu.

*J.* hreppst. *Jónsson*: Er það lögmætur fundur, sem konúngsfulltrúi er ekki til staðar á? Það var áður eptir þínglögunum, að hann var það ekki, en í þessari grein er ekkert tekið fram um það.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Hèr er ekki um annað að tala, en þíngsins innri tilhögun; hún kemur ekki konúngsfulltrúa við, og því getur fundurinn verið lögmætur.

*B. Jónsson:* Mèr er ekki ljóst af 34. gr., sem hèr ræðir um, hvort ¾ þíngsins eigi að skiljast um þá, er nú að eins eru til þíngs komnir, en aptur á móti á meðal þess ¼, sem vantar af þíngmönnum, sè að reikna þá, sem þjóðkjörnir eru og nú heima sitja. Mèr virðist, að engin viss ákvörðun ætti að vera hèr um í þíngsköpunum, sem bindi sig einmitt við ¾ þíngmanna, heldur eptir kríngumstæðum töluna þar í kríng.

*Halld. Jónsson:* Þeir þíngmenn, sem ekki eru híngað komnir, eru ekki lengur þíngmenn.

*Framsögumaður:* Það er einúngis um þá að tala, sem komnir eru, þegar þíng er sett. En hvað því viðvíkur, hvort fundir þeir sèu ólögmætir, sem konúngsfulltrúi er ekki á, þá er auðsætt, að það er ekki; því það hlýtur sjálfsagt að vera undir honum komið, hvort hann álítur sèr þörf að mæta eða ekki á þeim eða þeim fundi, og þyki þíngmönnum ríða á, að hann sè við, geta þeir, þegar svo á stendur, gjört honum vísbendíng um það.

*B. Jónsson*: Nú verður þíng ógilt vegna mannfæðar, hvað á lengi að bíða eptir þeim, sem forfallaðir eru?

*Framsögumaður*: Í því efni er einúngis að ræða, hvort þíngskapalögin þyki straung í því, að krefjast þess, að þrír hlutir þíngmanna skuli mæta, og ef þíngmönnum finnst svo, þá liggur næst, að bera fram um það breytíngaratkvæði.

*Þ. Kristjánsson*: Það er einmitt í þessu atriði, og reyndar á fleiri stöðum, að mèr virðast þíngskapalög þessi of straung, og áskil eg mèr því það breytíngaratkvæði, að í staðinn fyrir: „þrír hlutir þíngmanna“ setjist: „tveir þriðjúngar þíngmanna“.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Mèr finnast þau líka of straung.

*H. Stephensen*: Meðan ekki gengur sótt, eg vil segja drepsótt, er ekki hætt við, að vanti ¼ af þíngmönnum; og þá eru þau ekki of straung; annars virðist mèr, að þau eigi ekki að vera svo lin, að þau kenni þíngmönnum, að liggja heima, og finnst mèr því, að regla nefndarinnar sè góð.

*G. Einarsson*: Með tilliti til þess, sem þíngmaðurinn, er síðast mælti, sagði, er eg að öllu leyti nefndinni samdóma.

*Ó. Briem*: Ef nú ¼ þíngmanna getur sannað forföll sín, þá þyrfti að vera eitthvað til tekið um það, hvað hinir ¾ ætta að gjöra, hætta eður halda á fram þíngstörfum.

*G. Brandsson*: Mèr þykja orðin: „þrír hlutir þíngmanna", óljós, og vildi heldur að það stæði: „¾ þíngmanna".

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg er líka á því, að það standi: „¾ þíngmanna"; því að það má misskilja greinina.

*H. Stephensen*: Það er þó öldúngis rètt eptir fornu máli, að 2 hlutir sè sama sem ⅔, og 3 hlutir sama sem ¾, og finnst mèr því óþarft, að breyta þessum orðum.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg vil skjóta því til nefndarinnar, hvort hún ekki vildi bæta inn í: „þrír fjórðu hlutir".

*H. Stephensen*: Eg hef ekkert á móti því, að það sè gjört.

*Varaforseti* tók 35. gr. til umræðu.

*J. Skaptason*: Mèr er ekki ljóst, hvað nefndin meinar með „fram borin", og vildi eg biðja hana, að skýra það; sömuleiðis, hvort hún ætlast til, að hún sè fram lögð og afhent forseta undirskrifuð, ellegar að hún sè og studd af einhverjum þíngmanni.

*Framsögumaður*: Það er sú þýðíng í þessum orðum, að uppástúnga er borin fram í löglegu formi, þegar hún 1, er brèfleg, og 2, frá einhverjum af þíngmönnum sjálfum, og þá má forseti fyrst taka við henni og boða hana; en það er ekki rètt, að koma með uppástúngu einhverstaðar ofan úr hèruðum og afhenda hana forseta, heldur verður þíngmaðurinn að bera hana fram í sínu nafni. Þó er ekki sú meiníngin, að hann megi ekki taka við uppástúngum annarstaðar að, og leggja fram á lestrarsal, en þegar til umræðu á að koma, þá er það tilætlun þíngskapanna, að einhver þíngmanna beri þær fram skriflega.

*Á. Böðvarsson*: Eg vil leyfa mèr að spyrja, hvort það eigi við, að koma með uppástúngur úr hèruðum fram á þessu þíngi, sem mèr hefur heyrzt, að flestir hafi álitið að ætti að

eins að ræða um samband Íslands við Danmörku og stjórnarskipun í landinu sjálfu.

*Framsögumaður:* Jú, það álít eg fyrir mitt leyti sjálfsagt.

*H. Stephensen:* Án efa.

*Varaforseti* tók 36. gr. til umræðu.

*Jens Sigurðsson:* Eg kynni betur við, að í þessari grein stæði ákvörðunin um, að ræða uppástúnguna, á undan ákvörðuninni um, hvort hún skuli prentast; því það er eins og ræða eigi um prentun hennar, áður en menn vita gjörla efnið í henni, og að góðri uppástúngu fyrir þá sök kynni að verða hrundið.

*J. hreppst. Sigurðsson:* Það, sem hinn heiðraði þíngmaður nú mælti, var einmitt það, sem eg vildi segja, en eg vil þá einúngis bæta því við, að mèr þykir það bæði tefja fjarskamikið þíngstörfin, og helzt framan af þíngi; með því sitja þíngmenn verklausir vegna örðugleika prentsmiðjunnar; og líka kynni vegna yfirvegunarleysis eða ómögulegheita að verða hrundið jafnvel nauðsynlegum uppástúngum; líka er það óþarfakostnaður og fyrirhöfn, að hafa verið að prenta þá uppástúngu, sem menn samkvæmt 37. gr. kunna að taka aptur, eða þíngið við 1. umræðu ályktar, að ei skuli lengra gánga samkvæmt 40. gr.

*Jak. Guðmundsson:* Eptir því, sem mèr skilst, mun það hafa verið ástæða nefndarinnar fyrir þessari ákvörðun, að hún hefur viljað koma í veg fyrir lángar umræður um það, sem þíngið annars ekki vill fallast á.

*H. Stephensen:* Eg neita því ekki, að þetta hafi verið með fram tilgángur nefndarinnar, en hitt var eiginlega tilgángur hennar, og það sem henni fannst vega meira, að þegar málið hefur legið til sýnis, og allir þíngmenn hafa haft tækifæri á, að kynna sèr það, að láta þá prenta það, ef þíngmönnum sýnist það þess vert, svo að allir geti haft það fyrir sèr á borðinu og verið orðnir því gagnkunnugir við fyrstu umræðu málsins, og er auðsjáanlegt, að lángt um betra er, að ræða mál, þegar maður er orðinn því kunnugur og hefur það fyrir sèr, en undir eins og maður er búinn að heyra það. Þetta hefur þó verið svo áður, og hefur það gengið óreglulega til, og valdið mörgum óþörfum umræðum. Af þessum ástæðum finnst mèr prentunin ekki óþörf, heldur mjög svo þörf.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Mèr getur ekki betur skilizt, en það kann nú að vera misskilníngur minn, en að ekkert mál megi koma til umræðu, nema það sè áður prentað. Þetta sýnist mèr

liggja beint í orðum greinarinnar: „verði því neitað“, nefnilega að uppástúngan sè prentuð, „þá er henni hrundið“. Að prentunin orsaki mikinn og, eg held opt og tíðum, óþarfan kostnað, virðist mèr auðsætt. En um hitt geta þíngtíðindin borið eins órækan vitnisburð, sem fundarmaðurinn frá Borgarfirði, hvort prentunarskorturinn að undanförnu valdið hafi óreglu eða óþarfamælgi.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg vil leyfa mèr að stínga upp á því, til þess að bæta úr þessum óþarfakostnaði, að álitsskjöl ein prentist, en þó megi það eiga sèr stað, að þau sèu rædd óprentuð.

*Framsögumaður*: Það er auðsjáanlega meiníng nefndarinnar, að prenta skuli allar uppástúngur, sem koma til umræðu, en ekki þarf ætíð að prenta allar ástæður þeirra, heldur einúngis niðurlagið. Framsögumaður á að skýra ástæðurnar fyrir þíngmönnum, og greina þeim frá grundvelli hennar; en þeir, sem vilja hugsa um málið, hafa uppástúnguna fyrir sèr, og geta líka leitað sèr upplýsíngar hjá uppástúngumanninum sjálfum, sem veit allar ástæður hennar. Þessi aðferð, að láta prenta allt, er ekki til að stytta umræður, heldur geta þær, ef til vill, orðið lengri, en þær verða betri. Allir sjá, að þessi tilhögun er nauðsynleg, svo að allir geti gengið að málinu vakandi, og þurfi ekki að vera að spyrja sig fyrir um eitt eður annað, sem kemur svo við stundum, að aðrir geta ekki annað en brosað að því, að mönnum skuli detta í hug, að spyrja um slíkt. Eg get ekki heldur betur sèð, en prentsmiðjan hèrna sè í því standi, að komast megi að henni með það, sem þarf að láta prenta, svo ekki verði neinn tálmi frá þeirri síðu. Alstaðar annarstaðar eru mál búin svona undir, áður en farið er að hugsa til að ræða þau.

*Varaforseti* tók síðan 37. gr. til umræðu; og þar engin umræða varð um hana, þá 38. gr., og því næst 39. gr.

*P. Melsteð:* Eg vil leyfa mèr að spyrja nefndina, hvort að með „lagafrumvarpi“ sèu líka meintar uppástúngur.

*Framsögumaður*: Hèr er talað um frumvörp, en í 50. gr. um uppástúngur.

40. og 41. gr. teknar til umræðu.

*Framsögumaður:* Það er hèr eitt atriði, sem verið gæti efasamt, hvort vel ætti við í þíngsköpunum, þar sem þau gjöra nú ráð fyrir, að fyrsta umræða sè til lykta leidd, áður en nefnd

sè kosin. Það kom til tals í nefndinni, að stínga upp á þeirri aðferð, að þíngið mætti, ef því sýndist, setja nefnd, áður en mál kemur til fyrstu umræðu; því ef fyrsta umræða fer fram, áður en nefnd væri sett, geta umræðurnar bæði orðið ólögulegri og málin miður rædd, þar sem slíkt mundi fara skipulegar fram og verða áreiðanlegra, ef nefndin væri áður kosin, og menn þannig væru búnir að kynna sèr málefnin. Þess vegna var og um það talað í nefndinni, að vel mundi eiga við, að búa til nýja grein, er ákvæði, að hlutfallsnefnd mætti setja í málefnin á undan fyrstu umræðu. Því þó að slík ákvörðun sýnist máske liggja í 48. gr., þótti nefndinni það ekki nógu ljóst. Vil eg nú skjóta því til þíngmanna, hvort þeir aðhyllast, að slíkri grein sè við bætt.

*G. Einarsson:* Eptir mínum skilníngi á præði frumvarpsins, má greinin standa óumbreytt.

*Jak. Guðmundsson:* Eptir tilætlun nefndarinnar með hlutfallsnefndirnar kann eg betur við, að greininni, sem framsögumaður stakk upp á, sè bætt inn í, og einkum held eg það komi vel við, þegar um mikilvæg málefni er að gjöra; því nefndin hefur líklega ætlazt til, að hver flokkur ræddi aðalatriði málefnanna. Við það kynnast þíngmenn málefnunum, og geta betur sèð, hverjir færastir eru til þess, að verða kosnir í nefndir, til að semja álitsskjöl. Eg verð því að mæla fram með því, að greininni sè bætt við.

*H. G. Thordersen:* Mèr getur þó ekki fundizt viðbætirinn öldúngis nauðsynlegur; því mèr þykir það nægja, eins og framsögumaðurinn benti til, sem til er tekið í 48. gr. Hún bindur ekkert hendurnar á þíngmönnum; þeir geta strax óskað þess eptir henni, að nefnd sè kosin, þegar þörf þykir. Mèr fyrir mitt leyti þykir ekki þörf á viðbótinni.

*Jak. Guðmundsson:* Það gæti verið athugavert, hvað hlutfallsnefndirnar snertir, að ef 2 eða 3 aðalmálefni koma fyrir undir eins, hvort þá eigi að kjósa nýja hlutfallsnefnd í hvert þeirra, eða afhenda þau þeirri hlutfallsnefnd, sem þegar væri kosin.

*Framsögumaður:* Þetta er að vísu satt; en nefndin ætlaðist ekki til, að tilhögun hlutfallsnefndanna væri stöðug regla, sem gengi í gegnum allt þíngið, heldur að þær væru settar í öllum hinum mikilvægari málefnum, svo að þíngmönnum gæfist færi á, að kynna sèr þau. Og af þessu flýtur, að það er komið undir ákvörðun þíngsins í hvert skipti.

*G. Einarsson*: Eins og mèr fannst það ljóst, sem hinn háæruverðugi konúngkjörni þíngmaður áðan sagði, eins finnst mèr það óljóst, er þíngmaður Reykvíkínga mælti áðan. Eg held, að orðið „hlutfall" hafi gjört villu í meiníngu hans.

*L. Johnsen*: Eg held, að greinin ætti að standa óbreytt. Það yrði tímatöf að því, ef nefnd væri ekki undir eins kosin, og það er líka athugavert, að við það kynni að aukast kostnaður; því nú eru þegar nokkrir dagar liðnir af þíngtímanum, án þess að mikið hafi verið af hendi leyst, en kostnaðurinn mikill orðinn.

*Jón Guðmundsson*: Eg held, að þeir, sem mæla á móti því, að nýrri grein sè við bætt, skilji ekki glögglega frumvarpið. Það er þó auðsætt, að í öllum mikilvægum málefnum, og eins hinum konúnglegu frumvörpum, á flokkaskipunin vel við, til þess að þíngmönnum verði hægra fyrir, að kynna sèr þau. Ef slík mikilvæg mál væru rædd í fyrsta sinn, áður þeim væri vísað til hlutfallsnefnda, en þetta liggur þó beinast við eptir frumvarpinu, eins og það er nú, þá ætla eg, að sú umræða yrði að engu liði. Framsögumaður hefur raunar bent til þess, sem sagt er í 48. gr., en þar er að eins talað um „að kjósa nefnd í mál", en þetta er allt annað, en að vísa málinu til hlutfallsnefnda. Mèr finnst því afar-nauðsynlegt, að búa til nýja grein, svo að flokkaskipunin komist á sem allra fyrst. Þíngmenn vilja ekki spilla tímanum, og með þessu móti sparast einmitt fyrsta umræða, þángað til flokkarnir eru búnir að ræða málið og þíngmenn eru færir um það.

*Á. Einarsson*: Viðaukinn við 40. gr., sem framsögumaður stakk upp á, hefur og vakað fyrir mèr, og gef eg atkvæði mitt fyrir honum, þegar til þess kemur; því mèr finnst hann öldúngis nauðsynlegur, og áskil eg mèr breytíngaratkvæði á þá leið, ef framsögumaður hefur ekki gjört það.

*P. Pètursson:* Eg fyrir mitt leyti held það ætti ekki illa við, að þíngið allt ræddi um efnið í stjórnarfrumvörpunum, áður en hlutfallsnefndir væru kosnar; því eg ímynda mèr, að þá kæmi fleiri stefnur fram, en í hlutfallsnefndunum yrði, og eg álít það vel til fallið, að fleiri stefnur komi fyr en síðar í ljós. Í hlutfallsnefndunum þar á móti, ef frumvörpunum væri undir eins vísað þángað, yrði aptur hættara við, að vissar skoðanir ryddu sèr til rúms, og að yfirlitið yfir aðalefnið yrði ófrjáls-

ara og meir bundið. Þess vegna finnst mèr ekki nauðsyn á nýrri grein, einkum með tilliti til 48. gr.

*Á. Einarsson*: Eg er hræddur um, að það sè lángt um hættara við, að fastar skoðanir láti sig í ljósi, og bindi hendur á mönnum, ef málið er rætt, áður en gengið er í hlutfallsnefndir. Umræðurnar er þá ekki hægt að aptur kalla; þær eru orðnar opinberar, í stað þess þær fara heimuglega fram í deildunum.

*J.* bóndi *Jónsson*: Eg er öldúngis samþykkur þeim þíngmanni, sem seinast talaði.

*Jak. Guðmundsson*: Það er bæði sú skoðun, er þíngmaðurinn frá Strandasýslu lèt í ljósi, og sú ástæða, að á meðan málefnið er ókunnugt, veitir fáum mönnum hægra, að koma sèr niður á því, er mèr virðist mæla fram með viðaukagreininni. Því þegar þíngið allt ræðir málið, geta margar ólíkar stefnur komið í ljós, sem lítið skýra málefnið.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg er á sama máli og þíngmaðurinn, sem nú talaði.

*S. Gunnarsson*: Eg mæli alvarlega fram með hinni nýju grein. Skoðanirnar munu að minni ætlun fremur lagast og skýrast í hlutfallsnefndunum, svo menn geta komið fram hèr á þínginu því betur undir búnir.

*P. Sigurðsson*: Þessu er eg öldúngis samþykkur; því hlutfallsnefndanna tilgángur er, að samandraga meiníngar þíngmanna.

*Halld. Jónsson*: Eg álít það nú ekki skaðlegt, að fleiri skoðanir láti sig í ljósi; en nefndin áleit það aðalkost við hlutfallsnefndirnar, að meiníngar manna yrðu betur grundvallaðar, og þíngmenn færari um að gegna mótmælum.

*G. Brandsson*: Eg held og, að hlutfallsnefndirnar mundu bera sig saman, og mótbárur þá síður koma fram á þínginu.

*J.* bóndi *Jónsson*: Sá er og kostur við hlutfallsnefndir, að menn kynnast þar hverjir öðrum, og verða svo eptir á færari að kjósa þá menn í nefnd, sem skynsamlegasta og frjálslegasta skoðun hafa á málefnunum.

*Varaforseti* gat þess, að umræðurnar áttu bæði við 40. og 41. gr., og skyldi þá næst taka 42. gr. til umræðu.

*M. Austmann*: Mèr finnst grein þessi vera nokkuð óljós.

*J. Skaptason*: Það, sem eg hef á móti þessari grein, er það, að hún sè óþarflega slitin úr samanhengi frá þeirri næstu;

og setta þær báðar að vera ein grein, og þannig sleppa fyrir óþarflegri málalengíngu. Byrjun 42. gr. kemur hèr líka nokkuð óeiginlega við, því um hlutfallsnefndir er áður getið í 21. gr., og þurfti því ekki að nefna þær hèr aptur. Það er nú í þriðja sinni, sem eg leyfi mèr að taka mèr breytíngaratkvæði á þá leið, að 41. og 42. gr. samtengist þannig í eina grein: „Ef þíngið samþykkir, að málið skuli lengra gánga, og nefnd skuli setja, skal hana kjósa, annaðhvort úr þínginu sjálfu eingaungu, eða þíngið skal kjósa nokkra og nefndarflokkarnir hina".

*Jak. Guðmundsson:* Það er eitt, sem mèr finnst óljóst í greininni, máske það sama og þíngmanninum frá Vestmannaeyjum, en það er, hvort hver hlutfallsnefnd fyrir sig, eða allt þíngið í einu lagi, skal ákveða, hvort rita eigi álitsskjal eða ekki.

*Framsögumaður:* Eg þreytti máske þíngið með því, að fara að útskýra grein þessa, af því þeir munu vera fáir, sem ekki skilja hana. En þíngmanninum frá Vestmannaeyjum er eg fús á að gefa þær upplýsíngar um hana, sem eg get, heima hjá mèr.

*J.* hreppst. *Jónsson:* Eg vildi helzt óska, að framsögumaður skýrði greinina undir eins hèrna á þínginu.

*Framsögumaður:* Hvað er það þá í greininni, sem er óljóst? er hún það öll, eða ekki nema sumt í henni?

*J.* hreppst. *Jónsson:* Mèr finnst greinin vera óljós eptir því sambandi, sem hún er í við 21. grein; því þar er að skilja, að hlutfallsnefndir skuli ekki rita álitsskrár, en í þessari grein sýnist það mega eiga sèr stað.

*Framsögumaður:* Mótsögnin, er vera sýnist milli þessara greina, hverfur, þegar þær eru bornar saman. Í 21. gr. er einúngis lýsíng á hlutfallsnefnd, og hversu hana skuli setja, en í 42. gr. er sagt frá, hvernig að er farið, ef kjósa á nefnd til að rita álitsskjal. Þegar á að útlista 42. gr., verður maður fyrst að gá að sambandi hennar við 41. gr., því þar er sagt fyrir, að leita úrskurðar um, hvort málið skuli lengra fara, hvort nefnd skuli setja, og hvernig; tekur þá 42. gr. við, og sker úr þessu. Það er ekki tilgángur hlutfallsnefndarinnar, að rita álitsskjöl, eptir því sem þegar er sagt í 21. gr., heldur að ræða málið, og taka þátt í nefndakosníngu, ef þíngið ákveður, að svo skuli vera. En nefndarkosníngin sjálf getur farið fram á þrennan hátt. Annaðhvort svo, að kosið sè úr

flokkunum einum, eða bæði úr þeim og þínginu, eða og úr þínginu einsömlu. Nefndinni leizt ekki að fara fram á hina fyrstnefndu kosníngaraðferð; því þá væri hætt við, að takmarkaðri skoðanir lètu sig í ljósi; en henni þótti ekki þörf, að beina þeim veg til að koma fram, nema ásamt með öðrum frjálsari eða yfirgripsmeiri, eins og verða mundi eptir hinni annari og þriðju kosníngaraðferð; þess vegna hefur og nefndin einúngis stúngið upp á þessum tveimur. Eg tek til dæmis, að þíngið vildi setja hlutfallsnefnd í stjórnarmálefni Íslands; þá kynni það að vilja, að fram kæmi sem mest bæði almennar og einstaklegar skoðanir. Eptir 42. gr. kýs það þá nefnd, t. a. m. 9 manna nefnd; þá má haga skipun kosníngarinnar eptir því, hversu mjög menn vilja beina hinum einstaklegu skoðunum veg, sem menn kynnu að gjöra ráð fyrir að mundu myndast í flokkunum, og geta þá t. a. m. 6 verið kosnir af öllu þínginu og 3 úr hlutfallsnefndum, sinn úr hverri, eða þá 6 úr þeim og 3 úr öllu þínginu.

*G. Einarsson*: Eg held, að allur vafi færi af greininni, ef bætt væri inn í „af þínginu" á undan „ákveða".

*Þ. Sveinbjörnsson*: Það fer fyrir mèr, eins og þíngmanninum úr Suðurþíngeyjarsýslu, að mèr finnst vera mótsögn milli 21. og 42. gr. Í fyrri greininni er talað um, að nefndin riti ekki álitsskjöl, en í seinni greininni stendur: „þá skal ákveða, hvort álitsskjal á að rita". Annars er mèr það óljóst, hvaða gagn þessar hlutfallsnefndir muni gjöra, eins og yfir höfuð öll bygging þeirra og áhrif á þíngið. Eg játa að sönnu, að eg er slíku ókunnugur, en það veit eg, að sömu mennirnir eru í hlutfallsnefndinni, og á þínginu. Samt vil eg ekki mótmæla hlutfallsnefndinni, en fellst á meiníngu þíngmannsins úr Suðurþíngeyjarsýslu.

*Framsögumaður*: Mismunurinn á greinunum er sá, að 21. gr. segir, hvernig setja skuli hlutfallsnefnd, og segir hún riti ekki álitsskjöl, en 42. gr. segir fyrir, hvern þátt sú hlutfallsnefnd geti aptur átt í, að kjósa menn til að semja álitsskjöl.

*H. Stephensen*: Mótsögnin er alls engin, þegar greinirnar eru bornar saman. 21. gr. segir, að hlutfallsnefndin „riti ekki álitsskjöl", en 42. gr., „að nefnd skuli kjósa" til þess.

Þá var 43. gr. tekin til umræðu.

*J. hreppst. Sigurðsson*: Mèr finnst 43. gr. líks eðlis og 36. gr.; hún gjörir það að skyldu, að prenta álitsskjölin, en mèr

virðist, að málið geti komið til fyrstu umræðu óprentað, ef svo stæði á, að prentunin væri ómöguleg, og geymi eg mèr viðaukaatkvæði á þá leið.

*Framsögumaður*: Þegar svo á stendur, verða menn að fara eptir 71. gr.

*P. Sigurðsson*: Tíminn er hèr óákvarðaður, og þykir mèr þess vegna greinin ekki ljós

*Framsögumaður:* Það er reyndar satt, en nefndinni þótti ísjárvert, að ákveða tímann. Það vantaði reynslu í því efni, og henni þótti fara bezt á því, að láta það vera komið undir forseta og skrifurum þíngsins og sjálfum þíngmönnum. Menn hafa annars opt í slíkum tilfellum til tekið 2 eða 3 sólarhrínga. En slík tímaákvörðun getur átt misjafnlega vel við. Ef tíminn væri ákveðinn, mundi þurfa opt að grípa til 71. gr.

*P. Sigurðsson*: Eg læt mèr þetta lynda.

Um 44. og 45. gr. urðu engar umræður, og var þá 46. gr. tekin til umræðu.

*G. Vigfússon*: Eg skýt því til nefndarinnar, án þess að áskilja mèr breytíngaratkvæði, hvort hún álítur, að athugasemd mín við þessa grein geti tekizt til greina. Mèr virðist, að þíngmenn geti lent í vafa um, hvernig þeir eiga seinast að greiða atkvæði, og jafnvel komizt í mótsögn við sjálfa sig. Eg set, að 2 mikilvæg atriði sèu borin upp til atkvæðagreiðslu; þíngmenn skiptast í 3 flokka hèr um bil jafna. Á fyrra atriði fallast 1. og 2. flokkur, en 3. flokkur neitar; á seinna atriði fallast 2. og 3. flokkur, en 1. flokkur ekki. Sè síðan spurt, hvort þíngið vilji, að þetta sè þannig allt lögleitt, þá er auðsèð, að miðflokkurinn fellst á hvorttveggja atriðið, en 1. og 3. flokkur einúngis sinn á hvort, og varð því niðurstaðan, að einúngis ⅓ fèllst á hvorttveggja atriðið, en ⅔ gátu ekki fallizt á þau; því vilji þeirra varð á víxl. Það er auðsjáanlegt, að því fleiri slík atriði sem upp eru borin, því hættara er við, að þíngmenn ruglist í atkvæðagreiðslunni. Eg vil biðja nefndina, að athuga, hvort þetta muni ekki geta truflað í atkvæðagreiðslunni síðast, eður hvort það muni hægt, að ráða bót á því, ef svo yrði.

*Framsögumaður*: Það er að vísu mikið hæft í því, er þíngmaðurinn sagði, sem nú settist niður; en nefndin hefur ekki enn borið sig saman um þetta mál. Það er að sönnu búið svo rammlega um hnútana við seinustu umræðu, sem unnt er, í frumvarpi nefndarinnar, en þó gæti verið nauðsyn fyrir

þíngið, að líta yfir málin eptir 3. umræðu, og verður sá upplestur eins konar 4. umræða.

*P. Pètursson:* Mèr finnst ekkert athugavert við þessa grein; því þó að ⅓ atkvæða falli á móti, þá er auðvitað, að minni hlutinn verður að gefa sig undir meiri hlutann, og fyrir því þarf naumast ráð að gjöra, að meiri hlutinn felli aðalmálið, þó hann hafi ekki fallizt á eitthvert lítilfjörlegt breytíngaratkvæði.

*G. Vigfússon:* Eg held, að hinn konúngkjörni þíngmaður, sem nú settist niður, hafi ekki skilið mig fullkomlega. Atkvæðagreiðslan fer á víxl, svo að þriðjúngarnir hljóta í einstökum atriðum að mótsegja sjálfum sèr, nema sá eini þriðjúngur, sem fellst á hvorttveggja atriðið.

*J.* hreppst. *Jónsson:* Eg vil spyrja, hvort mèr sè ekki leyfilegt að minnast á 44. gr., þó umræðurnar sèu komnar fram fyrir hana.

*Varaforseti:* Eg verð að skjóta því til atkvæða þíngsins.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Má það ekki bíða, þángað til 66. gr. verður rædd?

*J.* hreppst. *Jónsson;* Nei; því hún stendur ekki eiginlega í neinu sambandi við hana, heldur hina 40.

*Varaforseti:* Það getur þó valdið óreglu, að fara nú að ræða greinina, nema hún tengist við einhverja aðra grein. Annars er það komið undir þínginu.

*J. Skaptason:* Mèr finnst það vera rímilegt, að lofa honum það.

*J.* hreppst. *Jónsson:* Við fyrstu umræðu eptir 40 gr. eru málin rædd í heild sinni, og engar einstakar greinir þess, en við aðra umræðu í pörtum, eður hver grein fyrir sig, og þá finnst mèr, eptir hinni 44. gr., að upp eigi að bera fyrst og ræða breytíngaratkvæði allt í einu, og gánga til atkvæða um þau; finnst mèr þá tíminn ekki nægur til þess fyrir þíngmenn, að átta sig á þeim, áður til atkvæða sè gengið, þar ekki er heldur víst, að málin komi með neinni breytíngu til hinnar þriðju umræðu, ef atkvæði falla móti því.

*Framsögumaður:* Nefndin hefur hugsað sèr, að á milli 1. og 2. umræðu sè álitsskjöl rituð og uppástúngur nefndanna, sem síðan væri prentað, og er þá þíngmönnum hægt, að bera upp breytíngaratkvæði í tíma, þegar þeir eru búnir að kynna sèr málið. Forseti getur verið búinn að láta prenta, áður en

önnur umræða byrjar. En það er lokleysa, að hafa tvær umræður aptur á bak og á fram atkvæðalausar, eins og hèr hefur við gengizt að undanförnu. Þetta er líka tíðkanlegt á þíngum annarstaðar; málefnin skýrast við það, og standa eins og fullsteypt fyrir þíngmönnum á endanum.

*J.* hreppst. *Jónsson:* Er það þá tilgángur nefndarinnar, að málefnunum, sem búið er að gánga til atkvæða um við aðra umræðu, verði breytt við 3. umræðu?

*Framsögumaður:* Það er sjálfsagt, og kemur fyrir á öllum þíngum.

Þá var 47. gr. tekin til umræðu.

*Á. Böðvarsson:* Mèr finnst það leggja of mikil bönd á þíngmenn, að mega ekki taka optar til máls en tvisvar við 1. og 3. umræðu, og of hart í samanburði við 6. gr., þar sem leyft er, að tala svo lengi sem vill; þess vegna vil eg leyfa mèr að stínga upp á, að við 3. umræðu mætti tala þrisvar; því eg get vel ímyndað mèr, að þíngmönnum geti komið eitthvað gott til hugar á meðan á umræðunum stendur, er þeir ættu að eiga kost á að geta látið í ljósi. Mèr finnst líka eitthvað sundurleitt í því, að takmarka svo mikið, *hve opt*, en ekkert, *hve lengi.*

*G. Brandsson:* Í 6. gr. er leyft, að tala svo lengi *í senn*, sem hver vill, og er það bót í máli.

*Á. Böðvarsson:* Það er samt of mikið í samanburði við þessa grein; því þíngmaður gæti lengi verið að tala í senn, án þess að fara út fyrir efnið, og án þess að koma með nokkuð nýtt.

*G. Einarsson:* 57. gr. bætir úr þessu nokkuð.

*Framsögumaður:* Það getur verið ísjárvert, að losa svo um umræðurnar, eins og lítur út fyrir að þíngmaðurinn frá Snæfellsnessýslu vilji, að hver megi tala eins opt og hann vill. Það getur að sönnu vel verið, að þíngmanni detti seinna eitthvað gott í hug, en það getur líka orðið eptir það, að hann er kominn upp í sveit, og þíngið getur þó ekki beðið eptir því. Tilgángurinn er, að hvetja þíngmenn til, að setja sig fljótt inn í málefnin, hugsa þau vandlega, og láta sèr detta sem flest gott í hug, meðan málið er í umræðu.

*P. Pètursson:* Það er óneitanlega tilgángur góðra þíngskapa, að halda við góðri reglu, einkanlega í umræðunum, og til þess miðar greinin, enda virðist það og vera nóg leyfi, að mega taka tvisvar til máls við 1. og 3. umræðu, og það því

heldur, sem hverjum er heimilt, að tala svo lengi sem hann vill í senn. Hugkvæmist þíngmanni eitthvað nytsamlegt á eptir, þá getur hann beðið annan þíngmann, sem ekki er búinn að tala, að taka það upp og bera það fram.

*Á. Böðvarsson*: Eg er samþykkur hinum heiðraða framsögumanni og hinum háttvirta konúngkjörna þíngmanni, er seinast talaði. En mèr virðist þó, að umræðufrelsið sè of takmarkað eptir þessari grein, í samanburði við tölufrelsið í 6. gr.

*Halld. Jónsson*: Meðan sami maðurinn talar skynsamlega, þá er gagn að því fyrir þíngið. En þegar hann fer að taka upp aptur og aptur það sama, má ætla, að forseti gleymi ekki, að vísa honum til reglu.

Þá var 48. gr. tekin til umræðu.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Mèr finnst að sönnu það vanta í þessa grein, að ákveða, hve nær nefnd skuli kjósa, hvort heldur við 1. eða 2. umræðu, en eg læt mèr það lynda, sem framsögumaður hefur áður um það talað því til skýríngar.

*Þ. Sivertsen*: Það væri æskilegt, að bæta því við, hver frestinn á að setja, forsetinn eða þíngið.

*Framsögumaður*: Það er sjálfsagt, að forseti eða einhver þíngmanna stíngur upp á frestinum, en þíngið setur hann.

*G. Brandsson*: Eg vildi mega breyta einu orði í greininni, og setja „í það" í staðinn fyrir „í mál".

*Framsögumaður*: Orðið „það" gæti þá eins vel svarað til „þíng" eins og „mál", og yrði þá meiníngin, „að kjósa nefnd í þíngið".

*G. Brandsson*: Þannig held eg sè ómögulegt að skilja það.

Þá var 49. gr. tekin til umræðu.

*Jak. Guðmundsson*: Mèr finnast orðatiltækin óljós, hvað seinna tilfellið snertir. Það er að sönnu skiljanlegt, þegar tíminn er ákveðinn, en þegar tíminn er óákveðinn, er ekki hægt að sjá, hvort forseti eða þíngið skuli ákveða hann.

*Framsögumaður*: Það liggur þá beint við, að málið bíður þángað til það kemur næst á dagskrána.

Þá var 50. gr. tekin til umræðu.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg vil einúngis leyfa mèr að spyrja, hvort ekki mundi nægja, að ræða álitið eða uppástúnguna á einum fundi, eða hvort það þurfi endilega tvær umræður til þess.

*P. Pètursson:* Eg leyfi mèr að gjöra þá athugasemd, að mèr virðist nauðsynlegt, að ræða um uppástúngur fari tvisvar fram; því fyrst, er menn tala um eitthvert mál, þá má vel vera, að það sè ógreinilegt, af því hugsanirnar eru enn ekki orðnar eins ljósar, og ef menn hefðu velt málinu lengur fyrir sèr, en í síðari ræðunni má vera, að þær komi ljósar og skýrar fram, og álít eg því tvítekna umræðu málefnanna vera ómissandi.

*J.* hreppst. *Sigurðsson:* Mèr finnst tíminn vera óákveðinn, og vildi eg óska þess, að nefndin til tæki nákvæmara um það.

*Framsögumaður:* Eg get ekki betur sèð, en greinin sè nógu ljós; það er hægt að skilja af henni, að ekki liggur annað fyrir, en að leggja bænarskrána fyrir þíngið eða uppástúnguna, og ræða hana tvisvar, og sè eg ekkert vafasamt í þessu efni.

51. gr.

*M. Stephensen:* Hvað þessa grein áhrærir, þá finnst mèr það eðlilegt, að málið falli, þegar menn eru búnir að samþykkja þá uppástúngu, sem greinin talar um; en hitt lízt mèr síður eiga við, er seinast stendur í greininni, að menn megi stínga upp á, að þíngið taki til dagskrár sinnar, því það er sjálfsagt, og finnst mèr það ekki eiga hèr við.

*Jens Sigurðsson:* Eg held, að greinin mundi verða ljósari, ef hún væri höfð svona: „þá má annaðhvort stínga upp á" . . . . . „eða menn stínga upp á, að þíngið" . . . . „og verði annaðhvort samþykkt, er málið fallið."

*Framsögumaður:* Greinin er fullkomlega skiljanleg; summum þíngmönnum kann að virðast, að ekki eigi að halda á fram einhverri uppástúngu, annaðhvort af því hún sè skaðleg, eða annara hluta vegna. Ef menn vilja ekki halda umræðu á fram, þá eru tveir mátar, sem menn geta haft, til að hætta með; hinn fyrri er sá, að menn heimta frávísun málsins, en hinn seinni er sá, að stínga upp á, að taka til dagskráarinnar; þetta eru almennir og venjulegir mátar; og undir eins og menn vita, að þeir gilda hjá öllum, þá munu menn ekki villast á því. En hitt hefur nefndin sjálf fundið, að hinn síðari mátinn þarf ekki að ákveða fall málsins, heldur liggur hitt nær, að menn vilji þá ekki ræða málið þann dag, heldur einhvern annan dag, og ræða önnur mál fyrri.

*G. Vigfússon:* Það var einmitt þetta seinasta atriði greinarinnar, sem eg var í nokkrum vafa um, og virtist óljóst, að-

ur en eg bar mig saman um það við nokkra nefndarmenn, sem ekki voru fjærri, að svo væri, og eg hugði þess vegna að tækju það til greina í nefndinni síðar.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Er ekki nægilegt, að segja: „þá má stínga upp á“ ...., og sleppa þessu: „verði það samþykkt, fer á sömu leið“?

*Framsögumaður*: Það ætti þá helzt að koma í aðra eða nýja grein.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Það líkar mèr vel.

53. gr.

*Konúngsfulltrúi*: Eg verð að gjöra þá athugasemd, að grein þessi getur ekki innihaldið neina reglu fyrir konúngsfulltrúann; því þíngið á ekki með, að binda hann reglum sínum, en annars veit eg ekki, hverja þýðíngu þíngið hefði lagt í orðið: „stjórnarinnar erindisreka“, eða hvort þýðíng þess er hin sama sem „konúngsfulltrúi“; því í þessum eiginlegleika verð eg að álíta mig að hafa myndugleika til að mæta á þíngi þessu, eins og eg yfir höfuð að tala verð að álíta, að eg sè ekki öðrum reglum háður í þessu efni, en þeim, sem tilsk. 8. marz 1843 til tekur.

*Framsögumaður*: Menn vita þó, að þegar stjórnarbreytíngin varð í Danmörku í marzm. 1848, þá var stjórn ríkisins til tekin og ákvörðuð undir nýrri mynd, og lögð undir stjórnarherra, sem ábyrgjast skyldu stjórnaraðferðina; undir þessa menn voru lögð mál Íslands, eins og önnur. Nú hefur konúngur gefið þjóðstjórnlegar stjórnarreglur fyrir ríkið, og þó eigi sè komin nein regla hèr til sýnis, það er að segja, sem fullkomlega ákveði stjórnaraðferð á málefnum þessa lands, þá er það ekki meira en eðlilegt, að sú regla, sem sett er fyrir ríkið, megi einnig gilda hèr á landi, að svo miklu leyti, sem hún er almenn grundvallarregla allrar þjóðlegrar stjórnar; því það vill konúngur án efa, að vèr njótum eins mikils frelsis, og hinir aðrir þegnar hans; þar af leiðir, að þíngið verður að fá upplýsíngu hjá erindisreka konúngs um ýmsa hluti, en það er hið sama, og menn leituðu erindisreka stjórnarinnar; og það, að leggja sömu merkíngu í þessi tvö orðatiltæki, var vilji og meiníng nefndarinnar. Það er auðráðið, að konúngur getur ekki verið kunnur öllum málum hèr á landi, en erindisreki hans hlýtur að vera það. Allir vita, að málin gánga eiginlega í gegnum stjórnarherrana, og þeir eru, ásamt konúngi, höfuð-

mennirnir í ráðunum, og verða ekki að greindir, þegar menn líta á eðli stjórnarinnar sjálfrar; þess vegna er konúngsfulltrúi líka fulltrúi stjórnarinnar.

*Konúngsfulltrúi:* Það er þó í augum uppi, að konúngur hefur enga ábyrgð, og að konúngsfulltrúi er erindisreki konúngs, en ekki stjórnarinnar.

*Framsögumaður:* Hèr er ekki talað um ábyrgð, en hitt er auðsætt, að öll fyrirspurn verður til lítils, ef enga upplýsíngu er að fá.

*Konúngsfulltrúi:* Hverri fyrirspurn, sem fundurinn gjörir áhrærandi frumvörpin, mun verða svarað eptir því sem faung eru á, en aðrar upplýsíngar getur fundurinn ekki heimtað, þar hann ekki er löggefandi, og stendur það enn, sem þar um er til tekið í tilsk. 8. marz 1843.

*Jón Guðmundsson:* Það er nú að vísu váfalaust, að konúngur hefur ekki sagt af sèr einvaldsdæminu hèr í landi, en hitt er eins vafalaust, og það er fullkunnugt bæði konúngsfulltrúa og líka öllu þínginu, að margar ráðstafanir hafa verið gjörðar fyrir þetta land beinlínis undir nafni ábyrgðar ráðherranna, sem hafa verið í Danmörku síðan stjórnarbótin komst þar á, um þá hluti, sem áttu undir sjálfan konúnginn, þegar hann var einvaldur. Og það er einkum um ýmsar þess konar ráðstafanir stjórnarinnar, sem þjóðfundinum mundi helzt þykja þörf á að gjöra fyrirspurnir til konúngsfulltrúa; en hann, sem er æðsti maður hinnar dönsku stjórnar hèr á landi, hlýtur að geta gefið um það nægar upplýsíngar.

*Framsögumaður:* Mèr sýnist það merkilegt, og ekki sem frjálslegast, að þetta þíng ekki skuli fá að njóta sömu rèttinda og þíng í Danmörku, sem líkt stóð á fyrir; því þá er hið fyrsta ríkisþíng var haldið, var konúngur ekki búinn að afsala sèr einveldið, og þó vísuðu ráðherrarnir ekki til hans; þeir sögðu ekki: „Spyrjið þið konúnginn, en ekki okkur, því hann er einvaldur"! — nei, heldur tóku þeir sjálfir málin að sèr; þeir svöruðu spurníngum, gáfu upplýsíngar um ýms málefni, og allt þetta gjörðu þeir eptir enn frjálslegri reglum, en nefndin hefir stúngið upp á hèr; nefndin áleit því, að þessu þíngi mundi gefast kostur á, að fá upplýsíngar hjá konúngsfulltrúa um það, sem snertir þetta land, álíkt og menn gátu fengið upplýsíngu hjá ráðgjöfunum í Danmörku, áður en konúngur afsalaði sèr einveldið.

*G. Brandsson:* Mundi það ekki vera misskilníngur af herra konúngsfulltrúanum, að heimfæra tilskipunina frá 8. marz 1843 til þessa fundar? hún er gefin fyrir alþíngi, en þessi fundur er ekki það, eins og flestum mun vera ljóst.

*Framsögumaður*: Það er satt, að það voru lög fyrir þíngmenn á alþíngi, að þeir mættu spyrja sig fyrir hjá konúngsfulltrúa í umræðum málanna, en þessi grein er sett til þess, að menn komi ekki að konúngsfulltrúa óvörum, svo hann fái ekki tíma til að svara; annars kynni einhver að koma, til dæmis, og bera allt í einu upp spurníngu fyrir konúngsfulltrúa, og segja: „Má eg nú spyrja yður, herra konúngsfulltrúi, hvernig er máli þessu varið"? þá getur konúngsfulltrúinn sagt: „Nú, þetta er undarlega fram sett, að spyrja þess svona í snatri"; eða annar getur komið, og sagt: „Herra konúngsfulltrúi! má eg spyrja yður, hvernig eru ástæðurnar fyrir þessu máli?" — Þá segir konúngsfulltrúinn: „Já, það get eg ómögulega sagt yður núna, en eg skal gæta að því, og segja yður það seinna", og margt fleira þessu líkt getur viljað til. Það er auðvitað, að allar þess háttar upplýsíngar eru komnar undir því, hvað hann veit vel, og hvað frjálslyndur hann er. Nefndin hefur öldúngis ekki meint, að konúngsfulltrúi skyldi geta svarað upp á allar þær spurníngar, sem fyrir hann kynnu að verða lagðar. Ef að nefndin hefði orðað greinina svo, að erindisreki stjórnarinnar væri skyldur að svara hverju því, sem hann væri spurður um, þá skyldi eg játa, að konúngsfulltrúi hefði nokkuð til síns máls, en nú get eg ekki játað það, þar eð greinin sjálf ber með sèr, að hún segir þíngmönnum fyrir, hversu þeir eigi að spyrja, en alls ekki konúngsfulltrúa, hvernig hann eigi að svara.

*Konúngsfulltrúi*: Sem reglu fyrir fundarmenn hef eg ekkert á móti greininni.

54. gr.

*G. Einarsson*: Samkvæmt umræðum um 44. grein áskil eg mèr það breytíngaratkvæði, að greinin hljóði þannig: „Breytíngaratkvæði öll skulu vera skrifuð með nafni, og fengin forseta á þeim tíma, sem boðaður verður; skulu þau af honum verða lögð fram til yfirlesturs þíngmanna, áður" o. s. frv.

*Framsögumaður*: Það er óþarfi, samkvæmt því sem stendur í 43. gr., og það hefur mönnum nú þegar komið saman um.

56. gr.

*G. Brandsson*: Er það meiníngin í því, sem talað er í

greininni um frávísun breytíngaratkvæða, að þeim sè vísað frá, áður en farið sè að ræða um þau?

*Framsögumaður*: Já, eins og stendur í 56. grein; það getur opt verið, að menn vilji hleypa breytíngaratkvæðum til umræðu, og berja þau fram blákölld, þó flestum öðrum þyki þau annaðhvort skaðleg eða ótilhlýðileg, og vilji alls enga umræðu láta um þau fram fara; þegar svo ber undir, þá er beinast ráðið, að fá þeim frá vísað.

*G. Brandsson*: Mèr þykir það þó hart, að láta vísa því frá, áður en rætt er um það og uppástúngumaður kemur með ástæður fyrir því; honum má þó vera kunnugast um, hvað það hefur helzt að styðjast við, og þegar þíngmenn fá að heyra það, held eg þeir geti betur en ella dæmt um, af hvaða verði það er, og þá annaðhvort samþykkt það eða fellt.

*Framsögumaður*: Það getur vel verið; en það eru margir aðrir útvegir með breytíngaratkvæði en þessi; það eru t. a. m. blöðin, ef manni þykir svo mikið undir málinu komið; en mèr þykir það óviðurkvæmilegt, að ef breytíngaratkvæðið á alls ekki við, að þá skuli mega neyða þíngið, að hleypa umræðunum í gönur og taka við því, sem er þá á raungum stað.

*G. Brandsson*: Já, mèr þykir það nú ekki svo mikilla þakka vert, þó menn hafi málfrelsi, eða þó heimilt sè, að skrifa það í brèf til kunníngja síns, sem maður hefur ekki getað fengið fram annars vegar, og þó þótt nokkru eða máske miklu skipta.

*Á. Einarsson*: Getur maður ekki komið með ástæðurnar fyrir breytíngaratkvæði í ræðu sinni, áður en maður ber þau upp?

*Framsögumaður*: Nei, því breytíngaratkvæðið sjálft verður komið á undan og orðið kunnugt, áður en það verður rætt á þíngi.

*G. Brandsson*: Það skyldi vera nokkur bót í máli, eptir því sem þíngmaður Strandasýslu stakk upp á, að koma með nokkrar ástæður, sem aðdraganda breytíngaratkvæðanna; það er auðráðið, að það er tilgángur umræðanna, að rannsaka breytíngaratkvæðin og ástæður fyrir þeim; en hvernin er það mögulegt, þegar mönnum er fyrirmunað að tala?

57. gr.

*Ó. E. Johnsen*: Mèr finnst, að forseta sè gefið of mikið vald, að taka hann á móti tíu þíngmönnum; mèr lízt þar að auki, að það muni aldrei geta orðið, að allir geti orðið samtaka

í, að stínga upp á því, sem er í greininni; mèr finnst nóg fimm menn ámóti forseta.

*Framsögumaður*: Hèr er nú ekki eins og verið sè að virða forseta, eða vega hann á móti þíngmönnum; það er hægt að sjá, að ekkert er auðveldara, en skrifa nafn sitt á seðil, sem getur gengið í kríng á fáum augnablikum meðal tíu manna og borizt til forseta. En að veita forseta kost á, að stínga upp á, að lokið sè umræðum, finnst mèr sjálfsagt; því forseti á að sjá um þíngstörf og halda uppi góðri reglu, og þar til stuðlar ekki sízt, að stytta óþarfalángar ræður.

*B. Halldórsson*: Mèr finnst, að af niðurlagi greinarinnar sè það ekki ljóst, hvort það sè til nokkurs, að sækja sèr leyfis til að tala, þegar svona á stendur, og sýndist mèr því betra, að það væri tekið fram í greininni, að ekki mætti neita þeim um ræðuleyfi, sem lýstu því yfir, að þeir ætluðu að bera upp breytíngaratkvæði.

*Framsögumaður*: Þetta er án efa misskilníngur; því sá, sem ætlar að tala, hann getur heimtað, að nafn hans sè bókað, og hann segir þá til sín, þegar hann ætlar að tala; þá getur þíngið sagt til, hvort það vill heyra hann eður ekki. Vilji það heyra þá, sem ætluðu að tala, þá greiðir það atkvæði á móti þeirri uppástúngu, að umræðum skuli vera lokið.

*Framsögumaður* las því næst V. kafla.

61. gr.

*Ó. E. Johnsen*: Þessari grein vildi eg láta breyta þannig, að svona stæði: „önnur er sú í minni málefnum", o. s. frv., og: „hin er sú í úrsliti málefna", o. s. frv.

*Framsögumaður*: Þetta get eg ekki fallizt á; því bæði getur breytíngaratkvæði, þó það virðist lítilfjörlegt, haft mikil áhrif á atkvæðagreiðsluna, og þar að auki er ekki ætíð hægt að sjá, enn síður að verða samdóma um, hvort eitt mál er svo lítið, þó það sýnist ekki mjög stórt; það getur að minnsta kosti verið einkennilegt, eða þess efnis, að margir þykist geta markað á því meiníngar þíngmanna, þó það í sjálfu sèr sè ekki mikilvægt.

62. gr.

*G. Brandsson*: Eg hef orðið þess áskynja, að margar munu vera meiníngar um þessa grein; sumir vilja, að kallað sè upp með nöfnum, sumir vilja atkvæðagreiðslu öðruvísi; eg fyrir mitt leyti held með hinu fyrra; því með svo feldu móti

held eg ræður þíngmanna yrðu bæði færri og styttri; því eg veit mörg dæmi til á undanförnum þíngum, að menn hafa staðið upp einúngis til að láta í ljósi, hvernin þeir ætluðu að greiða atkvæði, svo þjóðin seinna gæti séð það í þíngtíðindunum; því þeim hefur fundizt, og mér finnst það líka, að hún hefði fulla heimtíng á þessu; en það er auðvitað, að ef þeirri aðferðinni væri fylgt, sem eg hef tekið fram að mér væri geðfeldari, þá sparast þar við mörg orð, mikill tími, og margir dalir; því hvaða gagn sjá menn í, að standa upp einúngis til að hafa það upp, sem annar er búinn að segja, ef atkvæðagreiðslan eða form hennar gjörði það ekki nauðsynlegt.

*Jak. Guðmundsson*: Mèr lízt, að nafnaköllun ekki eigi að gilda sem almenn regla; það er að sumu leyti frjálst, en að öðru leyti ófrjálslegt. Annars hafa menn við haft þrjá máta til að gefa atkvæði, nefnilega með kúlum, með því að standa upp, og með því að kalla upp nöfnin. Mèr finnst fyrsti mátinn vera frjálslegastur, hvað þann mann snertir, sem atkvæði greiðir, því þá getur hvorki sjón nè orð annara manna haft áhrif á hann; en menn geta þó ímyndað sèr, að ýmsar útvortis kríngumstæður kynnu að geta leitt suma til hlutdrægni.

*H. Stephensen*: Eg er með engu móti samþykkur þíngmanni Reykvíkínga um þetta. Eg kannast við, að með atkvæðagreiðslu með kúlum getur atkvæðisgreiðandinn pukrast með atkvæði sitt, einkum ef hann hefur ekki rætt málið, því þá geta menn eigi orðið neins áskynja um meiníngar hans; en ef hann hefur rætt, þá mundi opt vera gaman að vita um fastheldni og alvarlega meiníngu atkvæðisgefandans. Það er líka frjálslegast, að þíngmenn kannist opinberlega við meiníngu sína, þó hún kunni ekki að falla öllum jafnvel í geð. Þess vegna lízt mèr einna bezt á, að kalla upp með nafni.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg vil helzt, að nafn mitt standi við atkvæði mitt.

*Jak. Guðmundsson*: Eg er á móti því, að það sè gjört að almennri reglu, að kalla nöfnin upp, heldur sè það að eins við haft, þegar einhver tvísýni þykir á, hvernig atkvæði hafi fallið.

*G. Brandsson*: Eg ímynda mèr þó, að hèr muni enginn vera svo hræddur eða huglaus, að hann ekki þori að láta í ljósi sannfæríngu sína, þó hún, ef til vill, ekki sè öllum jafngeðfeld. Eg held, ef nokkur væri svo, að hann mundi varla koma sèr að, að skrifa nafn sitt undir brèf, sem hann þó hefði tekið

saman, eða hann þá ekki kannaðist við nafn sitt, þó það sjálfur skrifað hefði.

*Framsögumaður*: Það er að sönnu óþarfi, að lengja þíngræðurnar með því, að tala um þau atriði, sem enginn hefur stúngið upp á; því í frumvarpinu stendur ekkert um atkvæðagreiðslu með kúlum, og hinn virðulegi þíngmaður úr Reykjavík hefur ekki heldur stúngið upp á henni. Ætti eg annars að segja nokkuð um það, þá álít eg, að þó þess konar atkvæðagreiðsla líti frjálslega út í fyrsta áliti, þá sè hún í rauninni ófrjálsleg; því hún gefur mönnum kost á, að leyna óttanum, en gjörir mann þó engan veginn óttalausan; þar að auki verður þíngmaðurinn að gæta þess, að í greininni stendur ekki, að atkvæðagreiðsla með nöfnum skuli einmitt vera almenn regla; því þar stendur, að sjö þíngmenn þurfi að heimta, að hún fari fram.

*Jak. Guðmundsson*: Mín ræða laut ekki að því, að breyta greininni, en eg áleit það ekki ónauðsynlegt, að minna á þá hætti, sem menn hafa haft, til að gefa atkvæði með, og sýna mönnum, að nafnakallið væri engan veginn það frjálslegasta.

63. gr.

*G. Einarsson*: Það er mín tilfinníng um þessa grein, að það ætti að þrengja nokkuð þetta: „að fara af þíngi"; mèr finnst það vera of rúmt; eg meina, að mèr finnst eg ekki fari af þínginu, þó eg fari snöggvast út úr þíngsalnum.

*Margir*: Jú.

*G. Einarsson*: Þá er eins hægt að segja: „út úr þíngsalnum".

*P. Pètursson*: Eg álít, að þó eg ekki fari lengra, en út fyrir grindurnar í salnum, þá fari eg af þínginu.

*G. Einarsson*: Það er gott, fyrst allir skilja það á þá leið.

66. gr.

*G. Brandsson*: Eg vil láta bæta inn í þessa grein þannig: „Það er regla, að breytíngar og viðauki" o. s. frv.

*Framsögumaður*: Það heyrir undir breytíngaratkvæði.

*G. Brandsson*: Greinin má heita óbreytt, þó þessu sè við bætt, og breytíngaratkvæði geta staðið óhögguð, þó við þau sè aukið.

*Framsögumaður*: Nei, ekki er það óbreytt, sem við er bætt.

*P. Pètursson*: Greinin er þá að vísu óbreytt sem grein, en hún breytist að því leyti, sem hún er breytíngaratkvæði.

67. gr.

*Þ. Sivertsen*: Eg vil bera það undir nefndina, hvort konúngsfulltrúi eigi að vera við atkvæðagreiðslu eður ekki, og vildi eg, að þess yrði getið í þínglögunum. Eg hreifi þessu vegna þess, að bæði hefur það verið vani híngað til, að konúngsfulltrúi víki frá, meðan atkvæði greiddust, og líka er svo fyrir skipað í alþíngistilskipuninni.

*Framsögumaður*: Nefndin hugleiddi reyndar ekki þennan hlut; en mèr fyrir mitt leyti finnst óþarfi, að neita honum að vera við, ef hann vill, þó alþíngistilskipunin segði honum að fara út. Það er heldur engum bannað, að standa fyrir framan grindurnar, á meðan atkvæðagreiðsla fer fram, og að hlusta á sem áheyrandi, og ef konúngsfulltrúi má það, eins og hver annar, hví skyldi hann þá eigi mega sitja í stóli sínum? Það er ekki heldur til tekið, að forseti hafi ei atkvæðarètt, og það var ætlun nefndarinnar, að hann skyldi eigi hafa hann. En hitt virðist nefndinni, að bæta mætti við, að jöfn atkvæði felli mál, þar eð menn álíta, að ekkert mál sè gilt, nema það styðjist af meiri hluta atkvæða, og kynni nefndin að stínga upp á grein um það, ef þíngmönnum virtist þess þörf vera.

*H. G. Thordersen*: Betra finnst mèr, að þetta sè tekið fram; því regla er betri en tilfinníng eintóm.

*Jak. Guðmundsson*: Eg óska hins sama og hinn heiðraði konúngkjörni þíngmaður, er síðast mælti; því verði það ekki gjört að reglu, þá verður vilji og tilfinníng forseta að reglu.

*P. Pètursson*: Eg hef ekkert á móti viðbæti þessum; en það er þó alstaðar sjálfsögð venja, að mál falli, ef ekki er meiri hluti atkvæða með því.

*Framsögumaður*: Eptir alþíngistilskipuninni mátti reyndar álíta, að mál væri ekki fallið, þó atkvæði væru jöfn með og mót; því þá var skipað, að greina konúngi ástæður með og mót.

*Jak. Guðmundsson*: Þó menn segi, að eitthvað sè eða hafi verið venja á öðrum þíngum, þá getur sú venja ekki verið lög fyrir þetta þíng, nema hún sè tekin fram í þessum þíngskapareglum.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg er með því, að það sè tekið fram, að forseti sè óviðkomandi atkvæðagreiðslu.

*P. Pètursson*: Mèr þykir líklegt, að forseti mundi gjöra

sèr það að reglu, að álíta málið fallið, eins og venja er til, þegar atkvæði væru jöfn með og móti.

*Jak. Guðmundsson*: Eg vil engan veginn, að forseti hafi þann rètt af vana; því þá gæti hann einn ráðið málalokum eptir eigin vild.

*Á. Einarsson*: Mèr virðist, að mál þau, sem jafnmörg atkvæði eru með og móti, geti opt verið svo vafasöm, að varlegt sè að halda þeim fast fram að því sinni. Þykir mèr því forseta gefið mikið vald, að hann ráði, hvort þau falla niður eða ekki. Það gæti líka orðið óþægilegt fyrir sjálfan forseta, að vera uppi á móti öllu þínginu, eins og einvaldur.

*H. Stephensen*: Eg vil, að forseti hafi alls ekki atkvæðisrètt.

68. gr.

*G. Einarsson*: Það er í þessari grein eitt þúngskilið orð: „lagalýrittur", sem eg gjarna vildi fá hinn heiðraða framsögumann til að skýra með öðrum orðum, svo að tíðindin bæru það með sèr.

*Framsögumaður*: Það er venjulegt og auðskilið orð, sem stendur bæði í fornum og nýjum ritum á voru máli, og getur ekki misskilizt; eða kannske þíngmaðurinn skilji betur „*Protest*"?

*G. Einarsson*: Ætla það sè nú eins auðskilið og látið er; en eg beiddi nú ekki fyrir mig einan, heldur fyrir marga lesendur tíðindanna, af því það var mín ímyndun, að margir mundu ekki skilja orðið; og þá munu þeir hinir sömu ekki skilja betur orðið „*Protest*". Má eg þá spyrja, er það sama sem „mótmæli"?

*Framsögumaður*: Jú, mótmæli, fram sett í lögákveðnu formi.

*G. Einarsson*: Nú, þá er eg ánægður.

69. gr.

*H. Stephensen*: Það er til tekið, að þíng skuli haldast fyrir opnum dyrum, en í ár eru dyrnar læstar, og eru menn hèr einlægt að ljúka upp og læsa aptur, og verður opt skarkali og marr af því.

*Varaforseti:* Þessu get eg ekki verið alveg samþykkur; því opt er skarkali úti á gánginum, en hann heyrist síður, þegar aptur eru dyrnar; það er annars undir þínginu komið, hvort það vill hafa dyrnar opnar eða aptur.

*H. G. Thordersen*: Það mun ekki heldur eiga að skilja orðin: „opnar dyr", þannig, að þær standi upp á gátt, heldur megi opnast, þegar hver vill.

71. gr.

*Framsögumaður*: Hèr er sama að segja um „þrír hlutir", sem áður í 34. gr., að ef þíngmenn vilja, þá mætti standa: „þrír fjórðu hlutir".

Síðan var fundi slitið, og næsti fundur boðaður á mánudaginn um 11. stund.

---

## 6. fundur, 14. d. júlím.

Allir á fundi. Þíngbók frá seinasta fundi lesin og samþykkt.

*Forseti*: Eptir því, sem seinast var ákvarðað, legg eg fram til annarar umræðu og atkvæðagreiðslu frumvarpið til þíngskapa þjóðfundarins, ásamt þeim breytíngaratkvæðum, sem við það hafa verið gjörð.

Breytíngaratkvæðin voru þannig löguð:

Við 1. gr.

1. *P. Pètursson:* að greininni sè sleppt, og tölur eptirfylgjandi greina lagaðar þar eptir.
2. *Þ. Sveinbjörnsson:* að úr sè fellt: „utanþíngs er hver þíngmaður vítalaus fyrir ræður sínar og atkvæði á þíngi".

Við 3. gr.

3. *Þ. Sveinbjörnsson:* að úr sè fellt: „en greini menn á um það, skera þíngmenn úr með atkvæðum".
4. *Jak. Guðmundsson*: að 7. gr. verði 6., og 6. aptur 7.

Við 6. gr.

5. *Jak. Guðmundsson*: „Heimilt er þíngmanni að tala svo lengi, sem hann vill í senn, meðan hann gjörir eigi þíngspjöll; en þíngspjöll eru sèrhvað það, sem gagnstætt er þeim þíngreglum, er þíngsköpin setja þíngmönnum".
   Verði þetta breytíngaratkvæði samþykkt, stíngur þíngmaðurinn upp á, að alstaðar í frumvarpinu verði sett þíngspjöll fyrir þíngsafglöpun.
6. *Þ. Sveinbjörnsson*: að millum orðanna: „eigi" og „þíngsafglöpun", sè bætt við orðunum: „þíngspjöll eða".
7. *G. Einarsson:* að á undan orðinu: „þíngsafglöpun" bætist við: „þíngspjöll eður".

Við 7. gr.

8. *P. Pètursson*: að úr greininni sè sleppt þessum orðum: „eða ef maður beitir konúngi og vilja hans í því skyni, að beygja frjáls atkvæði manna", og niðurlag greinarinnar svoleiðis orðað: „eða ef maður hefur hótanir í frammi um nokkurt ofríki á nokkurn veg í því skyni, að beygja frjáls atkvæði manna".

9. *L. Johnsen*: að orðunum: „í því skyni, að beygja frjáls atkvæði manna", sè sleppt.

10. *Þ. Sveinbjörnsson*: að greinin sè orðuð þannig: „Það eru þíngspjöll, ef maður fer utan við efni það, sem í umræðu er; eða ef maður ryfjar upp útkljáð mál, til að kvarta yfir málalokum. Það er þíngsafglöpun, ef maður atyrðir þíngið eða nokkurn þíngmann á nokkurn hátt, svo sem fyrir vonzkufull ráð eða illan vilja, eða ef maður hefur hótanir í frammi um nokkurt ofríki á nokkurn veg í því skyni, að beygja frjáls atkvæði manna".

11. *Jak. Guðmundsson*: „Enginn þíngmaður má fara utan við efni það, sem í umræðu er, ekki heldur ryfja upp útkljáð mál, til að kvarta yfir málalokum, nè heldur atyrða þíngið eða neinn þíngmann á nokkurn hátt, svo sem fyrir vonzkufull ráð eða illan vilja, ekki heldur beita konúngi og vilja hans, í því skyni að beygja frjáls atkvæði manna, nè heldur hafa hótanir í frammi um nokkurt ofríki á nokkurn veg í sama skyni".

12. *G. Einarsson*: að á undan orðinu: „þíngsafglöpun" bætist við: „þíngmálaspjöll eður".

13. *P. Sigurðsson*: að í staðinn fyrir: „að beita konúngi og vilja hans" sè sett: „að beita valdi konúngs eða vilja hans".

14. *G. Vigfússon*: að við enda greinarinnar sè bætt: „eða á nokkurn annan hátt brýtur á móti þessum þíngreglum".

15. *G. Brandsson*: að við greinina aukist: „eða ef nokkur þíngmaður mótmælir að takast það starf á hendur, sem hann er kosinn til, nema þíngið sjálft veiti honum lausn frá því".

Við 8. gr.

16. *Þ. Sveinbjörnsson*: að hún byrji þannig: „Þegar þíngspjöll

eða þíngsafglöpun verða"; að öðru leyti sem frumvarpið.

17. *G. Einarsson*: að á undan orðinu „þíngsafglöpun" bætist við: „þíngmálaspjöll eður".

Við 9. gr.

18. *G. Einarsson*: Sama viðaukaatkvæði.

19. *G. Brandsson*: að á eptir orðunum: „eptir því sem sök er til", bætist inn í: „Þíngmenn úrskurða þá með atkvæðagreiðslu, hvort sú uppástúnga skuli fá framgáng eða ekki".

Við 10. gr.

20. *G. Einarsson*: við enda greinarinnar bætist: „en hver þíngmanna, sem ekki mætir á fundum, án þess hann sanni þau forföll sín, er þíngið álítur lögleg og gild, hann missir daglaun sín í það skipti".

21. *H. Stephensen*: framan við orðið „forföll" bætist „sjúkdóms".

Við 11. gr.

22. *Jón Guðmundsson* og *G. Vigfússon*: að úr niðurlagi greinarinnar verði felld orðin: „ella verður hann sekur um þíngsafglöpun".

23. *G. Brandsson*: að 11. grein falli burtu, og í hennar stað komi grein þannig orðuð: „Það eru forföll, ef einhver getur ekki mætt sjúkdóms vegna, eða þess vegna, að hann hefur ekki haft nægan tíma til að afljúka þíngstörfum þeim, sem honum voru á hendur falin, áður fundur var settur, eða ef sèrlegar og óvæntar kríngumstæður, svo sem ástvina eða fyrirvinnu missir, og ýmisleg voveifleg tilfelli, krefja hann skjótra aðgjörða.

Við 13. gr.

24. *Nefndin*: í staðinn fyrir: „skal kjósa um þá tvo", o. s. fr., setjist: „skal kjósa um þá, sem flest atkvæði hafa hlotið; fái fleiri en þeir, er kjósa skal, jafnmörg atkvæði, skal hlutkesti ráða".

Við 14. gr.

25. *G. Einarsson*: við enda greinarinnar setjist: „þó má forseti ei ákveða tölu og laun aukaskrifara, nema með samþykki þíngsins á lögmætum fundi".

*26. Nefndin*: í staðinn fyrir: „og hagar þeim", setjist: „og tilhögun þeirra".

Við 15. gr.

*27. Þ. Sveinbjörnsson*: að greinin úr fellist með öllu.

Við 23. gr.

*28. Nefndin*: í staðinn fyrir: „kjósa þarf; fái", o. s. frv., setjist „kjósa þarf, *og kjósa meðal þeirra*. Fái tveir eða fleiri jafnmörg atkvæði, skal hlutkesti ráða".

Við 28. gr.

*29. Nefndin*: í staðinn fyrir: „Þeir skipta", o. s. frv., setjist: „Nefndarmenn skipta", o. s. frv.

Við 31. gr.

*30. Þ. Sveinbjörnsson*: eptir orðið „fundar" bætist inn í: „og láti strax festa hana upp á lestrarsalnum".

(Samþykkt af nefndinni).

*31. J. Skaptason*: að 30. og 31. gr. falli í burtu, en í stað þeirra setjist ein grein þannig orðuð:

„Forseti skal við hver fundarlok birta næsta fundartíma, og hvað þá skuli vera umræðuefni; heitir það dagskrá. Henni má forseti ekki breyta, nema með samþykki þíngsins; en ef 10 þíngmenn óska breytíngar á henni, skal skjóta því til atkvæða þíngsins".

Við 34. gr.

*32. Þ. Kristjánsson*: í staðinn fyrir: „þrír hlutir þíngmanna" setjist: „tveir þriðjúngar þíngmanna".

*33. J. Skaptason*: að 34. og 33. gr. dragist saman í eina svo hljóðandi: „Þá er lögmætur fundur, þegar ¾ hlutir þíngmanna eru á fundi eða fleiri; því má engin umræða um mál nè atkvæðagreiðsla fram fara nema á þvílíkum fundi".

*34. Nefndin*: fyrir: „þrír hlutir" setjist: „þrír fjórðu hlutir".

Við 36. gr.

*35. J.* hreppst. *Sigurðsson*: „þá skal leita atkvæða (hvort málið er þess vert, að takast til umræðu); verði því neitað", o. s. frv.

Eptir 38. gr.

*36. Nefndin*: skal innsetja nýja grein svo hljóðandi: „Um lagafrumvörp má setja hlutfallsnefndir, áður en þau koma til fyrstu umræðu á þíngi".

Við 40. gr.

37. *Á. Einarsson*: „Nú ber svo undir, að þíngmenn, einn eður fleiri, óska, að frumvarpi eður uppástúngu sè til hlutfallsnefnda vísað án umræðu, og skal forseti leita *þá þegar* atkvæða þíngsins um það.“

Við 41. og 42. gr.

38. *J. Skaptason*: að þessar tvær greinir dragist saman í eina svo hljóðandi: „Ef þíngið samþykkir, að málið skuli lengra gánga og nefnd skuli setja, skal hana kjósa annaðhvort úr þínginu eingaungu, eða þíngið skal kjósa nokkra og nefndarflokkarnir hina.“

Við 43. gr.

39. *J.* hreppst. *Sigurðsson*: „þó má hvert málefni ræðast óprentað, ef forföll banna prentunina.“

Eptir 46. gr.

40. *Nefndin*: að bætt verði inn í nýrri grein:

„Skrifarar og nefndin í málinu skulu síðan rannsaka frumvarpið, og finni þeir þá nokkra augljósa ósamhljóðun eða aðra bera villu, skulu þeir bera það upp á þíngi, og stínga upp á leiðrèttíngum, en síðan skal skjóta því til atkvæða þíngsins án umræðu; verði fallizt á leiðrèttíngarnar, skal lesa frumvarpið allt upp að nýju, og leita um það samþykkis þíngsins, sem fyr segir.“

Í 51. gr.

41. *Nefndin*: fyrir: „er málið fallið“, o. s. frv. setjist „er málið fallið; stínga má og upp á, að þíngið taki til dagskrár sinnar; verði það samþykkt, þá er málinu frestað um óákveðinn tíma.“

Eptir 67. gr.

42. *Nefndin* vill skjóta inn í fylgjandi grein:

„Ekkert mál eða málsatriði er samþykkt, nema meiri hluti atkvæða sè með; sèu jöfn atkvæði með og móti, er málið fallið.“

Við 71. gr.

43. *Nefndin*: fyrir: „þeir hlutir“ setjist: „þrír fjórðu hlutir“.

*Framsögumaður*: Það mun þá eiga að taka hverja grein fyrir sig til umræðu, en ræða ekki hvern kafla heilan.

*Forseti*: Það er bezt, að ræða hverja grein út af fyrir sig.

*Framsögumaður*: Hvað fyrstu grein snertir, hef eg, sem

framsögumaður, engu við það að bæta, er eg sagði um hana við undirbúníngsumræðuna. Mèr finnst, að flestir af þíngmönnum sèu mèr samdóma í því, að það sè ekki neitt sagt í henni annað en það, sem vant er að vera með almennum orðatiltækjum í þíngskapareglum. Eg get því ekki sèð, að neitt sè ísjárvert í greininni, eða það sè rètt, að sleppa henni. Eg sè og ekki annað, en að þessi grein sè á góðum rökum byggð með tilliti til þess, sem ákvarðað var í alþíngistilskipuninni, og eg veit ekki, nema það einmitt, að taka hana burtu, gæti ollað enn meiri misskilníngi.

*P. Pètursson*: Eg skal ekki að þessu sinni lengja mjög umræðurnar um þessa 1. gr. frumvarpsins; því eg hef þegar við hina fyrstu umræðu tekið þær ástæður fram, sem mèr þóttu mæla með breytíngaratkvæði mínu við hana. Einúngis vil eg geta þess með tilliti til þess, sem framsögumaður gat um seinast, að það er einmitt munur á því, hvort ákvörðun 1. gr. stendur í þíngreglum, sem einúngis gilda fyrir þíngmenn og ekki fá konúnglega staðfestíngu, eða í alþíngistilskipuninni, sem er konúnglegt lagaboð. Í slíkum þíngreglum og þeim, sem hèr ræðir um, álít eg greinina eins ótilhlýðilega, eins og eg álít það nauðsynlegt, að hún stæði í þíngsköpum þeim, sem alþíngi framvegis væru ætluð, eða í grundvallarlögum landsins, eins og í hinum dönsku grundvallarlögum. Sè greinin einúngis ætluð þíngmönnum hèr í salnum, þá er hún ekki rètt orðuð; því að meiníngin í orðunum: „Þíngið eitt á sök", o. s. frv., getur eigi verið önnur en sú, að þíngið banni öllum utanþíngsmönnum, að eiga sök á ræðum þíngmanna. Orðið „eitt" útilykur alla, nema þíngið, og þykir mèr þetta vera öldúngis ósamkvæmt tilgángi þíngskapa fyrir þennan fund. Eigi greinin að gilda fyrir utanþíngsmenn, þá er hún þýðíngarlaus; því þessi fundur hefur ekkert löggjafarvald, og getur ekki heldur gefið sèr það sjálfur. En ef greinin á einúngis að gilda fyrir þíngið, þá sè eg ekki, að hún eigi við. Því annaðhvort er þá meiníngin í greininni *politisk: Forsamlingen er ukrænkelig*, eða hún miðar til þess, að þíngið sè sett undir vernd konúngs og laganna. Sè það nú meiníngin, að samkoman sè friðhelg, þá er greinin ótilhlýðileg. Ef að nú þar á móti greinin á að miða til þess, að þíngið komist undir vernd konúngs og laganna, þá er hún óþörf; því það er öllum auðsætt, að það er konúngur, sem lætur setja þíngið, og að vèr sitjum hèr í skjóli laganna.

Orðin í greininni eru þá að vísu ekki ósönn, en þau eru óþörf, og eiga hvergi við. Eg get því engan veginn frá fallið breytíngaratkvæði mínu; því enginn skaði er skeður, þó greininni sè sleppt; þíngsköpin verða ei að síður allt eins fullkomin eptir og áður.

*Framsögumaður:* Eg held, að aðalatriðið í ræðu hins konúngkjörna þíngmanns, sem seinast mælti, hafi verið það, að greinin innibindi hèr hið sama, og ákveðið er í alþíngistilskipuninni. Ef að svo er, þá er greinin hvorki ótilhlýðileg nè ólögleg. Orðin í greininni eru almenn í þíngsköpum, og geta ekki valdið neinum misskilníngi. En það er auðvitað, að það má misskilja þessa grein, ef maður vill misskilja hana.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Eg þarf ekki að fara mörgum orðum um breytíngaratkvæði mitt við hina 1. gr. frumvarpsins. Eg get vitnað til þess, sem hinn konúngkjörni þíngmaður hefur fært fram fyrir breytíngaratkvæði sínu við þessa sömu grein; því þær ástæður, sem hann hefur komið með fyrir því, að öll greinin ætti að falla burtu, hljóða einnig upp á niðurlag greinarinnar, sem eg hef stúngið upp á, að fèlli burtu.

*H. Stephensen:* Báðum þeim konúngkjörnu þíngmönnum, er síðast mæltu, þykir það ótilhlýðilegt, er í niðurlagi greinarinnar stendur; en eg held að þeir gleymi því, að þíngsköpin eru einúngis lög fyrir þíngmenn sjálfa, en enga aðra út í frá. Meiníngin í greininni er sú, að þíngmenn eigi að vera vítalausir fyrir átölum annara þíngmanna utansals, þó þeim hafi ekki geðjazt að ræðum þeirra eða atkvæðum inni í þíngsalnum, svo að orðið „utanþíngs“ er hèr einúngis að skilja um þíngmenn sjálfa, þegar þeir ekki eru í þíngsalnum. Greinin er þess vegna ekki neitt lögmál fyrir utanþíngsmenn.

*Forseti* lèt síðan gánga til atkvæða um 1. breytíngaratkvæði, og var því hrundið með 37 atkvæðum móti 5.

Svo var og gengið til atkvæða um 2. breytíngaratkvæði, sem einnig var fellt með 34 atkvæðum móti 8.

Því næst var gengið til atkvæða um greinina sjálfa, og var hún samþykkt með 34 atkvæðum móti 8.

Síðan var gengið til atkvæða um 2. gr., og var hún samþykkt í einu hljóði.

Þá tók forseti fyrir 3. gr. frumvarpsins og breytíngaratkvæði hins 1. konúngkjörna þíngmanns við hana.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Eg hlýt enn að vera á sömu mein-

íngu og fyr, að það sè þínginu óverðugt, að vefengja úrskurð forseta, og niðurlag greinarinnar miðar þó ekki til annars, en ónýta hann. Eg held þó, eins og eg drap áður á í undirbúníngsumræðunni, að forsetinn eigi hægast með að sjá, hverjir upp standa eða ekki, og hefur sú raun á orðið hèr í salnum í gær, að þeir á fremstu bekkjunum hafa ekki vitað af þeim, sem upp stóðu á aptari bekkjunum.

*Framsögumaður:* Eg get engan veginn fallizt á þetta breytíngaratkvæði; því eg held, að niðurlagi greinarinnar megi ekki úr sleppa. Eg get fært dæmi til þess, gagnstætt því, sem hinn 1. konúngkjörni þíngmaður hefur til fært, að þegar svo stendur á, að þíngmenn sitja svo til hliðar við forseta, að hann getur ekki auðveldlega sèð þá, sem upp standa, þá getur verið að þíngmönnum sè hægra að sjá, hver fyrstur stæði upp. Greinin felur annars ekki annað í sèr, en almenn rèttindi þíngmanna, sem ekki skerðir rètt forseta í neinu.

*Forseti* lèt síðan gánga til atkvæða um þetta breytíngaratkvæði, og var það fellt með öllum atkvæðum nema einu.

Síðan lèt forseti gánga til atkvæða um 4. gr. frumvarpsins, og var hún samþykkt í einu hljóði.

Þar næst var gengið til atkvæða um 5. gr., og var hún samþykkt í einu hljóði.

*Forseti*: Annar þíngmaðurinn frá Reykjavík hefur stúngið upp á því, að 7. gr. verði 6., og 6. aptur 7.

*Framsögumaður*: Mèr finnst það vera efasamt, hvort það er rètt, að greiða atkvæði um þessa uppástúngu þíngmannsins, fyr en búið er að greiða atkvæði um breytíngaratkvæði hans við 6. og 7. gr. Í sjálfu sèr stendur það máske á litlu, hvor greinin fyr stendur, þó ætla eg það sè rèttara, að farið sè eptir frumvarpinu; því að í 6. gr. stendur aðalorðið. Hvað orðunum „þíngspjöll“ og „þíngmálaspjöll“ viðvíkur, þá finnst mèr óþarfi, að taka upp ný orð, þar sem til eru gömul og alkunnug orð, eins og er um orðið „þíngsafglöpun“.

*Forseti*: Eg vil skjóta því til úrskurðar þíngsins, hvort strax eigi að gánga til atkvæða um þennan flutníng greinanna.

*Jak. Guðmundsson*: Eg vil leyfa mèr, sem uppástúngumaður, að geta þess, að eg tók það fram á breytíngaratkvæðalista mínum, eins og forseti mun hafa orðið var við, að flutníngur greinanna væri kominn undir því, hvort fallizt yrði á breytíngaratkvæði mín; því annars á ekki flutníngurinn við. Og ef

fallizt verður á breytíngaratkvæðin við 6. og 7. gr., þá mun framsögumaður einnig finna, að þessi flutníngur er rèttur.

*Forseti*: Eg gætti að sönnu að því á atkvæðalistanum, sem þíngmaðurinn minntist á, en eg get ekki sèð, að rètt form haggaðist fyrir það, þó breytíngaratkvæðin yrðu samþykkt., Mèr finnst einmitt náttúrlegri röðin á greinum frumvarpsins, eins og hún er nú, með hvaða breytíngum sem á þeim yrði.

*H. G. Thordersen*: Ef breytíngaratkvæði þingmannsins úr Reykjavík yrðu samþykkt, þá leiðir þar af, að orðið „þíngsafglöpun" verður að breytast; því ef 6. gr. er flutt aptur fyrir þá 7., þá má orðið ekki standa. Að öðru leyti er ekki nauðsynlegt, að breyta greininni.

*Framsögumaður:* Þíngmaðurinn hefur einmitt tekið fram að ef breytíngaratkvæði hans yrðu samþykkt, þá yrði alstaðar að setja orðið „þíngspjöll" fyrir orðið „þíngsafglöpun." En það er máske rèttara, að láta ekki gánga til atkvæða um flutníng greinanna, fyr en eptir að atkvæði eru greidd um öll breytíngaratkvæði við 6. og 7. gr., og einkum fyrst að sjálfur uppástúngumaðurinn hefur óskað þess.

*Forseti* skaut því til þíngsins, hvort fresta skyldi atkvæðagreiðslunni um flutníng greinanna, og var það samþykkt.

Síðan tók forseti 6. gr. frumvarpsins til umræðu og breytíngaratkvæði hins 2. þíngmanns úr Reykjavík, sem var hið 5. í röðinni.

*Jak. Guðmundsson:* Eg leyfi mèr að benda þíngmönnum á, að það er tvenns konar breytíng, sem eg hef hèr stúngið upp á; 1. að „þíngspjöll" komi fyrir „þíngsafglöpun", 2. að viðbætir sè gjörður við greinina. Mèr stóð nú reyndar fyrir mitt leyti á sama, hvort orðið var brúkað, „þíngsafglöpun" eða „þíngspjöll", en eg hèlt, að menn kynnu að fella sig betur við „þíngspjöll", þar orðið „þíngsafglöpun" hefur vakið svo margar og lángar umræður. En hvað viðbætinn, sem eg stakk upp á við greinina, snertir, þá gekk mèr það til, að eg hèlt, að það væri ekki unnt, að telja upp öll atvik þíngsafglöpunar, og þá er auðsèð, að af því leiðir breytíngar þær, sem eg hef stúngið upp á við 7. grein, að orða hana einúngis bannandi. Af þessu er og sprottið breytíngaratkvæðið, sem eg tók mèr við 11. gr. Meira þarf eg ekki að tala um mín breytíngaratkvæði.

*Forseti:* Áður en gengið er til atkvæða, vil eg leyfa mèr að gjöra hèr dálitla athugasemd, af því að um formið er að

gjöra. Þíngmanninum, sem stakk upp á flutníngi 6. og 7. gr., mun helzt hafa gengið það til, að orðið „þíngsafglöpun", sem stendur í 6. gr., er fyrst útlistað í 7. grein. En þess konar kemur opt fyrir í lögum, að orð kemur fyrir, sem lýsir þeirri hugmynd, sem seinna er skýrð, og er slíkt enginn galli. Það er að sönnu kannske satt, sem þíngmaðurinn sagði, að torvelt er að telja upp öll atvik þíngsafglöpunar, en viðbætirinn, sem hann hefur gjört, bætir ekki mikið úr því. Spurníngin er jafnan sú, hvað sè á móti þíngreglum, og er þess konar ótæmandi. Forseti eða þíngið verður því að skera úr þess konar tilfellum, eptir sem bezt þykir eiga við í hvert skipti.

*Framsögumaður*: Eg fellst öldúngis á það, sem forseti hefur í ljósi látið um þetta atriði, og þarf engu við það að bæta.

Síðan leitaði forseti atkvæða um viðbótina við 6. gr., og var hún felld með 40 atkvæðum móti 2.

*Forseti*: Tvö hin síðustu breytíngaratkvæði við 6. gr. eru að öllu leyti eins, nema að í öðru er „þíngspjöll", en í öðru „þíngmálaspjöll", og vil eg því spyrja uppástúngumann síðara breytíngaratkvæðisins um, hvort honum lítist ekki, að þeim sè steypt saman.

*Framsögumaður*: Það er þó aðgætandi, að hèr er um tvö orð að gjöra.

*G. Einarsson*: Eptir þeirri stefnu, sem mèr finnst hèr vera orðin á atkvæðagreiðlsunni, þá fell eg frá mínu breytíngaratkvæði öldúngis.

*Forseti*: Eg get ekki betur sèð, en að bæði orðin, „þíngspjöll" og „þíngmálaspjöll", sèu sömu merkíngar, og fyrst að 7. breytíngaratkvæði er tekið aptur, vil eg biðja þíngmenn að gánga til atkvæða um hið 6.

Var það þá gjört, og breytíngaratkvæðið fellt með 32 atkvæðum móti 10.

*Forseti* tók þá 7. gr. til umræðu og breytíngaratkvæði þau, sem við hana höfðu verið gjörð.

*Framsögumaður:* Mèr finnst eg ekki þurfa að vera fjölorður um 8., 9., 10., 11. og 12. breytíngaratkvæðið, vegna þess að breytíngaratkvæðin við 6. gr. eru fallin. Það er sjálfsagt, að orðatiltækin í 8. breytíngaratkvæðinu: „að hafa hótanir í frammi um ofríki", eru yfirgripsmikil, en mèr virðist, sem þau sèu svo yfirgripsmikil, að þau fyrir það sèu tóm og efnislaus. En hvað 9. breytíngaratkvæði snertir, að sleppa úr greininni: „í því

skyni, að beygja frjáls atkvæði manna", þá held eg það sé öldúngis nauðsynlegt, að láta þessi orð í greininni halda sèr; því það er einmitt þessi augljósi tilgángur, sem gjörir, að slík ræða verður vítaverð. 13. breytíngaratkvæðið fer fram á, að orða svo: „að beita valdi konúngs eða vilja hans", í staðinn fyrir: „að beita konúngi og vilja hans", en það er ekki nógu yfirgripsmikið. Því það má líka beita nafninu tómu eða hátignarnafninu, eða meiníngu konúngs, sem þess manns, er hefur hátignina í sèr. Nefndinni þótti ekki þurfa, að taka það fram, sem er í 14. breytíngaratkvæðinu. Sama er og að segja um 15. breytíngaratkvæðið. Það er að sönnu rètt í sjálfu sèr, en það er fullkomlega tekið fram í 11. gr. í frumvarpinu.

*P. Pètursson*: Hvað breytíngaratkvæði mitt við 7. gr. snertir, þá skírskota eg til þess, sem eg hef sagt við undirbúníngsumræðuna. En með tilliti til þess, er framsögumaður sagði, að „hótanir um ofríki" væri efnistóm orð, þá getur mèr ekki skilizt, að svo sè. Eg held, að það sè þá eins efnistómt, „að beita konúngi eða vilja hans". Og get eg þessa, til að leiða að því athuga þíngmanna.

*L. Johnsen*: Viðvíkjandi breytíngaratkvæði mínu við 7. gr. skírskota eg til þess, sem eg hef sagt við undirbúníngsumræðuna. Eg hef borið fram þetta breytíngaratkvæði, af því eg er sannfærður um, að enginn, nema sá eini, getur dæmt um tilgáng manna. Menn geta í samvizku sinni verið sèr meðvitandi um, að tala blátt á fram og í hjartans einfeldni, sem menn segja, þó þeir minnist á konúng eða vilja hans, og er þá óviðurkvæmilegt, að ætla þeim, að þeir gjöri það í því skyni, að beygja frjáls atkvæði manna.

*G. Vigfússon*: Eg þarf ekki að vera margorður um breytíngaratkvæði mitt. Það er sprottið af þeirri tilfinníngu minni og þeim ræðum, sem hèr hafa fram farið, að orðið „þíngsafglöpum" væri ekki nógu yfirgripsmikið yfir öll brot gegn þíngreglunum; og þó 7. gr. hefði einkum tillit til 6. gr., hvar einúngis er bent til afglapa í ræðum þíngmanna, en 11. gr. hefði sèrlegast tillit til afbrota gegn verknaði eður framkvæmdum þíngsins, þá ætlaðist eg til, eins og hinn háttvirti forseti fram tók nýverið í ræðu sinni, að það væri ekki hægt, að nafngreina eða taka út yfir allt, sem heyrði undir þíngsafglöp. Það er og heldur ekki unnt, að telja upp öll afbrot, sem fyrir geta komið gegn þíngreglunum, en eg ætlaðist til, að allur vafi yrði af tekinn, hvern-

ig sem á brotinu stæði, með því að breytíngaratkvæði mitt nær yfir allar þíngreglurnar, í hverja átt sem afglöpin stefna, og þá má einnig niðurlag 11. gr. falla í burtu.

*Halld. Jónsson*: Einmitt af því sambandi, sem þíngmaðurinn segir sjálfur, að 7. gr. standi í við 6., held eg, að breytíngaratkvæði hans eigi ekki við, og yrði það til að raska réttri hugsun.

*P. Sigurðsson*: Eg bar upp breytíngaratkvæði mitt af því, að mèr fannst hugmynd sú, er nefndin hafði lagt í orðið „konúngur" ekki koma ljóslega fram; því það sá eg, að með því meinti hún þó eitthvert afl, er beygt gæti atkvæði manna; því ekki gat eg ætlað það nefndinni, að hún meinti, að nokkur í sal þessum væri svo þreklaus, að hann viki frá sannfæríngu sinni í atkvæðagreiðslu málefnanna, ef hann heyrði nefndan konúnginn, því eg álít, að það sè valdið, sem er verkun hátignarinnar.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg þarf ekki að vera lángorður um breytíngaratkvæði mitt við 7. gr.; því það er að nokkru leyti áður fellt; og líka get eg skírskotað til þess, sem hinn 5. konúngkjörni þíngmaður sagði seinast. Eg get ekki fremur en hann fundið það rètt, sem framsögumaður sagði, að það væri þýðíngarlaust: „að hafa hótanir um ofríki í frammi", af því þessi orð væru svo yfirgripsmikil. Eg má segja, að sèu þau þýðíngarlaus, af því þau sèu svo yfirgripsmikil, þá mega þau líka vera þýðíngarlaus, þar sem þau standa í grein nefndarinnar.

*Á. Einarsson*: Eg felli mig vel við breytíngaratkvæði beggja hinna konúngkjörnu þíngmanna. Eg held, að orðin í þeim sèu allt eins þýðíngarmikil og í greininni sjálfri, og get eg því ekki annað en fallizt á þau.

*Framsögumaður*: Eg held það liggi þó beint við, að breytíngaratkvæðin taka ekki það fram, sem í greininni stendur. Það er undarlega að orði kveðið, að segja það sè hið sama, „að hóta með ofríki", og að segja: „konúngur vill ekki þetta eða þetta". Að segja slíkt, er ekki ofríki, heldur ósiður.

*G. Brandsson:* Hvað mitt breytíngaratkvæði snertir, þá getur skeð, að mönnum virðist það á litlu standa, hvort því verður framgengt eða ekki. En sá var tilgángur minn með því, að reyna til að samþýða og sameina 7. og 11. gr., svo að þíngsafglapanirnar væru allar í einu lagi, til þess að ekki þyrfti að leita að þeim á mörgum stöðum, á hverju menn síður gætu varað sig.

*Forseti:* Með tilliti til þess, er þíngmaðurinn sagði, og

breytíngaratkvæðis hans vil eg geta þess, að það heyrir ekki til þíngsafglöpunar; því þó einhver þíngmaður skorist undan, að taka það starf á hendur, sem hann er kosinn til, þá raskar það ei góðri reglu á þínginu, og skeður opt utanþíngs, svo sá, er skorar sig undan, verður að senda forseta afsökun sína. Það er því réttara að forminu til, að hafa grein sér um þetta efni, eins og nefndin hefur gjört. Áður en gengið er til atkvæða, vil eg spyrja þíngmanninn úr Dalasýslu, hvort hann taki aptur breytíngaratkvæði sitt.

*G. Einarsson*: Jú.

Síðan lèt forseti gánga til atkvæða um breytíngaratkvæði við 7. gr., og var 8. breytíngaratkvæði fellt með 37 atkvæðum móti 5; 9. breytíngaratkvæði með 38 atkvæðum móti 4; 10. breytíngaratkvæði með 37 atkvæðum móti 5; 11. breytíngaratkvæði með 40 atkvæðum móti 2; 12. breytíngaratkvæði var tekið aptur af uppástúngumanni; 13. breytíngaratkvæði var fellt með 40 atkvæðum móti 2; 14. breytíngaratkvæði með 40 atkvæðum móti 2, og 15. breytíngaratkvæði með 41 atkvæði móti 1.

Því næst leitaði forseti atkvæða um sjálfa greinina í frumvarpinu, og var hún samþykkt með 35 atkvæðum gegn 7.

Þannig var 4. breytíngaratkvæði fráfallið.

*Forseti*: Af því 16. og 17. breytíngaratkvæði við 8. gr. eru fallin, vil eg biðja þíngmenn að gánga til atkvæða um greinina sjálfa.

Greinin var síðan samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2.

9. gr.

*Forseti* setti 18. breytíngaratkvæði fram til atkvæða, og var það fellt, samkvæmt því sem í 8. gr. stendur.

*Framsögumaður*: Það er óþarfi, að taka það fram, að þíngmenn skuli skera úr, hvort vísa skuli af þíngi; því það er auðsèð af greininni, að forseta er einúngis ætlað að stínga upp á því, en ekki veitt úrskurðarvald um það.

*G. Brandsson*: Breytíngaratkvæði mitt við grein þessa ætlaðist eg til að gæti gjört hana skiljanlegri, heldur en mèr virðist hún vera; því í henni er einúngis getið þess, upp á hverju forseti megi stínga, þegar sýnd er óhlýðni áminníngum hans, en þá er ekki ljóslega tekið fram, hverja verkun sú uppástúnga geti haft, en sem eptir breytíngaratkvæði mínu verður sú, að þíngmenn annaðhvort veiti henni gildi eða felli

hana; mèr virðist því, að þetta ætti að komast inn í greinina, þar það tekur af öll tvímæli bæði í tilliti til forseta og þíngsins.

*Forseti:* Það er vafalaust, að forseti hlýtur að skjóta uppástúngunni til þíngsins atkvæða, til þess að láta það gjöra út um málið, því annar vegur er ekki til.

Skaut forseti síðan breytíngaratkvæðinu til atkvæða þíngsins, og var það fellt með 35 atkvæðum.

Síðan var 9. gr. upp lesin að beiðni þíngmanna, og samþykkt með 39 atkvæðum.

Þá bar forseti upp fyrir þíngið breytíngaratkvæði við hina 10. gr., nefnilega 20. og 21. breytíngaratkvæði.

*G. Einarsson*: Það er ímyndun mín, að þínginu kunni í fyrsta áliti að sýnast þessi viðauki nokkuð harður; en þegar menn skoða þetta málefni nákvæmar, þá virðist mèr liggja í augum opið, að hann er næsta sanngjarn; því eg held, að þínginu megi ætla þá sanngirni, að það meti forföll þíngmanna eptir skynsamlegum ástæðum og hlutdrægnislaust. Á hinn bóginn ætla eg, að það sè krafa rèttvísinnar til þíngsins, að það stuðli til þess, að þau forföll, sem stríða á móti sómatilfinníngu manna og eru ólögleg, og sem í rauninni eru ekki annað en uppgjörð, hafi þá verkun, að þíngmaður missi daglaun sín í það skipti.

*Framsögumaður:* Nefndinni þóttu ekki vera ástæður til, að fara lengra, en stendur í 10. gr.; menn hugsuðu, að dómur þíngmanna um þennan hlut væri nægilegur og gildur fyrir hvern þíngmann. Það er og ósanngjarnt, að binda forföllin við sjúkdóma, því þau geta orðið með mörgu öðru móti, og verið eins gild metin; en reynist grein þessi of lin, þá má bæta við hana síðar.

*Jak. Guðmundsson*: Eg fyrir mitt leyti álít, að það eigi ekki að vera hegníngarlaust, ef menn ekki koma á þíng að forfallalausu; lögin eru til þess, að þau haldi mönnum til að gæta skyldunnar; því ef innvortis tilfinníng og skyldurækt ættu að stjórna öllu, þá þyrfti ekki að setja neinar reglur eða lög.

*Þ. Sivertsen*: Það stendur ekki í greininni, að menn þurfi að *sanna* forföll sín, heldur einúngis að menn eigi að skýra forseta frá þeim; en mèr virðist *sönnun* eins nauðsynleg í því efni, og í hverju öðru.

*H. Stephensen*: Eg er ekki að öllu leyti samdóma því, sem þíngmaður Dalasýslu bar fram; en mèr finnst það undar-

lega orðað, að þíngmaður „sè skyldur til“ að koma, en getur þó frelsað sig frá þeirri skyldu með ótal afsökunum; hann þarf ekki að koma nema 6. hvern dag; allt af geta verið ný forföll; þess vegna álít eg sjúkdómsforföll þau hin einustu forföll, sem bannað geta fundarmanni, að koma á þíng. Eg játa fúslega, að mörg tilfelli geta verið, sem geta freistað manns, svo menn láti leiðast til, að koma ekki á fund, svo sem ef maður vill vitja sjúks ástvinar síns, eða eitthvað því líkt, en sjúkdómsforföll fundarmanna sjálfra álít eg þau einustu, sem þíngið getur tekið afsakanleg, og ef menn ekki geta um þessi og sanna þau, þá þarf ekki að geta um nein forföll, og þá má greinin fara burtu.

*Framsögumaður*: Nefndin hugsaði, að það væri nóg, að geta þess, að það væri skylda, að mæta; eigi menn að fara í nákvæma lýsíngu forfallanna, þá getur hæglega komið rekistefna út af slíku; menn geta t. a. m. gjört sèr upp veiki; nú á að rannsaka það, og sú rannsókn verður, ef til vill, árángurslaus. Eg álít, að tilfinníng sjálfs manns sè hið bezta band í þessu tilliti, nefnilega tilfinníng á því, að vilja ekki vanrækja skyldu sína.

*H. Stephensen*: Ef nokkur gjörir sèr upp veiki, eða yfirhöfuð, ef nokkur verður veikur, þá eru hèr tveir læknar, annar í bænum, en hinn á þínginu, svo vèr munum varla verða í vandræðum um vitnisburði fyrir uppgjörð eða verulegum sjúkdómi.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg vildi leyfa mèr að spyrja hinn háttvirta forseta, eptir hverjum þíngsköpum nú er farið, eða hvort nokkur þíngmanna hafi, nú sem stendur, rètt til að tala optar en einu sinni við hverja grein við þessa síðari umræðu málsins.

*Forseti*: Eg hef ekki haft á móti því, af því frumvarpið til þíngskapanna er enn ekki orðið að lögum, jafnvel þó mèr væri geðfeldast, að sami maður ekki tali optar en tvisvar.

Síðan bar forseti 20. breytíngaratkvæði undir þíngið, og var það samþykkt með 27 atkvæðum í gegn 15.

21. breytíngaratkvæði var kallað aptur.

Síðan fram setti forseti greinina til atkvæða þíngsins með þessari breytíngu:

„Skyldur er hver þíngmaður að mæta á fundum, nema forföll banni, og skal hann skýra forseta frá í tækan tíma, hver þau eru, en forseti lýsir því á fundi. Hver þíng-

manna, sem ekki mætir á fundum, án þess hann sanni þau forföll sín, er þíngið álítur lögleg og gild, hann missir daglaun sín í það skipti".

Þessi grein var samþykkt með 28 atkvæðum á móti 14.

Síðan tók forseti 11. gr. til umræðu, en vildi, að 22. breytíngaratkvæði væri tekið fyr til greina, sökum þess að það væri yfirgripsmeira, þannig, að rætt væri um bæði í einu, en fyr gefin atkvæði um 23.

*Framsögumaður:* Það lízt mèr ísjárvert, að nefna eða til taka forföllin svo nákvæmlega, og hefur nefndin ekki sèð annað, en að greinin til taki nógu fastlega og greinilega, það sem hún á að tákna. Þessi nákvæma tiltekníng forfallanna getur ollað margföldum misskilníngi og óhagnaði, svo sem það, að það sèu forföll, ef maður er í þíngstörfum, sem maður hefur ekki getað lokið af. Þá þurfa menn að ákveða, hvað lángan tíma þurfi til þíngstarfa, og þá kemur upp á flýti og gáfur og alls konar hæfilegleika þeirra, sem þar eiga hlut að. Viðvíkjandi 22. breytíngaratkvæði, þá er eg tilleiðanlegur til að fallast á það.

*G. Brandsson:* Eg get ekki skilið í, að sá sè nokkur, sem ekki vilji heldur binda sig við einhverjar reglur en engar, og halda sig innan þeirra takmarka, sem með þeim væru sett; en að vera í óvissu um, hvað heimilt er eða ekki heimilt, getur leitt til sundrúngar og meiníngamunar; svo er nú með forföllin, að þau geta orðið mörg, af því einn kallar það forföll, sem annar kallar ekki, sè það ekki nokkurn veginn tekið fram, hver þau eru, sem álitizt geta gild. Eg játa það að vísu, að þau geti verið fleiri og margkynjaðri, en eg hef tekið fram, en það munu vera fá lagaboð, sem grafi svo fyrir allar undir, að ekki megi nokkuð fara í kríng um þau, og betra held eg, að hafa einhverja reglu fyrir sèr en enga, eða eiga það undir áliti einstakra manna, hvað þeim sýnist í þann og þann svipinn. Eg held líka, að forsetanum mætti vera þetta til hægðar, þegar forföllin eiga að tilkynnast honum; því hann mundi þá vara hinn við, sem villt kynni að fara, en sem honum væri síður hægt, hefði hann ekkert við að styðjast, nema eigin meiníngu. Mèr hefur nú reyndar fundizt, að ræður sumra þíngmanna væru á þá leið, að þeir mundu ei þessu mótfallnir, t. a. m. þeirra, sem talað hafa um sjúkdómsforföll, og virðist mèr því, að fleiri þeirra megi vel takast til greina.

*P. Pètursson:* Mèr sýnist, að úr því þíngið er búið að samþykkja viðaukaatkvæðið við 10. gr., þá eigi menn ekki að fara á ný að telja forföll; því þá er ónýtt það vald, sem þínginu var áður gefið, er nýjar reglur koma á eptir; og eins og eg var áður samþykkur þíngmanni Borgfirðínga um, að bæta inn í ákvörðun um sjúkdómsforföll, eins verð eg nú að vera því mótfallinn, úr því það er látið á þíngsins vald, að skera úr, hver forföll sèu lögleg og gild.

*G. Brandsson:* Þá verður að eiga undir, hvað þínginu sýndist vera forföll í það og það skipti.

Var síðan atkvæða leitað um þetta breytíngaratkvæði, og var það fellt með atkvæðum alls þíngheims, nema eins.

Síðan var 22. breytíngaratkvæði samþykkt með 22 atkvæðum mót 15.

Þá var greinin samþykkt af 27 gegn 11, svo látandi:

„Skyldur er hver þíngmaður að takast á hendur það starf, sem hann er kosinn til, nema þíngið sjálft veiti honum lausn frá því".

Þá bar forseti fram 12. gr., og varð ekki um rætt, en greinin var samþykkt í einu hljóði.

Síðan var 13. gr. tekin til umræðu með 24. breytíngaratkvæði.

*Framsögumaður:* Þessa breytíngu vildi nefndin af því, að það getur komið fyrir, að fleiri fái meiri hluta atkvæða en þeir, er kjósa þarf, og vildi nefndin, að hlutkesti skyldi ráða í öllum þess konar tilfellum, hvort sem væri fyrsta kosníng eða seinasta.

Forseti las síðan 13. gr. þannig:

„Fái enginn meiri hluta allra atkvæða í fyrsta sinn, til að vera forseti eða varaforseti, skal kjósa á ný á sama hátt; nái enn enginn svo mörgum atkvæðum, skal kjósa um þá, sem flest atkvæði hafa hlotið; fái fleiri en þeir, er kjósa skal, jafnmörg atkvæði, skal hlutkesti ráða".

Greinin var síðan samþykkt, þannig breytt, í einu hljóði.

Eptir það tók forseti 14. gr. til umræðu, og gat þess, að 25. og 26. breytíngaratkvæði mætti ræða í einu.

*Framsögumaður:* Nefndin getur ekki fallist á 26. breytíngaratkvæði, og álítur það rètt, að það sè skylda forseta, að ráða um aukaskrifara; því þegar þíngið þorir að velja hann fyrir forseta, þá er eðlilegt, að það þori að leggja honum alls-

ar eins skyldur á herðar, og þessi er. Það er nú þar fyrir utan, að forseti hlýtur að þekkja bezt til, með ráði skrifaranna, hvernig ritstörfum líður, og hversu þeim megi bezt haga, og það má líka ætla, að þeir menn, sem hann velur þar til, hafi þá eiginlegleika til að bera, að þeir geti gegnt þeim skyldum, sem forseti og þíngið leggur þeim á herðar, en þá er og skylt, að þeir njóti þess, sem þeir hafa til unnið með rèttu.

*G. Einarsson*: Eg minntist nokkurra sèrstaklegri skoðana viðvíkjandi þessu viðaukaatkvæði mínu, þá er eg bar það fram. Nú vil eg því benda á fáeinar almennari skoðanir því viðvíkjandi. Þegar eg lít yfir þíngskapafrumvarpið, þá sýnist mèr ekki betur, en að nefndin og þíngið hafi gjört sèr far um, að láta sem mestan frjálsræðisblæ vera yfir frumvarpi þessu. Þessi blærinn hvílir líka yfir 14. gr. frumvarpsins að orðunum til; en allt um það getur þíngið nú þegar vart dulizt þess, að anda greinarinnar er svo varið, að þegar hann kemst á hreifíngu af framkvæmdaraflinu, þá verður úr honum eins konar einræðisgustur, sem hleypir, ef til vill, hrolli í menn. Þá er í annan stað þess að gæta, að það er náttúru, sanngirnis og rèttvísis krafa, sem kotúngurinn á jafna heimtíng á og konúngurinn, að menn viti, í hvaða skyni og af hvaða ástæðum þeir eigi að greiða það eður það, er þeim ber að lúka. Nú þykist eg vita, að þetta mikilsvirta þjóðþíng vill einnig setja frjálslyndiseinkunn sína á smáatriði þetta, sem viðaukaatkvæði mitt miðar til. Þess get eg einnig, að eg fyrir mitt leyti vil heldur fallast á 100 dala útgjöld til sannra nauðsynja, en 1 dals greiðslu, sem vel verður komizt hjá. Þá er og að líta á það, er eg vèk á fyrrum, að það er sitt hvað, að yfirgefa embætti sín og atvinnu og takast þíngstörf á hendur, en að slökkva engu sèrlegu niður fyrir það, þó að maður sitji að skriptum um tíma, og geti nú þíngmenn staðizt við 3 dala daglaun, þá geta aukaskrifararnir staðizt við þau minni.

*P. Pètursson*: Eg fyrir mitt leyti álít það sjálfsagt, að hlífa landinu við öllum óþarfakostnaði; en á hinn bóginn virðist mèr það geta orðið ómögulegt fyrir forseta, að stjórna þíngstörfum með þessu fyrirkomulagi; því ef að aukaskrifarar fást ekki nógu margir, hvernig á hann þá að sjá fyrir þíngstörfum? og vilji þíngið ekki gefa þeim sæmileg laun, hvernig á hann þá að útvega þá? Allir sjá, hvað af því mundi leiða, að takmarka svona forseta og skrifarana. Eg álít, að þíngmenn

skuldbindi sig einmitt með því, að gefa forseta og skrifurunum atkvæði sín, til að bera það traust til hans og þeirra, að þeir muni sjá fyrir þíngstörfum svo haganlega, sem auðið er, og eg fyrir mitt leyti gjöri það. Að vísu er eg ókunnugur, hver laun aukaskrifararnir hafa nú, en hitt veit eg, að þeir hafa haft á hinum fyrri þíngum eins mikil laun og þíngmenn, og á ráðgjafarþíngunum í Danmörku höfðu þeir meiri laun en þíngmenn. Það er ei heldur ósanngjarnt, að þeim sè vel launað, því þeir hafa enda meira að gjöra en þíngmenn, eins og það er sjálfsagt, að þíngmenn eiga heimtíng á því, að aukaskrifararnir leysi störf sín vel og fljótt af hendi.

*G. Einarsson*: Með tilliti til þess, sem hinn háttvirti forseti gaf áðan leyfi til, að tala tvisvar, vil eg leyfa mèr að svara hinum háttvirta konúngkjörna þíngmanni, sem nú mælti, fáeinum orðum. Mèr finnst, ef forseti og þíngið ríða í bága hvort við annað í þessu efni, þá sè hægurinn hjá, að grípa til þíngskapanefndarinnar. En það er einkum af þeim ástæðum, að eg kom með breytíngaratkvæði mitt, að allir fái að sjá, til hvers þeim peníngum er varið, sem greiddir eru í opinberar þarfir, svo þeir viti, hvort kostnaðurinn er óþarfur eða ekki. En það, sem hinn háttvirti konúngkjörni þíngmaður sagði, að skrifarar hefðu haft meiri laun á umboðsþíngunum í Danmörku en þíngmenn, getur, finnst mèr, ekki verið nein regla fyrir þetta þíng. En ætli skrifararnir á ríkisdegi Dana hafi ekki haft þau minni?

*Margir*: Nei.

*Forseti:* Meiri.

*Þ. Sivertsen*: Eg held enginn þíngmaður ætli þínginu þá ósanngirni, að það neiti forseta, að mega bæta við tölu og laun aukaskrifara, þegar nauðsyn krefur, eða að það þá ekki veiti ráðstöfun hans samþykki; eg held líka hverjum þíngmanni ætlandi sú nærgætni, að vilja, sem mest má, lètta byrði á forseta, og henni kalla eg töluvert lètt á honum, hvíli engin ábyrgð á honum fyrir ákvörðun um tölu aukaskrifara og laun þeirra; ráði hann því einn, er sjálfsagt, að ábyrgðin hvílir á honum einum. Þó skrifarar á þíngum ytra hefðu jafnmikil laun þíngmönnum þar, sem eg veit ekkert um, held eg það enga reglu fyrir þetta þíng, og heldur ekki, þó aukaskrifarar hèr hefðu haft jafnt kaup þíngmönnum, hvað líka er mèr að nokkru ókunnugt, en hitt má eg fullyrða, að skrifarar á embættismannafundunum hèrna í Reykjavík höfðu ekki nema hálf laun móti fundar-

mönnum. Þar sem talað var um, að skrifarar gætu áunnið sèr 3 rbdd. á dag með 12 arka skript, þá held eg eins óvíst, að margir af kasti því hvern dag í röð eptir annan, með lögboðinni línu og stafatölu, og eins óvíst, að margir *privat*menn geli 24 skk. fyrir örk, en hvað sem um þetta er, þá ætla eg öllum þíngmönnum, að vilja hvervetna fylgja sómasamlegum sparnaðarreglum, en ekki kasta út fè að óþörfu. Það er að öðru leyti merkilegt, ef menn einúngis í þessari grein vilja hafa einveldið innan þessa sals dyra, en úti loka það í öllu öðru.

*Jak. Guðmundsson:* Fari nú svo, að þíngið fái vald til, að ákveða um tölu aukaskrifaranna og laun þeirra, þá mundi eg verða meðal hinna fyrstu þíngmanna, til að koma fram með þá uppástúngu, að þrennir skrifarar verði hafðir, í stað þess, að nú eru tvennir, og bendir sú uppástúnga auðsjáanlega til, að kostnaðurinn yrði meiri, hvað skrifarana snertir, en hann er nú, en eg álít það óheppna sparnaðarreglu, að láta skrifarana tefja fyrir þíngstörfunum; og fyndist mèr, að einhver þíngmanna heimtaði ósanngjarnlega mikið af skrifurunum, þá mundi eg stínga upp á, að sá hinn sami, ef hann er annars vanur ritstörfum, setjist niður eina stundu dags, og reyni sig á, að skrifa það, sem hann heimtar, svo hann viti, hversu hægt það er.

*L. Johnsen:* Eg ætla engum þíngmanni þá ósanngirni, að hann ekki fúslega vilji, að aukaskrifarar þíngsins fái, eins og til er tekið í alþíngistilskipuninni, hæfileg laun. Það er og þínginu áríðandi, að hafa duglega skrifara og launa þeim hæfilega eða sómasamlega; því þeir hafa mikið að starfa; en þá á og þíngið heimtíng á, að ræður þíngmanna sèu rètt bókaðar.

*Forseti* lèt þá gánga til atkvæða um 25. breytíngaratkvæði, og var því hrundið með 23. atkvæðum gegn 19.

26. breytíngaratkvæði var samþykkt án atkvæða.

Öll greinin samþykkt með 28 atkvæðum gegn 7.

Þá tók forseti 27. breytíngaratkvæði til umræðu.

*Þ. Sveinbjörnsson:* Eg ætla mèr ekki að tala annað fyrir breytíngaratkvæði mínu en það, sem eg sagði við undirbúníngsumræðuna, að því leyti sem það er rètt inn fært í ræðurnar.

Síðan var gengið til atkvæða um 27. breytíngaratkvæði, og var því hrundið með 40 atkvæðum gegn 2.

Greinin samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2.

Síðan lèt forseti gánga til atkvæða um þessar greinir, og féllu atkvæði þannig:

16. og 17. gr. samþykktar í einu hljóði; 18. og 19. gr. samþykktar með 41 atkvæði hvor; 20. og 21. gr. samþykktar með 40 atkvæðum hvor; 22. gr. samþykkt með 41 atkvæði.

Þá tók forseti til umræðu 23. gr.

*Framsögumaður*: Breytíng sú, sem nefndin hefur stúngið upp á við þessa grein, er öldúngis samhljóða breytíngu nefndarinnar við 13. gr.

*Forseti*: Þetta hefur víst verið meiníng nefndarinnar frá upphafi, og get eg ekki álitið, að breytíngin sè annað en orðamunur.

Breytíngin var samþykkt án atkvæða, og greinin öll með 41 atkvæði gegn 1.

Þá lèt forseti gánga til atkvæða um þessar greinir, sem engin breytíngaratkvæði höfðu verið borin upp við, og urðu atkvæði þannig:

24., 25., 26. og 27. gr. samþykktar, hver um sig með 41 atkvæði gegn 1.

Við 28. gr. hafði nefndin gjört þá orðabreytíng, að í staðinn fyrir: „Þeir skipta", o. s. frv., hafði hún sett: „Nefndarmenn skipta", o. s. frv.

Breytíngin var samþykkt án atkvæða, og greinin öll með 41 atkvæði gegn 1.

29. og 30. gr. samþykktar, hvor með 41 atkvæði.

Þá tók forseti 31. gr. til umræðu.

*J. Skaptason*: Við undirbúníngsumræðuna færði eg fram ástæður mínar fyrir þessu breytíngaratkvæði mínu, að eg vildi, að það væri saman, sem saman ætti, og ætla eg ekki að lengja þíngræðurnar nú með lengri umræðum um þetta efni.

*Forseti*: Þegar svo stendur á, eins og hèr, að breytíngin er ei nema orðamunur, væri óskandi, að uppástúngumenn bæru sig saman við nefndina, og hver við annan innbyrðis; því þetta mundi opt geta leitt til þess, að fallið væri frá slíkum breytíngaratkvæðum, og öll umræða um þau sparaðist.

Breytíngaratkvæði *Þ. Sveinbjörnssonar* var síðan samþykkt með 40 atkvæðum; en breytíngaratkvæði *J. Skaptasonar* hrundið með 40 atkvæðum.

31. gr., þannig aukin, samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2.

Síðan var gengið til atkvæða um 32. gr. frumvarpsins, og var hún samþykkt með 41 atkvæði gegn 1.

Sömuleiðis var 33. gr. samþykkt með 41 atkvæði móti 1.

Því næst var tekin til umræðu 34. gr. og 32. breytíngaratkvæði, sem við hana átti.

*S. Nielson*: Eg leyfi mèr að geta þess, jafnvel þó það raunar ríði hèr á litlu, að það er rèttara í íslenzku máli, að nefna, eins og í frumvarpinu stendur: „þrír hlutir þíngmanna“, en: „þrír fjórðu hlutir“; því þegar til er tekinn meir en helmíngur af heild þeirri, sem skipt er í fáa hluti. t. a. m. 3, eða 4, eða 5, þá er nefnari brotsins ætíð einum hluta meiri en teljarinn. „Tveir hlutir“ þýða því ætíð sama og „tveir þriðju partar“, „þrír hlutir sama“ og „þrír fjórðu partar“, o. s. frv.

*Framsögumaður*: Það er í alla staði rètt, sem þíngmaðurinn frá Húnavatnssýslu sagði. Þess vegna er ekki heldur vert, að setja „¾ hlutir“ fyrir „3 hlutir“, þó nefndin hafi fallizt á það. Eptir 32. breytíngaratkvæðinu yrði greinin nokkuð linari, en eptir 33. breytíngaratkvæði yrði engu breytt, og ekkert átunnið, nema að greinirnar yrðu einni færri; en þíngið ræður, hvort það vill gjöra svo mikið úr þeim hagnaði.

*Þ. Kristjánsson*: Eg held nú, eptir því sem atkvæði fèllu viðvíkjandi 10. gr. að framan, að ekki sè til mikils, að fara fram á breytíngaratkvæði það, er eg bar upp við 34. gr. Eg sè það er tilgángur þíngmanna, að fundir verði sem bezt sóttir, og skal eg ekki, fremur en hver annar, skora mig undan því, meðan eg er hèr á þíngi. Þess vegna fell eg fyrir mitt leyti frá breytíngaratkvæði þessu.

*J. Skaptason*: Eg vil leyfa mèr að geta þess, að í breytíngaratkvæði mínu við 34. gr. vantar inn í orðið „nema“ á eptir „fram fara“.

*Forseti:* Eg sè, að svo muni vera, og leyfi mèr að spyrja þíngmanninn um, hvort hann vilji, að gengið sè til atkvæða um breytíngaratkvæði hans.

*J. Skaptason*: Helzt vil eg það.

Síðan var gengið til atkvæða um 33. breytíngaratkvæði, og var það fellt með 41 atkvæði móti 1.

Þar næst lèt forseti greiða atkvæði um 34. breytíngaratkvæði, og fèll það með 36 atkvæðum móti 6. Og er gengið var til atkvæða um sjálfa 34. gr. frumvarpsins, var hún samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2. Sömuleiðis var 35. gr. frumvarpsins samþykkt með 41 atkvæði gegn 1.

Þá tók forseti 36. gr. frumvarpsins til umræðu, og breytíngaratkvæðið við hana.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Viðvíkjandi breytíngaratkvæði mínu, þá þykir mèr meiri nauðsyn til bera, að ræða fyrst um mikilvægi hverrar uppástúngu, heldur en um prentun hennar, og álítist hún þess verð, að kjósa þá nefnd í því málefni. Það eru þá nefndarmennirnir, sem mest liggur á, að kynna sèr bænarskrána eður uppástúnguna, og eru þeir aldrei fleiri en svo, að þeir geta vel allir haft not af henni skrifaðri. Aptur liggur öllum þíngmönnum mjög á, að geta vel kynnt sèr nefndarálitin, og væri því prentun á þeim æskileg, ef hún þá væri möguleg.

*Framsögumaður*: Það væri að vísu ekki margt að því, að vera í nefndum, ef engir aðrir þættust þurfa að líta eptir um málefni þau, sem til nefndar koma, og enginn gjörðist til að skoða annað í málinu, en álitsskjöl nefndanna. En það er öðru máli að gegna. Það verður að prenta það, sem í greininni er sagt, til þess að allir þíngmenn geti kynnt sèr málefnin sjálf, og síðan rannsakað, hvernig nefndin hefur farið með það, sem fyrir hana var lagt. Þetta er svo ljóst, að það hlýtur að vera hverjum þíngmanni skiljanlegt, og þeim einnig, sem seinast talaði, jafnvel þó það liti svo út, sem annað væri að ráða af orðum hans.

*Forseti*: Breytíngaratkvæðið er svo óljóslega orðað, að eg skil ekki, hvernig þíngmaðurinn hefur hugsað sèr það.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg ætlaðist til, að í staðinn fyrir það, sem í greininni stendur: „þá skal leita atkvæða, hvort prenta skuli“, o. s. frv., skyldi koma: „þá skal leita atkvæða, hvort málið er þess vert, að taka það til umræðu“. Mèr er það og ekki vel ljóst, hvort umræðurnar eiga að vera fjórar alls eða ekki.

*Framsögumaður*: Jú, það er sjálfsagt, að umræðurnar eiga að vera fjórar. En hvað hinu viðvíkur, þá er það sama, ef þíngið ályktar, að ekki skuli prenta málefnið, eins og að það álykti, að ekki skuli halda lengra fram í það; þíngið fellir málið í þessu formi.

*Forseti*: Breytíngaratkvæði eiga jafnan að vera svo orðuð, að þau geti átt inn í frumvarpið, en það er ekki um þetta breytíngaratkvæði.

Síðan var gengið til atkvæða um þetta breytíngaratkvæði, og var það fellt með 41 atkvæði móti 1.

Síðan var 36. gr. frumvarpsins samþykkt með 40 atkvæð-

um gegn 2; 37. gr. með 41 atkvæði gegn 1, og 38. gr. með 40 atkvæðum móti 2.

*Forseti*: Nefndin hefur stúngið upp á, að eptir 38. gr. frumvarpsins yrði bætt inn í nýrri grein, svo hljóðandi:

„Um lagafrumvörp má setja hlutfallsnefndir, áður en þau koma til fyrstu umræðu á þíngi".

*Framsögumaður*: Þíngmenn munu muna til þess, að þess var getið, þegar frumvarpið var í fyrsta sinni rætt, að það mundi vera vel til fallið, þegar um áríðandi konúngleg lagafrumvörp væri að gjöra, að þau gengju fyrst til hlutfallsnefnda, áður en þau væru rædd í þínginu, til þess að þíngmenn gætu kynnt sèr þau. Nefndinni hefur því þótt þörf á, að bæta þessari grein við, svo að þessu yrði á komið.

*Forseti*: Eg verð að mæla fram með því, að þessi nýja grein nefndarinnar verði samþykkt; því eg held það fari vel á því, að mikilvægum málefnum, og sèr í lagi konúnglegum frumvörpum, sè vísað til deilldanna, áður en þau koma til fyrstu umræðu.

Síðan var gengið til atkvæða um hina nýju grein, og var hún samþykkt með 37 atkvæðum móti 5.

Þar næst var 39. gr. í frumvarpinu samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2.

*Forseti* tók síðan til umræðu 40. gr. frumvarpsins og breytíngaratkvæði það, sem við hana hafði verið gjört, og mælti: Eg veit ekki, hvort þetta breytíngaratkvæði þíngmannsins frá Strandasýslu á vel við hina nýju grein nefndarinnar, sem nýlega var samþykkt. Eg held, að það, sem í breytíngaratkvæðinu stendur, geti komið í bága við hana.

*Á. Einarsson*: Eg tók mèr þetta breytíngaratkvæði við hina fyrri umræðu, af því eg vissi ekki, hvort nefndin hefði áskilið sèr, að bæta hinni nýju grein við. En fyrst að þíngið hefur nú fallizt á hana, þarf ekki míns breytíngaratkvæðis með, því þá er það komið inn í þíngsköpin, sem eg ætlaði að taka fram með breytíngaratkvæði mínu.

*Forseti*: Tekur þá þíngmaðurinn aptur breytíngaratkvæði sitt?

*Á. Einarsson*: Jú.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg gjöri ráð fyrir, að 40. gr. frumvarpsins standi í sambandi við 39. gr., og er þar verið að tala um lagafrumvörp. Mèr finnst því ekki, að niðurlag 40. gr. eigi alls kostar vel við, þegar um konúngleg lagafrumvörp

væri að gjöra, og get eg þessa einúngis til þess, að vekja athygli nefndarinnar, af því að eg hef ekki við undirbúníngsumræðuna áskilið mèr neitt breytíngaratkvæði. Því samkvæmt niðurlagi 40. gr. getur þíngið án umræðu hafnað frumvörpum frá konúngi, og það finnst mèr ekki vera ráðlegt nè tilhlýðilegt.

*Framsögumaður*: Nefndin áleit það sjálfsagt, að greinin talaði um öll lagafrumvörp, hvort sem þau væru frá stjórninni, eða frá einstökum mönnum í lagaformi. Nefndinni þótti ekki efunarmál, að allt, sem þíngið fèllist á, yrði haft í lagaformi, eins og við gengst á öðrum þíngum, en ekki eins og hèr hefur verið siður til að undanförnu á alþíngi, að rita einúngis álitsskjöl til konúngs.

*Forseti*: Að sönnu álít eg það rètt, sem framsögumaðurinn hefur sagt, að hèr sè einúngis um lagafrumvörp að gjöra, hvort sem þau eru frá stjórninni eða einstökum mönnum. Eg var ekki á fundi, þegar greinin var rædd í fyrra sinni, og gat því ekki þá látið í ljósi álit mitt um hana. En eg held, að það geti verið efi um, að niðurlag 40. gr. í frumvarpinu eigi hèr við, þar sem þar er farið fram á, að þessi fundur skuli geta frá vísað konúnglegum frumvörpum. Það er að sönnu víst, að ríkisþíng Dana hefur slíkan rètt, en það er aðgætandi, að það hefur líka löggjafarvald. Með þennan fund er öðru máli að gegna. Það getur máske verið, að ákvörðunin í niðurlagi greinarinnar gjöri ekki mikið til, hvað meðferð málanna á þínginu í þetta sinn snertir; því eg er ekki hræddur um, að svo mikilvæg frumvörp sem þau, er í þetta sinn koma frá stjórninni, verði felld við fyrstu umræðu. En það getur þó að minni ætlun verið efi á því, hvort þíngið með þessu vill ekki taka sèr meiri myndugleika, en því ber, og þíngið ætti ekki að gefa tilefni til slíks; því að þíngmenn eiga jafnan að standa á rèttum grundvelli, og standa þeir þá líka fastast.

*Jak. Guðmundsson*: Eg ætla ekki að fara mörgum orðum um niðurlag 40. gr.; því eg held, að aðalspurníngin sè hèr einúngis um það, að þíngmenn gjöri sèr svo greinilega hugmynd um fundinn og tilgáng hans, að þeir sjái, að hann geti ekki verið skyldur til, að ræða nokkurt frumvarp eptir öðrum þíngskapareglum, en hann setur sèr, þegar honum er boðið, að setja sèr þær á annað borð.

*Forseti*: Eg leyfi mèr að benda þíngmanninum á það, að slíkt er hèr ekki umtalsefnið. Hèr er einúngis verið að spyrja

um, hvort þíngið geti átt rètt á, að vísa frá sèr konúnglegum lagafrumvörpum mitt í umræðunum. Þetta held eg sè ísjárvert, þó ekki þurfi að óttast fyrir slíku í þetta skipti. En eg held, að það hefði verið nóg, að orða niðurlag greinarinnar dálítið öðruvísi.

*Jak. Guðmundsson*: Eg vildi einúngis geta þess, að mèr virðist ekki ástæða sú, sem forseti kom með, vera á móti niðurlagi greinarinnar. En það kemur ekki þessu máli við, þó að álit hans á tilgángi fundarins kunni að vera annað en mitt; því hitt varðar mestu, að fundurinn sjálfur hafi rètt álit á stöðu sinni.

*Framsögumaður*: Það stendur á sama í þessu máli, hvaða skoðun menn hafa á fundinum. Það væri þó býsna-undarlegt, ef þíngið ætti að neyðast til þess, að láta málið gánga lengra, en til fyrstu umræðu, ef því fyndist ekki þörf á því.

*Forseti*: Það er að sönnu rètt, sem framsögumaður sagði; en eg held, að þíngið geti ekki, fyr en að loknum umræðum, útkljáð, hvort það skuli fallast á eða hafna lagafrumvörpum, en að það eigi ekki við, að konúnglegum frumvörpum sè vísað frá þínginu mitt í umræðum. Mèr virðist efi á, hvort það er rètt, að slíkt standi í þíngsköpum. Greinin mundi að meiníngunni til ekki breytast mikið, þó hún væri öðruvísi orðuð.

*Jón Guðmundsson*: Eg held, að það sè óþarfi að fara fleirum orðum um þessa 40. gr. frumvarpsins. Eg held, að það ætti lángtum betur við, að gjöra einhverja uppástúngu hèr að lútandi, og fá hana síðan þíngskapanefndinni til meðferðar og umræðu; því það er of seint, að fara nú að gjöra breytíngaratkvæði við greinina.

*Forseti*: Það er sjálfsagt, að breytíngaratkvæði má ekki koma með núna, en nefndin mundi, ef hún vill, geta tekið lítilfjörlegar breytíngar til greina, og komið þeim inn í frumvarpið, áður en það verður seinast samþykkt í heilu lagi. Hún má svo líklega, hvort sem er, til að hreinskrifa það á ný.

*P. Pètursson*: Það er að vísu talað um fyrstu umræðu í upphafi greinarinnar, en þar sem í niðurlagi hennar stendur: „við lok umræðu", þá held eg að megi skilja það svo, þegar um konúngleg lagafrumvörp er að gjöra, eins og að þar sè verið að tala um þriðju umræðu. Meiníngin verður þá, að þegar umræðunum um eitthvert lagafrumvarp er lokið, þá sker þíngið fyrst úr því með atkvæðum, hver málalok skuli verða. En þó játa eg, að niðurlag greinarinnar ætti þá að vera öðru-

vísi orðað, og að þessi skilníngur á miður við það, sem á eptir kemur.

*Framsögumaður*: Það liggur nú í augum uppi, að í 40. gr. er einúngis talað um fyrstu umræðu, og að ákvörðun hennar gildir eins um konúngleg lagafrumvörp, eins og hver önnur. Það getur vel verið, að það eigi stundum ekki við, að fella konúngleg frumvörp við fyrstu umræðu, og eg gjöri ekki ráð fyrir, að þíngmenn láti það koma fyrir í þetta skipti, vegna þess að menn munu óska, að kynna sèr þau sem bezt, áður en menn legðu á þau fullt atkvæði. En ekki að síður hefur þíngið rètt til þess; því það væri ekki samkvæmt rèttu formi, ef stjórnin neyddi þíngið til annarar og þriðju umræðu um það málefni, er þínginu virtist óþarfi að ræða optar en einu sinni.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg skil að sönnu greinina þannig, að þar sè einúngis talað um fyrstu umræðu; en það liggur beint við eptir niðurlagi greinarinnar, að þíngið geti eins vel hafnað eins og tekið konúnglegt lagafrumvarp, og þetta held eg að eigi ekki við, eptir því sem fundi þessum hagar. Eg vildi þess vegna óska, að nefndin tæki aptur niðurlag greinarinnar, eða þíngskapanefndin beri síðar fram breytíngar á því. Eg hef ekki tekið mèr breytíngaratkvæði um þetta atriði, af því mèr hugkvæmdist þetta ekki fyr en í dag.

*Halld. Jónsson:* Reyndar held eg, að það beri sjaldan við, að þíngið felli konúngleg lagafrumvörp eptir fyrstu umræðu, en þó get eg ekki betur sèð, en að þíngið hafi rètt til þess; því stjórnin hefur ekki sent þínginu neinar reglur fyrir meðferð þess á málum þeim, sem því er ætlað að fjalla um.

*Jak. Guðmundsson*: Eg held, að það sè gildasta ástæðan, sem hinn konúngkjörni þíngmaður færði til, fyrir því, að niðurlag greinarinnar megi standa; því ef stjórnin hefði viljað ákveða, hvað opt hvert málefni skyldi ræðast, þá hefði hún orðið að senda fundinum þíngreglur, til þess að fara eptir.

*Forseti*: Eg skal ekki að þessu sinni tala um það, hvern rètt að stjórnin eða þetta þíng hafi, heldur einúngis geta þess, hvernig menn eru vanir að ræða mál á slíkum þíngum. Við 1. umræðu er vant að ræða um aðalatriði málefnanna einúngis, og útkljá, hvort þau skuli koma til 2. umræðu. Þá koma engin breytíngaratkvæði fram. Sè það þá gjört að álitum við 1. umræðu, að frumvarpið skuli ekki lengra fara, þá er því hafnað sem öldúngis ónýtu. Við 2. umræðu eru breytíngarat-

kvæði og frumvarpið sjálft tekið til umræðu, og atkvæði greidd um breytíngarnar. Að því búnu er leitað atkvæða um það, hvort frumvarpið skuli þá koma til 3. umræðu. Getur þá vel farið svo, að því sè hrundið vegna breytínga þeirra, sem þá eru orðnar á því. Eg er að sönnu ekki hræddur um, að það leiði nein vandkvæði af ákvörðun greinarinnar, en mèr þykir það ísjárvert, eptir því sem nú stendur á, að hún sè svona orðuð.

*Á. Böðvarsson:* Eg held það sè öldúngis nauðsynlegt, sem í greininni stendur, að þíngið hafi rètt til, eptir 1. umræðu að vísa því málefni frá sèr, er það vill ekki að lengra gángi, og þykir mèr líklegt, að allir þíngmenn vilji nota þetta leyfi, fyrst þeir hafa það, svo að þíngið þurfi ekki að sitja aðgjörðalaust kannske í heilan mánuð, og geti sparað viðkomandi sjóði þann kostnaðarauka, sem leiða mundi af slíkri óþarfasetu. Eg fellst líka öldúngis á það, sem hinn heiðraði konúngkjörni þíngmaður áðan sagði, að stjórnin hefði orðið að senda fundinum þíngreglur, ef hún hefði viljað ákveða, hvað opt skyldi taka frumvörp sín til umræðu.

*P. Pètursson:* Eg held það sè kannske rèttast, að skilja greinina um 1. umræðu. En eg get ekki skilið, að fundinum sè nein hætta búin fyrir það í þetta sinn, hvað hin konúnglegu frumvörp snertir; því þeim mun verða vísað til hlutfallsnefndanna, áður en þau eru tekin til 1. umræðu, og gefst þá þíngmönnum kostur á, að sjá það, sem gott er í frumvörpunum. Eg skal samt ekki neita því, að yfir höfuð þykir mèr niðurlag greinarinnar vera ísjárvert, þar sem það leyfir þínginu, að hafna frumvörpum stjórnarinnar svona undir eins.

*Framsögumaður:* Það liggur ekkert nær eptir greininni, að þíngið skuli hafna hinum konúnglegu frumvörpum, en að það skuli samþykkja þau; en hitt finnst mèr ekki stjórnin geti skipað þínginu, að ræða það málefni þrisvar sinnum, sem fundarmenn hafa ljósa hugmynd um, að ekki þurfi að ræða optar en einu sinni.

*Forseti* lèt síðan greiða atkvæði um alla 40. gr., og var hún samþykkt með 37 atkvæðum gegn 5.

*Forseti* tók þá 41. gr. til umræðu.

*Framsögumaður:* Breytíngaratkvæði þíngmannsins frá Húnaþíngi breytir ekki greininni að öðru en því, að það dregur hana saman við 42. gr., og vil eg fyrir mitt leyti ekki neitt um það tala, heldur láta þíngið ráða, hvað það vill gjöra við það.

Breytíngaratkvæðinu var síðan hrundið með 40 atkvæðum.

41. gr. var samþykkt með 41 atkvæði gegn 1.

Síðan lèt forseti gánga til akvæða um 42. gr., og var hún samþykkt með 41 atkvæði gegn 1.

Þá tók forseti 43. gr. til umræðu.

*J.* hreppst. *Sigurðsson:* Ástæða sú, sem eg hafði fyrir mèr, til að bera upp breytíngaratkvæði mitt, var, að koma í veg fyrir, að þingskapanefndin þyrfti að gjöra nýjar ráðstafanir, ef eitthvert málefni ekki gæti fengizt prentað, sem maður getur hugsað sèr að komi fyrir.

Breytíngaratkvæðið var síðan fellt með 31 atkvæði gegn 11.

43. gr. var síðan samþykkt með 41 atkvæði gegn 1.

44. gr. — samþykkt með 39 atkvæðum gegn 3.

45. gr. — —— með 41 atkvæði gegn 1.

46. gr. — —— með 41 atkvæði gegn 1.

*Forseti:* Nefndin hefur stúngið upp á, að hèr komi ný grein inn í.

*Framsögumaður:* Nefndin hefur stúngið upp á þessari viðaukagrein, ekki af því, að hún væri hrædd um, að orðabreytíngar og ýmislegir gallar, sem verða kynnu á fyrirkomulagi málsins, ekki gætu lagast við 3. umræðuna, heldur af því, að henni þótti vissara, að finna eitthvert ráð til, að bæta úr göllum þessum, ef þeir fyndust, eptir að málið hefur verið í þriðju umræðu á þíngi. Nefndin hafði og í þessu atriði hliðsjón af því, að á ríkisþíngi Dana vantaði grein um þetta í þíngskapareglurnar, og þurfti að bæta henni inn í seinna. En þó að þíngið hèr sè ekki eins stórt, og þess vegna ekki eins hætt við, að þessa þurfi með, þá getur það samt komið fyrir eins á fámennum þíngum og fjölmennum.

*Forseti:* Eg fyrir mitt leyti vil heldur óska, og sýnist mèr það vera tiltækilegra, að slíkir gallar sèu leiðrèttir við þriðju umræðu; annars verða fjórar umræður um málið, ef þessu er farið fram, og það held eg hvorki eigi nè þurfi að vera. Eg man ei heldur til, að Danir hafi nokkurn tíma haft fjórar umræður um nokkurt málefni á þíngi sínu.

Síðan var gengið til atkvæða, og var viðaukagrein nefndarinnar samþykkt með 39 atkvæðum gegn 3.

Þá var 47. gr. samþykkt með 38 atkvæðum gegn 4.

Þá tók forseti 48. gr. til umræðu.

*G. Brandsson:* Eg kom að vísu ekki með neitt breyt-

íngaratkvæði við þessa grein; en þó kom það til orða, að inn í hana væri bætt; en nefndin ræður, hvað hún gjörir.

Greinin var samþykkt með 41 atkvæði gegn 1.

49. og 50. gr. samþykktar, hver með 41 atkvæði gegn 1.

Þá tók forseti 51. gr. með breytíngaratkvæði nefndarinnar til umræðu.

*Framsögumaður:* Það er, eins og skiljanlegt er, þángað til málið kemur á dagskrána næsta sinn.

Breytíngin var samþykkt með 40 atkvæðum.

51. gr., þannig breytt, samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2.

Síðan voru eptirfylgjandi greinir frumvarpsins bornar af forseta upp fyrir þíngið, og voru þær samþykktar þannig:

52., 53., 54. og 55. gr. samþykktar, hver með 41 atkvæði gegn 1.
56. . . . . . . . . — samþykkt með 38 atkvæðum gegn 4.
57. . . . . . . . . — —— — 40 —— — 1.
58., 59. og 60. gr. samþykktar, hver með 41 atkvæði.
61. . . . . . . . . — samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2.
62. . . . . . . . . — —— — 41 atkvæði gegn 1.

Síðan las forseti upp 63. gr., og kvaddi þíngið til atkvæða um hana.

*Jak. Guðmundsson:* Eg vona, að allir skilji þessa grein svo, að þó að einhver þíngmaður gángi út snöggvast, þá þurfi menn ekki að álíta þar með, að hann vilji draga sig undan atkvæðagreiðslu.

*Forseti:* Eg get þó ei álitið annað, en menn hljóti að halda, að sá, er út gengur, þá atkvæði skal greiða, vilji draga sig undan atkvæðagreiðslunni.

Greinin var síðan samþykkt með 40 atkvæðum.

Síðan bar forseti upp 64. gr., og var hún samþykkt með 39 atkvæðum gegn 3, og þá hina 65., er samþykkt var með 41 atkvæði.

Þá las forseti upp 66. gr. frumvarpsins.

*Forseti:* Mèr finnst byrjunarinnar ei þurfa; eg óska, að greinin sè stíluð í ákvörðunarformi; annars vil eg skjóta þessu til nefndarinnar sem orðabreytíngu.

*Jón Guðmundsson:* Það getur komið fyrir, þegar út af þarf að breyta, t. a. m. þegar yfirgripsmeiri uppástúngur koma.

*Forseti:* Þá vil eg, að það sè öðruvísi orðað, og að greinin byrji svona: „Það er regla, þegar því verður við komið".

*Jón Guðmundsson:* Það gæti verið.

*Framsögumaður:* Eða: „Það er aðalreglan".

*Forseti:* Já.

Síðan var greinin samþykkt með 41 atkvæði gegn 1.

Þá var hin 67. gr. upp borin af forseta fyrir þíngið, og samþykkt með 40 atkvæðum gegn 2.

Síðan var upp lesin hin nýja grein, er nefndin vildi láta bæta inn í, þannig hljóðandi:

„Ekkert mál eða málsatriði er samþykkt, nema meiri hluti atkvæða sè með; sèu jöfn atkvæði með og móti, er málið fallið".

Þessi grein var samþykkt með 38 atkvæðum gegn 4.

68., 69. og 70. gr. voru samþykktar, hver með 40 atkvæðum gegn 2.

Síðan var til umræðu tekið hið 43. breytíngaratkvæði, og áleit þíngheimurinn það fallið, samkvæmt 34. gr., en greinin sjálf, hin 71., var samþykkt með 38 atkvæðum gegn 4.

Því næst skoraði forseti á framsögumann og þíngskrifara, að laga frumvarpið eptir hinum ákveðnu breytíngum, og bar undir þíngið, hvort það vildi láta prenta þíngsköpin upp aptur, og fèllust menn á það í einu hljóði.

Síðan vakti forseti máls á hinum þremur frumvörpum stjórnarinnar, og tók fram það þeirra, er ákvarðar stöðu Íslands í ríkinu, svo sem það, er væri merkilegast og mest áríðandi, og sem því hlyti fyrst að takast til umræðu, og skaut hann því til þíngsins, hvort ekki mundi vera best, að velja undir eins hlutfallsnefndir til þess, að kynna sèr frumvörp stjórnarinnar.

*Jak. Guðmundsson:* Eg fellst að sönnu á það, er forseti stakk upp á, að láta stjórnarfrumvarpið fyrst koma til umræðu; en eg vil leyfa mèr að leiða athuga þíngmanna að því, hvort það muni ekki vera formgalli, að fara nú þegar að velja hlutfallsnefndir, áður en búið er að samþykkja frumvarpið til þíngskapanna. Eg held það væri rèttast að forminu til, að þíngið samþykkti það fyrst, kysi því næst embættismenn eptir því, og setti að svo búnu hlutfallsnefndir.

*Forseti:* Eg ætla að skjóta því til þíngsins, hvort nú þegar skuli setja hlutfallsnefndir, eða ekki fyr en seinna, sèr í lagi, ef þíngmaðurinn, sem seinast talaði, óskar þess.

*Jak. Guðmundsson:* Eg óska, að þíngið gángi til atkvæða um það.

Kandíd. *Jón Sigurðsson:* Eg held það þó rèttast, að setja ekki hlutfallsnefndir, fyr en búið er að samþykkja frumvarpið til þíngskapanna; því það lítur ekki vel út, að fyrsta álỳktun þíngsins, eptir að þíngsköpin eru samþykkt, verði sú, að breyta á móti þeim.

*Forseti*: Eg held, að þíngið fari ekki út fyrir frumvarpið fyrir það, þó að þíngmenn leyfi sèr að taka þá reglu fyrir sig fram, sem er búið að ræða og samþykkja, þó ekki sè búið að leita atkvæðis seinast um frumvarpið allt í einu.

*Jak. Guðmundsson*: Eins og vèr vitum, hefur þíngið áður flỳtt töluvert fyrir sèr með heimuglegum starfa, og ímynda eg mèr, að á líkan hátt gæti það einnig nú gjört það, með því að taka sig saman utanþíngs í hlutfallsnefndir, en láta ekki bóka þær að svo komnu. Eg vona, að þíngið gefi þessari uppástúngu minni gaum, því heldur sem það hefur áður í reyndinni játað, að þetta væri á móti rèttu formi, að velja embættismenn, áður en þíngsköpunum er lokið.

*P. Pètursson:* Eg held, að hèr sè nokkuð öðru máli að gegna; því hinar einstöku greinir frumvarpsins eru nú þegar samþykktar, þó ekki sè búið að samþykkja frumvarpið sjálft. Það er án efa vilji allra þíngmanna, að flỳta fyrir þíngstörfunum það sem verður, og eg get ekki sèð, að nokkur þíngregla sè brotin, þó að hlutfallsnefndir sèu nú valdar undir eins.

*Forseti* lèt síðan gánga til atkvæða um það, hvort setja ætti hlutfallsnefndir þá þegar eða ekki, og var hið fyrra samþykkt með 38 atkvæðum gegn 4.

Þar næst var þíngmönnum skipað í þrjár deildir eptir hlutfalli, og urðu þessir

í 1. deild:

1. S. Hallgrímsson.
2. Á. Böðvarsson.
3. Jak. Guðmundsson.
4. St. Jónsson.
5. G. Brandsson.
6. Á. Einarsson.
7. P. Pètursson.
8. B. Jónsson.
9. G. Magnússon.
10. J. hreppst. Jónsson.
11. S. Níelsson.
12. Jens Sigurðsson.
13. Halld. Jónsson.
14. J. hreppst. Sigurðsson.

Í 2. deild:

1. M. Austmann.
2. H. Stephensen.
3. L. Johnsen.
4. G. Vigfússon.
5. M. Gíslason.
6. S. Gunnarsson.
7. H. G. Thordersen.
8. P. Sigurðsson.

9. Ó. Briem.
10. Hallgr. Jónsson.
11. P. Melsteð, sýslumaður.
12. Ó. E. Johnsen.
13. J. Briem.
14. J. bóndi Jónsson.

Í 3. deild:

1. G. Einarsson.
2. Þ. Sivertsen.
3. P. Melsteð, amtmaður.
4. K. Kristjánsson.
5. B. Halldórsson.
6. Þ. Jónasson.
7. J. Skaptason.
8. Jón Guðmundsson.
9. B. Benediktsen.
10. Þ. Kristjánsson.
11. M. Stephensen.
12. P. Pálsson.
13. E. Briem.
14. Kandíd. J. Sigurðsson.
15. Þ. Sveinbjörnsson.

Að því búnu lásu þingskrifararnir röðina á hlutfallsnefndunum upp fyrir þinginu.

Þar næst töluðu þingmenn nokkuð um, í hvaða röð hin konúnglegu frumvörp skyldu ræðast í hlutfallsnefndunum, og var það með atkvæðafjölda afráðið, að verzlunarlagafrumvarpið skyldi fyrst ræða.

Að því búnu lýsti forseti því yfir, að á morgun yrði gengið til atkvæða um frumvarpið til þingskapanna, eins og það þá væri orðið, og embættismenn valdir eptir því.

Því næst var fundi slitið, og næsti fundur ákveðinn um 11. stund daginn eptir.

---

## 7. fundur, 15. d. júlím.

Þingbók frá síðasta fundi var lesin og samþykkt.

*Forseti* skýrði þinginu frá, að þingskrifari *B. Halldórsson* hefði bréflega tilkynnt sér, að hann sökum lasleika ekki gæti mætt á þessum fundi. Síðan gat hann þess, að hin fyrsta deild hlutfallsnefndanna hefði kosið sér forseta *P. Pétursson*, og skrifara *Á. Böðvarsson*; 2. deild hefði valið *H. Stephensen* fyrir forseta, og *J. Briem* fyrir skrifara; hin 3. deild *Þ. Sveinbjörnsson* fyrir forseta, og *G. Einarsson* fyrir skrifara.

Síðan var þingskapafrumvarpið lesið með breytíngum þeim, sem á því voru orðnar, og var það nú þannig lagað:

*I. Um þingmenn.*

1. gr.

Þingmenn eru friðhelgir; þingið eitt á sök á ræðum þingmanna, og þó því að eins, að kært sé jafnskjótt og ræðan

er haldin; utanþíngs er hver þíngmaður vítalaus fyrir ræður sínar og atkvæði á þíngi.

2. gr.

Standandi skal hver þíngmaður tala, nema forseti leyfi, og snúa máli sínu til forseta eða til þíngsins, en ekki ávarpa neinn þíngmann sèr í lagi eða með nafni.

3. gr.

Sá á fyrst að tala, sem fyrstur stendur upp; standi tveir eða fleiri upp jafnsnemma, sker forseti úr, hver fyrst skal tala, en greini menn á um það, skera þíngmenn úr með atkvæðum.

4. gr.

Sèrhver þíngmanna á rètt á, að bera upp uppástúngu um hvað sem er, eptir þeim reglum, sem settar eru um meðferð mála á þíngi.

5. gr.

Enginn nema forseti má lesa upp ræðu sína skrifaða af blöðum.

6. gr.

Heimilt er þíngmanni, að tala svo lengi, sem hann vill, í senn, meðan hann gjörir eigi þíngsafglöpun.

7. gr.

Það er þíngsafglöpun, ef maður fer utan við efni það, sem í umræðu er; eða ef maður ryfjar upp útkljáð mál, til að kvarta yfir málalokum; eða ef maður atyrðir þíngið eða nokkurn þíngmann á nokkurn hátt, svo sem fyrir vonzkufull ráð eður illan vilja; eða ef maður beitir konúngi og vilja hans í því skyni, að beygja frjáls atkvæði manna; eða ef maður hefur hótanir í frammi um nokkurt ofríki á nokkurn veg í sama skyni.

8. gr.

Þegar þíngsafglöpun verður, er forseti skyldur að áminna eða kalla til reglu; en gjöri hann það ekki, á hver þíngmanna rètt á, að krefjast reglunnar, en forseti sker úr málinu eða skýtur til þíngsins.

9. gr.

Ef sá, sem þíngsafglöpun gjörði, vill eigi hlýða úrskurði forseta, á hann rètt á, að krefja þíngs atkvæða, en gángi atkvæði honum á móti, og sýni hann enn þverúð, má forseti stínga upp á, að vísa honum af þíngi um eina stund eða lengur, eptir því sem sök er til; en sýni hann optar slíka þvermóðsku,

má vísa honum af þíngi um lengri tíma, og taka af honum dagpenínga hans um þann tíma, sem hann er rækur gjör.

10. gr.

Skyldur er hver þíngmaður, að mæta á fundum, nema forföll banni, og skal hann skýra forseta frá í tækan tíma, hver þau eru, en forseti lýsir því á fundi. Hver þíngmanna, sem ekki mætir á fundum, án þess hann sanni þau forföll sín, er þíngið álítur lögleg og gild, hann missir daglaun sín í það skipti.

11. gr.

Skyldur er hver þíngmaður, að takast á hendur það starf, sem hann er kosinn til, nema þíngið sjálft veiti honum lausn frá því.

*II. Um embættismenn þíngsins.*

12. gr.

Þíngmenn skulu kjósa einn forseta, tvo varaforseta og fjóra skrifara. Forseti og varaforsetar verða hver um sig að vera kosnir með meiri hluta allra atkvæða, sem greidd eru og gild; skrifarar skulu þeir vera, sem með flestum atkvæðum verða til þess kjörnir.

13. gr.

Fái enginn meiri hluta allra atkvæða í fyrsta sinn, til að vera forseti eða varaforseti, skal kjósa á ný á sama hátt; nái enn enginn svo mörgum atkvæðum, skal kjósa um þá, sem flest atkvæði hafa hlotið. Fái fleiri jafnmörg atkvæði, en þeir, er kjósa skal, skal hlutkesti ráða.

14. gr.

Forseti boðar fundi, setur þá og stýrir þeim, samkvæmt þíngsköpum þeim, er þíngið setur sèr. Hann sèr um öll þíngstörf og tilhögun þeirra, tekur við öllum skjölum þíngsins, og stendur fyrir öllum ritstörfum þess og reikníngum.

15. gr.

Forseti má engan þátt taka í umræðum mála á fundum að efninu til, nema því að eins, að hann víki úr forsetasæti á meðan.

16. gr.

Þegar forseti gegnir eigi sjálfur störfum sínum, gengur annarhvor varaforsetanna í hans stað, hvor sem hann til nefnir.

17. gr.

Skrifarar safna atkvæðum á fundum, og greiða fyrstir atkvæði sín; þeir skipta störfum með sèr að forseta ráði.

18. gr.

Skrifarar annast, að ritaðar sèu þíngbækur: 1, dagbók, sem skýrir frá stuttlega öllum þeim skjölum, er til þíngsins koma, hve nær þau koma, hver meðferð þeirra er, og hvernig afdrif þeirra verða á þínginu. 2, gjörðabók, sem skýrir frá stuttlega, hvað fram fer á þíngi á degi hverjum. 3, brèfabók, sem rita skal í allt það, sem frá þínginu er sent með forseta nafni undir.

19. gr.

Skrifarar hafa aukaskrifara til aðstoðar sèr, til að rita ræður þær, sem haldnar verða á fundum. Þeir skulu sjá um, að þær sèu ritaðar og lagðar fram til sýnis öllum þíngmönnum innan sólarhríngs frá því fundi er slitið, og skulu þær vera annan sólarhríng til sýnis. Skyldir eru þíngmenn, hver um sig, til að aðstoða ritarana, til að fá ræðurnar sem fyllstar og rèttastar.

*III. Um nefndir.*

20. gr.

Nefndir eru tvenns konar: hlutfallsnefndir og kosníngarnefndir.

21. gr.

Hlutfallsnefndir eru settar á þann hátt, að forseti skiptir öllum þíngmönnum í þrjá flokka eptir hlutfalli, og er hver flokkur nefnd fyrir sig, kýs sèr forseta og skrifara, og ræðir það mál, sem fyrir liggur, á sama hátt og í nefndum tíðkast, en ritar ekki álitsskjöl.

22. gr.

Kosníngarnefndir eru þannig settar, að hver þíngmaður ritar á seðil nöfn þeirra manna, sem hann vill kjósa, jafnmörg og ákveðið er að vera skuli í nefndinni; sè á einhverjum seðli fleiri nöfn eða færri, en vera á, eða ef nafn einhvers er svo ógreinilega ritað, að ekki verði lesið eða greint frá öðrum, þá er sá kosníngarseðill ónýtur, og má sá, sem ritaði, ekki kjósa upp aptur í það sinn.

23. gr.

Nefndarmenn skal kjósa með meiri hluta allra atkvæða, þeirra er greidd eru og gild; fái ekki nógu margir svo mörg atkvæði í fyrsta kjöri, skal kjósa þá, sem vantar, á sama hátt; fáist enn ekki full atkvæðatala, skal nefna til þá, sem flest atkvæði hafa, tvöfalt fleiri en þá, sem kjósa þarf, og kjósa meðal þeirra. Fái tveir eða fleiri jafnmörg atkvæði, skal hlutkesti ráða.

24. gr.

Bæta má mönnum við kosníngarnefndir, ef þær óska þess og þíngið samþykkir.

25. gr.

Hver kosníngarnefnd kýs sèr forseta og skrifara, og framsögumann, þegar hún hefur mál til meðferðar á þíngi. Til framsögumanns má kjósa hvern sem vill af nefndarmönnum.

26. gr.

Þegar nefndir hafa fundabók sèr, skal nefndarskrifarinn rita í hana á nefndarfundum. Bókina skal gjöra með forseta ráði, og staðfestir hann hana, en síðan skal hún fylgja skjölum þíngsins.

27. gr.

Þíngið kýs tvær fastar nefndir, og skulu þrír menn sitja í hvorri; þær eru: tíðindanefnd og þíngskapanefnd.

28. gr.

Tíðindanefndinni er ætlað, að standa fyrir útgjörð þíngtíðindanna með umsjá forseta. Nefndarmenn skipta störfum með sèr að forseta ráði.

29. gr.

Þíngskapanefndinni er ætlað, að hugleiða allt það, sem bæta má þíngreglurnar, og bera upp um það frumvörp sín fyrir þínginu.

*IV. Um meðferð mála á þíngi.*

30. gr.

Ætlunarverk þíngsins á hverjum degi og fundartími skal vera ákveðið fyrirfram; það heitir *dagskrá*, og má forseti eigi breyta henni, nema með samþykki þíngsins.

31. gr.

Forseti skal við hver fundarlok birta dagskrá til næsta fundar, og láta jafnskjótt festa hana upp á lestrarsalnum. Óski þá tíu þíngmenn breytínga í dagskránni, skal skjóta því til atkvæða þíngsins.

32. gr.

Þegar fundur hefst, skal forseti láta lesa gjörðabók frá fyrra fundi, og skrifar hann og einn skrifaranna undir, þegar hún er samþykkt; síðan lætur hann lesa dagskrána.

33. gr.

Engin umræða um mál nè atkvæðagreiðsla má fram fara, nema á lögmætum fundi.

34. gr.

Þá er lögmætur fundur, þegar þrír hlutir þíngmanna eru á fundi, eða fleiri, en ella eigi.

35. gr.

Sèrhver uppástúnga á að vera: 1, skrifleg, og 2, fram borin af nafngreindum þíngmanni; að öðrum kosti má hana ekki til greina taka.

36. gr.

Forseti tekur við öllum uppástúngum þíngsins vegna, og skal hann boða þær á fundi; síðan skulu þær vera til sýnis, þar til ákveðið verður á dagskrá, hve nær þær skuli koma fram á þíngi; þá skal leita atkvæða, hvort prenta skuli, áður málið kemur til umræðu; verði því neitað, þá er uppástúngunni hrundið, og má ekki bera hana upp óbreytta á því þíngi.

37. gr.

Heimilt er, að taka aptur uppástúngu eða frumvarp, hversu lángt sem umræðu er komið, enda er og hverjum þíngmanni heimilt, að taka að sèr þá uppástúngu, sem annar sleppir.

38. gr.

Þegar uppástúnga er prentuð eða lagafrumvarp, þá skal líða eigi minna en sólarhríngur til þess það er til umræðu tekið.

39. gr.

Um lagafrumvörp má setja hlutfallsnefndir, áður en þau koma til fyrstu umræðu á þíngi.

40. gr.

Ekkert lagafrumvarp er fullrætt, nema það sè þrisvar rætt á lögmætum fundi.

41. gr.

Fyrsta umræða skal vera um aðalefni og undirstöðu frumvarpsins, og má þar eigi ræða um einstakar greinir þess, nema til að styrkja mál sitt. Við lok umræðu sker þíngið úr með atkvæðum, hvort meðferð málsins skuli lengra gánga.

42. gr.

Ef þíngið samþykkir, að málið skuli lengra gánga, þá skal þegar ákveða, hversu með skuli fara, hvort nefnd skuli setja eða eigi, og hvernig.

43. gr.

Nú eru hlutfallsnefndir settar, þá skal ákveða, hvort álitsskjal á að rita, og hversu kjósa skal nefnd til þess, hvort

kjósa skuli alla í þínginu einúngis, eða skuli þíngið kjósa nokkra, en flokkarnir hina.

44. gr.

Álitsskjöl nefnda skal prenta, og skal svo til haga, að þíngmenn hafi tíma til, að kynna sèr þau og bera upp breytíngaratkvæði sín, en forseti lætur prenta þau og auglýsa, áður en málið gengur til annarar umræðu.

45. gr.

Í annari umræðu skal rannsaka greinir frumvarpsins hverja um sig, og ræða breytíngaratkvæði. Atkvæða skal leita um hverja grein og um breytíngaratkvæði. Seinast skal leita atkvæða um það, hvort frumvarpið skuli koma til þriðju umræðu, þannig sem það er þá orðið.

46. gr.

Í þriðju umræðu verður frumvarpið rætt með þeim breytíngum, sem samþykktar eru í annari umræðu; þá má eigi taka við breytíngaratkvæðum, nema þau sèu borin upp af hendi nefndar þeirrar, er í málinu var sett, eður af tíu nafngreindum þíngmönnum, og skulu þau vera birt að minnsta kosti deginum áður.

47. gr.

Þegar umræðu er lokið og atkvæði greidd, skal forseti láta lesa upp frumvarpið, svo sem það er þá orðað, og spyrja þíngið: „Vill þíngið játa, að þetta allt sè þannig lögleitt"?

48. gr.

Skrifarar og nefndin í málinu skulu síðan rannsaka frumvarpið, og finni þeir þá nokkra augljósa ósamhljóðun eða aðra bera villu, skulu þeir bera það upp á þíngi, og stínga upp á leiðrèttíngum, en síðan skal skjóta því til atkvæða þíngsins án umræðu; verði fallizt á leiðrèttíngarnar, skal lesa frumvarpið allt upp á ný, og leita um það samþykkis þíngsins, sem fyr segir.

49. gr.

Við fyrstu og þriðju umræðu mála má enginn þíngmanna taka optar til máls en tvisvar, nema uppástúngumaður og framsögumaður.

50. gr.

Þegar mál er í umræðu á þíngi, má ætíð stínga upp á, að kjósa nefnd í mál, eða einstakt atriði þess, eða vísa til rannsóknar í nefnd, sem áður var kosin, og skal skera úr því þá þegar; setja má slíkum nefndum frest, hve nær þær skuli hafa tekið saman atkvæði sitt.

51. gr.

Þegar mál er tekið til umræðu, má stínga upp á, að frestað verði umræðu þess, annaðhvort um ákveðinn tíma eða óákveðinn, og skal skjóta því til atkvæða þá þegar.

52. gr.

Nú vilja menn, að þíngið beri upp fyrir konúngi álit sitt eða uppástúngu um eitthvert efni, eða bænarskrá, og skal þá fyrst boða það, og síðan ræða á tveim fundum, áður það sè fullráðið.

53. gr.

Nú vilja aðrir, að þessu máli verði eigi gaumur gefinn; þá má stínga upp á þegar í upphafi umræðu, að málinu sè frá vísað, og má þá engin umræða fram fara, fyr en um það eru atkvæði greidd, en verði sú uppástúnga samþykkt, er málið fallið. Stínga má og upp á, að þíngið taki til dagskrár sinnar; verði það samþykkt, þá er málinu frestað um óákveðinn tíma.

54. gr.

Uppástúngur þíngskapanefndar má útkljá í tveimur umræðum á þíngi.

55. gr.

Nú vill þíngmaður bera upp fyrirspurn til erindsreka stjórnarinnar um eitthvert mál, og skal hann þá fyrst fá forseta fyrirspurn sína ritaða með nafni; síðan skal forseti boða það á næsta fundi, og spyrja þíngið leyfis, hvort sú fyrirspurn megi framgáng fá, og skal leita atkvæða um það; verði það leyft, þá lætur forseti prenta fyrirspurnina, og ákveður, hvern dag hún skuli fram koma.

56. gr.

Breytíngaratkvæði öll skulu vera skrifuð með nafni og fengin forseta á þeim tíma, sem boðaður verður, áður en mál kemur til umræðu í annað eða þriðja sinn.

57. gr.

Breytíngaratkvæði eiga að vera svo orðuð, að þau eigi beinlínis og orðrètt þar við, sem þeim er ætlað.

58. gr.

Heimilt er hverjum þíngmanni, að krefjast þess, að breytíngaratkvæði sè frá vísað; þíngið sker þá úr því án umræðu.

59. gr.

Forseti eða tíu nafngreindir þíngmenn eiga rètt á, að stínga upp á, hve nær sem þeim líst, að lokið sè umræðu um mál, og skal þá þegar gánga til atkvæða um það, en þíng-

menn þeir, sem tala vildu, eiga rètt á, að segja til sín áður, og láta það bóka.

60. gr.

Þíngmenn einir mega bera fram bænarskrár eða skjöl frá utanþíngsmönnum; skal afhenda það forseta, og skýrir hann frá því á fundi, og lætur leggja það fram á lestrarsal þíngsins undir umsjón skrifaranna. Sè þess óskað af þíngmanni, að nokkurt þvílíkt skjal sè lesið á þíngi, þarf til þess samþykki meira hluta þíngmanna.

*V. Um atkvæðagreiðslu*

61. gr.

Atkvæðagreiðsla fer fram eigi fyr, en lokið er umræðu máls, annaðhvort af því enginn kveður sèr hljóðs framar, eða af því, að þíngið ályktar, að umræðu skuli lokið vera.

62. gr.

Forseti skal sjá um, að reglulegar atkvæðaskrár sèu prentaðar handa hverjum þíngmanni, áður til atkvæða kemur, og skal þar hvert atriði standa í þeirri röð, sem hann vill hafa því til atkvæða skotið.

63. gr.

Atkvæðagreiðsla er með tvennu móti; önnur er sú, að forseti biður menn upp standa í sæti sínu, fyrst þá, sem fallast á það, sem upp er borið, og síðan þá, sem á móti eru; hin er sú, að kallaðir sèu þíngmenn með nafni til atkvæða, bæði þeir sem eru með og á móti.

64. gr.

Atkvæðagreiðsla með nöfnum fer því að eins fram, að hin fyrri atkvæðagreiðsla sè óglögg, eða að sjö þíngmenn óski hennar brèflega, og skal bóka nöfn þeirra.

65. gr.

Þegar nafnakall er til atkvæða, er engum leyfilegt að fara af þíngi, nè draga sig undan atkvæði.

66. gr.

Úr því byrjuð er atkvæðagreiðsla má ekki stínga upp á, að máli sè frestað.

67. gr.

Enginn má tala um efni máls, þegar atkvæðagreiðsla er byrjuð, nè á neinn hátt reyna að hindra atkvæðisfrelsi þíngmanna, en tala má stuttlega um atkvæðagreiðsluna sjálfa, og

stínga upp á, að haga henni öðruvísi, þó svo, að upp á því sè stúngið, áður en gengið er til atkvæða um hverja grein.

68. gr.

Það er aðalregla, að breytíngar breytíngaratkvæða skal fyrst til atkvæða bera, síðan breytíngaratkvæði, og seinast hið upphaflega frumvarp.

69. gr.

Enginn má greina ástæður fyrir atkvæði sínu meðan á atkvæðagreiðslu stendur.

70. gr.

Ekkert mál eða málsatriði er samþykkt, nema meiri hluti atkvæða sè með; sèu jöfn atkvæði með og móti, er málið fallið.

71. gr.

Nú vill maður leggja lagalýritt fyrir lög eður ályktun, sem gjörð eru á þíngi, þá skal hann gjöra það, þegar hann er kvaddur atkvæðis, annaðhvort í fám orðum munnlega, eða fá lýritt sinn skrifaðan forseta, og skal lesa hann upp og leggja til gjörðabókar.

---

72. gr.

Þínghöld fara fram í heyranda hljóði. Forseti skal sjá um, að tilheyrendur gæti allrar siðsemi, og hefur hann vald til, að vísa þeim burt, sem af því bregða, ef þeir vilja eigi hlýðnast áminníng hans.

73. gr.

Forseti eða tíu þíngmenn mega stínga upp á, að þínghöld um eitt eður annað mál fari fram að luktum dyrum, og sker þíngið úr með atkvæðum.

74. gr.

Breyta má af þíngreglum í einstökum tilfellum, ef þrír hlutir þíngmanna leyfa, þeirra er á fundi eru.

---

Þegar búið var að lesa frumvarpið, lèt forseti gánga til atkvæða um það í heilu lagi, og var það því næst samþykkt með 39 atkvæðum gegn 2.

*Forseti:* Áður en gengið er til atkvæða, til að kjósa nýja embættismenn þíngsins, þá vil eg geta þess, að mèr finnst

best til fallið, að valdar sèu um leið þær nefndir tvær, sem 27. gr. þíngskapanna ákveður; því eg skil það svo, sem þeir menn, er í þær eru kosnir, heyri til embættismanna þíngsins, af því þeir hafa ákveðinn starfa á hendi fyrir þíngið.

Síðan gekk forseti úr sæti sínu, en varaforseti settist í það aptur.

Kosníngar þessara embættismanna fóru síðan fram, og varð amtmaður *P. Melsteð* forseti með 40 atkvæðum; varaforsetar urðu þeir *K. Kristjánsson* með 36 atkvæðum, og *E. Briem* með 22.

Þess utan fengu þessir menn flest atkvæði: kandíd. *J. Sigurðsson* 9 atkvæði, *P. Pètursson* 7, og *H. Stephensen* 5 atkvæði.

Þíngskrifarar urðu þeir: *B. Halldórsson* með 40 atkvæðum, *P. Melsteð* sýslumaður með 39, *Þ. Kristjánsson* með 12, og *Á. Böðvarsson* með 10 atkvæðum.

Þar hjá fengu *Jón Guðmundsson* og *M. Gíslason* 9 atkvæði hvor, *Halld. Jónsson* 8, og *G. Einarsson* 7.

Í tíðindanefndina voru valdir: *G. Magnússon* með 25 atkvæðum, *Jens Sigurðsson* með 23, og *P. Pètursson* með 22 atkvæðum.

*P. Pètursson*: Ef að tíðindanefndin á að hafa lestur prófarka á hendi, þá vildi eg helzt hafa mig því verki undan þeginn; því sökum augnveiki, sem eg hef haft í vetur, treysti eg mèr ekki til, að hafa þann starfa á hendi. Eg vil því spyrja forseta, hvort tíðindanefndin þarf að hafa lestur prófarkanna á hendi, og, ef svo er, biðja hann, að fara þess á leit við þíngið, að kosinn verði annar í minn stað.

*Forseti*: Eg held það hafi verið mikið rètt gjört af þínginu, að velja þennan þíngmann, og eg ætla, að það sè ekki skylda þessarar nefndar, að leiðrètta prófarkirnar, heldur að sjá um prentunina; og þó svo væri, að hún ætti að lesa þriðju prófförk, þá eru hinir 2 nefndarmenn úngir og nákvæmir í því efni.

*P. Pètursson*: Fyrst hinn háttvirti forseti segir, að nefndin eigi ekki að hafa leiðrèttíng prófarkanna á hendi, þá vil eg ekki hafa mig undan þeginn, með því eg álít mèr skylt, að verja kröptum mínum í þarfir þíngsins.

Í þíngskapanefndina voru þessir kosnir: kandíd. *J. Sig-*

*urðsson* með 35 atkvæðum, *H. Stephensen* með 24, og *Jón Guðmundsson* með 23 atkvæðum.

*Forseti*: Vegna þess, að eg veit ekki, hve nær hlutfalls-nefndadeildirnar verða búnar að ræða frumvörpin, get eg ekki nú ákveðið fund á morgun, heldur skal eg tilkynna þíngmönnum það seinna.

Síðan sagði forseti fundi slitið.

---

## 8. fundur, 18. d. júlím.

Þíngbók frá næsta fundi lesin og samþykkt.

*Forseti* skýrði þínginu frá, að 1. þíngmaður frá Skaptafellssýslu gæti ekki verið á fundi í dag vegna lasleika.

*Forseti*: Eg skal leyfa mèr að geta þess, áður en tekið er til dagskráarinnar, að eptir að eg hafði borið mig saman við tíðindanefndina, og þá af þíngmönnum, sem kunnugastir eru, hef eg ákveðið, að upplagið af tíðindum fundarins skyldi vera 1000; því vèr hèldum, að það mundi verða of lítið, að leggja ekki meira upp en 600, og kostnaðurinn þá ekki þeim mun minni, að á það bæri að líta. Svo hef eg og eptir samkomulagi við tíðindanefndina samið við stiptamtmann um, að borga 14 rbdd. fyrir prentun á hverri örk, eins og verið hefur að undanförnu. Eg gat ekki heldur fengið það ódýrara.

Samkvæmt dagskránni er það þá fyrst fyrir hendi, að ræða í fyrsta sinni „Frumvarp til laga um ákvarðanir nokkrar áhrærandi siglíngar og verzlun á Íslandi"; get eg þess jafnframt, að samkvæmt 41. gr. í þíngsköpunum, snertir þessi umræða einúngis aðalefni og undirstöðu frumvarpsins, en ekki einstakar greinir þess, nema hvað þíngmönnum er leyfilegt, að vitna til einstakra greina í því skyni, að styrkja með því skoðun sína á aðalmálefninu sjálfu.

Kandíd. *J. Sigurðsson*: Eg ætla að leyfa mèr, að leiða athuga þíngmanna að aðalefninu í þessu frumvarpi, og játa eg þá fyrst og fremst, að með því er nokkuð unnið, hvað verzlunina snertir, og mèr skyldi hafa þótt vænt um, ef verzlunarmálefninu hefði verið komið svona lángt 1847.

Þegar menn virða fyrir sèr frumvarpið og þær ástæður, er það styðst við, þá er það fyrst auðsætt, að aðalstefna stjórnarinnar, hvað verzlunina snertir, er eptir frumvarpinu önnur en sú, er hún hefur að undanförnu fylgt fram. Stjórnin hefur nú

sjálf viðurkennt í ástæðum frumvarpsins, að sú stefna, er verzlunin hefur haft híngað til, hefur ekki verið eðlileg, af því hèr hefur ekki verið haft tillit til landsins. Stjórnin segist nú vera farin að skoða verzlunina frá sjónarmiði landsins, og er það bæði eðlilegt og rètt. Eg get ekki annað en glaðzt mikillega yfir því, ef því væri drengilega fylgt. Það er öldúngis nauðsynlegt, að líta svona á verzlunina í því landi, sem er eins einkennilegt og Ísland, og hefur það ekki lítið hallað högum landsins, að verzlunin hefur ekki verið skoðuð frá þessu sjónarmiði að undanförnu. Það er í öðru lagi auðráðið af frumvarpinu, að stjórnin fylgir fram þeirri grundvallarreglu, að að greina þrennt: 1. verzlunina sjálfa, 2. fiskiveiðar, og 3. vöruflutnínga frá einni höfn til annarar. En þessum grundvallarreglum er ekki alstaðar stránglega fylgt í frumvarpinu. Ef maður skoðar hina 1. grundvallarreglu, þá finnst mèr það liggi næst, að allir ættu eptir því að hafa jafnan aðgáng til verzlunarinnar, þegar hún er skoðuð frá sjónarmiði þessa lands, og engum sè vilnað í fremur öðrum; en þetta verður ekki ofan á, eptir því sem á er kveðið í frumvarpinu; því þar er til tekið, að þeim kaupmönnum, sem hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, skuli vera heimilt, að taka utanríkisskip á leigu, en mèr skilst ekki betur, heldur en að danskir eða íslenzkir lausakaupmenn geti alls ekki notið slíkra rèttinda. Það gæti þó verið einmitt hagur fyrir landið og kaupmannavísi þess, ef þessi ójöfnuður ætti sèr ekki stað, og gæti það orðið til þess, að koma sumum þeirra í veg, þegar svo stendur á, að einhver vill byrja á verzlun, og fer í því skyni til annara landa. Það væri þá haganlegt fyrir þá, að mega fá skip, hvar sem þeir gætu, með sem minnstri leigu, en vera ekki bundnir við innanríkisskip eingaungu, eins og þeir eru eptir frumvarpinu; því eptir því eru þeir neyddir til, að sæta þeim kjörum, sem þeim býðust í Danmörku eða Kaupmannahöfn.

Þar næst er það ekki samkvæmt aðalreglu þeirri, að skoða verzlunina frá sjónarmiði landsins, að gjöra þann mismun á innan- og utanríkis-mönnum, sem í 4. gr. er gjörður. 5 ríkisbánkadala gjaldið, sem þar er talað um, heldur utanríkisverzluninni í viðlíkum böndum og áður, með því hún gjörir utanríkismönnum örðugra fyrir en öðrum, að hafa verzlun hèr á landi. Þessi mismunur er því undarlegri, sem stjórnin fann að því við uppástúngu alþingis 1845, að það gjörði þennan mun, sem henni sýndist óviðurkvæmilegur með öllu. Eg fyrir mitt

leyti skil nú ekki í þessum mismun stjórnarinnar, þegar hún á annað borð skoðar verzlunina frá sjónarmiði landsins, og hvað uppástúnguna frá alþíngi 1845 snertir, þá mun hún eins úngis hafa verið sprottin af því, að alþíngið hélt, að sú skoðun væri svo rík hjá stjórninni, að meta meira gagn Dana enn Íslendínga, að þessi mismunur mundi vera öldúngis nauðsynlegur, eptir því sem þá stóð á, til þess að geta vænt nokkurrar áheyrnar.

Þá virðist mèr og nokkur ójöfnuður koma fram í frumvarpinu, þegar 1. og 3. gr. þess eru bornar saman, með tilliti til leiðarbrèfanna. Innanríkismönnum er gjört óhægra fyrir, að ná þeim, en utanríkismönnum, þar sem þeir geta ekki fengið þau á hentugum stöðum, og getur slíkt orðið bagalegt mjög, þegar innanríkiskaupmaður er staddur í öðrum löndum, og honum veitir hægra, að fara til næsta verzlanarfulltrúa. Sama er og að segja um þá reglu, sem gefin er í 2. gr. frumvarpsins um leiðarbrèfin, að utanríkisskipum er þar leyft, „að hleypa inn í Reykjavíkurkaupstað, þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf“, að hún gjörir utanríkiskaupmönnum hægra fyrir; því þeir þurfa ekki annað, en fara til Reykjavíkur, til þess að fá leiðarbrèf hjá stiptamtmanninum, en það er í raun og veru sama, eins og að leyfa siglingar til Reykjavíkur öldúngis takmarkalaust.

Hvað því viðvíkur, að að greina verzlun, fiskiveiðar og vöruflutnínga, eins og frumvarpið gjörir, þá er það efalaust rètt í sjálfu sèr; því það geta verið þrír atvinnuvegir. En mèr finnst, að það geti verið efi á, hvort nú þegar er tími til, að gjöra þessa aðgreiníngu, á meðan verzlunin er í slíkum barndómi hjá oss, eins og hún er. Og hvað fiskiveiðarnar snertir, þá er það kynlegt, að banna þær þeim, sem hafa viðskipti við landsmenn, en hvorki hafa alla til, nè láta sèr detta í hug, að banna þær hinum, sem hundruðum saman liggja á straumum Íslands, og engin viðskipti hafa við landsmenn. Það er engan veginn tilgángur minn, að leggja það til, að hekkjast við veiðar þessara manna, en það er ósamkvæmt og óviðfeldið, að nokkrir fari alíkra hlunninda á mis, einmitt af *því*, að þeir hafa viðskipti við landsmenn. Sama er að segja um vöruflutníngana, að það mun enn ekki vera kominn tími til þess, að einskorða þá; það mundi vera bezt, að þeir gætu verið sem frjálsastir framan af.

Eitt er það atriði enn, sem og vil leyfa mèr að minnast

á; því þó það standi í einstakri grein, þá er það samt grundvallarregla; það er um hin íslenzku leiðarbréf. Eg sè ekki, hvers vegna menn skyldu þurfa leiðarbrèfa fremur híngað, en til annara landa; því það er nóg, ef kaupförin hefðu þau löglegu skilríki, sem hvervetna eru látin gilda annarstaðar, þegar menn fara frá einu landi til annars. Þessi ákvörðun um leiðarbrèfin er líka ónýtt í 2. gr. frumvarpsins, þar sem það er leyft, „að hleypa til Reykjavíkur, þó ekki hafi menn íslenzk leiðarbrèf, og þó ekki sè neyð fyrir hendi“.

Enn er eitt atriði, sem eg vil minnast á, en það er tímaákvörðunin í 3. gr., sem bersýnilega heyrir til gömlum reglum og úreltum. Tíminn, sem þar er til tekinn, er svo naumur, að eg veit ekki til, að hann hafi hèr nokkurn tíma verið eins naumur.

Að öðru leyti virðist mèr fyrirkomulag greinanna í frumvarpinu nokkuð óskipulegt, og greinirnar sjálfar nokkuð ólögulega samdar, svo að það væri æskilegt, að þeim væri betur hagað og niður skipað, svo að tilgángur frumvarpsins yrði skiljanlegri. En eg ætla ekki að fara um það fleirum orðum, vegna þess, sem hinn háttvirti forseti tók fram samkvæmt þínsköpunum, að nú skyldi einúngis ræða aðalatriði frumvarpsins.

*Jak. Guðmundsson:* Auk þess aðalatriðis, sem þíngmaðurinn úr Ísafjarðarsýslu gat um við frumvarpið, að það skoðaði verzlunina frá sjónarmiði landsins, þá ætla eg að drepa á annað atriði, sem stendur í sambandi við þetta, en það er, að frumvarpið fylgir þeirri skoðun fram, að hlynna að fastri verzlun í landinu, og finnst mèr það mikið hyggilega gjört. Þetta lýsir sèr í nokkrum atriðum í frumvarpinu, t. a. m. þar sem að utanríkis-lausakaupmönnum er gjört það að skyldu, að koma fyrst til Reykjavíkur, eða annara vissra kaupstaða, er henni kynnu að verða jafnhliða. En það er aðgætandi, að þessi ákvörðun nær ekki jafnt til allra lausakaupmanna, þar sem hinir dönsku lausakaupmenn mega, eins og áður hefur verið, koma inn á hvert kauptún, sem þeir helzt vilja. En þessi undantekníng fer í bága við þá aðalgrundvallarreglu frumvarpsins, að koma upp föstum verzlunarstöðum. Það væri því betra og þessari áminnstu grundvallarreglu samkvæmara, að gjöra jafnt öllum lausakaupmönnum það að skyldu, að koma fyrst á þessa hina tilteknu vissu kaupstaði. En það gæti aptur að minni ætlun verið skoðunarmál, hvort það ætti ekki betur við, og yrði hag-

kvennara, að utanríkis-lausakaupmenn hefðu leyfi til, að flytja vörur sínar frá aðalkaupstöðunum til annara kauptúna, og selja þær þar, að minnsta kosti nauðsynjavörur; því eptir frumvarpinu er þeim einúngis leyfilegt, að sækja þángað vörur landsmanna. Væri nú þessu þannig breytt, að öllum lausakaupmönnum væri að sönnu gjört það að skyldu, að koma fyrst til einhvers af aðalverzlunarstöðunum, en leyft að flytja síðan vörur sínar þaðan til kauptúnanna, þá held eg, að þeim aðaltilgángi frumvarpsins, að koma upp föstu kaupmönnunum, yrði betur framgengt; því þá hefðu föstu kaupmennirnir þau hlunnindi, að þeir fyrstir allra ættu kost á, að kaupa við þá. Landsmönnum væri þá líka borgið, þegar lausakaupmenn hefðu leyfi til, að flytja vörur sínar út til kauptúnanna; því þá gætu föstu kaupmennirnir hvorki einokað við þá vörurnar né flutnínginn.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Mèr þykir það að frumvarpinu, að hinum dönsku lausakaupmönnum er ekki gefið jafnrètti við þá föstu. Eg vildi helzt, að þeim væri heimilt, að taka utanríkisskip á leigu og hafa til verzlunar hèr á landi, eins og föstu kaupmönnunum. Menn hafa og áður beðið þess alvarlega á hinum fyrri þíngum hèr, að lausakaupmenn fengju að njóta jafnra rèttinda við föstu kaupmennina. Því eptir minni meiníngu yrði það meiri hagur fyrir land og lýð, að efla sem mest lausakaupmennina, því þá færist ábatinn fremur upp í hvern fjörð og dal og sveit, en að efla einstöku vissa verzlunarstaði, og þróa þannig staðalífið, sem hèr á ekki við byggðarlag eður landslag, og sem eg er svo hræddur um, að hèr geti aldrei átt við hvort sem er.

*G. Einarsson*: Þegar eg renni huganum yfir verzlunarmálið, eins og það kemur mèr fyrir sjónir, af þeirri litlu skoðun og reynslu, sem eg hef haft á því, þá þykir mèr á því mikill galli, og er hann í mínum augum mikilvægastur að því leyti, að svið verzlunar vor Íslendínga er svo afmarkað, að ekki hefur nema ein lítil þjóð getað til vor komið, og þetta hefur verið oss því tilfinnanlegra, sem vèr höfum haft svo að segja engan krapt til, að leita sjálfir verzlunarhagræðis við þessa þjóð, heldur höfum vèr, að heita má, að öllu verið háðir lögmáli því, sem hún hefur oss sett, og þetta lögmál hefur verið eptir því rýmra eða þrengra, eptir því sem meiri eða minni aðsókn hefur verið af verzlunarmönnum þessarar einu þjóðar, og þó ætíð þvíngandi. Þetta sýnir fram á það, að oss

Íslendingum, sem ekki getum, að kalla má, hreift oss að heiman til verzlunar, sè það óumflýjanlega nauðsynlegt, að verzlun vor sè ekki bundin við eina þjóð, heldur fleiri, svo að aðsókn og jafnaðarkapp geti vaxið eptir því, sem unnt er, og lögmál einokunarinnar rýmzt með því móti sem mest, eða horfið með öllu. Allar útlendar þjóðir eiga því að fá, eptir minni skoðun, leyfi til verzlunar við oss, og þeim á að vera gjört leyfið svo aubvelt í öllu tilliti, eins og framast getur staðizt með nauðsynlegri reglu og óhultleika. Eg vil, að þetta leyfi fáist sem fyrst, og að allar þjóðir hafi jafnan rètt til verzlunarinnar, og eigi sömu kvöðum að sæta, sem einnig sèu svo vægar, að enginn verulegur verzlunartálmi geti af því orsakazt. Líka virðist mèr eiga að líta á það, að aðaltilgángur komu þjóðanna til vor sè verzlunin. Í tilliti til landsins sjálfs held eg hyggilegast, að verzlunin sè að forminu til bundin fyrst um sinn við hæfilega marga ákveðna verzlunarstaði landsins, sem hagfeldir sèu, en geti þó í raun og veru dreifzt þaðan tálmunarlaust til hinna annara kauptúna, án þess nokkur einstök þjóð, einstakir menn, einstök skip hafi einkarèttindi til, að flytja þángað vöru frá hinum ákveðnu verzlunarstöðunum. Að lyktum vildi eg óska, að löggjöfin um þetta mál yrði skýr og sem óbrotnust.

*St. Jónsson*: Eg vil leyfa mèr að bæta því við ástæður þíngmannsins úr Reykjavík, að ef svo færi, eins og frumvarpið fer fram á, að utanríkiskaupmönnum yrði ekki leyft, að koma nema á fáa staði, þá held eg svo gæti að borið, að þeir fengju ekki vörur sínar seldar, og mættu flytja þær heim aptur, ef þeim væri ekki heimilt, að fara með þær til annara verzlunarstaða. Þetta yrði líklega til þess, að þeir hvekktust, og sæktu ekki verzlun híngað aptur. Mèr virðist því, að þeim ætti að vera heimilt, að flytja vörur sínar til fleiri kauptúna, þegar þeir fyrst hefðu komið á vissa kaupstaði, og hefðu ekki getað selt vörur sínar þar; en með því næst líka það augnamið, að koma upp kaupstöðum; því það eru líkindi til, að þeir gætu komið vörum sínum út, þegar þeir ættu kost á, að selja þær á fleiri stöðum.

*Á. Böðvarsson*: Eg hef litlu sem engu við það að bæta, sem 1. fulltrúi Ísafjarðarsýslu áðan mælti, þegar hann tók það fram, að frumvarpið skiptist allt í 3 kafla; því það er ljóst, að svo muni eiga að vera. Þó vil eg leyfa mèr að benda þíngmönnum til 2 greina í frumvarpinu, sem snerta fiskiveiðarnar

og vöruflutníngana, til þess að sýna þann mun, sem mèr finnst þar vera gjörður á frelsi verzlunarmanna. Það er eins og andi frumvarpsins beri það með sèr, að fastakaupmenn hafi lesið það fyrir. Í 1. gr. eru allir undir sömu reglu, og er það auðsjáanlega gjört til þess, að villa mönnum sjónir, eins og jafnt eigi yfir alla að gánga; því er sagt, að utanríkisskip megi ekki hafa til fiskiveiða. En þrátt fyrir þessa ákvörðun liggur það í augum uppi, að þó að föstu kaupmennirnir hefðu hundrað dönsk skip, gætu þeir haft þau öll til fiskiveiða, og þyrftu því ei að leigja utanríkisskip til slíkra starfa. Er þá auðsætt, að þeir hafa í þessu lángt um meiri rètt en hinir. Hvað vöruflutníngunum viðvíkur, þá held eg, að það sè alveg verra en ekki neitt, sem frumvarpið fer fram á. Lausakaupmennirnir mega nefnilega eptir frumvarpinu færa fastakaupmönnum vörur, en ekki flytja neitt sjálfir á önnur kauptún. Slíkar ákvarðanir virðast mèr fráleitlega ófrjálsar, og þar eð lausakaupmönnum er gjört það að skyldu, að af ferma öldúngis skip sín á einhverjum tilteknum verzlunarstað, þá liggur það í augum uppi, að fastakaupmennirnir geta ráðið kaupunum að vild sinni, og er það bersýnilegur hagur fyrir þá, sem enginn mundi heldur hafa neitt á móti, ef það gæti samrýmzt með hagsmunum landsmanna.

*Forseti*: Eg vona, að eg brjóti ekki á móti 15. gr. í þíngsköpunum, sem ekki leyfir mèr, að tala um efni málsins, þó eg bendi til þess, að ef eg hef skilið 2. þíngmanninn úr Reykjavík rètt, þá hefur hann misskilið frumvarpið, þegar hann sagði, að lausakaupmenn mættu ekki flytja vörur til kauptúnanna; því til þess hafa þeir leyfi eptir eldri lögum, og því er ekki haggað með þessu frumvarpi. En þar á móti er það víst, að 8. gr. frumvarpsins, eins og hún nú er löguð, bindur leyfið til vöruflutnínganna við þá kaupmenn, sem eiga fasta verzlunarstaði á Íslandi.

*P. Pètursson*: Þíngmenn hafa nú þegar í ræðum sínum tekið fram tvo aðalkosti frumvarpsins, og er eg því öldúngis samdóma, 1. að frumvarpið skoði verzlunina frá sjónarmiði landsins, og 2. að það sè landinu hollt, að koma upp vissum kaupstöðum. Hvorttveggja þetta er að minni ætlun góð undirstaða til þess, að verzlunin geti komizt í haganlegt horf hèr á landi. Aptur á hinn bóginn hafa menn tekið það fram, að einstakar greinir í frumvarpinu muni ekki samsvara þessum

lofsverða tilgángi; en það er aðgætandi, að þegar stjórnin samdi frumvarpið, hefur hún þurft að taka margt til greina; því allir skynsamir menn hljóta að sjá, hversu varlega það er gjörandi, að hrapa mjög að breytíngum, þegar um mikilvæg málefni er að gjöra, sem grípa djúpt inn í fèlagslífið, og þetta má með sanni segja um verzlunarmálefnið. Það þarf ekki að eyða orðum að því, hvílíkum erfiðleikum stjórnin hafi haft að mæta í því, að laga greinir frumvarpsins eptir því sjónarmiði, sem það átti að hafa. Það getum vèr allir leitt oss í grun, og á það er einnig bent í ástæðunum fyrir frumvarpinu. Hvað lausakaupmennina snertir, þá leyfi eg mèr að geta þess, að eg álít það viturlega gjört, að það er ekki haft tillit til þeirra í l. gr.; því margt mundi verða athugavert, ef þeir fengju sömu rèttindi og fastakaupmennirnir í þessu efni. Fyrst er það auðsjáanlegt, að ef þeir fengju leyfi til, að leigja útlend skip, yrði frelsi það, er þeir nú hafa, að mega fara beinlínis inn á hvert kauptún, að takmarkast; en þetta mundi þeim ekki vera hollara, og eg gjöri ekki ráð fyrir, að lausakaupmennirnir sjálfir vildu einu sinni skipta þessu. Það mun opt vera, að þeir sjálfir eigi skútu, eða geti tekið þær til leigu hjá kunníngjum sínum, og er leiga á dönskum skipum minni, en á skipum flestra annara þjóða. Væri nú lausakaupmönnum leyft, að taka utanríkisskip á leigu, þá þyrftu þeir að takast ferð á hendur til annara landa, og þó gæti svo farið, að þeir fengju ekki skipin til leigu, en hlytu aptur að missa það leyfi, sem þeir nú hafa. Eg get því ekki betur sèð, en að frumvarpið fari hèr því einu fram, sem viturlegt er. Því næst er það, að skyldi nú þar að auki svo fara, að eptirvæntíngarnar, sem menn gjöra sèr um þessa frjálsu verzlun, brygðust á einhvern hátt, þá ættum vèr það frumvarpinu að þakka, að lausakaupmennirnir yrðu þeir einu, sem gætu gjört verzlun vora viðunanlega, með því þeir hefðu þá leyfi til, að koma beinlínis inn á hvert kauptún. Því var áðan hreift, að það væri mismunur eptir frumvarpinu á innan- og utanríkis-mönnum með tilliti til gjalds þess, sem greiðast skyldi af utanríkismönnum. Slík mótbára móti frumvarpinu mun vera sprottin af því, að menn gánga út frá öðru sjónarmiði en stjórnin. Frumvarpið er lagað eptir kríngumstæðunum, og því, hvað haganlegast er fyrir oss, þar sem mótbáran miðar til jafnrèttis þjóða. En það er athugandi, að ef

gjaldið, sem hèr ræðir um, væri jafnt fyrir alla, þá væri það beinlínis tollur, sem legðist á alla verzlun vora.

Hvað nú fiskiveiðarnar snertir, þá ímynda eg mèr, að forboðið í frumvarpinu móti þeim sè sprottið af þeirri skoðun, að það kynni að hafa áhrif á verðið á fiski landsmanna, svo að það lækkaði, ef þessi skip mættu flytja hann hèr á land og þurka hann hèr, af því gnægðin yrði þá svo miklu meiri af honum; því eptir því sem siglíngin til landsins yxi, eptir því hlytu og fiskiveiðarnar að verða meiri, ef ekkert bann væri á þær lagt. Aptur er það efalaust rángt álit, að þessum utanríkisskipum sèu fyrirmunaðar fiskiveiðarnar einúngis fyrir þá skuld, að þau koma híngað í verzlunarerindum.

Af því að því var áðan hreift, þegar talað var um jafnrètti fyrir alla til verzlunarinnar hèr á landi, að stjórnin hefði fundið að því við alþíngi 1845, að það hefði gjört mun á innan- og utanríkis-mönnum, þá ætla eg að geta þess, að eptir því, sem eg hef komizt næst, þá hefur stjórnin aldrei fundið að þessu, heldur þáverandi stiptamtmaður getið þess til, að það kynni að hafa verið bæn vorri til nokkurrar fyrirstöðu.

*Halld. Jónsson*: Eg get ekki annað en fallizt yfir höfuð á skoðun þíngmannsins úr Ísafjarðarsýslu, og glaðzt með honum yfir því, hversu stjórninni hefur miðað á fram í skoðun sinni á verzlunarmáli voru, þar sem hún nú virðist að skoða það frá sjónarmiði landsins sjálfs. Þótt nú stjórnin hafi ekki fastlega fylgt fram þessu sjónarmiði í hinum einstöku greinum frumvarpsins, þá getur slíkt með fram verið sprottið af þeirri ástæðu, sem hinn 5. konúngkjörni þíngmaður minntist á, að hrapa ekki að mikilvægum breytíngum. En orsökin þarf ekki að vera sú, að hún kannist ekki við, að jafnrètti þjóða í verzlunarmálefnum vorum sè bæði eðlilegast og heyri oss til, eða vilji ekki veita oss það, heldur hitt, að henni sýnist það nauðsynlegt, meðan fjárviðskiptin eru óútkljáð, og sambandið milli Danmerkur og Íslands, sem hèr er aðalatriðið, er ekki til lykta leitt. Eg efast því ekki um, að stjórnin kannist við, að gæði verzlunar á Íslandi heyri Íslandi til, og að vilnun sú, sem Dönum í tilliti til hennar kynni að verða veitt, komi til skoðunar í fjárviðskiptum þeim, sem ætíð hljóta að verða milli Íslands og Danmerkur, hvernin svo sem sambandinu verður hagað.

*G. Brandsson:* Eg vil leyfa mèr að fara fáeinum orðum

um fiskiveiðarnar, og verð eg þá að játa, að mèr stendur stuggur af því, ef farið yrði að leyfa þær nú þegar. Eg þykist hafa reynslu fyrir mèr í því, og hana ekki svo litla; því hvað fiskiskútur kaupmanna snertir, og annan sjávarútveg þeirra, þá hef eg tekið eptir því, að verð fisksins á sumrin fer nokkuð eptir því, hvernin á þennan útveg þeirra aflazt hefur veturinn áður. Þetta er líka eðlilegt; því skorturinn á hverjum hlut eykur verð hans, eins og að sama skapi nægtirnar minka það. Eg held því, að það mundi draga úr atvinnuvegum landsins, ef utanríkisskip fengju að hafa fiskiveiðar hèr við landið, þá mundi það ekki einúngis verða bændunum að tjóni, heldur og líka kaupmönnunum. Þegar slíkt leyfi væri fengið, get eg vel ímyndað mèr, að aðalferðin yrði kannske til fiskiveiða, þó það hèti svo, að skipið kæmi með vörur. Það liggur þess vegna í augum uppi, að fastakaupmönnunum og fiskiverzlun þeirra yrði af þessu hætta búin, ekki síður en sjávarbændunum; því utanríkiskaupmennirnir mundu velja sèr hægri mátann, til að afla fisksins, og þá ekki borga þann fisk miklu verði, sem þeir keyptu, þegar fengið gætu gnægð af honum beinlínis úr sjónum í gegnum sínar eigin greipar. Því var áðan hreift, að mörg skip útlendra þjóða fiskuðu hèr á straumum landsins, án þess nokkurt bann væri við það lagt. Eg játa þetta satt að vera, og bæti því við, að landsmenn hafa opt um það kvartað sín á milli, en ekki fengið að gjört. Mèr sýnist því fullkomin ástæða til, að fjölga ekki fiskurum þessum úr því sem komið er. Máske menn gætu seinna með einhverju móti haft hönd í bagga með þeim, þar það híngað til hefur verið oss ómögulegt. Eg vona þíngmenn muni eptir, að eg var mótfallinn því, að frumvarpi þessu yrði ráðið til lykta á undan stjórnarlagafrumvarpinu, og er eg á sömu meiníngu enn; því eg ímynda mèr, að þetta geti hángið fremur af hinu, en hitt af þessu.

*S. Nielsson*: Menn hafa nú viðurkennt það í ræðum sínum, eins og líka auðsjáanlegt er á frumvarpinu, að fiskiveiðarnar eru eitt af aðalatriðum þeim, sem gánga í gegnum allt frumvarpið. Menn hafa líka talið frumvarpi þessu það til kosta, að það skoðaði málefnið frá sjónarmiði landsins. Það færi því vissulega bezt á því, að menn skoðuðu þetta mál í öllu tilliti samkvæmt því, sem landinu er haganlegast yfir höfuð. Vegna þessa vildi eg og vekja athygli þíngmanna á hlutföllunum milli atvinnuveganna í landinu, einkum með tilliti til þess,

sem þíngmaðurinn, sem seinast mælti, talaði um óhag þann, er af því mundi leiða, ef fiskiveiðarnar væru ekki bannaðar. Eg bið þíngmenn að athuga, hvort slíkt muni vera svo óttalegt. En á hinn bóginn held eg það sè öldúngis eðlilegt, að þeim væri ekki fyrirmunað, að fiska hèr við land, sem hefðu viðskipti við landsmenn. Þegar aptur er nú haft tillit til landyrkjunnar og sjávarútvegarins, þá liggur það í augum uppi, að landyrkjan er aðalstofninn í landinu, og það játa víst allir, eins og líka hitt, að henni sè í mörgu ábótavant. Sjávarútvegurinn á ekki lítinn þátt í þessu, þar sem svo mörgum kröptum er varið til hans frá landyrkjunni, svo að sveitabóndinn verður opt að sleppa því, sem hann vill gjöra landyrkjunni í hag, vegna þess, að hann er of fámennur heima. Það er ekki heldur sveitabóndinn einn, sem lifir á landyrkjunni, heldur sjávarbóndinn líka. Ef að nú sjávarútvegum landsmanna hnignaði, sem enginn hefur neina vissu fyrir, þó að fiskiveiðar þær, sem hèr ræðir um, væru leyfðar, þá virðist mèr það meira metandi, að öll líkindi eru til, að landyrkjan þróaðist við það, og að menn drægjust þeim mun betur að henni, og þá þykir mèr, sem á það ætti að líta, hvort hagurinn yrði í raun og veru ekki miklum mun meiri, en óhagurinn af fiskiveiðaleyfinu.

*G. Brandsson*: Viðvíkjandi því, er nú var sagt um fiskiveiðarnar, vil eg geta þess, að það er ekki sjávarbóndinn einn, sem stundar fiskiafla, heldur og sveitabóndinn líka; því þíngmaðurinn, sem nú settist niður, veit það eins vel og eg, að sveitabændur margir verða fegnir, að senda vinnumenn sína að sjónum til fiskiafla á vetrarvertíðinni; því það er sá tími ársins, sem þeir álíta sèr arðminnsta heimaveru þeirra. Eg minnist þess, að sú hefur verið skoðun margra manna hèr á þínginu, að menn ættu sem bezt að hlynna að fastakaupstöðunum, svo þeir gætu orðið öflugir og fjölbyggðir, en mèr finnst ei betur, en að það hljóti að draga aflið úr þeim, ef sú meðferð væri höfð á sjávaraflanum, sem þíngmaður þessi vill hlynna að, svo það, sem menn með annari hendinni vildu byggja í þessu formi, brytu þeir niður með hinni.

*S. Níelsson*: Eg vil biðja aðra þíngmenn að líta á það mál, hvort meira muni efla kaupstaðina, landbúnaðurinn eða sjávarútvegurinn, og hvors þeirra hnignun á hinn bóginn olli meira tjóns. En það mun eg mega fullyrða, að enginn veit neina vissu fyrir því, hvað fiskiveiðaleyfi það, sem hèr ræðir

um, mundi verða sjávarútvegi landsmanna til mikils óhagnaðar eða niðurdreps.

*Á. Einarsson*: Mèr skilst ekki betur, en að ræður þíngmanna sèu farnar að stefna á nokkuð einstakleg efni; það er þó sitt hvað, verzlun og fiskiveiðar. Mèr finnst vèr ættum ekki að þurfa, að segja við neina verzlunarmenn: „Þèr megið koma híngað og fiska, ef þèr viljið verzla við oss í staðinn“; því þá hefðum vèr fiskiveiðarnar til þess, að hæna að oss aðrar þjóðir til verzlunar. Vèr verðum að skoða mál þetta frá sjónarmiði frumvarpsins, og blanda ekki saman verzlun og fiskiveiðum. Verzlunarlögin ein eiga að vera svo löguð, að þau sèu hvöt fyrir utanríkismenn, að vilja verzla við oss, án þess vèr bjóðum þeim, að gánga inn í aðra bjargræðisvegi vora. Vèr eigum ekki að þurfa, að segja við þá: „Þèr megið fiska hjá oss, og leggja fiskinn á land, eða fara í tún vort, og slá þar part, ef þèr komið að verzla við oss“. Það sýnir, að vèr treystum ekki verzlunarlögunum til, að hæna að oss verzlunarmenn.

Hvað því atriði viðvíkur, sem 1. þíngmaður Ísfirðínga minntist á, að utanríkisskip þyrftu ekki leiðarbrèf, þá er mèr það atriði ekki fullkomlega ljóst; en þegar skip mega hleypa inn á hafnir leiðarbrèfslaus, þá getur verið, að það yrði eins ísjárvert í tilliti til ákvarðana 3. gr., eins og þá skip kæmu beinlínis frá útlöndum leiðarbrèfslaus með önnur nauðsynleg skilríki.

Hvað því viðvíkur, er hinn 5. konúngkjörni þíngmaður áðan minntist á um jafnrèttið í verzlunartolli utan- og innan-ríkismanna í samanburði við Dani, þá minnir mig, að stiptamtmaðurinn segði 1849, að þetta hefði verið álit stjórnarinnar, en gæti þess ekki til, að það mundi hafa verið bæn vorri til fyrirstöðu, að þess var ei beðizt af alþíngi 1845.

*Ó. E. Johnsen*: Laungun stjórnarinnar, til að koma hèr upp verzlun og föstum kaupstöðum, er að sönnu ágæt, en í aðferðinni koma fram sömu gallarnir, sem áður hafa lýst sèr í þessu efni í athöfnum stjórnarinnar, að binda sumsè verzlunina, og takmarka hana sem mest við tiltekna staði. Þessi aðferð er ekki ný, heldur gömul. Fyrst máttu lausakaupmenn einúngis koma til nokkurra vissra verzlunarstaða, og lýsir sèr í þessu frumvarpi sami andi; því aðalgallinn á því er sá, að takmarka yfir höfuð rèttindi utanríkis-lausakaupmanna. En það er auðvitað, að því frjálsari og óbundnari sem verzlunin er, þess

betur verður þeim tilgángi framgengt, að auka verzlunina, og þá undir eins, að koma upp föstum verzlunarstöðum. Ei að síður vega eg þó ekki nú, að mæla harðlega á móti því, að verzlun utanríkis-lausakaupmanna verði fyrst um sinn bundin við 6 eða 8 tiltekna kaupstaði, einúngis vegna ásigkomulags landsins.

*Jak. Guðmundsson*: Af því forseti gat þess áðan til, að eg mundi hafa misskilið frumvarpið, þá ætla eg að nota mèr það leyfi, sem gefið er í 41. gr. þíngskapanna . . .

*Forseti*: Með tilliti til þess, er þíngmaðurinn núna sagði, vil eg geta þess, að það má einúngis vitna til einstakra greina í því skyni, að styrkja með álit sitt á aðalatriðum frumvarpsins. Þó vil eg fyrir mitt leyti ekki meina þíngmanninum, að halda á fram að tala í því skyni, að upplýsa það, hafi eg áðan misskilið hann, hvar til hann hefur fullkominn rètt.

*Jak. Guðmundsson*: Eg ætla þá að leyfa mèr að taka það enn fram við forseta og þíngið, að lausakaupmönnum er í frumvarpinu einúngis leyft, að sækja íslenzkar vörur til annara kauptúna. Í 3. gr. er einúngis talað um utanríkis-lausakaupmenn (um aðra lausakaupmenn talar ekki frumvarpið), og er þeim þar ekki leyft, að flytja vörur frá hinum stærri kauptúnum til hinna smærri, nè heldur að selja þær þar. En í 8. gr. er ekki talað um lausakaupmenn, heldur fastakaupmenn. Eg ætla það vel til fallið, að þíngmenn gefi því gaum, að þeir misskilji ekki frumvarpið. Þess er hèr áður minnzt, að aðaltilgángur frumvarpsins sè, að koma upp föstum verzlunarstöðum, og að stjórnin skoði því verzlunina frá sjónarmiði landsins, og hefur mönnum fundizt, að aðferð stjórnarinnar væri ekki þessu samkvæm í einstökum atriðum frumvarpsins. Þar sem nú hinn 5. konúngkjörni þíngmaður mælti fram með þeirri ákvörðun í frumvarpinu, að lausakaupmenn mættu ekki taka utanríkisskip á leigu, af þeirri ástæðu, að þeir mundu heldur kjósa, að halda því frelsi, sem þeir hafa nú, en að fara þess á mis, og fá hitt í staðinn, þá er eg honum öldúngis samdóma í þessu. En þegar litið er á verzlunina frá sjónarmiði landsins og þeim tilgángi stjórnarinnar, að koma á fót vissum verzlunarstöðum, þá mun það vera sjálfu sèr samkvæmara, og landinu miklu notasælla, að binda verzlun lausakaupmanna við fasta tiltekna staði, heldur en að takmarka þá með því, að banna þeim að leigja utanríkisskip.

Hvað fiskiveiðarnar snertir, þá er auðráðið af ræðum þíngmanna, að sumir eru með þeim, en sumir móti. Stjórnin hefur nú að greint verzlun og fiskiveiðar í tvo atvinnuvegi, af því að hún hefur álitið landinu það hollara, að líta á fiskiveiðarnar eins og sèrstakan atvinnuveg, og að landið þannig hèldi óskertum rètti sínum yfir fiskiveiðunum, og gæti síðan seinna meir leyft þær eða bannað, eptir því sem bezt þætti fara

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg held það hafi verið tilgángur þjóðarinnar og þínganna hèr á landi, bæði 1845 og 1849, að bæta prísa, sèr í lagi á innlendum vörum, með því að vilja gjöra verzlunina frjálsa. Þessum tilgángi mundi nú miður verða framgengt, ef fiskiveiðarnar væru leyfðar; því þá mundi verðið á fiskinum lækka, eður í það minnsta mundu þeir, sem sjálfir fylltu eður hálffylltu skip sín í fiskirii, ekki bjóða mikið í hann, eður hleypa upp prísnum á þeirri vöru. Það gengur annars yfir mig, að menn skuli nú fara svo mörgum orðum um þessar veiðar. Eg held, að það sè þó allt öðru máli að gegna um þær, en um verzlunina, og víst er um það, að aldrei hefur alþíngi að undanförnu farið því fram, að útvega utanríkismönnum leyfi til, að fiska hèr við land, heldur hafa þar miklu fremur komið fram kvartanir landsmanna yfir því, að slíkar veiðar væru látnar við gángast um of.

*S. Gunnarsson*: Allt frumvarpið ber það með sèr, að það er vilji stjórnarinnar, að rýmka um verzlunina, og eg get ekki annað en álitið það æskilegt, að frumvarpinu verði framgengt með nokkrum breytíngum, sem eg vona stjórnin samþykki. Að minnsta kosti eigum vèr nú von á, að fá nokkuð það, sem er miklu betra en ekkert. Eg held, að það sè ekki vert, að fara enn sem komið er fram á það, að fá sem allra-frjálsasta verzlun; því vèr erum máske enn ekki orðnir færir um, að taka við henni.

*Ó. E. Johnsen*: Það getur verið, eins og þíngmaðurinn úr Reykjavík gat til, að það sè skoðun stjórnarinnar, að að greina verzlun og fiskiveiðar í tvo atvinnuvegi, en eg vil geta þess, að kaupmennirnir hafa haft báða þessa atvinnuvegi, og þó hafa þeir kvartað, og kvarta enn. Sú takmörkun, sem utanríkismönnum er gjörð í frumvarpinu, er þess vegna ekki til annars, en stífla verzlunina, í stað þess, að hjúkra að henni. Eg get því ekki annað en álitið það aðalgalla á frumvarpinu, að það leggur bann á fiskiveiðarnar fyrir utanríkisskip.

*L. Johnsen*: Ekki get eg fallizt á þá skoðun, sem

þíngmaðurinn úr Barðastrandarsýslu lèt í ljósi; en aptur geðjast mèr vel að orðum þíngmannsins úr Norðurmúlasýslu. Eg verð að álíta það gleðilegt, að það er farið að losna um þau bönd, sem lengi hafa verið á verzluninni. Aðaltilgángur stjórnarinnar mun vera sá, að gjöra verzlunina affarasæla fyrir landið, og koma upp föstum verzlunarstöðum. Þessu mundi nú miður verða framgengt, ef fiskiveiðar væru öðrum leyfðar; því af því mundi rísa tjón, ekki einúngis fyrir landsbúa, heldur og kaupmennina; því eg get vel leitt mèr í grun, að ef skipum væri leyft, að stunda hèr fiskiveiðar takmarkalaust, gæti þar af leitt, að fiskur fèlli í verði. Eg álít og, að það sè sitt hvað, verzlun og fiskiveiðar, og það verði að skoðast sitt í hvoru lagi. Þó get eg ekki fallizt á það, er hinn 5. konúngkjörni þíngmaður lèt í ljósi; því eg tók ekki betur eptir, en hann segði, að vèr ættum það lausakaupmönnum að þakka, að verzlun vor hefði orðið viðunandi, og þegar svo er, þá er lausakaupmönnum illa þakkað, að gjalda þeim á þann hátt, að leggja nú á þá þau bönd, sem þeir hafa áður verið lausir við.

*B. Benediktsen*: Þíngmenn hafa nú þegar á marga vegu rætt um ýms atriði frumvarpsins, og hafa margir getið þess, að nokkur ósamkvæmni væri milli aðaltilgángsins og hinna einstöku atriða í því, og hefur hinn fyrri þingmaðurinn úr Ísafjarðarsýslu einkum lýst þessu greinilega og skörulega mjög, svo það mætti að öllu virðast óþarft, að eyða fleirum orðum að því efni. Eg vildi einúngis hefja máls á fáeinum atriðum, er eg heyrði að menn greindi á um. Það var t. a. m. að leyfa fiskiveiðar á útlendum skipum, og að lausakaupmenn mættu taka útlend skip á leigu. Hvað fiskiveiðarnar snertir, þá hafa ekki allir þíngmenn orðið á eitt sáttir um það, hvort þær væru landinu skaðvænlegar eða ekki. Eg fyrir mitt leyti get nú ekki álitið það neitt tjón, þó ei væri bannað, að fiska hèr við land á útlendum skipum. Eg veit ekki betur, en að Hollendíngar, Belgíumenn og Frakkar hafi nú upp í mörg ár, já, margar aldir fiskað hèr við land, og ætla eg, að menn geti ei með vissu sagt, að það hafi orðið landsmönnum að meini. Eg efast um, að nokkurt leyfi hafi verið gefið þjóðum þessum, að minnsta kosti ekki af Íslands hálfu. En það mun nú varla þurfa, að gjöra ráð fyrir því, að þau hin útlendu kaupskip flytji með jafnaði fiskiaflann á land til verkunar; því bæði mun það sjaldnar að bera, að þau fari út hèðan til fiskiveiða, þar þau verða

verða að vera kaupskapi bundin. En skyldi nú svo að bera, þá eru öll líkindi til, að þau væru ekki úti nema um lítinn tíma, og mundi því litlu nema; því þau kaupskip, sem koma híngað út með fullan farm til verzlunar, verða að flytja andvirði farmsins heim aptur, og leyfa því ekki frekara rúm. Enda er það venja útlendra fiskiskipa, sem veiða hèr við land, að þeir salta fiskinn í tunnur, en hafa ekki fiskiverkun hèr, og svo gæti enn þá að borið En hvað hinu viðvíkur, að mega taka útlend skip á leigu, þá ætla eg, að slíkt ætti einnig að leyfast lausakaupmönnum, þegar svo ber undir. Það gæti opt og tíðum orðið til mikils hagræðis fyrir þá; því svo getur á staðið, að einhver þeirra sè staddur í útlöndum, þegar komið er að þeim tíma, þá skip eiga að fara út híngað, og sè þar þá fáanlegt skip til leigu, en á hina síðuna sè ekki hægt, að komast í tíma til Danmerkur, eða einu sinni að fá þar skip á leigu, þegar þángað er komið. Eg vil því fremur mæla fram með því, að lausakaupmenn hafi leyfi til þess, að taka útlend skip á leigu. Og hvað því viðvíkur, sem hinn 5. konúngkjörni þíngmaður gat um, að ef þeir fengju þetta leyfi, mundi það frelsi, sem þeir nú hafa, þurfa að takmarkast, þá held eg, að þessi takmörkun hvorki þyrfti nè ætti að vera. Lausakaupmennirnir ættu ei að síður að hafa leyfi til, að fara til hverra staða, sem þeir vildu.

*P. Pètursson*: Eg get þess til, að hinn 2. þíngmaður úr Ísafjarðarsýslu hafi misskilið mig, hvað lausakaupmennina snertir. En hvað því viðvíkur, sem hinn 1. þíngmaður úr Barðastrandarsýslu vèk á, að það væri óþarfi, að leggja nokkur bönd á lausakaupmenn, þó þeir fengju leyfi til, að taka útlend skip á leigu, eins og föstu kaupmennirnir, þá get eg ekki betur skilið, ef að því yrði framgengt, en að það kollvarpaði öldúngis því sjónarmiði frumvarpsins, að koma upp föstum verzlunarstöðum. Eg held, að þetta yrði einmitt til þess, að það færi að losna gjörsamlega um alla fasta verzlun hèr á landi; því lausakaupmenn hefðu þá meiri rèttindi en föstu kaupmennirnir, og ef vèr játum, að þeim sè nú hægra fyrir, og að þeir þurfi minna að leggja í sölurnar, þá er auðsætt, að föstu kaupmennirnir yrðu gjörsamlega á hakanum, ef lausakaupmennirnir fengju þetta leyfi líka. Af þessu mundi það leiða, að verzlunin drægist út úr landinu, og aðaltilgángur frumvarpsins yrði þannig ónýttur með öllu.

Kandíd. *J. Sigurðsson*: Þetta er nú öldúngis of vaxið mínum skilníngi. Það er auðsætt, að frumvarpið getur ekki um innanrík-

is-lausakaupmenn, svo eptir því mundi liggja næst, að álykta, að þeir ættu að sitja við sama og híngað til; þó er það sjálfsagt rètt, að lögin gæti einnig þeirra, og veiti þeim sömu rèttindi sem öllum öðrum. Eg sè ekki heldur, hvernig hinn 5. konúngkjörni þíngmaður getur ímyndað sèr, að þetta mundi verða til þess, að umhverfa verzluninni fyrir landinu. Það ætti þá að vera að óttast, að fyrir *það* kæmi svo ógnarlegur fjöldi af útlendum skipum híngað, að það breytti öllum gángi verzlunarinnar. En þetta munu fáir geta ímyndað sèr. Eg skil ekki heldur, að innanríkis-lausakaupmönnum verði synjað þessara rèttinda með nokkrum sanni, þegar þeir eru skoðaðir frá landsins sjónarmiði. Það eru reyndar fleiri atriði í ræðum þíngmanna, sem taka mætti til greina, en eg ætla að sleppa því í þetta skipti, af því eg ímynda mèr, að það muni seinna geta verið kostur á því.

*H. Stephensen*: Þíngmaðurinn frá Ísafjarðarsýslu hefur þegar í byrjun umræðanna greinilega tekið fram þann góða tilgáng, sem stjórnin hefði með frumvarpinu, og sömuleiðis þá annmarka, sem á því væru. Íslendíngar hafa nú þegar í margar aldir, stundum þegjandi, og stundum svo heyra hefur mátt til þeirra, kvartað yfir því verzlunaroki, sem á þeim lægi. Það er því gleðilegt, að stjórnin er nú farin að líta á þörf vora, og skoða verzlunina frá innlendu sjónarmiði, og þetta lýsir sèr víða í frumvarpinu, að stjórnin hafi haft allan vilja á því, að líta þannig á verzlunina. Þó held eg, að ýmislegt sè athugavert í frumvarpinu, hvað aðferðina á verzluninni í einstökum atriðum snertir, og því hefur einnig verið hreift af nokkrum þíngmönnum, að stjórnin hafi sumstaðar í frumvarpinu gleymt sjónarmiði sínu; en eg ætla, að þetta þurfi ekki að vera sprottið af neinni gleymsku, heldur af hinu, að bæði er það ekki nema mannlegt, að stjórninni geti yfir sèzt, og líka getur hún hafa haft aðra skoðun á þessu efni en vèr. Það sýnist nú liggja beint við, að ef verzlunin á að vera frjáls, þá hljóta allar ráðstafanir, sem að því miða, að vera sem frjálsastar og óbundnastar. Frumvarpið leyfir að sönnu búsettum kaupmönnum hèr á landi, að taka utanríkisskip á leigu, og er þetta mikið hagræði og eflíngarmeðal fyrir verzlun vora. En þar sem þeim er nú fyrirmunað, að hafa þessi skip til fiskiveiða, þá getur slíkt ekki annað álitizt en band, er þeir mega ekki fara með þessi skip eins og eign sína, og er það bæði eðlilegt og samkvæmt lög-

um, að hagnýta sèr þá hluti, sem menn leigja, eins og þeir væru eign manns. Í annan stað þá er utanríkismönnum leyft, að koma hingað til að verzla, og um það hefur og áður verið beðið. Ef að nú þetta leyfi er skoðað frá innlendu sjónarmiði, þá ætla eg, að það ætti að vera sem óbundnast, eptir því sem framast gæti verið eptir ástandi landsins. En nú er í frumvarpinu utanríkismönnum bannað að koma, nema á fáa tiltekna verzlunarstaði, og þar að auki er þeim gjört að skyldu, að leggja þar upp allan farm af skipum sínum og selja kaupmönnum eingaungu allar óþarfavörur. Aptur er þeim einúngis leyft, að selja landsmönnum 4 vörutegundir, og það ekki lengur, en í þrjár vikur, og getur það hæglega að borið, að það sè á þeim tíma ársins, þegar enginn af landsmönnum getur haft þess not. Þá er og það, að það er bannað, að brúka utanríkisskip til fiskiveiða, og mun það geta orðið bagalegt, ef aðsóknin yrði nokkuð mikil; því þá er ekki að búast við því, að það væri auðvelt, að fá nóga farma af innlendum vörum, nè heldur hitt, að selja hinar útlendu á stuttum tíma. Væri nú ákvörðun frumvarpsins fylgt, þá er ekki annað líklegra, en að leggja yrði upp vörurnar, og bíða eptir borgun, en þá er það ósanngjarnt, að fyrirmuna skipverjum, að fara á fiskiveiðar á meðan, fyrst að svo mörgum útlendíngum, sem engin viðskipti hafa við landsmenn, helzt þetta uppi. Það hafa að sönnu sumir hreift því hèr á þíngi, að þessar fiskiveiðar mundu verða Íslendíngum bagalegar, en eg ætla, að það sè ekki rètt álitið; því fiskiafli vor Íslendínga er svo lítill í samanburði við þennan afla annarstaðar um Norðurálfuna, að það mundi alls engin áhrif hafa á fiskverðið, þó að ein 20 útlend skip gengju hèðan út á fiskiveiðar, svo sem 3—5 vikna tíma, um fram það sem er.

Hvað hina dönsku lausakaupmenn snertir, þá ætla eg einúngis að minnast á það, að þeim er eptir frumvarpinu fyrirmunað, að taka utanríkisskip á leigu, og hefur hinn 5. konúngkjörni þíngmaður látið það álit sitt í ljósi, að ef þetta bann væri ekki, mundi það glundra allri verzlun hèr á landi. Eg ætla nú ekki að fara mörgum orðum um þessa skoðun; því mèr líkaði það svo vel, hvernig hinn 1. þíngmaður úr Ísafjarðarsýslu svaraði henni.

Menn játa nú, að það sè aðaltilgángur frumvarpsins, að rýmka um verzlunina Íslendíngum í hag, og í því skyni er líklega utanríkismönnum leyft, að selja landsmönnum nauðsynja-

vörur um tiltekinn tíma. En þá er það furða, hvað þessi tími er stuttur, og eins hitt, að þessar nauðsynjavörutegundir eru einúngis taldar 4; því þær eru þó fleiri t. a. m. járn, hampur, o. s. frv. Þessar vörur og því um líkar verða því landsmenn að kaupa frá annari hendi, er hækka má verðið eptir velþókknun, og er þetta undarlegur annmarki við verzlunina.

Hvað vöruflutníngunum viðvíkur, þá held eg, að þar sè hagnaði landsins gleymt, þegar útlendum lausakaupmönnum er einúngis leyft, að sækja farma til annara kauptúna, en ekki flytja þángað vörur sínar; því þetta er auðsjáanlega einúngis fastakaupmönnum í hag, þar sem þeir hafa þá alla vöruflutnínga í hendi sèr. Því ef þessu yrði framgengt, gæti svo farið, að verzlunin kæmist í þá einokun, að landsmenn neyddust til, að sækja yfir ófæra fjallvegi, eða fara örðugar sjóferðir, til þess, að ná nauðsynjum sínum, þegar þær væru ekki annarstaðar að fá, en á aðalverzlunarstöðunum í höndum fastakaupmanna.

*L. Johnsen*: Eg held eg hafi þó ekki misskilið hinn háæruverðuga 5. konúngkjörna þíngmann; því mig minnir ei betur, en honum færust orð á þá leið, að koma lausakaupmanna hefði þá áverkun á verzlunina, að hún hefði verið vel viðunandi.

*P. Sigurðsson*: Eg er samþykkur hinum heiðraða þíngmanni Borgfirðínga í því, að verzlunarokið hafi legið þúngt á oss, og að þjóðin og þíngið hafi því beðið um frjálsa verzlun; en hitt veit eg ekki til, að þjóðin hafi nokkurn tíma beðizt þess, að útlendir menn, sem verzla hèr við land, fengju leyfi til að fiska, og því finnst mèr það undarlegt, að menn fari að biðja um það nú hèr á þíngi. Það er að vísu satt, að auðlegð sjávarins er óuppausanleg, en eg er þó svo kunnugur hèr á suðurlandi, að eg veit til þess, að fiskiafli verður tregari, þegar ógrynni skipa eru komin híngað undir land seint í marzm. og fyrst í aprílm., og þess vegna er eg á móti því, að utanríkiskaupmenn fái leyfi til að fiska, sízt fyrst um sinn; því eg álít það leyfi grípi mikið inn í aðalbjargræðisveg vorn, og það sè annar atvinnuvegur en verzlunin.

*Á. Einarsson*: Viðvíkjandi því, sem fulltrúi Borgfirðínga gat um, að bannað væri að selja landsmönnum, nema þær 4 vörutegundir, sem til eru teknar í 3. gr. frumvarpsins, þá álít eg, að hægt sè fyrir nefnd þá, sem sett verður í þessu máli, að bæta hinum öðrum nauðsynjavörum við, og þykir mèr sjálfsagt, að við þurfi að bæta öllum nauðsynjavörum til húsabygg-

inga, landbúnaðar og sjávarútvega, og þessa vona eg að nefndin gæti. En hvað fiskiveiðarnar snertir, þá finnst mèr, að komið hafi fram nokkur meiníngamunur hèr á þíngi. Sumir hafa viljað, að útlendum kaupförum væri með öllu bannað að fiska, en aptur aðrir, að þeim væri að sönnu leyft að fiska, en ekki leggja fiskinn á land. Ef nú svo er, að skip kemur híngað, og hefur leiðarbrèf einúngis híngað til lands, þá verður ekki hægt að hafa gætur á, hvort þetta skip fiski ekki hèr fyrir utan í tunnur sínar, þegar það er komið út og hefur skilað leiðarbrèfinu; en aptur á mót er hægt, að banna þeim, að leggja fisk sinn á land til þurkunar, og er þeim ómögulegt, að fara í kríng um það lagabann.

*J. Skaptason*: Það er að sönnu satt, að breytíngar þær, sem stjórnin hefur nú gjört á verzlunarlögunum, bæta nokkuð úr skák, og að hún kannast við, að verzlunin hafi verið á raungum grundvelli byggð, og vilji nú bæta úr; en hitt er meira efamál, hvort henni hafi tekizt það, sem hún þó á öðrum stað í ástæðunum lýsir yfir, að hafi verið svo að segja aðalaugnamið sitt með lagafrumvarp þetta, það nefnilega, að skoða verzlunarmálið frá sjónarmiði landsins. Það þarf ekki að lesa frumvarpið með miklu athygli, til að sannfærast um, að stjórninni hafi mislukkazt þetta, og viðurkennir hún það sjálf, en færir ástæður fyrir, hvers vegna hún ekki fylgir lengra fram tilgángi sínum nú, nefnilega, að hún sè hrædd um, að of mikið los komist á verzlunina; en vèr getum huggað oss við reynsluna. Þannig var það t. a. m., þegar konúngsverzlunin var gefin laus, þá urðu margir dauðhræddir, eins og sumir núna, og sögðu: „Nú kemur manndauði; nú kemur húngur og dýrtíð!“ en allt fór vel, og allt mun nú fara vel, og það því betur, sem verzlunin verður frjálsari; því nú eru menn meðtækilegri fyrir hana, en menn voru þá.

*H. Stephensen*: Eg vildi drepa á það með einu orði, sem fulltrúinn úr Strandasýslu mælti áðan. Eg vil biðja menn að athuga, að blautur fiskur í tunnum er þó þýngri, en verkaður saltfiskur stakkaður í skipi, og þar að auki lýsir það öfund frá vorri hálfu til landsmanna vorra, að leyfa ekki útlendum verzlunarvinum vorum, að leggja fiskinn á land, og fá landsmenn til að þurka hann, og svipta menn sig með því þeirri atvinnu, sem hafa mætti af því, að þurka hann fyrir þá.

*G. Magnússon*: Mèr finnst frumvarp stjórnarinnar vera

því líkast, sem nízk móðir gefi barni brauð. Frumvarpið rýmkar að vísu um verzlunarfrelsi Íslendinga, og mun flestum, ekki einúngis Íslendíngum, heldur einnig öllum óvilhöllum útlendíngum, þykja tími til kominn, að það sè gjört. Þetta þykir mèr vera líkast því, að nízk móðir gefi barni sínu brauð.

*Forseti*: Eg verð að biðja þíngmanninn, að ítreka ekki þau orð, sem eru svona beisk.

*G. Magnússon*: Eg vil gjarna skýra orð mín. Eg segi, að frumvarpið rýmki um verzlunarfrelsi Íslendínga, en úr þessari rýmkun er aptur dregið með mörgu móti, og hún rýrð á marga vegu. Svo er t. a. m. um 1. grein frumvarpsins. Í henni er kaupmönnum þeim, er hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, leyft, að taka utanríkisskip á leigu, og hafa þau til verzlunar sinnar á Íslandi, en þó er þeim bannað, að hafa þau skip til fiskiveiða. Á þetta atriði, og ýms önnur því um lík, hafa aðrir minnzt, og ætla eg ekki að þreyta þíngmenn á því, að taka það upp aptur, sem aðrir hafa sagt; eg ætla að hverfa að hinni 7. grein. Eptir 3. grein frumvarpsins gæti svo að borið, að norskur maður (hann skyldi heita *Kristján*) hefði verzlun hèr við land. Nú gæti svo staðið á, að hann þyrfti að halda á smáskipum til flutnínga við landið, en þá er honum bannað í 7 gr., að hafa til þess norsk skip, sem eru 15 lestir eða þaðan af minni, og ef hinn norski kaupmaðurinn þyrfti slíkra skipa við, yrði hann að fá þau hjá dönskum manni (látum hann heita Müller), og gæti þá hæglega viljað svo til, að *Kristján* yrði að leigja af Müller skip, er *Kristján* hafði áður selt Müller, og gefa fyrir það þriðjúngi eða fjórðúngi meiri leigu, en hann gæti fengið slíkt skip fyrir í Noregi. Þessi takmörkun þykir mèr svo óeðlileg, að eg vil heldur hafa algjört bann, en slík leyfi, og eru þvílík leyfi eigi óáþekk því, að Mosfellssveitarmönnum væri leyft, að taka hesta á leigu til flutnínga suður í Reykjavík, og þó bannað að taka hesta, sem væru 5 vetra eða ýngri, eða ef Reykjavíkurbúum væri leyft, að verzla við útlenda menn, og kaupa af þeim kistur, en bannað að kaupa kistla.

*St. Jónsson*: Eg vil geta þess, að fulltrúinn úr Strandasýslu meinti, að ekki væri hægt, að hafa gætur á því, hvort skip þau, sem verzluðu hèr, fiskuðu, þegar þau væru komin út héðan af höfninni; en fulltrúi Borgfirðínga hèlt, að það væri atvinnuvegur fyrir landsmenn, að þeir fengju að leggja fisk

sinn hèr á land; en mèr er nær að halda, að menn hafi hèr nóg að gjöra í landinu sjálfu, sem þá kynni að forsómast, þó þessi atvinnuvegur, sem þíngmaðurinn gat um, væri álitlegri í bráð, en hefði lakari afleiðíngar eptir á. Þetta kann að vera ekki svo mjög að óttast, en þó þess vert, að á það sè bent.

*Á. Böðvarsson*: Það hafa margir talað um, að í frumvarpinu skoðaði stjórnin verzlunina frá sjónarmiði landsins; en mèr finnst hún skoði hana eins mikið og meira frá sjónarmiði hinna föstu kaupmanna, og kemur það þegar í ljós í fyrstu orðunum í fyrstu greininni: „Kaupmönnum þeim, sem hafa fasta verzlun á Íslandi, er heimilt", o. s. frv. Hèr er fastakaupmönnum útvegað mikið gagn með þessu frumvarpi. Það er mèr og mikil ánægja, að sjá og vita kaupmannastèttina blómgast, en ekki samt þannig, að það komi í bága við hagnað landsbúa. Það getur að sönnu orðið til gagns, að kaupmenn sèu ríkir, en þó er sá ágóði ekki alveg viss landinu til nota; því farið geta kaupmenn með allan auð sinn út úr landinu.

Gegn því, er hinn 5. konúngkjörni þíngmaður mælti á þá leið, að dönskum lausakaupmönnum ekki væri neinn sèrlegur hagnaður í, að mega taka utanríkisskip á leigu, vil eg, álíka og þíngmaðurinn frá Dalasýslu benti til áðan, gjöra svo ráð fyrir, að nú væri danskur lausakaupmaður staddur í útlöndum, og byðist þar beztu kjör, að fá skip á leigu til verzlunar á Íslandi; væri þá ekki hörmúng til þess að vita, ef einmitt þessi ójöfnuður skyldi hamla honum þar frá, og hann því í það sinni missast landsbúum til nota?

Annað bandið, sem frumvarpið leggur á, er um fiskiveiðarnar, og að útlendir menn megi ekki brúka skip sín til þeirra. Þessi ójöfnuður er mikill og, að eg álít, skaðlegur, og hinni frjálsu verzlun til tálmunar.

Þriðja bandið á verzluninni er það, að utanríkiskaupmenn ekki mega flytja varníng sinn á aðra staði, en hinn eina, Reykjavík, eður hina fáu, er til teknir kynnu að verða, og lenda þannig, að mèr finnst, öll ráðin, hvað kaupin snertir, í höndum fastakaupmanna einna.

Þá er og fjórða bandið, sem yfirgengur minn skilníng, um stærð flutníngsskipanna, að hún skuli vera takmörkuð við 15 lesta rúm.

*B. Benediktsen*: Eg held, að þíngmaðurinn úr Skagafjarðarsýslu hafi misskilið þíngmann Borgfirðínga. Eg ætla, að sá hinn síðari muni hafa meint, að fiskur sá, er veiddur verður á útlenzkum fiskiskipum hèr við land, muni verða fluttur í land til kaupmanna, til verkunar á aðalverzlunarstöðunum. Eg ætla og, þó að fiskur frá þessum útlendu skipum verði fluttur í land á þessa staði til verkunar, þá muni það ekki hafa nein skaðvænleg áhrif á atvinnuvegi landsmanna, eða muni draga þá frá annari nauðsynjavinnu; því það er alkunnugt, að iðjulitlir og til landvinnu óhæfilegir menn safnast opt í kaupstaðina og kríng um þá, og hafast þar laungum við. En þar sem þíngmaður Árnesínga talaði um ósamkvæmni og ójöfnuð viðvíkjandi 7. gr. í frumvarpinu, þá ætla eg, að stjórnin hafi haft góðan tilgáng og landinu hollan með þessari uppástúngu. Menn hafa heyrt vafalaust opt nefnda *Kyst*- eður *Provindsfart*, og eg ætla, að stjórnin meini hèr í þessari grein til þess konar smáskipa, sem til þess konar innanlandssjóferða eru brúkuð í Danmörku, og ætlar hún þá, að mestur hagnaðurinn mundi verða fyrir landsmenn, að eiga þvílík skip sjálfir, og mundi því æskilegt, að þeim gæfist kostur á, að eiga eða eignast slík smáskip, og hafa þau til þess konar ferða og flutnínga á milli kaupstaða og hèraða, eður að leigja kaupmönnum þau; en af því þetta á sèr enn þá ei stað hèr, álít eg að vísu greininni miður heppilega hèr fyrir komið.

*G. Vigfússon*: Lítið er betra en ekkert, segir máltækið; svo segi eg um þetta frumvarp, að mèr finnst lítið vera í því, sem með nokkru afli flytur mál vort í vænlegt horf; en þó gleðst eg yfir því, að vèr erum komnir svona lángt í þessu efni, og mèr er kært, að minnast á, að sumir þíngmenn hafa einnig ásamt mèr látið gleði sína yfir þessum hlut í ljósi. Eg hefði ekki hikað við, að gefa frumvarpinu eins löguðu, og það nú er, samþykki mitt, ef eg bæri nokkurn ótta fyrir því, að oss yrði synjað um það síðar, ef vèr nú fèllumst ei á það óbreytt, en eg er miklu fremur þeirrar meiníngar, að oss sè ei einúngis leyfilegt, heldur sè það vafalaus skylda vor, að taka til greina allt það, sem vèr álítum að landinu yfir höfuð mundi vera til sem mestra heilla í þessu efni; og eg ber það traust til stjórnarinnar, að hún muni taka vel frá oss öllum bendíngum, öllum skynsömum tillögum, sem vèr nú komum oss saman um að biðja hana um í tilliti til þessa máls; og eg hef það

traust til þíngsins, að það muni skýlaust taka fram þörf landsins í þessu efni, og íhuga allt það, sem heyrir til, að verzlunarfrelsi Íslendínga verði sem minnst takmarkað, að svo miklu leyti, sem það ekki kemur í bága við hagsmuni ríkisins alls yfir höfuð. Þíngmaður Ísfirðínga hefur tekið vel fram kosti og galla frumvarpsins yfir höfuð, eins og margir aðrir þíngmenn hafa bent á þau sjónarmið, sem er aðalstefna frumvarpsins, og sýnt fram á, að endurbótin yrði að byggjast á sjónarmiði frá landinu sjálfu, og að frá verzluninni verði að aðgreinast vöruflutníngar og fiskiveiðar, en eg skil ekki í því, að menn megi missa sjónar á fiskiveiðunum, þar eg álít þær standa í svo nánu sambandi við verzlunina hjá oss. Vèr verðum að draga til vor verzlunina, ekki einúngis beinlínis, heldur og líka ekki beinlínis, með öllu móti, sem unnt er, og þó fiskiveiðar ekki beinlínis heyri verzluninni til, þá sjá allir samt, hversu óeðlilegt það er, að fyrirmuna þeim utanríkismönnum, sem eiga verzlunarviðskipti við oss, að sæta fiskiveiðum lítinn tíma hjá oss á sumri, meðan aðrir, sem vèr eigum engin hagsmunaviðskipti við, njóta þeirra ónáðalausir svo lengi, sem þeir vilja. Þannig álít eg fiskiveiðarnar vera verzluninni samtengdar. Það getur vel verið, að menn álíti, að þetta komist í smábága við fiskiverzlun sjávarbóndans, eða jafnvel einstakra verzlunarmanna, en það er hugboð mitt, að það muni svo vart vera, ef allt er nákvæmlega athugað, og þar að auki mega aldrei einstakra manna hagsmunir raska almennri heill. Eg bið þíngmenn, að athuga það, sem þíngmaðurinn frá Húnavatnssýslu benti til í ræðu sinni áðan um þetta efni, því eg áleit, að hann hefði rètta skoðun á því.

Af því ekki fleiri stóðu upp, til að ræða frekara um þetta mál, þá skaut forseti því til þíngsins, hvort önnur umræða skyldi verða um þetta mál, og voru allir á því. Því næst leitaði forseti ráðs um það, hvernig með frumvarpið skyldi fara framvegis, og voru menn á eitt sáttir, að nefnd skyldi velja. Þá spurði forseti, hve marga skyldi kjósa í nefnd, og greindi menn á um það, hvort vera skyldi 5 eða 7 manna nefnd. *H. Stephensen* stakk upp á, að velja skyldi 3 úr deildunum, en 4 úr þínginu. Eptir það var samþykkt með 36 atkvæðum, að kjósa skyldi 7 manna nefnd. Þar eð enginn mælti á móti uppástúngu *H. Stephensens*, þá kvaddi forseti til atkvæða á

þann hátt, sem sú uppástúnga til greinir, og að deildirnar skyldu þá velja fyrst. Síðan voru valdir í nefndina:

A, úr deildunum:

*B. Benediktsen* með 13 atkvæðum, *H. Stephensen* með 10 atkvæðum, og *Halld. Jónsson* með 9 atkvæðum.

B, af þínginu:

Kandíd. *J. Sigurðsson* með 28 atkvæðum, *E. Briem* með 25 atkvæðum, *Á. Einarsson* með 25 atkvæðum, og *Jón Guðmundsson* með 20 atkvæðum.

Forseti ákvað ekki, hve nær næsta fund skyldi halda, þar eð ekkert verkefni væri nú fyrir hendi, en sagðist nákvæmar skyldi ákveða það, og skýra þínginu frá svo fljótt, sem kríngumstæður leyfðu. Því næst sagði hann fundi slitið.

---

## 9. fundur, 21. d. júlím.

Eptir að búið var að lesa upp gjörðabók, skýrði forseti frá, að *Jón Guðmundsson* vegna lasleika ekki gæti mætt á þínginu. Hann lýsti og yfir, að hann hefði meðtekið tvö skjöl af hinum fyrra þíngmanni Borgfirðínga, nefnilega: 1, Uppástúngur til stjórnarskipunar Íslands frá Rángárvallasýslu. 2, Ávarp frá Þíngvallafundinum til þjóðfundarins. Frá öðrum þíngmanni Norðurmúlasýslu hefði hann meðtekið þriðja skjalið, nefnilega: Uppástúngur til stjórnarskipunar Íslands frá Norðurmúlasýslu, og yrðu þessi skjöl samkvæmt 60. gr. þíngskapanna lögð fram á lestrarsalinn. Síðan var frumvarp stjórnarinnar um stöðu Íslands og fyrirkomulag, o. s. frv., tekið til umræðu.

*P. Pálsson*: Það er mikið gleðiefni, að sú stund er komin, er vèr fáum tækifæri til, að tala frjálslega um hagi lands vors, nú er grundvallarlög Danmerkurríkis, sem voru samin fyrir tveim árum, liggja frammi fyrir oss, til þess að vèr ræðum um, hversu vèr fáum notið þeirra. En vèr verðum að íhuga, að þau lög, sem vèr nú eigum að fá, eiga að vera til hagsælda og heilla, ekki að eins oss, heldur og líka niðjum vorum; þess vegna getur stjórnin ekki ætlazt til, að vèr fylgjum þeim í blindni, eins og þau eru. Eg get ekki ímyndað mèr, að nokkrum meðal vor, sem kallaðir erum, til að hjúkra að þörfum lands vors, geti til hugar komið, að vèr þegar höfum skuldbundið oss til, að hlýðnast grundvallarlögum Dana án undantekníngar. Vèr verðum að íhuga, að vèr höfum fyrir

oss frumvarp, en ekki nein lög, sem vèr höfum skuldbundið oss til að hlýða. Eg segi *frumvarp*, og er það auðsèð af þessu nafni, að stjórnin álítur ekki grundvallarlög Dana enn þá skuldbindandi fyrir oss. Vèr erum einmitt komnir að því höfuðatriði, að skuldbinda oss, en vèr erum ekki búnir. Vèr viljum hjartanlega aðhyllast konúnginn; því vèr vitum, að hann vill oss hið bezta; en því að eins getum vèr aðhyllzt hann, að vèr getum fengið tækifæri til, að njóta krapta vor sjálfir, og hafa sjálfir hönd í bagga, þegar um málefni vor er að gjöra. Það er oss mjög svo áríðandi, að vèr ekki höfum neina grunsemi til hinna dönsku stjórnarherra; því það er auðsætt, að þeir vilja hjúkra oss, en hitt er annað, hvort sú hjúkrun, sem þeir vilja veita oss, muni vera oss svo hagkvæm sem skyldi. Það er mitt ráð, að vèr berum einarðlega og hæversklega fram óskir vorar fyrir stjórnina, og sýnum það, að því að eins geti Danir haft sóma af oss í heild ríkisins, að þeir láti oss njóta rèttinda vorra, og hygg eg, að þjóðerni vort gefi oss heimild til, að gánga þennan veg.

*H. Stephensen*: Hann er þá runninn upp, þessi dagur, er vèr í fyrsta sinn eptir lángan aldur megum hugsa um sjálfa oss. Sæll veri þessi dagur, og allir slíkir dagar eptirleiðis! Það er skylda vor í dag, að ræða frumvarp stjórnarinnar um stöðu Íslands í þess grundvallarástæðum. Vèr eigum í dag að gæta að, að hve miklu leyti það sè oss hagkvæmt, og hvað það muni verða oss til mikilla nota, sem upp á er stúngið í frumvarpinu. Þess er getið þar, að konúngur hafi kallað fimm menn, til þess að ræða mál lands vors á ríkisþínginu, en það stendur þó ekki með berum orðum, að Íslendíngar sèu með þessum fimm mönnum skyldir til, að aðhyllast grundvallarlög Dana. Það flýtur af sjálfu sèr, að vèr ekki með öllu getum verið skyldir til, að taka grundvallarlög þessi. Kosníng þessara fimm fulltrúa, sem eg gat um, getur ekki verið neitt band fyrir oss; því konúngur leyfði hinni dönsku þjóð, að velja sjálfri, en valdi sjálfur af oss, einmitt á þeim tíma, er vèr óskað höfðum, að kjósa sjálfir. Hinn 23. d. septemberm. 1848 gaf konúngur oss lagaboð um, að vèr skyldum ræða mál vor í landinu sjálfu með fulltrúum, sem væru frjálslega kosnir, eptir mörgum bænarskrám úr landinu. Það lítur þá svo út, sem þessi samkoma megi frjálst og óbundið ræða frumvarp stjórnarinnar um stöðu Íslands í ríkinu. Þess er getið í ástæðunum

fyrir frumvarpinu, að 19. gr. í konúngalögunum sanni, að Ísland sè algjörður partur úr Danaríki, og að þess vegna grundvallarlög Dana skuli gilda hjá oss. Það eru margar og ýmislegar meiníngar um rèttan skilníng 19. gr., og það efa eg ekki, að lögfræðíngarnir muni skilja hana rètt, en lög mega og skiljast af hverjum skynsömum manni, og er það mitt álit um þessa grein, að hún ekki hið minnsta snerti það samband, er hèr ræðir um. Meðal annars stendur í lögum þessum, að konúngur ekki megi farga neinum parti ríkisins, svo hann ekki þar með veiki veldi sitt; því eptir því hafa menn tekið, að skiptíng ríkja í marga staði veikir. Niðurlag greinarinnar sýnir tilgáng hennar. Þar stendur, að arfar konúngs skuli bíða þess tíma, að þeim til falli erfðin. Greinin tekur enga fasta ákvörðun fram um stöðu Íslands í Danmerkurríki, en hèr er heldur enginn, sem óskar, að að skiljast frá Dönum; það er ein rödd allra í því tilliti. Enn fremur er þess getið í ástæðunum fyrir frumvarpinu, að grundvallarlög Dana sèu samþykkt án nokkurs skilyrðis frá Íslands hálfu. Það hefði nú verið skylda hinna fimm manna, að taka þetta skilyrði fyrir Íslands hönd, ef þeim hefði þótt þurfa; en vèr höfðum fengið fyrirheiti stjórnarinnar um fundinn í landinu sjálfu, áður en ríkisdagurinn byrjaði, og eg ímynda mèr, að engum sè grunur á því, að menn megi ræða grundvallarlögin, eins og vèr þurfum að hafa þau löguð, og að stínga upp á þarfari tilskipunum, sem betur eiga við oss, en þær, sem í frumvarpinu standa. Þess er getið í aðalástæðunum, að þjóðfundurinn skuli segja álit sitt um frumvarpið. Þess er getið í ástæðunum, að greinir þær, sem Íslandi hljóta að vera óviðkomandi, skuli ekki takast burt, og þær, sem óbreyttar ekki geta átt þar við, megi ekki skiljast eptir orðunum, heldur, ef til vill, eins og hver vill. Eg ætla, að vèr eigum hèr að ræða grundvallarlög, er væru hentug fyrir oss. Það er ein aðalskoðun í frumvarpinu, þó hún standi bundin við 2. gr., nefnilega sú, að ábyrgð ráðgjafanna í tilliti til Íslands skuli engin vera, og að ríkisdagurinn og ríkisdómurinn skuli að eins krefja þá ábyrgðar; en því er bætt við, eins og til að sefa hjá oss harminn, að alþíngi megi bera fram kærur sínar. Það er minn skoðunarmáti, að þjóðin hafi rètt til, að þrælbinda sig ekki við skorður þær, sem frumvarpið setur. Þætti mèr vel til fallið, að nefnd yrði kosin í málinu, og það strax í dag, er ræddi það í fullkomnu frelsi.

*J. Skaptason*: Þar sem hinn fyrsti þíngmaður Borgfirðínga talaði um gleðilegan dag, sem þjóðin hefði lengi eptir vænt og nú væri upp runninn, þá vil eg ekki trúa því, að þessi dagur sè í raun og veru gleðidagur fyrir oss, fyr en árángur hans rekur mig úr skugga um það. Eg ætla ekki að trúa í blindni, heldur safna mèr nægum ástæðum til styrkíngar sannfæríngu minni. Eg hef lesið frumvarpið frá upphafi til enda; eg hef lesið það aptur og aptur, og er þar við orðinn sannfærður um, að höfuðþánkinn, er gengur í gegnum það allt, er sá, að vèr sèum álitnir eins og stór hreppur úr Danmörku, sem liggur þó mörg hundruð mílur á burtu frá ríkinu; og í þessum hreppi er mönnum eigi leyft, að tala um löggjafarvald, dómsvald, eða framkvæmdarvald, í hið minnsta ekki nema í hinum lítilmótlegustu málefnum, þar sem þó sagan, vorar náttúrlegustu kröfur, og staða lands vors, eptir mínu áliti, gefa oss Íslendíngum fullkomnasta leyfi til, að tala og fjalla sjálfir um málefni vor, og eiga þátt í því, hvernig stjórn lands vors fari fram eptirleiðis.

*Jak. Guðmundsson*: Að forminu til hefur þetta frumvarp margt sameiginlegt við verzlunarlagafrumvarpið, sem áður er komið til umræðu hèr á þínginu, og sèr í lagi í því, að þetta frumvarp út af fyrir sig getur ekki orðið nein undirstaða undir fullkomnum grundvallarlögum Íslands, nema það sè sett í því nánara samband við grundvallarlögin dönsku. Þess er getið í ástæðunum, að grundvallarlögin dönsku geti ei átt við hèr á landi í einstökum greinum, svo það mun varla komast í bága við tilætlun konúngs, þó að undantekníngar nokkrar sèu gjörðar fyrir Íslands hönd frá hinum dönsku grundvallarlögum, þar með frumvarpinu sjálfu er játað, að þau geti ekki gilt hèr breytíngarlaust. Mèr hefði þótt það eðlilegast, að þetta mál hefði komið svo fyrir þennan fund, að þíngið hefði getað sagt álit sitt um það, að hve miklu leyti grundvallarlögin dönsku gætu átt við Ísland, að skaðlausu bæði fyrir Ísland sjálft og hina aðra hluti konúngsveldisins; því þá hefði mèr virzt oss ætluð þau rèttindi, sem oss bera, og undir eins gefinn kostur á, að neyta þeirra, og eg vil eigi ímynda mèr annað, en að þessi hafi verið stjórnarinnar meiníng, og hún leyfi því fundinum, að segja þetta álit sitt. Flestir meðal vor munu, hvort sem er, viðurkenna, að Ísland sè partur af konúngsveldinu, en þá viljum vèr og, að vèr njótum sömu rèttinda, og hinir aðrir partar þess. Það er eðlilegt og sanngjarnlegt, að enginn

hluti konúngsveldisins skuli gánga undan kórónunni, eins og á var kveðið í konúngalögunum; en það getur varla komið í bága við tilsetlun stjórnarinnar, þó vèr viljum semja um breytíngu á landstjórn vorri eptir þörfum vorum. Eg ímynda mèr og, að menn muni eigi hánga í orðatiltækjum einum, svo sem „ríki“, „konúngsríki“, o. s. frv., heldur taka þessi orðatiltæki um öll þau lönd til samans, sem einvaldur konúngur átti yfir að ráða, áður en hann takmarkaði veldi sitt. En hvað áhrærir hina ástæðuna, um þá fimm menn, er staddir voru á ríkisþíngi Dana, þá held eg, að stjórnin mundi hafa haft ástæðu til, að álíta Ísland part úr ríkinu í þessum skilníngi, hvort sem fimm menn íslenzkir hefðu setið á ríkisfundinum eða ekki. Úr því að nokkrir af hinum öðrum pörtum ríkisins hafa nú fengið breytíngu á stjórnarskipun sinni, þá þykir mèr líklegt, að vèr megum vænta þess líka, eins og oss hefur verið lofað; og þegar verið er að tala um, hvernig hin nýja stjórnarskipun geti fengið lagagildi á Íslandi, þá viljum vèr skilja með því, hvernig hinni takmörkuðu konúngsstjórn verði hèr bezt fyrir komið. Þó að vèr tökum það fram, að sèrhver grein grundvallarlaganna dönsku ekki geti átt hèr við, þá segjum vèr ekki þar með, að vèr viljum, eða að oss muni vera hollt, að sleppa öllu sambandi við Dani, heldur einúngis hitt, að það sama geti ekki í öllum greinum átt við oss, sem á við þá.

*E. Briem*: Eg vil leyfa mèr að benda á mismun þann, sem er á milli frumvarpsins sjálfs og ástæðanna fyrir því, að frumvarpið er án efa samþykkt af konúngi, en ástæðurnar ekki. Eg vil því að svo stöddu gánga fram hjá ýmsum skökkum ummælum, er finnast í ástæðunum. Aðalreglan í frumvarpinu er sú, að grundvallarlög Dana skuli vera gild á Íslandi, og jafnframt er í frumvarpinu gjört ráð fyrir, að hin íslenzka þjóð sendi fulltrúa bæði á hinn svo nefnda ríkisdag, er Eydanir og Jótar nú eiga með sèr, og líka á þjóðþíng í landinu sjálfu, sem er nefnt alþíngi, og líkt við æðri sveitastjórnir í Danmörku. Er svo löggjöfinni um fjárhag landisns, eða tekjur þess og útgjöld, skipt af handahófi á milli þessara þínga. Ætlast frumvarpið til, að löggjafarvaldið í málefnum Íslands sè að nokkru leyti í höndum konúngs og ráðgjafa hans, með tilhlutun af alþíngis hálfu, og að nokkru leyti í höndum konúngs og ríkisdagsins, og verði ágreiníngur hèr um, þá skuli ríkisdagurinn skera úr.

Þegar vèr nú eigum að segja álit vort um stjórnarskipun

lands þessa eptirleiðis, þá er það að vísu mikið vandaverk, og því vandameira, sem meginhlutar ríkisins því miður eru mjög á sundrúngu, og óvíst, hver staða þeirra verður í ríkisheildinni, sem og hverjum breytíngum grundvallarlög Danmerkur, þau er hið konúnglega frumvarp stíngur upp á að skuli lögleiðast hèr á landi, kunna að verða undirorpin, þegar skipun kemst á stjórnarlögun ríkisins, og meina eg með þessu allt ríki konúngs vors, er innibindur í sèr ýmsa landshluta, eptir því sem komizt er að orði í opnu brèfi 28. d. janúarm. 1848, er nefnir öldúngis jafnhliða konúngsríkið Danmörk, hertogadæmin Slèsvík, Holsetaland og Láenborg, og konúngsins land Ísland. Bið eg góða menn gæta þess, að þó Danmörk sè kölluð konúngsríki, þá er það ekki nema nafn, eins og orðið „hertogadæmi", og að hið svó nefnda konúngsríki Danmörk er í sjálfu sèr ekki nema ríkishluti eða landshluti í hinu danska einvaldsdæmi. Þessa athugasemd hèlt eg ekki öldúngis óþarfa, til að benda á þær tvær merkíngar, er orðið *ríki* hefur.

Eg vík mèr nú aptur að lagafrumvarpi því, er konúngur vor hefur látið leggja undir álit þjóðfundar þessa. Þar er stúngið upp á, að grundvallarlög Danmerkurríkis skuli verða gild á Íslandi, að alþíngi haldist við með nokkuð rýmkuðu valdi, og að Íslendíngar skuli kjósa 4 menn til lýðþíngsins, og 2 menn til landþíngsins í Danmörku.

Þessi uppástúnga er nú að vísu samkvæm því sjónarmiði, er stjórnin hafði 1848, er hún hèlt, að Slèsvíkurmenn og Íslendíngar mundu geta átt þíng með Dönum, og þess vegna hefði eg ekki furðað mig á því, þó svona lagað frumvarp hefði verið búið til í fyrra; því þó Kristján konúngur hinn áttundi væri búinn að sýna mönnum ofan á, að Íslendíngar gætu ekki í málefnum sjálfra sín átt þíng saman við Dani, og þó hann viðurkenndi þjóðtilveru vora með því, að veita oss þjóðþíng, þá má það vegna hinnar stórkostlegu breytíngar 1848 virðast marzstjórninni til vorkunnar, þó slíkt gleymdist um hríð, en þar á móti sýnist mèr, að þess hefði mátt vænta, að það, sem fram er komið síðan í fyrra, og sèr í lagi umbreytíng sú, er orðið hefur á skoðun stjórnarinnar á stöðu Slèsvíkur í ríkisheildinni, hefði mátt hafa nokkur áhrif á sjónarmið hennar í tilliti til Íslands, og það því heldur, sem það er enn þá fráleitara um Ísland en Slèsvík, að sèrstakleg málefni þess og

Dana geti átt saman til umræðu á sama þíngi, bæði vegna fjarlægðar og ólíks ásigkomulags í flestu tilliti.

Nú er í frumvarpi því, sem lagt var fyrir höfðíngjafund í Flensborg í vor um stjórnarskipun hins danska ríkis eða einvaldsdæmis, stúngið upp á, að Slèsvík hafi ráðgjafastjórn út af fyrir sig, eins og nú er, og fái landdag með löggjafarvaldi, er ákveði allar tekjur og útgjöld landsins, en greiði jafnframt víst tiltekið gjald til kostnaðar við það, sem sameiginlegt er fyrir Slèsvík og hina ríkishlutina.

Líkar ákvarðanir virðast mèr vel til fallnar í tilliti til stöðu Íslands í ríkisheildinni, nefnilega, að það skuli hafa ráðgjafastjórn út af fyrir sig, og þjóðþíng með löggjafarvaldi. Þetta jafnrètti virðist nauðsynlegt, til að auka dáð og dug hinnar íslenzku þjóðar, og til að efla jafnt heillir allra ríkishlutanna.

Fyrir úrsliti þeirra mála, er sameiginleg væru, mætti greiða með því, að nefna menn til af beggja hálfu, líkt og stúngið er upp á millum Danmerkur og hertogadæmanna í áður nefndu frumvarpi.

Eg álít það sjálfsagt, að nefnd verði kosin í þessu mikilvæga málefni.

*Konúngsfulltrúi*: Af því það hefur lýst sèr í umræðum nokkurra þíngmanna, að þeir muni tileinka þessum fundi það vald og verkefni, sem eg verð að álíta ósamkvæmt fyrirmælum hins konúnglega opna brèfs frá 23. d. septemberm. 1848, og það liggur í augum uppi, að ef slík skoðun ryddi sèr til rúms hjá þínginu, mundi hún skekkja meðferð og umræður málefnanna, og snúa þeim í gagnstætt horf því, sem stjórnin hefur getað búizt við, þá hlýt eg sem konúngsfulltrúi að vekja athygli þíngmanna á þessu; og með því það nú er skýlaust tekið fram í ástæðunum fyrir „frumvarpi stjórnarinnar til laga um stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins", að það, af þar tilgreindum ástæðum, geti ekki orðið umræðuefni, hvort Ísland sè partur úr ríkinu eða ekki, og þannig ei heldur grundvallarlögin, sem eru gefin fyrir allt ríkið, eins og líka frumvarpið sjálft er byggt á þessari skoðun, þá hlýt eg að áminna þíngmenn um, að halda sig við þá undirstöðu, sem stjórnin hefur lagt fyrir umræðunum, og eins að varast, að byggja nefndarálit á annari grundvallarskoðun en þeirri, sem stjórnin hefur haft, sumsè þeirri, að Ísland sè partur úr Danmerkurríki, og vona eg, að þíngmenn í þessu mikilvæga málefni gæti allrar þeirrar still-

íngar og skynsamlegu varkárni, sem er svo áríðandi, til þess að málið fái happasæl úrslit, og þessi fundur geti haft heillaríkar afleiðíngar fyrir þetta land.

Þegar eg nú þannig hef bent þíngmönnum á það aðalsjónarmið, sem þeir í þessu efni verða að hafa fyrir augum, treysti eg því, að þeir muni gjöra mèr mögulegt, að leiða þíngið í þeim stillta og konúnghollа anda, sem þeir á hinum undanfarandi þíngum jafnan hafa látið í ljósi, svo að þeir þannig geti lokið störfum sínum, og leitt málefnin til lykta á eðlilegan og venjulegan hátt, og fái á þeirri undirstöðu, sem konúngur hefur lagt, reist þá byggíngu, sem geti orðið til heilla og blessunar fyrir landið í bráð og lengd.

*St. Jónsson*: Eg er herra konúngsfulltrúanum öldúngis samþykkur í því, að mönnum beri að fara með greind, gætni og stillíngu, og það í hverju máli sem er, og eins þegar ræða skal frumvarp þetta, og að byggja málstað sinn á frumvarpinu, en einúngis að því leyti, sem það fer því fram, sem er skynsamlegt og landinu hollt og hagkvæmt. En eg get ekki neitað því, að mèr virðist, að frumvarpið, eins og það er úr garði gjört og lagt fyrir þíngið, eigi engan veginn vel við þetta land. Aptur á hinn bóginn kannast eg við það, að eg er ekki svo framsýnn, að eg máske við byrjun málsins sjái glögglega, hvað hollast sè, og eg hef sjálfur reynt það áður hèr á þíngum, að við umræður og meðferð málefnanna í nefndum hef eg stundum komizt á aðra skoðun, sem mèr í fyrstunni geðjaðist ekki að. Og hvað það málefni snertir, sem hèr ræðir um, þá legg eg það til, að nefnd sè kosin í því; því það getur þá verið, að henni takist, að laga svo frumvarpið, að það geti átt við þarfir og ástand lands þessa, þó það líti nú ekki þannig út.

*Konúngsfulltrúi*: Það vona eg líka; en í tilefni af því, sem nú var sagt, skal eg einúngis geta þess, að það, sem eg hef til greint, innibindur þær grundvallarreglur, sem eg stjórnarinnar vegna á að gæta og ætla að gæta.

*Þ. Jónasson*: Það kann að vísu að geta verið nokkur efi á því, hvort konúngalögin gilda hèr á landi í þeim skilníngi, sem stjórnarfrumvarpið fer fram á; því boðunarbrèfið frá 4. d. septemberm. 1709 er ekki, svo eg viti til, þínglesið hèr á landi. En hitt er þar á móti víst, að í umboðslegu tilliti hefur í lánga tíma verið farið með Ísland eins og part úr ríkinu, og það verið skoðað frá sama sjónarmiði, eins og frumvarpið

gjörir, þó þetta hafi ekki nema að nokkru leyti átt sèr stað í tilliti til löggjafarinnar, og samkvæmt þessari skoðun á stöðu Íslands í ríkinu boðaði konúngur einnig fimm fulltrúa fyrir Íslands hönd á fund þann, sem ræða átti grundvallarlög ríkisins árið 1848. Ef að nú þjóðin hefði kosið þessa menn til ríkisfundarins, þá mundi þessi fundur, sem vèr eigum nú, ekki hafa átt sèr stað. En nú kaus konúngur þá, og einmitt þess vegna, og þrátt fyrir það, þó líklegt væri, að landsmenn, ef þeir hefðu sjálfir kosið mennina, mundu hafa kosið altènd suma af þeim, er á fundinum sátu, vildi konúngur samt sem áður ekki ráða málinu í þess einstöku greinum algjörlega til lykta, fyr en hann hefði borið það undir álit fundar í landinu sjálfu, sem hann og boðaði með brèfi dagsettu 23. d. septemberm. 1848. Mèr getur því ekki skilizt, að í þessu konúngsbrèfi liggi nokkur heimild fyrir þennan fund, til að byggja málið á öldúngis nýjum grundvelli, eða ólíkum þeim, sem er í frumvarpi þessu, heldur er það meiníng mín, að það einmitt sè skylda þíngsins, sem einúngis er ráðgefandi, að fara ekki út fyrir frumvarpsins grundvallarreglur, en eigi að halda sèr og einúngis að ræða frumvarpið innan takmarka þessara í þess einstöku greinum samkvæmt sèrstöku ásigkomulagi Íslands, svo grundvallarlögin geti sem bezt komizt heim við landsins hag. Ef þetta væri ekki meiníng stjórnarinnar og hinn rètti skilníngur á hluttöku Íslendínga í ríkisfundinum, þegar grundvallarlögin voru rædd, þá er mèr óskiljanlegt, að ekki skyldi vera gjörð viðlíka undantekníng hvað Ísland snertir, og gjörð er um Slèsvík í inngánginum til grundvallarlaganna, og bendir þetta eptir minni skoðun til þess, að seta hinna fimm Íslendínga á ríkisfundinum hafi af stjórninni ekki verið álitin, sem hún annars yrði, þýðingarlaus; því að öðrum kosti hefði sömu grundvallarreglu efalaust verið fylgt með Ísland, og gjört var með Slèsvík, og þessa einnig verið getið, eða tekið fram að lyktum. Yfir höfuð er það mín skoðun á þessu máli, að þíngið eigi vandlega að gæta þess, að það má ekki fara hèr neinu fram hliðsjónarlaust, heldur verður að hafa stöðugt tillit til þess, hvernig stöðu landsins er komið, og hvað því sè haganlegast og hollast, þegar á allt er litið, og eg þori hvorki nè vil fyrir mitt leyti taka þá ábyrgð á mig, að ráða til þess, að þíngið, með því að hafna grundvallarreglunum í stjórnarfrumvarpinu, ofurselji sig og landið tómri óvissu.

Kandid. *J. Sigurðsson*: Eg tók eptir því hèrna um daginn, að konúngsfulltrúinn sagðist vera fulltrúi konúngs, en ekki erindisreki stjórnarinnar, og eru þessi orð ekki svo þýðíngarlítil með tilliti til þessa frumvarps, sem hèr ræðir um; því þó frumvarpið reyndar kunni að vera komið frá konúnginum, að því leyti sem hann hefur samþykkt, að það skyldi verða lagt fyrir þetta þíng, þá geta þó ekki ástæðurnar fyrir því orðið beinlínis eignaðar honum. Annars væri ekki hægt að skilja, hvernig á þeim mótsögnum stendur, sem bersýnilega eru á milli frumvarpsins og ástæðanna. Ástæðurnar hljóta að vera frá stjórnarherrunum, og það getur ekki verið nein skylda fyrir oss, að taka orð stjórnarherranna eins gild og orð konúngs. Mótsögnin, sem eg gat um á milli frumvarpsins og ástæðanna, kemur fram í því, að eptir ástæðunum er Ísland nú þegar ákveðinn partur úr ríkinu, en frumvarpið er þó, ásamt hinum dönsku grundvallarlögum, lagt fram fyrir þennan fund. Hvaða tilgángur gæti þá verið í því, að leggja hin dönsku grundvallarlög fram fyrir þennan fund, ef Ísland væri slíkur partur úr Danmerkurríki, sem ástæðurnar fyrir frumvarpinu segja það sè? Það er auðsætt, að hin dönsku grundvallarlög hefðu þá verið hèr birt og þínglesin fyrir laungu. Það er og skýlaust eptir úrskurði konúngs dagsettum 23. d. septemberm. 1848, að þó að Íslendingar sætu þá á ríkisfundi Dana, geta ekki hin dönsku grundvallarlög verið hèr gildandi. Þessu til styrkíngar get eg vísað til þess, sem stjórnarherrarnir sjálfir sögðu, þegar grundvallarlagafrumvarpið kom fram á þíngi Dana, að grundvallarlögin væru einúngis til bráðabyrgða, og að Slèsvíkur leyti sem tilboð, en staða Íslands og Slèsvíkur er í *því* efni hin sama. Slèsvíkurmenn eru enn ekki búnir að segja meiníngu sína um grundvallarlögin, og mun þá ekki skorta einurð til, að mæla á móti því, sem þeir vilja ekki, og ekki munu þeir láta neyða neinu upp á sig. Eins er nú ástatt fyrir oss Íslendingum; það getur enginn neytt oss til, að gángast undir það, sem vèr viljum ekki hafa. Hvað því viðvíkur, er hinn 6. konúngkjörni þíngmaður minntist á, að í grundvallarlögunum væri ekkert skilyrði gjört með tilliti til Íslands, þá er það alkunnugt, að formálinn fyrir framan grundvallarlögin er saminn af ráðgjöfunum eptir ríkisfundinum, en ekki eptir uppástúngu fundarins. Grundvallarlaganefndin stakk upp á, að þegar konúngur legði samþykki sitt á grundvallarlögin, skyldu

verða tekin fram og endurnýjuð skilyrði þau, sem veitt voru bæði Slèsvík og Íslandi, en þíngtíðindin sýna, að þessi uppástúnga nefndarinnar var felld, ekki vegna þess, að skilyrði fyrir Íslands hönd væri dregið í efa, eða gildi þess tortryggt, heldur vegna þess, að þíngmenn hèldu, að ítrekun skilyrðisins fyrir Slèsvík yrði Dönum fremur til ógagns en hitt, og þá vildu þeir ekki stínga upp á skilyrði fyrir Ísland eitt af því, að það stæði, sem konúngur hefði lofað. En síðan hittu ráðgjafarnir sjálfir upp á, að láta grundvallarlögunum fylgja skilyrði fyrir Slèsvík, en ekki Ísland. Það er að vísu satt, að seta hinna fimm Íslendínga á ríkisfundinum var ekki öldúngis þýðíngarlaus, og það var tekið fram af einum okkar (og var það eins þýðíngarmikið, og þó að vèr hefðum allir sagt það), að eptir stöðu vorri á fundinum og því loforði, sem konúngur hafði gefið, þætti oss óþarft, að gjöra nokkurt skilyrði fyrir Íslands hönd, eða nokkrar uppástúngur um stjórnarhögun Íslands. Einúngis álitum vèr það skyldu vora, að stuðla til þess, að Ísland fengi sem frjálsast atkvæði eptir skýlausu konúnglegu loforði.

Eitt er það, sem sýnir, að þetta frumvarp er ekki annað en uppástúnga eða tilboð af stjórnarinnar hendi. Það er alkunnugt, að það hefur lengi verið farið með Ísland eins og nýlendu, en í frumvarpinu er því nú farið fram, að skoða Ísland eins og part úr Danmerkurríki. Þetta getur ekki verið annað en tilboð. Það er komið undir því, hvort Ísland getur sannað það af sögu sinni, þjóðerni og fleiru, að það hafi æðri stöðu, hvort það getur nú gengið að þessu boði eða ekki. Eg fyrir mitt leyti get engan veginn fallizt á, að Ísland sè partur úr *„Provindsen Danmark"*, þó eg neiti því ekki, að það sè partur úr veldi Danakonúngs. Það væri líka öldúngis gagnstætt sögu Íslands og allri stöðu þess, að skoða það þannig, og slíkt samband gæti heldur aldrei þrifizt, þó það væri samþykkt.

Hinn 6. konúngkjörni þíngmaður gat þess að sönnu, að Ísland hefði verið skoðað eins og partur úr ríkinu í umboðslegu tilliti. Þessu neita eg nú ekki. En þetta samband átti sèr og stað í hertogadæmunum, og álíta Danir það nú öldúngis þýðíngarlaust og ónýtt. Þetta samband getur þá ekki verið þýðíngarmeira milli Danmerkur og Íslands; það er einúngis grundvallað á vilja konúngsins (því sem einvaldur gat hann haft hina umboðslegu stjórn hvort hann vildi aðgreinda eða

sameiginlega), og haggar ekki í neinu rèttindum landsins, eða hinu *löglega* sambandi milli landanna.

Þegar eg sný mèr nú að frumvarpinu sjálfu, þá hafa nú þíngmenn þegar tekið fram nokkur aðalatriði þess, og borið saman stöðu Íslands eptir frumvarpinu við stöðu Slèsvíkur eptir öðru frumvarpi, sem nýlega hefur verið lagt fram á þíngi í Slèsvík. Það lítur nokkuð undarlega út, að tveim hlutum, sem ætlazt er til sèu úr sama ríki, skuli vera boðið svo ójafnt. Þó verður mismunurinn enn þá meiri í samanburði við Holsetaland og Láenborg, þar sem þó Ísland á í mörgu tilliti enn meira sammerkt við ríkishluta þessa. Það hefur einnig verið tekið fram, að eptir frumvarpinu ætti alþíngi að fá lík rèttindi, og ætlazt er til að sveitastjórnir í Danmörku hafi, og væri það lítill ávinníngur fyrir þetta land, þegar aðrir þegnar konúngs vors fá frjálsa þjóðstjórn.

Auk þessara mætti enn telja fleiri atriði, t. a. m. það, er frumvarpið ætlast til, að íslenzk mál gángi til hæstarèttar, þó að það sè vitanlegt, að hans löglega dómsvald í íslenzkum málum er farið, síðan konúngur hætti að dæma í honum; aðgreiníngunа á sköttunum í beinlínis og óbeinlínis skatta, og hefur það ekki fyr verið, að þeir hafi verið þannig að greindir, enda er og ekki heldur nein hugsanleg ástæða til, að kalla beinlínis skatta ríkisskatta, en hina landskatta; flokkunina á embættismönnunum, því það er engin ástæða til, að láta biskupinn vera ríkisembættismann, en prófastinn embættismann landsins, yfirrèttinn ríkisins og sýslumanninn landsins.

Að öðru leyti fellst eg fullkomlega á það, að frumvarpið sè mikilvægt, og það eigi því að setja nefnd í það, og ræða það ýtarlega; það álít eg skyldu vora bæði við sjálfa oss, við landið og við konúnginn, en að hrapa ekki að neinu, og láta þó ekki hrekjast frá rèttum ástæðum, þó að menn kunni að halda, að danskir stjórnarherrar í Danmörku kunni að hafa aðrar meiníngar um þetta mál en vèr.

*St. Jónsson*: Hinn 6. konúngkjörni þíngmaður varaði menn áðan við því, að ofurselja sig ekki eintómri óvissu, og mèr finnst þetta vera rètt, en eg get ekki þagað yfir því, að mèr virðist ekki hægt, að binda sig meiri óvissu, en með því, að binda sig við frumvarpið.

*Jak. Guðmundsson*: Þegar konúngur leggur frumvarp til grundvallarlaga fyrir einhvern einstakan part ríkisins, þá

ætla eg, að hann muni hafa tvennt fyrir augum, bæði að hinum einstaka parti og öllu ríkinu yfir höfuð verði sem bezt borgið. Hvorttveggja þetta finnst mèr og hinn einstaki ríkishluti verði að hafa fyrir augum, þegar hann fer að skoða frumvarpið, og eru þá tveir skoðunarhættir, jafnvel í Danmörku sjálfri, á því, hvernig þetta verði rýmt saman. Sá er annar, að menn álíta, að bæði öllu ríkinu og hverjum einstökum hluta þess sè bezt borgið með því, að hinn stærsti hlutinn ráði sem mestu, en hinir sem minnstu; en hinn er sá, að hver einstakur partur ráði sem mestu sjálfur, svo hann nái sem mestum þroska, og geti síðan því betur stutt hina hluti ríkisins, og að þetta verði affarabezt fyrir allt ríkið. Þó það kunni nú að líta svo út, eins og þessir tveir skoðunarhættir mundu komast hèr í bága hvor við annan, þar sem stjórnin virðist halda því fram í þessu frumvarpi, að aðalhlutinn eigi sem mestu að ráða, en þíngið aptur á hinn bóginn kynni að ætla það hollast, að hver einstakur partur sè sem frjálsastur og hafi sem mest ráð, þá get eg ekki ætlað, að þetta verði að ágreiníngsefni; því eg gjöri ráð fyrir, að stjórnin muni fúslega skoða þær ástæður þíngsins, sem á rökum eru byggðar, þó ekki sèu þær beinlínis samkvæmar hennar skoðun; og það því heldur, sem hún sèr, að þíngið hefur fyrir augum sèr bæði einstakt gagn landsins og almenna heill ríkisins.

*Á. Einarsson*: Það voru fáein orð í ræðu konúngsfulltrúans, sem annaðhvort enginn þíngmanna hefur tekið eptir, eða hirt um að minnast á, en sem mèr þykja svo þýðíngarmikil, að eg ætla að hafa þau upp aptur. Hann sagði sumsè, að hann vonaði, að þíngið kæmi fram með sínni vanalegu stillíngu og konúnghollu anda. Mèr finnst nú þetta hvorttveggja hafa legið í orðum þíngmanna. Íslendíngar hafa æfinlega verið stilltir og hollir konúngi sínum, og lausir við allan óeirðaranda, þó þeir hafi heyrt hann hreifa sèr annarstaðar. Eg er því sannfærður um, að hollusta og traust það, er Íslendíngar hafa borið til konúnga sinna, við helzt og glæðist, ef þeir sjá, að þeir framvegis njóta allra sanngjarnra rèttinda, hvers þeir munu staðfastlega vona af konúngs hálfu. Aptur á hinn bóginn finnst mèr það eðlilegt, að þeim þyki sèr vera það ósamboðið, að gefa sig undir atkvæði bænda á ríkisþíngum Dana, sem að líkindum eru lítið kunnugir flestum högum Íslendínga. Það þykir mèr því ekki von, að Íslendíngar geti gjört sèr að góðu,

að konúngur láti vald það, er hann hefur haft yfir Íslendíngum, í hendur þessara áminnstu manna.

*Halld. Jónsson*: Það hefur nú nokkuð verið talað um, hvern rètt Ísland mundi eiga, og hvort grundvallarlög Dana ættu að gilda hèr eða ekki, svo eg ætla mèr ekki að fara fleirum orðum um það. En eg tók eptir því heilræði, sem hinn 6. konúngkjörni þíngmaður gaf þínginu, að það væri ískyggilegt, að kasta sèr út í fulla óvissu, og vil eg leggja þíngmönnum þetta heilræði á hjarta. En nú vil eg spyrja, hvort það heldur megi heita svo, að maður kasti sèr út í fulla óvissu, þegar maður sjálfur fær að ráða málefnum sínum, en hitt, þegar maður ekki fær umráð þeirra. Eg vona, að hver þíngmanna svari þessu á sömu leið. Samt sem áður mega menn ekki gjöra vorum dönsku sambræðrum þær gersakir, að þeir muni vilja halla rètti vorum. En vèr getum ekki með sanngirni vænzt meira af þeim, en að þeir láti oss njóta jafnrèttis við sig, og bera þá byrði, sem oss ber, og þar á meðal hluttekníng í ríkiskostnaði í vorar þarfir. Þó stjórnin vildi hlynna að oss, og láta oss njóta betri kjara, þá gæti hún það ekki; því það kæmi í bága við grundvallarlögin. Úr þessu verður ekki öðruvísi ráðið að minni ætlun, en með því, að að skilja fjárhaginn; því það er gamall málsháttur og sannur, að hreinir reikníngar gjöra góða vini.

Kandíd. *J. Sigurðsson*: Þíngmaðurinn úr Strandasýslu gat þess, að Íslendíngar mundu ekki una því, að gefa sig undir atkvæði bænda í Danmörku; en eg vil þó geta þess, einúngis til þess, að þetta verði ekki misskilið, að eg óttast ekki svo mjög, að bændur í Danmörku vilji halla rètti vorum. Eg er fyrir mitt leyti miklu hræddari við prófessórana, en við bændurna.

*Á. Einarsson*: Það var engan veginn meiníng mín, að geta ills til bænda á ríkisfundi Dana, eða óttast, að bændur í Danmörku yrðu oss hættulegir af neinum illvilja eður ásetníngi; heldur tók eg svona til orða af því, að eg gat ekki búizt við, að þeir væru svo kunnugir högum vorum, eins og á þyrfti að halda, til að geta ályktað nokkuð víst um stjórnarmálefni vor.

*G. Brandsson*: Fyrsti þíngmaður úr Ísafjarðarsýslu gat þess, að frumvarpið mundi vera búið til af konúngi, en ástæðurnar fyrir því af stjórnarherrunum. Mèr finnst nú vera bágt, að segja um það, þar sem engin undirskript er undir því, og engin ábyrgð fyrir því, að útleggíngin sè rètt.

*Forseti*: Það heyrir ekki til umræðanna, sem þíngmaðurinn núna er að tala. Frumvarpið er lagt fram í sama formi, og frumvörp stjórnarinnar hafa áður verið lögð fram í. En eptir þíngsköpunum á ekki að *ræða* hèr um form, heldur aðalatriði frumvarpsins.

*G. Brandsson*: Eg ætla, að þetta eigi nú nokkuð skylt við aðalatriði og undirstöðu þess. En svo eg minnist aptur á frumvarpið, þá er það orðið svo kunnugt í hlutfallsnefndunum, að eg held það þurfi ekki hèðan af mjög lángrar inngángsumræðu við, og vildi því óska, að strax væri kosin nefnd í það, og stíng eg upp á níu manna nefnd.

*S. Hallgrímsson*: Margir þíngmenn urðu til þess, að láta í ljósi gleði sína yfir verzlunarfrumvarpinu, eða þeirri góðvild Dana, sem menn þóttust sjá, að kæmi fram í því; en eg hef ekki heyrt neinn af þeim gleðjast yfir því frumvarpi, sem nú er verið að ræða, og er þá rèttast, að eg votti gleði mína yfir því; því mèr virðist, að í því komi hin sama landsföðurlega umhyggja Dana fram, sem þeir fyrri hafa látið oss í ljósi, þar sem þeir svo nákvæmlega hafa viljað breiða sig út yfir oss og öll vor efni. Þessi umhyggja þeirra hefur opt áður orðið oss að góðu gagni, og að þeir vilja nú halda henni áfram, og fram bjóða hana, það álít eg að vísu mikið fagnaðarefni fyrir oss. Konúngsbrèfið frá 23. d. septemberm. 1848 gefur oss nú leyfi til þess, að yfirvega, að hvað miklu leyti vèr getum *nú* þegið þessa boðnu umhyggju. Það er að sönnu sjálfsagt, að híngað til hefur hún komið oss að góðu haldi, en það gæti verið spurníng um, hvort vèr megum þiggja hana eins hèr eptir, þegar menntun og upplýsíng fer í vöxt, og þjóðlíf vort þroskast; því þá er eins og ráð forsjónarinnar bendi til þess, að þjóðin skuli fá meiri umráð, og það því heldur, sem ekki er til þess að hugsa, að þjóðlegt líf geti þrifizt í landinu, nema landsmenn segi sèr það sjálfir, að þeim sè nú annaðhvort að gjöra, að deyja eða dafna, fyrir því að Danir ætli nú að sleppa af þeim hendinni, og láta þá ábyrgjast sig sjálfa; því ef stjórn Dana hætti að bera þá hina nákvæmu umhyggju fyrir oss, sem þeir hafa áður gjört, hversu hlyti það þá ekki að örfa vorn eiginn áhuga, að vekja þann anda hjá þjóðinni, sem sýndi sig framtakssaman í öllum þeim efnum, sem landið vörðuðu? Mèr sýnist, svo að eg nú taki dæmi af daglegu lífi, að sú breytíng á kjörum þjóðarinnar hlyti að hafa sömu verk-

um á þjóðlífið, eins og vèr vitum til, að þau umskipti á högum allra góðra hjúa, er þau víkja úr vist, og fara að eiga með sig sjálf, hafa optast nær heillaríka verkun á allt þeirra líf. Meðan hjúin mega engu ráða sjálf, heldur skulu vinna allt undir stjórn og umráðum annara, eru þau framtakslítil og áhyggjulaus um flest, nema rètt að gánga að skylduverki sínu, og láta þau svo húsbændurna hafa ábyrgðina af öllu. En þegar þau fara að eiga með sig sjálf, þá sjá þau það, að ekki tjáir annað, en taka sig fram um allt, sem heimilið þarf við, og að nú tekur ábyrgðin að hvíla á sjálfum þeim. Þau gjörast þá eins og tvígild; áhuginn, að geta komizt á fram nokkurn veginn með sóma, vekur upp í þeim þá mannkosti, þau öfl til sálar og líkama, sem þau hugsuðu áður að þau hefðu ekki einu sinni til að bera, og sem líka lágu í dvala hjá þeim, meðan ekkert reyndi á þau, en komu þá í ljós, þegar þau þurftu á að halda. Eg ímynda mèr, að allt eins skyldi verða fyrir oss Íslendíngum. Vèr skyldum með guðs hjálp reynast tvígildir, ef vèr fengjum sjálfir í hendur stjórn málefna vorra, og mættum svo sjálfir til að bera ábyrgðina fyrir land og lýð, hvernig sem færi. Það kynni nú að vísu einhver að spyrja, hvort það sè í raun og veru kominn tími fyrir oss Íslendínga til þessa; hvort vèr sèum þegar færir til, að takast á hendur þá umhyggju fyrir málefnum vorum, sem hèr ræðir um, og eg get þá ei betur sèð, en að svo sè. Að minnsta kosti er þá mikið unnið fyrir málið, þegar önnur eins hreifing er komin í brjóst þjóðarinnar, og kviknuð er í hjarta myndugs manns, sem vill fara að eiga með sig sjálfur, af því að hann finnur sig færan til þess, og er búinn að fá sèr kærustu til að lifa og deyja með. Allt eins verður þjóðin að sínu leyti að hafa innilega laungun til þess, að stjórna sjálf öllum málefnum sínum, af því að hún finnur sig færa til þess fyrir menntun og upplýsíngu, og svo hlýtur hún að hafa fengið þá ást á ættjörðu sinni, að hún álíti, að engin annarleg eða útlend stjórn geti eins vel hlynnt að högum hennar, eins og hún sjálf þykist hafa allan huga og vilja til. Þegar þjóðaranadinn og ættjarðarástin eru komin í þetta horf, þá segi eg komna tímans fyllíngu fyrir þjóðina, að hún fari að ráða sèr sjálf; og eigi það sèr þegar stað hèr hjá oss Íslendíngum, þá mun verða bágt, að spyrna á móti þeim broddunum, sem þar að liggja.

*G. Magnússon*: Þegar Friðrik 7. varð konúngur, sleppti

hann nokkru af einveldi sínu, og lagði það í hendur þjóðarinnar, og þetta hefur konúngur opt kallað gjöf. Hann hefur opt látið þann vilja sinn í ljósi, að allir þegnar sínir yrðu þessarar gjafar aðnjótandi á eðlilegan hátt. Eydanir og Jótar hafa verið kvaddir til fundar, til þess að ráðgast um, hvernig þeir gætu fært sèr þessa gjöf í nyt. Þeir hafa og átt fund með sèr í því skyni, og ekki verið bundnir við neitt annað, en konúnglega hollustu og skynsamlega skoðun. Á sama hátt hef eg ávallt ímyndað mèr, að vèr værum kvaddir híngað til þess, að lýsa því einarðlega yfir, hvernig oss finnst, að vèr getum á eðlilegan hátt orðið þessarar gjafar aðnjótandi, og að vèr í skoðun þessa máls sèum ekki við neitt annað bundnir, en konúnglega hollustu, og eigin sannfæríngu vora um það, hvað rètt sè fyrir guði og mönnum. Frumvarp stjórnarinnar, það sem nú er talað um, mun vera eins og verk mannanna eru vön að vera; sumt í því mun vera gott og skynsamlegt, en sumt aptur laklegt. Það, sem mèr finnst gott og skynsamlegt, ætla eg að þýðast, en hitt ekki, og reyna að leiða rök að þessari minni aðferð, eins og eg get bezt. Ef konúngi þykja ástæður mínar ónógar, þá hafnar hann þeim, en þyki honum þær gildar og skynsamlegar, þá treysti eg því, að hann líti á þær líknsamlega, og þekkist þær. Eg er kominn hèr á þíngið með þeirri hollustu við konúng, sem honum ber, en ætla að leggja það eitt til, sem eg álít rèttast og skynsamlegast, hvað sem hver segir, og fulltreysti eg því, að drottinn muni styrkja rètt mál og góðan vilja.

*P. Pètursson*: Eg skal ekki lengja umræðurnar til muna að þessu sinni; einúngis vil eg leyfa mèr að geta þess, að eg get ekki neitað því, að þegar eg ber þetta frumvarp saman við þær vonir, sem hafa hreift sèr hèr í landi seinustu árin, þá finn eg nokkra ósamstemmu milli þess og þeirra. En þessi ósamstemma er mèr ljós vottur um það, að þessar vonir fái ekki að sinni rutt sèr til rúms og fengið framgáng. Eg ætla mèr ekki að fara að tala um það, hvaða rèttindi Íslendíngar hafi til þess, að búa sèr til stjórnarskipun eptir geðþótta sínum; því eg álít mig ekki færan um, að leysa úr þeirri spurníngu; en það veit eg, að sèrhver hygginn maður otar því að eins fram rèttindum sínum, að hann sè sannfærður um, að hann hafi þau, og að hann sjái veg til þess, að þau verði málefni hans að liði. Eg fyrir mitt leyti er ekki sannfærður um, að

það sè mögulegt eða landinu þènanlegt, að ota fram blákölldum rèttindum. Eg held menn ættu fremur að gefa því gætur, hvað hægt sè að fá fram, og hvort að það sè þá til hins betra eða verra. Þegar eg skoða nú frumvarpið nákvæmar, þá sè eg, að það hefur marga kosti til að bera. Hinn heiðraði 1. fulltrúi frá Ísafjarðarsýslu gat þess, að í frumvarpinu væri sú framför, að landið væri nú ekki skoðað eins og nýlenda, og er eg honum að nokkru leyti samdóma í því, jafnvel þó eg geti ekki sèð, að Danir hafi farið með Ísland eins og nýlendu að undanförnu, þar sem vèr höfum haft sömu stjórnarskipun og þeir, t. a. m. stiptamtmann og sýslumenn, o. s. frv. En eg held annars, að nafnið gjöri ekki svo mikið til. En eg tala ekki heldur um frumvarpið eins og það liggur nú fyrir oss, heldur eins og það mætti verða, þegar búið er að laga það af þínginu samkvæmt því aðalsjónarmiði, sem það er byggt á, og þá get eg ekki betur skilið, en að það leiði til mikilla framfara, þó að þíngmenn byggi öldúngis á sama grundvelli, og stjórnin hefur gjört. Hinn heiðraði 6. konúngkjörni þíngmaður tók það fyr fram, að hann vildi ekki taka þá ábyrgð á sig, að kasta landinu út í tóma óvissu. Þetta hafa sumir skilið svo, eins og að hann áliti það betra, að Ísland lèti aðra stjórna sèr, en það mun vera misskilníngur; því hann mun hafa sagt það með tilliti til fjárhagsins, og er það öldúngis samkvæmt minni skoðun. Eg set nú, að vonir landsmanna rættust; þeir fengju sjálfir að gjöra út um málefni sín; allur fjárhagur yrði að skilinn, og þeir fengju allt, sem þeir vilja. Eg set nú, að öllu þessu verði framgengt, sem eg hef þó í raun og veru enga von um að geti átt sèr stað, sízt að sinni, en þá sè eg ekki betur, en að Íslendíngar yrðu, ef farið væri í strángasta rètt við þá, hversu ósanngjarnt sem það að öðru leyti væri, að taka þátt í, að borga leigur af öllum ríkisskuldum Dana, að minnsta kosti síðan konúngur lagði niður einveldið; og mundu það verða hèr um bil 100,000 dalir á ári, þó ekki kæmi til þeirra, að borga meira, en helmínginn móts við Dani, þegar því væri jafnað niður eptir fólkstölunni hèr og hjá þeim, og þar að auki bæri þó Íslandi að leggja að sínum hluta á konúngsborð. Mèr er nú óskiljanlegt, ef slík krafa væri gjörð af hendi Dana, hvernig Íslendíngar þá gætu fullnægt henni.

Það, sem mönnum virðist vera einna óttalegast í frumvarp-

inu, er að minni ætlun ákvörðunin um óbeinlínis skatta, en eg held, að það sè hægt, að laga frumvarpið hvað þetta snertir í anda stjórnarinnar; og ef enginn annar þíngmaður verður til þess, þá skal eg reyna til, að koma seinna með uppástúngu viðvíkjandi því, og bera fram breytíngaratkvæði um það.

Því var áðan hreift, að frumvarpið mundi vera frá vissum stjórnarflokki í Danmörku. En það er aðgætandi, að þannig birtist sèrhvert frumvarp, og ber það með sèr, hvaða stjórnarflokkur þá er mestu ráðandi, þegar frumvarpið kemur út. En þetta held eg sè ljósasti votturinn um það, að aðalsjónarmiði frumvarpsins muni ekki verða breytt, á meðan hinn sami stjórnarflokkur situr að völdum í Danmörku. Eg finn mig ekki færari til þess, að ætlast á um það, hvort þessum stjórnarflokki verður svo bráðlega hrundið úr sæti eða ekki; um það mega þeir dæma, sem kunnugri eru en eg, og þekkja betur gáng og anda sögunnar núna. En það er þó auðvitað, að vèr eigum ekki að fara eptir þessu, heldur einúngis hafa tillit til þeirra kríngumstæða, sem nú eru, og hvað hagkvæmast sè eptir þeim. Eins og nú stendur á, álít eg það hollast fyrir oss, að gánga inn á aðalsjónarmið frumvarpsins, og laga það eptir því, sem oss virðist vera haganlegast fyrir landið. Einúngis vil eg leyfa mèr að bæta því við, af því einn af þíngmönnum gat þess um skiptin á útgjöldum í ríkissjóð og landssjóð, að þau væru gjörð af handahófi, að eg held, að þetta sè talað af handahófi; því að eptir frumvarpinu renna allar beinlínis tekjur í landssjóðinn, nema nafnbótaskatturinn. En þessi skipti álít eg ágæta byrjun í stjórnarlífi voru; því með því, að fá landssjóð út af fyrir oss, byrjum vèr nýtt líf, og getum smásaman þokazt lengra á fram. Þó að nú með tímanum einhver breytíng yrði á í Danmörku, þá höldum vèr óskertum rètti vorum til þess, að fara því fram, sem vèr þá álítum landinu haganlegast, og á meðan höfum vèr þá sjálfir undir búið stjórnarlíf vort, með því að venjast við, að hafa afskipti af málefnum vorum og fjárhag. Aptur á hinn bóginn, ef vèr beinlínis setjum oss á móti sjónarmiði frumvarpsins, þá mundi afleiðíngin verða sú, að vèr fèllum alveg undir stjórnarherrana og ríkisdaginn í Danmörku. Þetta finnst mèr nú harla íhugunarvert, og vil eg því innilega biðja alla þíngmenn, að gefa því gaum. Eg vona og, að nefndin, sem sett verður í málinu, gjöri sèr allt far um, að skoða það frá öllum hliðum, og miðla

málum, svo að ágreiníngurinn hverfi, og meiníngarnar sem bezt samrýmist.

*G. Vigfússon*: Eg held, að hinn 5. konúngkjörni þíngmaður hafi gleymt því, að hann er Íslendíngur (Kandíd. *J. Sigurðsson*: heyrið!); því enginn sannur Íslendíngur mundi mæla þannig, eins og hann gjörði nú, þegar um vor helgustu rèttindi er að skipta.

*Forseti*: Eg vildi óska, að þíngmenn ekki töluðu þannig hver til annars; þeir geta sagt meiníngu sína, þó það ei sè með neinni beiskju.

*G. Vigfússon*: Já, það er að vísu satt, en eg get ekki ætlað, að hinn konúngkjörni þíngmaður sè þeim mun glöggvar að kominn, en aðrir hèr á þíngi, að hann geti ráðið mönnum til, að gánga inn á frumvarpið (*P. Pètursson*: Eg hef heldur ekki gjört það). Jú; í þá átt fórust þíngmanninum orð; sjálfsagt hefur hann meint með nokkrum breytíngum.

Konúngsbrèfið frá 23. d. septemberm. 1848 hefur Íslendíngum ætíð þótt þýðíngarmikið, og eg játa það hátt og heilagt, að það hefur jafnan haft mikil áhrif á mig. Brèf þetta býður oss, að leggja til góð ráð, og neyta allra góðra krapta í sameiníngu. Konúngur kveður þannig að orði í áminnstu brèfi, að „það skuli ætíð vera sitt stöðugt mark og mið og hugföst viðleitni, að því leyti í hans valdi stendur, að efla heill og hagsæld Íslands", og skorar hann á oss Íslendínga, að styrkja sig til, að koma á þeirri stjórnarskipun, sem hèr eigi bezt við með þessum orðum: „Vèr treystum því öruggir, að allir hinir góðu kraptar landsmanna verði samtaka með oss og stjórn vorri til þess, að slíku áformi verði framgengt, enda er því að eins vonandi, að áform vort takist, að þjóðin trúlega veiti oss fylgi sitt". Eg leyfi mèr því að spyrja, hvar, hvernig, eða hve nær tækifærið sè til, að fullnægja þessari skipun og ósk konúngsins, ef ekki einmitt nú hèr á þíngi. Þíngmenn hafa þegar lýst því yfir, að frumvarpið væri ekki svo hagkvæmt, sem það þyrfti að vera, og færi á mis við þann föðurlega tilgáng konúngsins, að vèr fengjum hentuga stjórnarbót, og eg skil því ekki, að frumvarpið geti á nokkurn hátt bundið þíngmenn svo við borð, að þeir megi ekki fara út fyrir takmörk þess, eins og sumir hafa hreift. Hinn heiðraði 1. þíngmaður Ísfirðínga og fleiri hinna hyggnustu þíngmanna hafa leitt rök að því, að ástæður þær, sem frumvarpið er byggt á, væru á svo veikum og völtum

grundvelli byggðar, að það hlyti að falla af sjálfu sèr; og þarf því ekki að vera margorður um það. Hinni fyrri ástæðu frumvarpsins, sem á að binda oss Íslendínga við grundvallarlög Dana, sökum hverrar að vèr nú ættum ekki að eiga nokkurn rètt til, að fara út fyrir takmörk frumvarpsins, og sem er byggð á því, að 5 Íslendíngar hefðu setið á ríkisfundi Dana, og þar með samþykkt hin dönsku grundvallarlög fyrir vora hönd, álít eg að sè nægilega hrundið hèr á þíngi í dag, og hvað hinu atriði ástæðanna viðvíkur, nefnilega, að vèr sèum partur úr Danmörku, þá er það einnig hrakið, og að konúngalaganna 19. gr. nái ekki til þessa lands. Hinn 6. konúngkjörni þíngmaður hefur og skýrt þínginu frá, að þau hafi ekki verið hèr auglýst, og sèu því hèr ekki gildandi í þeim skilníngi, sem frumvarpið leggur í þau. Hvað sem um allt annað er, þá er það auðráðið af öllu eðli landsins og sögu þess, að engin bönd eiga að tálma oss, að njóta út af fyrir oss sèrstaklegra rèttinda vorra; loptslag, landslag, túngumál, atvinnuvegir, og yfir höfuð allt vort frábrugðna ásigkomulag og fjarlæga staða krefur þess, og því megum vèr ekki gleyma, að auglýsa konúngi vorum, samkvæmt hans föðurlegum vilja, allt hvað vèr álítum að miði til þess, að efla heill vora og hagsæld þessa einkennilega lands. Að öðru leyti er eg í alla staði meðmæltur nefnd í máli þessu, og vona eg, að hver sannur Íslendíngur leggi allt það fram, er hann má, til að efla hag fósturjarðar sinnar, samkvæmt konúngsbrèfinu frá 23. d. septemberm. 1848.

*B. Halldórsson*: Eg vildi að eins geta þess með tilliti til ræðu hins 5. konúngkjörna þíngmanns, er áðan talaði, að mèr gat ekki skilizt ályktun hans, þar sem hann þóttist geta ráðið af frumvarpi því, er hèr væri lagt fram fyrir þíngið af stjórninni, að vonir þær, er menn að undanförnu hefðu haft um hagi vora, ekki gætu rætzt að svo komnu. Allir vita það til dæmis, hvað hèr hefur viljað til áður á þíngi, að 1849 kom frumvarp frá stjórninni til kosníngarlaga, sem byggt var á gagnstæðri grundvallarreglu við það, sem þíngið hafði stúngið upp á í frumvarpi því, er það sjálft hafði samið, þar sem frumvarp stjórnarinnar fór fram á tvöfaldar kosníngar, en þíngsfrumvarpið einfaldar, og þó fèllst stjórnin á skoðunarmáta þíngsins, er hún skömmu á eptir lèt koma út kosníngarlögin til þessa þíngs samkvæm því, sem alþíngi hafði beðið um. Þar sem sami þíngmaður bað menn gæta sín við, að ota fram rèttindum

sínum blákalt, þá get eg ekki skilið, að nein ástæða sè til, að óttast það; því eg ætla, að hver maður, sem er sannfærður um rètt sinn, eða að hann hafi einhver rèttindi, þá muni honum þykja vænna um þau en svo, að hann vilji berja þau fram blákalt; miklu heldur mun hann gjöra það með alvöru og hita. Mèr finnst ekki vèr megum sleppa rèttindum vorum vegna þess, að vèr ekki munum fá þau, heldur fylgja þeim fram með skynsemi og gætni, í þeirri von, að vèr munum ná þeim, eins og margir þíngmanna svo vel og skilmerkilega hafa tekið fram. Þegar vèr berum oss saman við Dani, frá þeim tíma, að vèr fyrst komum undir einvaldsstjórnina með þeim, þá sè eg það, að vèr höfum staðið jafnhliða þeim í stjórnarlegu tilliti, og því sýnist mèr auðsætt, að vèr eigum að halda áfram að standa jafnhliða þeim nú, þegar konúngur hefur sleppt einveldinu, og breytíng er orðin á stjórnarskipuninni. Og eg held einmitt, að konúngur með brèfi sínu frá 23. d. septemberm. 1848 hafi ætlazt til þess, að vèr skyldum fyrir vort leyti fá kost á, að leggja til vorra mála, eins og Danir fengu á ríkisþíngi þeirra, þar sem grundvallarlög Danmerkur voru samin, og að hann hafi í því skyni kallað oss híngað á þíng, að vèr skyldum frjálslega segja álit vort um hagi vora.

*G. Einarsson*: Eg ætlaði mèr ei að taka til máls í umræðu þessari, en eg finn mig knúinn til þess af því, að þeir tveir þíngmenn, sem síðast töluðu, fóru nokkrum orðum um ræðu hins 5. konúngkjörna þíngmanns, án þess þó um leið að gefa sennilegan gaum að hinum síðustu orðum í ræðu hans, er voru á þá leið, „að menn ættu að gjöra sèr far um, að skoða málið frá öllum hliðum, svo að meiníngar manna gætu sem bezt samrýmzt“. Þessu er eg í alla staði samdóma, og eg vona, að þíngheimurinn álíti það næsta nauðsynlegt, þegar um annað eins mál er að gjöra, eins og þetta er. Menn eiga að segja álit sitt um málið með samvizkusemi og eptir beztu sannfæríngu, og eg þykist vita, að allir gjöra það; en þó að nú álit einstakra manna kunni að stefna í allt aðra átt, en allur þorrinn vildi óskað hafa, þá á maður ekki beinlínis að gefa þeim sök á því; því þeir vinna þó að *sínu leyti* að því, að málið skýrist sem bezt, og að skoðun manna á málinu verði sem föstust; og að málið sè skoðað sem grandgæfilegast, það ætlast konúngur sjálfsagt til af oss. Eg tel það líka sjálfsagða skyldu vora, sem vèr sèum konúngi um skyldugir á aðra hlið og þjóð

vorri á hina, að segja álit vort um málið, eptir beztu sannfæríngu, með stillíngu og einurð; og vèr hlytum að baka oss fyrirlitníngu fyrir augliti konúngs og þjóðarinnar, ef vèr breyttum á annan veg. Eg fyrir mitt leyti get ekki álitið annað, en það gángi næst drottinsvikum, ef vèr látum leiðast til ályktana og atkvæða gegn sannfæríngu vorri og þjóðrèttindum. En þetta hvorttveggja hlýtur að grundvallast á óhrekjanlegum ástæðum, og því tek eg það enn fram, að menn hljóta að gefa öllum þeim stefnum hæfilegan gaum, er fyrir koma í umræðum málsins, eða kunna að geta komið fyrir, og málið að ræðast sem ýtarlegast; þess vegna vil eg mæla fram með nefnd í málinu, og að hún verði sem fjölmennust.

*S. Nielsson*: Eg hef opt heyrt í ræðum þíngmanna í dag minnzt á „eins og nú er ástatt". Þetta virðist mèr nú, og eg ímynda mèr líka fleirum virðist eins, vera nokkuð óljóst; því ekki má vita, í hvaða átt orðin eiga að stefna. Mèr finnst, að þar sem hèr er um að ræða, að konúngur og þjóð semji með sèr, þá sè það þetta tvennt, konúngurinn og þjóðin, sem orðin stefni að. Vèr getum nú ekki spáð oss neinu til um það, hvernig Danakonúngur verði, öðru en því, sem vanalega við gengst, að mennirnir eru jafnan hver öðrum í einhverju ólíkir; en hvernig vèr verðum, eða rèttara sagt, hvernig vèr hugsum oss að verða, það eigum vèr nú þegar að vita. Vèr erum ekki komnir híngað, til að búa til nein bráðabyrgðalög um stöðu föðurlands vors í Danaveldis fyrirkomulagi, heldur þau lög, sem lengi eiga að standa, og verða þjóð vorri, ekki einúngis nú, heldur um ókomnar aldir, til heilla og framfara. Vèr eigum því að vísu að gæta vel að því, á hvaða framfarastigi þjóðin nú er, en megum þó ekki binda huga vorn einúngis við það, heldur verðum vèr að líta jafnframt skynsamlega á hitt, hvers vèr á komandi tímunum megum vænta af því framfarareki, sem þjóðin nú er á. Eg hef það í huga, að eg og allir embættisbræður mínir hèr sèum komnir híngað, til að semja við konúng fyrir hönd þjóðfèlaga vorra, landa vorra, og að vèr sèum allir einráðnir í því, að gjöra það sem bezt að unnt er, svo að samband það, sem verður á milli konúngs og vor, verði sem vingjarnlegast, hjartanlegast og rèttvísast. Þetta hygg eg líka að konúngur hafi ætlað oss, og til þessa álít eg oss kvadda híngað. En það eru tvö aðalatriði í viðskiptum manna, sem allir þeir, er fèlagsskap vilja stofna, verða að láta sèr hugföst; það er rèttlæti

og kærleiki, og oss ríður nú einkum á, að vèr gætum vel þessara atriða, gleymum ekki boðorðum rèttlætisins og kærleikans. Og eins og ekkert fèlag, hvort það grípur yfir meira eða minna, getur staðizt, nema lögmáli rèttlætisins og kærleikans sè hlýðnazt á báðar síður, hversu ójafnir sem þeir kynnu að vera, sem hlut eiga að máli, eins verður stjórnarskipun sú, sem vèr eigum að vinna að hèr, að vera á báðar síður grundvölluð á þessum sömu meginöflum og máttarstólpum alls fèlagsskapar.

*G. Brandsson*: Eins og eg þykist fullviss um, að sá sè enginn hèr á þíngi, sem ekki vilji leggja það bezta til í málefni því, er hèr ræðir um, svo ímynda eg mèr, að enginn þíngmanna geti álitið það skyldu sína, að binda sig við frumvarp þetta að öðru leyti en því, sem hans eigin sannfæring segir honum. Eg treysti því líka, að konúngur vor, Friðrik hinn 7., hafi aldrei ætlazt til, að vèr skyldum eingaungu þrælbinda oss við það, og því vil eg reyna til, að sameina sannfæríngu mína og frumvarp stjórnarinnar, að því leyti eg get með góðri samvizku, en fremur ekki.

*G. Magnússon*: Einn af þíngmönnum hefur talað margt um „sjónarmið" frumvarpsins, en eg held, að hverjum manni sè heimilt, að hugsa sèr eitthvert annað sjónarmið, bera því næst saman bæði sjónarmiðin, og sjá síðan, hvort sjónarmiðið muni vera eðlilegra. Eg hef lesið frumvarpið, og spurt sjálfan mig, hvað væri sjónarmið þess; og eg hef svarað sjálfum mèr, að stefna þess mundi vera, að tengja oss við Eydani og Jóta, eða öllu fremur, að hnýta oss aptan í þá. En nú vil eg hugsa mèr annað sjónarmið, og það á þá leið, að þegar Eydanir og Jótar gánga fram fyrir konúnginn, þá megum vèr og gánga fram fyrir hann, ekki innan um eða aptan í Eydönum og Jótum, heldur til hliðar við þá, og þetta sjónarmið finnst mèr vera rèttast og eðlilegast.

*Forseti*: Þar eð enginn hefst máls framar um frumvarpið, verð eg að álíta fyrstu umræðu lokið, og vil því spyrja þíngið að, hvort málið skuli lengra gánga.

Það var samþykkt í einu hljóði.

*Forseti*: Eg leyfi mèr þá, að stínga upp á 9 manna nefnd, og að 6 verði valdir úr hlutfallsnefndunum, 2 úr hverri, og 3 úr þínginu.

*H. Stephensen*: Eg verð að vera því mótmæltur, að 2 sèu

valdir úr hverri deild hlutfallsnefndanna; því í sumum þeirra er ekki, ef til vill, völ á svo mörgum, sem menn vildu kjósa.

Kandíd. *J. Sigurðsson* og fleiri voru þíngmanninum samþykkir; og kvaðst þá forseti álíta svo, sem þetta væri meiníng þíngsins.

Í 1. hlutfallsdeildinni var valinn *J. Skaptason* með 8 atkvæðum; í 2. hlutfallsdeildinni *St. Jónsson*; í 3. deildinni *H. Stephensen* með 10 atkvæðum.

Í þínginu voru síðan þessir valdir, og voru 40 atkvæði gild: Kandíd. *J. Sigurðsson* með 39 atkvæðum, *Halld. Jónsson* með 34 atkvæðum, *E. Briem* með 33 atkvæðum, *K. Kristjánsson* með 32 atkvæðum, *Jón Guðmundsson* með 30 atkvæðum, og *Þ. Sveinbjörnsson* með 22 atkvæðum.

*Forseti* sagðist ekki geta ákveðið fund næsta dag, vegna þess hann ekki vissi, hvað nefndunum liði. Síðan var fundi slitið.

---

## 10. fundur, 24. d. júlím.

Allir á fundi. Gjörðabók frá síðasta fundi lesin upp og samþykkt.

*Forseti*: Áður en tekið er til dagskráarinnar, skal eg leyfa mèr að skýra þíngmönnum frá því, að eg hef fengið brèf frá hinum hæstvirta konúngsfulltrúa, dagsett 22. d. þ. m., og er það svo hljóðandi:

„Hèr með undan felli eg ekki, að tilkynna yður, háttvirti forseti, að eg vonast til fundinum geti verið lokið þann 9. í næsta mánuði, og bið eg yður á þann hátt, sem yður þykir bezt við eiga, að láta fundarmenn vita þetta.

Ísl. stiptamtshúsi 22. d. júlí 1851.

*J. D. Trampe.*

Hávelborunm

herra amtmanni *P. Melsteð*, riddara af dbr., forseta á fundi Íslendínga í Reykjavík".

Birti eg þetta hèr með öllum fundarmönnum, og sèr í lagi nefndum þeim, sem um málefnin eiga að fjalla, og bið þær jafnframt, að hraða sem mest aðgjörðum sínum við málefnin, samkvæmt auglýsíngu þessari.

Sömuleiðis leyfi eg mèr að geta þess, að eg hef fengið skjal eitt frá hinum 2. þíngmanni úr Barðastrandarsýslu, þess

efnis, að póstgaungunum á Íslandi yrði haganlegar fyrir komið, einkum á vesturlandi.

Þá hafa og þíngmennirnir úr Eyjafjarðarsýslu afhent mèr álit Eyfirðínga, sèr í lagi úr Saurbæjarhrepp, áhrærandi stjórnarskipun Íslands, og skal hvorttveggja þetta verða lagt fram á lestrarsalinn.

Enn fremur vil eg leyfa mèr að geta þess, að frá hinum 1. þíngmanni Ísfirðínga hef eg og fengið skjal eitt svo hljóðandi:

„Samkvæmt þíngskapanna 55. gr. vildi eg biðja þíngið leyfis, að mega spyrja hinn háttvirta konúngsfulltrúa, hverja afgreiðslu mál þau hafi fengið hjá stjórninni, sem fram voru borin frá alþíngi 1849.

Reykjavík 24. d. júlím. 1851.

*Jón Sigurðsson.*

S. T.

herra amtmanni *P. Melsteð*, forseta þjóðfundarins".

Eg skal því samkvæmt áminnstri grein í þíngsköpunum leyfa mèr að skjóta því til atkvæða þíngsins, hvort þessi fyrirspurn megi fá framgáng eða ekki.

Þíngmenn gengu síðan til atkvæða um þetta, og var það samþykkt með 40 atkvæðum, að fyrirspurnin skyldi fá framgáng.

*Forseti*: Eptir því, sem fyrir er skipað í 55. gr. þíngskapanna, verður þá fyrirspurn þessi prentuð, og skal eg síðar ákveða daginn, þegar hún verður tekinn fyrir.

Þessu næst kemur þá samkvæmt dagskránni til 1. umræðu hið konúnglega frumvarp til laga um kosníngar til alþíngis, og skal eg enn leyfa mèr að ítreka það, sem eg hef áður sagt, að við þessa umræðu ber mönnum, samkvæmt þíngsköpunum, að halda sèr við aðalinnihald og grundvallarástæður frumvarpsins einúngis, en ekki fara út í einstakar ákvarðanir þess eða sèrstakleg atriði.

*J. Skaptason*: Síðan alþíngi endurlifnaði aptur í þeirri mynd, sem það hefur haft hin undanförnu ár, þá hafa komið fram tvenns konar kosníngarlög; hin fyrri voru bundin við fjárstofn eða fasteign og ábúðarrètt, en hin síðari voru frjáls og óbundin. Sèrhver Íslendíngur fordæmdi þau hin fyrri, og það með gildum rökum, undir eins og hann heyrði þeirra getið, og þó kosníngar heppnuðust vel með þeim, gefur það oss Íslendíngum fremur von um, að kosníngar til alþíngis muni tak-

ast allvel, mèr lá við að segja, hvernig sem svo kosníngarlögin eru, en að það sè sönnun fyrir hæfilegleika þessara laga. Hin síðari hafa aptur verið borin saman við aðra kosníngaraðferð, sem enn þá er óreynd hèr á landi, nefnilega hinar tvöföldu kosníngar, og hafa verið um það tvennar meiníngar hjá mönnum, og eru enn þann dag í dag er, hvort einfaldar eða tvöfaldar kosníngar mundu betur gefast. Að vísu unnu þær einföldu sigur á seinasta alþíngi. Þær hafa síðan verið reyndar, fyrst við prófkosníngar í hreppunum, og sýndust þá eiga vel við; en aptur sýndust þær eiga miður við kjördæmaþíngin; því þau voru víða mjög laklega sótt, og það er líka eðlilegt; því hver Íslendíngur þekkir þær tálmanir, sem hèr mæta eða geta mætt við laung ferðalög, t. a. m. vatnsföll, heiðar, ófærð, stormar og hreggviðri, og þar að auki yfirgefa allir hinir betri bændur nauðugir heimili sín, til þess að vera burtu eina nótt, hvað þá lengur, og þó vita allir, sem nokkuð þekkja til hèr á landi, að á ýmsum stöðum í mörgum, ef ekki flestum, kjördæmum getur gengið til framt að viku fyrir bóndann, að nota sèr þennan rètt sinn. En auk þeirra örðugleika, sem á því eru, að sækja á einn aðalfund í kjördæminu, þá er og fleira athugavert við það. Það eru t. a. m. óvíða til þau þínghús, sem nægt geti 3 eða 4 hundruðum manna, og eins er það torvelt fyrir svo marga menn, að geta haft húsaskjól, hvernig sem viðrar. Þá er og það einn annmarkinn á þessum aðalfundum, að bændur eðlilega eru ófúsir á, að ljá tún sitt, engjar og beitiland handa svo mörgum hestum. Á hinn bóginn er það nú sjálfsagt, að það er mjög svo nauðsynlegt, að tryggja alþíngi svo, að það geti fengið sem mesta skynsemi inn í sig, en ábyrgð fyrir þessu máske bæði með kosníngaraðferðinni og fyrirkomulagi á þínginu sjálfu. Þess vegna ætla eg nú að stínga upp á nýrri kosníngaraðferð, og er hún sú, að hreppakosníngunum sè haldið, en svo, að hver sem þar er kosinn, fái beinlínis atkvæði til alþíngis. Hafi menn í kjördæminu augastað á utankjördæmismanni, skulu þeir í tíma fullvissa sig um vilja hans, og sama er að segja um það, ef utankjördæmismaður vill bjóða sig fram. Strax, sem kosníngu er lokið í hverjum hrepp, skal kjörstjórnin þar gefa yfirkjörstjórninni til vitundar, hverjir þar hafi fengið atkvæði fyrir þíngsetu, og eins skal hún tilkynna það þeim, sem fengið hafa atkvæði. Þeir, sem þá hafa fengið atkvæði, komi saman í nærveru yfirkjörstjórnarinnar, og kjósi

úr sínum hóp þíngmanninn. Með þessari aðferð ímynda eg mèr, að þeir fengju einmitt flest atkvæði til þess, að verða þíngmenn, sem færastir væru til þess, en hinir ekki, vegna þess að eg gjöri ráð fyrir, að fyrir kosníngum verði að eins hinir hyggnustu menn í kjördæminu, og hyggni þessara manna er oss aptur borgun fyrir því, að næg skynsemi verði í þínginu. Ef að nú þessi kosníngaraðferð fær ekki áheyrn hjá þínginu, þá hefur mèr dottið í hug sú aðferð, að láta hreppakosníngarnar halda sèr, til þess að gjöra aðalkosníngunni sem hægast fyrir, og útiloka menn ekki frá kosníngum vegna örðugleika, og að kjósa þíngmenn með lokuðum seðlum, sem sendir væru kjörstjórninni. Að þriðja kosti stíng eg upp á því, að kjördæmum þeim, sem nú eru, sè skipt í 3 eða 4 kjördæmi hverju, og að menn svo kjósi annaðhvort með lokuðum seðlum eða opinberlega. En fallist nú ekki þíngið á neina af þessum kosníngaraðferðum, þá mun eg helzt hverfa til tvöfaldra kosnínga; því sú kosníngaraðferð, sem seinast var við höfð, mun ekki verða affarasæl.

*S. Nielson*: Að því leyti, sem þíngmaður Húnvetnínga, er nú settist niður, talaði um hreppakosníngar, þá get eg ekki annað en verið á hans máli, eptir þeirri reynslu og þekkíngu, sem eg ber til þeirra, og eg vil bæta því við, að hafi kosníngar til þessa þíngs þótt takast vel, eða betur en menn bjuggust við, þá ætla eg, að það muni vera hreppakosníngunum að þakka, enda get eg vitnað um það, að allir þeir, sem eg til þekkti, lögðu mikla alúð á hreppakosníngarnar; því flestir munu hafa fundið til þess, sem vaka ætti fyrir öllum þeim, sem hug leggja á þetta mál, nefnilega, hvílík þörf er á því, að fara sem varlegast, og hafa einhver skynsamleg og eðlileg bönd á kosníngunum. En ekkert band á þeim er skynsamlegra og eðlilegra, en að kjósendur komi saman til þess, að ráðfæra sig hver við annan, og einkum við þá hyggnustu og gætnustu, og koma sèr niður á því, sem bezt megi fara; svo að menn fari því ekki fram, sem augnabliksáhrif kunna að ráða mönnum til. Að öðru leyti get eg ekki mælt fram með nokkrum öðrum kosníngum en þeim, sem hver kjósandi tekur persónulegan þátt í. Eg held að sönnu, að tvöfaldar kosníngar sèu áreiðanlegastar, ef að þær hefðu engar slæmar afleiðíngar, t. a. m. deyfð fyrir þjóðstiptun þessari, hvar um eg vil nú ekkert segja; því eg ætla, að það mál sè ekki enn fullskoðað. Af því

og ímynda mèr nú, að góð tilhögun á hreppakosníngunum geti orðið affaragóð, en hefði ekki neinar slæmar afleiðíngar í för með sèr, þá held eg, að menn ættu ekki að kasta þeirri hugmynd frá sèr, fyr en menn hefðu vandlega yfirvegað hana, og síðan fundið, að hún væri ónotandi.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg held nú, að þessi seinustu kosníngarlög, frá 28. d. septemberm. 1849, hafi verið allvinsæl á meðal alþýðu, og að einúngis fá atriði í þeim hefðu þurft lagfæríngar við, og mun þetta vera sjaldgæft um ný lög, að þau sèu strax vinsæl, enda voru þau og til búin eptir uppástúngum landsmanna sjálfra og frjálsum umræðum alþíngis, og eg held, að fjöldanum af landsmönnum hafi þótt þessi kosníngarlög notast nokkurn veginn vel. Hvað hinar tvöföldu kosníngar snertir, þá gjöra þær það að verkum, að ekki nema lítill hluti þjóðarinnar getur notið kosníngarrèttar síns; því þó kjörmenn sèu kosnir, þá verða þeir ekki skyldaðir til, að fara á kosníngarþíngið, nema nýjum sektum eður ófrelsi sè smeygt þar inn, sem ei er óskandi, og svo kysi sá litli hluti af þeim, sem þá fer, eptir sínu höfði, en ei eptir vilja þeirra, sem heima sitja, og missir svo allur þorri þjóðarinnar atkvæðisrètt til kosníngarinnar; og er því hætt við, að þær tvöföldu kosníngar mundu verða óvinsælar; því bæði eru þær nú með öllu óreyndar, og alþýðu nú þegar mjög ógeðfeldar fyrir fram. Það, sem eg vissi einna helzt fundið að kosníngarlögunum frá 1849, var það, að kosníngarrètturinn skyldi vera bundinn við 30 ára aldur, en ekki 25 ára, sem væri þó miklu eðlilegra, þar sem sá aldur næður fullkomnum myndugleika manna, og er nægur, til að komast í embættisstöðu. Eg held, að margur hefði óskað, að þessi síðustu kosníngarlög hefðu verið lögð eins og frumvarp fyrir þetta þíng, og þeim svo orðið breytt, eins og þörf hefði þótt til, t. a. m. fulltrúatölunni, og kannske líka kjördæmaskiptíngunni. Þetta frumvarp, sem hèr er lagt fram, er allt öðruvísi, og þarf nú líklega töluverðan tíma og umræður, til að komast í jafngott horf aptur, sem nefnd kosníngarlög höfðu, eður þá betra. Þar sem konúngur á að kjósa 6 menn til alþíngis eptir frumvarpinu, þá kynni mönnum heldur að detta í hug, að láta þíngið kjósa þá, og það því heldur, sem það er ekki lagaregla í Danmörku, að konúngur kjósi. Það er og eitt athugavert við þetta frumvarp, að það byggir á ókomnum lögum, eða á öðrum lögum en þeim, sem þar standa, og það

þykir ætíð glundurslegt, þegar lögin bera ekki sína eigin kosti fullkomlega með sèr sjálf; því alþýða er ekki ætíð fróð í öðrum lögum. Eg þarf ekki að minnast á kjörstofninn, sem frumvarpið nefnir; því hann mun mæta nógum mótmælum samt, eins og hann líka þarf. Hèr er ekki til greint, hvernig kjörstjórnin eigi að vera saman sett, sem þarf þó að vera. En hvað kosníngum kjörstjóranna viðvíkur, þá held eg, að það sè sjálfsagt, að þeir ættu að kjósa fyrst, eins og áður var til tekið; því þeir eru þeir einu, sem á endanum vita, hvað mörg atkvæði hver hefur fengið, og gætu þá einmitt atkvæði þeirra ráðið því, hverjir yrðu þíngmenn, svo að þeir með því, að gefa atkvæði síðastir, gætu eins og ónýtt kosníngarnar, og haft þann fram, sem þeim sjálfum lèki helzt hugur á. Það kynni og að vera spurníng, hvort það væri nauðsynlegt, að skýra hlutaðeigandi stjórnarherra eða ráðgjafa frá kosníngunum, ef landið fengi sjálft að hafa mestu stjórn sína. Eitt er og það, að frumvarpið nefnir hvergi, hvaða laun alþíngismenn skuli hafa, og eigi ætlast það heldur til þess, að neinir varafulltrúar sèu kosnir, og getur það komið því ver við, sem kjósa á til margra ára, og það má búast við, að einhverjir gángi úr, en öllum er ljóst, hvaða örðugleikar og óhægð að er á því hèr, að þurfa opt að vera að halda kosníngarþíng.

*Á. Böðvarsson*: Eg verð að segja fyrir mig, að mèr finnst litlar umræður um þetta frumvarp geta farið fram, fyr en komið er nokkuð áleiðis hinu frumvarpinu um stjórnarmál vort, og held eg, að kosníngarlögin verði sem mest að sníðast hèr eptir. En hvað snertir kosníngarlög yfir höfuð til alþíngis eptirleiðis, eins og eg ímynda mèr að flestir vilji það verði, nefnilega, að það hafi löggjafarvald, og yfir höfuð meiri þýðíngu en híngað til, þá verður mèr fyrir mitt leyti að finnast tala þíngmanna í þessu frumvarpi of lítil, og get eg í því tilliti ekki fundið annað betra, en kosníngarlögin til þjóðfundarins frá 28. d. septemberm. 1849. Menn vilja nú kannske segja, að ekki komi svo mikið undir höfðatölunni, eins og höfðagæðunum, en eg ætla, að ekki muni af veita, þó tveir yrðu, eins og nú er, fyrir kjördæmi hvert; því betur sjá augu en auga, og eg verð að álíta það æskilegra, að alþíngi yrði heldur sjaldnar og fjölmennara, en optar og fámennara. Að breyta til um kjördæmi, eins og hèr er gjört, álít eg næsta hæpið, og að binda kjörgengi við fjárstofn óþolandi. Mèr finnst það eðlilegt, að bæði kosníng-

arrèttur og kjörgengi sè bundið við 25 ára aldur. Að kosníngar væru tryggðar með því, að fara nú þegar aptur að taka upp tvöfaldar kosníngar, þykir mèr mikið efunarmál, þar sem eg ætla hægt, að sýna og sanna, að þessi aðferð eigi hèr í engu betur við. Eg held það og góða reglu, að breyta ei út af því, sem er, meðan menn eru ei vissir um, að fá annað betra. Eg kalla og þær einföldu kosníngar lítt reyndar enn þá, og get ekki fundið, að þær hafi misheppnazt svo, að þær verðskuldi útskúfun nú þegar. Mèr hefur að eins dottið eitt ráð í hug, sem mèr finnst að nokkru leyti gæti tryggt kosníngarnar, og er það þetta, að á kjörþíngum væri við höfð lík kosníngaraðferð, og nú er höfð hèr á þíngi, nefnilega, að kosið væri um aptur, ef fulltrúinn hefði ei fengið meira en helmíng atkvæða. Þegar menn vissu þetta fyrir fram, held eg, að það mundi örva nokkuð samtök manna um, hvern bezt væri að kjósa, og að atkvæðin yrðu þannig ekki eins á stángli. Finnst mèr þessi aðferð, eins á kjörþíngum eins og hèr, hafa þau gæði við sig, að menn leitast við að komast sannleikanum sem næst.

*St. Jónsson*: Eg skal ekki vera margorður um kosníngaraðferðirnar; menn eru þegar búnir að tala svo mikið um þær. Einúngis vil eg geta þess, að mèr hafa jafnan verið tvöfaldar kosníngar ógeðfeldar, og eg held, að þær eigi hèr æfinlega illa við, enda hafa ekki heldur þeir, sem mæla fram með þeim, getað fært neinar gildar ástæður fyrir því, að þær eigi vel við. Þó að menn segðu nú, að kosníngar hefðu á einstaka stað mistekizt, þá getur það líka að borið með tvöföldum kosníngum, og þá er það ekki nóg ástæða til þess, að hafna hinum einföldu kosníngum, sem búið er að reyna, og víða hafa tekizt vel. Það hefur verið sagt, að hreppakosníngar og prófkosníngar eigi vel við; en það mun þó ekki vera óyggjandi. Eg veit til þess, að sumir af þeim, sem komu á prófkosníngarfundi, sem haldnir voru, þegar kosið var til þessa fundar, og gáfu þar atkvæði sitt, hèldu, að það mundi verða tekið til greina seinna, og komu því máske ekki til kjörþíngsins sjálfs. Eg vil og geta þess, með tilliti til þess, sem hèr hefur verið sagt í dag, að það er ekki víst, að þeir hafi setið átt lengst til kjörfundarins, sem ekki sóttu hann, jafnvel þó eg játi, að margir eigi lángt og örðugt til kjörþíngs, eins og nú er hagað, en þetta mætti laga, ef þeim erfiðari sýslum væri skipt í kjördæmi. Þess munu hafa gefizt mörg dæmi, að þeir

sátu heima, sem bjuggu nær þíngstaðnum, svo það gat ekki verið undantekníngarlaust vegna fjarlægðar og örðugleika, að þeir komu ekki, heldur með fram af hinu, að þeir munu ekki hafa gjört sèr far um, að koma á kjörþíngið. Það hefur og verið sagt, að hinar tvöföldu kosníngar gætu mögulega haft þær afleiðíngar, sem ekki væru hollar, og að menn þyrðu því ekki að mæla fast fram með þeim. Í þessu virðist mèr nú eins og liggja nokkurs konar viðurkenning, að þær eigi hèr ekki, ef til vill, alls kostar vel við. Eg held því, að það sè varlega gjörandi, að vilja koma þeim á; því þegar búið væri að reyna hinar tvöföldu kosníngar, þá mundu annmarkarnir verða eins miklir á þeim, og nú þykja vera á hinum einföldu kosníngum, ef ekki talsvert meiri, og færi þá ver á því, að þurfa aptur að fara að biðja um hinar einföldu kosníngar, þegar þeim hefði einu sinni verið hafnað. Mèr virðist því varlega farandi fram á það, að breyta þeim að sinni, meðan ekki er enn meiri raun á orðin, að þær sèu hèr miður brúkandi, en menn hafa enn þá orsök til að sýna.

*S. Gunnarsson*: Kosníngaraðferðin, sem þíngmaðurinn frá Húnavatnssýslu nefndi áðan, er ný; að minnsta kosti hef eg ekki heyrt hana fyr. Í fyrsta áliti virðist hún vera nokkuð frjálslegri en tvöfaldar kosníngar, en ófrjálslegri er hún þó, en hinar einföldu, og eg er hræddur um, að hún verði til óliðs. Álit manna getur verið harla misjafnt um það, hverjir sendandi sèu á þíng, og ef fjölmennir hreppar vilja fá það fram, að viss maður sè valinn, þá geta þeir með atkvæðafjölda ráðið kosníngunum; því kjósendum í hverjum hrepp eru engin takmörk sett um það, hvað marga þeir skuli velja. Þetta og annað því um líkt spillir þessari kosníngaraðferð, svo að eg held, að hún sè öllu lakari, en þær tvöföldu kosníngar, og jafnvel óhafandi. Þó að margir haldi þessum tvöföldu kosníngum fram, þá eru þær þó með öllu óreyndar hèr á landi; þar á móti hafa menn nú reynt þær einföldu, og eg er samdóma fulltrúa Skagfirðínga í því, að þeim sè varla hafnandi, ef þeim fylgja engin ókjör, sem binda kosníngarrèttinn. Hvað prófkosníngarnar, sem hèr hefur verið talað um, snertir, þá veit eg það um þær, að þær voru reyndar í Múlasýslu, og sóttu menn kappsamlega frjálsan fund til þeirra, en kosníngarfundurinn sjálfur varð lángt um fámennari, af því að kjósendur vissu þá allir, hverja þeir mundu velja, eða rèttara sagt, hverjir fást

mundu til þess, að fara á þíng. Eg hef fáa heyrt finna nokkuð talsvert að kosníngarlögunum frá 28. d. septemberm. 1849, nema að mismuninum á aldrinum, og þeirri ákvörðun, sem segir, að maður megi ekki vera í skuld við sveitarsjóð, og óskuðu þá margir, að þar hefði heldur staðið: „þiggur ekki af sveit". Menn fundu að sönnu fleira smávegis að kosníngarlögunum, en það var ekki svo mikilvægt, að það þurfi að aptra mönnum frá, að vilja heldur hafa þau framvegis með dálitlum breytíngum, en frumvarpið, sem nú er umtalsefni. Eg held, að ekkert af því, sem nú hefur verið stúngið upp á, sè einhlítt til þess, að tryggja kosníngarnar, eins vel og það, að láta þær vera sem allra frjálsastar; þó finnst mèr ráðlegt, að þíngið sjálft mætti kjósa nokkra menn til næsta þíngs, annaðhvort úr sínum eigin flokki, eða aðra fyrir utan sig, þá sem þíngmenn álitu bezta.

*Forseti*: Áður en umræðurnar fara lengra, skal eg taka mèr tilefni af þíngræðunum til þess, að biðja þíngmenn um, að halda sèr við frumvarpið, sem fyrir þá er lagt, en fara ekki að tala um kosníngarlögin frá 1849, sem ekki eru lögð fram hèr til umræðu. Eg vil og biðja þíngmenn, að gæta að því, að eptir frumvarpinu er engin ástæða til þess, að fara nú að hreifa við hinum tvöföldu kosníngum, því þar er ekki upp á þeim stúngið. Hitt mætti heldur vera, að menn, ef óbundnar kosníngar ekki fengjust, lètu þá í ljósi meiníngu sína um, hvort þeir heldur vildu frumvarpsins kjörstofn eða tvöfaldar kosníngar.

*G. Einarsson*: Þegar eg renni augunum yfir frumvarp þetta, og reyni til, að samþýða það við eðli og tölu þjóðarinnar, landslag Íslands og efnahag, eptir því sem mèr finnst hæfilegast vera og hentugast, þá er eg samþykkur 1. gr. þess að því leyti, að tala þíngmanna eigi ekki yfir höfuð að fara fram yfir þau takmörk, sem þar eru sett. Hvað kjördæmaskiptínguna snertir, þá ætla eg, að það liggi efst á í huga þjóðarinnar, að þeim kjördæmum sè haldið, sem nú eru; þess vegna fer eg ekki fram á annað, enda þótt mèr fyrir mitt leyti þætti í alla staði æskilegra, að kjördæmunum í hverjum fjórðúngi landsins væri jafnað niður eptir tölu þíngmanna þeirra, sem þar ættu að kjósast, þannig, að einn þíngmaður væri kosinn í hverju kjördæmi, en amtmönnum vildi eg fela það á hendur, að ákveða víðáttu og takmörk kjördæmanna, eptir því

sem tilhlýðilegast væri með tilliti til vegalengdar á kjörþíngið og fólksfjölda í kjördæminu. Viðvíkjandi áliti því, er menn hafa látið í ljósi um kosníngarrètt til alþíngis, þá er eg á þeirra máli, sem vilja, að hann sè sem frjálsastur og óbundnastur, og held eg, að það færi bezt á því, að laga hann sem mest eptir anda kosníngarlaganna frá 1849. Þó held eg, að hann ætti ekki að takmarkast við 30 ára aldurinn, heldur við 25 ára aldur. Kjörgengi held eg ætti að vera byggð á sama grundvelli og kosníngarrèttur, en ekki vera bundin við efnahag; því það er öldúngis ósamkvæmt eðli þjóðar vorrar og ásigkomulagi, og eg get talið fjölda hinna greindustu manna á meðal vor, sem hafa lítil efni; og skyldi nú kjörstofn sá, er frumvarpið stíngur upp á, haldast, þori eg að fullyrða, að það yrði meiri hluti hinna greindustu og beztu landsmanna vorra, sem með því yrði sjálfbægt frá þíngsetu. Hvað kosníngarmátann snertir, þá virðist mèr, að hann eigi að vera svo frjáls, sem hann á skynsamlegan hátt getur verið; og álít eg því einfaldar kosníngar hentugastar fyrir oss; þær hafa líka verið mönnum geðfeldar, heppnazt, þegar á allt er litið, sæmilega vel, og eg fyrir mitt leyti sè enga þá annmarka við þær, sem ekki geta komið fram við tvöfaldar kosníngar, og enda orðið þar, ef til vill, miklu ískyggilegri. Aðalgallinn við hinar einföldu kosníngar er erfiðleiki sá, sem kjósendur hafa, að sækja kjörþíng sitt, en mèr sýnist annað tiltækilegra en það, að reyna til að bæta úr honum með því, að þrengja að kosníngarfrelsinu, og óryggja, ef til vill, um leið kosníngarna sjálfa. Mèr sýnist, að bezt verði bætt úr erfiðleika þeim, er kjósendur verða að sæta, til að sækja kjörþíng sitt, með því, að í hinum víðlendustu sýslum verði tekin upp sama kosníngaraðferð, og í Skaptafellssýslunum hefur við gengizt, þegar menn á annað borð vilja binda sig við kjördæmaskiptíngu þá, er nú er í gildi. Að öðru leyti skal eg ekki fara um kosníngaraðferðina fleirum orðum að sinni; því í tilliti til hennar fellst eg á það að miklu leyti, sem hinn heiðraði þíngmaður úr Norðurmúlasýslu hefur nýlega látið í ljósi.

*Jak. Guðmundsson*: Það er tvennt, sem menn verða að hafa fyrir augum, þegar kosníngarlög eru búin til; fyrst, að hver einstakur maður hafi sem frjálsastan og óbundnastan kosníngarrètt, og þar næst, að svo sè fyrir sèð, að kosníngar lendi á þeim, sem færastir eru til þess, að leysa vel þíngstörf af

hendi. Þetta tvennt mun stjórnin nú hafa haft fyrir augum, og eg sè nokkur merki til þess í frumvarpinu. Því til þess, að hinu fyrra atriði, sem eg gát um, verði framgengt, er í frumvarpinu farið fram einföldum kosníngum, sem menn játa það um, að veiti beinlínis rètt til, að taka þátt í kosníngunum, og sèu því frjálsari, en hinar tvöföldu kosníngar. En hvað hinu seinna atriðinu viðvíkur, þá er það einkum með tvennu móti, að stjórnin hefur viljað, að kosníngunum gæti orðið borgið, nefnilega með því, að binda kjörgengi við efnahag, og svo líka með hinu, að áskilja konúngi sjálfum, að kjósa nokkra menn til þíngsins; því það gjörir hún sjálfsagt í því skyni, að þeir menn fái setu á þínginu, sem menntaðir sèu, skynsamir og ráðsettir, en ekki af hinu, að hann ætlist til, að þeir sèu fremur hans vilja háðir, en aðrir, sem á þínginu eru. Margir hafa nú þegar orðið til þess, að taka það fram, að fjáreignarbandið ætti hèr illa við, og væri mjög óeðlilegt hjá oss, og er eg öldúngis á sama máli um það; því allir vita, að efnahag manna hèr á landi er líkt varið, og að mjög fáir eiga þau efni, sem frumvarpið gjörir ráð fyrir; því þó fátæktin sè ekki eins stórkostleg hèr og í öðrum löndum, þá er hún þó lángt um almennari og jafnari. Mèr hefur heldur aldrei skilizt, að hæfilegleikar til þíngsetu mundu hèr á landi vera nauðsynleg afleiðíng af því, þó einhver eigi nokkur hundruð í fasteign, og eg gjöri varla ráð fyrir, að neinum þyki slíkt band tiltækilegt; því allir vita, að gáfur og menntun hèr á landi eru ekki komin undir því, hvort menn eiga 10 hundruð í fasteign eða ekki; því það er ei ætíð, að jarðeigendur mennti betur börn sín en aðrir. Þess háttar bönd munu því engum virðast tryggjandi fyrir kosníngar hèr á landi. Hvað hitt atriðið snertir, að konúngur kjósi nokkra menn til þíngsins, þá ímynda eg mèr, að það gæti fremur en fasteignarbandið orðið til þess, að tryggja kosníngar. Það má að sönnu segja, að konúngur þekki ekki hvern einstakan mann, og kosníng hans geti því misheppnazt. En eg gjöri ráð fyrir, að hann mundi ekki kjósa aðra en þá, sem eru þjóðkunnir að menntun og greind Ei að síður neita eg því ekki, að mèr þætti það miklu frjálslegra, og eins vel eða betur tryggjandi kosníngar, ef að alþíngi sjálft kysi í staðinn fyrir konúng. Eg skal nú reyna til, að skýra þínginu frá ástæðum mínum fyrir þessu.

Það er almennt viðurkennt, að eptir því sem eitthvert þíng

stendur lengur, eptir því verði það stilltara og aðgætnara. Þar af kemur það og, að menn vilja skipta um þíngmenn; því þessi stillíng og varkárni getur auðveldlega orðið of mikil. Þíngið getur orðið það, sem menn kalla *conservativt*, það er: of varkárt. Það er nú auðséð, að þetta gamla og varkára þíng muni fara gætilega að kosníngum, svo því geti tekizt að kjósa eins heppilega og konúngi sjálfum. Þó er eg ekki á móti því, að þíngið væri takmarkað við eitthvað í þessari kosníngu, og ætti því að kjósa að minnsta kosti nokkra þá menn, sem hefðu annaðhvort vissa kosti eða vissa menntun til að bera; því ef að nú t. a. m. að alþíngi fengi löggjafarvald, þá þyrfti það á þeim mönnum að halda, sem bæru gott skynbragð á lög, og mætti þá gjöra það að skilyrði fyrir þíngið, að kjósa vissa tölu lögfróðra manna, þeirra er annaðhvort hefðu tekið próf í lögum, eða hefðu einhver viss embætti á hendi. Menn kynnu nú að segja, að ef þíngið kýs nokkra, þá líkist það tvöföldum kosníngum, og ber eg ekki á móti því, að svo sè, þegar menn skoða það frá þjóðarinnar hálfu. En þó að menn væru nú yfir höfuð mótfallnir tvöföldum kosníngum, þá held eg, að þeir gætu samt fallizt á þessa kosníngaraðferð; því hèr er sá munur, að þíngið kýs ekki nema einúngis ¼, ⅓, eða ½ hluta þíngmanna, en þjóðin aptur beinlínis hina alla. Sumum kynni og að virðast, að þessi kosníngaraðferð ætti því að eins við, að alþíngi eptirleiðis yrði skipt í tvær deildir, og að það yrði þá, ef til vill, eðlilegt, að hið gamla þíng kysi þá menn til næsta þíngs í hina efri og líklega fámennari deild. Þó að mönnum þætti það nú ófært, að skipta þannig þínginu í tvær deildir, mundi þó sú kosníngaraðferð, sem eg hef stúngið upp á, geta komizt að, og átt vel við.

Með tilliti til kosníngarrèttarins, þá hefur það verið tekið fram, að það ætti ekki við, að binda hann við 30 ára aldurinn, eins og kosníngarlögin frá 1849 gjöra, og fyrir mitt leyti finn eg enga ástæðu til þess, að einskorða hann þannig; því eg þekki marga menn 25—30 ára gamla, sem að greind og menntun hafa náð eins miklum þroska og hinir, sem eldri eru, og sè eg því enga nauðsyn á þessu bandi. Þó játa eg, að ef eitthvert band á endilega að vera í þessu efni, þá vil eg heldur, að það sè miðað við aldur, en við eign, eða eitthvað annað slíkt; því það er þó meiri skynsemi í því, að gjöra ráð fyrir,

að andlegur þroski og góð greind sè komið undir aldri, en undir auði.

Eg finn nú enga köllun hjá mèr til þess, að fara nú að tala um hinar tvöföldu kosníngar, bæði af því, að í frumvarpinu er ekki gjört ráð fyrir þeim, og líka af hinu, að eg get ekki búizt við því, að menn muni æskja eptir því bandi á kosníngunum, sem stjórninni hefur ekki einu sinni komið til hugar að leggja á þær. Eg held og, að fáum muni þykja þær vera tryggjandi. Það er að sönnu mikill sannleikur í því, sem hèr hefur verið sagt, að það sè ekki nóg, að veita rèttindi, heldur verði menn og að geta notið þeirra. Með tilliti til hinna einföldu kosnínga, og þess, hvað sum af kjördæmunum væru vond yfirferðar og víðlend, hafa menn nú stúngið upp á ýmsu, til að ráða bót á þessu, bæði hreppakosníngum, skrifuðum atkvæðaseðlum, og fleiru. Eg get nú engan veginn mælt með því, að menn gefi atkvæði á skrifuðum seðlum; því ekki mundi það síður, en hinar tvöföldu kosníngar, deyfa áhuga þjóðarinnar. Hreppakosníngarnar aptur mundu vera það tiltækilegasta til þess, að gjöra mönnum hægra fyrir með kosníngarnar, ef að þeim einúngis yrði hæglega við komið. En eg gjöri ráð fyrir, að það valdi miklu umstángi, þegar hver hreppur ætti að fara að kjósa út af fyrir sig. Þess vegna felli eg mig betur við það, sem þíngmaðurinn úr Dalasýslu stakk upp á, að hinum stærstu kjördæmum á landinu væri skipt svo sem í tvo hluti, líkt og gjört hefur verið við Skaptafellssýslurnar.

*Ó. E. Johnsen*: Þegar eg lít á frumvarp þetta, þá sè eg, að einfaldar kosníngar eru við hafðar, og af ástæðum frumvarpsins sè eg og, að stjórnin hefur farið að reyna til, að gjöra þessar einföldu kosníngar lèttbærari og hægri með því, að gjöra ný kjördæmaskipti, og jafnframt hefur hún haft fyrir sjónum, að jafna kjördæmin að fólksfjöldanum. Þessi tilraun stjórnarinnar sýnir og sannar mèr það, að hún heyrt hefur, að mörgum þyki einfaldar kosníngar örðugar sökum víðlendis kjördæmanna, og er eg og einn af þeim mönnum, er þetta álit hafa á einföldum kosníngum, þótt þær að vísu sèu eða sýnist að vera frjálslegri en þær tvöföldu. Eg geng nú að því vísu, að mörgum kunni að þykja það kynlegt, að eg, sem heldur hef verið kunnur að frjálslyndi en ófrjálslyndi, skuli hèr tala máli hinna svo kölluðu ófrjálsari kosnínga, nefnilega þeirra tvöföldu; en sannfæríngu minni af skoðun á hinum einföldu kosníngum get

og ei frá mèr hrundið, og þar að auki vona eg, að þíngmenn fyrirgefi mèr það, nær þeir hugleiða, frá hverjum parti landsins eg er. Það er öllum kunnugt, að á Vestfjörðum eru kjördæmi víðlendari og örðugri yfirferðar, en víðast hvar annarstaðar á landinu, og einmitt þetta er eitt á meðal annars, sem knýr mig til, að álíta einfaldar kosníngar þar miður hæfilegar en tvöfaldar. Þeir, sem elska einfaldar kosníngar, og sem hafa stutt að því, að þær hafa rutt sèr til rúms, segja, að þær sèu miklu frjálsari, og er þetta þeirra eina höfuðástæða fyrir því, að þær sèu betri í alla staði. „Við þær einföldu kosníngar", segja þeir, „taka allir án undantekníngar hlut í kosníngu fulltrúa síns, og sèrhver nýtur þar þess rèttar, er hann á; eg trúi", segja þeir, „ekki neinum öðrum manni fyrir, að mæta á fundum og kjósa fyrir mig"; en hèr sýnist skrítin mótsögn fram koma, þegar menn segja: „Eg trúi engum, hversu kunnugur sem er, til þess, að kjósa fyrir mína hönd fulltrúa", en segja þó: „Eg trúi þeim kosna fulltrúa, hversu óþekktur sem er, fyrir mikilvægustu málefnum mínum". Nær eg nú enn fremur lít á eðli hinna einföldu kosnínga, þá er öllum í sjálfsvaldi, að fara á kjörfund eða ei; en þó svo gæti nú farið, að einir 40 ótíndir kæmu á kjörfundinn, þá þætti það þó betra, af því það er svo frjálst, heldur en se og ætíð að vera viss um, að 10—20 valdir skynsamir menn kæmu, til að kjósa fulltrúann. Hèr sýnist því frelsislaungunin vera komin út fyrir þau rèttu takmörk, þegar hún í þessu efni lítur ekkert á ásigkomulag landsins. Eg get því ei betur sèð, en að tvöfaldar kosníngar eigi hèr í landi allvíðast betur við, en hinar einföldu, og gjöri kosníngar áreiðanlegri í alla staði. Enn fremur vil eg meina, að þó kosníngin sè nefnd einföld, þá sè hún þó í raun og veru tvöföld; því fyrir meginhluta kjósanda mun svo ástatt, að þeir litið viti, hvern helzt þeir kjósa eigi, því síður, hvern bezt sè að kjósa, og að þessir því fari til þeirra einstöku manna, sem á kjörfundi hafa mætt, og segi: „Heyrðu lagsmaður! hvern á eg að kjósa?" og gánga svo eptir ávísun annara, hverja vel má kalla kjörmenn, þótt einfaldar sèu kosníngar nefndar. Þeir, sem mest hafa talað fyrir einföldum kosníngum, munu að mestu leyti vera hèðan úr Reykjavík og nálægum hèruðum, sem hægri eru yfirferðar, en meginhluti Vestfirðíngafjórðúngs, hvar kjördæmin eru svo víðlend, að ferðin á einn kjörfund tekur 4 til 6 daga með sèr. Eg get því ei annað, en mælt með tvöföldum

kosníngum, í það minnsta á meðan flestum kjördæmum í Vestfirðíngafjórðúngi ei er skipt í tvö kjördæmi; en skyldi það verða gjört, þá þætti mèr bezt mega brúka hinar einföldu kosníngar, bæði vegna þess þær sýnast og máske eru frjálsari, og líka þess, að margir eru farnir að aðhyllast þær. Þegar eg nú lít á tölu þíngmanna í frumvarpi konúngs, þá sè eg, að fyrir sum kjördæmi í Vestfirðíngafjórðúngi er einn fulltrúi til tekinn. Leyfi eg mèr nú að stínga upp á, að með kjördæmaskiptíngunni, sem eg vona verði, sèu og 2 fulltrúar ákveðnir fyrir víðlendustu kjördæmin, og mundi þá þurfa, að bæta við þá í frumvarpinu tilteknu fulltrúatölu svo sem 5 eða 6, sem þá kæmu í stað hinna konúngkjörnu.

*G. Einarsson*: Hinn heiðraði þíngmaður, sem núna settist niður, er úr sýslu þeirri, sem eg hef dvalið í miklum hluta æfi minnar. Eg verð því að taka til máls í líkri stefnu, og ræða hans hafði, og benda á sum atriði, er mèr fannst óþarfi fyrir hann að taka fram, eður gjöra ráð fyrir að yrðu hinum einföldu kosníngum til hnekkíngar. Eg leiði hjá mèr, að fara orðum um „skrítnu mótsögnina“, er hann nefndi; því eg ætla hún svari sèr sjálf. En þar sem hann tekur til dæmis, að 40 ótíndir komi á kjörfundinn, þá þykja mèr það óþörf orð, einkum fyrir þennan þíngmann, sem er úr einu, eg má fullyrða það, hinu menntaðasta hèraði landsins. Dæmi þetta er líka tekið út í bláinn, þvert ofan í reynsluna; því þeir munu hafa jafnast sótt kjörfundina, eins og nærri má geta, sem mestan áhuga hafa lagt á þjóðmálefnin, og jafnframt hafa verið greindir og menntaðir, og er það ótilhlýðilegt, að þeir með lýsíngarorðinu „ótíndir“ skuli eiga óskilið mál með hinum öðrum, sem einhverjar aðrar hvatir, en sömu þjóðarást með fleiri eður færri förunautum hennar, hafa rekið til, að sækja kjörþíngið, og sem mín vegna mega heita „ótíndir“. Það sem þíngmaðurinn talar um erfiðleika þá, er vegalengdin á kjörþíngið í Barðastrandarsýslu olli mönnum, þá hefur hann satt að mæla, og kemur meiníng hans að miklu leyti saman við það, er eg mælti fyrir skömmu um það, hversu bæta mætti ágalla þennan yfir höfuð. Eg fyrir mitt leyti tala það af lifandi sannfæríngu, að eins og eg álít, að hinar einföldu kosníngarnar miði til þess, að lífga og glæða anda þjóðernis, þjóðfrelsis og þjóðarástar, eins get eg ekki annað sèð, en að hinar tvöföldu verði til þess, að eyða honum og deyða hann, og þess vegna er mèr það ó-

skiljanlegt, hvað komi til þess, að menn sèu að troða þeim fram einmitt núna, þegar menn vilja, að allt verði sem frjálsast, þegar þær geta þó í engu gjört kosníngarnar tryggari.

*P. Pètursson*: Þegar verið er að tala um kosníngar til alþíngis, þá virðist mèr, sem menn eigi og að hafa fyrir augum hagkvæma skipun alþíngis; því það er tilgángur kosnínganna, að alþíngi verði skipað þeim mönnum, sem hafa bæði frelsisanda og laungun til framfara, en um leið gætni og stillíngu til að bera. Þegar svo er ástatt, að löggjafarvald kemur í hendur einhvers þíngs, og fyrir því má, ef til vill, gjöra ráð fyrir hèr, þá getur því síður verið efi á því, að allir skynsamir menn muni vilja tryggja kosníngarnar sem bezt, og sjá um, að þíngið fái sem áreiðanlegast skipulag. Sleppi menn öldúngis skipulagi þíngsins, og ætli sèr einúngis að tryggja kosníngarnar, þá er eg hræddur um, að þær verði aldrei tryggðar til hlítar, hvort heldur þær eru hafðar einfaldar eða tvöfaldar. Þetta er og viðurkennt í stjórnarfrumvarpinu; því að í ástæðunum er það tekið fram, að kosníngar konúngs eigi að miða til, að tryggja þíngið, af því að þínginu sè *ekki skipt í deildir*; heldur sè það haft í einu lagi. Til þessa mun einnig kjörstofn sá miða, sem í frumvarpinu er ákveðinn.

Eg ber nú ekki á móti því, að kjörstofn þessi kann að vera of hár, og, ef til vill, reisa of miklar skorður við kosníngunum, og kemur það einkanlega til af því, að í sumum sveitum eru jarðirnar svo lágt metnar að hundraðatali. Yfir höfuð þykir þessi kjörstofn nú vera óviss og eiga miður við, af því menn búast við, að nýtt hundraðatal komist á jarðirnar, eptir að jarðamatinu nú er lokið, og þeim því þykir það mjög svo óvíst, hvaða innbyrðis jöfnuður verði á dýrleika jarðanna, og þeim rèttindum, sem slíkur kjörstofn á að veita. Þó vil eg minna þá, sem hafa svoddan óbeit á kjörstofni yfir höfuð, á það, að kjörstofn er ei með öllu útilokaður í kosníngarlögunum frá 28. d. septemberm. 1849, sem menn hafa hèr svo miklar mætur á; því þar er sá kjörstofn til tekinn, „að gjalda til sveitar“. Hvað kosníngar konúngs áhrærir, þá ímynda eg mèr, að það sè tilgángur stjórnarinnar, að tryggja þíngið með því, að konúngur velji sjálfur nokkra menn í það. Sjái þíngið annan betri veg en þann, að konúngur kjósi, þá er eg því ei mótfallinn, ef eg sè, að sá vegur er eins tryggjandi, og mèr finnst konúngskosníngarnar vera. Fari svo, að menn sleppi konúngs-

kosníngunum, þykir mèr það tiltækilegra, að nokkrir sèu sjálfvaldir í þíngið eptir stöðu þeirra og þeim embættum, er þeir hafa á hendi, heldur en að alþíngi velji menn til næsta þíngs, eins og hefur verið stúngið upp á; því þar sem annar fulltrúi Reykvíkínga sagði, að laung seta þíngmanna á þíngi hefði þau áhrif, að menn yrðu gætnari og vanafastari, þá verð eg að bera á móti því, að þetta geti gefið nokkra almenna eða gilda reglu; því reynslan sýnir, að menn ekki ætíð halda sömu skoðun í stjórnarmálefnum, heldur verða með tímanum ýmist frjálslyndir eða hið gagnstæða, án tillits til þess, hvort þeir sitja lengi á þíngum eða ekki. Mèr virðist raunar ekkert vera líklegra, en að skynsamir menn veljist úr kjördæmunum, til að skipa þíngið, en eg álít það nauðsynlegt, hvort sem þíngið skiptist í tvær deildir, eða verður einúngis ein, að lögfróðir menn eigi sèr setu á þínginu; en fyrir því, að svo verði, geta menn ekki fengið neina vissu, nema annaðhvort með því, að konúngur velji, eða einhver tiltekin tala lögfróðra manna eigi jafnan setu á þínginu. Eg er að mestu leyti samdóma frumvarpinu um tölu þíngmannanna, en þó virðist mèr, að þeir gætu verið nokkuð færri, t. a. m. 30 alls, ef þíngið eitt veldi; því ekki er allt komið undir höfðatölunni, en jafnan verður að hafa nokkurt tillit til kostnaðarins; en nú sem stendur læt eg ekki meiníngu mína um það frekar í ljósi. Þeim kjördæmum, sem nú eru, vil eg halda að sinni, og þykir mèr þá nær sanni, að hvert þeirra veldi einn fulltrúa; en sökum erfiðleika þeirra, sem vegalengdin sumstaðar veldur, er eg því ekki mótfallinn, að þeim örðugustu sè skipt í tvo eða fleiri staði, og virðist mèr stjórnin vera því einnig meðmælt, þar eð Hnappadalssýsla er í þessu frumvarpi gjörð að einu kjördæmi.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg heyri, að menn eru hèr að tala um tvöfaldar kosníngar, sem aldrei hafa hèr þó tíðkaðar verið, og finnst mèr það vera undarlegt. Þetta þíng er ekki kosið með slíkum hætti, og vèr höfum áður haft einfaldar kosníngar, og hafa þær, að því sem flestir halda, tekizt vel. Af þeirri orsök er eg á móti tvöföldum kosníngum; því það væri að taka upp óþekkta kosníngaraðferð, en sleppa annari, sem vel hefur gefizt, og almenníngur híngað til haft mætur á. Hvað kjörstofninn áhrærir, þá ímynda eg mèr, að hann sè hèr settur til óhultleika fyrir því, að reynsla og þekkíng komi næg í þíngið; en eg er samþykkur því, að eignarstofninn sè ekki fullkom-

lega tryggjandi í því tilliti. Mèr hefur dottið í hug, að það mundi ekki vera úr vegi, ef menn í vissum embættum hefðu fasta setu á þínginu, og þessir menn skyldu vera ráðherrarnir, ef þeir verða nokkrir, eða þá amtmennirnir, landsyfirrètturinn, æðstu kennarar beggja skólanna, biskup, fjárhirðir landsins og landlæknir; þá fèlli konúngskosníngin af sjálfu sèr, og þessir menn mundu mynda eins og nokkurs konar yfirhús á þínginu. En það gæti vel verið, að þegar þessi tala bættist við hina fulltrúana, þá yrði sá fjöldi of þúngbær, og stíng eg því upp á því, að ekki nema einn yrði kosinn af sýslu hverri. Eg vil ekki tala hèr um einstakar greinir frumvarpsins nè ástæður þeirra. Það, sem eg vildi minnast á, var þíngmannatalan, kosníngarrèttur og kjörgengisstofn.

Kandíd. *J. Sigurðsson*: Mèr fer nú líkt og þíngmaður Reykvíkínga drap á fyrir skömmu, að það er komin á mig einhver værð hèr á þínginu; mèr finnst ekki þurfa neinna breytínga við í þessu máli. Eg vil gjarnan gánga áfram, og halda mèr þar, sem eg sè mèr vel fært, en minna er mèr um, að fara aptur á bak að raunalausu; og enginn mun geta neitað því, að í þessu máli hefur stjórnin gengið óþarflega mikið til baka; því það vita allir, að sá kosníngarmáti, sem hafður var áður, eptir kosníngarlögunum 1849, hefur heppnazt vel, og betur, en margir, og einkum stjórnin hefur ímyndað sèr. Þá sást það, að oss er trúandi fyrir að kjósa. Mèr finnst engin þörf vera á, að gánga nú til baka til alþíngislaganna, og leggja bönd á, sem eru strángari, en sjálfar þjóðþíngiskosníngarnar eptir frumvarpi stjórnarinnar. Hvort sem þíng þetta fær ráðgefandi eða löggefandi vald, þá væri það líklegt, að þjóð vor mætti nú verða álitin fær um, að kjósa fulltrúa sína sjálf, og því er eg á móti því, að á sèu lögð bönd, sem sýnast tryggjandi, en eru það þó ekki. Mèr finnst ekki heldur, að þíngmenn megi vera færri, en þeir eru, ef menn vilja annars hafa þíng; því þá ætti þíngið heldur að heita nefnd, en ekki þíng. Eg verð að vera konúngskosníngunum öldúngis mótfallinn; því það er gagnstætt öllum venjulegum þjóðstjórnarhugmyndum; það er sama, og að gefa ráðgjöfum konúngs sex atkvæði, sem væri kannske fimmti eða sjötti hluti þíngsins. En eins mótfallinn og eg er konúngskosníngunum, eins mótfallinn er eg því, að þíngið kjósi menn til næsta þíngs; því það er sama á hinn bóginn, eins og að gefa þeim flokki, sem mestu ræður á þínginu, tækifæri til,

að hafa fóst atkvæði fyrir meiníngum sínum frá einu þíngi til annars. Menn mega ekki hugsa, að þíngið sè einhver engfill, sem gengur á fram eptir köldum reglum; menn mega gjöra ráð fyrir, að menn vilji fylgja fram meiníngum sínum, og það er gott innan vissra takmarka. Hvað viðvíkur því, sem hinn fyrsti konúngkjörni þíngmaður talaði um setu vissra embættismanna á þínginu, þá er eg ekki öldúngis á móti því, en það virðist mèr vera kynlegt, að vilja búa hèr til yfirhús, sem rèði niðurlögum á málum, og mundi það verða sú sterkasta höfðíngjastjórn, sem nokkurn tíma hefur við gengizt hèr á landi. Mèr finnst ekki vera nauðsyn á, að tala nú um kjördæmaskiptínguna; því þetta mál er allt saman skylt frumvarpinu um stöðu Íslands í ríkinu, og álít eg sjálfsagt, að því verði vísað til sömu nefndar og þeirrar, sem sett var, til að skoða það.

*H. Stephensen*: Eg vil bæta því við ræðu fulltrúans frá Ísafjarðarsýslu, að það er kynlegt, að konúngur skuli hafa völ á svo mörgum og ágætum mönnum, sem landið annars mundi kjósa handa sèr sjálft, ef þeir væru ekki teknir frá því; og kvörtun sú hefur, ef til vill, heyrzt víða á landinu, og er það vottur þess, að þessir hinir sömu gáfuðu, menntuðu og lögfróðu menn mundu hafa verið í þínginu, þó þjóðin hefði kosið ein; er það og nokkurn veginn fullkomin vissa fyrir, þegar þjóðin á ein að kjósa framvegis, að þeir menntuðustu mennirnir munu kosnir fyrstir allra, og það, ef til vill, því heldur, sem þjóðin fer að álíta þá fremur en áður sína menn, en ekki stjórnarinnar, og tengjast þeim enn nánari böndum en áður. Eg ætla hverja þá aðferð óhafandi, sem upp á hefur verið stúngið, konúngskosníngu, þíngkosníngu, eða að embættin ein skuli kalla þá inn á alþíngi. Um hitt efast eg ekki, að vit og menntun muni þíngið aldrei vanta með frjálsum kosníngum.

*G. Brandsson*: Í tilefni af því, sem þíngmaður Borgfirðínga nú sagði, verð eg að geta þess, að þó sumir kunni að vera hræddir um, að alþýða sneiði sig eptirleiðis hjá, að kjósa embættismenn til hinna komandi þínga, vegna rígs þess eða fæðar, sem þeir ætla vera muni milli hennar og þeirra (*H. Stephensen:* Það talaði eg aldrei), þá finnst mèr það vera nóg sönnun á móti því, hvernig kosníngarnar til þjóðfundarins hafa farið fram, þar sem nú má sjá, að meir en helmíngur fundarmanna, þeirra sem hèr eru, eru embættismenn. Eg

vissi líka til þess, að þegar fyrst var kosið til alþíngis, þá var það löggjöfinni að kenna, en ekki kjósendunum, að embættismenn náðu þar ekki setu, fremur en kunnugt er orðið. Því hefur reyndar verið hreift í tímariti nokkru, að svo liti út, sem embættismennirnir væru farnir að missa álit alþýðunnar, en eg veit ei betur, en þetta sè ástæðulítill hugarburður; því að reynslan er honum ósamhljóða, eins og líka betur fer.

*H. G. Thordersen*: Eg vil, eins og þíngmaður Borgfirðínga, treysta löndum' mínum um kosníngar menntaðra manna, og ekki gruna þá um neitt óhreinlyndi í því tilliti. En eg verð að játa, að kjörstofninn sýnist mèr ekki vera hæfilegur til undirstöðu fyrir kosníngarnar; því þó að í öðrum löndum efni og hyggindi sèu opt sameinuð, þá er öðru máli að gegna hèr, hvar það yfir höfuð má álítast almennara, að hinn menntaði sè fátækari, en sá, sem ekki hefur þurft að kosta neinu sèr til menntunar. Eg álít illa farið, ef menn ekki geta sèð svo fyrir í lögum, að hyggnir og menntaðir menn verði kosnir, einkum ef svo skyldi fara, að þíngin yrði veitt löggjafarvald. Það er ekki án hryggðar, að eg minnist á, að svo kynni undir að bera, að enginn á þínginu skildi lög, er lög skyldi gefa. Eg ítreka það, sem einn þíngmanna hefur einhvern tíma áður sagt hèr á þíngi, að næst guðsorði væru lög helgust af öllu í mannlegu fèlagi. Eg álít því mjög svo áríðandi, að tryggja um það, að menntaðir menn verði valdir til þíngsins; því það mun verða til vegs fyrir alda og óborna. Það getur verið, að á þínginu sitji margir skynsamir menn, sem geti dæmt um marga hluti, eg vil taka til sveitarmálefni eður slíkt, en samt ekki um lög, og því vil eg láta lögfróða menn sitja hèr líka. Eg er því á likri stefnu, og hinn fyrsti konúngkjörni þíngmaður, hvert sem menn vilja, að viss embættisstaða gefi rètt til setu á alþíngi, eður menn sjá einhvern annan veg til, að búa svo um, að þar bresti ekki þekkíngu á lögum og stjórnarfræði, en hins vegar vil eg láta ósagt, hvort hèr af leiði, að þínginu verði skipt í yfirhús og undirhús. Það, sem mèr liggur mest á huga, er, að útvega sem mest líkindi til þess, að upplýstir og hyggnir menn nái setu á þíngi voru.

*Á. Einarsson*: Mèr þykir vænt um, að ástæður þær, er nú hafa verið færðar fram með tvöföldu kosníngunum, hafa ekki enn þá rutt sèr til rúms á þessu þíngi, svo að eg þarf ekki að taka til máls á móti þeim. Eg þarf ekki heldur að benda til

þess, hversu að bændur þeir, sem hafa vilja, fjör og frelsistilfinníngu til að bera, eru þeim mótfallnir, og þessa kosti þekki eg nokkuð hjá mörgum mönnum í Barðastrandarsýslu eins vel og víða annarstaðar, og eg þekki svo mikið menntun þeirra, að þeir munu í henni taka mörgum fram, og þarf eg því ekki annað en benda þeim til þess, er þeir sjá í þjóðfundartíðindunum talað um skynsemi kosníngarmanna. Menn hafa hèr á þíngi talað um, að burt rýma tálmunum þeim, sem bægi mönnum frá, að sækja kosníngarfundi, með því, að skipta í sundur kjördæmum, og held eg því þurfi ekki að óttast vegalengdina, sem hefur verið kviðið fyrir, ef þessari uppástúngu verður framgengt. Því hefur verið hreift, að ef kosníngar væru óbundnar, þyrfti að hafa einhver þau bönd á þínginu, sem gæfu mönnum vissu fyrir, að ekki vantaði í það gætna og að sjá lögfræðínga. Eg er líka á þeirri meiníngu, að ómissandi sè, að hafa lögfróða menn á þínginu, og að því leyti er eg samdóma hinum 2. þíngmanni frá Reykjavík, en aptur á móti held eg, að ef það er bundið við viss embætti, eins og sá fyrsti konúngkjörni þíngmaður stakk upp á, geti það, ef til vill, leitt til þess, að menn þessir verði ekki ætíð góðir þíngmenn. En ef uppástúngu þíngmannsins frá Reykjavík yrði framgengt, þá held eg sjálfsagt yrði að gjöra þínginu að skyldu, að kjósa lögfróða menn. Hvað því viðvíkur, er sá fyrsti konúngkjörni þíngmaður minntist á, í tilliti til embætta þeirra, er hann stakk upp á að þíngseta væri bundin við, þá held eg það verði ekki ákveðið nú sem stendur, meðan menn vita ekki, hvernin stjórnartilhögun hèr í landi verður til hagað eptirleiðis. Eg gef ei um, að útlista meiníngu mína fremur um þetta atriði að svo stöddu, og ekki heldur tala um tölu þíngmanna, en þess vil eg að eins geta, að ekki mun eg gefa atkvæði mitt fyrir færri þíngmönnum, en 30—36.

*Ó. E. Johnsen*: Eg verð að þakka þíngmanninum frá Strandasýslu fyrir það, að hann nú hefur auglýst fundinum, að einhver góður maður hefur komið honum á gagnstæða meiníngu við það, sem hann hefur í hèraði áður haft í tilliti til einfaldra og tvöfaldra kosnínga.

*Á. Einarsson*: En þá vil eg biðja þíngmanninn frá Barðastrandarsýslu, að lesa alþíngistíðindin 1849.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Hvað því viðvíkur, sem þíngmenn hafa talað um tryggíngu kosnínga, þá vil eg helzt í því efni halda mèr til almenníngsálitsins, og held eg það sè áreiðanleg-

ast; því svo segir líka orðtækið: „Sjaldan lýgur almannarómur". En það eru komnar fram nokkrar uppástúngur þessu viðvíkjandi, og það væri líka æskilegt, ef ugglaus trygging gæti fengist fyrir vitsmunum þíngsins. Frumvarpið nefnilega til tekur, að konúngur skuli velja 6 menn; en nokkrir hafa stúngið upp á því, að hið fyrra þíng skuli velja þá, og aptur nokkrir, að það skuli vera bundið við embættismenn. En bezt fellur mèr við uppástúngu hins 2. þíngmanns frá Reykjavík, að þíngið kysi þá, þó ei á þann hátt, að það væri bundið við, að kjósa þá úr sínum flokki, heldur mætti það kjósa hvern sem það vildi utanþíngs um allt land; því eg álít, að á þínginu sitji skynsamir menn, sem þekkja menn alstaðar í landinu, og geta þeir því valið góða menn, og heutugt álít eg, að þá væri það bundið við, að kjósa vissa tölu af lögfróðum mönnum, en ei mundi þá þurfa að óttast fyrir, að menn kysu þá, er væru á sjálfra þeirra meiníngu; því varla geta menn vitað, hverri meiníngu sá og sá kann að fylgja, sem annars er ekki af þíngmanna flokki.

*Halld. Jónsson*: Eg vil geta þess, að þó að tvöfaldar kosníngar standi ekki í frumvarpinu sjálfu, þá er þess samt getið í ástæðunum, að þær veiti meiri vissu eða sèu tryggari, og þetta sýnist ekki að eins skynsamleg skoðun, heldur einnig reynslan að sanna. Eg vil ekki neita því, að einfaldar kosníngar sèu í sjálfu sèr eðlilegri og frjálslegri, og, eptir því sem álitið hefur verið, þjóðlegri; en samt verð eg að álíta, að þeir menn, sem segja, að þær einföldu kosníngar hafi hvergi misheppnazt hèr, annaðhvort neiti allri reynslu, eða sèu ókunnugir, hvernig til hagar í öðrum kjördæmum, en þeim, sem þeir eru sjálfir frá, og hvernig þessi kosníngaraðferð hefur þar gefizt. Eg þekki til, að það hefur átt sèr stað í fleirum en einu kjördæmi, að kjósendur hafa orðið að hafa meir en viku til ferðarinnar, og þar sem því sýnist mega treysta, að með tvöföldum kosníngum ráði skynsamasti partur þjóðarinnar þíngmannskosníngu, þar er hitt mjög líklegt, að þeir, sem næst búa kjörstaðnum, ráði mestu í víðlendum kjördæmum, þegar kosníngar eru einfaldar. Eg neita því ekki, eins og eg hef áður sagt, að einfaldar kosníngar eru í eðli sínu frjálsari; en það er ekki nóg, að hafa rètt til eins; maður verður líka að hafa tækifæri til, að neyta hans; en það er víða svo ástatt, að þessi rèttur, sem einföldu kosníngarnar veita mönnum, verður

að nokkurs konar ójafnrètti í samanburði við þann rètt, sem hinar tvöföldu kosníngar heimila. En af því eg álít einfaldar kosníngar frjálslegri, þá vil eg helzt vera með því, að skipta kjördæmunum, eptir því sem menn koma sèr saman um það, ef annmörkum þeim, sem þessi kosníngaraðferð óneitanlega er bundin, með þessu móti yrði burtu rýmt.

*L. Johnsen*: Mèr þykir það furðu gegna, að menn skuli vera að mæla fram með tvöföldum kosníngum, þessum vogesti, sem eg vildi óska að aldrei kæmi hingað í land vort. Enn hvað því viðvíkur, er hinn konúngkjörni þíngmaður sagði, að sèr fyndust hinar einföldu kosníngar vera bæði frjálslegri, og þá einnig hæfilegri, eðlilegri og þjóðlegri, þá þykir mèr það næsta undarlegt, að hann vildi samt styðja hinar tvöföldu; því það liggur í augum uppi, að þegar maður þarf að senda annan í sinn stað, þá verður kosning hans sjálfs áhrifalaus, og þessi aðferð deyfir þann áhuga, sem þeir annars hafa á þjóðmálefnum. Eg vil ekki tala um einstök atriði, svo sem fulltrúafjölda, en mèr finnst, að höfðatalan gjöri ekki svo mikið til, og heldur vil eg fylgi en fjölmenni, og menn verða ætíð að hafa tillit til kostnaðarins. Það vil eg gjarnan, að þíngið, eða rèttara að segja kosníngarnar sèu tryggðar með því, að menntaðir menn og lögfróðir sèu hèr á þíngi, en ómögulega get eg fallizt á kjörstofninn. Það hefur reynslan sýnt, að hann á ekki hèr við, og hefur það verið greinilega útlistað; en eg leyfi mèr að mæla með, að kosníngarlögunum, sem samin voru 1849, sè fylgt að mestu.

*Halld. Jónsson*: Eg vil benda hinum öðrum þíngmanni Ísfirðínga á, að hann hefur misskilið mig; því eg sagði, að mèr þættu hinar einföldu kosníngar í eðli sínu eður í hugsuninni að eins frjálslegri og þjóðlegri, en gat þess einúngis, að þær gætu stundum ekki orðið það í framkvæmdinni.

*G. Brandsson*: Eg held, að annmarkarnir, eða mótbárur þær, sem hafðar hafa verið á móti einföldum kosníngum, hverfi, þegar að því er gáð, að enginn getur skyldað menn til að fara, og að hægðin, sem maður vinnur við hinar tvöföldu kosníngar, hverfi með þessu sama; því erfiðleikinn til að ferðast á kjörþíngisstaðinn hvílir á hverjum einstökum manni af þeim, sem kosníngarrètt hafa, svo hvort þeir verða margir eða fáir, kemur í sama stað niður í tilliti til þeirra, sem kosníngarþíngið sækja. Eg vissi og til þess, að á kjörfund þann, sem haldinn

var til þjóðfundarins hèr í sýslu, komu einna flestir af þeim, sem voru lengst frá, og voru þó margir af þeim gamlir menn, þar sem hinir sátu heima, sem skemmra áttu, enda þó þeir væru úngir að aldri og að öðru leyti óhindraðir.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Í tilliti til þess, sem eg áðan gat um, að nokkrir embættismenn mættu vera sjálfkosnir á alþíngið, þá vil eg geta þess, að það var ekki tilgángur minn með því, að koma á höfðíngjastjórn, en mèr þótti það ísjárvert, að eiga undir ásum, sem menn kalla, að nefndir embættismenn fengju sæti á þínginu, svo sem biskupinn, landstjórarnir, yfirrètturinn, fjárvörðurinn, og æðstu embættismenn skólans; það koma svo undir þá flest þjóðmál hvort sem er, og ekki er ósennilegt, að þeir líka geti gefið margar upplýsíngar, sem þínginu er nauðsyn á. Hèr hefur verið talað um kjördæmaskiptíng, og er eg samþykkur þeim þíngmönnum, sem um það hafa talað, að það megi skipta þeim haganlegar, en hèr er gjört í frumvarpinu. Eg er líka samdóma þíngmanninum úr Gullbríngusýslu, að það sè ekki vegalengdin, sem hindrar menn frá því, að koma. En viðvíkjandi því, sem fulltrúinn frá Snæfellsnessýslu gat um, að tryggja mætti kosníngar með því, að krefja helmíng atkvæða til þess, að einn væri rèttkosinn, þá get eg ekki álitið það hentugt hvað framkvæmdina snertir; því í örðugum kjördæmum að þurfa að velja upp aptur og aptur, tekur mikinn tíma með sèr, og kemur af stað ærnum kostnaði.

*Jón Guðmundsson*: Eg skal ekki eyða mörgum orðum um frumvarpið sjálft; en um að tryggja kosníngar er mjög talað af mörgum hèr á þíngi. Eg ætla, að allir viti, hversu illa að mönnum geðjaðist að hinum gömlu böndum, sem kosníngarlögin til hins fyrra alþíngis lögðu á kosníngarrètt og kjörgengi, en aptur á mót hefur öllum líkað vel við kosníngarlögin frá 1849, og finnst mèr, að það farist sízt oss á þessum þjóðfundi, sem erum valdir eptir þessum lögum, að vilja snara þeim frá oss nú þegar, á meðan þjóðin lætur sèr þau vel lynda, en taka aptur það, sem frumvarp þetta býður, sem einmitt er það, sem áður er reynt að margföldum ókostum, og menn þess vegna hafa hafnað. Það er og hefur verið hið mesta og mikilvægasta umhugsunar- og umtals-efni í öllum öðrum löndum, hve mikil nauðsyn sè á, að tryggja kosníngar; en einnig í þessu efni er öðru máli að gegna hèr hjá oss. Eg held, að eins og kjörstofn í öðrum löndum er nauðsynlegur og getur átt vel við, en ekki

hèr, af því hèr er auðlegð sízt samfara menntun, vitsmunum og greind, eins er eg fullviss um, að alþýða vor hefur annan mikilvægan kost fram yfir múginn upp til hópa í öðrum löndum, sem gjörir kosníngar hennar miklu tryggari, en í öðrum löndum er álitið, en það er (svo er hamíngjunni fyrir þakkandi), að hún er sinnugri, og hún er ráðvandari að tiltölu, og því verði það bezta og einhlítasta meðalið, til að tryggja hèr kosníngar, að þær sèu sem frjálsastar. Af þeim orsökum, sem eg nú taldi, finnst mèr það bæði óþarft og óeðlilegt band, sem hinn heiðraði 1. konúngkjörni þíngmaður stakk upp á, að þessi æðstu embætti, sem hann nefndi, skyldu að sjálfsögðu gefa rètt til þíngsetu; og svo illa sem mèr er við þessar konúngskosníngar, sem nú heldur ekki geta átt við frumvarpið, ef alþíngi fengi meira vald, þá geðjast mèr þó miklu ver að þessari uppástúngu, og álít, að hún eigi miklu ver við; því þessir æðstu embættismenn eru þó ætíð útnefndir af konúnginum, og ef að þeir væru sjálfsagðir í þíngið, hvort sem þjóðinni geðjast vel að þeim eða ekki, þá yrðu þeir þá þar aldrei álitnir menn þjóðarinnar.

Eg held þjóðin hafi einmitt fært sönnur á það með kosníngunum til þessa fundar, hve fær hún er um, að kjósa vel eptir frjálsum kosníngarlögum, þar sem hún hefur nú valið svo marga embættismenn, og er af því auðsèð, að hún þurfi ekki þessara óeðlilegu banda við, sem hèr er stúngið upp á, og eg er viss um, að ef konúngur hefði ekki verið búinn að kjósa embættismennina á undan henni, þá mundi hún hafa kosið þá, og að hún mundi jafnan kjósa einmitt þá hina sömu og alla þá, sem bezt eru þíngmannaefni, nema ef eitthvert sèrlegt tilefni væri til þess, að hún gengi fram hjá þeim.

*Á. Einarsson*: Það, sem hinn 1. konúngkjörni þíngmaður skýrði fyrir þínginu áðan, gæti að sönnu átt við, eins og nú stendur á, en mundi hverfa seinna. En það, sem hinn 2. þíngmaður Ísfirðínga vildi fækka þíngmönnum, en hins vegar óskaði, að þá sætu á þínginu sem flestir löglærðir menn, þá er eg því mótfallinn, að mjög fámennt verði þíngið, af því eg er hræddur um, að það útiloki bændur frá þínginu, og, ef til vill, presta.

*L. Johnsen*: Nei, það var ekki tilgángur minn, að útiloka bændur frá þínginu, því síður presta; það sæti ekki á mèr, þar sem eg á að heita prestur sjálfur; en eg álít samt nauðsynlegt, að hafa lögfróða menn á þínginu, einkum ef þíngið verður hèr eptir löggefandi.

*A. Böðvarsson*: Eg vil að eins með fáum orðum svara því, sem hinn háttvirti 1. konúngkjörni þíngmaður nýlega bar fram gegn uppástúngu minni áðan, þar sem eg stakk upp á, að kosníngar gætu nokkuð tryggzt með því, að kosið væri um aptur, ef einhver í kjördæminu fengi ekki helmíng atkvæða. Eg get ekki, eins og hann sagði, sèð nein óvinnanleg tormerki á þessari aðferð, eða hún sè svo tafsöm, að hún sè óhafandi, ef menn annars fallast á, að hún tryggi kosníngar. Mèr finnst þessi aðferð einmitt eiga betur við í kjörþíngi, þar sem ei er nema um þessa einu kosníngu að gjöra, heldur en hèr á þíngi eða alþíngi, hvar svo opt verður að kjósa hèr eptir. Meiníng mín með þessari uppástúngu var sú, að reyna til, að komast sannleikanum sem næst. Svo hèlt eg líka, að þetta mundi fremur hvetja menn til, að leggja sig fram, og bera sig saman um, hvern kjósa skuli, þegar menn fyrir fram vissu, að ekki stoðaði, að nefna 'svona einhvern út í bláinn, án þess það væri bundið við atkvæði annara með. Hafi þessi aðferð, að einn fengi meir en helmíng atkvæða, verið álitin hentug hèr á þíngi, mundi hún þá ekki vera það, þegar kjósa skal til vandasams alþíngis? Og sè þessi aðferð ekki við höfð, geta atkvæði orðið á þeim strjálíngi, að sá verði alþíngismaður, sem ekki fær meir en $\frac{1}{10}$ atkvæða. Nú vil eg ræða fátt eitt um það, sem talað hefur verið um, að annaðhvort konúngur eða alþíngi velji vissa tölu manna á næsta þíng, til þess þíngið fengi lögfróða menn. Mèr finnst hvorugs þessa þurfa með, heldur kjósi þjóðin líka þessa sjálf. Eg vil nú ekki tala um, hversu ófrjálslegt og ísjárvert mèr fannst það, sem hinn 1. konúngkjörni þíngmaður stakk upp á, að 3 ráðherrar, landsyfirrèttardómendurnir, o. s. frv., væru fastir meðlimir þíngsins; því ef þeir eiga að sitja í þínginu upp á lífstíð, þá finnst mèr næstum eins mikil ástæða fyrir því, að allir þíngmenn væru kosnir upp á lífstíð; en sú hugmynd finnst mèr vera töluvert utan við þessara tíma anda, þar sem flestir vilja, að kosníngar sèu sem óbundnastar, bæði í tilliti til þeirra, sem eiga að kjósa, og eins til hinna, sem kjósast mega, og heyrir þar til, hversu lengi að hver þíngmaður skuli sitja á þíngi, þángað til valið er um aptur.

*Forseti*: Með því umræðunum virðist nú vera lokið í þetta sinn, þá vil eg samkvæmt þíngsköpunum skjóta því til þíngsins, hvort málefnið skuli lengra gánga eða ekki.

Gengu þá þíngmenn til atkvæða, og fèllust á það í einu hljóði, að málefnið skyldi lengra gánga.

*Forseti* spurði því næst þíngmenn að, hvort þeir vildu fylgja uppástúngu þess þíngmanns, sem stúngið hafði upp á því, að frumvarpið væri fengið í hendur þeirri nefnd, sem þegar var kosin í stjórnarskipunarmálefninu, eða kjósa heldur nýja nefnd í það, og gat þess jafnframt, að málefnin væru að sínu áliti mjög skyld. Urðu síðan nokkrar umræður um það, hvort nýja nefnd skyldi kjósa eða ekki, og voru það einkum þeir *P.* sýslumaður *Melsteð* og *Þ. Sveinbjörnsson,* sem mæltu fram með því, að ný nefnd yrði kosin, af þeirri ástæðu, að það gæti flýtt fyrir málefnunum, er þeim væri þannig skipt niður á fleiri þíngmenn. En *P. Pètursson* og *K. Kristjánsson* töluðu einkum fyrir því, að málefnið væri fengið hinni fyrri nefnd í hendur; því að öðrum kosti gætu nefndirnar komizt í bága hvor við aðra, þar sem málefnin væru svo náskyld hvort öðru.

Þegar gengið var til atkvæða, urðu 22 atkvæði móti 19 fyrir því, að frumvarpið væri afhent nefnd þeirri, sem áður var kosin til þess, að gefa álit sitt um stjórnarfrumvarpið.

*Forseti* gat þess síðan, að hann gæti þá hvorki ákveðið næsta fund nè starfa hans, af því ekkert fullkomlega undirbúið verkefni væri þá fyrir hendi, en sagðist mundu birta það hvorttveggja svo fljótt, sem hann gæti. Síðan var fundi slitið.

---

## 11. fundur, 31. d. júlím.

Allir á fundi. Gjörðabók frá síðasta fundi lesin og samþykkt.

*Forseti* lýsti því yfir, að fyrirspurn þíngmanns Ísfirðínga væri prentuð, og að hann hefði fengið brèf með fyrirspurnum frá tveimur þíngmönnum, og að þíngið þyrfti að samþykkja eða mótmæla því, hvort þessar fyrirspurnir skyldu leggjast fyrir konúngsfulltrúa eða ekki. Hin fyrri fyrirspurn var frá öðrum þíngmanni Barðastrandarsýslu, og hljóðar þannig:

„Hvernig stendur á komu hermanna þeirra frá Danmörku, sem hèr eru í sumar? Eru þeir sendir eptir beiðni yfirvalda hèr? eða eptir hvers skipun eða ráðstöfun eru þeir híngað komnir, og í hverjum tilgángi, og á hvers kostnað? Hversu lengi er þeim ætlað að vera hèr á landi?“

Hin önnur fyrirspurn var frá fyrra þíngmanni Borgfirðínga, og er hún svo látandi:

„Samkvæmt þíngskapanna 55. gr. leyfi eg mèr að biðja hinn háttvirta forseta, að leita leyfis þjóðfundarins, að eg megi bera upp þá fyrirspurn fyrir konúngsfulltrúa, hvern úrskurð stjórnin hafi lagt á fyrirspurn hans sem stiptamtmanns um fundafrelsi hèr á landi, er hann í brèfi frá 16. d. aprílm. í ár kveðst hafa leitað með póstskipi í vetur, sem leið“.

Forseti kvaðst hafa sent konúngsfulltrúa eptirrit af þessum brèfum, og fengið aptur svo látandi brèf hinn 29. d. júlím.:

„Eptir það hinn 1. fulltrúi Ísfirðínga hafði spurt mig um, hver afdrif þau málefni hefðu fengið, sem alþíngi bar upp við stjórnina 1849, hef eg með brèfum yðar, háttvirti forseti! dags. 27. og 29. þ. m., fengið vissu um, að *Ólafur* prestur *Johnsen*, 2. fulltrúi Barðstrendínga, og prófastur *Hannes Stephensen*, 1. fulltrúi Borgfirðínga, ætla að spyrja mig um, sá fyrst nefndi um, hvernig standi á komu hermanna þeirra frá Danmörku, sem híngað eru komnir, og um annað, er þar að lýtur, og prófastur *H. Stephensen* um það, hvern úrskurð stjórnin hafi lagt á fyrirspurn mína um fundafrelsi hèr á landi.

Út af þessum fyrirspurnum bið eg yður, háttvirti forseti! að láta fundarmenn vita, að eg alls ekki ætli að svara þeim, og það af þeim ástæðum, að engin af þessum fyrirspurnum virðist snerta eða eiga skylt við ætlunarverk þessa fundar, og eiga því fundarmenn enga kröfu, samkvæmt tilsk. 8. marz 1843, á því eg svari þeim; hèr við bætist og, að eg ekki finn neina köllun hjá mèr, til að svara fyrir hönd annara manna, þegar eg hef þar til enga heimild, og vitna eg í þessu skyni til erindisbrèfs míns frá konúngi vorum.

Einnig get eg þess sem verulegrar ástæðu, hvers vegna eg alls ekki get fengizt við fyrirspurnir þessar, að nú er svo liðið á tímann, sem fundur þessi stendur, að eg hygg ekki verjanda tíma þeim, sem eptir er, til annars, en til þeirra mála, sem fundinum voru send til yfirvegunar, og virðist mèr, sem ekki muni af honum gánga, þó honum eingaungu væri varið

til að ljúka við hið mikla ætlunarverk hans, en enginn efar, að einmitt það eigi að sitja í fyrirrúmi.

Skrifstofu konúngsfulltrúa, 29. júlí 1851.

*J. D. Trampe.*

Hávelbornum

herra amtmanni *P. Melsteð,* R. af D., forseta á fundi Íslendínga í Reykjavík".

Eptir þessum kríngumstæðum og stöðu þíngsins og forseta til konúngsfulltrúa kvaðst forseti ekki hafa sett fyrirspurn þíngmannsins frá Ísafjarðarsýslu á dagskrána, og álíta óþarfa, að leita atkvæða um þessa hluti á þínginu.

Kandíd. *J. Sigurðsson:* Eg ætla einúngis að svara fyrir mína eigin spurníngu, og verð eg þá að segja það, að eg ætla, að það væri bein skylda konúngsfulltrúa, að svara henni; því eptir alþíngistilskipuninni 8. d. marzm. 1843 átti alþíngi einmitt að haldast nú í ár, og þessi fundur verður því að vera í alþíngisstað, og eiga að minnsta kosti alþíngisréttindi. Þegar nú stjórnin hefur áður álitið það skyldu sína, að senda alþíngi skýrslur um afdrif þeirra mála, sem þíngin hafa áður borið fram, þá hefur maður fulla ástæðu og fullan rètt til, að vænta þess, að stjórnin annaðhvort sendi sjálf slíkar skýrslur nú, eins og að undanförnu, eða hún byggi konúngsfulltrúa svo undir, að hann gæti gefið rök fyrir því, sem hann er spurður að. En þar eð eg skil þetta svar hins háttvirta konúngsfulltrúa á þá leið, að hann viti ekkert um málin, og geti því engu svarað, þá sè eg, að ekki muni vera til neins að fara lengra fram á að spyrja, þegar ekkert svar er að fá.

*Forseti:* Eg vil einúngis geta þess, að þó að stjórnin ekki nú sendi líkar skýrslur og áður, þá er það ekki að undra; því þessi fundur er ekkert eiginlegt alþíngi, og vera má, að stjórnin álíti það rètt, að slíkar skýrslur verði geymdar til næsta alþíngis; en að umræður um þetta mál fari lengra fram að þessu sinni, álít eg til einkis.

Kandíd. *J. Sigurðsson:* Eg vil einúngis geta þess, að í augl. 1849 lofaði stjórnin með berum orðum, að ákveðið skyldi verða um fyrirkomulag og rèttindi alþíngis, en nú stendur í „frumvarpinu um stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins", að það skuli ekki verða ákveðið, fyr en síðar. Því hefur einnig verið lofað, að bænarskrár um ýmsa verzlunarstaði skyldu koma til greina, þegar verzlunarmálið kæmi fram, en nú er hèr lagt

fram frumvarp til verzlunarlaga, og er þó ekkert getið þessara staða; þannig segir stjórnin hèr sitt í hvort sinn; en eg yfirlæt að öðru leyti stjórninni og öllum mönnum öðrum út í frá, að dæma um, hvernig hèr er farið í allt þetta mál.

Því næst var tekið til annarar umræðu um verzlunarmálið. Álit nefndar þeirrar, er sett hafði verið í máli þessu, var þannig lagað:

„Þjóðfundurinn hefur kosið oss undirskrifaða í nefnd, til að segja álit vort um „Frumvarp til laga um ákvarðanir nokkrar, áhrærandi siglíngar og verzlun á Íslandi“.

Í ástæðunum fyrir frumvarpi þessu hefur stjórnin viðurkennt, að öll hin óeðlilega stefna, sem komizt hefur inn í hin íslenzku verzlunarlög, sè einkum af því sprottin, að verzlunin hafi verið skoðuð frá sjónarmiði fyrir utan landið, og að endurbótin á lögum þeim, sem nú eru, verði því að byggja á skoðun málsins frá sjónarmiði Íslands.

Frá þessu sjónarmiði virðist það þá liggja beint við, að hin óeðlilega stefna í verzlunarlögum vorum verði af máð, en þetta óeðli er einkum í því fólgið, að verzlun vor hefur verið bundin við eina þjóð, en vèr yfir höfuð útilokaðir frá viðskiptum við allar aðrar þjóðir, og þegar verzlunin ætti að verða frjáls, ætti ekki að gjöra neinn greinarmun í tilliti til tollgjalds; en þó hefur frumvarpið enn nú haldið þeirri skoðun, að leggja á utanríkisskip 5 ríkisbánkadala gjald af hverju lestarrúmi, líklega í því skyni, að verzlun þeirri, sem nú er, verði ekki hastarlega um turnað.

En vèr getum ekki skilið, að verzlun vorri, skoðaðri frá Íslands sjónarmiði, verði hætt við neinni umturnun, þó hún verði byggð á jafnræði og þeim reglum, sem nú hafa rutt sèr til rúms hjá öllum þeim, er bezt skynbragð bera á þess konar hluti. Það var líka af stiptamtmanninum yfir Íslandi tekið fram á alþíngi 1849 (Tíð. bls. 496), „að. það sè stjórnarinnar skoðun, að ef almennt verzlunarfrelsi ætti að veita, þá ættu utanríkismenn að fá jafnrètti með Dönum; það hafi líka ætíð verið gagnstætt grundvallarreglu stjórnarinnar, að láta utanríkisskip borga meiri tolla en innanríkisskip“. Þetta frumvarp, sem nú er lagt fyrir þjóðfundinn, gæti því eptir eðli sínu ekki verið nema til bráðabyrgða; en eins og bráðabyrgðalög í slíku efni, sem þetta er, eru mjög ísjárverð, svo að utanríkismenn mundu hika sèr við, að leggja mikið í sölurnar við slíka verzlun, þannig sjáum vèr ekki heldur, að hinum föstu kaup-

mönnum, sem frumvarpið einkum virðist að hlynna að, sè nein hætta búin af því, þó hin eina rètta grundvallarregla í þessu efni væri nú þegar lögleidd, nefnilega sú, að utanríkismenn fái jafnrètti með innanríkismönnum.

Jafnvel þó nú uppástúngur frumvarpsins um breytíngu á hinni íslenzku verzlun sèu miðaðar við hin eldri lög, var því samt hreift í nefndinni, hvort grundvallarregla frumvarpsins um tollmuninn mundi ekki geta staðizt til bráðabyrgða, ef frumvarpinu væri að öðru leyti komið í það horf, að það komi ekki alveg í bága við rètta skoðun á högum landsins, t. a. m. að þau bönd sèu af máð, sem lögð eru á verzlun utanríkismanna í 3. greininni þvert á móti tilsk. 11. sept. 1816, er leyfir þeim að verzla á hverju kauptúni í 4 vikur með alls konar vöru. En þar eð allir nefndarmenn verða þó að viðurkenna, að hin skoðunin, sem byggð er á almennum grundvallarástæðum, sè rèttari í sjálfu sèr, þá kom þeim saman um, að tiltækilegast mundi, að lögleiða almennt verzlunarfrelsi nú þegar með jafnrètti fyrir allar þjóðir.

Verður þá nauðsynlegt, að af má lestagjald það, er nú á að greiða af skipum þeim, er flytja íslenzkar vörur til útlanda, 14 mörk af hverju lestarrúmi, enda er gjald þetta í sjálfu sèr mjög illa til fallið, og lendir helzt á þeirri vöru, er minnst þolir þess konar álögu, vegna þess hún tekur svo mikið rúm upp, nefnilega fiskinum. Þar á móti virðist ekkert geta verið því til fyrirstöðu, að leggja dálítið lestagjald á öll kaupför, innan- og utan-ríkis, og þykir þá viðkunnanlegast, að láta leiðarbrèfagjald það, sem nú er, vera þar í fólgið, en af má það sem sèrstakt gjald. Þegar alls þessa er gætt, virðist hæfilegt, að gjald þetta sè ákveðið til 2 rbdd. af hverju lestarrúmi, og greiðist það við móttöku leiðarbrèfsins, án neinnar frekari borgunar fyrir brèfið sjálft.

Í ástæðum frumvarpsins er það enn fremur tekið fram, að menn verði að leitast við, að svo miklu leyti sem verður, að að greina ákvarðanirnar um fiskiveiðar, vöruflutnínga, og verzlunina sjálfa. Að vísu getur þetta þrennt verið 3 aðgreindir atvinnuvegir, en á meðan þeir eru allir í barndómi, og nú á að fara að lètta af verzluninni oki því, er um lángan aldur hefur á henni legið, þá virðist það mjög ísjárvert, að leggja strax aptur bönd á hina atvinnuvegina, nema nauðsyn beri til, og menn sèu sannfærðir um, að þar af fljóti einhver nytsemi; en

nú getum vèr ekki sèð þetta um bann það, er frumvarpið leggur á fiskiveiðar með utanríkisskipum, og því vill nefndin ráða til, að ákvörðunum um fiskiveiðar sè sleppt að svo stöddu, þángað til reynslan hefur kennt, hvernig þeim verði bezt fyrir komið.

Við hinar einstöku greinir frumvarpsins leyfum vèr oss enn fremur að gjöra þessar athugasemdir:

Við 1. gr.

Það virðist eðlilegt, að innanríkismönnum sè gjörður sami hægðarauki sem utanríkismönnum, að þeir geti fengið íslenzk leiðarbrèf hjá verzlunarfulltrúum stjórnarinnar í útlöndum, og þykir oss þá betur fara, að sleppa endanum bæði í 1. og 3. gr., en bæta við nýrri grein um þetta efni í einu lagi á eptir 4. gr. Að öðru leyti má bera hèr saman við athugasemdirnar við 7. gr., og það, sem áður er sagt um fiskiveiðar.

Við 2. gr.

Ef ákvörðunin í þessari grein á að geta komið reglu á það, sem nú þegar við gengst kríngum allt land, að útlend fiskiskip hleypa inn, til að sækja vatn, m. m, þá virðist nauðsynlegt, að láta hana ná til allra þeirra kaupstaða, er löggiltir verða sem aðalhafnir fyrir utanríkisskip. Hvað sem af ráðið verður um fiskiveiðar utanríkisskipa, á meðan þau hafa íslenzk leiðarbrèf, þá getur niðurlagið á greininni varla átt við; því hvernig verður fiskiskipum, þó þau hleypi snöggvast inn á höfn, bannað, að fram halda veiðum sínum eptir sem áður?

Við 3. gr.

Þessi grein inniheldur svo mikil bönd á hinni útlendu verzlun, að hún getur ekki orðið að neinu liði, eptir því sem ástatt er hèr á landi, nema hún losist við þau. Það er að vísu í mörgu tilliti vel til fallið, ef verzlunin gæti orðið dregin meira að tilteknum verzlunarstöðum, þar sem svo stendur á, að fjöldi landsbúa getur haft not af þeim, en vegna örðugleika, sem hèr er á með alla flutnínga, bæði á sjó, og einkum á landi, þá virðist það þó ekki tiltækilegt, að útiloka mestan þorra landsmanna frá þeim hag, er vænta má af útlendu verzluninni, og því hlýtur nefndin að ráða frá, að utanríkismenn sèu sviptir því frelsi, er þeir höfðu eptir tilsk. 11. sept. 1816, að sigla upp öll kauptún landsins, eptir að hafa sýnt skilríki sín í einhverjum af hinum tilteknu aðalkaupstöðum. Hin önnur takmörkun, að utanríkismenn megi ekki selja landsbú-

um nema kornvöru, steinkol, timbur og salt, er líka mjög ísjárverð; því bæði er það öldúngis óvíst, hvort verzlunarmenn þeir, sem búsettir eru á hinum tilteknu stöðum, bæði geti og vilji kaupa af þeim allar aðrar vörur; enda liggur það beint við, að þeir innlendu kaupmenn gætu selt hinar fyr nefndu fáu vörutegundir við mjög lágu verði, til að fæla hina burt, og þó landsmönnum væri það hagur í bráð, yrði það aptur óbætanlegt tjón fyrir þá, ef hin útlenda verzlun yrði þannig boluð burt, og verður því að varast, að löggjöfin gefi tækifæri til þess.

Ef utanríkismenn þar á móti mættu fara til allra kauptúna, yrði það hin mesta upphvatníng fyrir kaupmennina á þeim stöðum, sem þeir eiga fyrst að koma til, að kaupa af þeim með sanngjörnu verði, og yrði þannig meðal til að efla verzlunina á þeim stöðum.

Það virðist líka nauðsynlegt, nú þegar að til taka að minnsta kosti sinn stað í hverjum fjórðúngi, sem aðalhafnir fyrir hina útlendu verzlun, og eru þá án efa þeir staðirnir, sem nefndir eru í ástæðunum, bezt fallnir til þess, nefnilega, auk Reykjavíkur, Akureyri, Ísafjörður og Seyðisfjörður. Á Akureyri og Ísafirði búa læknar, og sýslumaðurinn í Eyjafjarðarsýslu býr svo skammt frá kaupstaðnum,' að það þarf ekki að vera til fyrirstöðu tilsjón hans með verzluninni. Hvað Seyðisfjörð snertir, þá eru sýslumaður og læknir ekki mjög lángt þaðan. Með tilliti til vesturamtsins er þess að gæta, að vegna afstöðu þess virðist nauðsynlegt, að löggilda einnig Stykkishólm sem aðalhöfn, með því líka þar er læknir og háyfirvald; einnig gæti sýslumaður verið þar eða þá haft þar umboðsmann, en á hinn bóginn er mikið djúp staðfest á milli Ísafjarðar og Breiðafjarðar, og þar á milli liggur Látraröst, sem opt er ill yfirferðar, einkum fyrir smáskip. Vestmannaeyjar liggja mjög vel við fyrir aðkomuskipum, að hleypa þar fyrst inn, og því leyfum vèr oss að stínga upp á, að þar verði líka löggild aðalhöfn fyrir útlend skip. Ekki virðist heldur fært, að takmarka utanríkismenn í tilliti til tímabils þess, er þeir megi liggja á hverri höfn, fremur en áður hefur verið; því enda 4 vikur eru optsinnis of stuttur tími til þess, að koma þeirra geti frètzt upp í sveitir, og bændur athafnað sig með vörur sínar. Þetta atriði er annars flutt til 9. gr. í uppástúngum nefndarinnar.

Við 4. gr.

Ástæðurnar fyrir þessari grein eru teknar fram áður, og að öðru leyti verður við hana gjört breytíngaratkvæði af einum nefndarmanni.

Við 5. gr.

Það þykir oss skipulegra, að taka ákvarðanir þær, sem hèr er vitnað til í tilsk. 11. sept. 1816, inn í þetta lagaboð, og það því heldur, sem þeim verður nokkuð að breyta, og þar eð þær eiga ekki að öllu leyti við, eins og nú stendur, og verða þær í uppástúngu nefndarinnar 6. til 12. gr.

Við 6. gr.

Þar eð hin dönsku tolllög ekki gjöra neinn mun á útlendum þjóðum eptir kjörum þeim, er hin danska sigling sætir í löndum þeirra, þá virðist það ekki að geta átt sèr stað, að sèrleg álaga sè lögð á hina íslenzku verzlun, sem hefndargjald við þær þjóðir. Nefndin getur ekki heldur sèð líkindi til, að tèð ákvörðun nái tilgángi sínum, en telur það þar á móti víst, að einmitt jafnrèttið verði bezta meðalið, til að ná sanngjörnum kjörum hjá öðrum þjóðum; enda segir í ástæðunum, að það sè mikið efunarmál, hvort nokkurn tíma eigi að taka til slíkra úrræða.

Við 7. gr.

Grundvallarreglan í þessari grein, sem tekin er úr opnu brèfi 1. sept. 1819, er byggð á þáverandi kríngumstæðum í Danmörku, sem ekki eiga sèr stað hèr á landi, þar eð vèr, enn sem komið er, höfum mjög fá þilskip til flutnínga, en ef útlendum væri leyft, að nota þau hèr við land, mætti svo fara, að þeir sigldu þeim híngað, og landsmenn gætu þá fest þau til eignar.

8. gr. verður 13.

Tjara, járn og hampvara virðast eiga að vera undir sama skilyrði, og þær vörur, sem nefndar eru í greininni. Líka sýnist oss, að menn ættu að flytja með sèr mæli og vigt, sem brúkað er við þessar vörur, en þar á móti ætti að banna lóðavigt og vínmál.

Leyfir nefndin sèr svo, að stínga upp á, að frumvarpið verði þannig orðað:

1. gr.

Frá 1. jan. 1852 skal öllum innanríkismönnum vera heim-

ilt, að taka utanríkisskip á leigu og hafa til verzlunar sinnar á Íslandi, með sama rètti og innlend væru.

2. gr.

Utanríkisskipum skal leyft vera, að hleypa inn á þessar hafnir á Íslandi: Reykjavík, Stykkishólm, Ísafjörð, Akureyri, Seyðisfjörð og Vestmannaeyjar, þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf, og þó ekki sè neyð fyrir hendi, en ekki mega þau verzla, nema þau hafi leiðarbrèf.

3. gr.

Frá 1. jan. 1852 mega utanríkismenn sigla upp öll löggild kauptún á Íslandi til verzlunar, þó svo, að þeir komi fyrst inn á einhverja af höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr., og gæti þess annars, sem fyrir verður lagt í lögum þessum.

4. gr.

Til þess að mega verzla á Íslandi skulu allir, bæði utanríkis- og innanríkis-menn, vera skyldir til, eins og híngað til hefur verið, að leysa íslenzk leiðarbrèf; en fyrir þau skal gjalda alls 2 rbdd. af lestarrúmi hverju frá 1. jan. 1852; þar í móti skal frá sama tímabili af lètt því 36 rbskk. gjaldi, sem leiðarbrèf hafa verið leyst með til þessa, og eins það 14 rbmarka gjald, sem skipað er í opnu brèfi 28. des. 1836 § 13.

*Breytíngaratkvæði minna hlutans: B. Benediktsens:*

Jafnvel þó það sè í eðli sínu, og að öllu ei ósanngjarnt, einkum þegar verzlunin er skoðuð frá sjónarmiði Íslands, ef almennt verzlunarfrelsi kæmist á, að utanríkismönnum ætti að veitast að mestu jafnrètti við Dani, þá þykja mèr breytíngar þær, er nefndin fer fram á, og álögur þær, er hún leggur á innlenda verzlun, þá sem nú er, vera svo ískyggilegar, að eg fyrir mitt leyti get ei fallizt á það, og þykist ei heldur þar til hafa neina köllun; mitt breytíngaratkvæði er því, að:

4. gr. öll falli burtu, en í staðinn komi frumvarpsins 4. gr. þannig breytt: „Fyrir leiðarbrèf til Íslands skal hver utanríkismaður greiða 4 rbdd. af hverju lestarrúmi skipsins.

5. gr.

Stjórnin skal sjá um, að leiðarbrèf til Íslands geti fengizt bæði í Kaupmannahöfn, hjá hinum dönsku verzlunarfulltrúum á hagkvæmum stöðum, og hjá lögreglustjórunum á höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr.

6. gr.

Sá, sem vill fá íslenzkt leiðarbrèf, skal skýra frá nafni skipsins, heimili og stærð, og frá nafni eigandans.

7. gr.

Hver sá utanríkismaður, sem siglir til Íslands með leiðarbrèfi, skal hafa vöruskrá, sem skýrir frá öllum tegundum farmsins, og fullgild skilríki fyrir því, að engin næm sótt, mislíngar eður bóla gángi þar, sem skipið fer frá, eður meðal skipverja. Þessi skilríki skal hann sýna verzlunarfulltrúanum, og láta hann rita á þau til staðfestíngar. Fyrir þetta starf á verzlunarfulltrúinn 6 skk. af lestarrúmi hverju.

8. gr.

Öll þau skjöl, sem nú voru talin, skal hann tafarlaust sýna lögreglustjóranum á þeim stöðum, sem getið er í 2. gr., jafnsnart og hann hefur hafnað sig, en lögreglustjórinn ritar á þau.

9. gr.

Að svo búnu má hver utanríkismaður verzla á höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr., og sigla þaðan til annara löggildra kauptúna, sem fyr segir, og verzla þar við kaupmenn og landsmenn, en sýna skulu þeir einnig lögreglustjórninni þar skilríki sín, jafnskjótt og þeir hafa hafnað sig, og láta hana rita á þau. Í verzlun sinni við kaupmennina í aðalkaupstöðunum eru þeir ekki bundnir við neinn tíma, en við aðra mega þeir ekki verzla, nema 4 vikur á hverjum stað.

*Breytíngaratkvæði minna hlutans: B. Benediktsens:*

Það virðist óþarft, að benda til allra þeirra rèttinda og alls verzlunarfrelsis, sem útlendum þjóðum er hèr veitt af meiri og minni hluta nefndarinnar; því svo má kalla, sem það skíni hvervetna út úr hverju orði í nefndarálitinu. En um hitt efast eg, að nokkrum muni finnast um of hlynnt hèr að hinni föstu innlendu verzlunarstètt landsins, en því að eins getur hin frjálsa útlenda verzlun orðið landsmönnum til sannra nota, að hún kollsteypi ekki hinni föstu innlendu verzlunarstètt, eður olli því, að öll verzlun landsins komist eins og á sundrúng og verði stopul mjög, heldur þvert á móti, að hún auki og efli hina innlendu verzlun sem mest má. Ef nú útlendum lausakaupmönnum yrði leyft, með öðrum þeim rèttindum, sem þeim í þessu nefndaráliti eru veitt, að mega verzla á öllum löggiltum verzlunarstöðum með alls konar varníng, þarfan sem óþarfan, við alla landsbúa, þá óttast eg, að hin fasta innlenda verzlunarstètt, sem jafnan er þjáð af ýmsum kostnaði og álögum, geti ei haldið verzlun sinni til jafns við hina útlendu lausakaupmenn, og hljóti því að leggja sem fyrst árar í bát, en þar af leiðir, að verzlunin kemst í hendur máske útlendínga að öllu leyti, og verður mjög á sundrúngu, og er þá líka með öllu óvíst, hverja kosti þeir útlendu menn veita landsmönnum, þegar þeir eru orðnir einir um hituna, enda er þá líka komið í það horf, að óvíst er um næga aðflutnínga á alls konar nauðsynjavörum, en á óþarfavörunum mun sízt verða skortur. En

sè nú þar á móti útlendum lausakaupmönnum leyft, að verzla við landsmenn einúngis með nauðsynjavörur, þá leiðir auðsjáanlega þar af, bæði að minni óþarfavörur flytjast inn í landið, en annars flutzt hefðu, ef verzlunarleyfið væri ótakmarkað; því að öðru leyti mun jafnan vera nægilegt af slíku hjá hinum innlendu verzlunarmönnum; en þar á móti mætti gjöra ráð fyrir, að útlendíngar flyttu jafnaðarlega til vor meira af nauðsynjavörum, en þeir annars gjörðu, ef engar skorður væru við reistar, og þyrfti þá ei heldur að óttast fyrir skorti af þarfavörum, og með þessu móti finnst mèr, að hin fasta innlenda verzlunarstètt fengi staðizt, en annars ekki. Eg verð því að gefa það breytíngaratkvæði mitt við 9. gr.:

að eptir orðin: „að verzla þar við kaupmenn", sè svo breytt:

„en við landsbúa einúngis með nauðsynjavörur, og skulu þeir sýna", o. s. frv.

10. gr.

Á hverjum stað, sem þeir afferma nokkuð eða ferma, skulu þeir gefa lögreglustjórninni skýrslu um það. Allt, sem er affermt, skal rita á vöruskrána.

11. gr.

Öll afbrigði gegn reglum þeim, sem framan eru taldar, eða ef vöruskráin reynist raung, varða 50 til 100 rbdd. sektum, en sèu þau ítrekuð, þá tvöfalt meiri, og má svo gánga eptir sektunum, að leggja skipið í löghald, og selja við opinbert uppboð jafnmikið af farminum, sem við þarf í sektina og kostnaðinn, sem þar af leiðir; hlýtur sá, sem upp ljóstrar, fjórðúng sektanna, en þrír hlutirnir gánga í fátækra-sjóð þar á staðnum.

12. gr.

Það er skylda bæjarfógetans í Reykjavík, og hvers sýslumanns, sem á að segja yfir löggiltum kauptúnum, að sjá um, að utanríkismenn gæti alls þess, sem fyrir er skipað í lagaboði þessu, og svo í hinum íslenzku verzlunarlögum yfir höfuð.

Fyrir að rannsaka og rita á skipsskjöl þeirra, taka þeir endurgjald eptir aukatekjureglugjörð 10. sept. 1830, 62. gr.

13. gr.

Kaupmönnum þeim, sem hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, skal leyft, að senda skip þau, er þeir eiga sjálfir, eða hafa á leigu, frá verzlunarstöðunum til annara staða, er við sjó liggja, og ei að eins sækja þángað farma af íslenzkum vörum, og flytja vörur þær, er þeir hafa selt landsbúum á verzlunarstöðunum, heldur einnig kaupa þar íslenzkar vörur, og selja innbúum það, sem þeir þurfa með til bús síns af kornvöru, steinkolum, við, salti, tjöru, járni og hampvöru. Þeir skulu ekki mega

hafa meðferðis minni mælikeröld en kútmál, og ekki minni vigt en 8 pund.

*Jón Sigurðsson* *Jón Guðmundsson.* *H. Stephensen.*
framsögumaður. *Halld. Jónsson.* *E. Briem.* *B. Benediktsen.*
*Á. Einarsson.*

**Við frumvarp stjórnarinnar og álit nefndarinnar höfðu verið gjörð ýms breytíngaratkvæði, og varð atkvæðalistinn við aðra umræðu þannig lagaður:**

1. *þ. Sveinbjörnsson, þ. Jónasson og P. Pètursson*: Að nefndarálitið í 13 greinum sè fellt.

Við 1. gr. frumvarpsins:

2. *P. Pètursson*: Að úr greininni falli þessi orð: „og skal einnig gætt þess, sem fyrir er mælt í 7. gr. laga þessara".
3. *þ. Sveinbjörnsson* og *þ. Jónasson*: Að úr fellist orðin: „að því undanskildu — neinna fiskiveiða"; og að við enda greinarinnar bætist: „Enn fremur er innanríkisráðgjafanum falið á hendur, að sjá svo um, að leiðarbrèf þau, sem hèr getur um, geti fengizt hjá verzlunarfulltrúum dönsku stjórnarinnar á hagkvæmum stöðum".
4. *P. Pètursson*: (Varaatkvæði við 1. gr. nefndarálitsins.) Upphafi hennar sè þannig breytt: „Kaupmönnum þeim, sem hafa fasta verzlun á Íslandi, skal frá 1. jan. 1852 vera heimilt" o. s. frv.; og við enda þessarar greinar sè bætt: „að því undanskildu, að eigi skal mega hafa skip þau til neinna fiskiveiða".
5. *J. Skaptason*: Í staðinn fyrir: „öllum innanríkismönnum", setjist: „öllum þegnum Danakonúngs", og í staðinn fyrir „utanríkisskip" setjist: „skip, er eiga heima í öðrum löndum".
6. *Nefndin*: Að fyrsta grein frumvarpsins falli burtu, en önnur svo hljóðandi komi í staðinn: „Frá 1. jan. 1852 skal öllum innanríkismönnum vera heimilt, að taka utanríkisskip á leigu og hafa til verzlunar sinnar á Íslandi, með sama rètti og innlend væru".
7. *Stjórnarfrumvarpsins 1. gr.*

Við 2. gr.

8. *þ. Sveinbjörnsson* og *þ. Jónasson*: Að við aðra grein frumvarpsins bætist: „nema innlendur verzlunarmaður taki þau hèr á leigu eptir 1. gr.".

9. *J. Skaptason*: Að 2. gr. nefndarálitsins breytist þannig: í staðinn fyrir „utanríkisskipum" setjist: „skipum þeim, er ekki eiga heima í löndum Danakonúngs". Eptir orðið „Stykkishólm" setjist „Flatey", eptir „Ísafjörð" „Borðeyri, Skagaströnd og Hofsós", eptir „Akureyri" „Húsavík og Vopnafjörð".

10. *J. Skaptason* og *K. Kristjánsson*: Að úr sömu grein falli orðin: „þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf og".

11. *K. Kristjánsson*: Að í enda greinarinnar standi: „en ekki mega þau verzla, nema þau fái leiðarbrèf".

12. *Nefndin*: (Í niðurlagi uppástúngu nefndarinnar) „en ekki mega þau verzla *eða taka farm,* nema þau hafi *eða leysi* leiðarbrèf".

13. *Nefndin*: Að í stað 2. gr. stjórnarfrumvarpsins sè sett þessi grein: „Utanríkisskipum skal leyft vera, að hleypa inn á þessar hafnir á Íslandi: Reykjavík, Stykkishólm, Ísafjörð, Akureyri, Seyðisfjörð og Vestmannaeyjar, þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf, og þó ekki sè neyð fyrir hendi, en ekki mega þau verzla, nema þau hafi leiðarbrèf".

14. *Stjórnarfrumvarpsins 2. gr.*

Við 3. gr.

15. *P. Pètursson*: Að úr 3. gr. frumvarpsins sèu felld þessi orð: „og skal að öðru leyti gætt þess, sem ákveðið er í 7. gr. laga þessara".

16. *K. Kristjánsson*: Í stað 3. gr. nefndarálitsins komi þessi grein: „Frá 1. jan. 1852 mega utanríkismenn sigla upp á aðalkauptún þau, sem nefnd eru í 2. gr."

17. *P. Pètursson*: Við enda sömu greinar sè bætt: „en ekki mega þeir fremur en aðrir, hafa utanríkisskip til neinna fiskiveiða".

18. *J. Skaptason*: Orðin „utanríkismenn" breytist í „útlendir menn", og löggild" í „fyrtèð"; klausan: „þó svo — 2. gr." úr fellist. Seinasti liður greinarinnar breytist þannig: „þó skulu þeir gæta þess, sem fyrir er lagt", o. s. frv.

19. *M. Stephensen*: Að við enda 3. gr. nefndarálitsins sè bætt: „Einnig sè þeim leyft, að flytja og selja timburfarma í Þorlákshöfn."

20. *Nefndin*: Að niðurlag greinarinnar falli úr („og gæti þess annars — lögum þessum"), en í stað þess komi niðurlag 9. greinar þannig orðað: „Í verzlun sinni við kaup-

menn í aðalkaupstöðum þessum eru þeir ekki bundnir við neinn tíma, en við aðra mega þeir ekki verzla nema 4 vikur á hverjum stað".

21. *Nefndin*: Að í stað 3. greinar stjórnarfrumvarpsins setjist svo hljóðandi grein: „Frá 1. jan. 1852 mega utanríkismenn sigla upp öll löggild kauptún á Íslandi til verzlunar, þó svo, að þeir komi fyrst á einhverja af höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr., og gæti þess annars, sem fyrir verður lagt í lögum þessum".

22. *Stjórnarfrumvarpsins 3. gr.*

Við 4. gr.

23. *P. Pálsson*: Við 4. gr. nefndarálitsins, eptir orðin: „að leysa íslenzk leiðarbrèf", bætist: „nema þeir kaupmenn, sem hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, og brúka fè sitt landinu til gagns með jarðarrækt eður öðrum nytsömum viðburðum".

24. *K. Kristjánsson*: Að miðþáttur greinarinnar: „en fyrir þau", o. s. frv., breytist þannig: „fyrir þau skulu búsettir kaupmenn á Íslandi gjalda 1 rbd., en allir aðrir kaupmenn 3 rbdd. af lestarrúmi hverju frá 1. jan. 1852, að undanskildu því lestarrúmi, sem flutt er í timbur til landsins, er ekkert borgast af; þar í móti skal", o. s. frv., sem endi greinarinnar.

25. *Jak. Guðmundsson*: Í staðinn fyrir orðin: „skal gjalda — frá 1. jan. 1852", setjist: „skulu utanríkis-verzlunarmenn gjalda 3 rbdd., danskir verzlunarmenn 2 rbdd., en búsettir kaupmenn á Íslandi 1 rbd. af lestarrúmi hverju frá 1. jan. 1852; en þau skip, sem flytja eingaungu timburfarm til Íslands, fái leiðarbrèf til þeirrar ferðar ókeypis".

26. *Á. Böðvarsson*: Í stað fyrsta og annars liðs í nefndarálitsins 4. gr. setjist: „Til þess, að mega verzla á Íslandi, skulu allir, bæði utan- og innan-ríkismenn, vera skyldir til, að leysa íslenzk leiðarbrèf, en fyrir þau skal hvert innanríkisskip gjalda 1 rbd. af lestarrúmi hverju, en sèrhvert utanríkisskip 2 rbdd.;" en seinasti hluti greinarinnar haldist óbreyttur.

27. *B. Jónsson*: Í stað 4. gr. í nefndaráliti komi ný grein þannig orðuð: „Til þess, að mega verzla á Íslandi, skulu ekki að eins allir innan-, heldur og utan-ríkismenn vera skyldir til, eins og hingað til verið hefur, að leysa íslenzk

leiðarbrèf með hinu venjulega gjaldi, 36 skk. af hverju lestarrúmi, og þar að auk 14 marka gjaldið, sem skipað er eptir opnu brèfi 28. des. 1836 § 13, fyrir það fyrsta í 5 ár, frá 1. jan. 1852 til 31. des. 1857".

28. *Ó. E. Johnsen*: Í stað sömu greinar komi ný svo látandi: „Til þess, að mega verzla á Íslandi, skulu utanríkismenn vera skyldir til, að leysa íslenzk leiðarbrèf, eins og þegnar Danakonúngs, með vanalegu gjaldi, 36 skk. af lestarrúmi hverju. Enn fremur skulu þeir borga aukagjald, 14 mörk af lestarrúmi hverju, fyrir ferðina fram og aptur, eins og þegnar Danakonúngs greiða, þegar þeir flytja íslenzkar vörur til utanríkisþjóða".

29. *P. Pètursson*: Að breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar verði samþykkt, þó með þeirri breytíngu, að í stað 4 rbdd. komi 5 rbdd.

30. *Minni hluti nefndarinnar*: 4. gr. öll (meira hlutans) falli burtu, en í staðinn komi frumvarpsins 4. gr. þannig breytt: „Fyrir leiðarbrèf til Íslands skal hver utanríkismaður greiða 4 rbdd. af hverju lestarrúmi skipsins".

31. *J. Skaptason*: Fyrir orðin: „bæði utanríkis og innanríkis", setjist: „hvort sem þeir eru þegnar Danakonúngs eða ekki".

32. *Nefndin*: Eptir orðin í nefndaruppástúngunni: „að leysa íslenzk leiðarbrèf", komi: „fyrir hverja ferð fram og aptur".

33. *Nefndin*: Í stað 4. gr. stjórnarfrumvarpsins komi ný grein þannig orðuð: „Til þess, að mega verzla á Íslandi, skulu allir, bæði utanríkis- og innanríkis-menn, vera skyldir til, eins og híngað til hefur verið, að leysa íslenzk leiðarbrèf; en fyrir þau skal gjalda alls 2 rbdd. af lestarrúmi hverju frá 1. jan. 1852; þar á móti skal frá sama tímabili af lètt því 36 rbskk. gjaldi, sem leiðarbrèf hafa verið leyst með til þessa, og eins það 14 marka gjald, sem skipað er í opnu brèfi 28. des. 1836 § 13".

34. *Stjórnarfrumvarpsins 4. gr.*

Við 5. gr. nefndarálitsins.

35. *B. Jónsson*: Í stað niðurlags greinarinnar setjist: „og hjá þeim, sem hafa lögreglustjórn á hendi á höfnum þeim" (?).

36. *P. Pètursson*: Á eptir orðinu „stöðum" komi: „og hjá stiptamtmanninum yfir Íslandi, sem aptur sèr um, að þau

fáist hjá lögreglustjórunum á höfnum þeim, sem nefndar eru í annari grein".

37. *Nefndin og J. Skaptason*: Að orðið „bæði" verði fellt úr.

38. *Nefndin*: Í stað niðurlags 3. gr. í stjórnarfrumvarpinu setjist ný (5.) grein svo hljóðandi: „Stjórnin skal sjá um, að leiðarbréf til Íslands geti fengizt bæði í Kaupmannahöfn, hjá hinum dönsku verzlunarfulltrúum á hagkvæmum stöðum, og hjá lögreglustjórunum á höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr."

6. gr., viðauki

39. *nefndarinnar*: „Sá, sem vill fá íslenzkt leiðarbréf, skal skýra frá nafni skipsins, heimili og stærð, og frá nafni eigandans".

Við 7. viðaukagrein nefndarinnar.

40. *K. Kristjánsson*: Í stað þessarar greinar setjist önnur þannig: „Hver sá, sem flytur farma til landsins, skal hafa vöruskrá þannig samda, að hann bjóðist til, að staðfesta hana með eiði, ef krafizt verður".

41. *J. Skaptason*: Greinin orðist þannig: „Hver sá, er flytur verzlunarfarma til Íslands, skal hafa — fyrir því, að *hvorki mislingar, bóla nè aðrar næmar sóttir* gángi þar", o. s. frv. (á þau auðkenndu orð hefur nefndin fallizt). Á eptir orðinu „verzlunarfulltrúanum" setjist: „ef hann fer frá öðrum löndum en Danakonúngs".

42. *Nefndin*: Að upphafið verði svo orðað: „Hver sá utanríkismaður, sem siglir til Íslands *til verzlunar, skal, auk leiðarbrèfsins,* hafa vöruskrá", o. s. frv.

43. *Nefndarinnar 7. viðaukagrein*:
„Hver sá utanríkismaður, sem siglir til Íslands með leiðarbréfi, skal hafa vöruskrá, sem skýrir frá öllum tegundum farmins, og fullgild skilríki fyrir því, að engin næm sótt, mislíngar eða bóla gángi þar, sem skipið fer frá, eða meðal skipverja. Þessi skilríki skal hann sýna verzlunarfulltrúanum, og láta hann rita á þau til staðfestíngar. Fyrir þetta starf á verzlunarfulltrúinn 6 skk. af lestarrúmi hverju".

Við 8. viðaukagrein nefndarinnar.

44. *J. Skaptason*: Greinin breytist þannig: „Öll þau skjöl, sem nú voru talin, skal hann tafarlaust sýna lögreglustjóranum á þeim stað, er hann kemur til, og heilbrigðisskýr-

teini einnig lækninum í því umdæmi, eður manni þeim, er lögreglustjórinn eptir undirlagi við lækninn hefur þar til þess settan. Enginn má byrja verzlun sína fyr, en hann hefur fullnægt þessari skyldu. Á skýrteinin skal lögreglustjórinn rita, að þau hafi sèr verið sýnd, og eins ritar læknirinn eður umboðsmaður hans á heilbrigðisskýrteinin; ber þessum síðar nefndu fyrir þennan starfa sinn 8 rbskk. af hverju lestarrúmi skipsins".

45. *K. Kristjánsson*: Að orðin: „sem getið er í 2. gr.", sèu felld úr, en í stað þeirra sett: „sem siglt er á".

46. *Nefndin*: Að greinin verði svo orðuð: „Öll þau skjöl, sem nú voru talin, skal hann sýna lögreglustjóranum *bæði í aðalkaupstöðum og útkaupstöðum*, *jafnskjótt* og hann hefur hafnað sig — ritar á þau".

47. *Nefndin*: „Öll þau skjöl, sem nú voru talin, skal hann tafarlaust sýna lögreglustjóranum á þeim stöðum, sem getið er í 2. gr., jafnsnart og hann hefur hafnað sig, en lögreglustjórinn ritar á þau".

Við 9. viðaukagrein nefndarinnar.

48. *J.* bóndi *Jónsson*: Að orðin: „Í verzlun sinni við kaupmenn í aðalkaupstöðum eru þeir ekki bundnir við neinn tíma", breytist þannig: „Í verzlun sinni eru þeir ekki bundnir við neinn tíma". Síðasti partur greinarinnar: „en við aðra mega þeir ekki", o. s. frv., burt falli.

49. *J. Skaptason*: Greinin orðist þannig: „Í verzlun sinni við kaupmenn eru útlendir menn, sem með verzlunarfarma koma til landsins, ekki bundnir við neinn tíma, en við aðra mega þeir ekki verzla, nema 4 vikur á hverjum stað. Þeir, sem ekki eru þegnar Danakonúngs, mega ekki verzla af skipum, nema við kaupmenn; en við aðra landsmenn skulu þeir verzla á landi í tjöldum, þar sem lögreglustjórnin haslar þeim völl. Að verzla á landi í tjöldum skal leyft vera lausakaupmönnum úr löndum Danakonúngs".

50. *K. Kristjánsson*: Greinin orðist þannig: „Að svo búnu má hver utanríkismaður verzla á höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr., og verzla þar við kaupmenn og landsmenn. Í verzlun sinni við kaupmennina eru þeir ekki bundnir við neinn tíma, en við aðra mega þeir ekki verzla, nema 4 vikur í hverju aðalkauptúni".

*51. P. Pálsson*: Í staðinn fyrir orðin: „*4* vikur", setjist: „6 vikur".

*52. Breytíngaratkvæði minna hlutans*: Eptir orðin: „að verzla þar við kaupmenn", falli burtu orðin: „og landsmenn — þeir einnig", en bætist inn í aptur: „en við landsbúa einúngis með nauðsynjavörur, og skulu þeir sýna", o. s. frv.

*53. Nefndin*: Að greinin falli burtu (sjá breytíngar við 3. og 8. gr.), og verði þar eptir breytt tölu á eptirfylgjandi greinum.

10. gr., viðauki

*54. nefndarinnar*: „Á hverjum stað, sem þeir af ferma nokkuð eða ferma, skulu þeir gefa lögreglustjórninni skýrslu um það. Allt, sem er af fermt, skal rita á vöruskrána".

Við 11. viðaukagrein nefndarinnar.

*55. J. Skaptason*: Sektin sè frá 50 til 500 rbdd.

*56. B. Jónsson*: „Öll brot — í staðinn fyrir: „afbrigði" — gegn reglum þessum varða 10 til 100 rbdd. sektum".

*57. J.* hreppst. *Sigurðsson*: Að síðustu orðum greinarinnar sè þannig breytt: „en þrír hlutir gángi í sjóð landsins" (?).

*58. Nefndarinnar 11. viðaukagrein*:

„Öll afbrigði gegn reglum þeim, sem framan eru taldar, eða ef vöruskráin reynist raung, varða 50 til 100 rbdd. sektum, en sèu þau ítrekuð, þá tvöfalt meiri, og má svo gánga eptir sektunum, að leggja skipið í löghald, og selja við opinbert uppboð jafnmikið af farminum, sem við þarf í sektina og kostnaðinn, sem þar af leiðir; hlýtur sá, sem upp ljóstrar, fjórðúng sektanna, en þrír hlutirnir gánga í fátækra-sjóð þar á staðnum".

Við 12. viðaukagrein nefndarinnar.

*59. J. Skaptason*: Að á eptir orðunum: „yfir höfuð", bætist inn í: „Eins skulu þeir sjá um það, að þeir ætíð geti fengið til láns eða kaups löggiltar vogir og mæla, er gilda hèr á landi, móti sanngjarnri borgun, til notkunar við verzlun sína".

*60. Nefndarinnar 12. viðaukagrein*:

„Það er skylda bæjarfógetans í Reykjavík, og hvers sýslumanns, sem á að segja yfir löggiltum kauptúnum, að sjá um, að utanríkismenn gæti alls þess, sem fyrir er skipað í lagaboði þessu, og svo í hinum íslenzku verzlunarlögum yfir höfuð.

Fyrir að rannsaka og rita á skipsskjöl þeirra taka þeir endurgjald eptir aukatekjureglug. 10. sept. 1830, 62. gr."

61. *Stjórnarfrumvarpsins 5. gr.*

62. *Stjórnarfrumvarpsins 6. gr.*

63. *Stjórnarfrumvarpsins 7. gr.*

Við 8. gr. stjórnarfrumvarpsins.

64. *þ. Sveinbjörnsson* og *þ. Jónasson*: Að við enda greinarinnar sè bætt: „Þess skal og að öðru leyti gætt, er 7. gr. fyrir skipar".

65 *J. Skaptason*: Að eptir orðin: „og selja", í nefndarálitinu bætist: „útlendar". Sá hluti greinarinnar, sem hèr á eptir fylgir, falli burtu.

66. *B. Jónsson*: Eptir orðin: „járni og hampvöru", bætist inn í: „svo og hverju því öðru, er þarf til húsabygginga, skipa- og sjávarafla - útgiörðar".

67. *K. Kristjánsson, B. Jónsson, P. Pètursson, J.* bóndi *Jónsson* og *nefndin*: Að seinasta klausan úr greininni burt falli.

68. *Nefndarinnar 13. gr.*:

„Kaupmönnum þeim, sem hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, skal leyft, að senda þau skip, er þeir eiga sjálfir, eða hafa á leigu, frá verzlunarstöðunum til annara staða, er við sjó liggja, og ei að eins sækja þángað farma af íslenzkum vörum, og flytja vörur þær, er þeir hafa selt landsbúum á verzlunarstöðunum, heldur einnig kaupa þar íslenzkar vörur, og selja innbúum það, sem þeir þurfa með til bús síns af kornvöru, steinkolum, við, salti, tjöru, járni og hampvöru. Þeir skulu ekki mega hafa meðferðis minni mælikeröld en kútmál, og ekki minni vigt en 8 pund".

69. *Stjórnarfrumvarpsins 8. gr.*

*Forseti*: Eg vil leyfa mèr, áður en gengið er til atkvæða um breytíngaratkvæðin, að gjöra við þau nokkrar athugasemdir. Með tilliti til breytíngaratkvæðis nr. 2, hins 5. konúngkjörna þíngmanns, hefur einn þíngmaður stúngið upp á, að 6. og 7. gr. stjórnarfrumvarpsins skuli burtu falla, og hef eg eigi sett það á atkvæðalistann öðruvísi, en stendur undir nr. 62 og 63 meðal breytíngaratkvæðanna. Vildi eg óska þess, að þíngmenn rituðu breytíngaratkvæðin á atkvæðaskrána um hvað út af fyrir sig. Hinn fyrsti þíngmaður Reykvíkínga gjörði það

breytíngaratkvæði við 13. gr. nefndarálitsins, að endi greinarinnar væri þannig orðaður, að á eptir orðin: „kaupa þar íslenzkar vörur", sè sett: „og hafa þar verzlun af skipi með varníng sinn", en seinasta staflið greinarinnar væri sleppt, og verður það þá sama sem 65. breytíngaratkvæði. Þíngmaður Mýra- og Hnappadals-sýslu kom fram með breytíngaratkvæði, sem ekki er sett, og er það viðauki, þannig, að við breytíngaratkvæði *B. Benediktsens* bætist: „til landssjóðsins"; en þetta bréytíngaratkvæði á ekki hèr við, heldur á það undir annað frumvarp. Einnig hefur hinn fyrsti þíngmaður úr Norðurþíngeyjarsýslu gjört breytíngaratkvæði við 7. og 12. gr., sem ekki eru upp tekin; því þau eiga ekki inn í frumvarpið, og er ekki heldur bent greinilega á, hvar þau eigi að koma inn í, eða hvað eigi að falla burtu, en eptir 57. gr. þíngskapanna eiga breytíngaratkvæðin að vera svo orðuð, að enginn vafi sè á, hvar þau eigi inn í; því það er mjög hæpið fyrir forseta, að fara að gjöra ágizkanir um það, sem ekki liggur beint við. Eg vil enn fremur geta þess, að sá máti, sem nefndin fylgdi með tilliti til frumvarpsins, olli mikilla örðugleika með atkvæðalistann, og eg er ekki viss um, hvort hann er að öllu rètt saminn eða ekki. Eg skírskota til 45. gr. þíngskapanna, er segir, að rannsaka skuli greinir *frumvarpsins*. Þar með er auðsjáanlega meint það frumvarp, *sem stjórnin hefur lagt fyrir þíngið;* en eptir aðferð nefndarinnar má segja, að hún hafi þegjandi kastað á burt stjórnarfrumvarpinu, og sett annað frumvarp í staðinn, og sè eg ekki samband greina og breytíngaratkvæða hennar við greinir stjórnarfrumvarpsins. Eg sè og, að fundarmenn hafa misst sjónar á stjórnarfrumvarpinu, og haldið sèr til nefndar álitsins. Eg álít það skyldu fundarins, að bæta stjórnarfrumvarpið svo vel sem verður; en eg var með tilliti til þessa álits nefndarinnar óviss um, hvort eg skyldi kalla saman fund, og heimta, að stjórnarfrumvarpinu yrði á ný vísað til nefndarinnar, eða ekki. Einu vil eg enn bæta við. Eg áleit, að nefndin mundi ekki í rauninni vilja reka með öllu frumvarp stjórnarinnar, og því er sèrhver grein stjórnarfrumvarpsins sett á atkvæðalistann. Þíngið má ekki gánga lengra, en myndugleiki þess nær. Það má að sönnu óska breytínga á stjórnarfrumvarpinu, og ráða frá því, ef svo sýnist, en ekki kasta því öldúngis á burtu; því slíkt vald til heyrir einúngis þíngi, sem hefur löggefandi vald.

*Framsögumaður* (Kandíd. *J. Sigurðsson*): Eg sè það reyndar á atkvæðalistanum, að hinn háttvirti forseti kvartar ekki að raunalausu; því það er auðsèð, að röðin er þar víða ekki sem rèttust; en það má vel ráða úr því með breytíngu á atkvæðaskránni. Mèr sýnist nú málið yfir höfuð allt einfaldara og brotaminna, en hinn háttvirti forseti lætur í ljósi. Nefndin hefur í uppástúngum sínum við stjórnarfrumvarpið fallizt á grundvallarreglu stjórnarinnar, þá, að skoða verzlunina frá landsins sjónarmiði, og því standa óhaggaðar allflestar þær ákvarðanir, sem þar er stúngið upp á; en menn vildu jafnframt, að sá ójöfnuður, sem þó er á í ýmsum atriðum í stjórnarfrumvarpinu, fèlli burtu. Þegar borin eru saman stjórnarfrumvarpið og nefndarálitið, þá mun það liggja í augum uppi, að menn hafa helzt borið sig að komast hjá óþarflegri orðalengíngu. Stjórnarfrumvarpið er alls ekki greinilegt, auk þess sem það er ekki nærri svo yfirgripsmikið, sem óskandi hefði verið, til þess að hrinda verzluninni hèr á landi í rètta og stöðuga stefnu; en þótt það hefði verið betra, að fá nýtt frumvarp, þá sá nefndin þess ekki kost, og því kaus hún heldur, að fara sem næst stjórnarfrumvarpinu, og það hefur hún gjört. Nefndin vildi og taka burtu ójöfnur þær, sem finnast í frumvarpinu, og er það fyrst, að gengið er fram hjá lausakaupmönnum, og þeir þar með látnir sæta harðari kostum en hinir.

*Forseti*: Þetta mundi máske mega geymast, þángað til að hin eiginlega umræða byrjar; því nú á einúngis að tala um formið.

*Framsögumaður*: Eg hugsaði, að hinn háttvirti forseti ætlaðist til, að umræða um formið væri rèttast geymd, þángað til seinast, á undan atkvæðagreiðslunni.

*Forseti*: Ef hinn háttvirti þíngmaður álítur ræðu sína lúta að forminu, þá haldi hann á fram; því sú umræða er byrjuð, og á að gánga á undan umræðunum um efni málsins.

*Framsögumaður*: Þar næst er það ójafnt, að fastakaupmenn einir skuli ekki geta fengið leiðarbrèf handa utanríkisskipum, sem þeir taka á leigu, nema í Kaupmannahöfn eða hjá stiptamtmanni á Íslandi. Sú álaga, sem til er tekin í 4. gr. stjórnarfrumvarpsins, er enn byggð á ójöfnuði, þar sem gjörður er þar með töluverður mismunur milli utanríkismanna og innanríkismanna, og hefur stjórnin viðurkennt líka sjálf, að þessi stefna sè óeðlileg. Nefndin var enn framar samdóma

stjórninni í því, að hliðra til við fastakaupmennina, en þó ekki svo, að þeir einoki verzlunina, eða geti bolað alla utanríkisverzlun frá, og því vildi nefndin, að fleiri kaupstaðir yrðu til teknir. Reykjavík sjálf er jafnvel ekki komin svo lángt, að henni sè trúandi fyrir, að færa vörur um allt land, og nefndin var hrædd um, að ef Reykjavík ein yrði til tekin, þá mundi vel geta orðið, að aðsókn að þeim eina stað yrði meiri, en hann þyldi, svo að vörurnar yrðu jafnvel að hrekjast til baka, og þá bæri einmitt það að, sem menn hafa mest óttazt, og sízt óskað, að aðsóknin yrði svo mikil, að verzlunarmenn hvekktust og kæmu ekki optar, af því þeim gengi ekki varan út. Á hina síðuna vildi nefndin þó hliðra svo til, að til taka ekki alla kaupstaði, heldur einúngis hina tiltækilegustu og þá, sem alþíngi áður og stjórnin nú hefur bent til, svo að hlynnt væri nú að þessum 6 kauptúnum. Föstukaupmennirnir verða ekkert út undan fyrir það; því þeim, sem búa í hinum fyr nefndu sex kaupstöðum, er í raun og veru veittur þar með forkaupsrèttur á allri vöru, og opnuð öll sambönd við landsmenn. Nefndin hefur jafnvel farið töluvert lengra en stjórnin í því, að hlynna að föstu verzluninni, þar sem hún hefur stúngið upp á, að halda ekki því flutníngaleyfi, sem stjórnin gefur utanríkismönnum í 3. gr., heldur láta fasta kaupmenn eina hafa flutníngaleyfið, og það enn miklu frjálsara, en stjórnin veitir. Með þessu móti mundi koma fram jafnvægi og rètt tiltala milli þessara þriggja flokka: fastakaupmanna; þeir sitja fyrir, og það er rètt, því þeir búa á staðnum, og eru líklegastir og án efa færastir til, að ná í vörruna og dreifa henni um landið; þeir lausakaupmenn, sem innanríkis eru, geta komið á öll löggild kauptún, eins og áður, og þar að auki tekið þátt í utanríkisverzluninni; utanríkismenn geta komið fyrst og fremst til þessara sex staða, sem áður eru til teknir, og síðan, ef þeir komast ekki að verzlun þar, þá til annara löggildra verzlunarstaða. Nefndin gat ekki fallizt á 6. og 7. gr.; á hina fyrri ekki vegna þess, að hún áleit allt hefndargjald vera hègóma einn, eins og reynslan hefur sýnt og mun sýna, og vinna það eitt, að spilla fyrir verzlun landsmanna, en á 7. gr. ekki vegna þess, að öllum er kunnugt, hversu lítill skipakostur er hèr í landi, og að efnahagur er þannig, að menn gætu helzt náð í, að eignast smá skip, en þessu mundi verða hnekkt, ef greinin væri samþykkt. Eins væri óhentugt, að banna fastakaupmönnum smá-utanríkisskip til flutnínga hèr

við land. Fiskiveiðabanni frumvarpsins þótti nefndinni ekki ráðlegt að halda fram; því hún hélt réttast vera, að lögboðið ákvæði að eins um verzlun, og ekki um fiskiveiðar; það er og ísjárvert hvorttveggja, bæði að banna og leyfa þær nú að sinni, og þótti nefndinni ekki þurfa að fara hèr út í það spursmál. Viðvíkjandi 5. gr., þá hefur nefndin í raun rèttri haldið henni, en þó þannig, að hún hefur tekið greinir þær, sem til er vitnað í greininni, úr tilskipun frá 11. d. septemberm. 1816, og sett inn í lagafrumvarpið þannig breyttar, sem frumvarpið sjálft bendir til. Það kann nú sumum að þykja nokkuð efamál, hvort þetta sè veruleg umbót á frumvarpinu, eða hvort vert væri að hafa þessa aðferð, fyrst menn geta nú ekki fengið fullkomin verzlunarlög. Það þykir mèr þó líklegt, að flestum muni finnast það þægilegra, að sjá greinir þessar í lögboðinu þannig, sem þær eiga við, heldur en að láta skírskota til gamals lagaboðs, sem í mörgum greinum er orðið úrelt, fyrst stjórnin hefur nú ekki getað, eða haft tíma til, að semja frumvarp til fullkominna verzlunarlaga, og nefndin gat ekki ætlað sèr það. Eg vil ekki fara fleirum orðum að þessu sinni um skoðunarmáta nefndarinnar, en eg skýt því til hins háttvirta forseta, hvort hann ætlast til, að frumvarpið verði rætt í greinum, eins og áður hefur verið venja.

*Forseti*: Það fer bezt, að sami máti sè hafður, að menn ræði hverja grein með breytíngaratkvæðum sínum út af fyrir sig, og gángi svo til atkvæðagreiðslu um hana.

*Konúngsfulltrúi*: Þar eð eg er sannfærður um, sem atkvæðalistinn og ljóslega ber vitni um', að fundur þessi á þá menn, sem með meiri skarpskygni líta á mál það, sem hèr ræðir um, heldur en nefndin hefur gjört, læt eg mèr nægja, að taka fram þau aðalatriði, sem eg verð að álíta raung með tilliti til grundvallarins *(Principet)*.

Nefndin hefur leitazt við, að koma því til leiðar, að það stjórnarfrumvarp yrði fellt, sem í þeim atriðum, sem verulegust eru, er byggt á uppástúngum alþíngis Íslendínga. Stefna þessi mun hafa þær afleiðíngar, að ómögulegt yrði fyrir stjórnina, að koma með frumvörp, og getur því slík stefna ekki álitizt öðruvísi en raung. Og hvaða þýðíngu geta menn lagt í tillögur fulltrúa Íslands, þegar sá næsti fundur með öllu hafnar því, sem hinn síðasti fundur mælti með?

Nefndin tekur fram, að menn eigi að leitast við, að gjöra

öllum þjóðum jafnt undir höfði; en það er þó líklega hverjum fullljóst, að það er ekki jafnrètti, að gefa utanríkismönnum, sem leggja toll á íslenzkan varníng, sömu kjör og ríkinu, að Íslandi undanskildu, þar sem enginn tollur af íslenzkum varníngi er tekinn.

Nefndin hefur með uppástúngu sinni um, að ríkið, að Íslandi undanskildu, skuli sæta sömu kjörum og utanríkismenn, leitazt við, að setja Ísland með tilliti til verzlunarinnar í sama samband, og utanríkismenn nú standa í við ríkið, og af því getur hver maður sèð að leiðir, svo framarlega fundurinn og stjórnin aðhyllist uppástúngu nefndarinnar, sem varla er ráð fyrir gjörandi, að Ísland mætti sæta sömu kjörum, og þannig næðu þá tolllögin til Íslands; og þar af leiddi þá aptur, eins og stjórnin hefur tekið fram í ástæðunum fyrir frumvarpi þessu, að hèr yrði að setja sjávarvarðhöld, sem bæði eru ýmsum annmörkum bundin, og hafa einnig talsverðan kostnað fyrir landið í för með sèr.

Loksins get eg þess, að enda þótt menn megi og verði að viðurkenna, að framför Íslands verulega sè komin undir því, að fastir kaupmenn blómgist og dafni, leitast nefndin þó við, að mæla fram með þeim grundvallarreglum, sem einmitt hlytu, ef þeim væri fylgt, gjörsamlega að eyðileggja hina föstu verzlun hèr á landi; því allir hljóta að sjá, að þegar hver maður útlendur fær hartnær sömu kjör, og föstu kaupmennirnir nú hafa, geta hinir síðar nefndu, sem í landinu sjálfu hafa mikinn tilkostnað, bæði við verzlunarhús sín og annað fleira, sem lausakaupmenn ekki vita af að segja, ómögulega þrifizt hèr. Hèr við bætist og, að þeim væri ómögulegt, að fá skaða sinn bættan, þegar þær litlu vörubyrgðir, sem landið hefur, yrðu að gánga í svo marga staði, og hinar aðfluttu vörur munu, vegna þess lausakaupmennirnir verða svo margir, næstum að mestu leyti verða keyptar af lausakaupmönnum.

*Framsögumaður*: Ef að hinn háttvirti konúngsfulltrúi finnur mótsögn á milli álits nefndarinnar og alþíngis, þá held eg, að ekki sè minni mótsögn milli þess, sem hann hefur sagt, og þess, sem stiptamtmaðurinn yfir Íslandi sagði 1849 á alþíngi, „að það væri skoðun stjórnarinnar, að ef almennt verzlunarfrelsi ætti að veita, ættu utanríkismenn að fá jafnrètti með Dönum“, og „að það hefði líka ætíð verið gagnstætt grundvallarreglu stjórnarinnar, að láta utanríkisskip borga meiri tolla,

en innanríkisskip". Þetta er nú í verulegri mótsögn við það, sem erindsreki konúngs kemur fram með *núna*. Eg neita því öldúngis, að uppástúnga nefndarinnar sè í mótsögn við það, sem alþíngi hefur áður látið í ljósi um verzlunina, þó að menn gángi í gegnum hverja grein í nefndarálitinu. Konúngsfulltrúinn gæti einúngis sagt, ef það er á annað borð rètt, sem hann sagði áðan, að stjórnin sè nú búin að breyta skoðun sinni á þessu máli, þar sem hún gjörir sig ánægða með, að 50 dala tollurinn sè settur niður í 5 dali, og er henni það ekki láandi; því hún hefur farið eptir áliti alþíngis 1845. Það er því engin mótsögn í því, að nefndin skuli nú að nokkru leyti hafa fallizt á meiníngu stjórnarinnar. Að öðru leyti liggur það í augum uppi, að þessi tollur, sem hèr er verið að tala um, leggst hvorki á Dani, nè Englendínga, nè Frakka, heldur á landsmenn sjálfa; því ekki skil eg, hvaðan konúngsfulltrúinn hefur fengið þá ímyndun, að nefndin hafi þegið Íslendínga eina undan, en skoðað Dani og alla aðra sem utanríkismenn, þar sem nefndin hefur einmitt stúngið upp á, að gjald það, sem hún vill leggja á, komi jafnt á alla, íslenzka menn sem útlenda, og væri hægt að sanna, hvað lítilfjörlegt þetta gjald yrði af hverri vörutegund fyrir sig. Einúngis skal eg taka það fram, að þetta er beinlínis hagur fyrir kaupmennina, þegar þeir flytja vöru sína út; því eptir uppástúngu nefndarinnar kemur 2 dala gjaldið í staðinn fyrir bæði 36 skildínga og 14 marka gjaldið, sem verið hefur að undanförnu. Að öðru leyti er uppástúnga nefndarinnar samhljóða alþíngi, nema hvað nú er heldur meira látið eptir stjórninni, heldur en alþíngi fór fram á 1845, og fleiri böndum haldið. Sama er og að segja um vöruflutníngana og kaupstaðina; því 1845 var beðizt fyrst og fremst, að allir kaupstaðir yrðu frjálsir, en 1849 var einúngis beðið um 6, og því hefur nefndin nú fylgt. Að mínu leyti álít eg það lakast við nefndarálitið, að leiðarbrèfunum skuli vera haldið; því þau eru til lítils gagns, og eru þau hvergi höfð annarstaðar. Samt sem áður leiddist nefndin til að halda þeim, af því stjórnin hefur fundið í þeim nokkra trygging, og að með þeim gjörðust sjóvarnir hèr miður áríðandi, en annars mundi verða. Hvað flutníngana í 8. gr. frumvarpsins snertir, þá er það satt, að nefndin vill gjöra þá svo frjálsa, sem unnt er. Eg er öldúngis á annari skoðun, en hinn háttvirti konúngsfulltrúi í því, að nefndarálitið þrengi of mjög að hinum föstu

kaupmönnum; þeir fá fullkominn forkaupsrètt við alla lausakaupmenn, sem til landsins koma, og eiga kost á, að flytja varníng sinn til annara staða, hvert þeir vilja, og geta þeir þá auðsjáanlega haft fyllstu notin af verzluninni, og eg sè ekki, að þeim geti gefizt neitt kvörtunarefni eptir uppástúngu nefndarinnar.

*Forseti*: Áður en 1. gr. frumvarpsins er rædd, skal eg leyfa mèr að geta þess, af því sumir af þíngmönnum kunna að leiðast til misskilníngs af orðum hins heiðraða framsögumanns, að hann ætlaði að byggja álit sitt á brèfi stiptamtmanns . . .

*Framsögumaður*: Nei, á engu brèfi, heldur á orðum stiptamtmannsins, sem standa á 496. bls. í „Tíðindum frá alþíngi 1849", og sem þannig hljóða: „En stjórnarinnar skoðun var, að ef almennt verzlunarfrelsi ætti að veita, ættu utanríkismenn að fá jafnrètti með Dönum", og „það hefur líka ætíð verið gagnstætt grundvallarreglu stjórnarinnar, að láta utanríkisskip borga meiri tolla, en innanríkisskip".

*Forseti*: En þetta er einmitt það, sem eg álít ránga skoðun, og ætla eg, að slíkt geti hèr aldrei átt sèr stað, þar sem vörurnar hafa allt af gengið tollfríar frá Danmörku til Íslands, og frá Íslandi til Danmerkur, (*Jón Guðmundsson*: 15. gr. í þíngsköpunum!) en milli Íslands og Danmerkur og annara landa gánga vörurnar yfir höfuð ekki tollfríar. Þessa vil eg geta til þess, að þíngmenn ekki leiðist til misskilníngs.

*Framsögumaður*: Eg vil þó minna menn á, að frá þessa árs byrjun hafa Englendíngar gefið öllum kost á, að verzla við sig undir sömu kjörum, og þeir hafa sjálfir, og þessa hafa Danir not, eins og aðrar þjóðir, jafnvel þó að Englendíngar fái ekki að njóta slíkra kosta í öllum Danmerkurlöndum. Mèr finnst það nú ekki sitja á oss, að fara að búa til neina afarkosti á sjálfa oss, og sízt þegar oss bjóðast góðir kostir af öðrum þjóðum, og eg get engan veginn ráðið til þess. Það er líka undarlegt, að menn skuli hèr vilja fara því fram, sem getur orðið sjálfum þeim að skaða. En þó að aðrar þjóðir, t. a. m. Spánverjar, gjöri afarkosti, þá vil eg spyrja, hvort að vèr munum vinna nokkuð við það, að setja afarkosti móti afarkostum. Reynslan er búin að sýna það, að 50 dala tollurinn hefur ekki beygt eina einustu þjóð, til að gjöra oss eða stjórn vorri betri kosti.

*Forseti*: Eg vil þá biðja þíngmenn, að taka 1. gr. frumvarpsins til umræðu.

*þ. Sveinbjörnsson*: Eg get ekki neitað því, þegar eg les nefndarálitið, að mèr finnst aðalstefna þess vera sú, að eyðileggja alla fastakaupmenn og fasta verzlunarstaði hèr á landi. Auk þess sem að þetta lýsir sèr nú í öllum greinum nefndarálitsins, þá er og strax í 1. gr. sama leyfi veitt lausakaupmönnum og hinum föstu, „að taka útlend skip á leigu", og er þá auðsèð, að ef því verður framgengt, þá geta lausakaupmennirnir eyðilagt föstu kaupmennina. En af því sama stefna kemur fram alstaðar í nefndarálitinu, að veita öllum, sem hèr verzla, sömu eða lík rèttindi, og dreifa verzluninni út um allt, og þannig að eyðileggja hina föstu verzlun, þá skal eg ekki að þessu sinni fara um þetta fleirum orðum, heldur geyma mèr það til þess, er hver grein verður rædd.

*Framsögumaður*: Það mælir þó fram með þessari grein nefndarálitsins, að hinn 1. konúngkjörni þíngmaður var hvorki 1845 nè 1849 hræddur við þessa eyðileggíngu. Það, sem nefndin fer hèr fram á, er aðalgrundvallarregla alþíngis. Enda vil eg og leyfa mèr að spyrja, hvort að það muni geta að borið, sem hann nú segir. En það er auðsèð, að ef einhver Íslendíngur vildi fara að byrja verzlun, og hann ætti ekki kost á, að taka utanríkisskip til leigu, þá hlyti hann að fara til Danmerkur, og sæta þeim kostum, sem honum byðust þar; en eg get ekki sèð, að neinn vinni við það, hvorki sá, sem skipið vildi leigja, nè hin danska eða íslenzka verzlun.

*þ. Sveinbjörnsson*: Hinn heiðraði fulltrúi Ísafjarðarsýslu hefur nú sagt, á hvaða meiníngu eg var 1845 um lausakaupmennina, en hann á eptir að sanna það með tilvitnun orða minna í tíðindunum. En þar sem hann fór því fram, að innlendum mönnum kynni að verða bægt frá því, að taka utanríkisskip á leigu, þegar þeir vildu fara að byrja verzlun, þá á þetta hèr ekki við; því þeir menn væru hèr líklega búsettir í landinu, og nytu þá sömu rèttinda, og föstu kaupmennirnir hafa eptir frumvarpinu.

*G. Brandsson*: Það fæ eg ómögulega skilið, að hèr sè ekki verið að hlynna að föstum kaupstöðum, þar sem lausakaupmennirnir eru nú bundnir við viss löggilt kauptún, og er það þá auðsjáanlega hagur fyrir fastakaupmennina, að lausakaupmönnum sè gjört sem hægast fyrir, að fá skip og vörur;

því með þess betra verði geta þeir selt þeim vörurnar; því það eru fastakaupmennirnir öllu fremur en bændurnir, sem hafa forkaupsrètt við lausakaupmennina, og reynslan hefur að undanförnu sýnt, að bændurnir hafa ekki orðið eins hlutskarpir, að ná í vörur hjá þessum mönnum, og er það líka eðlilegt, þar sem þeir standa mjög ójafnt að við hina föstu verzlunarmenn, sem bæði hafa opt meira í höndum af íslenzkum vörum, en hver einstakur bóndi, og eiga líka hægra með, að gjöra samnínga við þá.

*P. Pètursson*: Hvað mitt fyrsta breytíngaratkvæði snertir, að nefndarálitið sè allt fellt í einu, þá gjörði eg það af þeirri ástæðu, sem hinn 1. konúngkjörni þíngmaður hefur þegar borið fram, að það miði til þess, að eyðileggja hina föstu verzlun hèr á landi. Stjórnarfrumvarpið miðar til þess, að rýmka eða losa þau bönd, sem legið hafa á verzluninni, en nú vill nefndin leggja ný bönd á hina innlendu eða föstu verzlun. Með tilliti til þess, er hinn heiðraði framsögumaður gat þess áðan, að tollurinn legðist á landsmenn, þá veit eg ekki, hvort að nefndin hefur nokkurn myndugleika til þess, að leggja nýja tolla á landið, og mèr virðist hún hafa komizt á allt aðra götu, en stjórnin hefur ætlazt til. Þessi skakka stefna nefndarinnar er að minni ætlun sprottin af því, að hún hefur haft jafnrètti þjóðanna og sjónarmið landsins fyrir augum sèr. Af því hún fylgir fram jafnrèttinu, leggur hún bönd á hina innlendu verzlun, en losar um böndin á hinni útlendu verzlun, að því leyti, sem hún skoðar verzlunina frá sjónarmiði landsins. En nefndinni hefur ekki tekizt, að samlaga þessi tvö atriði. Hvað nú jafnrèttið snertir, þá er það að skilja eptir skoðun nefndarinnar þannig, að allar þjóðir hafi vissa kröfu til verzlunar hèr á landi, en það er aðgætandi, að þær hafa því að eins þessa kröfu, að verzlun þeirra verði landinu í hag, og þetta verða menn að hafa fyrir augum; því eins og tóm hugmynd á jafnrètti þetta sèr ekki stað, heldur að því leyti, sem það stendur í sambandi við hagsmuni landsins. Í slíku sambandi stendur nú landið einúngis við Danmörku; því hún ein leyfir oss, að flytja vörurnar tolllausar til sín. Ef að nú nefndarálitinu yrði framgengt, og Danir vildu síðan gjalda líku líkt, þá ræki að því, að vèr kæmumst fljótt út yfir þessa tolllínu, sem vèr sjálfir hefðum gjört oss, og er þá hægt að sjá, hvaða afleiðíngar slíkt mundi hafa, þar sem vèr getum hvergi fengið kornvöru eða matvæli

með eins góðu verði, og frá Dönum eða frá Eystrasalti, en þeir mundu þá jafnvel leggja Eyrarsundstoll á kornflutníngana frá Eystrasalti, sem fara í gegnum Eyrarsund. Eg er að sönnu ekki hræddur um þessar afleiðíngar, af því að Danir mundu naumast beita því, fyr en í seinustu lög, heldur um hitt, að úrslit þessa málefnis dragist lengur, en vèr mundum óska, ef nefndarálitinu yrði framgengt á þessu þíngi, og þess vegna mæli eg á móti því, og hef borið upp það breytíngaratkvæði, að nefndarálitið yrði allt saman fellt í einu.

*Framsögumaður*: Það eru helzt þrjú atriði í ræðu hins 5. konúngkjörna þíngmanns, sem mèr þykir þörf að svara. Því hvað breytíngaratkvæði hans snertir, þá er það að sönnu voðalegt, og eitthvað kempulegt í því, að vilja fella nefndarálitið svona allt í einu. En undarleg þykir mèr slík atkvæðagreiðsla, og eg vona henni verði varla fylgt nú, þó hún hafi átt sèr dæmi á þíngum hèr að undanförnu, þegar spurt hefur verið, hvort þíngið fèllist á frumvarpið eða nefndarálitið breytt eða óbreytt; því það er augljóst, að með þessari atkvæðagreiðslu einni, en engri annari, getur slíkt breytíngaratkvæði orðið borið upp til atkvæða. Eg get því ekki sèð, að þíngið geti nú þegar tekið atkvæðið til greina, nema jafnóðum og hver grein verður rædd, og þá vil eg fyrir mitt leyti ekki banna manninum, að standa upp þrettán sinnum, þó það sè nokkurt ómak fyrir hann.

Hvað nú álögurnar snertir, þá vil eg leyfa mèr að spyrja, hvaða álögur nefndin leggur á, sem stjórnin hefur sjálf ekki gjört. Hún hefur stúngið upp á 5 dala tolli af öllum utanríkisskipum, auk þess venjulega gjalds fyrir leiðarbrèfin. Nú er þá spurníngin, hvort að þetta ójafna gjald eigi að standa, eða annað að koma í staðinn fyrir það, sem nái jafnt yfir alla. Eg get ekki betur sèð, en að nefndin fari því fram, sem sanngjarnara er. Enda mun stjórnin hafa stúngið upp á þessu 5 dala gjaldi mest eptir tillögum alþíngis, og þó hafa margir, sem ritað hafa um þetta málefni í Danmörku, mælt á móti þessum mismun á tollinum, bæði stórkaupmannafèlagið, tollkammerið og innanríkisráðgjafinn, sem er þó vel kunnugur verzlunarmálinu. Þar sem þíngmaðurinn sagði, að engin þjóð hefði kröfu á því, að verzla við oss, þá læt eg það svo vera; en hitt er víst, að vèr höfum kröfu á því, að verzla við allar þjóðir. Af því að þíngmaðurinn lýsti því yfir, að hann væri

sjálfur ekki hræddur við álögur Dana á kornflutníngana, þá ætla eg ekki að eyða orðum að því. En hvað því viðvíkur, að úrslit þessa málefnis muni dragast, ef nefndarálitinu yrði framgengt á þessu þíngi, þá held eg, að auðna verði að ráða því; eg gjöri ekki ráð fyrir, að hinn heiðraði þíngmaður, nè nokkur af oss hinum, sem hèr erum nú, verði svo snemma konúngur eða stjórnarherra, að vèr getum um það spáð.

*P. Pètursson*: Viðvíkjandi fíndni framsögumannsins, þá finn eg ekki ástæðu til, að svara henni. Eg get ekki betur sèð, en að hann hafi í engu hrakið mínar ástæður, sem eg færði til áðan. En þar sem hann sagði, að vèr hefðum kröfu á því, að verzla við allar þjóðir, þá er það að vísu satt, og eg veit ekki betur, en að oss sè þetta heimilt, en eg held, að það sè efasamt, hvort oss muni vera það hollt, að fara að leggja nýjan skatt á Dani, eins og nefndarálitið fer fram á, og að því vildi eg leiða athygli þíngmanna.

*Framsögumaður*: Það er undarlega að orði komizt, að kalla það að leggja skatt á Dani, þar sem vèr þó einúngis leggjum hann á sjálfa oss.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Framsögumaður gjörði mikið úr sanngirninni í nefndarálitinu, en eg get ekki fundið neina sanngirni í því, sem nefndarálitið fer fram á í 4. gr., þar sem farið er fram á, að gjöra öllum þjóðum jafnt undir höfði með leiðarbrèfaborgunina; því það er ekki sanngjarnt, að Spánverjar, sem taka kannske helmínginn af fiski vorum í toll, og Frakkar, sem öldúngis loka höfnum sínum fyrir oss, skuli vera teknir til jafns við þá þjóð, sem engan toll tekur af neinni vöru, sem vèr flytjum til hennar frá oss, og sem vèr þar að auki höfum mest saman við að sælda, og er oss í öllu nákomnust. Þetta get eg ekki kallað neina sanngirni, þó eg svo aldrei nema vildi skoða það frá Íslands sjónarmiði, sem kallað er.

*Forseti*: Fyrst enginn tekur til máls framar, ætla eg að biðja menn, að gánga til atkvæða.

*Framsögumaður*: Eg held, að það færi bezt á því, að fyrst væri gengið til atkvæða um breytíngaratkvæðin við nefndarálitið, en síðan um breytíngaratkvæðin við frumvarp stjórnarinnar, af því að uppástúngur nefndarinnar eru ekki annað, en breytíngar við stjórnarfrumvarpið, og má koma þessu við, ef 4., 5. og 6. breytíngaratkvæði eru fyrst tekin til atkvæðagreiðslu.

*Forseti*: Eg játa, að þetta sè satt og hefði átt vel við, ef að nefndin hefði farið þann veg, sem eg álít rèttastan, og tekið stjórnarfrumvarpið fyrir, og gjört breytíngar við það; en eg get ekki betur sèð, en að nefndarálitið sè eins og nokkurs konar nýtt frumvarp, og að nefndin hafi óbeinlínis kastað stjórnarfrumvarpinu. Þessa vegna hef eg ráðið það af í atkvæðalistanum, að láta stjórnarfrumvarpið allt af gánga á undan.

*Framsögumaður*: Ef hinn háttvirti forseti vildi gefa gætur að nefndarálitinu, þá mundi hann fljótt sjá, að nefndin hefur ekki kastað frumvarpi stjórnarinnar, heldur þvert á móti rakið greinir þess hverja fyrir sig.

*Forseti*: Eg hef þegar fundið að því, að nefndin hafi ekki leiðbeint þíngmönnum, af því að hún hefur búið til nýtt frumvarp. En nú vil eg skjóta því til þíngmanna, hvort þeir vilja fyrst greiða atkvæði um 4., 5. og 6. tölulið, og svo um 2., 3. og 7.

Gengu þá þíngmenn til atkvæða, og samþykktu, að svo skyldi raða liðunum til atkvæðagreiðslu, sem framsögumaður hafði stúngið upp á.

*Forseti*: Það er þá fyrst að gánga til atkvæða um 4. tölulið, sem er breytíngaratkvæði hins 5. konúngkjörna þíngmanns.

*P. Pètursson*: Áður en gengið er til atkvæða, vildi eg leyfa mèr að mæla nokkur orð viðvíkjandi þessum 4. tölulið.

*Forseti*: Eg vil taka það fram núna eitt skipti fyrir öll, að eg vil biðja þíngmenn, að ræða í einu öll breytíngaratkvæði við hverja grein í frumvarpinu eða nefndarálitinu.

*H. Stephensen*: Eg vildi leyfa mèr að vekja máls á því, hvort það væri leyfilegt eptir þíngsköpunum, að taka til máls, úr því að atkvæðagreiðsla er byrjuð.

*P. Pètursson*: Hvorki þíngmaðurinn úr Húnavatnssýslu eða nefndin hefur enn þá tekið til máls um breytíngaratkvæði sín, og eg læt mèr þá lynda, þó eg fái ekki að gjöra það, ef að þeirri reglu verður fylgt, að gánga til atkvæða um hverja grein án umræðu.

*Forseti*: Atkvæðagreiðslan er enn ekki byrjuð, og hinn konúngkjörni þíngmaður hefur því leyfi til, að taka til máls.

*P. Pètursson*: Eg vil einúngis geta þess, að þetta varaatkvæði er ekki annað en það, sem er í stjórnarfrumvarpinu. Í upphafi þess er einúngis haft tillit til hinna föstu kaupmanna, en gengið fram hjá hinum innlendu lausakaupmönnum, og í

niðurlagi þess er tekið upp bannið móti fiskiveiðum. Hvað hið fyrra atriði snertir, þá skírskota eg til þess, er eg sagði við hina fyrstu umræðu máls þessa, að lausakaupmönnum getur ekki verið nein þága í því, að geta tekið utanríkisskip á leigu, en sviptast aptur þeim rètti, er þeir nú hafa, að mega sigla upp öll kauptún, heldur er þeim einmitt skaði að þessum skiptum; því það mun optast standa svo á fyrir þessum mönnum, að þeir annaðhvort eiga skip sjálfir, eða geta fengið þau með hægu móti hjá kunníngjum sínum. Þeir munu og optast nær hafa fastan atvinnuveg, og verða því tregari til þess, að fara til útlanda, til að fá sèr þar skip á leigu. En hvað nú banninu á fiskiveiðum viðvíkur, þá hlýt eg enn að vera á sömu meiníng og seinast, að það sè ísjárvert, að leyfa þær; en leyfðar eru þær, ef þær eru ekki bannaðar. Eg sè nú ekki betur, en að það hlyti að hafa skaðleg áhrif á verðlag á fiski einmitt hjá innbúum landsins, þegar hverjum sem vildi væri gefið leyfi til, að veiða, leggja upp og verka fiskinn; enda gætu og skip komið híngað til lands í því yfirskyni, að verzla, en verið á fiskiveiðum, ef það væri ekki bannað, og því heldur kynnu þeir að vilja selja eða skilja eptir sinn fisk hèr, sem aðfluttar vörur taka optast nær minna rúm í skipinu, en vörur landsmanna. Þetta gæti nú auðsjáanlega orðið til þess, að setja niður fiskinn fyrir bændunum, sem væri kannske síður útgengilegur eða vandaður, og yrði þá hin síðasta afleiðíng af leyfinu bersýnilega engin önnur en sú, að fiskur landsmanna mætti til með að sitja á hakanum.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg vil leyfa mèr að spyrja, hvort að atkvæðalisti forseta sè ekki regla fyrir þíngmenn, samkvæmt 62. gr. þíngskapanna, og það eigi því fyrst að greiða atkvæði um 1. staflið í honum.

*J. Skaptason*: Ástæða mín fyrir breytíngaratkvæðinu í 5. stafllið er sú, að mèr þóttu orðin „innanríkis" og „utanríkis" í grein nefndarinnar vera óviðfeldin, og ekki þurfa á þeim að halda, þar sem málið átti önnur orð sömu merkíngar og alkunn. Orðið „ríki" í þeirri merkíngu, sem nefndin hefur í þeim hèr áminnstu orðum brúkað það, álít eg að sè ekki búið að ná nægilegri festu, þar eð það ekki einúngis yfir grípur það svo kallaða Danmerkurríki (Eydani og Jóta), heldur líka hertogadæmin og Ísland, o. s. frv.

*Jak. Guðmundsson*: Viðvíkjandi því, sem hinn 5. kon-

úngkjörni þíngmaður lèt það í ljósi, að hann vildi ekki leyfa lausakaupmönnum, að taka utanríkisskip á leigu, af því hann ætlaði að hlynna að föstu verzluninni í landinu, þá sè eg ekki, að það sè mikið hlynnt að hinni föstu verzlun með þessu. Eg vil að sönnu einnig hlynna að hinni föstu verzlun, og einkum að hinum búsettu verzlunarmönnum, en eg vil, að það sè þann veg gjört, að þeim geti orðið það að liði. Hinn konúngkjörni þíngmaður játaði sjálfur, að lausakaupmönnum mundi raunar ekki koma þetta leyfi að miklum notum, og þá sè eg ekki, að það geti heldur orðið fastakaupmönnunum að miklum baga. Eg er að sönnu samdóma honum í því, að lausakaupmennirnir mundu ekki vilja skipta þeim rètti, sem þeir nú hafa, fyrir það, að mega taka utanríkisskip á leigu, en eg er sannfærður um, að mismunur á tolli og aðalrèttindum kaupstaðanna mundi fremur miða til þess, að koma upp föstum kaupstöðum og búsettum kaupmönnum í landinu, heldur en það, sem hann fer fram á um bannið á að leigja utanríkisskip. Hvað nú fiskiveiðunum viðvíkur, þá getur mèr ekki betur skilizt, en að þeim sè öldúngis sleppt eptir nefndarálitinu, en eptir eldri löggjöf eru þær bannaðar, og með nefndarálitinu er ekki þetta bann numið burtu; því til þess þyrfti nýtt lagaboð; því nefndin talar einúngis um skip þau, er til verzlunar megi nota, en nefnir ekki fiskiveiðar.

*Framsögumaður*: Eg vona, að allir þíngmenn hafi tekið eptir því, að hèr er stundum sagt, að ef lausakaupmenn fengju leyfi til, að taka utanríkisskip á leigu, þá mundi það eyðileggja hina föstu verzlun hèr á landi, og á hinn bóginn þó játað, að þetta leyfi mundi ekki gjöra neitt til; því þeir mundu ekki nota það. Þetta er nú beinlínis í mótsögn hvað við annað, og sýnir það, hvílíkur hvikulleiki er á skoðuninni, þegar menn standa ekki á neinum föstum grundvelli.

*Jón Guðmundsson*: Með tilliti til þess, er hinn 1. konúngkjörni þíngmaður benti til 62. gr. í þíngsköpunum áðan, þá vil eg nú leyfa mèr að benda til 67. gr. í sömu lögum.

*Forseti*: Það er satt, að 67. gr. þíngskapanna á hèr við, og læt eg atkvæði þíngsins gilda um röðina á stafliðunum í atkvæðalistanum.

*P. Pètursson*: Viðvíkjandi því, er framsögumaðurinn síðast mælti, þá ætla eg að leyfa mèr að geta þess, að eg tók það aldrei fram, að hinir innlendu lausakaupmenn mundu drepa

föstu verzlunina niður, heldur skoðaði eg málefnið frá sjónarmiði sjálfra lausakaupmannanna.

*Framsögumaður*: Þá kemur fram nýr misskilníngur; því nefndin hefur ekki ætlað sèr, að takmarka hina innlendu lausakaupmenn.

*P. Pètursson*: Eg játa þá, að lausakaupmenn vinna mikið, ef að það er meiníng nefndarinnar, að þeir megi hleypa inn á hvert kauptún, sem þeir vilja.

*Framsögumaður*: Það er þeim leyfilegt eptir tilskipuninni frá 1816, eins hèr eptir eins og híngað til.

*P. Pètursson*: Nefndin sjálf hefur bundið þetta leyfi fyrir utanríkisskip við 6 hafnir, og er þá eðlilegt, að þetta nái eins til hinna innlendu lausakaupmanna, eins og til annara, sem hefðu utanríkisskip til meðferðar.

*Framsögumaður*: Það er sjálfsagt, að þetta snertir bæði innlenda lausakaupmenn og fastakaupmenn, en nefndin hefur ekki lagt neinar frekari tálmanir á þá, en áður voru í lögum, heldur hefur hún einúngis haldið þeirri tálmun, sem stjórnin hefur stúngið upp á, og þó með þeirri rýmkun fyrir lausakaupmenn, sem nauðsynleg þótti.

*Forseti*: Þar eð enginn tekur framar til máls, þá bið eg þíngmenn, að gánga til atkvæða um 4. breytíngaratkvæði.

*P. Pètursson*: Ef hinn háttvirti forseti vildi bera þennan tölulið upp í tvennu lagi, þá væri mèr það kærara.

*Forseti* skaut því síðan til þíngsins, hvort svo skyldi vera, og var það af ráðið með atkvæðafjölda.

Síðan var gengið til atkvæða um fyrra kafla breytíngaratkvæðisins, og hann felldur með 37 atkvæðum móti 5.

Þar næst var gengið til atkvæða um síðara kafla breytíngaratkvæðisins, og hann einnig felldur með 35 atkvæðum móti 6.

Þá var gengið til atkvæða um 5. breytíngaratkvæðið, og því hrundið með 39 atkvæðum móti 3.

*Forseti*: Þessu næst kemur þá hin fyrsta uppástúnga nefndarinnar; því eptir viðtektum þíngsins verður ekki 1. breytíngaratkvæðið á listanum borið allt undir atkvæði í einu lagi, heldur kemur það fram við sèrhverja grein, jafnótt og hún verður borin upp til atkvæða, og næst tilgángur þess með því, að gefa atkvæði móti grein hverri.

Því næst var gengið til atkvæða um 6. staflið, og var hann samþykktur með 35 atkvæðum móti 6.

þegar að þíngmenn voru þannig búnir að samþykkja fyrstu uppástúngu nefndarinnar, þá þótti ekki þurfa, að gánga til atkvæða um 2., 3. og 7. staflið á atkvæðalistanum, vegna þess að þeir voru þá þegar felldir.

þá tók forseti 2. gr. til umræðu.

*þ. Kristjánsson*: þíngmenn hafa nú sèð, að eg hef gefið atkvæði móti fyrstu grein í nefndarálitinu, af því að eg gat ekki fallizt á hana. Yfir höfuð greinir mig í flestum atriðum nokkuð á við nefndina í þessu máli, en einkum viðvíkjandi afgjaldinu í 4. gr. Eg hefði viljað láta fara hóflegar að, og halda sèr betur við frumvarp stjórnarinnar og grundvallarástæður þess. Hvað viðvíkur 2. gr. nefndarálitsins, sem nú er tekin til umræðu, þá veit eg ekki, hvað það á að þýða, að leyfa utanríkisskipum, án þess að neyð reki til, að hleypa upp á svo margar hafnir leiðabrèfalausum, þegar þau eiga nægan kost á, að fá þessi leiðarbrèf hjá verzlunarfulltrúum út um allan heim. þeim mönnum, sem ekki hafa gefið um, eða vanrækt, að leysa þessi brèf, áður en þeir koma til landsins, þykir mèr óþarfi að hlífa við því, að koma í Reykjavík fyrst, til að útvega sèr brèfin hjá stiptamtmanni. Leið hinna útlendu skipa liggur hvort sem er optast nær sunnan að landinu, og þaðan geta þau svo farið bæði austur fyrir land og vestur, eins og lausakaupmenn mjög opt gjöra.

*Á. Einarsson*: það er þó krókur fyrir skip, að koma fyrst til Reykjavíkur, og fara síðan þaðan t. a. m. norður á Eyjafjörð.

*þ. Kristjánsson*: Eg get ekki talið það eptir þeim, enda er Akureyri sá staður, sem eflaust yrði í þessu tilliti fyrst settur jafnsíða Reykjavík á landi hèr.

*Framsögumaður*: það leyfi, sem hèr ræðir um, er töluvert annars eðlis, en þeim er gefið, sem ætla að verzla hèr; því hèr ræðir um þá menn, sem verða að hleypa inn á einhverja höfn, til að fá sèr vatn, kost, eða aðrar nauðsynjar, eða þau skip, sem koma hèr af hendíngu til, eða til að bjóðast til farmtöku, eða sem hafa sótt um leiðarbrèf, en ekki fengið. Hèr er þá einúngis um það að spyrja: „Á maður að taka það fram, að skip megi leggja inn, eða á að banna móti því? eða á að taka það fram í lögum, sem nú gengst við í óleyfi?“ Nefndinni kom nú ekki til hugar, að stínga upp á, að banna það, sem stjórnin vill leyfa, og leyft er í verkinu, að koma til Reykja-

vikur; en nefndinni þótti einnig ráðlegt, að halda greininni, þar eð stjórnin lætur í ljósi, að hún áliti utanríkisskipum óheimilt, að hleypa í hafnir hèr, eptir lögunum, og þurfi því að taka fram leyfi þetta, ef það skuli löglegt verða. En þegar leyfið er veitt, þá verður spurníngin einúngis um það, hvort maður eigi að halda sèr til Reykjavíkur einnar, eins og stjórnin hefur stúngið upp á, eða til þeirra 6 staða, sem nefndin hefur tekið til. Nefndin sá nú enga ástæðu til, að binda skip svo við borð, að þau mættu ekki koma til annara staða, en Reykjavíkur einnar; en það, sem nefndin tók fram: „þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf", nær einúngis til þeirra skipa, sem ekki koma til að verzla; en til að koma í veg fyrir allan misskilníng, sem nefndinni þótti vera í frumvarpi stjórnarinnar, og þess vegna ískyggilegt, að taka hana óbreytta, þá hefur nefndin bætt við í greinina: „en ekki mega þau verzla, nema þau hafi leiðarbrèf", og getur þetta því ekki verið neinum misskilníngi undirorpið.

*P. Pètursson*: Viðvíkjandi því, að nefndinni hafi þótt ískyggilegt, að fallast á 2. gr. í stjórnarfrumvarpinu, því þá kynni eitthvert skip að nota tækifærið, til að verzla, þó ekki hefði það íslenzkt leiðarbrèf, þá verður það ekki leitt út úr stjórnarfrumvarpinu, en það leiðir af þeirri uppástúngu nefndarinnar, að leiðarbrèfin geta fengizt hjá lögreglustjórunum á hverri höfn. Mèr sýnist annars, að nefndin hafi fylgt stjórnarfrumvarpinu í smámununum, en farið gagnstæða leið í því verulega. En eg held, að stjórnin hafi ímyndað sèr, að þetta leyfi yrði ekki notað hèr á óleyfilegan hátt, ef leiðarbrèfin fengjust hèr ekki.

*Framsögumaður*: Það getur nú verið, að það sèu smámunir, en eg get ekki annað en álitið það merkilegt atriði, að taka það úr lögum, að banna nauðstöddum mönnum, að leggja inn á höfn.

*Þ. Kristjánsson*: Það er ekki bannað, að leggja inn á höfn, þegar einhver neyð er fyrir hendi; það hefur mèr ekki dottið í hug; en eg sè enn ekki neina þörf á að svo stöddu, að gefa utanríkismönnum kost á, að fá svo víða hèr við land leyfi til, að verzla, og held það yfir höfuð ekki vel til fallið, að láta sýslumenn út býta leiðarbrèfum. Annað mál sýndist mèr, ef amtmennirnir fyrir norðan og vestan hefðu líka þessi brèf, eins og stiptamtmaður, og gætu þau þá fengizt bæði á Akureyri og í Stykkishólmi, og það þykir mèr nægilegt frelsi í þessu atriði að svo komnu, þegar þau skip, sem hafa leiðar-

brèf utanlands frá, mega beinlínis sigla upp á sex stöðum hèr við land, og innanríkis-lausakaupmenn mega fara strax á hvert kauptún, sem löggilt er, til að verzla.

*Framsögumaður*: Eg á bágt með að skilja, að menn geti gjört leiðarbrèf framar að amtmannamáli en sýslumannamáli, þó að svo sè farið að í frumvarpinu, að stiptamtmaðurinn sè gjörður að eins konar nýlendujarli í þessu; en hitt er auðsèð, að lögreglustjórunum á hverjum stað er eins trúandi fyrir, að veita leiðarbrèf, eins og að skrifa á þau.

*P. Pètursson*: Eg vil leyfa mèr að spyrja hinn háttvirta forseta, hvort það heyri ekki undir 5. gr., að tala um leiðarbrèfin.

*Forseti*: Eg neita því ekki, að ræður manna eru nokkuð orðnar á reyki.

*Jak. Guðmundsson*: Eg get ekki sèð, að í þessari grein sè nokkur annar munur á frumvarpi stjórnarinnar og uppástúngu nefndarinnar en sá, að í frumvarpinu er tekinn til einn staður, en nefndin hefur stúngið upp á 6; en í öllu öðru sýnist mèr að nefndin sè samdóma frumvarpinu.

*H. Stephensen*: Nefndin hefur stúngið upp á, að það megi verzla, en í frumvarpinu er þess einúngis getið, að þau megi hleypa inn. Þetta leyfi, sem nefndin hefur stúngið upp á að veita, gefur mönnum kost á, að flytja farma og leigja skip, ef þau hafa fengið leiðarbrèf hjá stiptamtmanni, og fyrir því finnst mèr, að umræður um þetta mál eigi hèr við.

*P. Pètursson*: Eg vildi spyrja nefndina að, hvort þau skip þurfi að hafa með sèr vöruskrá, sem ekki hafa leiðarbrèf, en koma þó híngað til að verzla. Mèr skilst ekki betur, en þetta sè meiníngin í 2. gr.; því þar er ekki talað um vöruskrá, en í 7. gr. er hverjum þeim utanríkismanni, sem siglir híngað *með leiðarbrèfi*, gjört að skyldu, að hafa með sèr vöruskrá, og finnst mèr þetta vera nokkur ójöfnuður og mótsögn í nefndarálitinu, sem getur leitt það af sèr, að skip hleypa hèr inn vöruskráar- og leiðarbrèfs-laus, og geta þannig farið í kríng um lagaboðið.

*Framsögumaður*: Þá vil eg leyfa mèr að spyrja þíngmanninn að annari spurníngu. Hvað ætlar hann að gjöra við skip, sem koma híngað með vörur leiðarbrèfslaus? hvort ætlar hann að lofa þeim að leysa leiðarbrèf, eða reka þau á burt? Nefndin hefur ætlazt til, að yfirvaldið greiddi úr þessu

eptir kríngumstæðum, og skæri úr, hvort það eigi að banna þeim verzlun, eða leyfa þeim hana, eptir að þau hafa leyst leiðarbrèf.

*P. Pètursson*: Stjórnarfrumvarpið leyfir ei slíkum mönnum að verzla; en það var meiníng mín, að löggjöfin mætti ekki, og því ei heldur nefndarálitið, upp hefja það í einni grein, sem hún löggildir í hinni; en ef þau hafa vöruskrá, þá finnst mèr, að þau eigi að fá, að leysa leiðarbrèf, en annars ekki.

*Framsögumaður*: 12. breytíngaratkvæðið tekur það fram, að menn megi ekki verzla hèr eða taka farm, nema þeir annaðhvort hafi eða leysi leiðarbrèf. Með þessu er því fyrir girt, að menn annaðhvort komist hjá, að taka leiðarbrèf, eða að gjöra það í ótíma; en einmitt í því tilliti er uppástúnga frumvarpsins ísjárverð; því eptir 2. gr. geta skip hlaupið híngað inn og sagt: „Eg sótti um leiðarbrèf í Kaupmannahöfn, en gat ekki fengið í tíma. Nú vil eg biðja herra stiptamtmanninn, að gjöra svo vel, og láta mig fá það nú undir eins“, og það gæti hæglega að borið, að menn næðu með þessu móti leiðarbrèfum, þó þeir hefðu aldrei sótt um þau fyrri.

*P. Pètursson*: Eg verð að bera öldúngis á móti þessu; því eptir tilskipun frá 13. júní 1787 kap. I, 11. gr. er þeim þar umgetnu dönsku skipum ekki leyft, að verzla, nema einúngis að því leyti, sem skipverja vanhagar um eitthvað, og með að eins smámuni; en nú hefur nefndin útvegað utanríkisskipum, sem líkt er ástatt fyrir, að þau megi verzla og taka farma, og finnst mèr, eins og eg hef áður sagt, að þessu leyfi sè allt öðruvísi varið en stjórnarfrumvarpsins.

*G. Einarsson*: Eg ímyndaði mèr, að hinn háæruverðugi 5. konúngkjörni þíngmaður mundi fylgja fram 12. staflið, fyrst hann vill hlynna að verzlun fastakaupmanna; því þessi grein er einmitt þeim í hag að sumu leyti, þegar t. a. m. tóm skip koma inn á hafnir, sem vildu gjarnsamlega, eins og eg get vel ímyndað mèr, taka farm til útlanda fyrir minna verð, en kaupmenn annars fengju þá flutta fyrir; en hún er líka að sumu leyti hagfeld fyrir verzlun landsmanna sjálfra, og verzlun landsins yfir höfuð. Það getur t. a. m. borið svo að, að farmskip, sem færi frá Vesturheimi til verzlunar til Frakklands eða Englands, sneri af leið einhverra orsaka vegna híngað, og hefði því ekki leiðarbrèf til verzlunar á Íslandi; væri það þá ekki næsta nauðsynlegt, að það gæti

fengið leiðarbrèf hèr og verzlunarleyfi? Væri ekki hörmúng til þess að vita, ef lögin sjálf einmitt bægðu bæði kaupmönnum og landsbúum frá, að njóta hagsmuna þeirra, er þessi eða áþekk tilfelli kynnu að fram bjóða.

Það getur nú verið, að menn gjöri þá mótbáru, að sè útlendíngum, hvaðan sem eru, gefið leyfi til, að koma inn á nokkrar hafnir, þá verði, ef til vill, bágara, að sjá um, að sóttir ekki smeygi sèr inn í landið frá útlöndum; en það er hægt, að hnekkja henni; því bæði er það, að ekki mun veita hægra, að bægja útlendum fiskiveiðaskipum frá landinu og komu þeirra inn í firði og hafnir, en híngað til hefur verið, og líka hefur reynslan sýnt, sè það satt, sem sagt hefur verið, að enda þar nærri, sem sóttvarnatilsjónin hefði átt að vera hvað bezt, hafi komið inn í landið næmar sóttir, t. a. m. mislíngarnir núna síðast, og getur því vel að borið, að útlendar sóttir og sjúkdómar komi eptir sem áður, þó að á verzlunarinnar kostnað og henni til ógagns sèu reistar skorður við því.

*P. Pètursson*: Eg vildi vekja athuga þíngmanna á því, að eg talaði ekki beinlínis á móti 12. breytíngaratkvæðinu, heldur varði eg það, að engin ósamkvæmni væri í stjórnarfrumvarpinu, heldur milli 2. og 7. gr. í nefndarálitinu, en eg talaði ekki beinlínis á móti efninu sjálfu.

*G. Einarsson*: Já, og þess vegna óbeinlínis á móti aðalundirstöðunni, sem hinn háttvirti þíngmaður virðist að byggja ofan á í umræðum sínum um föstu verzlunina.

*P. Pètursson*: Nei, eg hef talað um innbyrðis ósamstemmu greinanna í nefndarálitinu, og sýnt, að samsvarandi greinir í stjórnarfrumvarpinu væru sjálfum sèr samkvæmar, og hverjum heilvita manni verður þó að skiljast, að þetta er annað en aðalefnið.

*Framsögumaður*: Mèr virðist, að þíngmaðurinn hafi með öðrum augum sèð á stjórnarfrumvarpið en nefndarálitið; því eg fyrir mitt leyti get ómögulega betur sèð, en þetta sè fullt eins ljóst í nefndarálitinu og í frumvarpinu. Ef nú þíngmaðurinn les 7. gr., og breytíngu nefndarinnar við hana, staflið 42, þar sem nefndin stíngur upp á, að bætt sè inn í orðunum: „til verzlunar“, en aptur, að falli burtu orðin í greininni: „með leiðarbrèfi“, og ber hana saman við 2. gr. í nefndarálitinu, þá mun hann ekki geta fundið, að greinin sè neinum misskilníngi undirorpin, og hèr getur enginn vafi leikið á, nema ef lögreglu-

stjórarnir geta ei altènd vitað, hvort skip vill leysa hèr leiðarbrèf af brekkjum eða ekki, og held eg, að sá vafi geti verið, hvernig sem að er farið.

*P. Pètursson*: Eg neita því ekki, að 42. breytíngaratkvæði nefndarinnar hafi nokkuð burt rýmt þeirri ósamstemmu, sem er í nefndarálitinu; en eins og eg, þegar eg bar upp breytíngaratkvæði mitt móti nefndarálitinu yfir höfuð, ekki gat farið eptir öðrum annmörkum en þeim, sem mèr þóttu á nefndarálitinu, eins þóttist eg nú ekki skyldur til, að fara eptir breytíngaratkvæðum nefndarinnar, meðan ekki var búið að samþykkja þau af þínginu.

*Framsögumaður*: Ef að þíngmaðurinn heíði haft ræðu sína skrifaða á blöðum, þá hefði eg getað tekið þessa mótbáru gilda af honum; en af því eg ímynda mèr, að þíngmaðurinn hafi kynnt sèr breytíngaratkvæði og uppástúngu nefndarinnar, áður en hann talaði, og ekki búið til ræðu sína fyr en nú, þá get eg ekki tekið afsökun hans gilda.

*P. Pètursson*: Mèr hefði þó þótt það öllu samkvæmara verðúng nefndarinnar, að hún hefði búið álitsskjal sitt svo úr garði í fyrstu, að hún síðan hefði ekki þurft að breyta því í neinu verulegu.

*Jón Guðmundsson*: Og mèr heíði þótt það samkvæmara verðúng hins háæruverðuga konúngkjörna þíngmanns, að afsaka sig ekki með því, að hann hefði ekki lesið það, sem hefur legið fyrir honum prentað í 24 tíma, og hann vissi að átti að ræða um, og er að ræða um.

*Á. Einarsson*: Það er þó ekki dæmalaust á þessu þíngi, að nefndarmaður hafi breytt áliti sínu á jafnstuttum tíma.

*Framsögumaður*: Eg get ekki kallað það, að breyta áliti sínu, þó nefndin breyti orðatiltækjum eða fyrirkomulagi, af því hún fann, að það gæti valdið misskilníngi, eins og álitið áður var, af því það var ekki nógu greinilegt, og get eg reyndar ekki kallað breytínguna annað en orðamun.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg held mèr við 2. gr. stjórnarfrumvarpsins og breytíngaratkvæði mitt og hins 6. konúngkjörna þíngmanns. Af því eg var óviss um aðsókn framandi manna, þá vildi eg ekki opna fleiri hafnir nú, en frumvarpið hefur gjört; en ef aðsóknin yrði nú of mikil, og Reykjavík ekki rúmaði skipafjöldann, þá væri fyrst tími til, að opna þeim fleiri hafnir. En því bar eg upp mitt breytíngaratkvæði, að mèr þótti það óvið-

urkvæmilegt, að sá, sem hefur tekið skipið á leigu, mætti ekki brúka það í sínar þarfir, eins og hann hafði um samið við þann, sem honum leigði, og eg ætla, að lög og stjórn ættu ekki að taka fram fyrir hendur á þeim um samnínginn; leigutakarinn má álítast eins og eigandi skipsins hvað brúkunarréttindin snertir.

*H. Stephensen*: Það er eins og hinn 1. konúngkjörni þíngmaður geti ekki gjört sèr hugmynd um, að skip komi híngað í öðrum tilgángi, en að verzla; en eg hugsa, að skip geti hæglega komið og vilji hleypa inn, þó ekki ætli þau til að verzla. Það er og heldur ekki nefnd verzlun í 2. gr. frumvarpsins, en einúngis getið þess í ástæðunum, að ákvarðanirnar um komu utanríkisskipa til landsins sèu of harðar, og eru hèr meint þau skip, sem koma í öðrum tilgángi, en til að verzla. En þó að til tekið væri nú, sem af ástæðunum má ráða, að þessi skip mætti taka á leigu og hafa til flutnínga, þá er of hart, að banna þeim að koma á aðrar hafnir en Reykjavík; og ef það þykir nauðsynlegt, að þeir megi koma á þessar 6 hafnir, þá er og betra, að gjöra þeim mögulegt að verzla, ef þau vilja.

*J. Skaptason*: Það hefur bæði verið lengi álitið svo, og er enn, þann dag í dag er, að allur sè jöfnuðurinn góður, og því hef eg viljað, þegar eg hef litið til utanríkismanna og lausakaupmanna, að þeir mættu koma híngað með líkum kjörum. Eg get með engu móti fallizt á það, sem stjórnarfrumvarpið tekur til, að það skuli ekki vera nema Reykjavík ein, hvar utanríkis-lausakaupmenn megi koma; en mèr þótti ekki heldur nefndin gánga nógu lángt, að til taka 6 staði, eins og hún hefur gjört, og því hef eg aukið öðrum 6 við, svo að þeir yrðu 12, og hef eg til tekið þessa staði þannig, að 1 verður í hverri sýslu. Nefndin hefur nú viljað losa það band, sem er á verzlun utanríkismanna og lausakaupmanna, en hún hefur ekki gjört það eptir rèttum jöfnuði; því þegar vèr berum saman vesturlandið, hvar nefndin vill lögleiða 2 verzlunarstaði fyrir utanríkisskip, og svæðið fyrir norðan land, frá Ísafirði til Seyðisfjarðar, hvar margar og stórar sveitir eru auðugar og fjölbyggðar, og þó ætlar nefndin að láta Akureyri eina nægja öllu þessu víðlenda hèraði, þá er auðsèð, að hinir síðari verða harðara úti, bæði landsmenn sjálfir og fastakaupmenn. Þegar utanríkismenn eru bundnir við, að koma fyrst á þá 6 af nefndinni tilteknu staði, flýtur þar af eðlilega, að föstu verzlunar-

mennirnir á þessum stöðum nota sèr af því, til að byrgja sig upp, og föstu verzlunarmennirnir á hinum stöðunum fá að eins leifar hinna, eður alls ekkert. Að þær fjarlægu sveitir frá hinum löggiltu verzlunarstöðum verði í verzlun sinni að sæta harðari kjörum en þær nálægu, ætla eg vera eins augljóst; því þó þeir eigi kost á því, að einhver kaupmaður frá hinum 6 löggiltu stöðum sendi vörufarm í það eða það hèrað, þá getum vèr ekki vænzt, að hann gjöri það borgunarlaust, en mjög vafasamt, að landsmenn í þeim fjarlægu hèruðum geti notið verzlunar við utanríkismenn beinlínis. En máske vèr höfum reynsluna að styðjast við. Eg veit til, að kaupmenn hèðan frá Reykjavík hafa sent farma á Krossvík og Straumfjörð, og hafi þar verið sömu prísar og í Reykjavík, þá hafa mótstöðumenn mínir nokkuð til síns máls; en eg efast um, að svo hafi verið.

Það er tvennt athugavert, þegar koma skal á fastri verzlun í einu landi, og efla hana. Það eru tveir kraptar, sá innri og sá ytri, sem eru eins og frumefni allrar verzlunar. Það er ekki nóg, að aðflutníngar sèu nægir utanlands frá, heldur verða að vera vörubyrgðir fyrir í landinu sjálfu; en af því menn geta nú ekki sèð fyrir fram, hvar verzlunarmagnið er mest í landinu, og aðrar kríngumstæður, er þèna til, að koma upp kaupstöðum, þá álít eg bezt, að taka heldur fleiri en færri staði til í fyrstu, því það skaðar ekki; þar sem verzlunarmagnið er ekki fyrir, þar fellur verzlunin af sjálfu sèr; aptur komast þeir kaupstaðirnir upp, sem hafa hina ytri og innri hæfilegleika til þess. Og er eg þess fullviss, að þessi meiníng mín ávinnur sèr jákvæði allra fastakaupmanna; því að þeir álíta vissulega þessa tilhögun sèr hagkvæmari en þá, er nefndin hefur farið fram á.

*Framsögumaður*: Það sannast á þessum þíngmanni, að það er hægra, að kenna heilræðin, en halda þau. Hann segir, að allur sè jöfnuðurinn góður, en allir þeir verzlunarstaðir, sem hann vill bæta við, eru í Norðlendíngafjórðúngi einum, að frátekinni Flatey fyrir vestan. Eg vil þá taka til, að eins nærri lægi, að nefna Dyrhóla, Þórshöfn, Raufarhöfn og Berufjörð. Nauðsynin hefur beygt stjórnina til, að veita þessum stöðum verzlunarleyfi, og ef það þyrfti að sýna, hvað sú skoðun er skökk, að binda verzlunina um afarstór hèruð við einstaka staði, þá vil eg taka til dæmis Húsavík; því eg held, að hún

einmitt sanni það, hvað þessi takmörkun er óeðlileg allri frjálsri verzlun og hvervetna skaðleg. Þángað heyrði nefnilega upphaflega öll Þíngeyjarsýsla, og stjórnin stóð lengi streytt við, að leyfa ekki verzlun í Raufarhöfn nè í Þórshöfn, en síðan hún varð undan að láta, þá hefur verzlunarhagur landsmanna batnað, verzlunarmagn í hèraðinu aukizt, og Húsavík sjálf einkis í misst. Eg veit ekki, hvort eg skil rètt 11. breytíngaratkvæðið, en eg álít þó, að það standi í sambandi við uppástúngu nefndarinnar, tölulið 12. Eg held, að það hafi valdið misskilníngi, að nefndin tók upp óbreytt þau sömu orð, sem stóðu í stjórnarfrumvarpinu: „þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf".

*K. Kristjánsson*: Eg vil geta þess, að breytíngaratkvæði mitt, undir tölulið 10 og 11 á atkvæðaskránni, en sem eg bar upp sem eitt breytíngaratkvæði, raskar ekkert meiníngunni, eins og hún er hjá nefndinni; því það, sem stendur í enda greinarinnar í uppástúngu nefndarinnar, hef eg tekið inn í breytíngaratkvæði mitt, tölulið 11, en viljað fella út á fyrri staðnum, eins og breytíngaratkvæðið undir tölulið 10 sýnir, orðin: „þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf og". Mèr fannst, og finnst það enn, að hin umrædda orðaskipun nefndarinnar rángfæri hugsunina; því það er auðvitað, að utanríkisskip, þegar neyð er fyrir hendi, þurfa ekki leiðarbrèf, til að hleypa inn á Reykjavík, Stykkishólm, Akureyri, o. s. frv.; en það er aptur auðsèð á mínu breytíngaratkvæði, að þau mega ekki verzla, nema þau hafi leiðarbrèf til þess. En að öðru leyti þykir mèr óþarfi, að hafa 12 aðalverzlunarstaði í þessu tilliti, þótt eg sè því ekki svo mjög mótfallinn.

*J. Skaptason*: Það, sem hinn háttvirti framsögumaður sagði, að eg hefði ekki fram fylgt heilræðisreglu minni, þá er það ekki svo fullkomlega satt. Eg hef fyrir það mesta gengið út frá þeirri skoðun, að lögleiða 1 verzlunarstað í hverri sýslu, að svo miklu leyti því verður við komið. Fyrir austan land eru mjög fáar hafnir, sem brúkaðar verði, og á Eyrarbakka getur að eins legið 1 skip í senn.

*B. Benediktsen*: Þar sem þíngmaðurinn úr Húnavatnssýslu talaði um, að allur væri jöfnuðurinn góður, er hann var að mæla fyrir 12 höfnum eða 12 verzlunarstöðum í stað hinna 6 staða eða hafna, er nefndin hefur stúngið upp á í greininni, eins og að nokkru leyti sjálft konúngsfrumvarpið gjörir, að utanríkisskip mættu hleypa inn á, án þess að hafa leiðarbrèf,

þá vil eg geta þess, að það er ætlan mín, þar sem í greininni er bent á hafnir handa utanríkismönnum, er þeir þurfa neyðar eða annara orsaka vegna að leita til, að þíngmaðurinn hafi ekki getað meint til slíkra skipa; því það væri sannarlega afkáralegt, að taka til handa þessum skipum hafnir þær, er liggja 30 til 40 vikur sjávar inni í landinu, t. a. m. Borðeyri. Eg get þess því til, að hann hafi ætlað, að í grein þessari væri verið að ræða um verzlunarskip, og því hafi hann bent á þessar hafnir; annars getur ekki breytíng hans eða kauptúnaviðaukinn verið settur hèr á rèttan stað á meðal breytíngaratkvæðanna. En hvað viðvíkur 12. breytíngaratkvæðinu, þá er það auðsèð, að nefndin hefur meint, að þau megi ekki verzla, nema þau hafi með leiðarbrèf, eður ferma, nema þau þá fái sèr leiðarbrèf hèr; því orðin svona löguð: „að verzla *eða taka farm*, nema þau hafi *eða leysi* leiðarbrèf", sýna þessa þýðíngu.

*J. Skaptason*: Þar sem þíngmaður Barðstrendínga gat þess, að breytíngaratkvæðið væri sett á skakkan stað, þá get eg ekki álitið það; því hèr er talað um verzlun, og í þessari grein eru taldir upp staðir, og því álít eg, að það eigi bezt við þessa grein.

*B. Benediktsen*: Í 2. gr. er hvergi verið að ræða um verzlun.

*Ó. E. Johnsen*: Eg ætla einnig að segja álit mitt á þessari 2. gr. frumvarpsins, sem nú er komin til umræðu; og er það í fljótu máli, að eg álít, að í grein þessari liggi það mesta frelsi, sem stjórnarfrumvarp þetta gefur oss; því nær eg skoða sjálfa greinina og ber saman ástæðurnar, sem sendar eru frá stjórninni, þá getur mèr ei betur skilizt, en að utanríkismönnum sè leyft að verzla, þótt þeir af einhverjum kríngumstæðum sèu komnir án leiðarbrèfs, einasta þeir taki þau hjá stiptamtmanni; því í ástæðunum stendur, að stiptamtmaður eigi að geta gefið leiðarbrèf, og að utanríkisskip megi hleypa inn án leiðarbrèfs, annaðhvort til að fá farm, eða til að bíða eptir leiðarbrèfi; en til hvers þeir ættu að bíða eptir leiðarbrèfi, sè eg ei, nema til að fá að verzla. Eg sè því mikið og ágætt frelsi í grein þessari; því opt getur það að borið, að einhver utanríkismaður hafi óskað leiðarbrèfs, en ei getað beðið eptir því af óumflýjanlegri orsök, og er þá ágætt, að hann þá má samt hleypa inn á Reykjavík, til að leysa leiðarbrèf; eg álít það því mesta gagn að þessu leyfi. Hvað því viðvíkur, að nefndin

hefur tekið fleiri staði til, en stjórnarfrumvarpið, þá ímynda eg mèr, að stjórnin hafi gleymt, að taka þá fram, líkt og hún gjört hefur í 3. gr.; þess vegna geta menn ei álitið, að nefndin hafi tekið fram fyrir hendur á stjórninni, þó hún hafi til fært þá staði, sem stjórnin virðist hafa fellt úr af gleymsku, heldur miklu fremur fullkomnað ætlun stjórnarinnar.

*P. Pètursson*: Eg verð þó öldúngis að mótmæla því, að stjórnin hafi gleymt, að til taka þessa staði; því hún mun ætla að til taka þá með nýju lagaboði, þegar reynslan er búin að sýna, hvernig útlenda verzlunin tekst í Reykjavík, og líka er þeirra getið í ástæðum stjórnarfrumvarpsins.

*Jak. Guðmundsson*: Eins og mèr þykir, að stjórnarfrumvarpið takmarki of mikið verzlun utanríkismanna, þar sem það vill binda hana við Reykjavík eina, að minnsta kosti fyrst um sinn, eins virðist mèr á hinn bóginn, að nefndarálitið tvístri henni of mikið; því þó nefndarálitið ætli utanríkiskaupmönnum, að koma fyrst á 6 aðalverzlunarstaði, þá ætlar það þeim líka, að fara þaðan aptur til allra löggildra kauptúna, auk þess sem það ætlar hverjum dönskum lausakaupmanni, að koma beinlínis inn á hvert kauptún, svo að með þessum hætti dreifist þá verzlunin nokkurn veginn jafnt á milli allra kauptúna landsins, sem eru 28, og með því móti hygg eg að ekkert þeirra geti þroskazt til muna. En eins og það er auðsèð, að Reykjavík ein, sem liggur svo önuglega við á einum útskaga landsins, mundi ekki nægja landinu sem aðalverzlunarstaður, þannig held eg, að allri verzluninni væri varla skiptandi nema milli 6 aðalkaupstaða, ef hvert kauptún þetta ætti að verða stórt. En af því ómögulegt er að sjá fyrir fram, hverjir 6 staðir mundu vera hentugastir til, að vera aðalkaupstaðir, þá vil eg heldur fallast á breytíngaratkvæði þíngmannsins frá Húnavatnssýslu, að taka 12 staði til fyrst, en binda aptur lausakaupmenn og utanríkismenn við þá, en leyfa fastakaupmönnum, að dreifa vörunni út á hina staðina, og bíða svo, þángað til að reynslan er búin að sýna, hverjir 6 staðir af þessum 12 eru hentugastir til, að vera aðalkauptún.

*S. Gunnarsson*: Það er auðsèð af ástæðunum fyrir 2. gr. frumvarpsins, að tilgángur stjórnarinnar er með fram sá, að reyna til þess, að koma af með henni gömlum óvana, að fiskiskip utanríkismanna fari inn á hverja vík, sem fæst, þó lögin banni það; en mèr finnst þessi óvani muni ekki leggjast niður

fyrir það, þó þessi grein yrði að lögum. Eg neita því ekki, að mèr þykir þessi siður útlendra fiskimanna ískyggilegur, að minnsta kosti á austurlandi, þó eg viti, að þeir þurfi einhverstaðar að ná til lands. Það hefur nú verið harðlega bannað landsmönnum fyrir austan um 3 seinast liðin ár samkvæmt lögunum, að eiga nokkur viðskipti við utanríkismenn, t. a. m. Flæmíngja, eða aðrar þjóðir, sem einatt eru þar á fiskiveiðum; en þó landsmenn hlýddu vandlega þessu banni, kemur það fyrir ekki; því duggumenn koma sjálfir í land, bæði á nóttu og degi, og heim á næstu bæi, svo landsmönnum finnst bannið árángurslaust. Eg veit raunar ekki til, að þessir útlendíngar hafi gjört neinum manni óskunda, en væru næmar sóttir í för þeirra, þá er auðsèð, að þær gætu útbreiðzt, þó mönnum hèr sè bannað, að hafa afskipti af duggumönnum. Það yrði þó að líkindum heldur færi á þessu, ef þeim væri leyft, að koma á 6 hafnir á landinu, og eg held það sè einmitt samkvæmt ástæðunum fyrir 2. gr. frumvarpsins, að til taka þar fleiri kaupstaði en Reykjavík; því annars er ekki til þess hugsandi, að þessi ákvörðun geti orðið að liði, til að koma í veg fyrir áður nefnd lagabrot. Seint mundu allir útlendir fiskimenn kríng um Ísland hlýða því boði, að sækja sèr neyzluvatn til Reykjavíkur. Eg verð því að mæla fast fram með því, að í 2. gr. sè bætt við þeim kaupstöðum, er nefndin hefur stúngið upp á.

*L. Johnsen*: Það hefur enginn orðið til þess, svo eg muni eptir, að svara hinum 1. konúngkjörna þíngmanni, viðvíkjandi 8. breytíngaratkvæðinu, og er það þó áríðandi atriði, að mèr virðist, sem þar er vikið á. Eg gat þess við fyrstu umræðu, að það mundi ekki vera hentugt, að leyfa fiskiveiðar hèr við land, en aptur gæti það virðzt ósanngjarnt, ef innlendir kaupmenn tækju utanríkisskip á leigu, að þeir skyldu þá ekki einnig mega hafa þau til fiskiveiða, eins og sín eigin skip, heldur yrðu þau að liggja þeim arðlaus inni á höfnum. En ef að þetta væri leyft, þá held eg, að hægt væri, að fara í kríng um slíkt leyfi; því útlendir menn gætu samið um það við kaupmanninn, að færa honum vörur í nokkrum lestarrúmum með lèttu verði í því skyni, að geta aptur fiskað hèr í skjóli hans. Þeir mundu þá fiska fyrir eigin reikníng, leggja fisk sinn á land, og þurka hann, og yrði það þá skaðlegt, ekki einúngis fyrir landsmenn, heldur og einnig fyrir kaupmenn.

*Jak. Guðmundsson*: Eg held, að viðaukaatkvæðið í 8.

staflið sè óþarft, ef menn verða sjálfum sèr samkvæmir í því, að sleppa fiskiveiðunum; því eins og eg hef tekið fram við umræðurnar um 1. gr., liggur bannið á þeim eins eptir og áður; því hin eldri löggjöf, sem bannar þær, er ekki numin burtu eða felld úr gildi.

*J. Skaptason*: Eg vil einúngis skýra það fyrir þíngmönnum með tilliti til míns breytíngaratkvæðis, að eg vildi, að danskir lausakaupmenn mættu ekki fremur en utanríkis-lausakaupmenn sigla inn á hverja höfn, er þeir nú hafa leyfi til. Til þessa bendir og 18. stafliður í atkvæðalistanum.

*H. Stephensen*: Breytíngaratkvæði hins 1. þíngmanns Húnvetnínga fèkk þó loks hylli eins manns, og gekk það nærri því yfir mig. Eg hugsaði, að nefndin hefði þó farið nógu lángt, en hèr er farið helmíngi lengra. Samt sem áður hefur þó þíngmaðurinn úr Reykjavík orðið því meðmæltur, og kemur það til af því, að hann vill binda alla verzlun við þessa 12 staði á landinu. Það er með öðrum orðum, að þíngmaður Húnvetnínga vill binda alla verzlun í Sunnlendíngafjórðúngi við Reykjavík eina, því verzlun sú, er menn geta haft á Vestmannaeyjum, er ekki stórvægileg, en á vesturlandi við 3, og í Norðlendíngafjórðúngi við 7 kaupstaði. Þetta held eg gæti nú dável nægt þessum fjórðúngi, en einn verzlunarstaður fyrir allan Sunnlendíngafjórðúng er nokkuð lítið. Eg er að sönnu ókunnugur á vesturlandi, en þó held eg, að 3 kaupstaðir sèu þar ekki of mikið. Þess vegna mun eg aldrei gefa mitt atkvæði fyrir þessari uppástúngu.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Mèr er kært, að heyra nú 1. þíngmann Borgfirðínga tala um verzlun við þessa grein; því það var einmitt það, sem hann fann að við mig áðan.

*H. Stephensen*: Það er þvert á móti; eg vildi einmitt tala um verzlun við þessa grein.

*Jak. Guðmundsson*: Hvað það snertir, sem sagt hefur verið, að það mundi ekki nægja Sunnlendíngafjórðúngi, að hafa einúngis verzlun við Reykjavík, þá held eg, að líkt verði nú ofan á eptir nefndarálitinu, þegar menn að gæta, að auk Reykjavíkur eru ekki í þessum fjórðúngi nema Hafnarfjörður, Keflavík og Eyrarbakki, og á Eyrarbakka geta ekki legið fleiri skip en eitt, eða þó að þar gætu verið tvö, þá hefur kaupmaðurinn, sem þar er núna, venjulega 4 til 5 skip í förum. Það mætti líka, ef til vill, nefna Krossvík. En hvað Hafnar-

fjörð og Keflavík snertir, þá vildi eg fyrir mitt leyti gjarnan óska, að þeir væru horfnir inn í Reykjavík með húsum og fólki. Það mundi verða Sunnlendíngafjórðúngi öllu notasælla; því Reykjavíkurkaupmenn mundu og þá, engu síður en nú, flytja vörur sínar á þessar hafnir. Eg get ekki sèð, að Sunnlendíngafjórðúngur yrði í neinni hættu staddur fyrir þetta. En þó að fjórðúngarnir hafi ekki jafnmarga kaupstaði, þá er það eðlilegt, að slíkt fari eptir því, hvað fjórðúngarnir eru víðlendir og vondir yfirferðar; og það held eg, að Vestfirðíngum yrði óhægra, að sækja að Stykkishólmi einum, eða Norðlendíngum að Akureyri, heldur en Sunnlendíngum að Reykjavík.

*H. Stephensen*: Eg veit ekki, hvort þíngmaðurinn úr Reykjavík hefur alstaðar mælt vegalengdina úr Sunnlendíngafjórðúngi til Reykjavíkur, en það veit eg, að lángt er að sækja verzlun í Reykjavík úr Skaptafellssýslu, og svona fara reikníngarnir á stundum.

*J. Skaptason*: Það er nú svo ástatt, eins og allir vita, að í Skaptafellssýslu er engin höfn til, og þess vegna er ekki til neins, að tala um það, þó Sunnlendíngafjórðúngur verði harðara úti, en hinir fjórðúngarnir, þar eð þar ekki eru til hafnir, er skip geti legið á, nema Vestmannaeyjar, og er búið að ræða um það áður.

*H. Stephensen*: Það er til Eyrarbakki, og líka hafa menn farið því á flot, að sigla upp Þorlákshöfn, og er mikill munur á því, að sækja þángað eða til Reykjavíkur.

*J. Skaptason*: Það er þó munur á því, að í Sunnlendíngafjórðúngi má víða koma við skipaflutníngum, en í Norðlendíngafjórðúngi verða menn að flytja allt eða mestmegnis á hestum. Hvað Eyrarbakka snertir, þá er eg áður búinn að sýna það, að þar geti ekki legið mörg skip í einu.

*Framsögumaður*: Eg skyldi fyrir mitt leyti ekki mæla á móti því, sem þíngmaðurinn úr Reykjavík fór fram á, ef nokkur líkindi væru til þess, að Reykjavík gæti eyðilagt Hafnarfjörð og Keflavík, en það hefur henni ekki tekizt enn sem komið er. Þar á móti hafa kaupstaðirnir Grindavík og Básendar lagzt í eyði, og er auðsèð af þessu, að eins og verzlunarstaðir leggjast sjálfkrafa í eyði, þegar þeir eru óþarfir og óhentugir, eins byggja þeir sig sjálfir upp, ef þeir eru á hentugum stöðum.

*Á. Einarsson*: Eg hlýt að vera á sama máli og þíngmaður Borgfirðínga í því, að eg get ekki verið meðmæltur

breytíngaratkvæði þíngmannsins úr Húnavatnssýslu. En það sýnir þó, að nefndin hefur verið á einhverri meðalstefnu, þar sumir vilja hafa færri kaupstaði en nefndin, og sumir fleiri, og eru því líkindi til, að nefndin sè í þessu næst rèttum vegi. Hann sagði að sönnu, að allur jöfnuður væri góður, en eg held hann hafi ekki gætt þess vel í öllu. Á þetta vil eg benda honum með einu dæmi, þar sem við erum báðir kunnugir, en það er um Skagaströnd og Reykjarfjörð, og þarf eg ekki að fara um það mörgum orðum; því honum er kunnug vegalengd frá báðum þessum stöðum að Borðeyri, og líkt þessu stendur víðar á með verzlunarstaði á vesturlandi, ef uppástúngu hans yrði framgengt. En hvað sem þessum smáatriðum líður, get eg ekki annað en verið mótfallinn uppástúngu hans. Hvað því aptur viðvíkur, sem þíngmaðurinn úr Reykjavík fór fram á, að eptir nefndarálitinu dreifðist verzlunin jafnt milli 28 staða á landinu, en þíngmaðurinn úr Húnavatnssýslu vildi binda hana við 12 staði, þá held eg, að slík ályktun verði ekki leidd út af anda nè orðum í nefndarálitinu nè ræðum framsögumannsins; því í nefndarálitinu er utanríkiskaupmönnum gjört það að skyldu, að koma fyrst á einhvern af 6 tilteknum kaupstöðum. Þetta finnst mèr einmitt sýna, að nefndin ætlast ekki til, að verzlunin skiptist jafnt á milli allra verzlunarstaða á landinu, heldur vill hún láta þá verzlunarstaði steypast á eðlilegan hátt með flutníngaleyfinu, sem ekki geta þrifizt, en ekki reyna til, að steypa þeim í einu vetfángi með nýju lagaboði.

*Jón Guðmundsson*: Með tilliti til þess, sem nú var sagt, vil eg þó geta þess, að nefndin hefur ætlazt til, að danskir lausakaupmenn kæmu beinlínis á þessa 28 verzlunarstaði. Útkaupstaðirnir geta því ekki steypzt eptir tilhögun nefndarinnar, nema því að eins, að verzlun utanríkis-lausakaupmannanna verði svo ógnamikil, en verzlun hinna dönsku lausakaupmanna lítil; en það kemur í sama staðinn niður, hvort það eru danskir eða utanríkis-lausakaupmenn, sem standa hinum föstu kaupmönnum og hinni föstu verzlun fyrir þrifum.

*Á. Einarsson*: Þess vegna hafa menn beðið um utanríkisverzlunina, að menn hèldu, að hún mundi verða skárri, og eg get ekki betur sèð, en að bæði föstu kaupmennirnir og lausakaupmennirnir geti þrifizt eptir því, sem nefndarálitið fer fram á. Föstu kaupmennirnir mundu líklega kaupa vörur af lausa-

kaupmönnum, er geta selt þær með því minna verði, sem þeir kosta minna til, og get eg ekki skilið, hvernig það ætti að geta orðið til þess, að kæfa niður föstu verzlunina í landinu. En viðvíkjandi breytíngaratkvæði þíngmannsins frá Húnavatnssýslu vil eg bæta því við það, sem eg hef sagt, að mèr finnst það ekki samkvæmt 44. staflið á atkvæðalistanum, að fjölga svo mjög kaupstöðum þeim, er utanríkisþjóðir eiga að koma fyrst á; því auðsèð er, að með því yrði óhægra, að sjá um sóttvarnir.

*Forseti*: Framsögumaður óskaði þess, að 8. breytíngaratkvæði væri sett aptur fyrir hið 13. Eg vildi rannar helzt halda röðinni á atkvæðalistanum, eptir 62. gr. þíngskapanna, en þó skal eg gjarnan breyta um þetta, ef þíngmenn óska, af því mèr finnst hitt vera rèttara að forminu til.

*Framsögumaður*: Eg er að vísu á sama máli og hinn háttvirti forseti um það, að rèttara væri að forminu til, að setja 8. atkvæði aptur fyrir, eins- og eg stakk upp á; en þar eð það spillir þó í raun og veru engu til, skal eg ekki vera harður á, þó það komi til atkvæða eptir röðinni, sem á skránni er, þó hitt sè rèttara.

*Forseti*: Eg játa því að sönnu; en það gjörir ekkert til, þó gengið sè til atkvæða um 8. breytíngaratkvæði, og það væri samþykkt; því ef að uppástúnga nefndarinnar undir 13. tölulið verður síðar samþykkt, þá fellur þó breytíngaratkvæðið ekki að síður.

Síðan lèt forseti gánga til atkvæða um 8. breytíngaratkvæði, og var það fellt með 37 atkvæðum gegn 4.

Fyrri parturinn af hinu 9. breytíngaratkvæði þótti vera fallinn eptir hinni fyrri atkvæðagreiðslu, en um seinni hluta þess var þá gengið til atkvæða, og hann felldur með 39 atkvæðum gegn 3.

10. breytíngaratkvæði var samþykkt án atkvæðagreiðslu, og 11. breytíngaratkvæði fèll þá burtu.

12. breytíngaratkvæði var samþykkt með 35 gegn 7 atkvæðum.

13. breytíngaratkvæði var síðan samþykkt með þeim breytíngum, sem á því voru orðnar samkvæmt atkvæðagreiðslunni um 10. og 12. tölulið á undan, með 35 atkvæðum gegn 7.

Þannig gat þá 2. gr. stjórnarfrumvarpsins undir töluliðnum 14 á atkvæðalistanum ekki komið til atkvæða, því hún var fallin.

*Forseti* bað menn því næst, að taka 3. gr. stjórnarfrumvarpsins ásamt breytíngaratkvæðum þeim, er við hana settu, til umræðu.

*P. Pètursson*: Það, sem eg hef stúngið upp á í því breytíngaratkvæði mínu, sem á við þessa grein frumvarpsins, er það, að úr 3. gr. falli orðin: „og skal að öðru leyti gætt þess, sem ákveðið er í 7. gr. laga þessara", og stendur það í sambandi við annað breytíngaratkvæði, sem eg hef gjört.

*Þ. Jónasson*: Það er nú einkum þessi grein frumvarpsins, sem mèr þykir vera umvarðandi, og þó er það einkanlega hèr, að nefndin víkur frá frumvarpinu. Eg held það sè mest undir því komið, hvað verzlunina hèr á landi snertir, að henni sè haldið saman að vissum stöðum, og það gjörir þessi 3. gr. í stjórnarfrumvarpinu. Þessu hefur nú nefndin breytt, með því að hún leyfir lausakaupmönnum, að sigla upp öll löggilt kauptún í landinu, þar sem frumvarpið ætlast til, að þeir ekki komi nema til Reykjavíkur, og á fáa aðra staði, er síðar yrðu teknir til; en þegar þessu er breytt, þá eru engar líkur til, að föst verzlun geti haldizt við; því skilyrðið fyrir henni er það, að vörubyrgðirnar dragist saman á vissa staði, og þegar menn aðgæta þær vörur, sem flytjast út frá Íslandi, þá er auðsèð, að þær eru reyndar ekki til tvískiptanna. Þetta má meðal annars sjá af hinum dönsku verzlunartöflum fyrir árið 1849. Þar má sjá, að vörur hèðan frá landi hafa það árið ekki hlaupið meira, en milli 4 og 5 hundruð þúsundir dala, og sjá allir, að þetta vörumagn er ekki til þess, að skipta því á marga staði. En þegar lausakaupmenn mega koma á alla löggilta verzlunarstaði, er það auðsèð, að vörubyrgðirnar verða alstaðar og hvergi. Annað atriði er það, að frumvarpið leyfir lausakaupmönnum, að selja landsmönnum nauðsynjavörur, en svo kallaðar *fínar* vörur ekki nema kaupmönnum einum, og miðar þetta til þess, að hlynna að hinum föstu verzlunarmönnum í landinu. Þessu breytir nú nefndin einnig með því, að hún vill þeim sè leyft, að verzla með alls konar varníng, og eg neita því ekki, að þetta væri máske í sjálfu sèr eðlilegast, en með því eyðilegðist hin fasta verzlun öldúngis. Eg veit og, að þessari grundvallarreglu er alstaðar haldið í öðrum löndum, t. a. m. í Noregi. Þar er utanríkiskaupmönnum einúngis leyft, að verzla við bændur með nauðsynjavöru, nefnilega með allar kornvörur, og þó að eins þannig, að bændur geta ekki keypt

kom af útlendum kaupmönnum, nema í hópakaupum (lestavís), en hèr á landi geta þeir eptir stjórnarfrumvarpinu keypt það í miklum og litlum mæli eptir samkomulagi. Þá viðgengst og það í Noregi, að utanríkiskaupmenn mega þar ekki kaupa hver við annan, en hèr er þeim þetta leyfilegt, og er frumvarpið einnig í þessu atriði frjálslegt. Yfir höfuð er þessi grein frumvarpsins mjög svo umvarðandi, og það svo mjög, að með henni stendur og fellur öll frjáls verzlun hèr á landi. Það hafa nokkrir þíngmenn tekið það fram, að kaupmenn þurfi að koma út vörum sínum, og tíminn sè þeim dýrmætur, að þeir hafi mikinn kostnað og mikla ábyrgð með því, að þurfa að fara á marga staði, en þetta kemur einmitt saman við aðalatriði frumvarpsins, sem er, að leiða aðalverzlunina að einstökum hentugum stöðum, sem bæði hèr og annarstaðar er undirstaða allrar verzlunar. Aptur er það mitt álit, að allir vöruflutníngar hèraða á milli eigi að vera svo frjálsir, sem auðið er; því þar með er þeim vandkvæðum rutt úr vegi, sem mestum örðugleikum er bundið fyrir mestan þorra landsmanna.

*H. Stephensen*: Hinn heiðraði 6. konúngkjörni þíngmaður hefur viljað gjöra þíngmönnum það skiljanlegt, að hinni frjálsu verzlun sè hætta búin, ef nefndarálitinu yrði framgengt. Hann ætlar að telja mönnum hughvörf með því, að segja, að nefndarálitið gjöri utanríkismönnum jafnheimilt, að sigla inn á allar hafnir landsins, en nefndarálitið segir, að þeir verði fyrst að koma inn á einhverja af 6 tilteknum höfnum.

*Þ. Jónasson*: Það er rètt til málamyndar.

*H. Stephensen*: Ekki veit eg það; því nefndin hefur tekið fram, að þá mundu þeir fyrst bjóða kaupmönnum þeim, er á staðnum væru, vöru sína, og það í alvöru, en ekki til málamyndar. Nefndin hefði nú aðhyllzt þessa uppástúngu stjórnarfrumvarpsins, ef henni hefði sýnzt, að það mundi geta orðið utanríkis-lausakaupmönnum til þrifa. En ef svo bæri að, að kaupmenn þeir, sem á staðnum væru, annaðhvort gætu eða vildu ekki kaupa farminn, þá lægi ekki annað fyrir hinum útlendu verzlunarmönnum, en að fara burtu aptur með alla sína vöru óselda, og þá ætlaðist nefndin til, að þeir skyldu eiga kost á, að fara með hana til annara verzlunarstaða. Hinn sami konúngkjörni þíngmaður gat þess einnig í ræðu sinni, að verzlun hèr yrði frjálsari eptir frumvarpinu, en hún er í Noregi. Eg er honum nú samdóma í því, en eg get ekki skilið í því,

að það geti orðið til þess, að steypa frjálsri verzlun, þó hún sè nokkuð frjálsari hèr en þar.

*Jak. Guðmundsson*: Eg er hinum 6. konúngkjörna þíngmanni að nokkru leyti samdóma. Hann hefur trúlega tekið þau atriði fram í frumvarpi stjórnarinnar, sem miða til þess, að draga verzlunina saman, og það er einmitt það, sem eg felli mig við. Aptur sakna eg þess hjá honum, að hann tók ekki fram það atriði í stjórnarfrumvarpinu, sem óbeinlínis stefnir að því, að dreifa verzluninni sundur, en það er það, að allir danskir lausakaupmenn megi sigla inn á öll 28 kauptún landsins. Frumvarpið nefnir Reykjavík eina sem aðalkaupstað fyrst um sinn, en eg hef áður sagt, að mèr þætti það of lítið, eins og mèr þykir 28 of mikið, og þess vegna vildi eg fara meðalveginn, og nefna 12. Þegar eg nú ber saman ókostina, sem af því leiðir, að draga alla verzlunina saman á einn stað, og af hinu, að dreifa henni út á milli 28 kauptúna, þá ætla eg af tvennu illu að taka það minna, og gefa atkvæði mitt fyrir því, sem mèr þykir skárra,en það er uppástúnga nefndarinnar um 6 aðalstaði, jafnvel þó hún ætli að láta utanríkismenn fara þaðan út til allra hinna kauptúnanna, en þá dönsku lausakaupmenn koma beinlínis inn á hvert þeirra; því mèr þykir það þó betra, en að binda alla verzlunina við Reykjavík eina. Samt bið eg nú þíngmenn, að taka þetta ekki svo, eins og eg sè sjálfum mèr sundurþykkur, og horfinn frá því, sem eg hef áður talað viðvíkjandi breytíngaratkvæði þíngmannsins úr Húnavatnssýslu.

*K. Kristjánsson*: Eg get ekki neitað því, að mèr er það öldúngis óskiljanlegt, hvers vegna að menn vilja dreifa verzluninni út um allt land. Það er rètt eins, og þegar farið er að byggja hvert kotið ofan í annað, að þá dragast allir kraptar burtu frá höfuðbólinu. Eins fer og um verzlunina, þegar hún er mjög á sundrúngu; vörubyrgðirnar verða litlar á hverjum kaupstað, og allt afl dregst úr verzluninni. Ef að verzlunin á að geta staðizt, þá verða kaupstaðirnir að fækka. Eg játa það að sönnu, að vöruflutníngar landveg eru hèr opt mjög torveldir, en það er bætt úr þessu eptir lagafrumvarpi því, sem hèr er umræðuefnið, með því, að flytja má vörur inn á hvert kauptún og hverja vík. Reynslan er fyrir laungu búin að sýna það og sanna, að ekkert land hefur komizt upp, nema með verzlun, og eins gjöri eg ráð fyrir að fari fyrir þessu landi. En ef verzluninni verður hèr sundrað, þá getur ekki hjá því

farið, að hún eti sig sjálfa upp. Það er þó engan veginn meiníng mín, að verzlun utanríkismanna eigi að vera bundin við Reykjavík eina, heldur einhverja 5 eða 6 vissa kaupstaði. Eg get ekki sèð, að það bæti neitt fyrir hinni föstu verzlun hèr á landi, þó að nefndarálitið taki það fram, að lausakaupmennirnir skuli fyrst koma á vissar hafnir; því ef að þeim líka ekki kaupin þar, eða halda sèr gángi betur að verzla á öðrum höfnum, þá munu þeir ekki lengi bíða boðanna, heldur segja sem bráðast: „Verið þið blessaðir og sælir!“ og leita burtu þaðan. Að þessu hnígur nú breytíngaratkvæði mitt við 3. gr., og vil eg geta þess, að í því er sú prentvilla eða ritvilla: „2. gr.“ í staðinn fyrir „3. gr.“ Hinum kaupstöðunum er nægilega borgið með því, að danskir lausakaupmenn mega sigla þá upp, og menn ættu ekki heldur að fara fram á meira. En það sem utanríkisverzlunarmenn eru eptir frumvarpinu bundir við eina höfn, þá væri nóg, að bæta úr því, að þeir hefðu 6 staði um að velja.

*P. Pètursson*: Eg er hinum 1. fulltrúa Reykjavíkurbæjar samdóma í því, að það verði ekki að neinu verulegu gagni, þó utanríkiskaupmönnum sè gjört að skyldu, að koma inn á aðalkaupstaðina; því það mun mega gjöra ráð fyrir því, að þeir fari þaðan til annara hafna; en af þessu leiðir þá, að fastakaupmennirnir á aðalverzlunarstöðunum eiga ekki víst, að geta fengið vörur hjá þeim. Það er ekki heldur öldúngis rètt, sem sagt hefur verið, að þeir hafi forkaupsrètt við utanríkis- eða lausa-kaupmanninn; því þessum er líka gjört það heimilt, að verzla einnig við landsmenn, en landsmenn eiga hægt með, að gánga í fèlög, og vera búnir að semja við einhvern mann, að verzla fyrir sig. Eg finn ekki köllun hjá mèr til þess, að fara lengra út í þetta mál að sinni, viðvíkjandi breytíngaratkvæði mínu við þessa grein.

*Jón Guðmundsson* Eitt gengur mest yfir mig, og það er það, að þessir þíngmenn, sem mæla fastast móti nefndarálitinu, skuli ekki skera hreint upp úr með það, sem þó bersýnilega hlýtur að vera aðalmeiníng þeirra, að *þeir vilji* nefnilega *enga útlenda verzlun hafa*. Það liggur nú í augum uppi, að það, sem þeir vilja fara fram á, er í anda stjórnarfrumvarpsins, að hnekkja hinni útlendu verzlun. Það er nú auðvitað, að hvort sem þeir útlendu verða bundnir við einn eða sex kaupstaði, og mega ekki fara annað, þá muni kaupmennirnir, sem þar eiga heima, ekki bjóða þeim nein góð boð, og það er þeim

ekki heldur láandi. En hvað flýtur af þessu? Ekkert annað en það, að hinir útlendu menn neyddust til, að gánga að einhverjum þeim afarkostum, sem þeim væru boðnir, eða fara heim aptur með farminn, og þá kæmu þeir síðan aldrei aptur, en það mundi brátt spyrjast í norðurálfunni, hvað arðsamt væri útlendíngum, að leita híngað til verzlunar. En ef því verður framgengt, sem nefndin vill, þá fer öðruvísi; því þá er bein hvöt fyrir fastakaupmenn til, að vilja hafa kaup við þá, og aptra þeim frá, að fara burtu. En bjóðist nú útlendum mönnum ekki bærileg boð í aðalkaupstöðunum, þá eiga þeir kost á, að fara til annara smærri kauptúna, og selja þar varníng sinn, svo þeir þurfi ekki að fara heim aptur með hann. Þetta er svo auðskiljanlegt, að enginn getur villzt á því, nema þeir, sem enga útlenda verzlun vilja hafa, og er þetta öðru máli að gegna; en eg vildi þá einúngis, að þeir gengjust hreinlega við því, og tæku það berlega fram.

*Jak. Guðmundsson*: Mèr getur engan veginn skilizt það, sem þíngmaður Skaptfellínga sagði, að það stæði á sama, hvort kaupstaðirnir, sem utanríkiskaupmönnum væri leyft að koma á, væru einn eða sex. Eptir þessari ályktunarreglu mætti eins vel segja, að 12 væri sama og 6, og 28 sama og 128. Eg get ekki heldur betur sèð, en að þeir vilji fullkomlega hafa útlenda verzlun, og sèu henni ekkert mótfallnir, sem ætlast til, að útlendir verzlunarmenn og lausakaupmenn fái að koma á 12 verzlunarstaði, og hafa þar kaup, bæði við fastakaupmenn og landsmenn. Móti því áliti nefndarinnar, að einn staður sè of lítið, hefur enginn mælt, og það er bersýnilegt, að mikill munur er á því, hvort þeim verður heimilt, að verzla á 6 höfnum eða einni.

*Jón Guðmundsson*: Eg vil leyfa mèr að spyrja þíngmenn, hvort ekki muni vera reynsla fyrir því, að fastakaupmennirnir gjöri sèr far um, að kaupa sem mest þeir geta af lausakaupmönnum þeim, sem híngað koma, svo að þeir geti ekki átt kaup við landsbúa. Þetta er í sjálfu sèr eðlilegt og þeim ekki láandi, af því þeir vita, að lausakaupmennirnir mega fara til hverrar hafnar, sem þeir vilja. Og það er svo lángt frá mèr, að lá fastakaupmönnum þetta, að eg vildi fastlega óska, að það gæti haldizt eins framvegis, og eg vona líka, að það verði.

*K. Kristjánsson*: Það vita nú allir, sem eitthvað þekkja til verzlunar, hvað miklu meiri kostnað að fastakaupmennirnir

hafa en lausakaupmennirnir. Það er því öldúngis eðlilegt, þó að fastakaupmennirnir vildu kaupa lausakaupmennina upp, ef þeir gætu, og það er mjög ónáttúrlegt band á fastakaupmönnum, ef að lausakaupmennirnir þyrptust svo hingað að landi, að hin fasta verzlun gæti ekki staðizt. Því það vita þó allir, sem eitthvað þekkja til sögu lands þessa, að það eru fastakaupmennirnir, sem hafa reynzt bezt, þegar í nauðirnar hefur rekið fyrir landsmönnum, og jafnvel hjálpað þeim við húngursdauða; enda mundi og verzlunin, ef á þennan hátt yrði þrengt að fastakaupmönnunum, verða að helberum skaða fyrir alda og óborna. Það er enn einn annmarki, sem liggur á hinni föstu verzlunarstètt hèr á landi, að þeir þurfa bæði að vera utanlands og innanlands, og er það ekki alllítill kostnaðarauki fyrir þá, enda munu og margir fastakaupmenn hafa hörfað hèðan burtu aptur mestmegnis fyrir sakir þessa annmarka. Ef að nú þar á móti hinu væri fram fylgt, að hlynna að föstu verzluninni, þá mundi þetta allt betur fara. Þá mundi hèr komast upp borgarastètt, og við það fengi verzlunin einnig allt annað horf.

*Framsögumaður*: Hvað það snertir, sem hinn 6. konúngkjörni þíngmaður áðan mælti, þá held eg, að honum fari eins og sumum öðrum, að hann líti allt öðrum augum á nefndarálitið, en á stjórnarfrumvarpið. Nefndin hefur í þessari grein, sem hèr er verið að ræða um, farið að mestu leyti eptir frumvarpinu, nema að hún að einu leytinu er nokkuð takmarkaðri, eða, eins og eg gjöri ráð fyrir að sumir kunni að segja, ófrjálsari, þar sem að nefndin hefur tekið fram eina 6 verzlunarstaði, í staðinn fyrir það, að frumvarpið segir í 3. gr.: „eða einhvers af hinum öðrum verzlunarstöðum á Íslandi“. En með þessu hefur hún ekki gjört annað, en útlistað meiníngu stjórnarinnar. Hvað leiðarbrèfin snertir, þá getur það vel verið, að mönnum þyki það fautalega í ráðizt af nefndinni, að hún skyldi stínga upp á því, að leiðarbrèfin væru fáanleg hjá lögreglustjórum á 6 höfnum, í staðinn fyrir hjá stiptamtmanninum og innanríkisráðgjafanum einsömlum. Það er eitt atriði enn í nefndarálitinu, sem nokkuð kann að þykja ófrjálsara þar, en í frumvarpi stjórnarinnar, þar sem það leyfir utanríkis-lausakaupmönnum eins konar vöruflutnínga. Þetta þótti nefndinni undarlegt, þegar kaupmönnunum einum var á annað borð gefið flutníngaleyfið; henni þótti það eðlilegra, að fastakaupmönnum einum væru gefnir frjálsir flutníngar, og utanríkis-lausakaup-

mönnum væri ekki leyft þannig, að fara inn á hverja vík. Þetta er þá það eina, sem á milli ber, en ekki 4 vikna tíminn, sem nefndin hefur stúngið upp á í stað 3 vikna, sem í frumvarpinu eru. Nú hafa aptur sumir þíngmanna verið á því, að leyfa utanríkislausakaupmönnum, að sigla upp hvert kauptún á landinu, en nefndinni þótti hitt rèttara, að binda þá við, að koma fyrst inn á einhverja af þeim 6 stöðum, sem hún hefur til tekið, og leyfa þeim síðan, að fara til hinna smærri kauptúna; því henni þótti það óvíst, hvort landsmenn mættu treysta því, að fastakaupmennirnir í aðalkaupstöðunum vildu eða gætu keypt allar vörur hinna útlendu manna, og flutt þær á hentuga staði fyrir landsmenn; því til þess gæti þá auðveldlega vantað krapta. Það var fullkomlega vilji nefndarinnar, að fastir verzlunarstaðir gætu blómgazt á eðilegan hátt, en ekki á alls landsins kostnað. En undirstaðan fyrir því, að verzlun geti blómgazt, er sú, að uppsiglíngin sè sem allra frjálsust, og það mun sannast, að sú tíð mun koma, að utanríkismenn fái eins leyfi til, að fara inn á hverja höfn, eins og innanríkismenn. Hinn 1. fulltrúi úr Reykjavík sagði áðan, að það væri fastaverzlunin, sem frelsaði landið frá húngursdauða, en eg held, að það sè einmitt fasta verzlunin, sem steypi því í húngursdauða; því aldrei hefur verzlunin verið hèr fastari, en á meðan konúngsverzlunin og fèlagsverzlunin stóð yfir, og vita menn, hvernig landinu var borgið í þá daga. Þá geysaði húngursdauðinn mest, þegar verzlunin var sem föstust. Eg vil því ekki mæla fram með þessari föstu verzlun, heldur þeirri, sem frjáls er og samboðin þörfum landsins. Sama þíngmanni þótti það óeðlileg stefna í verzluninni, að lausakaupmenn þyrptust híngað svo mjög, að það drægi dáð úr fastaverzluninni; en hann svarar sèr sjálfur með því, að borgarastètt ætti að komast hèr upp, til þess að verzlunin kæmist í betra horf. En reynslan hefur einmitt sýnt, að borgarar hafa fyrst farið að koma hèr upp, eptir að lausakaupmenn fóru að sækja híngað. Aptur er eg þíngmanninum samdóma í því, að ef eðlileg stefna kæmist á verzlunina, þá mundu kaupmenn fremur setjast hèr að í landinu, í stað þess, að þeir nú hafa aðsetur erlendis, af því aðalmegn verzlunar þeirra er þar, en það yrði aptur meiri nauðsyn og meiri hagur fyrir kaupmanninn, að vera hèr, þegar hann ætti von á mikilli aðsókn af kaupmönnum frá útlöndum; því þá yrði og verzlun hans hèr miklu vandameiri og margbrotnari, þar sem hún er nú sem

stendur afar-einföld. Nefndin hefur því ekki gjört annað, en farið fram þeirri stefnu, sem henni þótti eiga við.

*G. Brandsson*: Eg vona flestum skiljist af lángri og dýrkeyptri reynslu, hversu öll þau bönd, er legið hafa á verzlun vorri híngað til, hafa tálmað framförum vorum, og verði því alls hugar fegnir, þegar færi gefst á, að losa um þau; en mönnum ber nú nokkuð á milli, hvernin bezt verði að því farið, þar sem sumir vilja binda alla útlendu verzlunina við einstaka kaupstaði og einstaka menn, en aðrir vilja lofa henni, að fá frjálsari framrás með því, að dreifast víðar. Ef vèr gáum nú að, hversu land vort er úr garði gjört af náttúrunni til, lítum eptir strjálbyggð þess, flutníngaerfiðleikum, laungum og slæmum vegum, og misjöfnu veðri, hygg eg flestir verði að viðurkenna, að nytsemi hins síðar talda lángt yfir gnæfi hið fyrra, ef mönnum kemur saman um, að fóturinn undir velmegun vorri sè jarðarrækt og kvikfjárrækt, og ef menn á hinn bóginn kannast við, að lángar og erfiðar kaupstaðaferðir ríði í bága við þetta, þá liggur þar í sönnun fyrir því, sem eg hef sagt. Það er líka auðskilið, að mikill hrossafjöldi, útreiðsla þeirra til ferðalaga og árlegt viðhald eykur ei alllítið verð þeirrar vöru, sem heim er flutt, að eg nú ekki tali um vinnumíssi svo margra manna frá öðrum heimastörfum, sem þetta hefur í för með sèr, og það um þann tíma ársins, sem hentastur er fyrir jarðyrkjuna, og því sá ómissanlegasti. Að föst verzlun mundi fara á sundrúng með þeirri tilhögun, sem nú er gjört ráð fyrir, kvíði eg engan veginn; því mèr finnst vera fyrir því sèð í nefndarálitinu, þar sem þeim útlendu verzlunarmönnum er gjört að skyldu, að koma fyrst á hina 6 tilteknu aðalkaupstaði. En hvað sem nú aðhlynníng á kaupstöðum líður, þá held eg eins mikla þörf, að gæta atvinnuvega landsins; því eg álít þá fæturna undir verzluninni, svo ef þeir bila, mundi hún einnig falla.

*K. Kristjánsson*: Eg er því samdóma, að atvinnuvegirnir eru grundvellir verzlunarinnar, og því vil eg, að verzlunarstaðirnir sèu heldur fáir, en mjög margir. En þar sem fulltrúi Gullbríngusýslu sagði, að þar væru vörurnar dýrastar, sem þær væru flestar, þá er ekki annað en fara híngað í Reykjavík, og taka dæmin hèðan, þar sem reynslan sýnir það. Það er almennt, að menn koma híngað lángt að, bæði frá norðlenzkum og aust-

firzkum kauptúnum, og það mundu menn ekki gjöra, að fara svo lángan veg, nema einhver hagnaður hlýtist af því.

*G. Brandsson*: Það, sem þíngmaður Reykjavíkur nú sagði, sannar ekki, að verzlunin þurfi ekki að vera nema á fáum stöðum, heldur hitt, að landsmenn hafa orðið að leita fyrir sèr, að fá þarfir sínar bættar, og hafi það ekki tekizt á þeim kauptúnum, sem nærri þeim voru, þá er eðlilegt, að þeir hafi farið lengra til þess. Þó nú stóru kaupstaðirnir kæmust upp, gæti eg vel ímyndað mèr, að kaupmenn hefðu þau samtök, að spilla ekki kaupum hver fyrir öðrum, ef engir væru á hlið við þá að keppa við, og þó stjórnarfrumvarpið leyfi kaupmönnum einum, að verzla við bændur með vissar vörutegundir annarstaðar en í kaupstöðunum sjálfum, þá getur svo farið, að þeir láti sèr hægt um það, ef þeir eru einir um hituna. Eg get heldur ekki ímyndað mèr, að föstu verzlunarmennirnir sèu þau tilreiðslu- eða hreinsunar- verkfæri, í gegnum hver verzlunin öll verði að renna, áður en hún geti orðið oss að þrifum. Eg held, að ef vèr getum ekki haft not hennar öðruvísi, þá sè oss vart við hjálpandi.

*K. Kristjánsson*: Það er auðsèð, að það er meiri hagnaður í alla staði, þar sem mikil vara er og nóg, og hugsaði eg, að ekki þyrfti góðan bónda úr sveit, til að sjá það.

*G. Einarsson*: Vèr, sem búum til dala, erum tregir á, að trúa öllu því, sem sagt er um ágæti og dýrð hinnar föstu verzlunar, af því með fram, að reynslan hefur sýnt oss einatt fram á hið gagnstæða. Eg vildi minnast á það dæmi, sem fulltrúi Reykjavíkur tók af jörð, sem einn stórbóndi býr á. Það er að vísu satt, að mikið gagn má að honum verða í sveitarfèlaginu, ef hann ver *vel* kröptum sínum og efnum; en brúki hann þá miður en skyldi, og sèu tóm kotúngabýli í kríngum hann, af því að hann hefur yfirborðið, og dregur að sèr allan kjarnan og kraptinn, þá vil eg heldur, og tel lángtum þarfari í fèlaginu smábændur á jörðinni, sem næðu þó að efnast dálítið, þegar enginn þraungvaði óeðlilega að atvinnuvegi þeirra. Eins er um það, eptir því sem reynslan virðist optar að hafa bent á til þessa, þegar stórkaupmenn hafa náð hèr nokkrum kröptum, þá hafa þeir, að svo miklu leyti sem þeir hafa getað, dregið undir yfirráð sín verzlunina á hinum minni kaupstöðum, og hamlað þannig hinum smærri kaupmönnum frá, að ná nokkru efnamagni, og gjört með því verzluninni miklu meiri óhag en hag.

*P. Pètursson*: Það er án efa enginn hèr, sem ekki vill halda jafnvægi á milli fastrar og lausrar verzlunar; en eg get ekki dulizt þess, að mèr finnst nefndarálitið yfir höfuð, og 3. gr. sèr í lagi, vilja kreppa um of að föstu verzluninni; og vil eg viðvíkjandi þessu einúngis geta þess, hvaða skaða muni af því leiða, ef föstu verzluninni er of mjög þjakað; þá getur vel komið þar, að fastakaupmennirnir þurfi að selja hús sín, og verða lausakaupmenn, og að verzlunin þannig dragist út úr landinu sjálfu, eins og raun gaf vitni um á stjórnardögum Kristjáns 4.

*Framsögumaður*: Eg hugsaði ei, að eg mundi nokkurn tíma þurfa að segja hinum konúngkjörna þíngmanni til í sögu Íslands; en það er kunnugt, að um alla tíð Friðriks 2., og jafnvel Kristjáns 3., var hver höfn hèr leigð út sèr í lagi, helzt til Þýzkra, og er hægt að sjá, að með því móti var verzlunin nógu föst, en að ómögulegt var samt, að kaupstaðir gætu risið upp, þegar öll aðsókn til verzlunar var kæfð.

*P. Pètursson* Þá var hèr eingaungu lausaverzlun einstakra manna, sem hèldu til erlendis, höfðu hèr ekkert aðsetur, og vanræktu sumar hafnir.

*Framsögumaður*: Nei, það var regluleg einokunarverzlun, allt eins og til er tekið í framvarpinu að verða skuli um Reykjavík, og var enginn munur á því, og hinu, sem áður var, nema sá, að þá var farið að einoka oss undir menn á einum stað, í Kaupmannahöfn, af því Kristján 4. vildi koma íslenzku verzluninni í hendur Dana, þar sem vèr áður vorum einokaðir undir sinn á hverjum stað, og þá vorum vèr seldir til manna, sem ekki höfðu vörur nè skip, heldur urðu að taka hvorttveggja að láni hjá Þjóðverjum, sem áður höfðu einokunina, sinn á hverri höfn, og um síðir, þegar einokunin óx meir og meir, þá kom loksins svo lángt aðhlynníngunni að föstu verzluninni, að stjórninni kom til hugar, að flytja fólkið úr landinu, og eyða það.

*P. Pètursson*: Það hlýtur þó að vera hinum heiðraða framsögumanni kunnugt, að um daga Kristjáns 4. komu hèðan iðulegar umkvartanir um skort á vörubyrgðum í landinu, af því verzlunin var í höndum einstakra útlendra manna, sem eg kallaði lausakaupmenn með tilliti til þess, að þeir voru erlendis, og svo stopulir við alla verzlun hèr, og komu ekki nema á einstakar hafnir, og þykir mèr það ekki þurfa að lýsa skorti á þekkíngu í sögunni, þó eg segði, að nú kynni eins að fara,

ef verzlunin drægist öll út úr landinu til útlendra lausakaupmanna, og vörubyrgðir landsins yrðu fyrir þá skuld óvissar, eins og til forna, og get eg vel samrýmt þetta við það, sem framsögumaður sagði, að það hefði verið tilgángur Kristjáns konúngs 4., að koma íslenzku verzluninni í hendur Dana.

*M. Stephensen*: Af því að eg hef tekið mèr viðaukaatkvæði við 3. gr. nefndarálitsins, leyfi eg mèr að fara fáeinum orðum um það, sem knúði mig til þessa. Svo er háttað ströndum suðurhluta Íslands, að allt frá Reykjanesi austur að Berufirði í Múlasýslu er á meginlandinu einn einasti kaupstaður, en það er Eyrarbakkakaupstaður. Á höfn kaupstaðarins geta ekki legið fleiri en 1 skip, og það því að eins, að það liggi við festar þær, er kaupmaðurinn á. Að kaupstað þessum er hin mesta aðsókn til verzlunar úr 3 sýslum landsins, og 2 af þeim hinum fólkríkustu; en af því ekki er í kaupstaðnum nema 1 kaupmaður, verður honum ekki mögulegt auk nauðsynja af matvælum og öðru, að flytja við, svo nóg sè handa Rángárvallasýslu, Skaptafellssýslu og Árnessýslu, auk þess sem kaupstaðurinn sjálfur þarf við, þar sem verzlunin allt af fer vaxandi. Það mun óhætt að fullyrða, að á Eyrarbakkakaupstað kemur ekki nógur viður handa verzluninni sjálfri og Árnessýslu einni, hvað þá handa Rángárvallasýslu og Skaptafellssýslu. Það kynni einhver að ætla, að frá Vestmannaeyjum mætti fá við handa Rángárvallasýslu, en bæði er það, að þángað kemur lítið meiri viður, en eyjaskeggjar þurfa til skipastóls síns og húsabygginga, enda eru flutníngar þaðan á land fyrir opnu hafi mjög hættulegir, og svo dýrir, að fáir komast hægar út af með þá en svo, að 1 ríkisdal verður að gefa, til að fá tylft hverja flutta upp í Landeyjasand. Þegar svona er háttað, vona eg, að hinir heiðruðu þíngmenn sjái, hver þörf sè á fyrir þær 3 sýslur, er eg nefndi, að geta fengið keypta í Þorlákshöfn þá vöru, sem öllum er svo nauðsynleg til bjargræðisútvega sinna.

*J. Skaptason*: Af því að búið er að fella breytíngaratkvæði mitt (hið 9.) við 2. gr., þá verð eg að kalla aptur breytíngaratkvæði mitt við þessa grein; því eg vildi ekki skaða lausakaupmenn yfir höfuð, með því að gjöra nokkra takmörkun við verzlun þeirra, þegar eg með breytíngaratkvæði mínu ekki gat gagnað þeim verzlunarmönnum, sem hèr eru búsettir í landinu.

*G. Brandsson*: Meðan mannafli í landinu er ekki meira vaxinn, en nú er hann, veit eg ekki, hvort landið er fært fyrir stórum kaupstöðum, þar hætt væri við, að fólk drægist að þeim, meir en góðu hófi gegndi, og væri það auðsjáanlegur skaði fyrir landbúnaðinn. En ef velmegunin vex, mun fólksfjöldinn fara þar eptir, og þá komast máske stóru kaupstaðirnir upp, þó vèr biðjum ekki. Reynslan sýnir þá líkast til, hvar þeir verða hagalegast settir, sem mikið getur farið eptir því, hvar hafnir eru góðar, og hægt um aðflutnínga; smáu kaupstaðirnir leggjast þá kannske sjálfkrafa niður, eða nokkrir þeirra, eptir sem tími og kríngumstæður sýna, að bezt á við.

*J.* bóndi *Jónsson*: Áður en gengið er til atkvæða um 3. gr., vildi eg tala fáein orð. Vegna þess, að nefndin hefur tekið sèr það breytíngaratkvæði, að niðurlag 3. gr. í nefndarálitinu falli burt, en í staðinn komi niðurlag 9. gr. nefndarálitsins, vil eg biðja þann háttvirta forseta, að bera upp til atkvæða á undan 3. gr. breytíngaratkvæði það, sem eg tók mèr við 9. gr. nefndarálitsins, en það er það 48. á atkvæðalistanum.

*P. Pálsson*: Eg vil einúngis mæla fyrir Skaptafellssýslu viðvíkjandi tímanum frá 4 til 6 vikna, og þar að lýtur breytíngaratkvæði mitt við 9. gr., sem eg vildi að kæmi til úrlausnar eptir breytíngaratkvæði þíngmannsins, sem talaði næst á undan mèr. Mèr finnst ekki veita af þeim tíma; því þar sem svo lángt er að sækja alla aðflutnínga, þar sjá allir að sá tími er ekkert of lángur; og fái þíngmaðurinn, sem seinast talaði, fram það, sem hann krafðist af forseta, þá vil eg líka óska þess, að mínum tilmælum verði framgengt, en aðhyllist þíngið breytíngaratkvæði hins annars þíngmanns úr Suðurþíngeyjarsýslu, þá er eg ánægður; annars legg eg mitt breytíngaratkvæði undir úrslit þíngsins.

*Þ. Sivertsen*: Það er nú búið að tala um þetta mál mikið og frá mörgum hliðum, og vil eg því ekki bæta við öðru, en þeirri einni athugagrein, sem mèr þykir mikið eptirtektavert, en enginn hefur hreift við, að eg muni, að fyrst beiddi alþíngi samhuga um verzlunarfrelsi 1845, mèr er óhætt að fullyrða, að samhuga ósk þjóðarinnar, en fór samt ekki fram á meira, en það, sem þíngið hèlt þá vera ómissandi, til þess að frjáls verzlun kæmist á; aptur 1849 ítrekaði alþíngi þessa beiðni sína, en dróg þá úr henni svo mikið, sem það hèlt frekast mega, ef verzlunarfrelsi ætti að verða að nokkru liði, einmitt í því skyni, að

menn yrðu heldur bænheyrðir. Nú, 2 árum síðar, farast sumum þíngmönnum svo orð, sem þeir enn nú vilji töluvert draga úr bón þessari. Þetta held eg fleirum en mèr kunni að virðast eptirtakanlegt, og enda stjórnin sjálf gjöra sèr í hugarlund, og segja, mætti eg gjöra henni upp orðin: „Íslendíngum er engin alvara, að biðja um frjálsa verzlun; þeir eru allt af að þokast nær því, að afbiðja hana", svo að vèr á 4. þínginu fengjum frumvarp til laga um verzlunarófrelsi. Eg get líka ætlað, að sumir mundu álíta þetta nokkurs konar ósamkvæmni af þínginu, sem þá ekki mundi bæta fyrir þessu áríðandi málefni.

*G. Brandsson*: Hinn 5. konúngkjörni þíngmaður gat þess, að menn kæmu sèr ekki saman um jafnvægið á milli hinnar föstu og lausu verzlunar, og ber okkur það á milli, að mèr finnst nefndarálitið hafa gjört það nægjanlega, svo það þarf þess vegna ekki nýrrar ítrekunar; en geti nú fasta verzlunin ekki haldizt við með þeirri tilhögun, sem þar er gjört ráð fyrir, þá held eg hún sè ekki svo ómissanleg, sem sumir ætla. Eg kvíði nú þessu engan veginn; því eg álít öll bönd á eðlilegu frelsi manna olla meir tálmunum en framförum, og sama er um verzlunina að segja eða viðskipti manna á milli, að eg vil hafa þau sem óbundnust, að verða mega.

*G. Einarsson*: Eg vil geta þess með tilliti til 19. breytíngaratkvæðis, að mèr virðist það vera nokkuð einstaklegt, og má vel vera, að verði því framgengt, að ótal bænir rísi út af, að aðrir úti um landið vilji fá sömu rèttindi eður samkynja fyrir ýmsa þeim í því tilliti hagkvæma staði. Að því leyti sem því er hreift, að legutíminn fyrir lausakaupmenn sè látinn að öllu leyti vera ótakmarkaður, þá tel eg bæði kaupmönnum og landsmönnum vera það einn hinn versta grikk; því það dregur einmitt úr verzlunarkappinu, og þraungvar of mjög að kjörum fastakaupmanna. Þeir, sem eiga bústaði fjarlægt kaupstöðum, geta hægt og vel samið um við einhvern, sem býr í grennd við kaupstaðinn, að láta sig vita um komu lausakaupmanna, svo að þeir geti í tæka tíð sótt á fund þeirra.

*J.* bóndi *Jónsson*: Þíngmaðurinn, er seinast talaði, hèlt, að það mundi draga úr verzlunarkappi lausakaupmanna, ef legutími þeirra á höfnum væri lengdur, en hann gætti þess ekki, sem þó opt hefur verið sagt hèr á þíngi, að þeim væri tíminn dýrmætur, og eg ætla, að hann sè þeim svo dýrmætur, að þeir

muni flýta verzlun sinni sem mest þeir geta, þó þeir sèu ekki bundnir við neinn tíma; en þessi ákveðni tími getur stundum orðið til þess, að þeir þurfa að eyða meiri tíma til verzlunar en annars. Þegar lausakaupmaður er búinn að verzla á einni höfn í mánuð, en á ekki meira eptir af vörum en svo, að hann gæti verzlað því á viku, ef hann hefði legið kyr, má hann bíða byrjar, máske lángan tíma, síðan sigla á aðra höfn; þá frèttist ekki koma hans fljótt upp í sveitir, og menn geta ekki ýmsra kríngumstæða vegna farið strax, og þeir frètta hana; stundum geta óveður tafið, og þannig verður hinn ákveðni tími opt óhentugur, og lausakaupmönnum til skaða.

*G. Einarsson*: Það getur einstöku sinnum kannske komið fyrir, að þessi stutti legutími lausakaupmanna kunni að verða að baga fyrir landsmenn eða lausakaupmenn; en þess er þó að gæta, að hèr er sagt, að þeir megi ekki verzla, nema 4 vikur á hverjum stað, en það er ekki þar með sagt, að þeir megi ekki liggja á sömu höfninni, nema 4 vikur; og eg veit varla dæmi til þess, að fastakaupmenn hafi verið svo andvígir, að vilja bola hina í burt af höfninni, þó að þeir hafi legið þar aðgjörðalausir fram yfir hinn ákveðna tíma. Annars veit eg ekki heldur dæmi þess, að þessi stutti verzlunartími lausakaupmanna á hverri höfn hafi orðið að nokkrum sèrlegum baga fyrir verzlunina.

*M. Austmann*: Við breytíngaratkvæði hins annars háttvirta þíngmanns úr Rángárvallasýslu, sem er 19. töluliður, leyfi eg mèr að gjöra þá athugasemd, að mèr virðist það óþarft, þar sem það er einmitt ódugnaði kaupmanna í Vestmannaeyjum að kenna, að þeir ekki flytja timbur bæði undir Landeyjasand, og einkum að Dyrhólaey, og eg er viss um, að það er hægt og kostnaðarlítið, að flytja timbur úr eyjunum undir Landeyjasand í ládeyðu og góðu veðri á sumardag á duggu eða stærra skipi, og setja það út í flotum, og draga eða róa að landi, og mætti þannig hæglega afferma talsvert af timbri á einum degi, og er þó miklu hægra, að koma þessu við við Dyrhólaey, sem í tilliti til Skaptafellssýslu er miklum mun hentugri en Þorlákshöfn, og einmitt að því ættu Skaptfellíngar að róa öllum árum, að fá þángað flutt bæði timbur og aðrar þúngar vörur, sem þeir annars með ærnum kostnaði verða að sækja lángar leiðir.

*P. Pálsson*: Það hefur verið reynt, að fá verzlunarmenn í Vestmannaeyjum og frá öðrum kauptúnum til, að flytja trjá-

við, korn og aðra þúngavöru undir Dyrhólaey, en það hefur að mestu leyti farizt fyrir, og einkum nú á næstliðnum árum, og kenni eg það mest, ódugnaði verzlunarmannanna í Vestmannaeyjum, sem manna bezt geta staðið að flutníngum þángað, og þyrftu varla að iðrast eptir þá, ef þeir gættu rètt að gagni sínu.

*M. Austmann*: Menn skyldu nú halda, að Vestmannaeyjakaupmenn gengju á fram, en ekki aptur á bak, í verzlunarframkvæmd og dugnaði.

*P. Pálsson*: Þetta er mikil spádómsgáfa.

*M. Stephensen*: Að ekki sè hættulaust, að flytja við millum lands og eyja, sannast bezt á því, að á rúmu hálfu ári, því sem nú er að liða, hafa af landi og Vestmannaeyjum drukknað 9 menn, svo þó að þar væri nógan við að fá, sem engan veginn er, því þar er sífelldur viðarskortur, nema máske fyrir eyjamenn sjálfa, þá gjörir hættan flutníng á honum í land mjög hættulegan, og kostnaðurinn sjálfan hann óbærilegan.

*G. Brandsson*: Eg vil geta þess viðvíkjandi þessum ræðum, að mig minnir ekki betur, en að eg hafi lesið í riti nokkru eptir einn merkismann þessa lands, að Gísli heitinn Símonarson, sem verzlaði í Vestmannaeyjum, hafi flutt vörur á skipi undir Dyrhólaey, og þannig hægt landsmönnum mjög aðflutnínga. Þar sem hann gat nú ráðizt í þetta, og varð ei að slysum, held eg fleiri gætu gjört hið sama.

*P. Sigurðsson*: Það var að vísu um tíma, að kaupmenn fluttu nokkra farma undir Dyrhólaey, og jafnvel þó þær ferðir sèu nokkrum erfiðleika og kannske hættu fyrir vörutapi undirorpnar, þá sýnir þó þetta dæmi, að kaupmönnum er þetta vinnandi verk, ef þeir kærðu sig um það. Þeir eru nú alveg hættir þessum flutníngum, þrátt fyrir margítrekaða bón Skaptfellínga, og geta vel sèð, að bæði þeir og Rángæíngar með miklum kostnaði og erfiðleikum sæki út til eyjanna til verzlunar; því þeim er kunnugt, að sýslubúar eiga lángan veg á aðra kaupstaði. Því þarf ekki að lýsa hèr, hvað hættulegar lendíngar eru fyrir Rángársandi, svo timbur er ekki flytjandi frá eyjunum utan einstaka siunum, og það fáar tylftir í einu með hverjum skipsfarmi, og sem vegna hættulegrar landtöku verður að kasta af skipinu úti á sjó, og fara með festi úr því í land, og þar á er víst byggt það, sem þíngmaður Rángvellínga sagði, að Vest-

mannaeyíngar ekki flytta timbur upp frá eyjunum, fremur en þeir gjöra.

*Jak. Guðmundsson*: Eg leyfi mèr að gjöra þá athugasemd, að ef 9. og 18. breytíngaratkvæði verður framgengt, þá ætti ekki að takmarka tíma, sem þeir menn megi verzla á, sem koma híngað frá útlöndum; því þar undir getur auðveldlega komið, hvort þeir geta selt allan varníng sinn eða ekki.

*J. Briem*: 19. breytíngaratkvæði vil eg styðja, bæði af því, að þíngin að undanförnu, og helzt hið seinasta, með miklum atkvæðamun hafa beðizt hins sama, sem það fer fram, en þó einkum af því, að það í sjálfu sèr er mjög mikils varðandi fyrir að minnsta kosti tvær hinar fjölbyggðustu sýslur á landinu. Á móti breytíngaratkvæðinu hefur það helzt verið mælt, að það sè einstaklegt; en eg veit ekki, hvort það getur heitið einstaklegt, sem svo margra manna gagn er undir komið, og skil ekki, að uppástúngan eigi að falla fyrir það, þó allir landsmenn hafi ekki beinlínis hennar hin fyrstu not. Enn fremur hef eg heyrt það mælt móti þessu breytíngaratkvæði, að þó kaupverzlun á Þorlákshöfn ekki sè leyfð utanríkismönnum, þá bættu vöruflutníngarnir úr þeim örðugleika, sem þar af flyti; en eg finn hvorki í stjórnarfrumvarpinu, nè í uppástúngu nefndarinnar, og ekki heldur í neinu breytíngaratkvæðanna, að farið sè fram á, að utanríkismenn flytji vörur, og þó þeim væri leyft, að flytja vörur, og það jafnvel á aðra staði en þá, sem löggild kauptún eru, sem eg er á að ekki eigi yfir höfuð að leyfa, þá væri það að vísu mikill og bagalegur krókur fyrir Árnesínga og Rángæínga, ef þeir þyrftu fyrst að fara suður yfir heiðar, til þess að kaupa timbur og semja um flutnínga þess austur á Þorlákshöfn, enda væri tvísýnt, hvort timburkaupmaður fengist til, að fara þá ferð, nema máske því að eins, að honum yrði fyrir fram gefin vissa um, að farmurinn yrði keyptur, annaðhvort allur eður að mestu leyti, en að gefa þá vissu, er optast örðugt fyrir einstaka menn, og er því meiri ástæða til, að fallast á breytíngaratkvæðið, því örðugra það er, á annan veg að bæta úr svo mikilli nauðsyn svo margra manna.

*Framsögumaður*: Nefndin skilur ekki, að það þurfi að til taka lengri tíma handa lausakaupmönnum, að verzla á hverjum stað; eins getur hún ekki fallizt á, að gjörð sè undantekníng um timburflutnínga til Þorlákshafnar. Á alþíngi 1845 og

1849 var farið fram á, að sigla upp Þorlákshöfn, en nefndin hefur gjört sèr það að reglu, að fara svo nærri frumvarpinu, sem unnt var, og hún hefur sýnt, að hún lætur undan stjórninni í því, sem staðizt getur, án þess að grundvallarreglurnar skerðist. Reynslan hefur sýnt, að vel má komast af með fjögra vikna tímann, og hann getur orðið í hag fyrir fastakaupmenn og landsmenn líka. Eptir frumvarpinu mundu fastakaupmenn mega flytja timburfarma til Þorlákshafnar, eins og hvað annað. Landsmenn gætu því farið og samið við einhvern kaupmann um flutnínginn, og mundi það geta orðið að fullum notum; en þeir eiga ekki svo hægt með, að semja um það við utanríkismenn; og af þessum ástæðum er eg mótfallinn 19. breytíngaratkvæði.

*Jak. Guðmundsson*: Mèr finnst framsögumanni vera mislagðar hendur við Þorlákshöfn og aðrar hafnir, ef hann álítur, að henni sè borgið með timburaðflutníng, eins og nú er; því eg held, að Hafnarfirði og Keflavík sè betur borgið með sömu rèttindum, og Þorlákshöfn nú hefur, að minnsta kosti virðist reynslan benda til þess.

*M. Stephensen*: Þar sem hinn heiðraði framsögumaður bar það fram, að þar fastakaupmönnum væri leyft, að flytja timbur og annað bæði á Þorlákshöfn og aðra staði, þá væri ei þörf á, að utanríkismenn fengju leyfi til, að verzla með við á Þorlákshöfn, þá verð eg að geta þess, að reynslan hefur í margt ár sýnt, að kaupmenn eru þessa allófúsir, og hafa enn ekki flutt einn timburfarm til sölu á Þorlákshöfn. Kaupmaður Gísli Símonsen flutti um nokkur ár, þegar hann var kaupmaður í Vestmannaeyjum vörur að og frá Dyrhólaey, en hvernig sem skorað hefur verið á kaupmenn síðan, hafa flutníngar þángað með öllu lagzt af.

*G. Brandsson*: Af því frumvarp stjórnarinnar í 3. gr. minnist á fiskiveiðarnar, um hverjar þó lítið hefur verið talað hèr á þínginu, verð eg að minnast á þær í fáum orðum. Það er þíngmönnum kunnugt, að eg hef verið því mótfallinn, að utanríkis-lausakaupmönnum væru þær leyfðar hèr við land, vegna þess að eg held, að slíkt leyfi mundi spilla verzluninni bæði í tilliti til bænda og föstu kaupmannanna. Eg sè nú, að nefndin hefur gengið þegjandi fram hjá þeim, og því hvorki bannað þær nè leyft. Mèr finnst nú þetta vera hyggilega gjört af nefndinni; því þær eru að minni hyggju óviðkomandi verzlun-

armálinu, og þurfa því ekki að setjast í samband við það. Máske það geti orðið eitt af verkefnum alþíngis seinna meir, að ráðgast um allt fyrirkomulag útlendra fiskiveiða hèr við landið, og gæti það þá vel beðið þess tíma; líklega yrði hægra þá en nú, að sjá, hvað bezt á við í þessu efni. Frjálsa verzlunin verður þó að öllum líkindum komin hèr á fót, og sèst þá, hverja stefnu hún tekur, og hverjir ávextir hennar verða; geti hún þá staðizt, án þess fiskiveiðarnar sèu leyfðar, held eg óþarfa, að bjóða þær fram, en reyna heldur, að efla eigin sjávarútveg sem bezt má verða.

*P. Sigurðsson*: Eg hef áður látið þá meiníngu mína í ljósi, hvers vegna eg er mótfallinn fiskiveiðum útlendra manna nú fyrst um sinn, og hefur sá heiðraði fulltrúi frá Gullbríngusýslu, er síðast mælti, tekið svo ljóslega fram ástæður þær, er eg hugði fram að færa, að eg hef þar engu við að bæta. En þar sem hinn heiðraði fulltrúi Dalasýslu vildi ekki láta lengja legutíma lausakaupmanna, þá er eg þeirri meiníngu hans mótfallinn; því þetta var þó almenn ósk landsmanna 1845, sem þíngið þá aðhylltist í einu hljóði, og fyrst það sýndist verzlun vorri til framfara þá, þá finnst mèr ekki, að öðruvísi sè nú orðið ástatt. Eg held við ættum að hafa þessi bönd sem minnst á útlendum þjóðum, þegar vèr erum samhuga í því, að óska eptir viðskiptum við þær. En þar sem sami þíngmaður kallar nokkuð einstaklegt 19. breytíngaratkvæðið, þá vil eg minna hann á, að ekki þarf annað, en líta á uppdrátt lands þessa, til að sjá, að landslagið er líka nokkuð einstaklegt, þar sem frá Reykjanesi og austur í Djúpavog í Múlasýslu eru berir sandar og hafnleysur, utan á Eyrarbakka getur legið eitt skip; því verð eg að álíta mjög þarflegt, að útlendum mönnum sè veitt leyfi þetta, þar sem það getur orðið ósegjanlegt hagræði fyrir 2 fjölbyggðustu sýslur. Kaupmenn hèr úr Reykjavík hafa enn ekki flutt það timbur til Þorlákshafnar, að það hafi frètzt til Rángvellínga. Ef þetta leyfi fengist, og sýslubúum þessum þannig gæfist færi á, að semja við einhvern timburkaupmann, t. a. m. frá Norvegi, þá er það hvöt fyrir kaupmenn hèr, að nota betur það flutníngaleyfi til Þorlákshafnar, sem þeir nú hafa; því það er þeim kunnugt, að óvinnandi verk er, að sækja híngað timbur frá Rángárvallasýslu landveg. Þó sýnir reynslan, að þeir eru ekki byrjaðir með þetta, og því get ég ekki sett neitt traust til þeirra framvegis í þessu tilliti.

*B. Halldórsson*: Eg vil stuttlega drepa á 4 vikna tímann, sem nefndin hefur bundið utanríkismenn við í 9. gr., og nú er á atkvæðalistanum flutt til 3. gr. Nefndin hefur í ástæðum sínum fyrir þessari ákvörðun ekkert fært til því til stuðníngs; miklu fremur hefur hún sjálf kannazt við, að þessi tiltekni tími optsinnis geti orðið of stuttur til þess, að koma kaupmannsins geti frètzt upp í sveitir, og bændur athafnað sig með vörur sínar. Framsögumanni tókst heldur ekki, þegar hann talaði síðast, að bera neina ástæðu fyrir þessu, nema tilhliðrun nefndarinnar við stjórnarfrumvarpið, og þá afsökun, að vel megi notast við þennan tíma. Eg get ekki látið mèr þetta lynda; eg verð að heyra einhverja skynsamlega ástæðu, er sýni mèr, að nokkurt gagn geti orðið að þessari ákvörðun, áður en eg fellst á hana, og því felli eg mig betur við 48. breytíngaratkvæði, sem sleppir allri tiltekníngu tímans. Eg verð og með þíngmanni Suðurþíngeyjarsýslu að mæla fast fram með því, að þetta 48. breytíngaratkvæði verði borið upp til atkvæða á undan uppástúngu nefndarinnar við 20. tölulið; því sú breytíng nefndarinnar, sem hún síðar hefur stúngið upp á, að 9. gr. í nefndarálitinu falli burtu sem grein, en sá kafli hennar, sem 48. breytíngaratkvæði er borið upp við, tengist við 3. gr., og hinn hlutinn komi inn í 8. gr., getur ollað því, þegar svo er raðað niður til atkvæða, eins og hèr er gjört, að eg ekki get gefið því atkvæði mitt, sem eg vildi. Sè t. a. m. 20. töluliður borinn upp á undan 48. breytíngaratkvæði, þá verður þíngið að fella þennan tölulið, ef það vill fallast á 48. breytíngaratkvæði, þó þíngið annars vegar vildi, eins og nefndin, að 9. gr. hverfi inn í hina 3. og 8. gr.; því ef þíngið samþykkti þessa breytíngu nefndarinnar við hinn áminnsta tölulið, yrði fóturinn felldur undan breytíngaratkvæðinu, og það gæti aldrei komið til atkvæða.

*Forseti*: Áður en gengið er til atkvæða, vil eg þá geta þess, að eg læt greiða atkvæði um 48. breytíngaratkvæði á undan 20. tölulið.

*Á. Einarsson*: Hvað 19. breytíngaratkvæði viðvíkur, þá finnst mèr vandi á, að skera úr því. Sumir eru nú ákafir fyrir því, að leyfð sè uppsiglíng með timburfarma á Þorlákshöfn, en 1849 var gjört ráð fyrir, að þess háttar málum yrði skotið undir aðalverzlunarmálefnið; en þetta hefur ekki verið gjört, og ekkert minnzt á þá smáverzlunarstaði í stjórnarfrumvarpinu,

sem þá var beðið um, og því síður finnst mèr ástæða til, að fylgja þessu breytíngaratkvæði fram, eins og nú stendur á. Eg get ekki heldur neitað því, að mèr finnst, að menn fái nú of fljótt mistraust á flutníngaleyfinu, ef menn nú strax eru hræddir um, að kaupmenn flytji ekki þángað timburfarma, ef landsbúar óska þess.

Síðan lèt forseti gánga til atkvæða, og fór atkvæðagreiðslan fram á þessa leið:

15. töluliður felldur með 28 atkvæðum gegn 14;
16. —— —— — 32 —— — 10;
17. —— —— — 37 —— — 5;
18. —— tekinn aptur;
19. —— samþykktur með 21 atkvæði gegn 19;

en með því sú atkvæðagreiðsla þótti óglögg, fór atkvæðagreiðsla fram með nöfnum, samkvæmt 64. gr. í þíngsköpunum, og sögðu

| já: | nei: |
|---|---|
| B. Halldórsson. | Hallgr. Jónsson. |
| Á. Böðvarsson. | Jón Guðmundsson. |
| S. Gunnarsson. | M. Austmann. |
| G. Vigfússon. | Jens Sigurðsson. |
| P. Pálsson. | G. Brandsson. |
| P. Sigurðsson. | K. Kristjánsson. |
| M. Stephensen. | S. Hallgrímsson. |
| J. Briem. | J. hreppst. Sigurðsson. |
| G. Magnússon. | P. Melsteð. |
| Jak. Guðmundsson. | G. Einarsson. |
| H. Stephensen. | Þ. Sivertsen. |
| M. Gíslason. | B. Benediktsen. |
| L. Johnsen. | Ó. E. Johnsen. |
| Þ. Kristjánsson. | J. kandíd. Sigurðsson. |
| S. Níelsson. | Á. Einarsson. |
| E. Briem. | J. Skaptason. |
| Ó. Briem. | St. Jónsson. |
| J. bóndi Jónsson. | J. hreppst. Jónsson. |
| Þ. Sveinbjörnsson. | B. Jónsson. |
| H. G. Thordersen. | |
| Halld. Jónsson. | |
| P. Pètursson. | |
| Þ. Jónasson. | |

þannig var töluliður þessi samþykktur með 23 atkvæðum gegn 19.

Eptir uppástúngu framsögumannsins og með samþykki þíngmanna lèt forseti 20. stafliðið flytjast til 9. greinar; síðan var 21. stafliður samþykktur með 35 atkvæðum gegn 7, en 22. var með því fallinn.

Forseti ákvað fund kl. 11 morguninn eptir, og sagði fundi slitið.

---

## 12. fundur, 1. d. ágústm.

Allir á fundi. Gjörðabók frá síðasta fundi lesin og samþykkt.

Því næst bað forseti þíngmenn, að taka hina 4. gr. frumvarpsins ásamt þeim breytíngum öllum og breytíngaratkvæðum, sem við hana áttu, til umræðu.

*P. Pálsson*: Hvað því breytíngaratkvæði mínu viðvíkur, sem eg hef gjört við þessa grein, og sem hèr er á atkvæðalistanum undir töluliðnum 23, þá er það máske bæði nokkuð einstaklegt og ekki tímabært, svo eg vil ekki, að menn tefji tímann fyrir sèr með því, að ræða um það, heldur tek eg það nú aptur.

*Forseti*: Ef enginn tekur breytíngaratkvæði þíngmannsins upp, þá álít eg það, samkvæmt þíngsköpunum, niður fallið.

*B. Benediktsen*: Það var nú einkum hèr í 1. gr., sem mig greindi á við meðnefndarmenn mína, og þess vegna ætla eg nú að leyfa mèr að tala nokkur orð þar að lútandi. Það var tekið fram í gær, og það greinilega, bæði af hinum háttvirta konúngsfulltrúa, og einkanlega af 3 hinum háttvirtu konúngkjörnu þíngmönnum, að ef nefndarálitinu í öllum þess greinum yrði framgengt hèr á þíngi, og fengi síðan lagagildi, mundi öll föst verzlun hèr á landi komast á sundrúng, og henni því, ef til vill, verða þegar um turnað, og yrði það með tímanum til mikils tjóns, og máske eyðileggíngar landi voru. Eg er nú þessum háttvirtu herrum í þessu efni öldúngis samdóma, og þess vegna gat eg ekki komið mèr saman við meðnefndarmenn mína í þessari grein; því að mèr fannst og finnst það vera bæði ósanngjarnt og óeðlilegt, og gagnstætt allri rèttri og hlutdrægnislausri skoðun, að nema að mestu leyti þau lètta og litlu bönd í burtu, sem stjórnin nú leggur á hina útlendu verzlun

í stað hinna fyrri, sem að vísu voru þá óbærileg, en láta þau síðan koma jafnt á alla kaupmenn, hvort sem að þeir eru útlendir eða innlendir; því það liggur þó í augum uppi, að hinir föstu kaupmenn innlendu standa í nánara sambandi og félagsskap við landsmenn, heldur en allir aðrir aðkomu-lausakaupmenn; því föstu verzlunarmennirnir bera allar byrðar sameiginlega með landsmönnum, að minnsta kosti allar opinberar álögur. Þeir eru líka landinu í raun rèttri þarfari, en aðrir stopulir og lausir verzlunarmenn, með því þeir hafa vörubyrgðir á öllum tímum ársins, og þegar eitthvað þrengir að, þá eru það fastakaupmennirnir, sem eru stoð og stytta landsmanna, með því að hafa jafnaðarlega nægilegt af vörum, er þeir selja og lána hinum fátæku og bjargþrota búendum víða hvar. Það er þess vegna ofur-óviðurkvæmilegt, að setja hina föstu verzlunarstètt jafnhliða utanríkis-verzlunarmönnum eða lausakaupmönnum, að hrífa hina föstu verzlunarstètt, sem á heima í landinu, og setja hana með húgmyndum sínum út í lönd, út á milli ýmsra þjóða, er vèr lítið þekkjum til, og miða svo jafnrèttið frá Íslands sjónarmiði yfir allar þjóðir fyrir utan landið; því þegar verið er að tala um jafnrètti við allar þjóðir, þá er ógreint, hvort þjóðin sjálf, er veitir jafnrèttið, er þar með talin. Mèr finnst það því of mikill ójöfnuður. Það er líka samkvæmt áliti stjórnarinnar og áliti hinna fyrri alþínga, að útlendir verzlunarmenn ættu að greiða dálítið hærra gjald, en innanríkismenn nú lengi hafa goldið, og vil eg í því skyni benda til alþíngistíðindanna frá 1849, og nefndin sjálf hefur jafnvel látið það í ljósi, að minnsta kosti í ástæðunum fyrir áliti sínu, þar sem hún t. a. m. segir, að verzlun vor sè enn í bernsku, og þurfi aðhjúkrunar við. Það er því gagnstætt þessari skoðun, og í sjálfu sèr óeðlilegt, að þýngja hana með nýjum álögum, og eg fyrir mitt leyti get ekki heldur einu sinni álitið það rètt, að þíngið nú taki sèr þá stefnu, að umbreyta gjaldlögum þeim, sem hin íslenzka verzlun nú hefur, í því skyni, að lètta nokkuð af þeim lítilfjörlegu álögum, er stjórnin leggur á hina útlendu verzlun, en aptur þýngja á hinum föstu verzlunarmönnum og innlendum lausakaupmönnum; því eg efast um, að sá hafi átt að vera tilgángur þíngsins í þetta sinn, og að lítið muni verða úr því ímyndaða valdi, að mynda slík lög. Vèr verðum þess utan að gæta þess, að vèr fáum tolllausar vörur frá Danmörku, og að vörur vorar eru fluttar toll-

lausar inn í Danmörku, en svo er því ekki varið í öðrum löndum. Ef því yrði nú framgengt, sem nefndin fer fram á, að leggja toll á hina dönsku verzlunarmenn, þá er ekki ólíklegt, að svo fari, að stjórnin vilji gjalda líku líkt, og þá værum vèr ekki vel að komnir, að minnsta kosti ekki í bráð; því það er mjög efasamt, að vèr fáum utanríkismenn nú þegar, og enda að staðaldri, til þess, að verzla við oss, og þegar verzlunin er komin í þetta horf, get eg ekki betur sèð, en að landsmenn verði yfir höfuð illa farnir, og eg vil spyrja: „Til hvers miða þessar nýju álögur á hina innlendu verzlun?“ Eg vil biðja þíngmenn, að gæta sín fyrir því, að hrapa ekki um skör fram að því, sem landinu getur orðið að ógagni, heldur fara eptir hinu, sem sanngjarnt er og haganlegast, eptir því sem nú stendur á.

*Framsögumaður*: Áður en eg fer út í breytíngaratkvæðin, sem gjörð hafa verið við þessa 4. gr., skal eg svara nokkru upp á ræðu þíngmannsins úr Barðastrandarsýslu. Það lítur svo út, eins og að hinn háttvirti þíngmaður áliti það ómögulegt, að innlend verzlun geti staðizt, ef utanríkisþjóðum er gefið sama verzlunarfrelsi og innanríkismönnum. Eg vona, að allir þíngmenn sjái, hvað í þessari ályktun liggur, en það er, að það fyrirkomulag, sem híngað til hefur verið á verzluninni hèr á landi, hafi verið oss til skaða; því það er auðsèð, að vèr höfum mátt, og megum enn, borga allan þann skakka, sem af því hefur leitt, að verzlun vor hefur verið bundin við eina þjóð, og að vèr höfum orðið að sæta þeim kostum, sem hún hefur boðið oss.

En hvað nú þessa 4. gr. frumvarpsins snertir, þá er þar sagt, að greiða skuli 5 dali af hverju lestarrúmi auk venjulegs gjalds fyrir leiðarbrèf. Það er nú auðsèð, að þetta er ekki byggt á neinu jafnrètti; því með þessari ákvörðun er einmitt hinum útlendu verzlunarmönnum gjört miklu örðugra fyrir, en hinum innlendu, nema þegar vörurnar eru fluttar hèðan beinlínis til utanríkis-landa. Þetta þótti nú nefndinni ísjárvert, að gjöra hinni útlendu verzlun þannig örðugra fyrir, og þá um leið að gjöra hana sjálfum oss ábataminni. Nefndin styrktist því meir í þessu áliti sínu, sem stjórnin hefur opt lýst því yfir, að það væri grundvallarregla sín, að láta allar þjóðir njóta jafnrèttis í verzluninni, enda er það og óhætt, og að minnsta kosti ekki til neins tjóns fyrir Dani; því eptir tilskipun 1. maí

1838 er hinum innlendu kaupmönnum vilnað í með tolluppbótum, og gjört þannig hægra fyrir, að flytja útlendar vörur úr Danmörku.

Þegar nú nefndin fór að yfirvega, hvað ákveða skyldi um verzlunargjaldið, áleit hún það fyrst og fremst rèttast og sanngjarnast, að hafa sjónarmið landsins fyrir augum; því þannig yrði allur gángur verzlunarinnar eðlilegastur. Þar næst þótti henni og nauðsyn til bera, að leggja einhverjar álögur á verzlunina, en ekkert gjald vildi hún hafa sem útflutníngstoll, sem jafnan hefur lagzt þýngst á þær vörur, sem sízt þola það, til að mynda fiskinn. Reynslan er líka búin að sýna það, að með því, að halda 50 dala tollinum, hefur hvorki stjórninni nè oss tekizt, að neyða neinn til, að láta undan. Þess vegna sýndist nefndinni, að það mundi vera bezt, að hafa álöguna sem minnsta, en undantekníngarnar sem fæstar, en að þessi álaga gengi jafnt yfir alla undantekníngarlaust. Um þetta var að sönnu um hríð nokkur ágreiníngur í nefndinni; en hún gat þó ekki fallizt á, að neinar undantekníngar væru gjörðar, af því að það væri gagnstætt grundvallarreglunni, og hagnaðurinn af því lenti þá á þeim, sem sízt þyrftu þess við. Ef að nú allir innlendir verzlunarmenn hefðu verið undan þegnir álögunni, eins og frumvarpið gjörir, þá hefði þó 14 marka gjaldið orðið að haldast, en það vildi nefndin taka burtu; því það væri brotaminnst; en að setja eitthvert lágt gjald í staðinn, t. a. m. 1 dal af lest, það þótti nefndinni ísjárvert vegna þess, að þá kynni að þurfa að hækka það bráðum aptur. Þá hefði álagan líka orðið misjöfn, og það þótti nefndinni ekki vera samkvæmt rèttri grundvallarreglu, nè þeirri skoðun stjórnarinnar, sem hún áleit rèttasta.

Í breytíngaratkvæðum þeim, sem upp hafa verið borin við grein þessa, hefur verið stúngið upp á ýmsu, sem nefndin hefur þó ekki getað fallizt á. Sumir hafa farið því fram, að lækka gjaldið fyrir útlenda menn, og hafa ekkert gjald á hinum innlendu; en þá kemur sá ójöfnuður fram, sem gagnstæður er grundvallarreglunni. Þannig hefur minni hluti nefndarinnar lækkað gjaldið á utanríkisverzlunarmönnum um einn dal og leiðarbrèfin, og hinn 5. konúngkjörni þíngmaður einúngis tekið af gjaldið fyrir leiðarbrèfin. Aðrir þíngmenn hafa stúngið upp á öðrum breytíngum, til dæmis, að búsettir kaupmenn borgi að eins 1 rbd.; en þá getur nú fyrst og fremst verið efi á því,

hver búsettur sè hèr í landi. Líka getur það valdið vafníngi, ef timbur er tekið undan álögunni, eins og sumir hafa stúngið upp á; því það getur verið fleira í farminum en timbur, og þarf þá að hafa umsjón á því, að sá partur af farminum sleppi fyrir álögunni, en aptur sè lagt gjald á hinn hluta farmsins. Nefndinni sýndist þess vegna ógjörníngur, að undan taka neitt, og valdi heldur, að leggja lágt skipagjald á alla, og lægra, en nokkurt skip borgar, sem kemur til Danmerkur; því af saltförmum eða timburförmum, sem þángað er fluttir, eru greidd 16 mörk til 4 dala af lestarrúmi, og í hertogadæmunum 2 til 3 dalir. Hvað 25. breytíngaratkvæði snertir, þá er þar í stúngið upp á því, að útlendir verzlunarmenn gjaldi 3 dali, danskir 2, og búsettir kaupmenn hèr á landi 1 rbd. Hèr eru danskir kaupmenn og búsettir hvað öðru mótsett, og getur sú aðgreiníng opt orðið vafasöm. Eg vil taka til dæmis, að innlendur maður, sem byrjar verzlun, tæki utanríkisskip á leigu; þá er nú auðvitað, að hann er ekki útlendur, og ekki heldur danskur, nè búsettur hèr í landi, þegar menn skilja orðið „búsettur“, eins og vanalegt er, um þann einn, sem hefur dúk og disk á einhverjum stað. Í þessu breytíngaratkvæði eru líka timburfarmar undan þegnir álögunni, en við það kemur enn fram nýr ójöfnuður; því það getur auðveldlega að borið, að menn komi híngað upp farmlausir, til þess að kaupa hèr farm, annaðhvort fyrir tóma peðínga eða ávísanir til kaupmanna, sem hèr væru, og er þá ekki sanngjarnt, að þeir borgi meira fyrir ekki neitt, en hinir fyrir heilan farm. Slík undanþága er óhentug, og þegar gjaldið er lágt, sem leggst á viðarfarminn, þá getur það ekki hnekkt kaupunum. Móti 26. breytíngaratkvæði er ekki annað en það, að það að skilur innan- og utanríkis-skip. 27. breytíngaratkvæði er ógreinilega orðað, þar sem það segir: „og þar að auki 14 marka gjaldið“; því það má taka það svo, eins og borga skuli 14 marka gjaldið jafnskjótt og leiðarbrèfagjaldið; en það getur ekki verið eptir opnu brèfi frá 1836. Eins er og 5 ára fresturinn, sem þar er stúngið upp á, mjög skjárverður; því slíkt getur valdið mikilli óvissu hjá kaupmönnum, og fyrir verzlun er ekkert háskalegra, en þetta kák, sem aldrei fylgir neinni fastri grundvallarreglu, nema kannske sinni hvert árið. 28. breytíngaratkvæði fer einnig fram ójöfnuði; því eptir því verður gjaldið á sumum innflutníngsgjald, en á sumum útflutníngstollur, nema þegar þeir flytja vöruna til

Danmerkur. Þetta kemur ójafnt niður, og getur ekki staðizt lengi, heldur yrði að breyta því fyr eða síðar. Nefndin gat nú ekki fellt sig við neinar af þessum uppástúngum, en henni þótti einúngis nauðsyn á, að taka fram, að leysa íslenzk leiðarbrèf fyrir hverja ferð fram og aptur.

*B. Benediktsen*: Af þessari laungu ræðu hins heiðraða framsögumanns hef eg lítinn fróðleik fengið, og hef eg því ekki heldur getað fengið neina nýja sannfæríngu af henni. Eg get ekki heldur fundið, að framsögumaður hafi hrundið ástæðum mínum, og skírskota eg því til þess, sem eg hef áður talað um þetta mál. Mèr getur ekki annað fundizt, en að það sè óviðurkvæmilegt, sem nefndin fer fram á; því eg held, að hvorki nefndin nè þíngið hafi neina köllun til þess, að leggja nýjar álögur á danska verzlunarmenn, og því síður á þá innlendu. Mèr finnst það vera ofan á, að minnsta kosti í meiníngu meira hluta nefndarinnar, að hann slengi föstum kaupmönnum inn á milli útlendra verzlunarmanna; en þetta er öldúngis ekki rètt. Þó að nefndin ætlist nú til, að 14 marka gjaldið falli niður, þá held eg, að það gjöri lítið til; því það eru nú, og að líkindum verða framvegis, margir kaupmenn, sem ekki geta notað sèr lètti 14 marka gjaldsins; því þeir hinir sömu senda skip sín til Danmerkur, en ekki til útlanda. Það er því auðsèð, að þessir menn verða fyrir nýrri álögu, í stað þess að losast við kostnað, sem nefndin og fleiri skírskota til, og það er einnig þessa vegna, að eg yfir höfuð að tala get ekki fundið neina sanngirni í uppástúngum meira hluta nefndarinnar.

*K. Kristjánsson*: Af því að breytíngaratkvæðið undir 24. tölulið á atkvæðalistanum heyrir mèr til, þá verð eg að biðja því rèttlætíngar hjá þínginu. Mèr fellur nú mikið vel við það, sem framsögumaður sagði að væri grundvallarregla nefndarinnar, að gjöra öllum jafnt til; en ef þessari grundvallarreglu á að verða framgengt, þá flýtur þar af, að ei má leggja sama toll á fastakaupmenn og hina; því það vita allir, að þeir hafa lángt um meiri kostnað við verzlun sína en lausakaupmennirnir, og það eru líka þeir, sem geta orðið landsmönnum að liði, þegar á liggur. Hinn heiðraði framsögumaður sagði það væri torvelt, að vita ætíð, hver væri búsettur kaupmaður hèr; en með búsettum kaupmönnum meina eg þá eina, sem hafa fasta verzlun í landinu, hvort sem þeir hafa aðsetur sitt hèr eða annarstaðar, og getur þetta þá aldrei orðið að ágreiníngsefni eða efasamt. Hvað

1849 var farið fram á, að sigla upp Þorlákshöfn, en nefndin hefur gjört sèr það að reglu, að fara svo nærri frumvarpinu, sem unnt var, og hún hefur sýnt, að hún lætur undan stjórninni í því, sem staðizt getur, án þess að grundvallarreglurnar skerðist. Reynslan hefur sýnt, að vel má komast af með fjögra vikna tímann, og hann getur orðið í hag fyrir fastakaupmenn og landsmenn líka. Eptir frumvarpinu mundu fastakaupmenn mega flytja timburfarma til Þorlákshafnar, eins og hvað annað. Landsmenn gætu því farið og samið við einhvern kaupmann um flutnínginn, og mundi það geta orðið að fullum notum; en þeir eiga ekki svo hægt með, að semja um það við utanríkismenn; og af þessum ástæðum er eg mótfallinn 19. breytíngaratkvæði.

*Jak. Guðmundsson*: Mèr finnst framsögumanni vera mislagðar hendur við Þorlákshöfn og aðrar hafnir, ef hann álítur, að henni sè borgið með timburaðflutníng, eins og nú er; því eg held, að Hafnarfirði og Keflavík sè betur borgið með sömu rèttindum, og Þorlákshöfn nú hefur, að minnsta kosti virðist reynslan benda til þess.

*M. Stephensen*: Þar sem hinn heiðraði framsögumaður bar það fram, að þar fastakaupmönnum væri leyft, að flytja timbur og annað bæði á Þorlákshöfn og aðra staði, þá væri ei þörf á, að utanríkismenn fengju leyfi til, að verzla með við á Þorlákshöfn, þá verð eg að geta þess, að reynslan hefur í margt ár sýnt, að kaupmenn eru þessa allófúsir, og hafa enn ekki flutt einn timburfarm til sölu á Þorlákshöfn. Kaupmaður Gísli Símonsen flutti um nokkur ár, þegar hann var kaupmaður í Vestmannaeyjum vörur að og frá Dyrhólaey, en hvernig sem skorað hefur verið á kaupmenn síðan, hafa flutníngar þángað með öllu lagzt af.

*G. Brandsson*: Af því frumvarp stjórnarinnar í 3. gr. minnist á fiskiveiðarnar, um hverjar þó lítið hefur verið talað hèr á þínginu, verð eg að minnast á þær í fáum orðum. Það er þíngmönnum kunnugt, að eg hef verið því mótfallinn, að utanríkis-lausakaupmönnum væru þær leyfðar hèr við land, vegna þess að eg held, að slíkt leyfi mundi spilla verzluninni bæði í tilliti til bænda og föstu kaupmannanna. Eg sè nú, að nefndin hefur gengið þegjandi fram hjá þeim, og því hvorki bannað þær nè leyft. Mèr finnst nú þetta vera hyggilega gjört af nefndinni; því þær eru að minni hyggju óviðkomandi verzlun-

annálinn, og þarfa því ekki að setjast í samband við það. Máske það geti orðið eitt af verkefnum alþíngis seinna meir, að ráðgast um allt fyrirkomulag útlendra fiskiveiða hèr við landið, og gæti það þá vel beðið þess tíma; líklega yrði hægra þá en nú, að sjá, hvað bezt á við í þessu efni. Frjálsa verzlunin verður þó að öllum líkindum komin hèr á fót, og sèst þá, hverja stefnu hún tekur, og hverjir ávextir hennar verða; geti hún þá staðizt, án þess fiskiveiðarnar sèu leyfðar, held eg ó-þarfa, að bjóða þær fram, en reyna heldur, að efla eigin sjávarútveg sèm bezt má verða.

*P. Sigurðsson*: Eg hef áður látið þá meiníngu mína í ljósi, hvers vegna eg er mótfallinn fiskiveiðum útlendra manna nú fyrst um sinn, og hefur sá heiðraði fulltrúi frá Gullbríngusýslu, er síðast mælti, tekið svo ljóslega fram ástæður þær, er eg hugði fram að færa, að eg hef þar engu við að bæta. En þar sem hinn heiðraði fulltrúi Dalasýslu vildi ekki láta lengja legutíma lausakaupmanna, þá er eg þeirri meiníngu hans mótfallinn; því þetta var þó almenn ósk landsmanna 1845, sem þíngið þá aðhylltist í einu hljóði, og fyrst það sýndist verzlun vorri til framfara þá, þá finnst mèr ekki, að öðruvísi sè nú orðið ástatt. Eg held við ættum að hafa þessi bönd sem minnst á útlendum þjóðum, þegar vèr erum samhuga í því, að óska eptir viðskiptum við þær. En þar sem sami þíngmaður kallar nokkuð einstaklegt 19. breytíngaratkvæðið, þá vil eg minna hann á, að ekki þarf annað, en líta á uppdrátt lands þessa, til að sjá, að landslagið er líka nokkuð einstaklegt, þar sem frá Reykjanesi og austur í Djúpavog í Múlasýslu eru berir sandar og hafnleysur, utan á Eyrarbakka getur legið eitt skip; því verð eg að álíta mjög þarflegt, að útlendum mönnum sè veitt leyfi þetta, þar sem það getur orðið ósegjanlegt hagræði fyrir 2 fjölbyggðustu sýslur. Kaupmenn hèr úr Reykjavík hafa enn ekki flutt það timbur til Þorlákshafnar, að það hafi frètzt til Rángvellínga. Ef þetta leyfi fengist, og sýslubúum þessum þannig gæfist færi á, að semja við einhvern timburkaupmann, t. a. m. frá Norvegi, þá er það hvöt fyrir kaupmenn hèr, að nota betur það flutníngaleyfi til Þorlákshafnar, sem þeir nú hafa; því það er þeim kunnugt, að óvinnandi verk er, að sækja híngað timbur frá Rángárvallasýslu landveg. Þó sýnir reynslan, að þeir eru ekki byrjaðir með þetta, og því get ég ekki sett neitt traust til þeirra framvegis í þessu tilliti.

stendur í 4. gr. frumvarpsins um 5 dala toll, sè sprottin af því, að stjórnin hafi breytt þessari skoðun sinni, heldur, ef til vill, fremur af því, að hún hafi viljað laga frumvarpið eptir uppástúngum alþíngis að undanförnu, og því, sem tekið er fram í ástæðunum, að ekki skyldi koma of mikið los á verzlunina. Menn hafa ekki heldur altènd verið svo hræddir við, að leggja toll á verzlun Dana hèr; því mig minnir, að embættismannanefndin í Reykjavík 1841 stýngi upp á 1 ríkisbánkadals gjaldi af hverju lestarrúmi til alþíngiskostnaðar. Eg álít bezt, að einhver grundvallarregla yrði tekin í þessu efni, og henni fylgt. En þegar eg nú lít yfir þau mörgu breytíngaratkvæði, sem fram eru borin um þetta atriði, hafa þau öll þann annmarka, að þau hagga meir og minna grundvallarreglunni, nema það 28., sem þíngmaður Barðstrendínga hefur borið upp; því það lætur óskert verzlunarsambandið milli Dana og Íslendínga, en gjörir þó utanríkisþjóðum sömu kjör; og eg held, að það gjaldið, sem sumum þykir ósanngjarnt, eg meina 14 marka gjaldið, sem Danir greiða af lestarrúmi hverju, þegar þeir flytja vörur hèðan til útlanda, valdi raunar ekki svo miklum ójöfnuði; því það getur staðið svo á, að einhver kaupmaður sendi eitt skip til útlanda, en fleiri til Danmerkur, og þá jafnast þessi tollur niður á þau öll; en hitt ber líklega varla við, að sá kaupmaður, sem ekki hefur nema eitt skip í förum, fari með það annað, en til Danmerkur.

*Jak. Guðmundsson*: Eg er nefndinni í raun rèttri samþykkur í þeirri aðalskoðun hennar, þegar hún vill láta jafnrètti verða framgengt meðal allra útlendra verzlunarmanna, en vèr verðum að haga þessu jafnrètti eptir voru gagni. Þegar menn tala því um jafnrètti á milli innanríkis- og utanríkis-verzlunarmanna, þá verðum vèr í því tilliti að hugleiða, hvort það sèu Danir, eða það sèu utanríkismenn, sem vèr höfum mestan hag af í verzlunarviðskiptum. Þegar menn segja, að vèr eigum ekki að gjöra þeim, sem ekki leggja toll á vora vöru, betri kjör en hinum, sem leggja háan innfærslutoll á varníng vorn, þá kynni nú sumum að virðast það hvorki sem sanngjarnlegast nè hyggilegast; en mèr fyrir mitt leyti hefur nú ekki virðzt vera svo brýn nauðsyn á, að gjöra mun á utanríkis- og innanríkislausakaupmönnum, jafnvel þó breytíngaratkvæði mitt virðist benda til þess; en þessi aðgreiníng mín á millum þeirra var sprottin af því, að eg heyrði mikinn hluta þíngmanna vera

hræddan um, að ef öllum lausakaupmönnum yrði gjört jafnt undir höfði, þá mundi það fæla danska lausakaupmenn frá, að vitja híngað, og vèr því ekki hafa gagn af keppni þeirra við hina utanríkis. En þegar eg lít á það gagn, sem landið ætti að hafa af innlendri verzlun, þá held eg, að menn eigi að gjöra verzlunina svo íslenzka, sem auðið er, það er: koma upp þeirri verzlun, sem sè byggð á búsettum kaupmönnum, og bind eg skoðun mína í því ekki við innanríkismenn eingaungu, heldur tek eg og utanríkismenn undir sama flokk; því það er mèr allt eins kært, að þeir, ekki síður en Danir, komi híngað og verði hèr búsettir, og þeir mundu án efa eins geta orðið landinu til styrktar og hinir, um leið og þeir bæru þá fèlagsbyrðar vorar yfir höfuð með oss. En eg gjöri mèr í hugarlund, að nefndin hafi ekki hugsað fram á þetta, heldur að hún miði búsetta kaupmenn einúngis við danska menn. Eg felli mig vel við 24. breytíngaratkvæðið, þó því muni lítið eitt frá minni uppástúngu, en eg sè ekki betur, en ef að uppástúngu nefndarinnar yrði framgengt, þá mundi það leiða það af sèr, að búsettir kaupmenn hættu að vera hèr. En þegar verið er að tala um, að 3 dala tollurinn muni verða utanríkiskaupmönnum mjög tilfinnanlegur, þá getur mèr ekki skilizt það, að svo verði, þar sem hann þó áður var 50 dalir af lest; því þó eg játi, að sá tollur væri fullkomin fráboluu, þá kalla eg það enga frágángssök fyrir alla lausakaupmenn, að borga 3 rbdd. af lestarrúmi hverju, þó búsettir kaupmenn hèr borguðu ekki nema 1 rbd., sem gjalda líka svo margt annað, og hafa meiri tilkostnað, svo með þessum hætti held eg kæmi nokkur jöfnuður á milli föstu kaupmannanna og á milli lausu kaupmannanna. Eg get líka skoðað búsetta kaupmenn sem íslenzka bændur, og ímyndað mèr, að þeir á þann hátt gætu orðið góð stoð fyrir landið; því mèr virtist þá sanngjarnt, að þeir, sem ætta að ákveða beinlínis skatta til almennra þarfa, legðu á þá skatt í því skyni, svo þeir tækju þátt í fèlagsskyldum vorum eins og aðrir, og gætu þeir þá orðið oss að því betra liði, sem þeir væru efnaðri.

*Jón Guðmundsson*: Eg get ekki skilið, að það þurfi frekari sönnunar við, að nefndin fer rèttan veg í áliti sínu í þessari 4. grein, þar sem svo mörg breytíngaratkvæði eru borin upp við nefndarálitið, og víst þau þykja sanngjörn, og ætla öll í rètta stefnu, en þau stefna þó sitt í hverja áttina, en mundu þó að minni hyggju stefna sömu leið, ef þau færu rètt-

an veg. (*Vinstra megin*: Þau stefna öll eins.) Nei. Framsögumaðurinn hefur áður leitt næg rök að því, hversu mjög oss sè áríðandi, að gjöra öllum jafnt undir höfði, og Danir hafa öldúngis ekki frekari rètt til, að fá góða kosti hjá oss, en hverjir aðrir, þegar vèr skoðum oss sem þjóð út af fyrir oss. Hèr er í rauninni ekki önnur skoðun leggjandi til undirstöðu, en eins og þegar einhver maður verzlar við annan mann, verður þá ekki hver að líta á sinn eigin hag? Það hefur verið sagt, að nefndin *upp hefji* fasta verzlun, og það er satt, að nefndin vildi gjöra kjör hennar miklu betri, en áður var, þó að þíngmaðurinn, sem þetta talaði, ekki muni hafa meint það, nè vilji við það kannast. Ekki get eg verið samdóma þeim fundarmanni, sem sagði áðan, að *öll velferð lands þessa* væri komin undir föstu verzluninni, en nefndin hefur viðurkennt, að hún geti verið landinu holl, ef henni er haldið í vissum skorðum, og nefndin hefur sýnt, að hún vill efla hana og hlynna að henni, en þó ekki svo mjög, að fasta verzlunin verði að eyðileggíngu fyrir landið. Það hefur verið farið fram á það, að oss, sem værum svo lítil þjóð, færist ekki að vera að gjöra gángskör að, að allir fengju jafnfrjálsan verzlunarrètt hèr við land, þó að Englendíngar eða einhver önnur stór þjóð fylgi því fram; en mèr getur ekki skilizt betur, en eins vel fari á, að sá, sem er lítilmagni, fylgi fram rèttsýni og sanngirni í viðskiptum við aðra, eins og sá, sem er voldugur og á mikið undir sèr. Nefndinni hefur enn fremur verið borið á brýn, að hún hefði ekkert tillit til, að styðja að því, að utanríkismenn settust hèr að, heldur hugsaði sèr einúngis danska menn; en eg held það auðsætt, að nefndin vilji ekki síður styðja að því, að utanríkismenn setjist hèr að, einmitt með því, að stínga upp á, að þeir skuli ekki sæta verri kjörum í verzlun við oss en aðrir. Nefndin hafði ekki heldur þá skoðun, að það eina mundi efla búsetta verzlunarmenn, og gjöra þeim viðunanlegra, að halda kyrru fyrir hjá oss, að gjöra þeim betri kjör en hinum. Það er og enginn vafi á því, að ef að Danir fá betri kjör en utanríkismenn, þá munu utanríkismenn fælast frá, að búsetja sig hèr, er þeir sjá, að þeir njóta ekki jafnrèttis. Vèr höfum líka fulla raun þess, að Danir hafa aldrei gjört sèr mjög mikið far um, að búsetjast hèr, og því síður að una hèr til lengdar, og þó þeir stundum hafi gjört það, þá hafa þeir dregizt burt aptur optast nær, og sett verzlunarumboðsmenn í staðinn. Þessi hræðsla fyrir þeim álögum, sem nefndin stíngur

upp á, er í rauninni ástæðulaus; því þeir, sem vilja hlynna að föstu kaupmönnunum, gá ei að því, að það, sem bindur og hefur bundið þá við oss, er ekki það, að vèr gjörum þeim betri kjör en öðrum, heldur einmitt það, að markaðurinn sè einmitt hèr; því á meðan menn eru neyddir til, að sækja markað til annara landa, verða menn hèr aldrei staðfastir; en með því, að styðja að því, eins og nefndin gjörir, að fá útlendar vörur frá fyrstu hönd, en að því styðja menn svo bezt, að útlendíngum sè gjört jafnhægt og öðrum, að flytja til vor vörur, þá styðja menn og að því, að markaðurinn verði hèr í landi, og að búsettir kaupmenn uni hjá oss; og má eg þá spyrja: „Er þá rètt, að gjöra útlendum mönnum erfiðara fyrir en öðrum? eða er það ekki rètt, að þeir hafi jafnan rètt og aðrir?" Mèr hefur fundizt óviðkunnanlegt orðatiltækið „búsettir kaupmenn" í 24. breytíngaratkvæði í lagalegum skilníngi. Það er að vísu rètt, sem uppástúngumaðurinn sagði, en þessi skilníngur orðsins er auðsjáanlega ekki í 25. breytíngaratkvæðinu, og vildi eg því óska, ef 24. breytíngaratkvæðið yrði samþykkt, að uppástúngumaður vildi leyfa þá orðabreytíng, að í staðinn kæmi: „kaupmenn þeir, sem hafa fasta verzlunarstaði". Þíngmaður Barðstrendínga hefur talað margt og mikið með breytíngaratkvæði sínu, og vil eg ekki fara mörgum orðum um það; en samt vildi eg drepa á, að þar sem hann sagði, að nefndin miðaði verzlunarstèttina fyrir utan landið, þá er það ekki satt; því nefndin fer einmitt eptir stjórnarfrumvarpinu í því, að miða verzlunina frá *landsins sjónarmiði*, en það er einmitt fasta verzlunarstèttin sjálf, sem miðar sig fyrir utan landið, skoðar sig sem útlenda, og fer hèðan, þegar hún sèr færi á.

*Jak. Guðmundsson*: Mig furðar á því, að sumir nefndarmenn fara svo gildum orðum um það, að nefndin vilji hlynna að fastakaupmönnum, sem eru búsettir, en til taka þá ekki nákvæmlega, með hverju hlynnt sè að föstu verzluninni. Eptir minni meiníngu hefur nefndin hlýnnt að henni með þessu tvennu, 1. með því, að til taka sex aðalverzlunarstaði, þar sem utanríkiskaupmenn verða fyrst að koma, og ætlar þeim þó að fara þaðan aptur til verzlunar á öll önnur kauptún landsins, og 2. með því, að fastakaupmenn megi flytja vörur sínar á hverja vík og hvern fjörð, þar sem þeir vilja. Eg vona, að þíngmenn hafi það nú fastlega í huganum, þegar greiða skal atkvæði um þetta mál, með hverju nefndin vill hlynna að föstu

verzluninni. Mèr þótti það mjög merkileg athugasemd fyrri þíngmannsins úr Skaptafellssýslu, þegar hann sagði, að nefndin hefði ekki haft þá skoðun, að það mundi efla búsetta kaupmenn hèr, að gefa þeim betri kjör en hinum; það væri og heldur enginn vafi á því, að ef Danir fengju betri kjör en utanríkismenn, þá mundu utanríkismenn fælast frá, að búsetja sig hèr, þegar þeir sæju, að þeir nytu ekki sömu rèttinda. Þetta er nú merkileg athugasemd að því leyti, sem það er auðsèð, að þíngmaðurinn ætlar, að þessi rèttindi verði veitt þeim núverandi búsettu kaupmönnum einum, en ekki þeim, sem híngað komi að og hèr verði búsettir seinna meir. Það er eins og þíngmaðurinn skoði rèttindi þessi líkt og óðalsrètt, sem verði að gánga í erfðir, að minnsta kosti meðal danskra og íslenzkra kaupmanna, ef hann heldur, að utanríkismenn njóti þeirra ekki líka, þegar þeir eru orðnir hèr búsettir á annað borð. En mèr getur nú ekki betur skilizt, en að þvílík rèttindi yrðu bundin við landið, eða vissa staði í landinu, og það að vera búsettur kaupmaður þar, en hvorki við vissa menn nè vissar ættir, svo að þeirra yrði þá aðnjótandi hver búsettur kaupmaður á þessum vissu stöðum, hvort hann hèti Pètur eða Páll, og hvort hann væri frá Danmörku eða Englandi, o. s. frv.

*B. Jónsson*: Það getur verið, að breytíngaratkvæði mitt sè nokkuð ógreinilega orðað, en mèr fannst það þó ljóst fyrir mèr, þegar eg samdi það. Eg hugði og því til upplýsíngar að skírskota til tilsk. 28. des. 1836 § 13; en þegar eg lít til málsins yfir höfuð, þá get eg ekki fellt mig við það, að sama gjald sè lagt á utanríkismenn og á danska verzlunarmenn; eg álít því, að menn gjörðu rèttast í, að halda sama tolli, sem verið hefur, nefnilega 36 skk. og 14 marka gjaldinu, og yrði það hèr um bil 2 rbdd. 68 skk. fyrir hverja lest af vörum, sem fluttar væru hèðan til útlanda, eins og þaðan híngað, um næstu 5 ár. Þetta virðist mèr sanngjarnt; því nýjar álögur ættu ekki að verða samfara því frelsi, sem hèr er verið að tala um; og verzlunarfrelsið er ekki einúngis í því fólgið, að sem flestir komist að til verzlunar, heldur að verzlunin gángi sem haganlegast og samkvæmt innbyrðis rèttindum hvers eins, og með sem mestum jöfnuði yfir höfuð; hið gagnstæða væri því; að leysa þá höndina, sem áður var bundin, en nú binda þá, er laus var. Mèr finnst það vera tiltækilegast, að láta tollinn standa óbreyttan fyrst um sinn, t. a. m. eins og yfirvöld, já enda löggjafinn, gefa opt út svo

kallaðar *próvisóriskar* ráðstafanir eða lagaákvarðanir. Vèr vitum, hvort sem er, ekkert enn um það, í hvaða sambandi vèr kunnum að verða við Dani eptirleiðis; en ef verzlunin þá yrði í sama horfi, og hún nú er, þá mundi virðast að hafa verið forsjálegast og haganlegast, að tollurinn eða lestagjaldið hefði staðið óhaggað frá því nú er. Eg mæli því fram með, að við svo búið sè látið standa um næstkomandi 5 ár, eða til 31. des. 1857, og sjá þá, hverju framvindur.

*Á. Böðvarsson*: Eg vil leyfa mèr að spyrja þíngmanninn úr Skaptafellssýslu þess, að ef Danir hafa ekki frekari rètt en aðrar þjóðir, til að fá góð kjör hjá oss, hvort þeir hafi þá ekki rètt til þess, að gefa oss eins slæm kjör og aðrir. Viðvíkjandi því, sem hann sagði, að vèr gætum sett jafnrètti, þó vèr værum lítil þjóð, þá finnst mèr varlegra, að hinn sterkari brjóti ísinn á undan, og hinn máttminni komi á eptir. Eg ætla það hafi allt af verið og sè enn þá sitt hvað, að *vilja* og *geta*. Eg vil hèr aptur taka því sama fram og áðan, að falli þetta mitt breytíngaratkvæði, mun eg helzt halla mèr að 28. tölulið um 14 mörkin, þar sem það ei sviptir Dani neinum rètti, sem þeir híngað til hafa haft, ei heldur leggur á hina útlendu verzlun neitt ok, er að henni þurfi að kreppa. Eg er mjög svo hræddur, að hið svo nefnda 2 dala jafnrètti í nefndarálitinu kunni af öðrum en oss að verða álitið það ójafnrètti, að vèr að þessu sinni fáum enga rýmkun í verzluninni.

*K. Kristjánsson*: Það hafa nú tveir þíngmenn talað með 28. breytíngaratkvæði, og er eg ekki á móti því, nema eg vil láta norska timburfarma vera undan þegna 14 marka gjaldinu; því mèr virðist óframsýnt, að leggja slíkt gjald á þá vöru, sem er svo nauðsynleg hèr í landi. Viðvíkjandi því, er menn hafa sagt, að fasta verzlunin mætti ekki eyðileggja landið, þá álít eg, að greinarmunurinn á tollinum sè svo sanngjarn, sem verða má; því það er ekki hugsanlegt, að 3 rbdd. geti eyðilagt lausakaupmanninn, eða 1 rbd. fastakaupmanninn. Það hefur og verið sagt, að breytíngaratkvæðin sýndu það, að þau væru gagnstæð rèttri stefnu, með því að þau stefndu sitt í hverja áttina, eða að þau ekki stefndu öll sömu leið; en menn verða að gæta að því, að fyrir utan þessar stefnur geta verið margar, og sú eina rètta stefna sè enn ósýnd. Það er ekki heldur satt, að breytíngaratkvæðin sèu ólík, og fari sitt í hverja áttina; því þau stefna öll sömu leið í því, að þau vilja öll hlynna dálítið að fastri

verzlun fram yfir lausakaupmenn. Ef aðgreiníngin í breytíngaratkvæði mínu ollir misskilníngi, þá er eg ekkert á móti því, að orðunum sè vikið við.

*Ó. E. Johnsen*: Eg ætlaði að sýna lit á, að mæla fram með breytíngaratkvæði mínu, sem er það 28. í tölunni, jafnvel þótt þess gjörist ei þörf, þar bæði hinn 4. konúngkjörni þíngmaður hefur þegar gjört það, og eg ímynda mèr, að það mæli nokkuð fyrir sèr sjálft. Eg held annars, að tilfinníng mín, þegar eg bjó breytíngaratkvæðið til, hafi líkzt tilfinníngu gömlu kláranna, sem menn segja að þángað sèu fúsastir, sem þeir eru kvaldastir; því auðsjáanlegt er, að bæði eg með þessu breytíngaratkvæði og aðrir, sem í líka stefnu fara, vilja hlynna að hinni gömlu verzlun Dana, fremur en að hinni útlendu, og að verzlun Dana er þó og hefur verið oss Íslendíngum heldur óholl en holl, að eg ei taki frekar til orða. En þegar eg nú hugsa um verzlun, og skoða hana frá landsins sjónarmiði, þá verð eg að játa það, að allar þjóðir sèu mèr jafnkærar, og þær kærastar, sem gefa mèr bezt kjör, hvort sem þeir eru innanríkismenn eða utanríkismenn. Mèr finnst það því vera ískyggilegt og ósanngjarnt, að vilja láta utanríkismenn greiða 5 dali af lestarrúmi hverju, en innanríkismenn einasta 36 skk., og 14 mörk í þeim einstöku tilfellum, þá til útlanda senda; er það auðsjáanlegt, að slíkt hlýtur að fæla utanríkismenn burtu; því ef innanríkiskaupmenn, Danir, kvarta sáran, eins og sumir hèr segja, undan því, að gjalda tvo dali fyrir hverja lest, og þykjast ei geta lifað, ef svo er, hvað mundu þá ekki utanríkismenn mega kvarta, sem miklu hærra gjald er lagt á? og til hvers gæti þá þetta háa gjald á þá miðað, annars en þess, að fæla þá hèðan burtu? Það sýnist, sem ágreiníngurinn sè hèr í salnum mestur á milli manna út af því, hvort og hvernin meira eigi að hlynna að fastakaupmönnunum eða að lausakaupmönnum, en eg sè ekki, hvernin meir verður hlynnt að föstu kaupmönnunum, en gjört er í nefndarálitinu. Vèr sjáum, að hvervetna í því er lausakaupmönnum gjört að skyldu, að koma fyrst í þá tilteknu föstu verzlunarstaði, og sitja þá föstu kaupmennirnir fyrstir fyrir allri verzluninni; þeir geta því, undir eins og lausakaupmaður kemur þar á höfn, nýrunninn af hafi, keypt óðar allar vörur hans, ef þeir hafa krapta og vitsmuni til þess, og um það er ei að efast, og er þá auðsætt, að fastakaupmennirnir hafa forkaupsrèttinn að öllu leyti. Eg veit því ekki, með hverju menn gætu hlynnt

að föstu kaupmönnunum og verzlunarstöðum þessum fremur en því, að til taka einasta 6 kauptún, sem allir eiga fyrst að koma inn á. Sè stjórnarfrumvarpinu fylgt, þá sè eg ekki, til hvers það miðar, annars en þess, að gjöra verzlunareinokið einn meira særandi einokunarverzlun; því þá sjá menn blessunina til sín komna, en bann fyrir, að mega nota sèr hana, nema aptur einokaða af kaupmönnum. Menn verða að gæta sín í þessu máli. Menn verða að varast, í því menn eru að búa til króa, að fara svo að ráði sínu, að hann drepist þá strax í fæðíngunni. Eg hef ekki heyrt, að danskir kaupmenn hèr kvarti yfir því, að borga 2 dala lestagjaldið, en þeir segja einúngis þetta, að þeir ekki geti þolað, að utanríkismenn hafi jafnrètti við sig. Eg verð því, að öllu þessu yfirveguðu, að fylgja helzt nefndarálitinu, ef mitt breytíngaratkvæði skyldi falla; vildi eg því helzt óska, að forseti bæri upp 33. breytíngaratkvæði á undan mínu, svo eg sjái meiníngu þíngmanna um nefndarálitið í þessari grein.

*Forseti*: Það getur ekki orðið.

*K. Kristjánsson*: Eg hef ekkert á móti ræðu þíngmannsins frá Barðastrandarsýslu að öðru leyti en því, að hún er öll frá skökku sjónarmiði. Hèr er verið að gjöra mun á föstum og lausum kaupmönnum, og menn verða að skoða alla, hvort sem þeir eru Danir eða útanríkismenn; því svo er guði fyrir þakkandi, að hèr eru fleiri kaupmenn en danskir einir.

*Halld. Jónsson*: Annmarki sá, sem tekinn var fram við 28. breytíngaratkvæði, á ekki fremur við það, en við frumvarpið sjálft.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Menn hafa nú talað margt og mikið um þetta mál, svo það er að bera í bakkafullan lækinn, að bæta þar nokkru við; samt verð eg einnig að segja mína meiníngu þar um. Framsögumaðurinn hefur gjört sèr mikið far um, að sýna fram á sanngirni nefndarálitsins í því, að gjöra öllum jafnhátt undir höfði, og kallar það að skoða málið „frá íslenzku sjónarmiði“, en eg held, að meiníng nefndarálitsins sè lángt frá rèttu íslenzku sjónarmiði. Eptir mínum skilníngi er það eina sanngirni og jöfnuður, að fara svo með aðra, sem þeir fara með oss, að þeir, sem taka af oss háa tolla, gjaldi oss hærri tolla sjálfir, en aðrir þeir, sem taka af oss því nær enga tolla, og það er mín meiníng, að stjórnarfrumvarpið stefni í þessu falli rètta leið; því þar er gjörð sú vilnun við hina útlendu

verzlun, sem eg ætla að hljóti að vera nóg trygging fyrir því, að framandi geti komið híngað til verzlunar, án þess að fælast álögurnar. Eg er sannfærður um, að 5 dalir á lest ekki tálma, þó 50 dalir á lest hafi híngað til tálmað hinni útlendu verzlun. Mèr finnst forsvar þíngmannsins úr Skaptafellssýslu fyrir nefndarálitinu á litlum ástæðum byggt. (*Nokkrir:* Það er misskilið.) Já, það getur verið, að eg hafi misskilið það, en hitt virðist mèr samt kátlegt, að hann sýnist að ætlast til, að hèr sè aðalmarkaður norðurálfunnar. Eg skil ekki, hvernig hann getur ætlazt til, að hèr geti safnazt fyrir öll ósköp af alls konar vörutegundum heimsins, og hèr orðið höfuðkaupstaður fyrir þær, hvar þess verði að leita og það að fá, sem hver girnist. Menn hafa hèr í landi fullt í fángi með, að borga nauðsynjavörur þær, sem vèr við þurfum á hverju ári til lífsins nauðsynlega viðurhalds; auðmegnið hèr er ekki meira en svo; hvað skyldi þá koma útlendum til, að leggja hèr það upp, sem vèr ekki getum borgað? Það er og kynlegt, að segja, að fastakaupmenn taki vöru lausakaupmanna óðar en þeir komi á höfn, einmitt þann sama dag, sem verið er að selja 2 timburfarma norsks lausakaupmanns við opinbert uppboð skammt frá oss, og nýbúið að bjóða upp þann 3. á næsta verzlunarstað.

*P. Melsteð*: Viðvíkjandi 4. gr. frumvarpsins, sem nú er umræðuefni, vil eg geta þess, að mèr virðist rèttast, og eg felli mig bezt við, að fylgja þeirri stefnu, sem hinn konúngkjörni þíngmaður fer, er seinast talaði. Það er að minni hyggju mjög ísjárvert, að raska þeirri grundvallarreglu, sem híngað til hefur verið fylgt, og stjórnarfrumvarpið fylgir í þessari grein; enda held eg megi fullyrða, að það sè ósk og vilji flestra landsmanna, að þessi grundvallarregla megi standa óröskuð. En af því mèr þykir það á miklu standa, að útlendum þjóðum verði í öllu gjört sem hægast fyrir hendi og kostnaðarminnst, þá vil eg þoka gjaldinu niður í 4 rbdd. úr 5, eins og minni hluti nefndarinnar hefur gjört, og ætla eg mèr að fallast á breytíngaratkvæði hans.

*P. Pètursson*: Eg vildi tala fátt eitt um 29. breytíngaratkvæði, og halla eg mèr þar fremur að breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar, nema hvað eg hef haldið því 5 dala gjaldi, sem til tekið er í stjórnarfrumvarpinu, en sleppt úr gjaldi fyrir leiðarbrèf sèr á parti, og getur mèr ómögulega sýnst, að þetta gjald sè sett of hátt, einkum þegar þess er gætt, að

nefndin hefur burt rýmt með öllu þeim skorðum, sem stjórnarfrumvarpinu hafði þótt nauðsynlegt að setja hinni útlendu verzlun, til að geta haldið jafnvægi milli hennar og föstu verzlunarinnar, og er þá gjald þetta öldúngis ómissandi varúðarregla, sem ekki getur fælt nokkra þjóð frá, að verzla hèr. Nefndin hefur áður viðurkennt, að verzlunin væri einn af atvinnuvegum landsins, en einmitt þess vegna þykir mèr ótilhlýðilegt, að leggja á hana nýjar álögur. Það, að stjórnin fèllst ekki á uppástúngu nefndarfundarins 1841, um að 1 rbd. væri goldinn af hverri lest þeirra skipa, er verzluðu hèr, til þess að standast alþíngiskostnaðinn, það sýnir, að stjórnin ekki vildi aðhyllast þá grundvallarreglu, sem nefndin eignar henni; og mèr getur ekki skilizt, hvernig nefndin fer að segja, að stjórnarfrumvarpið sè grundvallarregla álits hennar, eða að stjórnarfrumvarpið sè byggt á sama jafnrètti þjóða og nefndarálitið; því það liggur þó í augum uppi, að stjórnarfrumvarpið gjörir mun á útlendri og innlendri verzlun, og það er einmitt þetta frumvarp, sem vèr eigum að láta í ljósi álit vort um, en hitt kemur oss ekki við, hvaða skoðun stjórnin kunni að hafa haft á hinum umliðnu tímum; hafi hún verið sjálfri sèr ósamkvæm, sem eg efast um, þá verður stjórnin að ábyrgjast það, en eg held það sè þessu máli óviðkomandi, og liggi fyrir utan ætlunarverk þessa þíngs, að dæma um það.

*B. Benediktsen*: Mèr heyrðist þíngmaður Reykvíkinga í ræðu sinni líka sem vilja benda til þess, að það væri æskilegt, að fræðast af nefndinni um það, í hverju væru einkum fólgin þau betri kjör, er Dönum og innlendum verzlunarmönnum væru veitt eptir uppástúngu nefndarinnar, fremur en utanríkis-verzlunarmönnum, af því það hefur verið svo opt skírskotað til þessara betri kjara, bæði af nefndinni og öðrum. Þar þessu hefur enn þá ekki, að mig minnir, verið svarað núna af nefndinni beinlínis, þá skal eg skírskota til þess, er hinn heiðraði framsögumaður hefur sjálfur látið í ljósi, mig minnir í gær, að þessi betri kjör sèu fólgin í *forkaupsrèttindum*, en eg verð að segja, að þetta sèu skrítin forkaupsrèttindi, eins og að menn megi ekki kaupa af hinum utanríkis-verzlunarmönnum, fyr en kaupmenn eru búnir að fá nægilegt, og vilja ekki meira; því eg veit ekki betur, en að sèrhver megi kaupa af utanríkismönnunum, þegar hann getur og vill, og það laungu á undan föstu kaupmönnunum, eptir nefndarálitinu.

*Halld. Jónsson*: Hinn 5. konúngkjörni þíngmaður drap á, að nefndin hefði burt rýmt þeim skorðum, er stjórnin hefði viljað setja verzlun utanríkisþjóða hèr við land; en eg held, að stjórnin vilji ekki kannast við, að hún hafi viljað reisa skorður við því, að utanríkisþjóðir geti verzlað hèr, heldur að eins með nokkrum takmörkunum fyrir byggja, að los komist á verzlunina. Hvað því viðvíkur, að stjórnin ekki hafi viljað fallast á 1 dals gjaldið af hverri lest til alþíngiskostnaðar, sem embættismannanefndin 1841 stakk upp á, þá held eg þetta þurfi ekki að vera til komið af því, að hún hafi verið þessu mótfallin, heldur af því, að hún hafi viljað heyra um það alþíngi, eins og gjört var.

*G. Einarsson*: Þegar menn renna huganum yfir verzlunarmál vor Íslendínga, þá liggur það ljóst fyrir öllum þeim, er dálítið þekkja til þess, að á fyrri dögum var auðug verzlun hèr á landi, er menn sóttu varníng sinn sjálfir; og er víst um það, að hún hefur mikið stutt að velmegun landsins; en eptir því sem þessari verzlun fór hnignandi, eptir því hnignaði og kröptum landsins að mörgu leyti, og loksins, þegar þessi verzlunin var liðin undir lok, og önnur óeðlilegri, sem kom í hennar stað, var búin að ná sinni lægstu tröppu í vissum skilníngi, þá var og svo hagur landsins kominn í aumt ásigkomulag; en kraptar landsins tóku undir eins að lifna við, og stjórnin rýmkaði nokkuð til um verzlunina, og eptir því sem líf færðist í hana og í landsmenn, og eptir því sem meiri aðsókn varð af verzlunarmönnum, eptir því greiddist betur úr fyrir landsmönnum í bjargræðisvegum þeirra. En það er spursmál, hvort föstu kaupmennirnir hafi átt og eigi mikinn hlut í máli, að lífga og efla innlendu verzlunina; eg held ekki mikinn; vanti lausakaupmenn, þá er alkunnugt, hvað ósanngjarnt verð er á vel-flestu optast, og hvílíkur skortur á mörgum nauðsynjum. Þegar eg lít nú á þennan fasta verzlunarstofn, og þykist finna, að í honum felist enn þá andi einokunarinnar, þá finnst mèr ekki eiga að hlynna að honum svo, að allir útlendir verzlunarmenn bolist frá, sem vilja sækja að landinu til verzlunar. Geti ekki hinn svo nefndi verzlunarstofn hinna föstu kaupmanna staðizt hèr í landi, og haldið sèr fyrir aðsókn lausakaupmanna frá útlöndum, þá má hann falla og deyja út af í drottins nafni mín vegna; eg held vèr munum standa eins upprèttir og áður. Mèr mun sjálfsagt verða svarað af sumum: „Ósköp

er að heyra til þín maður! hvar er brauð í þessari eyðimörku, ef blessaðir fastakaupmennirnir bregðast"? en eg svara til þess, að fari svo, að vèr stöndum úrræðalausir, ef fasta verzlunin, sem nú er, bregzt oss, þá hljóti neyðin að kenna naktri konu að spinna. Annars virðist mèr það merkilegt, að þeir, sem mest tala fyrir búsettum kaupmönnum og föstu verzluninni, þeir eru sjálfir búsettir í og í grennd við kaupstaðina, og finnst mèr þörf á, að heyra líka meiníngu hinna, sem búa lengra upp til sveita.

*Jak. Guðmundsson*: Það glaðnaði yfir mèr, þegar eg heyrði þíngmanninn úr Dalasýslu fara að tala um hina gömlu og góðu gullöld Íslendínga, þegar þeir höfðu sjálfir skip í förum; því eg ímyndaði mèr, að hann ætlaði að fara að leggja á einhver ráð til þess, að reisa hana við aptur. Eg varð nú svo hrifinn af þessu, að eg gat ekki stillt mig um, að standa upp og samsinna honum; því þegar þíngmaðurinn kallar þá tíma gullöld Íslendínga, hvað verzlun snertir, þegar þeir áttu sjálfir skip í förum, og sóttu sjálfir nauðsynjar sínar til annara landa, þá er eg honum samdóma í því; en þessi gullöld getur nú ekki risið upp aptur, hvað mikið sem mælt er fram með hinum lausu verzlunarmönnum, heldur með því, að gjöra Íslendínga færa um, að sækja nauðsynjar sínar sjálfir; en það verður ekki með öðrum hætti gjört en þeim, að hlynna sem bezt að hinum búsettu kaupmönnum í landinu, svo að þeir geti sótt til annara landa, og landið þannig sjálft farið að afla sèr vörubyrgða með sínum eigin skipum og mönnum.

*P. Pètursson*: Þar sem eg áðan sagði, að nefndarálitið rýmdi burtu skorðum þeim, sem stjórnarfrumvarpið hefði sett hinni útlendu verzlun, þá var það ekki meiníng mín, að stjórnarfrumvarpið hefði sett henni neinar aðrar skorður en þær, sem landinu væru fyrir beztu, og eg þakka hinum heiðraða 4. konúngkjörna þíngmanni fyrir útskýríngu sína á þessu orði hjá mèr. Þó vil eg geta þess, að í ástæðunum fyrir frumvarpinu er vikið á það, að stjórnin vill ekki láta um turna hastarlega verzlun þeirri, sem nú er hèr í landi, og þess vegna ímynda eg mèr, að stjórnin hafi og reist meiri skorður við hinni útlendu verzlun, en hún mundi annars hafa gjört.

*K. Kristjánsson*: Eg verð að svara ofurlítið upp á ræðu hins heiðraða þíngmanns úr Dalasýslu. Ef mig minnir rètt, þá sagði hann, að heill landsins væri komin undir lausakaupmönn-

unum; því væru þeir ekki, þá mundu fastakaupmennirnir beita kúgun á landsmenn í verzluninni. En það er aðgætandi, að það eru engu fremur lausakaupmennirnir, sem skapa verðlagið á vörunum, heldur en fastakaupmennirnir. Þegar lausakaupmaðurinn kemur þángað, sem góð kaup eru, þá verður hann að laga sig eptir því verðlagi, sem þar við gengst, og gefa þar góða prísa; en ef hann fer nú frá þessum stað á annan, þar sem prísar eru lakari fyrir, þá færir hann upp vörur sínar eptir því, svo að þannig fara þá prísarnir hjá lausakaupmanninum öldúngis eptir prísunum, sem þar eru fyrir, sem hann kemur að, eins og eðlilegt er. Það flýtur og af stöðu lausamannanna, að þeir verða að vera mjög stopulir; því þeir koma ekki nema þau árin, sem þeir hafa nokkra ábatavon. Þar á móti verða fastakaupmennirnir að koma á hverju ári; því þeir eru bundnir hèr við borð, með því þeir hafa hèr hús og heimkynni.

*G. Einarsson*: Það er einmitt auðsèð á þessum orðum þíngmannsins, sem nú settist niður, að verzlunin hèr er undir því komin, að aðsúgurinn af útlendum verzlunarmönnum geti orðið sem mestur, og það verður með því móti, að lausakaupmönnum sè gjört sem lèttast fyrir, að sækja híngað.

*P. Melsteð*: Eg held menn gæti þess ekki nógsamlega, að allur fjöldi lausakaupmanna eru í raun og veru fastakaupmenn; að minnsta kosti veit eg til þess, að flestir af lausakaupmönnum þeim, sem komið hafa þessi síðustu árin til þeirra kaupstaða á Vestfjörðum, er eg þekki til, hafa verið sendir frá fastakaupmönnum á suðurlandi.

*J. Skaptason*: Eg ætla einúngis að minnast á sönnun hins 1. konúngkjörna þíngmanns, er hann leiddi af því, að nú í dag væri hèr einmitt verið að selja tvo timburfarma, fyrir því, að fastakaupmennirnir ekki sitji fyrir kaupunum hjá lausakaupmönnum, og móti því, að landsmenn fái að eins afgánginn eður alls ekkert, en verði að sæta kjörum þeim, er fastakaupmennirnir bjóða þeim; en eg held, að þetta dæmi sè einmitt sönnun fyrir því gagnstæða, að föstu kaupmennirnir hafa fyrstir gengið að kaupunum, og að það, sem nú er boðið upp af timbri, er raunar ekki annað en leifar handa landsmönnum, af því að fastakaupmennirnir ekki geta torgað lengur, ef það ekki er gjört til þess, að útvega kaupmönnum betri prís einmitt á þessu sama timbri á eptir. Menn hafa mikið talað um

það, að það ætti og bæri að hlynna að fastakaupmönnunum, af því þeir hefðu svo mikinn kostnað; en mèr sýnist ærinn munur vera á því, hvort þeir eru búsettir hèr í landi, eða, með öðrum orðum, hafa hèr, eins og menn segja, dúk og disk, eða að þeir hafa aðsetur sitt erlendis, en halda verzlunarfulltrúa sína hèr í landi, og flögra sjálfir landa á milli, eins og sumarfuglar; því við þá vildi eg segja, *að þeir skyldu fara í guðsfriði*. En mèr finnst það þó ekki vera annað en smámunir, að fá sèr til orða þennan tveggja dala toll fyrir kaupmennina; þeir sitja, hvort sem heldur er, í kaupi fyrir vörum, og eiga kost á, að fara með sínar vörur, hvert sem þeir vilja.

*L. Johnsen*: Eg skal leyfa mèr að láta meiníngu mína um þetta í ljósi með fáum orðum, svo að þíngmenn sjái, hvoru megin hryggjar eg ætla að standa, en ekki liggja. Mèr finnst nú, að nefndin hafi haft það fyrir augum, sem viðurkennt er í ástæðunum fyrir stjórnarfrumvarpinu, að hin óeðlilega stefna, sem komizt hefur inn í hin íslenzku verzlunarlög þessa lands, sè sprottin af því, að verzlunin hafi verið skoðuð frá sjónarmiði fyrir utan landið, í stað þess, að hana eigi að skoða frá sjónarmiði landsins sjálfs. Þessu hefur nú nefndin farið fram í 3 fyrstu greinunum í nefndarálitinu. En þegar eg les 4. gr., þá virðist mèr greinin benda á, eins og að dragi upp svartan skýflóka milli nefndarinnar og þessa sjónarmiðs, svo að hún missir sjónar á því. Í ástæðunum fyrir áliti sínu byggir nefndin tollinn á jafnrètti, en eptir þessari 4. gr. verður lítið úr því; því þegar Spánverjar kæmu híngað, þá ættu þeir að borga 2 dali af hverju lestarrúmi; aptur á móti ef innlendir menn sendu hèðan skip til Spánar, þá yrðu þeir að gjalda gífurlegan toll, eða 18 rbdd. af hverju skippundi af fiski, ef mig minnir rètt. Eg vil nú spyrja þíngmenn, eg vil spyrja allt landið, hvort að slíkt sè byggt á nokkru jafnrètti, að önnur þjóðin taki 2 dali af hverju lestarrúmi, hvað sem í skipinu er, en önnur 18 rbdd. af hverju skippundi af fiski. Það er ekki heldur sanngjarnt, sem farið er fram á í grein þessari; því Danmörk er það eina land, sem vörur hèðan eru fluttar tolllaust til. Að vísu er tollur sá lítill, er nefndin vill leggja á Dani, og í rauninni leggst hann á sjálfa oss, en ei að síður er það ekki sanngjarnt, að leggja á þá nýjar álögur, sem þeir hafa áður verið lausir við. Það er ekki heldur eðlilegt; því rèttlætistilfinníngin í hvers eins brjósti segir honum, að hann hafi nánari skyldna

að gæta við þá, sem honum eru nákomnir, heldur en við aðra; og nákomnari eru Danir oss, en aðrar þjóðir; því við þá höfum vèr lengi haft mest viðskipti, og þó sumir kunni að segja, að þau hafi ekki ætíð verið sem notasælust, þá verð eg þó að játa, að oss hefur staðið mikið gott bæði af einstökum dönskum mönnum og jafnvel Dönum öllum, og þessa eigum vèr að láta þá njóta í tollinum. Eg er líka hræddur um, að vèr spilltum einmitt fyrir sjálfum oss með því, að leggja á þá þó ekki væri meira en eins dals gjald, eins og eg er sannfærður um, að vèr mundum bæta fyrir oss, með að láta þá njóta þeirrar ívilnunar, er þeir hafa notið.

Nefndin hefur haldið því fast fram, og borið það fyrir sig sem ástæðu, að það sè skoðun stjórnarinnar, að fylgja jafnrètti í verzluninni; en eg veit ekki, hvort þetta er rètt hermt; því stiptamtmaður *Rosenörn*, sem þó var gagnkunnugur öllu því, er verzlunina snertir, sagði á alþíngi 1849, ekki að þetta *væri* skoðun stjórnarinnar, heldur *hefði verið*, svo af þeim orðum geta menn ekki sèð, hvernig skoðun hennar var *þá;* en *nú* er stjórnin að minnsta kosti búin að breyta skoðun sinni í þessu máli, þar sem hún vill nú leggja 5 dali á útlenda verzlun hèr á landi. Mèr finnst það annars engin ástæða fyrir nefndina, að vera að bera fyrir sig þá eða þá skoðun, sem stjórnin kann einhvern tíma að hafa haft, heldur á hèr að ráða sanngirni og skynsemi. Ef að nú 5 dala tollurinn þykir svo hár, að hann verði frjálsri verzlun til baga, og fær þess vegna ekki samþykki þíngmanna, þá ætla eg að hverfa að 4 dala tollinum, sem minni hluti nefndarinnar hefur stúngið upp á. Þar er að sönnu ekki talað um timburfarma, en eg býst við, að uppástúngumaðurinn muni vilja þiggja þá undan álögum, eins og stjórnarfrumvarpið gjörir.

*Framsögumaður*: Þar sem nefndin hefur borið fyrir sig skoðun stjórnarinnar, þá er auðvitað, að það er sú almenna skoðun, sem hún hefur haft að undanförnu á verzlunarviðskiptum við aðrar þjóðir, og hefur enn. Mèr þykir það annars merkileg skoðun, sem hèr kemur nú fram á þínginu, þegar menn í öðru orðinu þykjast leggja skatt á Dani, en í hinu orðinu kalla það að leggja skatt á sjálfan sig. Það er þó auðsætt, að hèr er einúngis verið að tala um gjald, sem leggst á landsmenn sjálfa; þannig hefur stjórnin sjálf skoðað það, og þannig verða allir að skoða það. Spurníngin verður hèr þá

einúngis um það, að hvaða kostum landsmenn vilja gánga, ef verzlunin er látin laus, hvort þeir vilji kaupa vöruna dýrara af einni þjóð en annari. Ef að þessi 5 dala tollur er lagður á utanríkis-verzlunarmenn, þá er auðvitað, að hann verður að lenda á landsmönnum sjálfum, og þeir eiga nú einmitt að segja, hvort þeir vilji hafa þetta þannig eða ekki; því vörurnar verða þá dýrari í viðskiptunum milli landsmanna og utanríkis-kaupmanna, en þær mundu ella verða; því utanríkismenn verða að fá tollinn bættan með því, að leggja hann á vörurnar, við hverja sem þeir kaupa. Það getur nú vel verið, að landsmenn sèu samdóma stjórninni í þessu, að gjöra sèr vöruna dýrari hjá utan- en innan-ríkismönnum, með því að leggja tollinn ekki nema á hina fyr nefndu eina, en eg fyrir mitt leyti vildi nú heldur, að enginn óeðlileg álaga væri lögð á verzlunina, og nefndin hefur að minni ætlun stúngið upp á hinum sanngjarnasta vegi, sem unnt er í þessu tilliti. Hún hefur hvorki viljað íþýngja sumum, nè undan skilja suma. Það er mikið talað um, að fastakaupmenn hafi meiri kostnað fyrir verzlun sinni, en lausakaupmenn, en eg held, að þegar betur er að gætt, þá mínki sá munur nokkuð; því fastakaupmennirnir fá eptir frumvarpinu og uppástúngum nefndarinnar margan hagnaðarauka fram yfir hina, þar sem þeir fá fullan forkaupsrètt og rýmra frelsi til flutnínga; þeir geta líka verzlað í landi, og notað sèr aðsóknina í kaupstöðunum allt árið um í kríng, og er það auðsjáanlegt, að þetta er aðhlynníng fyrir hina föstu verzlun, og undir eins fyrir landsmenn sjálfa. Og ef að það er nú gjört að almennri reglu, að lækka aðflutníngsgjaldið, þá er það ekki síður ávinníngur fyrir föstu kaupmennina, en fyrir hina; því þess ódýrari verða þeim einnig vörurnar hjá utanríkismönnunum. Hvað því viðvíkur, sem annar þíngmaðurinn úr Reykjavík fór fram á, að undan taka vissar vörutegundir, t. a. m. timbur, undan öllu gjaldi, þá þótti nefndinni það ekki nauðsynlegt. Vèr vitum, að í seinni tíð er stjórnin nú farin að taka 14 marka gjaldið af timburförmum Norðmanna, og yrði þá álagan á þeim förmum minni eptir uppástúngum nefndarinnar, en sú, sem nú er eptir aðferð stjórnarinnar, og verður líka ójafnari eptir því, sem stúngið er upp á í breytíngaratkvæðunum, heldur en eptir uppástúngu nefndarinnar. Minni hluti nefndarinnar fór því fram, að þíngið hefði engan myndugleika til þess, að leggja á nýja skatta, en það er þó víst, að það hefur myndugleika til þess,

að gjöra uppástúngur við stjórnarfrumvarpið, og um annan myndugleika verður hèr ekki talað. Þegar talað hefur verið um jafnrèttið, þá hafa sumir hreift því, að aðrar þjóðir gjörðu oss örðugra fyrir en Danir, og því ættum vèr líka að gjöra þeim örðugra fyrir; en þetta á ekki hèr við, heldur á það við hefndargjaldið; en eg verð nú að játa það, að eg hef ekki getað sèð nein not af þessu hefndargjaldi enn, enda sýnist mèr og ekki fara vel á því, að Íslendíngar fari að halda þessum greinarmun fram; því að í viðskiptum við Danmörku er enginn munur gjörður á milli neinna þjóða, sem þángað sækja.

Undir ræðu framsögumanns gekk forseti úr fyrirsæti og settist á bekk með þíngmönnum, en annar varaforsetinn, *K. Kristjánsson* landfógeti, settist í fyrirsæti.

*Forseti*: Af því mèr virðist þessi 4. gr. vera aðalkafli frumvarpsins, þá ætla eg að reyna til, þó mèr sè nú sem stendur örðugt að tala, að fara um hana fáeinum orðum. Þegar umræðurnar í gær reykuðu inn á þessa grein, gat hinn heiðraði framsögumaður þess, að nefndin hefði byggt uppástúngu sína um tollinn á jafnrètti, og styrkti þá mál sitt með því, er stiptamtmaður *Rosenörn* hefði sagt hèr á þíngi 1849. Eg lèt þá undir eins í ljósi, að þetta mundi ekki vera rètt skoðað; en ekki var það meiníng mín, að orðin, sem framsögumaður las upp, væru rángt vitnuð í tíðindin frá alþíngi það ár, því síður hitt, að stiptamtmaðurinn hefði sagt það, sem rángt væri eða skakkt, heldur var mèr efi á hinu, hvort nefndin hefði lagt rètta þýðíngu í orð hans. Ef að framsögumaður hefði verið að mæla fram með því, að útlend *skip* fengju sama rètt og hin innlendu, þá hefðu orð stiptamtmannsins átt við og getað styrkt mál hans; en nú, þar sem verið er að tala um tollinn, eiga þau öldúngis ekki við. Þar sem framsögumaður fór því fram, að þetta tollfrelsi ætti sèr víða stað, og nefndi í því skyni einkanlega England, þá vil eg geta þess, að þetta er ekki svo að skilja, að allar þjóðir megi flytja þángað vörur sínar tollfríar inn í landið; því þeir, sem nokkuð þekkja til, vita, að England hefur árlega miklar tekjur af verzlun sinni við utanríkismenn, svo að það nemur mörgum milliónum punda sterling. En það frelsi, sem Englendíngar hafa veitt framandi þjóðum ei alls fyrir laungu, er í því fólgið, að tollurinn er jafnmikill, hvort sem vörurnar eru fluttar á útlendum skipum eða innlendum. Stiptamtmaðurinn segir: „að það hafi verið

skoðun stjórnarinnar, að ef almennt verzlunarfrelsi ætti að veita, þá ættu utanríkismenn að fá jafnrètti með Dönum", og „að það hafi líka ætíð verið gagnstætt grundvallarreglu stjórnarinnar, að láta utanríkisskip borga meiri tolla en innanríkisskip". Í þessum orðum er ekki og getur ekki verið sú meiníng, að ekki skuli borga toll af utanríkisvörum, þegar þær eru fluttar til Danmerkur, eða, með öðrum orðum, að utanríkismenn skuli hafa sama tollfrelsi sem innanríkismenn. Það er einnig vel aðgætandi, að 5 dala gjaldið, sem frumvarpið ákveður, er ekki álaga á skipið, eða það sem Danir kalla *Lastepenge*, heldur kemur það í staðinn fyrir toll, sem annars er vant að leggja á vörurnar. Ísland hefur híngað til verið skoðað eins og innland eða sem land, sem liggur fyrir innan hina dönsku tolllínu; því bæði hafa vörurnar verið fluttar tollfríar híngað frá Danmörku, og eins hèðan aptur þángað. Eg efast um, að nokkurt land í veröldinni hafi slíkt frelsi í verzlun sinni við útlöndin. Að minnsta kosti á ekkert framandi land kost á slíkri verzlun við Dani, enda hafa þeir og miklar tekjur af verzlun sinni við aðrar þjóðir; því það sèst af ríkisreikníngunum, að tolltekjur Dana nema nokkrum milliónum dala. Það er einnig aðgætandi, að fjárhagur fæstra ríkja mun vera svo á sig kominn, að þau megi sleppa tollinum af verzlun sinni. Ef vèr förum nú að leggja toll á Dani, þá brjótum vèr þá grundvallarreglu, sem þeir hafa allt af farið fram við oss; því vèr skerumst þá úr fèlagi við þá, og greiðum þeim veg til þess, að leggja toll á allar íslenzkar vörur; en þetta geta Íslendíngar með engu móti þolað. Og ef mèr skjátlast ekki of mjög, þá mun eitt af því, er knúð hefur Holsetamenn til þess, að nálægja sig Dönum, hafa verið það, að þeir voru hræddir um, að tolllínan yrði annars lögð milli Holsetalands og Slèsvíkur, og þeir yrðu þannig að standa sem sèrstakt útland í tilliti til tollsins milli Danmerkur og Þýzkalands. Ef að nú Holsetamenn hafa ekki treyst sèr til, að bera þann þúnga, sem af því flyti, ef þeir yrðu fyrir utan hina dönsku tolllínu, þá er ofætlun, að treysta Íslendíngum til þess. Það hefur mikið verið talað hèr um 14 marka gjaldið, en í því lýsir sèr líka nokkur misskilníngur. Þegar íslenzkar vörur, sem fluttar hafa verið hèðan til Danmerkur, eru fluttar þaðan aptur til annara landa, þá var það ákveðið í hinum eldri lögum, að borga skyldi af þeim í toll *einn af hundraði*. Með tilskipun frá 11. sept. 1816 var

það fyrst leyft, að flytja vörurnar beinlínis frá Íslandi til útlanda, og þá var líka ákveðið, að í staðinn fyrir hið nýnefnda tollgjald skyldi borga 5 rbdd. af hverju lestarrúmi skipsins; átti þessi tollur að jafngilda þeim, sem, eptir áður sögðu, var greiddur, þegar íslenzkar vörur voru fluttar frá Danmörku til útlanda; því ekki þótti hlýða, að útlandið skyldi fá meira tollfrelsi fyrir það, þó vörurnar væru fluttar beinlínis frá Íslandi. Seinna kom þetta málefni til umræðu á standaþíngi Dana í Hróarskeldu, og var það tekið fram þar, að 5 dala gjaldið væri of hátt, en að 14 marka gjald af hverju lestarrúmi mundi, þegar verð vörutegundanna væri reiknað upp og niður, nokkurn veginn vega upp á móti því umgetna gjaldi, *einn af hundraði;* þess vegna var 14 marka gjaldið ákveðið í staðinn fyrir 5 dali, er áður skyldi greiða; því þá þóttu jafnar álögur verða á íslenzkum vörum, hvort þær væru fluttar til útlanda beinlínis frá Íslandi eða frá Danmörku. Hvað nú breytíngaratkvæðin við þessa 4. gr. snertir, þá get eg ekki aðhyllzt það 24., og ekki hið 25. heldur, nema niðurlag þess um tollfrelsið fyrir timburfarma; því það er álit mitt, að timburfarmar híngað til lands þoli ekki neinar álögur; enda stendur þetta tollfrelsi óraskað, þó að þíngið ekki með berum orðum beiðist þess, samkvæmt opnu brèfi frá 1. d. júním. 1821 og 22. d. marzm. 1839.; því eptir rèttum skilníngi á lögum, gilda þessi lagaboð, eins og viðurkennt er í ástæðunum fyrir 4. gr. frumvarpsins, þó tollfrelsið fyrir timburfarmana ei sè ákveðið í þessu lagaboði. Af hinum öðrum breytíngaratkvæðum get eg á ekkert fallizt, nema breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar, og ef því verður ekki framgengt, þá felli eg mig bezt við það 28.

Eg verð annars að álíta það svo áríðandi fyrir landið, að fara nú ekki að leggja toll á þá verzlun, sem híngað til hefur verið tollfrí, og skerast þannig úr sambandi við Dani, að það yrði ómögulegt, að sjá það fyrir, hvaða afleiðíngar það mundi hafa, ef því yrði framgengt hèr á þínginu. Eg álít þetta svo skaðlegt fyrir landið, að ef þessi skoðun ryddi sèr til rúms á þínginu, þá er svo lángt frá því, að eg vildi taka þá ábyrgð á mig, að gefa henni atkvæði mitt, að eg þvert á móti, eptir þeirri stöðu, sem eg hef hèr á þíngi, yrði að nota mèr það leyfi, sem stendur í 71. gr. þíngskapanna, og lýsa mótmælum mínum móti henni.

*Framsögumaður*: Eg ætla einúngis að svara fáeinum atriðum í ræðu hins háttvirta forseta. Það er víst öldúngis rètt, sem hann gjörði, að að greina skipagjald og toll, en mèr fannst hann ekki gjöra það alla ræðu sína til enda. Það, sem nefndin hefur stúngið upp á, er einmitt skipagjald eða lestagjald, en enginn tollur. Það er líka auðsjáanlegt, að 14 marka gjaldið er lestagjald eða skipsafgjald einúngis, en því verð eg öldúngis að neita, að það sè neinn tollur, eins og hinn háttvirti forseti sagði.

*Forseti*: Þó ekkert annað gæti sannfært hinn heiðraða framsögumann um þetta, þá verður hann þó að sannfærast af því, að þetta 14 marka gjald er komið í staðinn fyrir þann toll, *einn af hundraði*, sem borgast af íslenzkum vörum, sem flytjast út úr Danmörku til útlanda. Þetta sýnir, að 14 marka afgjaldið er í eðli sínu tollur.

*Framsögumaður*: Það er nú annað mál, og eg mun minnast á það seinna, en 14 marka álagan er þó ekki lögð á öðruvísi, en sem skipsafgjald. Hinn háttvirti forseti sagði og, að Ísland lægi fyrir innan hina dönsku tolllínu, en eg verð að álíta, að það liggi einmitt fyrir utan hana; því af öllum þeim vörum, sem tollur er goldinn í Danmörk, er hann eins goldinn þar, þó þær komi hèðan. Hinn háttvirti forseti hèlt, að tolllínan hefði knúð Holseta til, að vilja samtengjast betur Dönum; en eg má játa það, að eg er þessu ókunnugur; hann er því, ef til vill, kunnugri; en hitt veit eg, að tolllína var áður milli Jótlands og Slèsvíkur, en var síðan færð suður á landamæri Holsetalands og Slèsvíkur, og hafa Holsetalandsmenn unað því illa, af því þeir álíta Slèsvík eins og bróðurland sitt. Hvað nú þessu 14 marka útflutníngsgjaldi viðvíkur, sem forseti er svo hræddur við að taka af, þá held eg, að hvorki Dönum nè öðrum geti staðið það á miklu, hvað um það verður, því eptir reikníngum sjálfra Dana nemur hann ekki meira en 1200 dölum á ári, og ef að Danir vilja skerast úr sambandi við oss fyrir þessa smámuni, sem eg fyrir mitt leyti ber annars engan kvíðboga fyrir, þá er auðsèð, að þeim er ekki mjög annt um, að halda sambandinu við oss.

*Forseti*: Það er ekki gjaldið sjálft eða upphæð þess, sem menn verða að hafa fyrir augum, heldur hitt, að grundvallarreglunni er raskað, ef tollfrelsi milli Íslands og Danmerkur er

af tekið, og afleiðíngarnar mundu verða þær, að tollinum greiddist vegur inn í landið.

*L. Johnsen*: Af því að hinn háttvirti framsögumaður vèk því að mèr, að það hefði ekki átt við, að minnast á jafnrèttið við 4. gr., heldur hefði það átt heima við 6. gr. stjórnarfrumvarpsins um hefndargjaldið, þá man eg þó ekki betur, en hann sjálfur talaði um jafnrèttið, og sömuleiðis er þess og getið í ástæðunum fyrir greininni. Eg fyrir mitt leyti get annars ekki gefið atkvæði mitt með því, að gjöra öllum þjóðum jafnt undir höfði, hvað tollinn snertir, og vil eg í því efni skírskota til þess, sem eg hef áður um það talað hèr á þínginu í dag.

*Jak. Guðmundsson*: Eg vildi leyfa mèr að biðja hinn háttvirta forseta og hinn háttvirta framsögumann, að skýra betur fyrir mèr, hvað þeir meina með „tolllínu"; því annar þeirra sagði, að Ísland lægi fyrir innan hana, en hinn sagði það lægi fyrir utan hana, og get eg ekki skilið, að báðir hafi satt að mæla.

*Forseti*: Eg held, að það sè þó auðskilið, sem við sögðum, þó að orðið „tolllína" sè kannske ekki íslenzkulegt; en mèr dettur nú ekki annað betra orð í hug yfir það. Fyrir innan tolllínu er hvert það land, sem hefur sama tollfrelsi og aðallandið sjálft; en þegar það flytur vörur sínar út fyrir þessa línu, borgar það toll af þeim, og þannig er Ísland fyrir innan hina dönsku tolllínu; því það hefur sama tollfrelsi og Danmörk.

*Framsögumaður*: Eg verð þó að vera á því, að Ísland sè fyrir utan hina dönsku tolllínu; því ef útlendar vörur væru fluttar frá Íslandi til Danmerkur, þá mundi þar verða tekinn tollur af þeim, ef það væru annars vörur, sem Danir taka toll af.

*Forseti*: Það er náttúrlegt, ef ekki hefði verið búið að borga toll af vörunum áður; því þó að þær væru fyrst fluttar híngað, og svo hèðan til Danmerkur, þá yrðu þær ekki þar skoðaðar öðruvísi en útlendar, og ekki sem íslenzkar vörur.

*Framsögumaður*: Hèr er enginn tollur tekinn, og hèr eru engir embættismenn settir til þess, að taka hann; það sýnist því vera auðskilið, að tolllína geti ekki verið þar, sem enginn tollur er tekinn, heldur þar, sem embættismenn eru settir, til að gæta tolla og taka þá, því þeir gæta einmitt línunnar, og það sýnir, að Ísland er fyrir utan þessa línu.

*Forseti*: Eg meinti, að Ísland væri fyrir innan tolllínuna með tilliti til *tollfrelsis*, en mèr kom ekki til hugar, að tala um *tolltekjutilhögun* hèr á landi. Eg held vèr megum þakka guði fyrir, að vera lausir við hana.

*Þ. Sivertsen*: Eg hef nú að sönnu fylgzt með nefndinni í 3 fyrstu greinunum í áliti hennar, en þó það sè kannske ekki gustuk, að áreita hana meira, en nú er þegar búið við 4. gr., þá verð eg samt að lýsa því yfir, að eg get ekki gefið þeirri grein atkvæði mitt. Nefndin þykist byggja tollinn á jafnrètti, en af öllum þeim ræðum, sem hèr hafa fram farið, get eg ekki sannfærzt um, að það sè nokkurt jafnrètti, sem hún fer fram á í þessari grein, og er búið af þíngmönnum að leiða svo mikil rök að því, að eg finn enga nauðsyn til, að færa fleiri. Þetta jafnrètti byggir hún, að hún segir, einkum á því, hver skoðun stjórnarinnar hafi verið 1849; en hafi nú þetta verið skoðun stjórnarinnar þá, og nefndin áliti sig skylduga til, að binda sig við hana, því fór hún þá ekki hinu sama fram þá, sem nú?

*Framsögumaður*: Þessi nefnd var þá ekki til.

*Þ. Sivertsen*: Flestir af nefndarmönnum þeim, sem nú eru, voru þó á því þíngi, og hafa þá sjáanlega fylgt annari stefnu en nú. En hvaða skoðun sem stjórnin hefur þá haft 1849, eða hvaða skoðun sem hún hefur nú 1851, þá finn eg mèr ekki skyldara, að fylgja hinni fyrri, fremur en hinni síðari, þegar eg er kvaddur til, að tala að minni eigin sannfæríngu, heldur fara því einu fram, sem er mitt eigið álit, og hið sama held eg að nefndin hefði átt að gjöra. Það hefur verið talað um, að stjórnin leggi 5 dala tollinn á utanríkismenn, af því Íslendíngar vildu það, en þetta væri eðlilegt þó svo væri; því bæði 1845 og 1849 var það einmitt skoðun alþíngis.

Þar sem framsögumanni taldist svo til, að 14 marka gjaldið næmi ekki meiru, en 1200 rbdd., þá held eg, að það sè misreikníngur hjá honum; því í áætluninni mun standa 2000 rbdd.

Að lyktum vil eg geta þess, að þegar til atkvæða verður gengið, þá mun eg helzt gefa breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar mitt atkvæði af þeim, sem upp eru borin.

*Jón Guðmundsson*: Þó að margt og mikið sè nú búið að tala um þetta mál, þá ætla eg samt að bæta við það nokkrum athugasemdum. Það er þá fyrst, að mèr þykja það skrítnar grílur, sem hèr er verið að ota fram af sumum: ójafnar og

óbærilegar álögur, nýir tollar, tolllínur, og annað þar á borð við. Þetta er nú allt saman spónnýtt, og eg fyrir mitt leyti get ekki verið að fælast þær. Það var stúngið upp á því á embættismannafundinum hèrna í Reykjavík, að leggja 1 ríkisbánkadals toll á hvert lestarrúm allra skipa, og eg get ekki skilið, að það sè nein frágángssök nè rángt á neinn veg, fremur nú en þá, að leggja nú 2 rbdd. á á sama veg; að minnsta kosti erum vèr jafnnærri tolllínunni nú og þá. Þó að stjórnin hafi nú ekki fallizt á þessa uppástúngu embættismannafundarins, sem þó sýndist vera byggð á jöfnuði, þá erum vèr þó ekki skuldbundnir til þess, að gánga út frá rèttum vegi fyrir það. Mig minnir að sönnu ekki betur, en að einhver þíngmanna segði, að það væri ráðlegast, að fara eptir vilja stjórnarinnar eins og hann væri nú, hvernig sem vilji hennar og skoðun á sama málinu hefði verið áður, en eg get ekki farið eptir því heilræði; því eg er ekki svo mikið fyrir að venda kápunni eptir veðrinu.

*P. Pètursson*: Hver hefur sagt það?

*Jón Guðmundsson*: Það talaði *einhver* áðan öldúngis víst á þessa leið. Menn hafa fengizt mikið um það, hvaða ójöfnuður kæmi fram í uppástúngu nefndarinnar um tollinn, og tekið það fram, að þessi ójöfnuður liggi í því, að fastakaupmönnum sè gjört svo miklum mun erfiðara fyrir en hinum, að þeim verði ómögulegt, að vera hèr; því þeir hafi svo mikinn kostnað, sem lausakaupmennirnir hafi ekkert af að segja. Nefndin vissi það vel, að fastakaupmenn höfðu meiri kostnað, en þeir hafa líka meiri hagnað, og hún hèlt að kostnaðurinn ynnist upp af hagnaðinum. Reynslan sýnir og bezt, hvernig þessum kostnaðarmun er varið; því það mun ekki vera torvelt, að koma með dæmi upp á það, að fastakaupmenn, sem byrjað hafa á, að vera lausakaupmenn, hafa sett sig niður aptur, og farið að verða fastakaupmenn, og víst er það, að margir af lausakaupmönnum setja sig niður fyr eða seinna sem fastakaupmenn. Eg held, að það væri nú óhugsandi, að ætla kaupmönnum það, að þeir mundu baka sjálfum sèr þann kostnað, sem fylgir því, að vera fastakaupmaður, ef þeir sæju sèr engan hag við það, heldur mundu þeir þá fremur kjósa hitt, að vera lausakaupmenn, úr því þeir hefðu reynt hvorttveggja, og gætu valið hvort þeir vildu. Mèr láðist það eptir áðan, að minnast á 27. breytíngaratkvæði, sem talar um undanþágu á timbri undan tollinum.

það er að vísu satt, að það er harki á timbri hèr í landi, eins og hinn háttvirti forseti drap á, og það má segja, að hin síðustu ár hefur hèr opt verið timburekla, nema kannske hèrna í Reykjavík. það er því nokkur ástæða til þess, að ímynda sèr, að þessi timburekla kunni að verða meiri, ef tollur væri lagður á timbur; því þá yrðu aðflutníngarnir á því minni. Eg játa nú, að þetta væri skynsamlega ályktað, og þess vegna hafa og verið gjörðar hèr að lútandi undantekníngar í nokkrum lagaboðum; en nefndinni þótti það athugandi, að hafa lagaboðið á þann veg, að sem sízt yrði farið í kríngum það, og að umsjónin með því, að ákvörðunum þess yrði hlýtt, yrði sem hægust og óbrotnust; því öll slík umsjón er annars örðug og vandasöm. Híngað til hafa Norðmenn ei getað flutt híngað neina vöru aðra en timbur, og ekki getað tekið aðra vöru af oss fyrir timbrið en peninga, vegna innflutníngstollanna í Noregi og 14 marka gjaldsins hèr, og eins verður þessu nú varið hèr eptir, þó að frumvarpinu, eða breytíngaratkvæðinu, sem eg minntist á, yrði framgengt. það er því auðsèð, að það band, sem nefndarálitið leggur á, er betra fyrir báða, bæði Norðmenn og Íslendínga; því þá geta þeir tekið fleira fyrir timbrið en peninga, og eins flutt híngað ýmsar vörur aðrar en timbur, og gæti það orðið báðum hagur. það er og eitt harla eptirtektavert, sem hèr hefur komið fram í umræðum í dag, og sem framsögumaður minntist á áðan, en það er, að stundum skoða menn þetta gjald eins og álögu á landsmenn, en stundum eins og álögu á kaupmenn; en hvernig sem nú þessu er varið, þá held eg, að kaupmenn þyldu það, þó það legðist á þá; því eg held það sè ekki dæmi til, að neinn kaupmaður hafi nokkurn tíma flosnað upp fyrir það, þó að t. a. m. korntunnan hafi eitt árið orðið 2 eða 3 dölum dýrari en annað árið. Allt eins er um þetta; eg held þeir stæðu eins eptir sem áður, þó þessir 2 dalir, sem nefndin hefur stúngið upp á, legðust á þá. Eg þekki líka einn kaupstað hèr á landi, og margir af þíngmönnum þekkja hann líka, þar sem skipaleguan er álitin svo hættuleg og ill, að kaupmaðurinn verður að borga töluvert meira í skaðabótasjóðinn fyrir þau skip, sem þángað fara, en annars er vant að borga, og þó stendur þessi kaupstaðurinn eins rèttur og hinir; það er þá auðvitað, að kaupmaðurinn verður að selja vöruna þeim mun dýrari á þessum stað, sem hún verður sjálfum honum dýrari. það var einn þíngmaður, sem gat þess áðan, að það væri ósk og vilji landsmanna, að

leggja 5 dala toll á alla útlenda verzlun (*P. Melsteð*: þetta er ekki rètthermt.), en eg held, að það sè ekki gott, að sanna það, að minnsta kosti held eg, að það sè mjög óvíða almenníngsósk. Það lítur svo út, eins og að sumir af þíngmönnum hallist helzt að 28. breytíngaratkvæðinu, en á það get eg ómögulega fallist. Eg held, að 14 marka gjaldið verði allt af það óeðlilegasta gjald; því með því er kaupmönnum gjört örðugra fyrir, að leita að góðum markaði fyrir vora vöru, en það er einmitt það, sem eg vildi styðja að, að kaupmenn hefðu einhverja hvöt til þess, að sækja hentuga markaði.

*Jak. Guðmundsson*: Það er þá orðið með þrennu móti, sem nefndin ætlar að hlynna að hinum föstu verzlunarmönnum hèr á landi, nefnilega með því, að gefa þeim forkaupsrètt og flutníngaleyfi, og um þetta hvorttveggja hef eg þegar talað, en hið þriðja aðhlynníngarmeðal nefndarinnar hafa menn tekið fram síðan, en það er, að hún vill lofa fastakaupmönnum að verzla allt árið um í kríng. En þessi aðhlynníng hlýtur þá einkum að vera fólgin í því, að kaupmenn geti selt dýrara á veturna en á sumrum; og að þessu hlynnir nú nefndin óneitanlega vel með þeim hætti, þegar hún stuðlar til, að kaupstaðirnir verði sem flestir og smæstir; því það mun einkum vera í hinum smáu útkaupstöðum, sem kaupmenn hafa bezt færi á, að okra út vöru sinni á veturna, en miklu síður í hinum stærri kaupstöðum, t. a. m. Reykjavík, Akureyri og Stykkishólmi, þar sem fleiri kaupmenn eru saman komnir; en einmitt þessi hagur föstu kaupmannanna held eg komi landsmönnum að mestum skaða, einkum þeim, sem búa í grennd við smákauptúnin. Síðan forseti upplýsti menn um, hvernig stæði á 14 marks tollinum, að hann væri sumsè í staðinn fyrir 1 dal af 100 rbdd., sem greiddur væri af þeim íslenzkum vörum, sem fluttar væru út úr Danmörku, þá sýnist mèr ójöfnuðurinn í 14 marka gjaldinu vera nokkru minni, en mèr sýndist hann áður, svo verði hvorki 24. nè 25. breytíngaratkvæði framgengt, þá mun eg heldur fallast á 28. eða 30. breytíngaratkvæðið, heldur en á uppástúngu meira hluta nefndarinnar.

*Ó. E. Johnsen*: Eg held, að fulltrúinn úr Reykjavík hafi gleymt því núna, hvað vel hann talaði fyrir 9. breytíngaratkvæðinu í gær, sem stíngur upp á 12 verzlunarstöðum.

*G. Brandsson*: Eg veit ekki, hvort þíngmaðurinn úr Reykjavík hefur talað af eigin reynslu, eða hann hefur farið eptir

annara sögusögn; en það get eg sagt af eigin reynslu, að Reykjavík hefur ekki reynzt mèr nè sumum öðrum, sem mèr er gagnkunnugt um, stórt betur í verzlunarviðskiptum, heldur en smákaupstaðirnir suður frá, og er hægt að sanna þetta með ársreikníngum kaupmanna. Hvað nú tollinn snertir, þá þykir mèr það undarlegt, að menn vilja ekki kannast við það, að það sè hagur fyrir landsmenn, bæði fastakaupmennina og hina, að tollurinn á utanríkis-verzlunarmönnum sè sem lægstur; því þá er þó auðsèð, að þeir geta selt með betra verði en annars, og þar sem þeim er gjört að skyldu, að koma fyrst á aðalhafnir landsins, þá er fastakaupmönnum þar með gefið færi á, að eiga fyrstum við þá kaup, og er það auðsjáanlega hagsmunir fyrir þá, og að öðru leyti meðal til, að kaupstaðirnir eflist og velmegun landsmanna að því skapi. Þess vegna get eg ekki skilið, að uppástúnga nefndarinnar sè ósanngjörn. Annað mál er það, hvort henni getur orðið framgengt hjá stjórninni, og eg gæti ímyndað mèr, að hvernig sem uppástúngan yrði frá þínginu, þá yrði hún lögð undir ríkisdag Dana, og hann látinn fara að fást við hana á ný. Það er þá einúngis varúðarinnar vegna, að mèr sýnist óráðlegt að þessu sinni, að hækka tolla á hinni dönsku verzlun. Eg held það gæti orðið alþíngisverk seinna meir, ef þarfa þætti, einkum ef það fengi meira vald en að undanförnu; og með tilliti til þess, sem eg nú hef sagt, felli eg mig einna bezt við 28. breytíngaratkvæðið, hverju eg því veiti samþykki mitt, þegar atkvæða verður leitað.

*Jak. Guðmundsson*: Þó svo kunni að vera, sem þíngmaður Gullbríngusýslu sagði, að stundum sè jafngott verð í Hafnarfirði og Keflavík, eins og hèr í Reykjavík, þá vil eg benda þíngmanninum á, að þetta er einmitt Reykjavík að þakka, af því þessir smákaupstaðir eru svo nærri henni, að þeir, sem við þá verzla, geta hótað þeim, að fara til Reykjavíkur. En öðru máli er að gegna um suma smákaupstaði aðra, sem lengst eru frá hinum stærri kaupstöðum, t. a. m. Siglufjörð, sem er margar dagleiðir frá Akureyri.

*St. Jónsson*: Þetta, sem þíngmaðurinn nú sagði, sannar einmitt það, að það, að hafa sem flesta verzlunarstaði, gjöri bezt verðlag, en ekki það, sem hann vildi sanna. Það er og líka skiljanlegt; því ef að margar dagleiðir eru á milli kaupstaða, þá geta ekki landsmenn farið á annan stað, þegar þeim ekki líkar á þessum, þó viti betra á hinum staðnum. Eg vil að vísu

ekki fjölga verzlunarstöðum úr því sem er, nema sèrleg nauðsyn útheimti það, en hitt vil eg, að landsmenn njóti hagnaðar rèttvíslega af þeim, sem nú þegar eru til, og það sè ekki hindrað að óþörfu. En hvað viðvíkur Siglufirði, þá veit eg það, að það eru sjaldan settar þar upp vörur, fyr en á Akureyri.

*Jak. Guðmundsson*: Sami hluturinn hefur þó verið seldur fyrir augunum á mèr fyrir 24 skk. á Siglufirði, sem ekki kostaði nema 16 skk. á Akureyri. (*Einn þíngmanna.* Sama ár?) Já.

*St. Jónsson*: Þetta sannar ekki neitt. Eg mótmæli ei, að þetta geti komið fyrir. Það kemur fyrir, að misjafnt verð er á kramvöru í sölubúðum á sama verzlunarstað. Hvað því viðvíkur, að það sè hagnaður, að verzla á vetrum, eins og einhver minntist nýlega á, þá er þess að gæta, að þá setja kaupmenn helzt upp vöru sína. Mèr verður máske svarað, að þeir selji lítið þann tíma, sem lausakaupmenn eru ekki á verzlunarstöðum, og þetta kann að vera svo, einkum á sumum stöðum; en ef þeir hafa vöru til að selja á vetrum, þá hlýtur annaðhvort að vera, að landsmenn sèu ekki upp á fastakaupmenn komnir þann tímann, eða þá verður að draga drjúgt verzlun sín þá, þegar þeir eru einir um hana. En það, sem margir þíngmenn hafa mælt hèr fram með, að Norðmenn flyttu timburfarma sína híngað tolllausa, þá sýnist það hafa mikið fyrir sèr; en eg ímynda mèr, að ekki mundu margir Norðmenn flytja tómt timbur, þó þeir mættu það, tolllaust; því þeir hafa sjálfir sagt, að ef þeir mættu flytja aðra vöru með, einkum járn, þá gætu þeir selt timbur með talsvert betra verði. Eg held því, að fáir mundu flytja einúngis timbur, og fleiri mundu hinir, sem heldur flyttu aðra vöru með, og vildu heldur greiða þann litla toll, sem kemur niður á landsmönnum sjálfum. Líka væri mögulegt, að misbrúka tollfrelsið á timbrinu, og er því, ef til vill, ekki svo mikið unnið gott með því, að halda því fast fram. Ekki getur mèr heldur annað fundizt, en að það sè rèttast, að tollurinn sè jafn á öllum þjóðum, sem híngað kæmu til verzlunar. Mèr þykir það undarlegt, þegar mönnum virðist einkis vert, að leggja 5 ríkisbánkadala gjald á utanríkismenn, og segja það nemi svo litlu, að það fæli engan frá, að koma híngað til verzlunar, eins og sumum þíngmönnum hafa farizt orð, en óþolandi, að leggja 2 rbdd. á innanríkismenn, og þeir halda,

að þetta 2 ríkisbánkadala gjald, sem þó kemur niður á oss sjálfum, muni fæla þá frá, að vera hèr. Mèr finnst eins og sumum verði það, að halda, að það sè nauðsynlegt, að koma í veg fyrir, að verzlun utanríkismanna geti orðið landsmönnum að sönnum notum; en eg get ekki betur sèð, en að því að eins hafi komið svo margar bænarskrár frá þjóðinni um verzlunarfrelsi, og svo mikill nafnafjöldi undir hverri þeirra, að hún hafi vonazt éptir, að það mætti koma henni alstaðar að sem jöfnustum og beztum notum, að kostur væri á, og enginn mundi reyna til, að koma í veg fyrir þau not án gildra ástæðna, en mèr virðast þær sumar byggðar á veikum rökum.

*Á. Böðvarsson*: Eg vil stuttlega drepa á það, sem hinn 2. fulltrúi Reykjavíkur gat um, að verra verð væri á smákaupstöðum en hèr á vetrum, og nefndi hann einnig smákaupstaðina á vesturlandi, hvers vegna eg þykist vita hann muni einnig þar með hafa meint olbogabarnið Ólafsvík. Til að sýna honum, að ekki sè ætíð svo, vil eg hèr með láta hann vita, að rúgtunnan var í vetur í Ólafsvík seld hverjum, sem hafa vildi, fyrir 6 rbdd., en eg heyri sagt hún hafi kostað 7 rbdd. í stóra kauptúninu Reykjavík.

*B. Jónsson*: Eg vil leyfa mèr að geta þess viðvíkjandi Siglufirði, sem áðan varð rætt um, að eg hef verið þar sjálfur, og þekki því til verðlags þar, og hefur það verið lengi venja, að eigendur verzlunarinnar hafa gjört fulltrúum sínum þar að skyldu, að fylgja verðlagi því, sem við gengst á Akureyri. Þetta var mèr og gjört að skyldu, þegar eg var þar, og hèlt því iðulega spurnum fyrir, hvað það og það væri dýrt á Akureyri. Eg má því fullyrða, að yfir höfuð að tala er verðlag þar mjög svo líkt og á Siglufirði, þó eg hins vegar ekki neiti, að það geti komið fyrir, að það á einstaka vörutegund kunni að mismuna dálítlu.

*Jak. Guðmundsson*: Þá gèt eg sagt þíngmanni Snæfellínga frá annari sögu, og hún er svona, að eg hef heyrt, að brennivínspotturinn í Ólafsvík hafi jafngilt hörðum fiskafjórðúngi, þegar hann kostaði mark hèr í Reykjavík.

*Á. Böðvarsson*: Þetta getur þíngmaðurinn sagt, en ekki sannað, og þó einhver kunni nú að hafa ýkt þessu að honum, sjálfsagt allt að helmíng, þá hafa mèr verið sagðar fullkomlega eins ósennilegar sögur um ýmislegan sölumáta í Reykjavík á árunum, sem eg ekki vil einu sinni hafa eptir.

*Framsögumaður*: Eg hef nú fengið nóg að heyra af sögum um verðlag á ýmsum hlutum á nokkrum stöðum; en eg dreg út af þeim þann lærdóm, að það sè mjög tvísýnt, hvort verðlag sè hærra í minni kaupstöðum. En það verður líka að taka til greina hægð alþýðu, og bera þannig saman verðhæðina við þann kostnað og örðugleika, sem ferðirnar til kaupstaðanna hafa í för með sèr. Það er rángt að miða við auð kaupmanns einúngis; því kaupmaðurinn er þó fremur vegna alþýðunnar, en alþýða vegna kaupmannsins.

*G. Magnússon*: Sumir hafa sagt um nefndina, að hún vildi fylgja fram jafnrètti, en hafa aptur borið henni á brýn, að hún færi fram ójafnrètti, og hafa borið það fyrir, að hún legði jafnan toll á innanríkisskip og utanríkisskip; en mèr finnst þetta vera einmitt mikið jafnrètti, eða farið svo jafnaðarlega að í þessu, sem unnt er í þessum heimi. Þegar lagðar eru ær og kýr í hundrað, og goldin af tíund, eg vil ekki taka til, að nokkrir embættismenn eru undan þegnir tíund; þá gjalda menn tíund sína eða þessa álögu án þess, að kvarta um nokkurn ójöfnuð fyrir þetta. Þetta álag liggur nú á landsbúum, og þykir ekkert neyðargjald, heldur nauðsynjagjald. Þegar nú lagður er tollur á verzlunina, þá mun eins fara, að kaupmenn greiði þetta gjald, ekki sem hefndargjald eða hatursgjad, heldur sem nauðsynjagjald. Mörgum þykir ójafnaðarlegt, að leggja jafnan toll á Dani og aðrar útlendar þjóðir, og bera það fyrir, að enginn tollur sè á íslenzkum varníngi í Danmörku. Eg ber nú ekki á móti því, að svo sè; en setjum svo, að Spánverjar legðu 12 dala toll á fiskinn, en Danir ekki neitt, en nú legðum vèr jafnan toll á hvoratveggja, Dani og Spánverja, og Danir færu til og segðu: „Látum oss og leggja 12 dala toll á fisk Íslendínga“, hver yrði þá afleiðíngin? Afleiðíngin yrði sú, að Danir yrðu að kaupa fiskinn 12 dölum dýrari en áður; og ef fiskur gengi nú greiðar út annarstaðar, þá mundum vèr flytja hann þángað, og get eg ekki sèð, að vèr þyrftum að hafa nokkurn talsverðan baga af því. Það hefur verið talað margt og mikið um fasta kaupmenn og lausa kaupmenn. Eg man svo lángt, að stjórnin leit í speki sinni á lausakaupmenn, og vildi að nokkru leyti reyra þá við Reykjavík, og sagði: „Ef losað verður um lausakaupmenn, þá er voðinn vís fyrir hina föstu kaupmennina og alla landsbúa“. Nú var þó losað um hag lausakaupmanna; hefur landsmönn-

um þótt þetta hagkvæm breytíng, og fastakaupmenn hafa þróazt líkt og áður, allbærilega; hefur þessi skipun nú staðið í nokkur ár, og þegar allt hefur farið vel híngað til, vonum vèr, að allt muni fara vel framvegis, þó enn kynni að verða rýmkað haganlega til (Rètt! ).

Mèr hefur þótt góður kostur við nefndarálitið, að það er svo einfalt og óbrotið, og laust við þessar hneigíngar og sveigíngar, sem gjarnan eru í lagaboðum. Nefndin hefur t. a. m. látið hið sama gjald gánga jafnt yfir alla farma, eins timburfarma og aðra farma, og hygg eg það sè rèttast og eðlilegast, að hafa enga undantekníngu um þá farma. Eg vil taka til dæmis skip, sem kom fyrir nokkru á Eyrarbakka með timburfarm frá Norvegi. Sagt er, að á skipinu hafi verið 400 tylftir af borðum, það eru 4800 borð; nú gjöri eg ráð fyrir, að skipið hafi verið 30 lestir að stærð, og ef nú eru goldnir 2 ríkisdalir af hverri lest, eins og nefndin gjörir ráð fyrir, þá er gjaldið 60 dalir af skipinu öllu. Ef vèr nú lítum á, hvað leiðarbrèfið hefur kostað og kostar enn, þá eru það 36 skildíngar fyrir hverja lest, eða 1080 skildíngar fyrir 30 lestir. Þegar vèr nú drögum þetta frá 60 dölum eða 5760 skildíngum, þá verður munurinn 4680 skildíngar, og þegar þessum 4680 skildíngum er jafnað niður á 4800 borð, þá kemur 1¼ sk. á hvert borð. Nú er sagt, að kaupmaðurinn á Eyrarbakka hafi keypt farminn allan af Norðmanninum fyrir 1500 dali, eða hvert borð fyrir 30 skildínga, og ef tollmunurinn væri lagður við, þá hefði hvert borð orðið 31¼ sk. Þetta eru nú öll ósköpin, sem menn gjöra svo mikið úr, og eru svo hræddir við.

Eg vil að síðustu gjöra eina athugasemd við orð hins háttvirta forseta. Hann sagði, að ekki mætti vita, hvar að ræki, ef lagður væri tollur á vörur, er fluttar væru híngað frá Danmörku, og þýngt á landsmönnum með því móti. Árið, sem leið, mun nokkru meira, en 4000 lesta, hafa flutzt híngað frá Danmörku, og þegar lagðir eru 36 skildíngar á hverja lest, eins og nú er gjört, þá verður það gjald nokkru meira en hálf önnur þúsund dala; en ef goldið væri eptir uppástúngu nefndarinnar, eða 2 dalir lagðir á hverja lest, þá yrði þetta gjald nokkru meira en 8000 dala, eða tollmunurinn nokkru meiri en hálf sjöunda þúsund dala, og get eg ekki sèð, að svo fjarska-mikið sè gjörandi úr þeim mun.

*Forseti*: Þíngmaðurinn, sem nú settist niður, fór að eins

og góður kennari; hann setti menn á knè sèr, og kenndi þeim marga smámuni, og það suma órètta smámuni. Hann sagði oss, hvað borðið kostaði, en hann sagði oss ekki, hvað ferð Norðmannsins kostaði. Eg er viss um, að timburfarmar Norðmanna þola ekki álögur. Það er sèrstök heppni, þegar Norðmenn geta fengið farm hèr, til að flytja til Danmerkur. Það kemur kaupmönnum æfinlega illa, að þurfa að gjalda út reiða peninga, undir eins og þeir gjöra skip sín út. En hvað viðvíkur tollinum, þá er það misskilníngur þíngmannsins, að eg væri hræddur um, að 5 ríkisbánkadala tollurinn mundi fæla útlenda menn. Danir verzla hèr tolllaust, og mundi þeim því falla það illa, að gjalda toll, sem náttúrlegt er; en utanríkismenn eru vanir því, að gjalda toll, og bregðast því ekki ókunnuglega við, þó þeir þurfi að borga toll í Danaríki, og munu því 5 rbdd. ekki fæla þá neitt.

*Framsögumaður*: Eg held það hafi verið nokkur misskilníngur hjá hinum háttvirta forseta. Eg tek til dæmis Englendínga; þeir skyldu nú koma á Spán, eða hvar sem þeir koma, þá gjalda þeir þó aldrei meiri toll, en á vörunum sjálfum liggur.

*Forseti*: Eg hef þá mátt tala annað, en mèr var í hug, ef hinn heiðraði framsögumaður hefur ekki miskilið mig.

*G. Magnússon*: Það er gott, að taka fróðleik, þaðan sem hann kemur, en forseti hefur ekki tekið rètt eptir, ef honum hefur heyrzt eg tala um ferðakostnað Norðmanna. Eg var einúngis að tala um, að þessi dýrleikamunur á hverju borði næmi að eins 1¼ skk., og væri fyrir þá sök því máli til styrkíngar, að ekki væri vert, að vera að gjöra undantekníngu með timburfarma, þar eð verðmunurinn væri svo lítill.

*Forseti*: Eg vil einúngis geta þess, að ef Norðmenn fengju, að flytja timbur með tolli híngað, þá er þessi tollur ekki annað, eins og framsögumaður hefur líka gjört þínginu ljóst, en skattur á landsmenn, og get eg ekki sèð, hvað mönnum gengur til þess, að gjöra timbur dýrara en þarf. En af því stjórnarfrumvarpið veitir meira frelsi í þessu efni, þá vil eg halda mèr til þess.

*Framsögumaður*: Þetta er misskilníngur hjá hinum háttvirta forseta. Nefndin óttast ekki, að það verði þýngra fyrir timburfarma hèr eptir en verið hefur; því það er nú fyrst og fremst ómögulegt fyrir timburskip, sem híngað til hefur geng-

izt við, að mega ekki flytja neina aðra vöru, og í öðru lagi eiga timburskip örðugra í seinni tíð, síðan stjórnin er farin að taka af þeim 14 marka gjaldið. Þetta kemur nú til álita, þegar jafna á saman nefndarálitinu og stjórnarfrumvarpinu.

*Forseti*: Eg verð þó að vera á annari meiníngu; því fyrst er nú ákveðið, að 14 marka afgjaldið ei skuli greiðast, nema þegar skipið er meir en hálffermt, og svo er það ekki ætíð, að timburskip fari aptur beinlínis til Noregs; því þau taka opt farmaflutníng til Danmerkur, og þá getá þau notað þau sömu rèttindi, og þó þau væru innlend.

*Framsögumaður*: Já; en hver segir, að þeir gjöri það af því það sè ábatamest, heldur en til þess, að hafa eitthvað. En það er ekki gagn fyrir oss, að íslenzku vörurnar hrúgist saman á einn stað. Vèr verðum að gefa gaum að verzluninni í Kaupmannahöfn. Þegar mikið safnast þar fyrir af vörunni, þá fellur hún alla jafna í verði, og kaupendur nota sèr það, að svo mikið er til fyrirliggjandi af vörunni, og láta sèr því hægt. Eg vil taka dæmi af ullinni. Hún hefur nú um hríð verið í þolanlega háu verði í Kaupmannahöfn, af því hún hefur flutzt á fleiri staði. Sama er að gegna með fiskinn, þegar hann hefur dreifzt út, eins og einkum hefur verið stundum nú í seinni tíð, þá hefur hann hækkað í verði. Þetta gengur nú öldúngis eðlilega til eptir gángi allrar verzlunar. Af þessu er það auðsèð, að það er hið mesta gagn fyrir oss, að reyna til, að leiða sem flesta inn í verzlunina.

*Jak. Guðmundsson*: Það er ein ástæða, sem eg man ekki til að nokkur þíngmaður hafi hreift, sem er á móti því, að leggja toll á timbur, og hún er sú, að þó bændur hèr í landi finni nauðsyn til, að fá mat með sem beztu verði, þá finna þeir ekki brýna nauðsyn til, að byggja vel hús sín. En nú eigum vèr að gjöra allt, sem í voru valdi stendur, til þess, að þeir byggi betur, en verið hefur, og því forðast, að gjöra timbur dýrara en áður; því eg get ímyndað mèr, að sumir bændur kynnu að fá sèr það til afsökunar, að nú sè timbur svo dýrt vegna tollsins, að þeir geti ekki byggt; og kaupmenn, sem opt eru gjarnir á að ýkja allt það, er ástæður kynnu að virðast til þess, að þeir selji dýrt, mundu, ef til vill, gjöra meiri mun á verðlagi timburs, en vert væri vegna tollsins; því þeir eru optast vanir að nota hvert tækifærið, til að færa vöru sína sem mest fram.

*G. Einarsson*: Eg vil biðja þá, sem færir eru, að upplýsa mig um það, hvort að 2 ríkisbánkadala tollurinn á hverri lest er þýngri en gjald það, er þeir hafa orðið að greiða áður. Eg spurði norskan mann hèrna um daginn, því hann færi ekki til annara staða; en hann sagði mèr, að hann þyrfti penínga, og þegar hann fengi þá, þá gæti hann vel staðið sig við ferðina; en af því hann yrði að gjalda toll af innfluttum vörum í Norvegi, þá yrði það frágángssök hèr fyrir sig, að taka vörur.

*Framsögumaður*: Mèr þætti merkilegt, að fá að vita, hvort mönnum þykir sanngjarnara, að leggja toll á ekki neitt, en að leggja toll á timburfarma. Ef maður fer eptir stjórnarfrumvarpinu, þá getur svo að borið, að menn megi gjalda 5 ríkisbánkadala toll af engu. Þetta þykir mèr að minnsta kosti lángt um ósanngjarnara. Það er og aðgætandi, að þegar engin bönd liggja á Norðmönnum með að flytja timburfarma eintóma, þá geta þeir haft farminn eins blandaðan og þeir vilja. Þetta er og hvergi í heiminum bundið neinum böndum, og því ætti það ekki heldur að vera hèr.

*L. Johnsen*: Mèr finnst það vera ósamkvæmt hvað öðru, þegar að verið er að biðja um frjálsa verzlun, að biðja þá um leið, að lagðir sèu nýir tollar á. En hvað viðvíkur því, sem fulltrúinn úr Reykjavík gat um, þá held eg, að fleiri verði til að spyrja að því, þegar í kaupstaðinn er komið: „Fæst nokkur viður?" því heldur geta menn með einhverju móti fram dregið líf sitt af skepnunum, heldur en komizt af viðarlausir, af því að menn verða að geta byggt kofa ofan yfir höfuðin á sèr, og einnig þurfa menn viðinn til nauðsynlegra áhalda og annboða. Eg er líka hræddur um, að dæmi þíngmannsins úr Árnessýslu sanni lítið; því hver veit, nema Norðmaðurinn hafi selt timbrið nauðugur, og hafi selt það við lágu verði sèr í skaða.

*P. Pètursson*: Þar sem framsögumaður gat þess fyrir skömmu, að stjórnin legði 5 ríkisbánkadala toll á lestarrúm í tómum skipum, þá er það hreinn og beinn misskilníngur; því að 4. gr. í stjórnarfrumvarpinu lítur til þeirra utanríkisskipa, sem nefnd eru í 3. gr.; en ef að 4. gr. væri miðuð við 2. gr., þá væri það satt, sem framsögumaður sagði, en nú er það ekki gjört. Þess er áður getið af einhverjum þíngmanni, hvílíkan ágóða að fastakaupmenn hafi af verzlun sinni hèr á veturna, og vil eg geta þess þessu viðvíkjandi, af því eg man ekki til, að nokkur annar hafi orðið til þess, að það er æði-

mikið fè í vöruleifum, sem liggur óselt hjá kaupmanninum, og sem hann verður þó að gjalda leigu af ytra. Ef nefndin vill bæta verzlunina, þá má hún ekki stuðla til, að niður drepa henni, og þetta finnst mèr þó hún gjöri. Ætlunarverk hennar var, að segja álit sitt um stjórnarfrumvarpið að því leyti, sem það losaði um þau bönd, sem lágu á verzlun við útlendar þjóðir, en hún hefur lagt nýjan skatt á hina innlendu verzlun, og því get eg ekki verið henni samdóma.

*Framsögumaður*: Hafi eg misskilið þíngmanninn í tilliti til 4. gr. í stjórnarfrumvarpinu, þar sem eg eignaði henni, að hún legði stundum 5 rbdd. á ekkert, þá hef eg þó ekki misskilið hann, þegar menn taka tillit til 29. breytíngaratkvæðis og ágreiníngsatkvæðis minna hlutans, og er þó sá munur á 29. breytíngaratkvæðinu og minni hlutanum, að minni hlutinn hefur þar 4 rbdd., þar sem 29. breytíngaratkvæðið vill hafa 5 rbdd. En af þessu breytíngaratkvæði leiðir, að það skal gjalda 5 rbdd. af lestarrúmi hverju, þó að það sè tómt, og er þá auðsèð, að hinn konúngkjörni þíngmaður er í þessu efni talsvert ósanngjarnari en stjórnarfrumvarpið.

*P. Pètursson*: Öldúngis ekki. Eg hef í breytíngaratkvæði mínu og minni hlutinn í sínu haft tillit til alls frelsis, og eg get enga ósanngirni fundið í þessari grein; því meiri hluti nefndarinnar er áður búinn að leyfa utanríkisskipum, að koma híngað án leiðarbrèfs, og leysa þau hèr, og eins að taka hèr farma; og þykir mèr það þá litlu skipta, hvort þau koma híngað með fullan farm eða ekki, og sanngjarnt, að þau, hvort heldur er, greiði jafnmikið gjald.

*Framsögumaður*: Það verður nú sín meiníng í hvoru; því eptir meiníngunni, sem liggur í breytíngaratkvæði minna hlutans, þá þurfa menn að gjalda af lestarrúminu, hvort sem það er tómt eða ekki, en eptir stjórnarfrumvarpinu má taka það svo, að meiníngin sè, að ekki þurfi að gjalda 5 dalina, nema skip sèu hlaðin. Hèr leikur reyndar vafi á, hver sá rètti skilníngur sè; en hitt sýnist þó liggja nær.

*P. Pètursson*: Eg ætlaði mèr einúngis að leiðrètta það, sem hinn heiðraði framsögumaður sagði um stjórnarfrumvarpið, að það ætlaðist til, að tóm skip greiddu fullt gjald, og jafnframt verja mig fyrir þeirri ásökun hans, að tillögur mínar í þessu efni væru enn ósanngjarnari, með því að sýna, að tillögur mínar eru miðaðar við það frelsi, sem meiri hluti nefnd-

arinnar hefur veitt þeim utanríkisskipum, sem nefnd eru í 2. gr. stjórnarfrumvarpsins, og hvað því viðvíkur, að eg vildi hækka 4 rbdd. minni hlutans upp til 5 rbdd., eins og er í stjórnarfrumvarpinu, þá held eg, eins og áður er sagt, að þetta verði ekki kallað ósanngjarnt, þegar haft er tillit til alls þess frelsis, sem nefndarálitið veitir utanríkisskipum í verzlun sinni hèr.

*G. Brandsson*: Það hafa nokkrir talað um ótta, sem þeim stæði af hinni frjálsu verzlun, eins og henni eptir nefndarálitinu yrði skipað; en eg verð að játa, að eg veit ekki almennilega, hvernig á honum stendur. Máske hann komi af því, að menn sèu hræddir um, að Danir verði einir um hituna, og engir aðrir vilji sækja oss heim, og að þeir þá gætu gjört oss verzlunina svo erfiða, sem þeim litist, einkum ef vèr íþýngdum þeim með nýjum álögum; eða skyldi þessi ótti koma af því, að menn eru ekki óhræddir um, að Danir muni ekki geta staðið jafnfætis öðrum þjóðum að verzlun? Komi hann nú af því, segi eg, þá held eg menn geti dregið út af því þann lærdóm, að verzlun Dana hafi ekki verið oss sem hagkvæmust híngað til, og hún mundi oss þá ekki svo ómissanleg hèr eptir, sem margir ætla eða vilja innbyrla mönnum.

*P. Pètursson*: Setjum nú, að Danir geti ekki selt sumar vörutegundir með eins góðu verði, og útlendar þjóðir; en samt sem áður verðum vèr þó að játa, að frá Danmörku og Eystrasalti flytjist kornvörur með beztu verði, og hvað væri þá eðlilegra, en að stjórnin í Danmörku legði Eyrarsundstoll á korn frá austursjónum, til þess að Danir gætu unnið þann skaða upp á sínu korni, er þeir kynnu að bíða á öðrum vörutegundum; en eins og eg sagði í gær, þá er eg ekki svo hræddur um, að stjórnin mundi grípa til þessa; því hún hefur einkum á seinni tímum sýnt, að hún vill hlynna að hagsmunum þessa lands, og hlífa því sem mest fyrir öllum álögum; en eg er hræddur um hitt, þó það væri kölluð ógnun í gær, sem það þó engan veginn er, að fái uppástúnga nefndarinnar framgáng hèr á þínginu, þá muni það valda frestun málefnisins hjá stjórninni; en vèr vitum allir, hversu innilega vèr óskum, að losast við þau bönd, sem nú liggja á verzlun vorri, og því eigum vèr ekki að binda með annari hendinni, það sem vèr leysum með hinni. Fari nú svo, sem vèr óskum og vonum, að vèr fáum löggjafarvaldið að nokkru leyti í hendur sjálfra vor, og verzlunarmálið verði talið með innlendum málum, þá er ætíð nógur

tími til, að leggja skatt á innlendu verzlunina, en á meðan þetta er ekki komið í kríng, og vèr ekki höfum fengið meiri afskipti af úrsliti málanna, en komið er, og meðan þessi skattur rennur í ríkissjóðinn, þá get eg ekki verið að mæla fram með því, að hann sè lagður á innlenda verzlun, og það því síður, sem stjórnarfrumvarpið ekki gefur nokkurt tilefni til þess.

*Framsögumaður*: Nú, þarna kemur spónnýtt atriði; þíngmanninum þykir ríkissjóðurinn hafi of mikinn ábata, ef gjald þetta yrði lagt á eptir uppástúngu meira hluta nefndarinnar. Nú fer eg að skilja. En eg tel það ekki eptir, og eg held, að enginn Íslendíngur hafi orsök til, að gjöra það, þegar vèr vinnum með því fullkomið jafnrètti. En hvað því viðvíkur, að vèr fáum löggjafarvald, og getum þá gjört það og það, þá get eg ekki betur sèð, en það verði líkt því, sem nú er á þessum fundi. Fundurinn hefur rètt til, að gjöra uppástúngur, að neita, samþykkja eða breyta frumvörpum; konúngur hefur rètt til, að samþykkja, eða neita, eptir því sem hann vill; þetta virðist mèr vera hèr um bil löggjafarvaldsrèttur. Og það get eg ómögulega sèð, að ríkisþíngið í Danmörku hafi rètt á, að setja hèr nein lög um verzlun hèr í landi, eða breyta öðruvísi, en eptir þeirri meiníngu, sem látin er í ljósi hèr á þíngi, og get eg ekki sèð, að frá þeirri hlið sè oss nein hætta búin. En það, sem hinn háttvirti þíngmaður gat um, að Danir mundu leggja á Eyrarsundstoll, þá get eg ekki sèð annan hagnað af því fyrir Dani, en að rúgur verður þeim mun dýrari en annars; því það hefur sjálfsagt þá sömu verkun og aðflutníngstollurinn.

*P. Pètursson*: Eg hef ekki nefnt ríkisþíngið í Danmörku, nè sagt, að það mundi gjöra breytíngu á verzlunarmálefninu; en eg gat þess einúngis yfir höfuð, að fengi uppástúnga meira hluta nefndarinnar framgáng, yrði stjórnin, ef til vill, að fresta úrsliti málsins, og gef eg ekki um, að til greina ýtarlegri ástæður fyrir því. En viðvíkjandi því, sem framsögumaður gat um Eyrarsundstollinn, þá byggði hann skoðun sína á skökkum grundvelli; því hann byggði hana á því, að rúgur væri jafndýr í Danmörku og annarstaðar; en eg byggði á því, að rúgur í Danmörku og austursjónum væri lægri í verði en annarstaðar.

*Forseti*: Eg verð að mótmæla hinum heiðraða framsögumanni, og neita því, að þessi fundur hafi löggjafarvald, heldur að hann hafi, eins og alþíngi að undanförnu, ráðgefandi vald. Eins verð eg að álíta það sjálfsagt, að ef þetta mál verður svo

snemma báið, að það komi út í haust, þá verði það lagt fyrir ríkisþíngið, og þá muni það breyta því. Og eg verð að láta þíngmenn vita það, að ef þíngið gengur nokkurn tíma út fyrir sín rèttu takmörk, af því það tileinki sèr löggjafarvald, þá hlýt eg, sem settur er hèr, til að stjórna þínginu og ráða slíku, að víkja úr forsetasætinu.

*Framsögumaður*: Eg veit það, að þegar löggjafarvald er tekið í yfirgripsmesta skilníngi, þá hefur þessi fundur það ekki; en eg held, að það sè ekki mikill meiníngamunur milli mín og hins háttvirta forseta í rauninni. Fundur þessi hefur rètt til að breyta þeim frumvörpum, sem fyrir hann eru lögð, og eg verð öldúngis að neita forseta í því, að ríkisþíngið hafi fengið hèr enn nokkurt löggjafarvald, eða að það hafi rètt til, að gjöra nokkuð að lögum hèr, án þess alþíngi sè spurt að, eða á móti þess samþykktum. Sú eina spurníng, sem ástæða gæti verið til að bera upp á ríkisþíngi Dana um verzlun hèr, væri sú, hvort þeir hefðu nokkur rèttindi til, hvort það ætti nú heldur að vera eptir náttúrurètti, þjóðrètti eða nokkrum öðrum rètti, hvort þeir hefðu nokkurn rètt til, að hafa einkaleyfi til verzlunar hèr á landi, og útiloka allar aðrar þjóðir; og eg þykist sannfærður um, að hver einasti danskur ríkisþíngsmaður mundi segja *nei*, og ekki verða einn einasti til að segja, að þeir hefðu slík einokunarrèttindi yfir oss. En hvað stjórninni sjálfri viðvíkur, þá hefur hún sjálf gjört verzlunina að innlendu máli, þar sem hún hefur sagt, að hún skoði verzlunina „frá sjónarmiði landsins".

*Forseti*: Eg tel það víst, að verzlunin sè að nokkru leyti innlent mál; en hún er þó að mestu leyti sameiginlegt mál. Svoleiðis var það og svo álitið á standaþíngunum í Danmörku, hvar slík mál ætíð voru lögð fyrir standaþíngin. Það er auðvitað, og mig greinir ekki á við hinn heiðraða framsögumann í því, að þessi fundur hefur rètt til, að stínga upp á breytíngum í þeim frumvörpum, sem fyrir hann eru lögð, en meiníngamunurinn er sá, að eg álít, að þessi fundur hafi, eins og alþíngi hefur haft, einúngis ráðgefandi vald. Það hefur, sem menn kalla, „*moralsk*" en ekki „*juredisk forpligtende*" krapt. Konúngur getur samþykkt eða neitað að samþykkja gjörðir ríkisfundarins, en hann getur ekki breytt þeim; en löggjafarvaldinu er ekki þannig deilt hèr, og hèr getur konúngur breytt uppástúngum þjóðfundarins.

*Framsögumaður*: Ríkisþíngið hefur ekkert löggjafarvald yfir oss enn, og á því hef eg byggt skoðun mína. En það er enginn meiníngamunur milli mín og hins heiðraða forseta í því tilliti, að þetta þíng þurfi staðfestíngar konúngs. Hinu hlýt eg fullkomlega að neita, að stjórnin megi breyta uppástúngum fundarins, eins og hún vill, og lögleiða þær þannig að þínginu fornspurðu; enda hefur hún aldrei boðið sèr það, að lögleiða hèr það, sem þíngið hefur verið öldúngis mótfallið, jafnvel ekki meðan alþíngi stóð.

*Forseti*: Eg álít rèttast, af því eg hef nú um stund tekið þátt í umræðum málanna, að sá varaforseti, sem nú gegnir forseta störfum, skjóti greininni og breytíngaratkvæðum þeim, sem við hana eru gjörð, til atkvæða.

*E. Briem*: Eg vildi leyfa mèr að minnast á eitt atriði í einni ræðu hins 5. konúngkjörna þíngmanns. Hann gat þess áðan, að það atvik, að stjórnin hefði ekki fallizt á uppástúngu nefndarfundarins 1841 um, að leggja á öll kaupför 1. dals gjald af lestarrúmi hverju, sýndi, að stjórninni hefði ekki geðjazt að grundvelli hennar; en eg held, að þessu sè nokkuð öðruvísi varið. Nefnarfundurinn gjörði þessa uppástúngu af því, að konúngur hafði boðið fundinum, að stínga upp á þeirri tilhögun á sköttunum, að landið gæti borið sig sjálft. Skattamálið er ekki komið í kríng, en samt hefur stjórnin hvorugu þessara atriða gleymt; hún hefur optar en einu sinni látið það í ljósi, að bæði þessi atriði, að leggja gjald á verzlunina, og að láta landið bera sig sjálft, muni verða tekin til greina, þegar verzlunin verði hèr frjálsari, og þegar búið sè að skipa stjórnarlögun lands þessa.

*B. Benediktsen*: Eg vildi svara framsögumanni fáeinum orðum. Honum þótti ágreiníngsatkvæði mitt ekki greinilega orðað (*Framsögumaður*: Nei, nei, einmitt greinilegt! — hlátur —); en eg veit ekki, hvort það er betur orðað frá meiri hluta nefndarinnar, þar sem hann er að girða fyrir, að menn kaupi ei leiðarbrèf að ónýtu.

*Framsögumaður*: Það var það, sem mèr þótti undarlegt, að ef mönnum þætti ósanngjarnt, að leggja toll á timburfarma, að þeim þætti þá sanngjarnt, að leggja toll á ekkert.

*Á. Einarsson*: Eg hef ekki lengt þíngræðurnar með umræðum um þetta mál. En mèr datt í hug, þegar eg sá þessa mergð af breytíngaratkvæðum, að slíkri skruggu mundi skúr

fylgja. Sú von hefur mèr nú heldur ekki brugðizt; en skúr þessi hefur þó ekki enn hreinsað svo það *pólitiska* lopt, að eg sè nær en áður, hvernig atkvæði muni falla í þessu máli; því eg er enn með öllu óviss um, hvort nokkrir 6 af þíngmönnum eru eins vel sameinaðir, að gefa atkvæði fyrir nokkru breytíngaratkvæði, eins og þeir 6 nefndarmenn, sem eru samhuga, að verja nefndarálitið. Þessi ósamheldni gefur mèr ástæðu til, að halda, að breytíngaratkvæðin sèu ekki rèttari, en uppástúnga nefndarinnar; því þó einstöku þíngmenn mæli hver fram með sínu breytíngaratkvæði, hafa þeir þó ekki sameinað sig enn þá, þó forseti hafi bent til þess, og þetta sýnir þó veiklu fyrir samfæríng manna. Eg held, að það hefði verið æskilegt, eins og forseti benti á, að koma sem flestum breytíngaratkvæðum saman. Það sem þíngmaðurinn frá Dalasýslu talaði um, að nefndin hefði breytt stefnu sinni í verzlunarmálinu, síðan á fyrri þíngum, og væri nú komin á aðra stefnu, en þíngið hefði haft 1849, þá get eg ekki álitið það neina niðrun fyrir hana, einkum ef sú stefna er rèttari, sem hún hefur nú.

*Framsögumaður*: Og því síður er það niðrun, sem það er nú ekki hin sama nefnd.

*G. Brandsson*: Hinn 5. konúngkjörni þíngmaður hefur ráðið til þess, að vèr skyldum ekki íþýngja Dönum með nýjum álögum. Mèr þykir þessi ráðlegging að vísu góð, en þó koma hèr nokkuð undarlega við; því hann játar þó, að allir þeir tollar, sem vèr leggjum á verzlunina, lendi raunar á sjálfum oss. Nú hefur hann þó mælt með 5 dala tollinum á utanríkisverzlun, en eptir þessari skoðun lendir hann líka á sjálfum oss, og ef tollurinn síðan rennur inn í ríkissjóðinn, eins og hinn háttvirti þíngmaður gaf í skyn að verða kynni, þá vil eg ekki mæla með því, að hækka hann stórvægilega fram yfir það, sem nefndin hefur stúngið upp á.

*P. Pètursson*: Eg held, að þíngmaðurinn hafi ekki gætt að því, hvernig nú stendur á, að meiri hluti af öllum íslenzkum vörum gengur hèðan til Danmerkur, en er ekki seldur í útlöndum, og að 14 marka tollurinn, sem nú er goldinn af þeim vörum, sem hèðan eru fluttar til útlanda, er lángt um minna fè, en það, sem eptir nefndarálitinu leggst á hina innlendu verzlun. En hvað því viðvíkur, að breytíngaratkvæði mitt lýtur að 5 rbdd., en ekki 4 rbdd., þá veitir nefndarálitið hinni útlendu verzlun svo mikið frelsi í öllum greinum, að eg skil ekki

i, að þetta lítilfjörlega gjald geti fælt nokkurn útlendan kaupmann frá, að koma híngað til verzlunar, ef hann að öðru leyti áliti sèr hag í, að verzla hèr. Þar að auki hefur alþíngi einlægt farið fram á þetta sama 5 dala gjald. En færi nú svo mót von manna, að útlenda verzlunin brygðist, væri það þá ekki ísjárvert, að vera búinn að leggja þann þúnga á innlendu verzlunina, sem aptur legðist á landsmenn sjálfa?

*G. Brandsson*: Eg held, að við sèum nú báðir því jafnókunnugir, og ef hin útlenda verzlun, eins og þessi þíngmaður ætlast til, fær ekki að vera hinni dönsku nokkurn veginn jafnhliða, þá get eg ímyndað mèr, að hún verði oss ekki að þeim tilætluðu notum.

*P. Pètursson*: Látum okkur einúngis hafa tillit til þess, hvernig *nú* er ástatt með verzlunina, og ekki spá neinu um, hvernig hún takist; og verð eg þá að benda þíngmanninum á, að einmitt eins og nú stendur á, fer megnið af öllum íslenzkum vörum fyrst til Danmerkur, og þaðan eru þær aptur fluttar til annara landa.

*G. Vigfússon*: Af því eg óttast fyrir, að ekki verði gengið til atkvæða með nafnakalli í þessu máli, þá álít eg það skyldu mína við þíng og þjóð mína, að gjöra kunnugt, fyrir hverju eg muni gefa atkvæði mitt. Eg hef með sjálfum mèr nákvæmlega yfirvegað stjórnarfrumvarpið og nefndarálitið, og þar að auki fylgt ræðunum í dag svo vel, sem eg hef bezt getað, og verð eg að játa, að eg hef ekki getað sannfærzt um, að neitt af því, sem stúngið hefur verið upp á, sè rèttvísara eða betra á nokkurn hátt en nefndarálitið. Að færa ástæður fyrir því áliti mínu, virðist mèr nú óþarfi, en get þess einúngis, að eg ætla óhikað að gefa uppástúngu nefndarinnar atkvæði mitt.

*Á. Böðvarsson*: Það væri æskilegt, áður en til atkvæða er gengið, ef hinn heiðraði framsögumaður vildi skýra frá því, á hvert breytíngaratkvæðið hann eða nefndin mundi helzt fallast. Það gæti verið góð bendíng fyrir þíngmenn, að vita það; því eg er hræddur um, að annars kunni atkvæðagreiðslan að verða þeim óljós. Mèr fyrir mitt leyti finnst vera komin sú truflun á þessa grein, að hún varla muni öðlast rúman helmíng atkvæða. Mèr finnst það heldur ekki alveg rètt af nefndarmönnum, að leggja hinn sama útskúfunardóm á öll breytíngaratkvæðin; því eitt getur þó verið skárra en annað, eins og eitt lakara en hitt.

*Framsögumaður*: það er hægt fyrir mig, að svara þessu. Eg fellst ekki nema á 32. og 33. breytíngaratkvæðið, og meðnefndarmenn mínir gjöra líklega það sama; en um hin breytíngaratkvæðin verður auðna að ráða. En það er auðvitað, að eg verð að beygja mig undir atkvæðafjöldann, og svo mun fara fyrir fleirum.

*S. Hallgrímsson*: Eg hef mikið þolað í draumum mínum fyrir þann 2 dala toll, sem nú hefur verið rætt um út af 4. gr. nefndarálitsins. Eg vissi ekki í fyrstunni, hvað eg átti að segja um þessa tollupphæð, en þó varð eg enn meira á reyki, þegar eg sá hin mörgu breytíngaratkvæði. Eg var svo í allan gærdag að velta málinu fyrir mèr, og svo kom eg hèr upp á þíngsalinn í dag, að eg var enn óviss um, hvað af þessu öllu eg skyldi aðhyllast. Nú hef eg hlustað á umræður manna með þeirri athygli, sem mèr var unnt; því eg ætlaði að láta þær ráða stefnu minni í málinu, og eg verð þá að lýsa því yfir, að þó margt hafi verið talað á móti 2 dala tollinum, þá vegur það samt ekki, að mèr finnst, upp á móti því, sem talað hefur verið fyrir honum, og þess vegna býður nú sannfæríng mín mèr, að aðhyllast nefndarálitið einnig í þessari grein.

*Varaforseti*: Eg vona þá, að umræðunum um þessa grein sè nú lokið, fyrst enginn tekur til máls framar, og skal eg þá biðja þíngmenn, að gánga til atkvæða, en get þess um leið, að þegar kemur að 30. breytíngaratkvæði, þá verða atkvæði greidd um það með venjulegu nafnakalli, eins og óskað hefur verið eptir. Eins get eg þess og, að 23. breytíngaratkvæði er aptur kallað, og verður því ekki gengið til atkvæða um það.

Síðan var gengið til atkvæða, og fèllu þau þannig:

24. breytíngaratkvæði var fellt með 40 atkvæðum gegn 1;

25. breytíngaratkvæði var borið upp í tvennu lagi, og fyrri hlutinn felldur með 41 atkvæði gegn 1, en síðari hlutinn samþykktur með 25 atkvæðum gegn 16;

26. breytíngaratkvæði fellt með 40 atkvæðum gegn 2;

27. breytíngaratkvæði fellt með 40 atkvæðum gegn 2;

28. breytíngaratkvæði fellt með 30 atkvæðum gegn 11;

29. breytíngaratkvæði fellt með 36 atkvæðum gegn 6;

31. breytíngaratkvæði var tekið aptur;

32. breytíngaratkvæði samþykkt með 28 gegn 11 atkvæðum.

Uppástúnga nefndarinnar undir töluliðnum 33 í atkvæðalistanum var síðan borin upp til atkvæða, og samþykkt með

21 atkvæði gegn 19, en af því sú atkvæðagreiðsla þótti óglögg, fór fram atkvæðagreiðsla með nafnakalli; og sögðu

| já: | nei: |
| --- | --- |
| Björn Halldórsson. | Árni Böðvarsson. |
| Sigurður Gunnarsson. | Páll Melsteð, sýslumaður. |
| Guttormur Vigfússon. | Þórarinn Kristjánsson. |
| Hallgrímur Jónsson. | Jóhann Briem. |
| Jón Guðmundsson. | Jens Sigurðsson. |
| Páll Pálsson. | Guðmundur Brandsson. |
| Páll Sigurðsson. | Jakob Guðmundsson. |
| Magnús Stephensen. | Jón Sigurðsson, hreppstjóri. |
| Magnús Austmann. | Magnús Gíslason. |
| Gísli Magnússon. | Þorvaldur Sivertsen. |
| Hannes Stephensen. | Brynjólfur Benediktsen. |
| Sveinbjörn Hallgrímsson. | Lárus Johnsen. |
| Guðmundur Einarsson. | Sveinn Níelsson. |
| Ólafur E. Johnsen. | Ólafur Briem. |
| Jón Sigurðsson, kandídat. | Jón Jónsson frá Mánkaþverá. |
| Ásgeir Einarsson. | Þórður Sveinbjörnsson. |
| Jósep Skaptason. | Helgi G. Thordersen. |
| Stefán Jónsson. | Páll Melsteð, amtmaður. |
| Eggert Briem. | Pètur Pètursson. |
| Jón Jónsson frá Grænavatni. | Þórður Jónasson. |
| Björn Jónsson. | |
| Halldór Jónsson. | |

Þannig fèll samþykkt á tölulið þennan með 22 atkvæðum gegn 20.

Samkvæmt atkvæðagreiðslunni var þá 30. og 34. töluliður á atkvæðalistanum fallinn, svo þeir voru ekki bornir upp til atkvæða.

Að svo búnu gekk forseti aptur til fyrirsætis, og ákvað fund næsta dag um 11. stund fyrir miðjan dag. Síðan var fundi slitið.

---

## 13. fundur, 2. d. ágústm.

Allir á fundi. Þíngbók frá síðasta fundi lesin og samþykkt.

*Jón Guðmundsson*: Má eg bera upp fyrir hinn háttvirta forseta eina spurníngu, sem snertir bæði hann og þínsköpin yfir höfuð?

*Forseti*: Já.

*Jón Guðmundsson*: Mèr datt það í hug í gær, þegar forseti sagði, að hann yrði að víkja úr forsetasæti, ef nokkur nefnd færi eins lángt, og nefndin hefði nú gjört í verzlunarmálinu, þá datt mèr strax í hug, segi eg, hvort meðferð forseta á fyrirspurn þíngmannsins frá Ísafjarðarsýslu væri samkvæm 51. gr. þíngskapanna, þar sem hann setti ekki fyrirspurn hans á dagskrána, þegar þó búið var að samþykkja hana af þínginu, og láta prenta hana, því úr því var hún eign þíngsins og álitsmál þess, heldur að fara og skrifast á við konúngsfulltrúa um hana, sem þó í vissu tilliti stendur andspænis á móti þínginu. Þetta get eg engan veginn álitið samkvæmt þínglögunum, og eg held, að bæði þíngmaður Ísfirðínga og þíngið sjálft hafi fulla heimtíng á, að fyrirspurn hans kæmi á dagskrána. Eg er hinum háttvirta forseta samdóma í því, að sömu mundu hafa orðið afdrifin, en úrlausn konúngsfulltrúa átti að fara fram á þínginu, en ekki í brèfi til forseta; konúngsfulltrúi gat eins vel sagt þar: „Eg get ekki svarað neinu; eg vil ekki svara“. Þetta kom mèr til hugar strax um daginn; en eg hugsaði, að þíngmaðurinn mundi sjálfur hreifa því, en hann gjörði það ekki, og var það öldúngis rètt af honum; því það var einmitt þíngið, sem átti að gjöra það.

*Forseti*: Eg held að sönnu, að þetta sè afgjörð sök, þar eð það er ekki borið upp, fyr en daginn eptir, og má því álítast á móti rèttu formi, að því sè hreift nú, og finn því ekki skyldu mína að svara. Ekki get eg heldur með nokkru móti haldið, að eg hafi brotið þíngsköpin. Það er ekki heldur satt, sem þíngmaðurinn sagði, að eg hefði *skrifazt á* við konúngsfulltrúa; því eg sendi honum einúngis *kopíu* af fyrirspurninni, og þegar eg hafði fengið brèf aptur um, að hann ætlaði ekki að svara, þá sá eg það ekki til neins, að setja hana á dagskrána; því eg áleit það ekki nema tóma tímatöf; en tíminn er oss dýrmætur, þar sem svo mikið er eptir órætt, en mjög álíðið; en það er ekki svo loku fyrir skotið, að fyrsta fyrirspurnin geti ekki komið á dagskrána, ef menn vilja.

*Konúngsfulltrúi*: Eg skal einúngis vitna til þess, sem stendur í brèfi mínu frá 30. júlí, „að eg hef ekki köllun til, að svara fyrir hönd annara manna, þar eg hef þar til enga heimild“, og skírskota að öðru leyti til þess, sem stendur í erindisbrèfi mínu.

*Jón Guðmundsson*: Eg skildi vel brèfið. Það var ekki meiníng þíngsins, að heimta svar af hinum hæstvirta konúngsfulltrúa; en það var formið, sem eg talaði um; eg áleit það mót rèttu formi, en var sannfærður um, að afleiðíngarnar yrðu þær sömu.

*Forseti*: Það er sannfæríng mín, að eg hafi ekki breytt á móti þíngsköpunum í neinu; því eg gat ekki álitið til nokkurs, að bera fram spurníngu, sem konúngsfulltrúi gat ekki svarað. Eg vil ekki tefja tímann á þess konar efni, og læt eg því halda áfram þíngræðunum, og vil eg biðja þíngmenn, að taka til umræðu um 5. gr.

*B. Jónsson*: Eg tek aptur breytíngaratkvæði mitt; því eg sè, að það stendur í sambandi við 12. gr.

*P. Pètursson*: Eg trúi eg eigi hèr eitt breytíngaratkvæði; það er 36. breytíngaratkvæðið á atkvæðalistanum. Eg bar upp þetta breytíngaratkvæði, af því mèr þótti eðlilegra, að lögreglustjórarnir stæðu í sambandi við stjórnina í landinu sjálfu, en við stjórnina í Kaupmannahöfn. Þetta breytíngaratkvæði ríður ekki á miklu, og vilji þíngið ekki fallast á það, læt eg mèr það lynda.

*Framsögumaður*: Það er sýnilegt af uppástúngu nefndarinnar, að hèr er einúngis breytt niðurskipun frumvarpsins, en engin veruleg breytíng gjörð á efninu sjálfu; en þar sem stjórnin talar um, að skip skulu fá leiðarbrèf á þeim og þeim stöðum, þá er það nokkuð rýmkað hèr í nefndarálitinu. En viðvíkjandi 36. breytíngaratkvæðinu, þá get eg ekki sèð nein veruleg not af því; því það veldur þó nokkrum vafníngi, að stiptamtmaður sè látinn standa fyrir afgreiðslu leiðarbrèfanna. Nefndin gat heldur ekki sèð, að nokkra nauðsyn bæri til þess, að fela honum þann starfa á hendur; því hún áleit, að lögreglustjórunum væri trúandi fyrir því.

*P. Pètursson*: Má eg spyrja hinn heiðraða framsögumann: Hvernig ætlast hann til, að leiðarbrèfin sèu samin? Hvort eiga þau heldur að vera skrifleg skírteini, eða eyðubrèf, sem menn svo kalla (*Blanqvetter*)? Mèr fannst nú, að það þyrfti að tryggja þau meir, en nefndin hefur gjört, og því fannst mèr ekki nóg, að lögreglustjórarnir, sem í þessu tilliti opt yrðu umboðsmenn sýslumanna, hreppstjóri eða helzti maðurinn á hverjum stað, gæfu þau út undir sínu nafni eða sýslumannsins, heldur vildi eg, að annað æðra og reglulegra yfirvald gjörði

það. Eg ímyndaði mèr, að það mundi vera prentuð blöð, og þyrfti því ekki annað, en fylla þau út. En hvað því viðvíkur, hvaðan þau eigi að koma, þá hefur nefndin viljað, að þau skyldu koma frá Kaupmannahöfn, en eg, að þau kæmu frá stiptamtmanni. Eg verð þó að telja breytíngaratkvæði mínu það til gildis, að ef stjórn Íslands yrði aðskilin frá stjórn Danmerkur, þá mundi það vera eðlilegra, að hèr væri fjallað um þessi mál; en verði nú uppástúngu nefndarinnar framgengt, þá skil eg ei, hvar ábyrgðin á að liggja; því það er óviðkunnanlegt, og ekki sem hentugast, að krefjast reikníngs af stjórninni í Danmörku fyrir því, hvað mörg útlend skip hvert sumar komi híngað, og hvað margar lestir. Nefndin hefur nú ekki gjört ráðstöfun fyrir, hver þessa ábyrgð skyldi hafa, hvort lögreglustjórarnir eða stjórnin. Hún hefur ekkert heldur ákveðið um það, hvert afgjaldið skyldi renna. Ef nú að stjórnin hefði ábyrgðina, hver ætti þá að kalla hana til reikníngsskapar, ef hún vanrækti þá skyldu, að láta lögreglustjórana fá eyðubrèfin? Það skil eg ekki, en hitt skil eg, hver ætti að kalla stiptamtmanninn til reikníngsskapar um það, og því vil eg, að þessi ábyrgð sè í höndum aðalstjórnarinnar hèr í landi.

*Framsögumaður*: Eg get nú ómögulega verið samdóma þíngmanninum um það, að stiptamtmaðurinn væri *reglulegra yfirvald* en lögreglustjórarnir (*P. Pètursson*: Eg held eg hafi ekki sagt það. — *Framsögumaður*: Já. — *Beggja megin*: Já). En svo eg svari spurníngu hans um það, hvernig nefndin hafi hugsað sèr að láta leiðarbrèfin vera löguð, þá ímyndaði hún sèr, að þau mundu hèr eptir verða í líku formi, og þau eru nú, að það væru eyðublöð, og svo væri skrifað inn í af lögreglustjórunum. Eg get heldur ekki annað en verið á því, eins og eg sagði áður, að það sè vafníngsmeira, að fara til stiptamtmanns fyrst, þegar skip kemur og hefur ekki leiðarbrèf, en að láta það vera til hjá lögreglustjóranum á staðnum, sem skipið kemur að. Mèr sýnist það og ofur-einfalt, að stjórnin ytra afhendi hverjum lögreglustjóra á þessum 6 höfnum vissa tölu af eyðublöðum, og stendur þá lögreglustjórinn skil á þeim, og verður að gjöra grein fyrir þeim, sem hann hefur veitt. Og geti menn nú ekki fengið ábyrgðina þannig, þá get eg ekki sèð, að hún verði heldur fengin fyrir það, þó leiðarbrèfin gángi í gegnum hendur á stiptamtmanni.

*P. Pètursson*: Eg vil geta þess, að eptir því, sem eg

skildi hinn heiðraða framsögumann, þá eiga lögreglustjórarnir að rita inn í leiðarbrèf þau, sem skipin hafa meðferðis; en hvernig á þá að fara að, þegar þau ekki hafa leiðarbrèf, og ætla sèr að fá þau hèr? Þegar svo stendur á, þá er auðsèð, að það mundi síður en ekki verða nógu tryggjandi, að lögreglustjórarnir rituðu sjálfir slík brèf, enda þó innsigli sýslunnar væri undir þeim; því öðrum þjóðum mundi þykja það ómerkilegt og óáreiðanlegt. Eg get ekki heldur sèð, að það valdi meiri vafníngi, að stiptamtmaður sendi lögreglustjórunum leiðarbrèf, heldur en þó að stjórnin gjöri það.

*K. Kristjánsson*: Það hefur við gengizt allt af, síðan 14 marka tollurinn var lagður á skip, sem gánga hèðan til utanríkishafna, að sýslumenn skyldu rita á leiðarbrèfin, og er enginn munur á því, að skrifa á þessi leiðarbrèf, og eyðublöðin frá stjórninni. Eyðubrèfin þurfa ekki að vera nema hjá sýslumönnum í þeim sýslum, er þær 6 hafnir heyra undir, sem til teknar eru í 2. gr. nefndarálitsins; því einúngis á þessum stöðum yrði lögreglustjórunum gjört það að skyldu, að veita þau, og þá sýnist mèr, að allt hið ískyggilega hverfi. Það væri mikil tímatöf og kostnaður, að senda æfinlega til stiptamtmanns, þegar skip kemur leiðarbrèfslaust, og getur stundum orðið torsótt, eins og t. a. m. úr Vestmannaeyjum; því þaðan eru ekki ætíð góðar gæftir í land. En hins vegar get eg ekkert sèð á móti því, að sýslumenn hafi þennan starfa á hendi.

*P. Pètursson*: Mèr gat ekki komið það til hugar, að í hvert skipti, sem skip kemur leiðarbrèfslaust, skyldi fara á stað og senda til stiptamtmanns, heldur að hann skyldi afhenda lögreglustjórninni á hverri höfn vissa tölu af þessum eyðubrèfum; því það er auðsèð, að það er hægra fyrir hann, en stjórnina í Kaupmannahöfn, að gjöra það.

*K. Kristjánsson*: Það er rètt, sem hinn konúngkjörni þíngmaður sagði, að það verður að vera viss til tekin tala, sem send yrði hverjum sýslumanni af eyðubrèfunum, og yrðu þeir að gjöra grein fyrir þeim eyðublöðum, sem ekki eru gefin út, eins og hinum, sem eru seld af hendi; en hvort að stiptamtmaður eigi hægra með en stjórnin, að senda þau, get eg ekki sèð. Eg veit ekki betur, en báðum þeim sè það jafnhægt, og þó stjórninni hægra, að senda á suma staði; t. a. m. á Seyðisfjörð á stiptamtmaður óhægt með að senda; því það getur orðið um seinan, að koma þeim með póstferðum. Það hefur líka opt

verið áður, að stjórnin hefur beinlínis snúizt að yfirvöldunum án háyfirvaldanna, t. a. m. með skýrslur um jarðaafgjald til útreiknings alþíngistollsins.

*P. Pètursson*: Eg held, að hèr sè ekki annar meiníngamunur en sá, að eg vil, að aðalstjórnin í landinu veiti leiðarbrèfin, en nefndin vill, að stjórnin í Kaupmannahöfn gjöri það. Þetta er nú reyndar ekki merkilegt í sjálfu sèr, en eptir minni skoðun á stjórn landins, þá finnst mèr sú aðferð, sem mitt breytíngaratkvæði til tekur, vera eðlilegri, og eg verð að vera á því, að ef að stjórnin í Danmörku getur sent þau, þá muni stiptamtmaður geta það líka.

*St. Jónsson*: Mèr sýnist, að eptir nefndarálitinu þá sè það á valdi stjórnarinnar, hvern veginn hún vill heldur gánga. Henni eru engin takmörk sett um það, hvort hún heldur sendir eyðublöðin sjálf beinlínis, eða gjörir það í gegnum stiptamtmann (Öldúngis rètt!); og sýnist mèr því engin þörf, að breyta uppástúngu nefndarinnar.

*P. Pètursson*: Eg óskaði einmitt þessara takmarka, svo menn geti vitað, hvert afgjaldið rennur.

*Jón Guðmundsson*: Já, en þessi takmörk eru *einmitt* verri; því þá er stjórnin bundin (hlátur), en eptir uppástúngu nefndarinnar er hún óbundin, og getur því hagað því sjálf eptir því, sem henni sýnist haganlegast.

*Á. Böðvarsson*: Mèr sýnist stjórninni mínkun gjör með því, að fara eins og að gefa henni reglu fyrir, hvernig hún eigi að haga umsjón sinni í þessari grein. Ekki meira vandamáli vil eg ætla henni að sjá sann, eins og bezt á við eptir kríngumstæðunum.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Þetta hefur þó nefndin gjört. Hún hefur bundið stjórnina við, að láta leiðarbrèfin vera fáanleg á 3 stöðum, og til tekur, að þeir skuli vera Kaupmannahöfn, hjá verzlunarfulltrúunum, og hjá lögreglustjórunum.

*Jón Guðmundsson*: Hvað þurfa þau víðar?

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg verð að játa það, að eg skil ekki orðið lögreglustjóri, hvort það á nú að vera einhver ný stjórn, eða sýslumaðurinn eða máske hreppstjórinn innibindist í því líka, og vil eg biðja um uppfræðíngu í þessu efni. Þegar beðið var um á alþíngi 1849, að leiðarbrèfin fengjust hjá verzlunarfulltrúunum, þá þótti þó þínginu ískyggilegt, að trúa hinum svo kölluðu „*simplu konsúlum*“ fyrir þeim, heldur þeim, sem

menn kalla „*Generalconsuler*"; og eg ímynda mèr, að framsögumaður hafi hèr meint með „verzlunarfulltrúa" þessa „*Generalconsuler*". Með tilliti til afgjalda af skipum, sem fá ný leiðarbrèf, þá sýnist mèr, ef farið er eptir áliti nefndarinnar, að enginn geti *controllerað* með lögreglustjórunum, hvort þeir setja 30 eða 40 lestir, eða eg veit ekki hvað, og því þykir mèr vissast, að það gángi í gegnum stiptamtmann.

*Framsögumaður*: Það er þó auðsèð, að stiptamtmaður á ekki hægra með, að vita stærð skipsins; því ef sýslumaðurinn getur ekki vitað það, sem annaðhvort er á staðnum eða skammt frá, þá getur stiptamtmaðurinn það enn síður, sem opt kann að standa svo á að sè hundrað mílur frá staðnum, sem skipið kemur að. En hvað því viðvíkur, hvort nefndin meinar með „verzlunarfulltrúa" það, sem menn kalla „*Generalconsuler*", þá er það ekki; enda veit eg ekki, að nú sèu til meir, en 1 eða 2, en verzlunarfulltrúar eru þó til lángt um fleiri. Það held eg sè rètthermt, að alþíngi hafi meint „*Generalconsuler*" 1849, en það kom þá til af því, að þíngmenn vissu ekki betur, en verzlunarfulltrúarnir hèldu sínu gamla nafni, en það lagðist niður um það leyti, og þeir eru nú kallaðir blátt á fram „*Consuler*", þó embættin sèu hin sömu. Í þessu finnst mèr engin ástæða fyrir oss, að tortryggja þá, fyrst að stjórnin í Danmörku trúir þeim.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg veit þó, að 1849 hefur alþíngi meint þá; því eg sè, að orðið „*Generalconsuler*" stendur hèr í klemmu í alþíngistíðindunum 1849.

*Framsögumaður*: Jú, það er rètt; en alþíngi vissi þá ekki, eins og eg sagði, af þessari nýju breytíngu.

*Jón Guðmundsson*: Það, sem hinum 1. konúngkjörna þíngmanni þótti ískyggilegt við nefndarálitið, stendur þó í stjórnarfrumvarpinu, og þó hinn 5. konúngkjörni þíngmaður hafi gjört breytíngaratkvæði við frumvarpið, þá hefur hann þó ekki gjört breytíngar við þetta; en þessu hefur nefndin reynt til að út rýma með því, að bæta við 2 gr.: „eða leysa leiðarbrèf".

*Jak. Guðmundsson*: Eg get ekki betur sèð, en að lítill munur sè á nefndarálitsins 5. gr. og breytíngaratkvæði hins 5. konúngkjörna þíngmanns við hana; því eg verð að álíta, að jafnhægt sè fyrir stiptamtmann, að senda leiðarbrèfin á þessar 6 tilteknu hafnir, og það er fyrir stjórnina, og því finnst mèr það ekkert gjöra til, hvort heldur farið er eptir nefndará-

litinu eða breytíngaratkvæðinu (Já!). Að minnsta kosti get *eg* ekki sèð, að það gjöri neitt til. En hvað því viðvíkur, sem hinn 1. konúngkjörni þíngmaður sagði, að ef nefndarálitinu yrði fylgt, þá væri enginn, sem *controlleraði* með lögreglustjórunum, þá held eg það verði nú hið sama, þó farið sè eptir breytíngaratkvæðinu. En það er þó einn munur, og kann eg betur við breytíngaratkvæðið í því tilliti en nefndarálitið, og hann er sá, að ef stjórnin yrði í landi hèr, þá ætti stjórnin í Kaupmannahöfn, eptir nefndarálitinu, í þessari grein að standa í beinlínis sambandi við sýslumenn, og kann eg illa við, að hún gjöri það í því, sem hinu starflega og umboðslega (*praktiska* og *administrativa)* viðvíkur; því þess háttar mál mundu öll heyra undir innlendu stjórnina, og í þessu tilliti kann eg betur við breytíngaratkvæðið.

*Framsögumaður*: Í nefndarálitinu er einúngis nefnd stjórn, það er óákveðið orð, og má heimfærast, hvernig sem á kynni að standa.

*P. Pètursson*: Það er auðsjáanlega meint ríkisstjórnin í nefndarálitinu; því hún á að sjá um, að leiðarbrèfin fáist í Kaupmannahöfn og hjá dönskum verzlunarfulltrúum í öðrum löndum.

*K. Kristjánsson*: Þetta er, held eg, mikið auðskilið. Stjórn er og verður aldrei annað en stjórn, og því má orðið skiljast um stjórn hèr í landi eins og í Kaupmannahöfn; svo held eg, að eins hægt sè fyrir stjórnina hèr, að senda leiðarbrèfin til Kaupmannahafnar, eins og þaðan híngað. En hvað því viðvíkur, að orðið „lögreglustjóri“ sè miskilníngi undirorpið, þá held eg, að betra sè, að brúka orðið „lögreglustjórn“; því það innibindur í sèr sýslumenn; en hitt orðið getur heldur blandazt saman við hreppstjóra; því þeir eru líka kallaðir lögregluþjónar.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Sýslumenn eru líka kallaðir „*Rettens Betjente*“.

*K. Kristjánsson*: Greinin var hèr á íslenzku, en ekki á dönsku.

*P. Pètursson*: Eg bar upp breytíngaratkvæði mitt, af því eg skoðaði málið frá sjónarmiði landsins; en af því það stendur ekki á miklu, þá fylgi eg því ekki fast fram.

Síðan tók enginn framar til máls; kvaddi forseti þá þíng-

menn, að gánga til atkvæða um 5. gr. nefndarálitsins með breytíngaratkvæðum hennar, og fèllu atkvæði á þessa leið:

35. töluliður hafði verið tekinn aptur;

36. —— var felldur með 31 atkvæði gegn 11;

37. —— áleit forseti að ekki þyrfti að koma til atkvæða; því hann var ekki annað en orðabreytíng, sem nefndin hafði líka fallizt á;

38. töluliður var samþykktur með 35 atkvæðum gegn 7.

Því næst tók forseti 6. gr., viðauka nefndarinnar, til umræðu.

*Framsögumaður*: Í þessari grein er ekkert annað tekið fram en það, sem venjulegt hefur verið híngað til, nefnilega, að skýra frá nafni skipsins, heimili og stærð, og frá nafni eigandans. Mèr finnst eg því ekki hafa neina sèrstaka orsök til þess, að fara fleirum orðum um hana að sinni.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg get ekki sèð neina nauðsyn til þess, að draga inn í þetta nefndarálit þessar greinir úr tilskipuninni frá 11. sept. 1816; því nefndin hefur ekki, hvort sem er, tæmt löggjöfina um verzlun hèr á landi, og það var ekki heldur nein von til þess af henni.

*Jón Guðmundsson*: Eg get þó ekki annað, en verið á allt öðru máli, en hinn 1. konúngkjörni þíngmaður, um þetta. Fyrst og fremst vil eg leyfa mèr að spyrja, hvort lögin eigi heldur að vera svo löguð, að þeir einir geti haft þeirra fullkomin not, sem eiga að sjá um, að þeim sè hlýtt, en ekki miklu fremur þeir, sem eptir þeim eiga að lifa. Eg veit það að sönnu ofurvel, að það hefur að undanförnu við gengizt í Danmörku, að þegar eitthvert nýtt lagaboð hefur komið út, þá vitnar það til eldri lagaboða, sem menn hafa þá orðið að leita að í ýmsum söfnum, svo sem í tilskipanasafni *Schows;* en eg efast um, að sú aðferð geti verið haganleg fyrir þá, sem eptir lögunum eiga að lifa. Og hvað nú þessari verzlunarlöggjöf viðvíkur, þá er hún gefin út fyrir útlenda menn og fyrir verzlunarfulltrúa, sem sjaldnast eru danskir undirsátar, heldur útlendir menn, eins og einn af hinum konúngkjörnu þíngmönnum sagði áðan, og þá má maður ekki ætla, að þeir sèu löglærðir menn, og hafi tilskipanasafnið danska í höndum sèr, svo eg held, að þeim nægði varla, að sjá tölustafi úr tilskipuninni frá 1816. Nefndin hefur nú viljað búa svo um hnútana, að þessir menn þyrftu ekki að kaupa sèr nein lagasöfn, til þess að vita, eptir hverju þeir ættu að gánga við verzlunina. Það er og aðgætandi, að það þarf skynsama menn til þess, að heimfæra rètt tilskipunina frá 1816, eins og

hèr stendur á. Eg vil taka til dæmis 2. gr. Hver veit nú, hvað orðið er eptir af henni? Nefndinni þótti það einfaldara, að taka þessar greinir inn í, af því hún sá ekki betur, en að það gæti orðið til leiðbeiníngar, en ekki til neins skaða fyrir neinn. Sama er að segja um hinar aðrar greinir í frumvarpinu, til að mynda 5. gr.; eg vil biðja hvern mann, að lesa hana með athygli, og sjá, hvað greinileg hún er. Þar er undir eins í upphafinu vitnað til 4., 5., 10., 11. og 12. gr. í tilskip. 1816, og þar að auki í niðurlagi hennar til 9. gr. í sömu tilsk. Og hvað er það nú, sem verið er að tala um í þessari 9. gr. í tilskipuninni? Það þyrfti maður þó að vita, til þess að geta forðazt afbrot móti þessum reglum. Getur nú nokkur sagt, að þetta sèu skiljanleg lög, nema fyrir löglærða menn? og eg verð að segja fyrir mig, að eg hafði mikið fyrir því. Eg vil enn fremur spyrja þá, sem amast við aðferð nefndarinnar, hvort 11. gr. í tilskipun. 1816 eða aukatekjureglugjörð frá 10. sept. 1830 eigi hèr að gilda. 11. gr. í tilskip. frá 1816 nefnir 6 rbdd., en aukatekjureglugjörðin 8 skk. eða 16 skk. af hverju lestarrúmi; og hverju á nú að trúa? Það er þó öllum ljóst, að ekki er aukatekjureglugjörðin upphafin enn, og frumvarp þetta fer ekki fram á það, nè gjörir neina breytíngu á henni. Þetta er annars auðsjáanlega gamall ávani, að vitna úr einu lagaboðinu í annað, og ollir það því, að maður þarf að hafa búnka af lagabókum fyrir sèr í einu. Eg held nú annars, að það sè ekki margt orðið eptir gildandi í tilskipuninni frá 1816. Það er nú búið að tína flest allt úr henni upp í önnur lagaboð, nema, ef til vill, 13. gr., og þori eg þó ekki um það að segja.

*Jak. Guðmundsson*: Þó það hafi verið siður að undanförnu, þegar ný lög hafa komið út, að vitna til hinna eldri laga, þá mun það einkum hafa komið til af því, að mönnum hefur þótt ótækt, að taka hverja ákvörðun inn í hvert lagaboð, vegna þess að lagasöfnin hefðu þá orðið svo fjarskalega stór. En þó að þessi ástæða hafi nú áður verið góð og gild, þá er hèr allt öðru máli að gegna, og mèr virðast ástæður nefndarmannsins öldúngis skýlausar og rèttar. Verzlunarlög verða bersýnilega að vera fyrir útlenda menn, sem ekki verður ætlazt til, að þekki nákvæmlega öll landslögin, og því er líka öðru máli að gegna um það, þó að nefndin hafi hèr fremur valið þá aðferðina, sem eptir þessum kríngumstæðum var hentugri, heldur en þá, sem vanalegri er hjá löggefendunum í Danmörku.

*Þ. Jónasson*: En nefndin hefur þó ekki alstaðar fylgt þessari reglu; því að í 12. gr. vitnar hún til eldri laga, þar sem hún segir í niðurlagi greinarinnar, að þess skuli gætt, sem fyrir er skipað í verzlunarlögunum yfir höfuð, og þannig hefur nefndin einmitt sjálf fylgt þeirri reglu, sem hún nú finnur að í stjórnarfrumvarpinu. Sú aðferð, sem hèr er við höfð, er og í raun og veru eðlileg; því hvorki stjórnarfrumvarpið nè nefndin hefur ætlað sèr að tæma verzlunarlöggjöfina, eða taka hana frá rótum, eins og bezt má sjá af yfirskript stjórnarfrumvarpsins, að það snerti að eins einstakar ákvarðanir í hinni íslenzku verzlunarlögjöf. Það er líka margt í tilskipuninni frá 1787 og 11. sept. 1816 og fleiri lagaboðum, sem enn stendur í gildi, og sem er gengið fram hjá af nefndinni, og þá get eg ekki sèð, að það geti átt við, eða til hvers það er, að taka hèr inn þessar einstöku greinir úr tilskipun frá 1816, en álít það miklu rèttara, að vísa til þeirra, eins og stjórnarfrumvarpið gjörir, þar sem hèr, eins og búið er að taka fram, ekki er nema um einstakar ákvarðanir að gjöra; því það verður, hvort sem er, eins eptir sem áður nauðsynlegt, að leita til eldri lagaboða.

*Jón Guðmundsson*: Eg held, að það sè nú munur á þessari tilvísun nefndarinnar, sem hinn háttvirti löglærði þíngmaður minntist á, þar sem nefndin segir í 12. gr., að það sè skylda bæjarfógetans í Reykjavík, og hvers sýslumanns, sem á að segja yfir löggildum kauptúnum, að sjá um, að utanríkismenn gæti alls þess, sem fyrir er skipað í þessum lögum og svo í hinum íslenzku verzlunarlögum yfir höfuð. Það er nefnilega hverjum manni ljóst, og það þarf eg ekki að segja hinum löglærða konúngkjörna þíngmanni, að þegar maður kemur í annað land, þá er maður skyldur, að lifa eptir þess lands lögum. Þetta er alþekkt grundvallarregla í öllum þjóðrèttum, og það er ekkert annað, sem greinin fer fram á. Þar á móti eru þær greinir úr tilskipun frá 1816, sem nefndin hefur tekið upp, reglur, sem utanríkismaðurinn þarf að vita, *áður en hann fer að heiman*, og eg veit ekki, hvernig hinum löglærða konúngkjörna þíngmanni getur misskilizt þetta; því eptir hans skoðun á þessu þyrfti utanríkismaðurinn að hafa öll landsins lög upp á *fíkkann*.

*Þ. Jónasson*: Nei, ekki þarf hann þess; því hann þarf í mesta lagi að hafa tilskipunina frá 1816 í vasanum, og það er nú allur munurinn. Það var að öðru leyti meiníng mín, að

utanríkis-kaupmaðurinn þyrfti að vita ýmsar lagaákvarðanir viðvíkjandi verzluninni hèr á landi, sem ekki eru teknar fram af nefndinni, og þegar svo er, þótti og þykir mèr tómur óþarfi, að taka þær einstöku reglur, sem nefndin hefur gjört, inn í lagaboð þetta, fyrst hún hefur ekki tekið þær reglur allar, sem kaupmaðurinn útlendi þarf að vita, áður en hann fer að heiman, og það er þó auðvitað, að það er honum umvarðandi, að vita hinar helztu grundvallarákvarðanir viðvíkjandi verzluninni, áður en hann fer á stað heiman að frá sèr.

*Jón Guðmundsson*: Þá þarf hann líka að hafa þær þar.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg skildi nefndarmanninn, sem seinast talaði, þannig, að nefndin hafi tekið það allt inn í álit sitt, sem utanríkis-verzlunarmaðurinn þarf að vita, áður en hann fer að heiman; en eg get ekki sèð, að þetta sè; því hann þarf þó að vita almenn verzlunarlög, og þau eru ekki upplýst hèr, og nefndin sjálf uppáleggur honum, að vita hin íslenzku verzlunarlög, sem hún hefur ekki tekið inn í álit sitt. Mèr fannst líka þingmaðurinn játa því, að utanríkismenn þyrftu að vita þessi hin almennu verzlunarlög, áður þeir fara á stað að heiman.

*Jón Guðmundsson*: Eg hef aldrei sagt það, heldur flýtur það af því, sem hinir tveir lögiærðu konúngkjörnu þingmenn hafa sagt. En eg þarf ekki að segja hinum háttvirtu lögiærðu þíngmönnum það, að eptir þjóðrèttinum eru kaupmenn og aðrir skyldir til, að lifa eptir landsins lögum, og það er regla, sem allir vita. Þetta hefur og stjórnin sjálf sýnt með því, að hún vitnar einmitt í þessar sömu lagagreinir í frumvarpinu, sem nefndin tók inn í álit sitt, og munurinn er því ekki annar en sá, að nefndin vill gefa utanríkis-verzlunarmanninum það með *orðum*, sem stjórnin vill gefa honum með *tölum*.

*Á. Böðvarsson*: Það er betra nokkuð en ekki neitt, þar sem ekki er við því að búast, að utanríkis-kaupmenn eigi hægt með, að fá öll þessa ríkis verzlunarlög, og þó þeir hefðu þau, þá væri þeim óhægra, að leita innan um mikið og sitt í hverju; þess vegna getur þeim þó orðið það að liði, að hafa nokkuð af þeim, einkum þegar það eru nú hinar helztu varúðarreglur, eins og óhætt mun vera að segja, að nefndin hafi tekið upp í álit sitt, og finnast mèr því þessar greinir ómissandi, og ímynda mèr, að framandi menn þakki fyrir, að hafa þær, heldur en kannske ekki neitt.

*Jak. Guðmundsson*: Það er einkum tvennt, sem utanrík-

is-verzlunarmanninum er nauðsyn á að vita, áður en hann fer að heiman; það er, með hvað hann þurfi að búa sig út, svo hann geti verzlað hèr fyrirstöðulaust, og að, þegar hann sè kominn til landsins, þá sè hann undir lögum þess. Það hefur verið sagt, að í 12. gr. í nefndarálitinu væri mótsögn; en það er aðgætandi, að eptir henni þurfa ekki hinir útlendu verzlunarmenn, að vita íslenzk verzlunarlög yfir höfuð, heldur bæjarfógetinn í Reykjavík og sýslumennirnir, til þess að geta einmitt leiðbeint þeim útlendu, og aðvarað þá um, að haga sèr eptir landslögunum.

*Jón Guðmundsson*: Það er og vel aðgætandi, að þegar hinir háttvirtu löglærðu þíngmenn mæla móti þessari aðferð nefndarinnar, þá mæla þeir líka móti aðferð löggjafans sjálfs, sem gaf út tilskipunina frá 1816; því að í 11. gr. er þar bæjarfógetanum í Reykjavík og sýslumönnunum á verzlunarstöðunum gjört það að skyldu, að þeir hafi *einkum* eptirlit á því, að hinir útlendu verzlunarmenn breyti bæði eptir þessari löggjöf, og einnig hinum öðrum lögum, sem gildandi sèu viðvíkjandi hinni íslenzku verzlun. Þetta hefur löggjafanum þá þótt nauðsyn að taka fram, svo aðfinnsla hinna háttvirtu löglærðu þíngmanna á aðferð nefndarinnar lendir raunar öll saman á löggjafanum.

*Þ. Jónasson*: Eg vil biðja hinn heiðraðra þíngmann, að aðgæta mismuninn á milli tilskip. frá 11. sept. 1816 og þess lagaboðs, sem hèr ræðir um, og lesa svo niðurlagið á sömu tilskipun.

*Jón Guðmundsson*: Það sannar ekkert; því það, sem þar stendur, er til engrar upplýsíngar fyrir útlendu kaupmennina. Löggjafinn hefur auðsjáanlega ætlazt til, að í tilskipuninni væri ekki annað, en þær ákvarðanir, sem utanríkismenn þyrftu að vita um það leyti, sem þeir færu að heiman, og þetta er einmitt samkvæmt 11. gr., sem eg tók fram áðan; því þegar þeir eru komnir híngað, verða þeir að haga sèr eptir lögum landsins.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Nefndin hefur þó tekið upp 10. gr. úr tilskipuninni frá 1816, og hana þurfa þó utanríkismenn ekki að vita, áður en þeir fara að heiman; því hún á einúngis hèr við.

*Jón Guðmundsson*: Þetta er eins í tilskipuninni frá 1816, svo þetta gengur einnig út yfir lögjafann, en ekki nefndina.

*Jak. Guðmundsson*: Þó að það, sem 10. gr. til tekur, skei

eptir það, að utanríkis-verzlunarmennirnir eru komnir á stað að heiman, þá er þó nauðsynlegt fyrir þá, að vita af því, áður en þeir fara að heiman, svo að þeir geti verið við því búnir.

*Þ. Jónasson*: Munurinn milli nefndarálitsins og frumvarpsins í því hèr umrædda efni er nú að eins í forminu, og reyndar ekki annar en sá, að eptir frumvarpinu þurfa hinir útlendu menn einnig að þekkja og að hafa með sèr tilskipunina frá 1816, og er þetta í sjálfu sèr ekki stórvægilegt ágreiníngsefni. En vegna þess að nefndarálitið, þó það yrði að lögum, einúngis inniheldur einstakar ákvarðanir um siglíngar og kaupverzlun á Íslandi, og tæmir ekki verzlunarlögin, þá getur það ekki heldur verið hinum útlendu verzlunarmönnum einhlítt eða nóg, og þess vegna þykir mèr ekki eiga við, að taka hinar umtöluðu greinir upp í það, og rèttast, að vísa til þeirra, eins og stjórnarfrumvarpið gjörir.

*Framsögumaður*: Munurinn er þó æfinlega sá, að nefndin hefur tekið greinirnar, og breytt þeim eptir því, sem stjórnin sjálf hefur bent til, en í frumvarpinu er ekki gjört nema vitnað til greinanna í tilskipuninni frá 1816, og getur það orðið til þess, að villa hina útlendu menn; því þeir ímynda sèr þá líklega, að hún sè orðrètt gildandi hèr á landi, og getur þá tilskipun þessi, sem þeir hafa í vasanum, leitt þá í villu, t. a. m. um það, hverju treysta megi um gjaldið. Eg játa það að sönnu, að það kunni að vera galli á nefndarálitinu, að það tekur ekki út fyrir allar æsar, en eg held þó, að ógreinilegleikinn verði meiri eptir frumvarpinu. Það væri mjög æskilegt, að fá almenn verzlunarlög fyrir Ísland, en menn gátu ekki búizt við, að nefndin færðist það í fáng; því hvorki var það ætlunarverk hennar, nè heldur hafði hún tíma til þess. Nefndin hefur einúngis byggt á grundvallarreglum stjórnarinnar, og lagað frumvarpið samkvæmt þeim.

*S. Gunnarsson*: Þar eð nú er verið að tala um, hvort betur fari, að taka nokkrar greinir, sem við eiga, úr eldri lögum upp í nýtt lagaboð, eins og nefndarálitið gjörir, eða setja þar tölur, sem vitni til eldri laga, eins og er í konúngsfrumvarpinu, og þó með breytíngum, þá vil eg minnast á almennt álit manna í sveitum, þar sem eg þekki, um þess háttar. Eg hef heyrt þess getið, að virðíngu manna fyrir helgi laganna væri heldur hnignað, og eg held það sè satt, og fullar orsakir

til þess. Síðan hin útlendu lögin fóru að verða almenn hèr í landi, sjá menn, hversu ólík þau eru hinum eldri. Hinum eldri var safnað í lögbækur og þíngbækur, og þau voru hvert lögmál fyrir sig í heilu lagi. Nú hafa lög um lánga stund verið í lopaspottum, aldrei söfnuð í heild; sum hafa boðið hvert ofan í annað, hin seinni vitnað í hin fyrri og gjört á ýmsar breytíngar. Öll þessi aðferð, og þá auglýsíngarhátturinn, hefur fremur verið til að æra almenníng en fræða. Mèr finnst því ekki kyn, þó ólöglærðum mönnum sè illa við öll lagaboð, sem hvorki eru hálf nè heil, sem mikill hluti af er tölur, sem vitna til ýmsra lagaboða, sem hafa annaðhvort aldrei verið birt hèr á landi, eða fyrir laungu, svo menn eru búnir að gleyma. Mönnum kemur það svo illa, að þurfa að vera að leita í mörgum lagaboðum, og það því heldur, sem hèr er ekkert safn til á okkar máli af nýjum lögum, sem gilda hèr á landi; væri það til, kynnu menn að geta fengið það keypt eða að láni. Þetta veit eg hefur vakið mikla óánægju með löggjöfina, og það er almenn laungun landsmanna, að sjá öll landslög sín færð saman í eitt. Það kemur sèr því lángt um betur fyrir almenníng, að taka greinir, sem við eiga, úr eldri lögum inn í ný lagaboð, en að vitna til þeirra, og þess vegna verð eg að mæla fram með því, að það sèu teknar svo margar ákvarðanir úr hinum eldri verzlunarlögum inn í nefndarálitið, sem vel getur átt við; því menn eru orðnir svo leiðir á þessum lagainnvitnunum.

*Forseti*: Með því að enginn tekur til máls framar, þá skal eg biðja þíngmenn, að greiða atkvæði um 6. viðaukagrein nefndarinnar.

Gengu menn þá til atkvæða, og var þá greinin samþykkt með 35 atkvæðum gegn 6.

Því næst tók forseti 7. viðaukagrein nefndarinnar til umræðu.

*K. Kristjánsson*: Breytíngaratkvæði það, sem eg hef borið upp við þessa viðaukagrein nefndarinnar, er raunar byggt á nokkru, sem nú er fallið um koll við atkvæðagreiðslu þíngsins í gær, en það er mismunurinn á gjaldinu á utan- og innanríkisskipum. Eg gat þá ekki ímyndað mèr annað, en að það gæti orðið nokkur trygging í því hèr, þar sem engin tollumsjón er, að utanríkismenn væru skyldaðir til, að sanna vöruskrár sínar með eiði, og eg sè ekki betur, en að það geti orðið

full nauðsyn á þessari tryggíngu. Eg set nú svo, að híngað kæmi Norðmaður með timburfarm að nokkru leyti, sem ætti að vera gjaldfrí eptir atkvæðagreiðslunni, en hefði líka í skipi sínu aðrar vörur, sem ekki væru gjaldfríar; og væri þá nauðsyn, að hann hefði þá vöruskrá, sem hann gæti staðfest með eiði, ef þess yrði krafizt. Eg get líka ímyndað mèr, að híngað kæmi utanríkis-kaupmaður með farm, sem hann ætti sjálfur, en gjörði þann samníng við einhvern kaupmann, að farmurinn gengi undir hans nafni, og þeir skyldu síðan skipta hagnaðinum milli sín. Eptir frumvarpinu áleit eg það nauðsynlegt, að geta krafizt eiðsins, til þess að fyrirbyggja önnur eins svik og þessi. Af þessum ástæðum hef eg borið upp breytíngaratkvæðið, og fel eg það nú til meðferðar þíngsins, en játa um leið, að það nú eptir atkvæðagreiðslunni á ekki við, nema þegar í sama skipi er flutt timbur og annar farmur.

*J. Skaptason*: Mèr mun nú standa það næst, að gángast við faðerni þess breytíngaratkvæðis, sem hèr er undir 41. staflið á atkvæðalistanum. Það kann raunar að virðast svo í fljótu áliti, eins og að mèr og nefndinni beri lítið á milli, og einkum þar eð hún hefur fallizt á sumt í breytíngaratkvæði mínu. En ei að síður er þó munurinn talsverður milli mín og nefndarinnar. Breytíngaratkvæði mitt er byggt á þeirri skoðun, að hvert skip verði að hafa heilbrigðisskírteini, hvaðan sem það kemur; því mèr þykir dönsk bóla eða danskir mislíngar ekkert betri en útlendir. Þar að auki fannst mèr orðaskipunin hjá nefndinni óregluleg, jafnvel þó eg viti, að þau eru tekin úr 4. gr. í tilskip. frá 11. sept. 1816, en nefndin hefur ekki lesið vel ofan í kjölinn; því þar stendur: „einkum mislíngar eða bóla". En eptir því sem nefndin hefur orðað það, er eins og hún álíti ekki aðrar sóttir næmar, en mislínga eða bólu, ellegar hún álíti mislínga og bólu þá einustu næmu sjúkdóma.

*Framsögumaður*: Þetta er víst einhver misskilníngur fyrir þíngmanninum; því nefndin hefur fallizt á hin auðkenndu orð í breytíngaratkvæðinu.

*J. Skaptason*: Þá skal eg ekki tala meira um það, fyrst svo er. Þar sem eg hef stúngið upp á því, að setja „verzlunarfarm", þar hefur nefndin stúngið upp á, að hafa „til verzlunar", þá hef eg gjört þetta af því, að mèr þótti það vera greinilegra. Eg get ímyndað mèr, að einhver kaupmaður væri staddur í Frakklandi eða Englandi, eða í einhverju öðru landi,

og leigði sèr þar skip, til að flytja híngað farm, er hann hefði keypt þar eða annarstaðar, og færi svo þetta skip, þegar það væri búið að afferma, annaðhvort út á fiskiveiðar, ellegar leigði sig til flutnínga, þá getur að mínu áliti ekki sagzt, að þetta skip fari til *verzlunar*. Sama er að segja um það, ef hann lèti þetta eða annað skip fara híngað tómt, til þess að sækja farm, þá gæti maður ekki kallað, að þetta skip færi til *verzlunar*, og þó ætti það að hafa vöruskrá. Eg ætla nú að biðja nefndina, að taka þetta til yfirvegunar.

*Framsögumaður*: Eg fyrir mitt leyti verð nú að játa, að það er nokkur misskilníngur í þessu, og eg sè ekki, að orðaskipun hins virðulega þíngmanns sè betri eða glöggvari en nefndarinnar. Það er sama, hvort sagt er, *að flytja verzlunarfarma*, eða *að sigla til Íslands til verzlunar*. Það getur hæglega að borið, að eitthvert skip komi híngað, og sú skipun, að ekkert skip mætti koma híngað án leiðarbrèfs vegna sóttnæmis, væri óþörf, vegna þess að hún yrði ekki haldin; en sú orðabreytíng, sem nefndin hefur farið fram á undir tölulið 42, er til þess, að varna misskilníngi.

*J. Skaptason*: Hinn háttvirti framsögumaður hefur, að eg held, ekki skilið orð mín rètt. Eg talaði einúngis um vöruskrá, en ekki leiðarbrèf; því um þau er búið að tala nægilega mikið áður.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg held nú, að það geti allt eins komið sóttir inn í landið með vörulausum skipum og hlöðnum, og það þurfi því að hafa sömu sóttvarnavarúð við þau og hin.

*Jak. Guðmundsson*: Eg vildi leyfa mèr að spyrja hinn 1. fulltrúa úr Reykjavík, hvort hann ætlist til, að breytíngaratkvæði sitt komi í stað allrar greinarinnar, eða einúngis í staðinn fyrir upphaf hennar.

*K. Kristjánsson*: Eg ætlaðist einúngis til, að það kæmi í staðinn fyrir upphafið á greininni.

*Framsögumaður*: Það er þó borið eins upp, og það ætti að koma í staðinn fyrir alla greinina, eg ef það verður samþykkt, þá fellur öll greinin burtu.

*K. Kristjánsson:* Það getur nú verið, en breytíngaratkvæðið miðar til þess, eins og eg hef áður sagt, að hafa einhverja tryggíngu fyrir vöruskránni, svo að menn geti síður haft undanbrögð eða svik í frammi.

*Jak. Guðmundsson*: Eg hefði aðhyllzt breytíngaratkvæðið,

ef það hefði verið ætlað í staðinn fyrir fyrri hluta greinarinnar, svo hún hefði orðið þannig orðuð: „Hver sá, sem flytur farma til landsins, skal hafa vöruskrá, sem skýri frá öllum tegundum farms hans, þannig samda, að hann bjóðist til, að staðfesta hana með eiði, ef krafizt verður, og fullgild skilríki“, o. s. frv.

*K. Kristjánsson*: Eg ætlaðist líka til þess, að greinin skyldi verða svona orðuð, en það getur verið, að það hafi orðið einhver ruglíngur á því á atkvæðalistanum hjá mèr.

*Forseti*: Eg hef atkvæðalista þíngmannsins hèrna hjá mèr, og eptir honum er breytíngaratkvæðið rètt prentað.

*Framsögumaður*: Eg sè ekki, að það sè neitt gagn í því, að heimta þennan eið; hann er eingúngis sönnun fyrir því, hvort farmurinn er rètt ritaður á varníngsskrána; en meðan farmurinn er álögulaus, þá er tilgángslaust, að segja rángt til hans, og þess vegna er þessi ákvörðun óþörf.

*K. Kristjánsson*: Það er að vísu satt, að timburfarmar eru undan þegnir undan gjaldinu, en þegar aðrar vörur eru líka í skipinu en timbur, þá á að gjalda af þeim, og þá væri kannske ekki tilgángslaust, að segja rángt til farmsins.

*Jón Guðmundsson*: Þetta er misskilníngur þíngmannsins úr Reykjavík; því breytíngaratkvæðið talar um þau skip, sem flytja *eingaungu* timburfarma.

*K. Kristjánsson*: Eg fell þá frá breytíngaratkvæðinu; því satt að segja hef eg ekki tekið eptir þessu. En mundi þetta nú ekki geta lagazt við það, þegar nefndaruppástúngan verður nú hreinskrifuð aptur? Eg vil fyrir mitt leyti ekki geta þess til, að nefndin sè svo ónærgætin, að hún undan skilji ekki nema heila farma af timbri.

*Jón Guðmundsson*: Nefndin getur ekki breytt því, en þíngið getur sjálft gjört það við þriðju umræðu.

*G. Einarsson*: Eg ætla þá að taka að mèr breytíngaratkvæði þíngmannsins, og geyma mèr það til þriðju umræðu.

*Forseti*: Með því að enginn tekur nú til máls, þá bið eg þíngmenn nú, að gánga til atkvæða um 7. viðaukagrein nefndarinnar og breytíngaratkvæði þau, sem við hana eiga; en með því að 40. töluliður er aptur tekinn og geymdur til þriðju umræðu, þá er fyrst að gefa atkvæði um 41. tölulið, og skal eg geta þess, að eg álít, að orðin með breytta letrinu í miðju breytíngaratkvæðinu, sem nefndin hefur samþykkt, og ekki er annað en orðabreytíng, þurfi ekki að koma til atkvæða.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Má ekki taka atkvæði um 42. tölulið fyrst?

*P. Melsteð*: Þó að nefndin hafi fallizt á orðabreytínguna, verður samt munur á breytíngaratkvæðinu og grein nefndarinnar; því í breytíngaratkvæðinu stendur: „Hver sá", o. s. frv., en nefndin segir: „Hver sá utanríkismaður", og með því eru þá Danir undan skildir. Nú geta þeir allt að einu eins og utanríkismenn flutt sóttir híngað til lands, og því þykir mèr betur eiga við, að lagaboðið nái einnig yfir þá; það tryggir landið betur.

*Jón Guðmundsson*: Mikið rètt!

*P. Pètursson*: Eg vildi leyfa mèr að leita upplýsíngar um, hvort þau skip, sem ekki hafa farma, en ætla þó híngað til verzlunar, eigi eptir breytíngaratkvæði þíngmannsins úr Húnavatnssýslu að hafa þessi skilríki (*J. Skaptasson*: Jú, sjálfsagt); því mèr virðist nauðsynlegt, að öll skip, sem híngað koma til verzlunar, hafi þessi skilríki, hvort sem þau koma hlaðin eða tóm. En sè þetta svo, þá er það nákvæmar til tekið í nefndarálitinu, en í því breytíngaratkvæði, sem hèr ræðir um.

*Forseti*: Eg skal þá leyfa mèr að lesa upp breytíngaratkvæðið eins og mèr skilst það eigi að vera orðað við grein nefndarinnar.

*J. Skaptasson*: Mèr finnst nú enginn verulegur munur orðinn á grein nefndarinnar og breytíngaratkvæðinu, svo eg ætla að taka það aptur.

*P. Melsteð*: Eg held það sè þó verulegur munur á þeim, og vil eg því taka breytíngaratkvæðið að mèr.

*P. Pètursson*: Eptir nefndarálitinu er það óákveðið, hvort skipin hafi farma eða ekki, en breytíngaratkvæðið talar ekki nema um þau skip, sem hafi verzlunarfarma, svo að eg verð að álíta landinu að einu leyti miður borgið eptir breytíngaratkvæðinu.

*Forseti*: Óskar þá þíngmaðurinn, að breytíngaratkvæðið sè nú þegar borið undir atkvæði?

*P. Melsteð*: Ónei.

*Forseti*: Eg ætla þá að biðja þíngmenn, að gánga til atkvæða um 42. tölulið á atkvæðalistanum.

*P. Pètursson*: Áður en atkvæða er leitað um 43. tölulið, vil eg leyfa mèr að spyrja nefndina, hvað þar er meint með:

„*þar sem skipið fer frá*"; því undir skilníngi þess er það komið, hvort eg get fallizt á greinina. Ef það er meintur sá staður, sem skipið fer fyrst frá, þá finnst mèr það ekki vera nógu greinilega orðað eða nógu tryggjandi; því það getur svo víða komið við á leiðinni. Sama er að segja, ef það er meintur sá staður, sem það fer seinast frá, þá þykir mèr það ekki heldur nógu tryggjandi.

*Framsögumaður*: Mèr þykir það ósiður, sem hafður er við atkvæðagreiðsluna á þessari grein, að vera að tala um efnið sjálft, eptir það að forseti hefur kvatt menn til, að greiða atkvæði. Samt sem áður vil eg þó svara hinum 5. konúngkjörna þíngmanni því, að viðaukagrein nefndarinnar undir töluliðnum 43 sýnir það berlega sjálf, að þar er meintur sá staður, sem skipið ætlar frá með farminn; það sýna orðin, sem síðar standa í greininni, að verzlunarfulltrúinn skuli rita á skírteinin; enda væri hitt líka ómögulegt, að hafa skilríki frá hverjum stað, sem það kæmi kannske við á leiðinni.

*Forseti*: Eg verð að vera á sama máli og framsögumaður í því, að það sè á móti þíngsköpunum og góðri reglu, að fara að tala um efnið, þegar búið er að kveðja menn til atkvæða; og vil eg biðja þíngmenn, að gæta þess hèr eptir, að gjöra þær athugasemdir við efnið, sem þeir ætla sèr, áður en atkvæðagreiðslan byrjar; því eg ætla ekki að leyfa hitt eptirleiðis.

Síðan var gengið til atkvæða um 42. tölulið, og var hann samþykktur í einu hljóði.

Þar næst var gengið til atkvæða um viðaukagrein nefndarinnar með þeim breytíngum og orðabreytíngum, sem þegar voru samþykktar við hana áður, og var hún samþykkt með 39 atkvæðum gegn 3.

Síðan var 8. viðaukagrein nefndarinnar tekin til umræðu.

*Þ. Jónasson*: Mèr skilst ekki betur, en að það sè öldúngis tilgángslaust, að láta lækninn, eins og hèr er stúngið upp á, skrifa með sýslumanninum á heilbrigðisskírteinin, en það fullkomlega nægja, sem ákveðið er í nefndarálitinu; því það sjá þó allir, að þessi tilhögun gefur engu meiri vissu fyrir því, að næmar sóttir ekki komist hèr inn eins eptir og áður; þetta yrði þar að auki, ef til vill, opt bundið töluverðum umsvifum og kostnaði, þegar læknirinn er í fjarlægð, sem opt getur að borið, og, eins og nú hagar til með læknaskipunina, hlýtur að

eiga sèr stað; og eg hlýt því að mótmæla því, að þetta breytíngaratkvæði komi til nokkurra greina.

*J. Skaptason*: Það getur nú verið, að sumt sè hèrna orðamismunur, og það finnst mèr ekki standa á miklu, en eg setti hèr þetta breytíngaratkvæði af því, að lögreglustjórinn kann opt að vera lángt í burtu, og er ekki þá hægt að sýna honum skírteinin, jafnskjótt og skipið hefur hafnað sig, eptir því sem nefndin kveður að orði; en þegar skipherrann ekki tefur við, að fullnægja skyldu sinni með því, að senda til lögreglustjórans, þegar hann ekki býr í kaupstaðnum, virðist mèr hann vera vítalaus. Eg álít mjög nauðsynlegt, að læknirinn sè þar við höndina, og undrast eg, að nokkur álíti, að nægilega sè sèð fyrir því, að ekki sè sótt í skipinu, einúngis með því, ef sýslumanninum eru sýnd heilbrigðisskírteinin; því það getur þó vel að borið, að sótt hafi komið upp í skipinu, meðan það var á leiðinni. Og þó nú sýslumaðurinn verði var við sjúkdóma í skipinu, þá er öldúngis ekki víst, að hann geti sèð, hvaða sjúkdómar það eru; það er ekki sagt, að hann þekki pètursbólu frá almennri bólu, ekki *franzós* frá kláða. Þess vegna álít eg nauðsynlegt, að læknir sè við höndina. En nú á eg von á, að eg hafi komið við kýlið, með að til taka átta skildínga fyrir hverja lest. Mikil ósköp! Það er von, að menn þurfi að krossa sig og lesa *Ave Maria* og *pater noster*. Öll ósköpin eru þessi, að þegar talað er um 40 lesta skip, fær læknirinn fyrir starfa sinn 3 rbdd. 32 skk., og þegar læknirinn þarf að ómaka sig þíngmannaleið eða meira, getur þá nokkrum ægt þessi borgun. Eg get ekki álitið nein sèrleg vandkvæði við það, að læknirinn, þegar hann býr lángt í burtu, geti á litlum tíma og með litlum tilkostnaði kennt einhverjum greindum manni á verzlunarstaðnum eða þar í grennd, að þekkja þá sjúkdóma, er hættast væri við að útlend skip kynnu að færa inn í landið, og gæti svo viðkomandi læknir eptir þessari tilhögun fengið strax að vita um sjúkdóminn. Mèr fannst nauðsynlegt, að læknirinn hafi hèr hönd í tafli með; því annars álít eg ekki lagaboðið vera tryggt; því það er ekki lítið, sem um er að tefla, þegar fleiri hundruð manna líf er á hættu.

*H. Stephensen*: Það fer illa, að þíngmaðurinn ekki tók þetta öðruvísi fram, en að læknarnir skulu rita á skírteinin. Mèr finnst engin trygging gefin með þessari breytíngu, og engin vissa um, að menn geti fengið að vita, hvort sjúkdómar eru í skipinu eða ei, og því þykir mèr átta skildíngar af lest

hverri allt of hátt gjald fyrir það, sem ekkert er; því eg vil ekki gefa hálfan skildíng fyrir það. Eg skil ekki heldur, hver ætti að vera umboðsmaður sá, sem læknirinn setur í sinn stað. Hèr eru svo fáir læknar, að það er víst, að læknir mundi það á fæstum stöðum verða, sem gefa ætti þá gætur að sjúkdómunum, og maður fengi ekki til þess aðra, en þá umsjónarmenn, sem læknarnir setja, og sem optast nær munu í því tilliti verða óáreiðanlegir menn, af því þeir bera ekki skynbragð á hlutinn.

*J. Skaptason*: Mèr var borið á brýn, að sú skipun á læknatilsjón með tilliti til verzlunarinnar, sem eg vildi með mínu breytíngaratkvæði, væri ekki nógu nákvæmlega tekin fram, og eg viðurkenni það, að svo kann að vera; en eg vil biðja skynsama menn að hugleiða, hvort ekki sè rèttara, að læknar sèu hafðir við höndina í slíkum tilfellum, heldur en sýslumaður eingaungu; því þegar læknirinn er til staðar, eður annar maður fyrir hans hönd, þá bæði getur hann vitað, og lætur sèr líka annara um að vita, hvort sjúkdómur sè meðal skipverja. Það er þá líka meiri hvöt fyrir skipsmenn, að leita hans, heldur en ef hann væri fjærverandi. En þar sem nefndarmaðurinn sagði, að umsjónarmenn þeir, sem læknarnir setja í sinn stað, yrðu óáreiðanlegir menn, þá verð eg að svara honum því, að eg ætlast til, að þeir sèu svo undir búnir, að þeir að minnsta kosti þekki sjúkdómana; því þar með er strax mikið fengið.

*H. Stephensen*: Því er miður, að það stendur ekki í uppástúngunni, sem nú er tekið fram; en mèr virðist, sem umboðsmaðurinn samt ekki geti gegnt læknisskyldum; því það er auðvitað, að til hans mundi verða vitjað frá skipunum í mörgum sjúkdómstilfellum, eins og hann væri reglulegur læknir, og þá hrökkur hann ekki til; enda eru þeir sjúkdómar, sem næmir og háskalegir eru, sem menn af skammfeilni dylja í lengstu lög, jafnvel fyrir sjálfum lækninum, og geta þeir dreifzt út, þó læknirinn komi sjálfur, riti á skírteinin, og sjái skipmenn.

*J. Skaptason*: Eg vildi spyrja, hvort ekkert sè unnið við þá sóttvarnatryggíngu, er eg hef bent á, meðan ekki verður öðru við komið, eður hvort sá svo nefndi umboðsmaður læknisins ekki veiti neina tryggíngu, þegar ekki verður strax náð í lækninn, hvort menn væru nokkru nær, þó að læknirinn væri á staðnum, ef menn ekki ná í hann samt, heldur en að umboðsmaður verði settur. Það stendur þó

í stjórnarfrumvarpinu, að læknar sèu álitnir nauðsynlegir hèr í þess konar sökum, og eg hef ekki gjört annað, en haldið stefnu stjórnarfrumvarpsins, en eg viðurkenni, að eg hef ekki gengið nógu lángt í greininni.

*H. Stephensen*: Eg svara því, að menn sèu jafnnær, nema ef læknirinn kemur; en það er ekki til tekið í greininni, að hann komi, og eptir minni sannfæríngu er engin trygging í þessari uppástúngu.

*J. Skaptason*: Það er þó aðgæzluvert, að læknarnir eru ekki til, nema á sumum stöðum, og mèr finnst með þessari athugasemd vera vikið á það, sem stjórnin álítur nauðsynlegt; en með eintómum heilbrigðisskírteinum er ekkert unnið, ef læknarnir eru á annað borð, og ekki, hvort sem þeir eru eða ei.

*Jak. Guðmundsson*: Það eru einkanlega tvö atriði, sem mèr finnst menn verði að greina í uppástúngu þíngmannsins. Hið fyrra er það, að skipverjar þurfi að sýna heilbrigðisskírteini tveimur, ekki að eins lögreglustjóra, heldur og einnig lækninum; en skírteini þessi eru einasta sönnun fyrir því, að sjúkdómar hafi ekki verið þar, hvaðan skipið fór, eða meðal skipverja, þegar skipið fór á stað, og eg ætla því, að sýslumaður eða lögreglustjóri sè einfær um, að rita á þessi skírteini; en hitt atriðið, sem þíngmaðurinn mun einkum hafa meint til með uppástúngu sinni, finnst mèr ekki heldur ómerkilegt, nefnilega það, að sjúkdómar geti komið upp á leiðinni, og því gæti læknisrannsókn, ef til vill, líka verið nauðsynleg; en mèr getur ekki fundizt annað, en að menn þurfi nýrrar uppástúngu, ef þessu atriði ætti að verða framgengt; því menn komast ekki nær efninu með því, að tala lengur um breytíngaratkvæðið, eins og það er nú orðað; en eg er heldur meðmæltur þessari læknisrannsókn, og vil eg því, að uppástúngumaður tali sig saman við þíngmenn um hana, svo menn gætu þá orðið samhentir í því, að breyta uppástúngunni eptir því, sem bezt þætti fara.

*K. Kristjánsson*: Eg vil minna á það, að 42. breytíngaratkvæði er fallið, af því það stóð í sambandi við það, sem er næst á undan, og kemur því ei til umræðu.

*Jón Guðmundsson*: Eg óska, að það komi ekki önnur eins legíó af breytíngaratkvæðum við þriðju umræðu, og nú eru; því það sjá allir, hvað með þeim er unnið; en eg vildi einúngis geta þess, að eg held, að það sè skylda eptir sóttvarna-

lögunum, að lögreglustjórinn leiti læknisins, og álít eg, að það þurfi engra breytíngaratkvæða.

*P. Pètursson*: Eptir þeirri ræðu, sem þíngmaður Skaptfellínga hèlt í gær, skildist mèr ekki betur, en að það væri fullkomlegleiki við nefndarálitið, að svo mörg breytíngaratkvæði voru gjörð við það, og get eg þá ekki sèð neitt bagalegt í því, þó nokkur breytíngaratkvæði kæmu enn fram við þriðju umræðu; því eptir skoðun þíngmannsins yrði það, til að sýna mönnum enn betur ofan á þá kosti, sem nefndarálitið hefur til að bera.

*Jón Guðmundsson*: Sú meiníng lá öldúngis ekki í minni ræðu, en eg sagði, að önnur ályktun lægi beinna við, og það er einmitt ófullkomlegleiki þíngmanna, að sjá ekki það.

*J. Skaptason*: Eg veit, að það er viðurkennt alstaðar, þar sem regluleg sóttvarnatilhögun er, að allt sè ónýtt, nema læknar sèu hafðir við; því það er auðvitað, að aðrir geta ekki þekkt sjúkdómana. Að nafninu til eru sóttvarnanefndir við hvert kauptún hèr á landi; en trúir nokkur því, að þeim sè að borgnara fyrir næmum sjúkdómum, nema þegar læknirinn er í sóttvarnanefndinni?

*H. Stephensen*: Eg vil nú hèðan af gjöra fáar athugasemdir við breytíngaratkvæði þíngmannsins; en mèr finnst liggja mótsögn í ræðum hans; því áður gjörði hann ráð fyrir, að læknar væru víða, en nú verða þeir svo fáir hjá honum, að það er mesta læknisleysi, sem hann talar um.

*J. Skaptason*: Eg talaði ekkert um læknisleysi, heldur um það, að þekkja sjúkdómana.

*G. Brandsson*: Með því þíngmaðurinn úr Húnavatnssýslu lèt mjög fjölyrt um í einni ræðu sinni, að það mundi standa breytíngaratkvæði hans í vegi, þar sem það gjörði ráð fyrir 8 skildínga borguninni af lestarrúmi hverju til læknisins fyrir starfa þann, sem það legði honum á herðar, nefnilega að rita á heilbrigðisskírteini útanríkismanna, þá verð eg að geta þess, að mèr þótti hann spá því nógu snemma, meðan honum gafst engin átylla til þess af ræðum þíngmanna. Að öðru leyti munu það fáir, ef vel er að gáð, sem ekki vilja greiða annað eins gjald og þetta, og þó meira væri, þar sem þeir sjá, að því er vel varið, og í þakklátan akur sáð.

Síðan var gengið til atkvæða um 8. gr., og fór atkvæðagreiðslan fram á þessa leið:

44. breytíngaratkvæði var fellt með 40 atkvæðum gegn 2; 45. var fallið áður; 46. var samþykkt með 37 atkvæðum gegn 5, og 47. var þá álitið samþykkt með breytíngu þeirri, er varð á því við atkvæðagreiðslu næsta töluliðs á undan.

Síðan var 9. viðaukagrein tekin til umræðu.

*J. Skaptason*: Eg vildi segja dálítið um breytíngaratkvæði þetta, nefnilega það, að eg álít, að þegar kaupmennirnir eru á skipi sínu, þá álít eg þá vera á sínu eigin sviði *(territorio)*, en þegar þeir eru í landi, þá álít eg þá vera á voru svæði. Sá lýður, sem kann að koma hèr, er mjög misjafn, og úti á skipum er miklu hægra, að hafa brögð í frammi. Menn kynnu nú að hafa á móti þessu af því, að örðugra sè fyrir þá, að verzla á landi, en þá skaðar það ekki föstu kaupmennina. En aptur kunna aðrir að hafa það á móti breytíngaratkvæði mínu, að það skaði föstu kaupmennina, ef þeir mega verzla í tjöldum; en eg hef slegið varnagla með því, að ákveða, að lögreglumenn skyldu hasla þeim völl. Eg byggi þetta á reynslunni. Eg veit það, að á Skagaströnd er opt ómögulegt, að komast fram í skip fyrir sjóróti, og ómögulegt, að vega vörur, af sömu orsökum. Það er líka ómögulegt fyrir margan, sem ekki þolir sjó, að færa sèr í nyt verzlun þessa, þegar þeir veikjast strax, sem þeir koma um borð. Þegar margt fólk safnast á svo lítinn stað ásamt vörum þeim, er menn hafa meðferðis, verður því nær ómögulegt, að athafna sig. Þess utan vita allir, sem það hafa reynt, hversu loptið er óþægilegt í því líkum þrengslum, þegar heitt er í veðri; en eg vildi taka fram, að Danir einúngis mættu það; því eg er síður hræddur um, að þeir gjöri óskunda en útlendir menn.

*H. Stephensen*: Mèr finnst vera æði-margt á móti breytíngaratkvæði þíngmannsins. Eg get ekki sèð, að það, sem hann bar fyrst fyrir, að menn þættust fremur verzla á sínu svæði, þó þeir verzluðu á sjó, en á landi, sè á neinu byggt; því auðvitað er, að lögin ná lengra, en fram í landsteinana; en það er auðsèð, að þetta yrði til mikils óhagnaðar fyrir fastakaupmenn, sem nefndin vildi ei að þeir biðu; og verði farið eptir nefndarálitinu, þá hafa föstu verzlunarmennirnir forkaupsrèttinn, en aptur á mót, ef lausakaupmenn mega verzla í tjöldum, þá hafa hann allir jafnt. En það skil eg eigi, sem þíngmaðurinn sagði, að það standi á nokkru, hvar lögreglustjórinn haslar þeim völl; því það getur víst aldrei orðið að tjóni fyrir

fastakaupmanninn, nema ef tjaldið stæði rètt fyrir búðardyrunum; en að það geti valdið nokkrum hagnaði fyrir hann, get eg ekki heldur skilið; því landsmenn telja ekki eptir sèr nokkurra faðma veg, og þá gildir einu, undir hverjum búðarveggnum þeir verzla við lausakaupmenn. En þar sem þíngmaðurinn gat þess, að bágt væri, að vega á sjó, held eg eigi þurfi að óttast það; en að það verði þraungt frammi á skipi, get eg vel skilið, og getur það líka borið að við tjaldið. Allir sjá, að utanríkismönnum er þraungvað, þegar landsmenn mega ekki verzla við þá nema á landi, og allir sjá, hvað það kostar, að flytja vörur af skipi og á skip; en við þennan kostnað eru þeir lausir, ef þeir verzla á sjó. En, þar sem þíngmaðurinn sagði, að dönskum lausakaupmönnum skyldi einúngis vera leyft, en ei gjört að skyldu, að verzla í tjöldum, þá skil eg ekki, að menn sèu vissari um rètta vog hjá þeim, en öðrum kaupmönnum. Utanríkis-lausakaupmenn eiga að verzla við föstu kaupmennina á sjó; þá lýtur svo út, sem ekki eigi að hirða um rètta vog, en eg vil, að þeirra í millum sèu einnig rètt skipti, og get eg ekki fallizt á eina einustu klausu í breytíngaratkvæðinu.

*J. Skaptason*: Eg hef tekið fram ástæður mínar fyrir því, hvers vegna eg vildi, að utanríkismenn verzluðu í tjöldum, og þarf eg þess því ekki nú aptur; en engan veginn fæ eg sèð, að það standi á sama, eins og fulltrúi Borgfirðínga sagði, hvar tjöldin væru sett; því auðsjáanlega getur það orðið fasta verzlunarmanninum til meiri skaða, ef tjöld lausakaupmannsins standa þeim megin við verzlunarstað hans, sem flesta landsmenn ber að. En að það sè kostnaður og fyrirhöfn, að flytja vörur af skipi í tjöld, neita eg að sönnu ekki, en það er spursmálið, hvort það er meiri fyrirhöfn en sú, er lausakaupmenn nú hafa; þeir hafa þó segl, rár og annað, til að tjalda með; þeir þurfa líka iðulega í land, til að sækja fólk og vörur, og að flytja hið sama í land aptur; svo þarf það ekki heldur að kosta mikið, að slá saman kassa úr borðum fyrir rúg eða kornvöru, og láta standa í tjöldunum.

*H. Stephensen*: Eg verð að vera á sömu meiníngu og áður, að það standi á sama, hvar tjöldin standa; því eg þekki heldur engan kaupstað svo stóran, að menn geti ekki strax fengið að vita, hvar þau standa; það mun heldur aldrei nema svo laungum vegi, að landsmenn telji eptir sèr, að reka fram

hjá búðinni til lausa-kaupmannsins. Þar sem þíngmaðurinn gat þess, að það kostaði ekki mikið, að slá upp tjöldum og saman kornkassa, þá verð eg að játa, að það var kostnaðarauki, sem mèr kom ekki til hugar, og vil eg því að ráðum uppástúngumanns taka hann inn í reiknínginn með.

*J. Skaptason*: Það lítur svo út, sem fulltrúi Borgfirðínga sè ekki víðreistur hèr á landi. Eg þekki marga staði, hvar svo er háttað, að fasta verzlunarmanninum stendur ekki á sama, hvar tjöld lausakaupmannsins standa. Eg tek til dæmis Hólanes, að það varð mikið umtal um það, hvar sá kaupstaður ætti að standa, þegar hann var byggður hèrna um árið; því það var auðsjáanlega í óhag fyrir þann þáverandi Skagastrandarkaupstað, ef sá nýi verzlunarstaður væri settur þar, sem hann nú stendur; því hann liggur fyrir flestöllum lestum, og getur opt svo að borið, að verzlunarmenn lokki menn á tal við sig, þegar þeir fara fram hjá búðarveggnum, og fari að semja við þá; hef eg reynsluna fyrir því, að það verður opt úr því fullkominn kaupsamníngur.

*H. Stephensen*: Eg kannast við það, að eg hef ekki víða farið, en það verð eg að halda, að landsmenn meti meira skildínginn, en að fara nokkra faðma; en hins vegar neita eg því ekki, að þegar verðlag er fast ákveðið, þá fær sá heldur lestirnar, sem fyrir situr; en eigi utanríkismenn að verzla, þá munu þeir bjóða betri kjör, en innanríkismenn, þegar þeir eiga að keppa við þá um verzlunina, og þá kemur að því, sem eg sagði áður, að landsmenn kjósa heldur að fara til þess, sem betur býður.

*Ó. E. Johnsen*: Þá athugasemd vil eg gjöra við breytíngaratkvæði þíngmannsins úr Húnaþíngi, þar sem hann sagði í ræðu sinni, að lögreglustjórinn ætti að hasla utanríkismönnum völl á hagkvæmum stað fyrir fastakaupmenn, þá mætti virðast bezt, að utanríkis-lausakaupmönnum, sem verzla í Reykjavík, væri haslaður völlur uppi á Esjunni, ef gjöra ætti í hag fastakaupmönnum hèr, og eins, ef hasla ætti hagkvæman stað fyrir fastakaupmenn á Skagaströnd, að gjöra það uppi á Tindastól, og það kalla eg ekki að hlynna að utanríkisverzlun.

*J. Skaptason*: Þetta er svo fjarstætt öllu lagi, að eg vil ekki svara því.

*Jak. Guðmundsson*: Það er í einni grein, sem þíngmaður Borgfirðínga og Húnvetnínga eru samþykkir, og hún er sú, að það sè óþægilegra, að verzla á skipi en á landi, og er eg

þeim samþykkur í því; en þar sem þíngmaður Borgfirðínga sagði, að verzlun þeirra í tjöldum á landi mundi spilla fyrir verzlun fastakaupmanna, þá álít eg, að það sè svo, og kemur það einmitt til af því, að það er óþægilegra, að verzla á sjó en á landi. Þess vegna verð eg að vera mótfallinn breytíngaratkvæðinu; því eg vil ekki gjöra nýjar gyllíngar til þess, að drepa föstu verzlunina.

*J. Skaptason*: Margir munu segja, sem lesa orð fulltrúans frá Reykjavík, að honum sè einúngis um hugað, að hlynna að föstu verzluninni, að landsmenn megi deyja drottni sínum; það varði litlu, hvernig um þá fari?

*Þ. Jónasson*: Eg get með engu móti fallizt á þessa uppástúngu hins heiðraða þíngmanns, er nú mælti. Yrði henni framgengt, mætti útlendur maður, sem kemur á höfn, ekki selja kaupmönnum vörur, sem þar eru fyrir, nema úti á skipi, en við landsmenn má hann þá fyrst fara að verzla, þegar hann er kominn á land með vörurnar, og búinn að koma upp tjaldi. Eg veit heldur ekki til, að slíkur og svo ónáttúrlegur greinarmunur milli kaupanda nokkurstaðar eigi sèr stað. Í annan stað er það í augum uppi, að það yrði föstu verzluninni til mestu eyðileggíngar, ef lausakaupmenn mættu verzla í tjöldum á landi, enda er þeim í tilskipun frá 11. sept. 1816 bannað, að setja tjöld á land í því skyni, að verzla í þeim, og er það byggt á sömu ástæðu, að það mundi skaða föstu verzlunina, og þar sem eg er þeim öldúngis samþykkur, sem ætla, að fasta verzlunin sè nauðsynleg og ómissandi fyrir landið, þá vil eg ekki fyrir mitt leyti styðja að því, að kippa undan henni fótunum, meir en búið er.

*J. Skaptason*: Innihaldið í ræðu hins sjötta konúngkjörna þíngmanns laut að því, að breytíngaratkvæði mitt mundi verða til eyðileggíngar fyrir föstu verzlunina, og byggði hann það á því, að þá gætu ekki utanríkismenn selt vöru sína fastakaupmanni; en það gengur yfir mig, hvað lauslega þíngmaðurinn hefur lesið breytíngaratkvæði mitt, er hann segir, að með því sè fastaverzlunarmönnum meinuð verzlun við lausakaupmenn. Eptir atkvæði mínu máttu þeir, nefnilega kaupmennirnir, verzla við þessa á sjó, er ekki kostar þá annað, en skrifa á seðil, hvað þeir vilji hafa af farminum, þegar þeir eru búnir að koma sèr saman um kaupin. En þar sem hinn sami háttvirti þíngmaður kom með gömul lagaboð til sönnunar máli sínu, þá

finnst mèr mega breyta þeim; því svo eru menn vanir að fara með gömul lagaboð, þegar þau ekki eiga lengur við.

*B. Benediktsen*: Eg vildi leyfa mèr að bæta fáeinum orðum við það, sem sagt hefur verið viðvíkjandi breytíngaratkvæði þíngmannsins úr Húnavatnssýslu. Eg held það sè hreint fráleitt, að skylda lausakaupmenn til, að verzla í tjöldum á landi; því eg þykist sannfærður um það, að þeir biðu af því tímatöf um of, óhagræði í mörgu hverju, og, ef til vill, vöruskemmdir; það þyrfti undramikil tjöld til, að innibyrgja heila og hálfa skipsfarma, fyrir utan allan kostnað, sem leiðir af vöruflutníngunum í land, og gæzlu þeirri, sem við þarf að hafa í slíkum tjöldum, að eg nú ekki tali um, hversu vörur þessar, og einkum *fín* kramvara væri undirorpin skemmdum af rigníngum. Eg þykist vera svo kunnugur verzlun lausakaupmanna, að alls enginn þeirra mundi kjósa slíka kosti, og ætla eg það væri hreint frágángssök fyrir þá, og hvað landsmenn áhrærir, þá veit eg, að það er eins hægt fyrir þá, en fyrir alla, sem koma að verzlunarstöðunum sjóleiðis, miklu hægra, að verzla á sjó, heldur en á landi. Þess utan vil eg geta þess, að svo hagar til víða hvar á kauptúnum þessa lands, að verzlunarsvæðið er eign einstakra manna, en óvíða opinber eign eða konúngs, svo eg ætla, að ei sè á valdi lögreglustjóra, að hasla þar völl til tjaldstæða ókunnum verzlunarmönnum um sára-lítinn tíma, er honum sjálfum bezt líkar, án vilja eða samþykkis lóðareigandans. Það er allt öðru máli að gegna, ef regluleg mæling ætti að fara fram til löggildra verzlunarstaða. Mèr finnst því nú þegar bannaðar allar bjargir tjaldbúðum þessum.

*J. Skaptason*: Eg veit ekki, hvort eg á að taka ræðu þíngmannsins sem alvöru eða ekki; því hann hefur allt af verið lausakaupmannaverzluninni herfilega fráhverfur, en nú mælir hann með lausakaupmönnum, og hefur hann þá fengið mikla sinnisbreytíngu. En þar sem hann tók fram, að ómögulegt væri, að verja varníng fyrir skemmdum í tjöldum, þá held eg, að tjöld hafi svo opt og víða verið við höfð, að þau hafi varið bæði vindi og regni, og hlíft bæði mönnum og munum.

*Á. Einarsson*: Eg er hræddur um, að mörg breytíngaratkvæðin sèu sprottin af of smásmuglegri skoðun á einstökum verzlunarstöðum, en það á ekki vel við, þegar talað er um ákvarðanir í aðalverzlunarmálefninu, og eins mun vera um það breytíngaratkvæði, sem nú er rætt um. Þó það megi segja um mig,

sem sagt var um þíngmann Borgfirðínga, að eg sè ekki viðfarinn, þá má eg þó segja það, að eg þekki svo til hafnarinnar á Skagaströnd, að eg efast mjög um, að þángað komi margir lausakaupmenn; því höfnin er svo hættuleg. En hvað því viðvíkur, að gjöra lausakaupmönnum það að skyldu, að flytja vörur sínar á land, þá held eg, að þeim muni vera það álíka skipum og Kartagóborgarmönnum, þegar Rómverjar skipuðu þeim, að flytja borg sína 3 mílur upp í landið. Það skilur hver, sem þekkir nokkuð til verzlunar lausakaupmanna, að þeim væri það óbærilegt, að flytja fyrst vörur sínar í land, hafa þar fyrir þeim það umstáng, sem talað hefur verið um, og mega svo, ef til vill, flytja mikið af þeim fram á skip aptur, ef þeir gætu ekki selt þær, og þarf eg ekki að fara um þetta fleiri orðum; því eg vona, að þíngið fallist ekki á þetta breytíngaratkvæði.

*Á. Böðvarsson*: Eg vil bæta því við, að hafi menn áður óttazt fyrir óreglu af verzlun útlendra þjóða, þegar þær hafa verzlað á sjó, að þá finnst mèr, að öllum sè auðsætt, að þetta leyfi, að slá upp tjöldum á landi, mundi þó vera hið fyrsta meðal, til að greiða götur slíkrar óreglu, og finnst mèr þetta eitt vera næg ástæða, til að hrinda þessari uppástúngu.

*J. Skaptason*: Eg verð þó að ímynda mèr, að lögreglustjórinn sæi betur um gott skipulag á landi, en á sjó, þar eð honum er það ólíku hægra. Eg gæti þenkt mèr, að það tilfelli kynni að bera að, ef í hart slægist, að hinir útlendu menn kynnu að lètta atkerum og vinda upp segl, þegar minnst vonum varir; líka gætu þeir skotið manni ofan í lestina, svo lítið bæri á, ef að þeim mislíkaði í einhverju við hann. Fyrir slíku óttast eg ekki eins af Dönum.

*Á. Böðvarsson*: Það gengur þó yfir mig, að hinum heiðraða uppástúngumanni skuli ekki skiljast það, að hættara sè við slíkri óreglu, ef öllum utanríkismönnum væri leyft, að hafa aðsetur sitt á landi; því þegar þeir að eins mega verzla á sjó, þá leyfir sjaldnast stærð skipanna, að þar komi fleiri, en einmitt þeir, sem verzla varníngi sínum, og eru það optast nær húsbændur eða heimilisfeður, sem menn verða að ætla meiri stillíngu og aðgætni, en sumum öðrum ýngri, konum og körlum; og þykir mèr því næsta hætt við, að þegar landsmenn færu að kynnast við ýmsa, máske misjafna, tjaldbúa, þá kynnu þeir að verða afvega leiddir, og það því fremur, sem þeir eru óvanari, og þekkja miður til siða þessara manna, sem þeir með

þessu móti gætu auðveldlega leiðzt til að kynna sèr, og nema þá kannske ekki annað en það, sem sízt skyldi.

*B. Benediktsen*: Af því mig greindi lítið eitt á við meðnefndarmenn mína, og þótti þeir fremur um of þrengja að kostum hinnar föstu verzlunar yfir höfuð, þá bar eg og upp þetta litla breytíngaratkvæði, til að láta í ljósi, að einhverja takmörkun við þyrfti til viðurhalds hinni föstu verzlunarstètt.

Það hefur samt að vísu verið alla jafna mín innileg ósk, að oss Íslendíngum gæfist kostur á, að fá að verzla við útlendar þjóðir, eða þeim við oss, og það sýnir nefndarálitið; því eg þykist þess fullviss, að slíkt gæti leitt heill og hagsæld yfir land vort, en þó því að eins, að vissar skorður sèu reistar, svo hvorki hin fasta innlenda verzlun, nè hin lausa útlenda, miði til hins gagnstæða. Það er án efa flestum kunnugt, að verzlun í öðrum löndum hagar allt öðruvísi til, en hèr hjá oss; þar hljóta menn, hverrar stèttar sem þeir svo eru, að verzla eingaungu við þá menn, sem hafa þar til full rèttindi og leyfisbrèf, en það eru mest búsettir kaupmenn í höfuðstöðum og öðrum kauptúnsbæjum, og mega ekki aðrir en þessir menn verzla við nein verzlunarskip, hvaðan sem þau eru að komin. Hèr á landi hagar þessu til á aðra leið. Að sönnu eru hèr búsettir verzlunarmenn eins og þar, en af því landið er mikið víðáttu, en engan veginn að því skapi fjölbyggt, heldur harla strjálbyggt, og kauptúnin þar eptir á strjáli, þá þótti verzlun landsmanna um of á valdi þessara einstöku kauptúna, og því þótti full nauðsyn á, að reisa skorður við því, og losa að öllu böndin í því tilliti, og leyfa lausakaupmönnum, að mega sigla á allar hafnir landsins takmarkalaust, og verzla á hverri 4 vikna tíma, og hefur landsmönnum með þessu gefizt kostur á nægri aðsókn verzlunarmanna. Þesssu hefur og allvel reitt af, síðan lausakaupmenn komu. Þeir og hinir föstu verzlunarmennirnir hafa eins og baldizt í hendur, en þó gefið hver öðrum auga, og má þetta hafa orðið og verða landsmönnum að góðu liði.

En þegar vèr fáum hina alfrjálsu verzlun við útlendar þjóðir, sem færir oss í skaut margs konar gæði og heillir, ef henni er rèttilega til hagað, þá er nú nokkuð öðru máli að skipta; því þá má búast við, að oss berist, ef til vill, fyr eða síðar, meir en vèr erum færir um að taka við, og ríður oss þá á, að íhuga vel og vandlega þær afleiðíngar, er þar af geta flotið, og setja viss takmörk við því, að verzlunin fái ekki hastarlega neina

stórkostlega breytíngu, er landinu yrði að tjóni. Þess vegna hefur það verið ætlun stjórnarinnar, eins og sjá má af frumvarpinu, og eins líka stefnu og vilja alþíngis 1845 og 1849, að binda hina útlendu verzlun við einhver viss takmörk, að minnsta kosti meðan ekki verður sèð, hvaða stefnu hin útlenda verzlun tekur. Af því mèr virtist of fáar tegundir af nauðsynjavöru vera teknar til í frumvarpinu, þá þótti mèr bezt hent, að binda leyfið við alla nauðsynjavöru. Eg verð að játa, að mèr hefur lengi blöskrað, þegar eg hef litið til þess, hve undur af óþarfa og óhófsvöru að flyzt árlega inn í landið, sem landsmenn eyða fè sínu fyrir, en því fremur stendur mèr stuggur af slíku, þegar eg hugsa um hina útlendu verzlun; því eg þykist sannfærður um það, að með útlendu kaupmönnunum flyzt til oss, eg þori að segja, helmíngi meira af óþarfa og óhófsvöru eptir en áður; eg tek dæmi 1811, þegar Enskir höfðu verzlun hèrna. En eg býzt nú við, að þessu atkvæði verði ei sinnt, og vil eg þá spyrja: „Hvar koma þá fram aðhlynníngar og ívilnun sú, sem svo margir hèr á þíngi hafa skírskotað til að kaupmönnum sè veitt?“ Enginn hefur getað svarað því, nema að kaupmennirnir sèu ætíð við höndina, þ. e., megi eiga hús, og megi hýrast í þeim, og enginn meini þeim, að gjöra samnínga við skip þau, sem koma frá útlöndum, ef þeir nefnilega geta orðið eins fljótir til þess og bændaflokkarnir, sem sjálfsagt þá með mestu einíngu og í bróðerni miklu ryðjast hver um annan þveran, að ná í þau nýkomnu skip. Þetta er þá öll ívilnunin; með þessu er hlynnt að hinni föstu verzlunarstètt, sem margir og enda flestir vilja þó hafa og óska að þrífist í landinu, en þótt nokkrir skeyti hennar að alls engu. Menn tala um innlenda borgarastètt, sem ætti að komast upp í landinu, en til alls verða að vera meðölin. Setjum nú svo, að verzlunarmenn þeir, sem nú sitja hèr, þættust ofurliði bornir af hinum útlendu verzlunarmönnum, og af því þeir hafa nokkurs úrkosti, að því flytta þeir sig með allt sitt til annara landa, hvar þeir gætu lifað þægilegra lífi og haft betri atvinnuveg, þá kynnu máske borgarar, einkum með tilstyrk, að ná í þau, en hvar eru samt efni, til að kaupa heila og hálfa farma fyrir? enda mundi það fullörðugt hinum efnaðu föstu verzlunarmönnum mörgum hverjum; því eg ætla, að verði hinir útlendu verzlunarmenn að bíða eptir lestum bænda, þá geti þeir eins tekið við vöru þeirra beinlínis, eins og í gegnum greipar kaupmanna eða borgara. Það er

ekki nóg, að byggja kastala í loptinu; menn verða að gæta að afleiðíngum starfa sinna.

En ein er þó bót í máli, þó hin fasta verzlun liði undir lok vegna hins nýja fyrirkomulags í verzlunarmálefninu, þá lendir samt hagnaður af verzluninni einhverstaðar, en það verður mest hjá efnuðustu bændunum og höfðíngjunum í sveitunum. Þessir einir geta keypt og kaupa árlega margra ára forða; þessir taka hina fátæku meðbræður sína á arma sèr, og hjálpa þeim um nauðsynjar þeirra, í staðinn fyrir sem kaupmenn hafa áður gjört; en hvort þetta verður landslýðnum yfir höfuð hollara, skal ég ekki dæma; að minnsta kosti man eg, að eg hef heyrt það sagt, að þegar svo hafi við borið, að einhver ríkur bóndi eða einhver annar hafi risið upp og hjálpað mönnum um varníng í hèraði sínu, þá hafi það verið álitið af mönnum afdrifaverra, en versta einokunarverzlun á fyrri öld.

*Jak. Guðmundsson*: Eg játa fúslega, að eg vil heldur styðja en fella fasta verzlun, en ekki á þann hátt, sem hèr er til tekið. Menn greinir mjög á um það, hvað sèu nauðsynjavörur, og bæði í stjórnarfrumvarpinu og í nefndarálitinu hafa menn viljað til taka, hvað nauðsynjavörur væru, og ber þeim þó ekki saman; því aðrir telja þær færri, hinir fleiri. Eptir orðum greinarinnar mun því margt, sem kallað er ónauðsynjavara, verða selt eptir sem áður; kaffi mun varla vera talið með nauðsynjavöru, og þó mun það orðið jafnalmennt og hver nauðsynjavara; og sama má segja um marga kramvöru, að hún gengur hèr sem nauðsynjavara; en mèr virðist það muni því verða árángursltið, að til taka, hvað selja megi, með svona almennum og óákveðnum orðatiltækjum; því eigi það að gagna nokkuð, þá útheimtir það líka nákvæma tilsjón; annars er ekkert unnið með lagaboðinu; en það er einmitt þessi verzlunarumsjón, sem bæði stjórnin og þíngið vill forðast.

*B. Benediktsen*: Eg álít það nauðsynlegt, að skýrt sè frá því með lagaboði, hvað nauðsynjavörur sè; því það væri óskandi, að óþarfaflutníngarnir til landsins minkuðu nokkuð, en færu ekki í vöxt, og mundu landsmenn verða fyrir það miklu betur farnir en ella, og held eg það væri þakkavert af þeirra hálfu.

*H. Stephensen*: Eg get ekki betur sèð, en að þíngmaðurinn, sem núna settist niður, hafi sína skoðun hverja stundina. Þar að auki finnst mèr og breytíngaratkvæði hans ekki vera

rètt upp borið eptir nefndarálitinu; því í nefndarálitinu stendur: „og verzla“, en í breytíngaratkvæðinu: „að verzla.“

*Framsögumaður*: Það á þó í rauninni inn í greinina, og er því rètt upp borið.

*H. Stephensen*: Það getur verið; en nú stíngur þíngmaðurinn upp á því í þessu breytíngaratkvæði, að utanríkismenn megi einúngis verzla við landsmenn með alla nauðsynjavöru. En eg vil þá spyrja hann, hvað nauðsynjavara sè; því eg held, að það geti verið rètt undir hvers eins skilníngi komið; þannig get eg ímyndað mèr, að sumir kunni að álíta, að enda brennuvín sè sèr nauðsynjavara, sem eg fyrir mitt leyti álít þó eina af óþarfavörunum. Þar á móti ætlast hann til eptir breytíngatkvæðinu, að föstu kaupmennirnir fái einkaleyfi til þess, að verzla með ónauðsynjavöruna, og græða á henni, en rètt núna óskar hann, að það flytjist sem minnst af henni inn í landið, og með því óskar hann þá, að fastakaupmennirnir græði sem minnst. Eg get nú ekki betur sèð, en að slík skoðun sè byggð á nokkuð veikum grundvelli, og minni hluti nefndarinnar getur varla ætlazt til, að þíngmenn sannfærizt svo af þessum ástæðum, sem svona eru hviklar, að þeir fallist á breytíngaratkvæði hans.

*B. Benediktsen*: Eg get ekki neitað því, að mèr þykir þessi ræða þíngmannsins úr Borgarfjarðarsýslu nokkuð undarleg og hjákátleg, þar sem hann segir, að kaupmenn vilji fá sem mesta óþarfavöru til sín.

*H. Stephensen*: Uppástúngumaður vill það.

*B. Benediktsen*: Það getur ekki verið, og er það ekki rètt hermt af þíngmanninum; því þegar utanríkis-lausakaupmenn koma, og reka sig á það, að þeir mega ekki selja landsmönnum ónauðsynjavöru, þá forðast þeir, að koma með hana í annað skipti, en þetta litla, ef það annars er nokkuð, sem þeir flytja eptir á, það selja þeir fastakaupmönnunum, og yrði hún þá engu dýrari hjá þeim aptur; því það má gjöra ráð fyrir því, að aðsókn innlendra og útlendra verzlunarmanna *(Concurrence)* yrði harla mikil, og þar sem einnig ráð má gjöra fyrir, að ætíð muni einhverjir búa í þeim verzlunarhúsum, sem nú eru til. Mèr hefur máske ekki skilizt það rètt, sem þíngmaðurinn mælti; því mèr fannst það eins og liggja í ræðu hans, að óþarfavörur með þessu móti flyttust híngað á kostnað landsmanna, fremur en áður *(H. Stephensen*: Eng-

an veginn.); en hitt getur mèr ekki skilizt, að hann hafi fundið neina ósamkvæmni í orðum mínum, og eg held, að hann hafi ekki heldur getað sannað það, enda með snúníngum sínum; að minnsta kosti fann eg ekki þann krapt í orðum hans, nema ef sönnunin hefur átt að liggja í rómnum einsömlum.

*G. Einarsson*: Í tilliti til hins 48. breytíngaratkvæðis við þetta verzlunarmál vil eg geta þess, að eg hef með athygli virt það fyrir mèr, hvort verzluninni hèr á landi væri það hagsanlegt, að legutími lausakaupmanna væri ótakmarkaður á kauptúnum í tilliti til verzlunar, og sè eg, að helzt mælir það fram með hinum óbundna verzlunartíma þeirra, bæði það, að lausakaupmönnum gefst meira ráðrúm til, að haga verzluninni eptir sínu höfði, og líka hitt, að landsmenn geta þá farið að högum sínum og munum, með að vitja þeirra til verzlunar, og þessi búandinn getur farið þessa vikuna, og hinn hina vikuna, til að verzla. En eg vona, að allir, sem nokkuð þekkja til verzlunar, sjái, að einmitt þessi tilhögun er til þess, að tvístra því litla verzlunar-samtakalífi, sem farið er að hreifa sèr; því einmitt sá ákveðni legutími lausakaupmanna er líka yfir höfuð að tala hæfilegur aðhaldstími bæði fyrir kaupmenn og landsbúa, til að af ljúka verzlun sinni á honum. Við það kemur líf og kapp í verzlunina, og það hefur einatt verið orsök til þess, að víst verðlag hefur komizt á, hvers máske annars hefði verið lángt að bíða. Það er líka sá versti grikkur, sem fastakaupmönnum verður gjörður, að lausakaupmenn sèu ávallt yfir höfði þeim; því svo getur vel að borið, að aðsókn lausakaupmanna gjöri það að verkum, að útlendi varníngurinn stígi niður úr verði því, er kaupmenn geta staðizt við að selja, og innlend vara hins vegar hækki í verði, fremur en góðu hófi gegnir, og það er þó ekki alls kostar gott; þess vegna, þó eg sè í sumu mótmæltur fastakaupmönnum, vil eg samt ekki um of láta þrengja að þeim í þessu tilliti; því hvorirtveggja, bæði fastakaupmenn og lausakaupmenn, eru nýtsamlegir, þegar þeir gæta köllunar sinnar réttilega.

*Þ. Jónasson*: Eg get ekki heldur með nokkru móti fallizt á það, að utanríkis-kaupmenn eða lausakaupmenn yfir höfuð sèu ekki bundnir við neinn vissan legutíma, einkum ef að þeim, eins og stúngið er upp á af nefndinni, yrði leyft, að verzla með alls konar vöru. Það væri nokkuð annað mál, ef þeir mættu ekki selja landsmönnum annað, en þá nauðsynja-

vöru, sem ætlazt er til og tekið er fram í frumvarpinu að þeir megi selja þeim, og þó vil eg ekki fullyrða það. Hitt yrði auðsjáanlega til þess, að eyðileggja hina föstu kaupmenn öldúngis. Það er nú auðsèð, að í frumvarpinu er líka gengið út frá þeirri sömu skoðun, að slík verzlun lausakaupmanna yrði hinni föstu verzlun beinlínis til eyðileggíngar, og því eru þar bæði til teknar vissar vörutegundir, sem lausakaupmenn einúngis megi selja landsmönnum, og legutími þeirra ákvarðaður, en í 48. breytíngaratkvæðinu eru þessi bönd algjörlega leyst, og á það get eg ómögulega fallizt. Eg get ekki heldur fallizt á breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar, eins og það er orðað; því að vísu er þar miðað við nauðsynjavörur einar, en það getur orðið mikill ágreiníngur um skilnínginn á því, hvað sè nauðsynjavara, og hvað ekki, og því var nauðsyn á, að taka það skýrt fram, hvað þar við ætti að skiljast, og þetta hefur meiri hluti nefndarinnar einnig fundið, og því tekið í 13. gr. af vafann í þessu efni.

*P. Pètursson*: Áður en gengið er til atkvæða um 9. gr., vil eg leyfa mèr að láta þá meiníngu mína í ljósi, að eg verð þó að aðhyllast breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar að því leyti, sem það ákveður, að utanríkismenn megi einúngis verzla við landsmenn með nauðsynjavöru; því eg er hræddur um, að ef þeim yrði leyft að verzla við landsmenn með alls konar vöru, þá verði aðflutníngur af ónauðsynjavörunni meiri, en góðu hófi gegndi. Þannig get eg ímyndað mèr, að híngað flyttist svo mikið af klæðum eða vefnaði, að menn hættu öldúngis að tæta ull sína hèr og seldu hana, og yrði þá þetta framförum atvinnuveganna beinlínis til fyrirstöðu. Eg játa það að vísu, að það er bágt, að til taka, hvað sè nauðsynjavara, og hvað ekki, en í því tilliti vildi eg fyrir mitt leyti helzt fallast á stjórnarfrumvarpið, eða 13. gr. nefndarálitsins. Hvað því viðvíkur, sem sagt hefur verið, að breytíngaratkvæði minna hlutans veitti föstum kaupmönnum einokunarleyfi á ónauðsynjavöru, þá er aðgætandi, að lausakaupmönnum er þar ekki bannað, að selja óþarfavöru, og það geta þeir líklega gjört sèr í hag, þar sem við því má búast, að um hana verði keppt. Þó að það kunni nú að verða bágt, að hafa eptirlit á því, hvað utanríkismenn selji landsmönnum, þá held eg þó, að það komi ekki að baga; því eg ætla, að fastakaupmennirnir og hinir innlendu lausakaupmenn verði beztu umsjónarmennirnir í því

efni. Eg veit og ekki til þess, að það gángist nokkurstaðar við, að utanríkis-kaupmenn megi verzla við landsmenn með allar vörur, heldur er það víða, að þeir mega ekki verzla nema við kaupmenn eingaungu. Þannig er það til að mynda í Noregi, að utanríkismenn mega ekki kaupa eitt einasta borð af bændum, heldur af kaupmönnum einum. Eg verð annars að álíta það bæði rèttast og hagkvæmast, að fara í þessu efni öldúngis eptir frumvarpi stjórnarinnar.

*H. Stephensen*: Af því eg hef mælt á móti breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar, þá verð eg nú að svara hinum 5. konúngkjörna þíngmanni, fyrst hann aðhyllist þetta breytíngaratkvæði. Eg get nú ekki betur sèð, en að bæði hann og minni hluti nefndarinnar lendi á sama skeri, það er sumsè á nauðsynjavörunni; því þeir vilja báðir binda útlenda verzlunarmenn við það, að verzla einúngis með nauðsynjavöru við landsmenn, en þeir nefna þó ekki, hvað sè nauðsynjavara, svo þetta verður harla óákveðið. Hinn háttvirti 5. konúngkjörni þíngmaður nefndi vefnað og klæði, sem dæmi upp á ónauðsynjavörur, en eg vil skjóta því til allra þíngmanna og til lækna vorra, hvort allur vefnaður sè ónauðsynjavara, t. a. m. lèrept, og eg vil ekki geta þess til, að þíngmaðurinn vilji skylda sig nè aðra til þess, að brúka aldrei klæði. Dæmið, sem hann tók af borðakaupunum í Noregi, á hèr sízt við, þar sem vèr erum að berjast fyrir því, að rýmka verzlunina hjá oss; því það kemur sèr ekki vel, að kasta þá borðum eða neinu öðru þess konar fyrir fætur oss.

*Þ. Jónasson*: Mèr finnst það þó öldúngis eðlilegt, að taka dæmi af öðru eins landi og Noregi, með frjálsri stjórn og frjálsri þjóð, og eg get því ekki betur sèð, en að dæmi hins 5. konúngkjörna þíngmanns ætti hèr einmitt vel við. Að öðru leyti vil eg leyfa mèr að geta þess, að í Noregi er ekki annað talið með nauðsynjavörum, en korn og matvæli, og þessa stórvöru eða *grófu* vöru mega þó bændur þar ekki kaupa af utanríkismönnum, nema í stórum hópakaupum (lestavís), en að öðru leyti mega kaupmenn einir verzla við útlenda menn í Noregi, og er auðsèð, að þetta miðar beinlínis til þess, að hlynna að verzlunarstèttinni, og að aðhlynníng þessi þykir þar nauðsynleg og í eðli sínu.

*H. Stephensen*: Þegar hinn 5. konúngkjörni þíngmaður kennir oss, að dæmi frá Noregi eigi hèr vel við, þá get eg þó

ekki fallizt á það, hvað nauðsynjavörurnar snertir; því það verður hann þó að kannast við, að það eru margar vörutegundir til, sem oss eru eins nauðsynlegar, og jafnvel nauðsynlegri, en matvæli eða korn.

*Þ. Jónasson*: Það er þó alkunnugt, að við nauðsynjavörur er vant einkum að skilja matvörur, og sèr í lagi kornvörur, sem og, að verzlun með þessar vörur er ekki undir sömu kjörum, og verzlunin með þær svo kölluðu „*fínu* vörur." Verzlunin með stórgjörðu vörurnar, hvar til kornvörur teljast, er nefnilega miklu frjálsari en með hinar; því það er hvergi, svo eg viti, leyft utanríkismönnum, að selja *fínar* vörur öðrum, en kaupmönnum einum. Þannig er til að mynda í Danmörku og Noregi, að utanríkismenn mega ekki selja bændum klæði nè lèrept, þó að hvorttveggja í rýmra skilníngi sè nauðsynjavara, heldur einúngis kaupmönnum, og í sjálfu sèr er það og eðlilegt, að þær *grófu* vörurnar sèu frjálsari í kaupum og sölum; því að menn hafa þeirra enn meiri nauðsyn en hinna, þó hvorugra megi að vísu án vera.

*P. Pètursson*: Eg vil líka leyfa mèr að geta þess, að alþíngi hefur 1849 gefið álit sitt um það, hvað væri nauðsynjavara, eins og bent er á í ástæðunum fyrir frumvarpi stjórnarinnar. Eg sè og ekki betur, en að þíngið sjálft hljóti nú að taka einhverja ákvörðun um, hvað nauðsynjavörur sèu, annaðhvort eptir 3. grein stjórnarfrumvarpsins, eða 13. gr. nefndarálitsins, og eins er heldur ekki loku fyrir skotið, að síðar megi ákveða, hvað telja skuli með nauðsynjavöru.

*H. Stephensen*: Nefndarálitið nefnir ekki orðið „nauðsynjavörur".

*Jón Guðmundsson*: Mèr getur ómögulega skilizt, að það verði hægt, að til greina nauðsynjavöruna, svo að ekki rísi út af því miskilníngur. Þetta hefur líka stjórnin sjálf fundið; því hún hefur ekki nefnt *nauðsynjavöru*, hvorki í 3. gr. nè 8., heldur telur hún upp vörutegundirnar; því hún hefur sèð, að þetta gat orðið misskilið, einkum hèr í þessu landi, þar sem kalla má, að allt sèu nauðsynjavörur, af því vèr getum ekki sjálfir aflað oss þeirra. Eg finn þess vegna ekki, að breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar geti átt hèr við.

*B. Halldórsson*: Það er líka eitt, sem eg vildi leyfa mèr að minnast á, af því eg hef ekki heyrt neinn hreifa því, en það er það, að ef breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar

verður framgengt, þá getur mèr ekki betur skilizt, en að ójöfnuður komist inn í löggjöfina. Eg skil svo upphafið á 9. gr. í nefndarálitinu, að eptir því, sem þar stendur, mega utanríkismenn verzla bæði við kaupmenn og landsmenn með alla vöru í aðalkaupstöðum þeim, sem taldir eru upp í 2. gr., og vitnað til hèr í byrjun 9. gr.; því hèr stendur tómt orðið „verzla“ undantekníngarlaust; en eptir breytíngaratkvæðinu mega utanríkismenn ekki verzla við landsbúa með annað en nauðsynjavöru í útkaupstöðunum. Ef þessu yrði framgengt, þá gjörði löggjöfin ekki öllum jafnt undir höfði; því þeim landsmönnum, sem búa í kríng um stóru kaupstaðina, væri þá meira í vilnað en hinum, sem búa í grennd við hin smáu kauptún, hvort sem það væri nú af því, að þeir ættu að njóta þessara aðalkauptúna, sem menn ímynda sèr að með tímanum verði svo stór og fögur, eða af því, að þeim, sem í kríng um þau búa, sè betur ætlandi, að varast óþarfakaupin og óhófið, sem eðlilega verður samfara óbundinni sölu alls varníngs, heldur en vesalíngunum hinum, sem búa á asnakjálkum landsins hjá hinum smáu kaupstöðum.

*St. Jónsson*: Eg vil og geta þess, að mèr finnst koma fram mótsögn eptir stefnu minna hluta nefndarinnar. Hann reynir til, að halla sem mest rètti útkaupstaðanna, og vill fækka þeim (*B. Benediktsen*: Nei! nei!), en telur það þó að öðru leytinu atvinnuveg fastakaupmanna, að flytja þeim vörurnar, og selja þær þar. Minni hlutinn hefur líka hreift því, að ónauðsynjavörur mundu flytjast híngað, meir en góðu hófi gegndi, og vil eg engan veginn neita því; en eg sè enga takmörkun í því, að leyfa söluna einúngis til föstu kaupmannanna; því það er auðvitað, að úr því þær eru komnar til landsins og í hendur föstum verzlunarmönnum, verða þær seldar landsmönnum, svo að eyðslan verður jafnmikil; einúngis er munurinn sá, að vörurnar verða landsmönnum dýrari, þegar einúngis fastakaupmennirnir eiga kost á, að selja þær. Minni hluti nefndarinnar gat þess áðan, að ríkismenn í sveit mundu kaupa kornforða til 3 eða 4 ára, en láta aumíngjana líða skort í kríng um sig; en fyrir þessu held eg ekki þurfi að óttast; því ef að það verður, að ríkismennirnir kaupi svo mikið, að þeir sèu aflögufærir, þá eru þeir engan veginn svo harðbrjósta, að láta aumíngjana deyja út af í vesöld. Eg held, að þegar í þau vandræði er komið, þá munu kaupmenn ekki verða fús-

ari á, að hjálpa, án þess þeir eigi aðgáng að sveitastjórn eða vissum borgunarmanni, eins og líka er eðlilegt, og eg held, að þetta hafi komið fyrir nú á tíðum, þó að ekki hafi verið harðæri. Eg skal nú ekki fara fleirum orðum um breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar, þó það sè margt annað, sem telja mætti því til ógildis.

*B. Benediktsen*: Eg vildi einúngis leyfa mèr að mæla fáein orð viðvíkjandi bæði ræðu þíngmannsins, sem seinast talaði, og líka þíngmannsins úr Þíngeyjarsýslu. Ef að það eru nokkrar mótsagnir í breytíngaratkvæði mínu, þá er að vísu það að kenna meðnefndarmönnum mínum, að því hefur ekki verið skotið á rèttum stað inn í nefndarálitið. Uppástúnga mín um það, að utanríkismenn skuli ekki mega selja landsmönnum óþarfavörur, er sprottin af því, að eg hèlt, að annars kynnu nýjar óhófsvörur, sem menn ekki heíðu áður þekkt, og líka miklu meira af þeirri almennu óþarfavöru, að flytjast inn í landið, og gæti það orðið landsmönnum mikill skaði; því það munu flestir játa, að híngað flytjist nú sem stendur nóg af óþarfavarníngi, svo sízt þurfi við það að bæta, frá því sem er. Hvað því viðvíkur, sem eg sagði, að ríkismenn mundu kaupa sèr forða fyrir lengri tíma, þá laut ekki ræða mín að því, og það var ekki heldur meiníng mín, að þeir mundu ekki hjálpa fátækum, heldur hitt, að þeir mundu hafa þennan forða til þess, að hjálpa fátækum, en undir eins líka, til að græða á, máske fremur en góðu hófi gegndi. Hvað viðvíkur örbyrgð kaupmanna af þarfa- og óþarfa-vöru á vorin, sem einhver hafði á orði áðan, þá finnst mèr það ekki koma þessu máli við; því það er eðlilegt, þó að vörubyrgðir mínki, undir það að von er á öðrum nýjum. Þá var það nýlega eins og að heyra á þíngmanninum úr Borgarfjarðarsýslu, að hann væri hræddur um skort á klæði, ef óþarfavaran flyttist ekki frá útlöndum (*H. Stephensen:* Nei.); en þó það væru nú reistar skorður við því, að sú svo kallaða ónauðsynjavara kæmi híngað frá útlöndum, þá held eg, að innlendir lausakaupmenn, og jafnvel fastakaupmenn, mundu geta sèð honum fyrir nægu klæði.

*H. Stephensen*: Eg vil einúngis geta þess, að hvorki þíngmaðurinn úr Borgarfjarðarsýslu nè aðrir, sem eg veit til, óttast neinn skort á klæði; en það var satt, að eg taldi klæðið áðan með nauðsynjavöru. Aptur lítur svo út, sem þíngmaðurinn úr Barðastrandarsýslu amist við hinni útlendu verzlun af því, að

hann er hræddur um, að híngað flytjist þá nýjar og óþekktar óhófsvörur, sem jafnvel sjálfur hann ekki þekkti, því síður aðrir, en yrðu landinu til eyðileggíngar. Ef að þíngmenn tryðu nú þessu, þá leiddi þar af, að þeir, eins og hann, vildu líklega helzt enga útlenda verzlun hafa.

*Jón Guðmundsson*: Eg get þó ekki verið mínum heiðraða meðnefndarmanni úr Borgarfjarðarsýslu öldúngis samdóma í þessum skilníngi hans á orðum minna hlutans; því þíngmaðurinn úr Barðastrandarsýslu óttast það einúngis, að þessi nýja óþekkta óþarfavara verði landsmönnum því að eins skaðleg, ef hún hefur ekki gengið fyrst í gegnum greiparnar á fastakaupmönnunum.

*Ó. E. Johnsen*: Eg ætla líka að láta þá meiníngu mína í ljósi, að eg get ekki aðhyllzt breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar, af því að eg þykist sjá í því hina seinustu tilraun kaupmanna til þess, að halda við einokun og einveldi sínu hèr í landi. Eg veit til þess, að kaupmenn hafa sagt, að þeir græddu mest á ónauðsynjavörunni, en minnst á nauðsynjavörunni. Það er því auðsèð, að breytíngaratkvæði þetta er stýlað til þess, að utanríkismenn verði að hrekjast á burtu, þegar þeir mega ekki selja landsmönnum aðra vöru en þá, sem minnst gróðavon er af, og fastakaupmennirnir yrðu eptir breytíngaratkvæðinu nokkurs konar formyndarar þjóðarinnar, og hefðu einir mestan ágóðann af verzluninni. Eg vona, að allir þíngmenn sjái, að þetta miðar ekki til annars, en að drepa hèr alla utanríkisverzlun niður í byrjuninni, og þess vegna get eg öldúngis ekki gefið breytíngaratkvæði minna hlutans atkvæði mitt, sem auðsjáanlegt er af hverju sprottið er.

*B. Benediktsen*: Jafnvel þó eg hefði ekki ætlað mèr að svara þíngmanninum úr Barðastrandarsýslu fremur nú en í gær, því þá þótti mèr það ekki svaravert, sem hann sagði, þá verð eg þó að gjöra það í þetta sinn, til þess að fræða þíngmanninn um það, að verzlunarmenn yfir höfuð hafa allt eins mikinn hagnað af sölunni á margri nauðsynjavöru, eins og sumri ónauðsynjavörunni, og er það einkum þess vegna, að aðflutníngarnir af ónauðsynjavörunni eru svo miklir orðnir, að hver keppist á við annan, að selja hana við sem lægstu verði. Eg þykist ekki þurfa eða eiga að svara frekar ræðu þíngmannsins; því annað í henni var svo svæsið, en mjög svo ómerkilegt, að það er ekki svaravert.

*J. Skaptason*: Þíngmaðurinn úr Barðastrandarsýslu og hinn 6. konúngkjörni þíngmaður eru nú kannske búnir að skjóta sumum skelk í bríngu með því, hvað í vændum sè, ef utanríkismenn fengju leyfi til, að selja landsmönnum óþarfavörur; en hafi eg tekið rètt eptir þíngmanninum úr Barðastrandarsýslu, þá sagði hann á þá leið, að fastakaupmennirnir mundu sjá fyrir því, að keppast hver við annan í því, að selja sem mest af henni. Eg hef heyrt getið þeirra verzlunarmanna, sem hafi bundið bændur við borð með því, að taka einn þriðjúng eður jafnvel helmíng í ónauðsynjakrami fyrir vörur sínar, og ef svo er, þá held eg, að bezt fari á því, að binda þá eina ekki við borð með því, að gefa þeim einum kost á því, að verzla við landsmenn með óþarfavöruna.

*P. Pètursson*: Eg ætlaði mèr raunar ekki að tala neitt um 49. breytíngaratkvæðið; en af því að uppástúngumaður minntist mín í ræðu sinni, þá vil eg geta eins, sem eg man ekki til að búið sè að taka fram. Áður hefur verið talað um þann kostnað, sem þetta mundi valda utanríkismönnum með tilliti til þess, að flytja vörur í land og reisa þar tjöld, og eins um þær skemmdir, sem varníngurinn mundi af því hljóta, en hèr á ofan bætist líka sá kostnaður, sem af því risi fyrir utanríkismenn, ef þeir ættu að verzla bæði á sjó og landi, af því þeir þá þyrftu að hafa menn fyrir sig, til að annast verzlunina, á tveim stöðum. Þeir yrðu því að færa vöru sína fram, svo að þessi kostnaður yrði að lokunum að koma niður á landsmönnum. Þar að auki mundu þeir og, ef þeir verzluðu í landi, koma sèr betur saman við kaupmenn um það, að hafa líkt verðlag, og þeir hefðu, og kaupmönnunum gætu þeir selt vöruna með betra verði, af því þeir sæktu hana sjálfir út á skip til þeirra. Eg sè því ekki betur, en að þetta breytíngaratkvæði miði einmitt til þess, að setja hinni útlendu verzlun skorður.

*J. Skaptason*: Það er auðsèð á orðum hins 5. konúngkjörna þíngmanns, að hann er búinn að þvælast svo lengi innan um breytíngaratkvæðið, að hann er farinn að villast og reka sig á. Hann segir, að það auki kostnað utanríkismönnum, að þeir þurfi að halda fólk bæði á skipi og á landi, til að verzla, en þess þurfa þeir ekki með; því það eru einúngis fastakaupmennirnir, sem verzla við þá á skipi, en við alla landsmenn verzla þeir á landi.

*P. Pètursson*: Eg held þíngmaðurinn hafi gleymt, að taka það fram, að utanríkis-kaupmenn mættu ekki verzla *undir eins* bæði á sjó og landi.

*K. Kristjánsson*: Eg ætla að tjá þínginu það, að breytíngaratkvæði mitt við þessa grein undir töluliðnum 50 veiktist í gær og sálaðist, og eins vona eg að fari fyrir breytíngaratkvæðinu, sem núna er verið að þjarka um; því eg álít það ógjörníng í tilliti til umsjónarinnar, að gæta greinarmunarins á nauðsynjavörum og ónauðsynjavörum. Margar ónauðsynjavörur eru smáar og litlar fyrirferðar, svo að, ef að það ætti nú að fara að skoða hjá hverjum manni, hvað hann hefur keypt, þá yrði endalaus rekistefna úr því, ósamlyndi og úlfbúð; enda gæti þá svo farið, að mörgum saklausum manni yrði gjört rángt til, og það yrði loksins óþolandi, að koma í kaupstað. Eg vil einúngis nefna eina vörutegund, sem margir kaupa, en það eru klútar. Vèr vitum nú allir, hverjir það eru, sem mest kaupa af þeim, og ef að til þess kæmi, að lögreglumennirnir eða kaupmennirnir þyrftu að fara að leita á mönnum að klútunum, sem svo lítið fer fyrir og hægt veitir að fela, þá held eg, að margt gæti spunnist út úr því, sem yrði ljótt til sagna út um landið.

*B. Benediktsen*: Eg ímynda mèr, að það þurfi nú aldrei að halda á því, að lögreglustjórarnir gjöri slíka rannsókn, að minnsta kosti ekki sem embættismenn; því klútar eru engin nauðsynjavara, svo að þetta dæmi hins 1. þíngmanns úr Reykjavík á hèr ekki við. En hvað því viðvíkur, sem þíngmaðurinn úr Húnavatnssýslu drap á áðan, að sumir fastakaupmenn áskyldu sèr, að bændur, er verzluðu við þá, tæku einn þriðjúng af óþarfavörunni með, þá má eg játa það, að eg veit ekki til, að neinstaðar sèu skorður reistar fyrir því af kaupmönnum, að bændur verði að taka vissan hluta af hverri vörutegund fyrir sig; það hlýtur þá að vera einhverstaðar í nánd við þíngmanninn, ef svo er.

*J. Skaptason*: Það voru heldur aldrei orð mín, að landsmenn mættu ekki taka svo út af ónauðsynjavöru, sem þeir vildu, heldur hafði eg tillit til þess, sem eg veit til að sumstaðar við gengst í kaupstöðum, að þegar bændur eru búnir að leggja inn vöru sína, þá verða þeir að taka ónauðsynjavöru út fyrir svo og svo mikið af hinni innlögðu vöru, sem kaupmaðurinn til tekur.

*B. Benediktsen*: Það getur verið, að þetta eigi sèr stað í þíngmannsins byggðarlagi.

*G. Brandsson*: Þíngmaðurinn úr Barðastrandarsýslu gat þess áðan í ræðu sinni, að hin útlenda verzlun mundi ekki geta orðið öðrum að liði en þeim, sem ríkir væru, en borgararnir væru svo efnalitlir, að þeim mundi ekki verða mikið lið að henni; en eg ímynda mèr, að þessir ríku kaupmenn hafi, altènd sumir þeirra, einhvern tíma verið fátækir, en grætt síðan á verzlun sinni. Eins ætlast eg nú til að gæti farið fyrir borgurunum, ef það rýmkar um verzlunina, að þeir hefðu svo mikinn hagnað af henni, að við það kæmist upp borgarastètt hèr á landi. Þessi sami þíngmaður talaði líka um það, að margar óþarfavörur mundu flytjast híngað, ef utanríkismenn mættu selja landsmönnum þær; en eg skil ekki í því, að hann skuli vilja hamla stèttarbræðrum sínum í hinum minni kaupstöðum frá, að kaupa þær; því eg held, að það ætti jafnvel ekki að meina bændum það. Menn verða eins í þessu sem öðru að hafa vit fyrir sèr sjálfir, og eg treysti mönnum til, að kaupa öllu fremur nauðsynjavöru en óþarfavöru, þó jafnhægt væri að ná til beggja, en þar fyrir ætti ekki að meina þeim, sem gætu og vildu, að kaupa fleira, en eintómar nauðsynjavörur; því að girða fyrir slíkt, væri líkt og þegar menn vara börnin við, að fara með eld eða eggjárn, svo þau ekki brenni eða skaði sig. Vèr játuðum þá með þessu, að vèr værum ekki færir um, að ráða sjálfum oss og efnum vorum. Eg vil líka geta þess, að kaupmenn hafa gjört út lestamenn með ónauðsynjavöru upp í sveit, til að selja hana, hvort sem þeir hafa nokkurn ábata á því eða ekki; en víst er um það, að ekki verða bændum vörurnar ódýrari fyrir það. Eg þarf ekki að fara að tala um 48. breytíngaratkvæðið, sem fer fram á, að ákvarða ekki legutíma lausakaupmanna; því þíngmaðurinn úr Dalasýslu hefur þegar tekið það allt fram, sem eg vildi hafa sagt um það; en því einu vil eg bæta við ræðu hans, að ef verzlunarfèlög kæmust á hèr í landi, eins og margir álíta nauðsynlegt, til að greiða veg og samverka hinni frjálsu verzlun, þá mundi brátt verða nauðsyn á, að þau ættu hús í kaupstöðunum, til þess að láta vörur sínar í; og ef það kæmist á, þá mundi það nokkuð bæta úr tjaldaverzluninni, sem menn hafa verið að tala um, og gjöra hana miður nauðsynlega.

*B. Benediktsen*: Þíngmaðurinn úr Gullbríngusýslu greip

svo víða til, að eg ætla mèr ekki að svara því öllu; einúngis vil eg geta þess með tilliti til þess, sem hann sagði um borgarana, að útlenda verzlunin mundi koma undir þá fótunum, að þeir verða þá að hafa einhver efni til þess, að geta fært sèr hana í nyt. En hvað það snertir, sem hann sagði, að kaupmenn væru opt vanir, að gjöra út lestir upp í sveit, til að selja bændum ónauðsynjavöru, þá má honum vera það sjálfum kunnugast, hvernig því er varið hèr syðra, en slíkt er mèr að öllu ókunnugt. En hitt man eg, að eg heyrði í úngdæmi mínu, að bændur einmitt færu stundum með kramvöru eða óþarfavöru um sveitir, og seldu sèr til hagnaðar; en máske þess konar hegðun hafi lengur loðað við hèr syðra, og hafi orðið svo mögnuð, að enda verzlunarmenn hafi hèr syðra leiðzt að dæmi bændanna til slíkrar lagaleysisóvenju. Þetta má hèraðsþíngmaðurinn bezt vita.

*P. Pètursson*: Það eru nú tveir þíngmenn, sem hafa þótzt finna ósamkvæmni í breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar, þar sem að orðið „þar" í 9. gr. yrði eptir breytíngaratkvæðinu að skiljast einúngis um útkaupstaði, en eg sè ekki betur, en að það geti líka svarað til aðalkaupstaðanna. Eg get ekki heldur fallizt á það, sem hèr hefur verið sagt, að það sè ómögulegt, að til taka, hvað sè nauðsynjavara, og hvað ekki, eða að það sè annar skilníngur í ákvörðunum 13. og 9. gr. Það er þó auðvitað, að einhverstaðar verða takmörk að vera milli nauðsynlegra vara og ónauðsynlegra, enda er í 13. gr. bent á nauðsynjavörur, þó að þar sè ekki haft orðið „nauðsynjavörur", þar sem talað er um, hvað með þurfi *til bús af kornvöru, steinkolum, við, salti, tjöru, járni og hampvöru*, og eru þetta einmitt helztu greinir af nauðsynjavörum.

*Forseti*: Af því að nú hafa 10 þíngmenn óskað þess, að lokið væri umræðum um þessa grein, og gengið til atkvæða um hana, þá skal eg biðja þíngmenn, að skera úr því með atkvæðum, hvort þessari ósk skuli verða framgengt.

Síðan gengu þíngmenn til atkvæða, og fèllust á það með atkvæðafjölda, að umræðunum um greinina væri lokið.

Lèt þá forseti gánga til atkvæða um 9. gr. og breytíngaratkvæði þau, sem við hana áttu, og fèllu atkvæði þannig:

48. breytíngaratkvæði var fellt með 36 atkvæðum gegn 6;
49. ——— — — — 41 atkvæði gegn 1;

50. breytíngaratkvæði var fallið eptir atkvæðagreiðslu á undan;
51. ——— —. fellt með 32 atkvæðum gegn 10;
52. ——— — — — 36 ——— — 6.

Samkvæmt atkvæðagreiðslu á 11. fundi var þá uppástúnga nefndarinnar undir töluliðnum 20 tekin til atkvæða, og var hún samþykkt með 32 atkvæðum gegn 8, og þurfti þá eptir þessari atkvæðagreiðslu ekki að gánga til atkvæða um töluliðinn 53.

*Forseti* kvað þá hæfilegan tíma til, að fundi yrði slitið að sinni, en skaut því til atkvæða þíngmanna, hvort aptansfund skyldi halda, og voru 15 atkvæði með, að halda fund, en 27 atkvæði móti, og var því þannig hrundið.

*H. Stephensen*: Áður en fundi er slitið, vil eg geta þess, að eg hef þegar fyrir nokkrum tíma afhent hinum háttvirta forseta ávarp frá Þíngvallafundinum til þjóðfundarins, sem nú er um hríð búið að liggja á lestrarsalnum, svo eg gjöri ráð fyrir, að þíngmenn sèu búnir að kynna sèr það. Mèr þykir nú tími til kominn, að ávarp þetta væri borið upp í þínginu, svo að það gæti ráðið af, hvað við það skyldi gjöra; því eg vil ekki láta það gleymast svona.

*Forseti*: Eg skal leyfa mèr að biðja þíngmanninn, að gefa mèr skriflega uppástúngu um það, hvernig hann vill að með þetta ávarp sè farið, og skal eg þá seinna skýra þínginu frá því.

Síðan var fundi slitið.

---

## 14. fundur, 4. d. ágústm.

Allir á fundi. Gjörðabók frá síðasta fundi lesin og samþykkt.

*Forseti*: Áður en tekið er til dagskráarinnar, skal ég leyfa mèr að geta þess, að eg hef fengið brèf frá hinum 1. þíngmanni úr Borgarfjarðarsýslu, en sem ekki gat orðið sett á dagskrána, vegna þess að eg fèkk það ekki fyr, en eg hafði sent hana frá mèr. Í þessu brèfi sínu stíngur hinn heiðraði þíngmaður upp á því, að ávarpið frá Þíngvallafundinum til þjóðfundarins afhendist nefnd þeirri, sem þegar er sett í frumvarpið til stjórnarskipunar á Íslandi eptirleiðis, og ef enginn þíngmanna mælir á móti því, þá álít eg þessa uppástúngu þíngmannsins samþykkta af þínginu.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg veit ekki betur, en að aðgjörðum nefndarinnar sè nú þegar lokið, nema að prentuninni til, og verð því að álíta, að það sè of seint, að afhenda henni þetta ávarp.

*H. Stephensen*: Þíngmanninum, sem einum af nefndarmönnum, hlýtur þó að vera það kunnugt, að jafnvel þó að lokið sè störfum nefndarinnar, þá hefur hún þó ásett sèr, að gjöra ýmsar smábreytíngar, er henni þótti við þurfa, um leið og prófarkirnar væru leiðrèttar, svo að hún getur þá fært sèr ávarpið svo í nyt, eins og henni þykir bezt henta. Þess vegna verð eg að álíta, að ávarpið sè hvergi betur komið, en í höndum nefndarinnar.

*Forseti*: Eg verð að vera þíngmanninum úr Borgarfjarðarsýslu samdóma í þessu; því eg álít, að störfum nefndarinnar sè ekki lokið fyr, en búið er að prenta nefndarálitið og senda það forseta. Eg ætla því að afhenda uppástúngumanni ávarpið til þess, að hann afhendi nefndinni það, fyrst enginn af þíngmönnum mælir á móti því.

Því næst var ávarpið afhent uppástúngumanni.

*Forseti*: Þá er að taka til dagskráarinnar, og taka 10. viðaukagrein nefndarinnar undir tölulið 54 á atkvæðalistanum til umræðu.

*Framsögumaður*: Eg finn enga ástæðu til þess, að fara mörgum orðum um þessa grein. Ákvarðanir þær, sem í henni standa, liggja svo beint við, og standa í sambandi við hinar greinirnar, sem þegar eru teknar upp í nefndarálitið úr tilskipun frá 11. sept. 1816.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg finn þá ástæðu til þess, að spyrja nefndina að því, hvað hún meini með „lögreglustjórn" á þessum stað, hvort það eru sömu mennirnir, og hún sumstaðar kallar „lögreglustjóra", en sumstaðar „sýslumenn", eða það innibindur líka í sèr hreppstjóra, eða einhverja aðra, sem sýslumaður kynni að setja fyrir sig á þessum verzlunarstöðum; því ef að svo er, þá sýnist mèr það vera öldúngis ómeðal fyrir þá, að taka á móti skýrslum og skilríkjum hjá skipverjum, hverrar þjóðar sem verða kynnu, hvort sem þeir væru frakkneskir, spánverskir, rússneskir, enskir, eða annarstaðar frá; því þeir mundu vilja láta rita á þau á sama máli, og þau væru sjálf rituð á. Eg hef raunar spurt að þessu einu sinni áður, og fèkk þá það svar, að hreppstjórar svöruðu til þess, sem menn kölluðu hèr

lögregluþjóna. En hvað sem um það er, þá get eg ekki sèð, hvaða tilgáng nefndin hefur haft með því, að brúka þessi ýmislegu orð, sitt á hverjum staðnum.

*Framsögumaður*: Eg held, að þetta geti ekki orðið neitt ágreiníngsefni milli hins háttvirta konúngkjörna þíngmanns og nefndarinnar. Eg fyrir mitt leyti hef nú ekki svo nákvæmlega tekið eptir þessu, en ef nefndinni sýnist, að það gæti ollað nokkrum misskilníngi, þá yrði hún víst fús á, að lagfæra það.

*Forseti*: Með því að enginn tekur nú til máls framar, þá vil eg biðja þíngmenn, að gánga til atkvæða um þessa 10. viðaukagrein nefndarinnar.

Síðan var gengið til atkvæða um 10. viðaukagrein nefndarinnar, og var hún samþykkt með 37 atkvæðum gegn 5.

Forseti tók þá 11. viðaukagrein nefndarinnar til umræðu.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Það er nú hinn 4. dagur í dag, sem þessi sama umræða hefur staðið yfir, og hef eg þó ekki tekið til máls fyrri, ekki af því, að eg mundi ekki hafa getað lengt umræðurnar nokkuð, ef eg hefði viljað, heldur af því, að mèr líkaði nefndarálitið ágætavel alstaðar, nema í 4. gr., þar sem það tók inn í tollgjald Dana, og af því að mèr hefur ekki þótt standa á þíngræðum.

*Forseti*: Eg vildi biðja þíngmanninn, að tala um þessa grein, sem nú er undir umræðu, og breytíngaratkvæðin, sem við hana eiga.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg kem nú undir eins að henni, og eg hugsaði, að eg mundi fyrst mega tala fáein orð mèr til rèttlætíngar.

*Forseti*: Jú; þíngmaðurinn má það.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Mèr þótti líka óþarfi fyrir mig, að taka til máls, þar sem hinir vitrari menn á þínginu hafa rætt svo ýtarlega málið, að mèr sýndist ekkert eptir skilið af því, sem nauðsyn var á fram að taka. Eg hafði nú leyft mèr að bera upp tvö breytíngaratkvæði við nefndarálitið, annað þeirra stendur ekki á atkvæðalistanum, fyrir hverju eg hafði þó ætlað að tala fáein, kannske þó ekki ástæðulaus, orð, og hefur hinn háttvirti forseti fært þá ástæðu fyrir því, að það hafi heldur heyrt öðru málefni til, svo eg læt mèr það nú lynda, jafnvel þó þíngskapanna 58. gr. hafi sett aðra reglu; en annað þeirra stendur á listanum, og má vel vera, að það þyki nú ekki mikils vert. Það er viðvíkjandi því, hvert sú sekt rennur,

sem á fellur við afbrot móti lögum þessum. Vèr viljum nú sjálfsagt búa þessi lög þannig til, að þau fremur fýsi til vor ókunna verzlunarmenn, heldur en fæli þá frá oss. En eg held, að hinum ókunnugu mönnum kynni að þykja það ískyggilegt, að bændur eða bæjarmenn ættu eins konar sjálfdæmi, og svo von á, að ábatinn af brotinu, eða sektin, rynni í sjóð sjálfra þeirra. Nefndin hefur að vísu tekið ákvörðunina í 11. gr. úr tilskipun frá 11. sept. 1816; en þó hún hafi í þá daga verið hentug, þá virðist mèr eins leyfilegt, að breyta þeirri ákvörðun tilskipunarinnar, ef hún ætti nú miður vel við, eins og öðru, sem nefndin hefur breytt frá því, sem í henni er. Þess vegna eru menn og að breyta, að þeir eru ekki jafnan bundnir við gömul lagaboð. Þar að auki hafa og tveir aðrir þíngmenn borið upp breytíngar við greinina frá því, sem í lagaboðinu er. En mèr finnst eitthvað undarlegt og jafnvel tortryggilegt í þeirri tilhögun, að sömu mennirnir skuli eiga 1. að ákæra hina ókunnugu menn, 2. hjálpa sýslumanni til þess, að leggja löghald á skipið, og taka part af vörunum í sektina og kostnaðinn, 3. bjóða í vöruna eptir sínu eigin höfði, 4. dæma, hvað sektin skuli vera há, og 5. taka að lokunum við sektinni sjálfir. Þar að auki finnst mèr og, að bætur þessar komi mjög misjafnt niður í hendur landsmanna; en þegar brotið er á móti landslögunum, þá finnst mèr eðlilegast, að sektirnar renni í almennan sjóð, líkt og fyrrum var ákveðið í farmannalögum (sjá XIV. kap.), að sektir fyrir brot á móti þeim, skyldu konúngi heyra, svo sem hinum æðsta verndara laganna. Þegar nú að bæturnar rynnu í landssjóðinn, sem víst er það fyrsta og bezta nafn, sem eg hef híngað til heyrt haft á almennum sjóði, þá má vænta þess, að málið yrði betur rannsakað, og dómarnir hlið̄drægnislausir, og eg held, að það yrði eins hollt, og eins aðgengilegt fyrir alla, að láta sektirnar gánga í landssjóðinn. Á þessari skoðun byggði eg nú breytíngaratkvæði mitt, og með því eg hef þannig gjört mönnum grein fyrir því, þá ætla eg ekki að fara um það fleiri orðum að sinni.

*J. Skaptason*: Við 11. gr. nefndarinnar hef eg gjört dálitla breytíngu, og þó eg gjöri nú ekki ráð fyrir því, að þetta breytíngaratkvæði mitt sè fætt undir betra merki en hin, sem eg hef áður gjört, þá vil eg þó ekki taka það aptur; það verður að standa og falla sínum herra. Mèr þótti hundrað dala sektin hjá nefndinni of lítil, bæði þegar svo stæði

á, að brotið væri mikið í sjálfu sèr, og farmurinn, eins og opt ber við, næmi mörgum þúsundum dala. Nefndin hefur nú að sönnu stúngið upp á því, að sektin tvöfaldaðist, þegar brotin væru ítrekuð, en það getur verið, að ekki verði svo hægt, að koma því við. Eg vil taka til dæmis, að einhver hafi gjört sig sekan í broti á móti lögum þessum í Reykjavík, og hinn sami komi eptir 5 eða 10 ár til Seyðisfjarðar, og brjóti þar lögin í annað sinn, þá getur vel verið, að það sè ekki hægt fyrir lögreglustjórana á Seyðisfirði, að vita hið fyrra brotið, svo að sektin yrði þar einúngis einföld, og þess vegna held eg það ætti betur við, að hafa sektina stærri, þegar í fyrsta skipti. Tilskipunin frá 1816 ákveður og misjafnar sektir eptir því, hvað brotið er stórvægilegt í sjálfu sèr, þar sem hún í 9. gr. hefur tillit til minni brota, en til tekur aptur stærri sektir í 16. gr. við stærri brot. Það er líka athugandi, að viss brot gegn lögum þessum, svo sem svik við heilbrigðisskírteini, geta verið svo skaðleg, að þau verða ekki einu sinni afplánuð með neinum fèsektum, þar sem þau geta varðað margra hundraða manna líf. Mèr þykir það líka kynlegt, og jafnvel ósanngjarnt, að ákveða hèr ekki hærri sekt, en 100 rbdd., þar sem það í öðrum lagaboðum, sem lögð eru fyrir þetta þíng, eru til teknar lángt um hærri sektir, svo sem í kosníngarlögunum til alþíngis, þar sem það er ákveðið, að kjörstjórnin skuli sæta 200 rbdd. sekt fyrir yfirsjónir þær, sem henni kunna að verða á, og enda veitt vilyrði fyrir, að sektin kunni að fást hærri.

*B. Jónsson*: Jafnvel þó að eg búist við, að breytíngaratkvæði mitt við þessa grein fái sömu útreið og þau, sem eg hef áður upp borið, þá vil eg þó ekki gánga þegjandi fram hjá því. Mèr þótti viðkunnanlegra, að hafa orðið „brot“ en „afbrigði“; því menn eru nú vanir að hafa orðið „afbrigði“ um það, sem fremur er sjaldgæft, og í meinlausri merkíngu, og heiðí eg því betur kunnað við hitt á þessum stað. En hvað sektina snertir, þá finnst mèr bilið frá 50 til 100 rbdd. of lítið í ákvörðun nefndarinnar. Að minnsta kosti held eg, að það geti opt verið nóg, að láta brotið varða 10 rbdd. sekt, þó eg geti aptur ímyndað mèr, að 100 rbdd. sè of lítið, svo að mèr þykir of lítill munur hjá nefndinni á því minnsta (*Minimum*) og því mesta (*Maximum*). Á þessari skoðun byggði eg breytíngaratkvæði mitt.

*J. Skaptason*: Eg vil einúngis leyfa mèr að bæta því við það, sem eg sagði áðan, að mèr finnst sektin eigi að vera svo-löguð, að sá, sem brýtur og fyrir henni verður, finni ekki reikníng sinn við, að gjöra það aptur, og þess vegna hef eg stúngið upp á því, að hækka hina hærri sektarákvörðunina; því að öðrum kosti gæti eg vel ímyndað mèr, að kaupmaðurinn væri svo ríkur, og hefði svo mikið vörumagn í skipi sínu, að hann fyndi ekki til hinnar lágu sektar, og vílaði því ekki fyrir sèr, að brjóta lögin einhvers annars hagnaðar vegna.

*B. Jónsson*: Eptir mínum skilníngi á hèr einúngis að hafa tillit til þess, hvers eðlis brotið sè, og hvernig kríngumstæðurnar að því eru, en ekki til þess, hvað sá er ríkur, sem braut, hvort hann á 50 þúsundir rbdd. eða 100 rbdd.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Nefndin hefur ætlazt til, að sá, sem upp ljóstrar, fengi ⅓ sektanna, og er þetta að vísu tekið úr tilskipuninni frá 1816. Þar á móti er það ekki síður í hinum seinni lagaboðum, að heita launum fyrir rógburð.

*Framsögumaður*: Eg held, að það verði ekki kallaður rógburður, að ljóstra upp brotum gegn lögunum; þvert á móti getur það verið skylda, og held eg því, að það sè ekki óeðlilegt, að setja laun við það. Það var að skilja af orðum þíngmannsins úr Mýrasýslu, að hann ímyndaði sèr, að hreppstjórarnir mundu verða hliðrægari, þegar um fátækrasjóðinn væri að gjöra, en annars mundi verða; en nefndin hèlt ekki, að menn þyrftu að óttast það, og fann því enga orsök til þess, að breyta út af tilskipuninni frá 11. sept. 1816 í þessari ákvörðun. Það er líka aðgætandi, að það eru lögreglustjórarnir, en ekki hreppstjórarnir, sem hafa mest afskipti af fátækrasjóðunum.

*J. hreppst. Sigurðsson*: En eg held nú, að lögreglustjórarnir geti þó allt eins verið fèlagsmenn og hinir, og verið nóg hliðrægir sveit sinni.

*J. Skaptason*: Þíngmaðurinn frá Norðurþíngeyjarsýslu vill, að sektin sè miðuð við eðli og ásigkomulag brotsins, en það hefur hann þó ekki gjört í breytíngaratkvæðinu sínu. Það er líka aðgætandi, að brotunum getur opt verið þannig háttað, að við þau eigi ekki peníngasektir, og þóttist eg taka það fram áðan, þar sem eg tók til dæmis svik við heilbrigðisskírteini, sem auðveldlega gæti kostað mörg hundruð manna lífið. Fyrir slík afbrot mundi ekki vera of hátt að ákveða 500 ríkisdala sekt.

*B. Jónsson*: það var ekki heldur meiníng mín, að tína til öll þess konar dæmi, en mèr komu til hugar ýms smávegis afbrot, sem minni sektir gætu legið við, en 50 rbdd., og sem allt eins opt gætu komið fyrir.

*þ. Sveinbjörnsson*: Eg meinti það með orðum mínum áðan, að löggjöfin á seinni tímum vildi ekki hvetja menn til þess, að bera út ávirðíngar meðborgara sinna með því, að ákveða þeim borgun fyrir það. En með tilliti til orðsins „rógur", þá vil eg geta þess, að rógur getur stundum verið annað en lygi, og eg gjöri ráð fyrir, að hinn heiðraði framsögumaður þekki málsháttinn: „*Enginn á sök á sönnum rógi*".

*Jón Guðmundsson*: Mig minnir ekki betur, en að þessum verðlaunum fyrir uppljóstur á brotum gegn lögunum sè enn haldið í hinum dönsku tolllögum, og að það, sem ákveðið er um það í tilskipun frá 1799, standi óbreytt í tolllögunum frá 1838, og ef svo er, sem mig minnir, þá hefur löggjöfin til skamms tíma haldið þessari ákvörðun í þeim efnum, sem eru mjög náskyld þeim, sem hèr ræðir um.

*J. hreppst. Sigurðsson*: Eg get ekki annað en verið hinum háttvirta 1. konúngkjörna þíngmanni samdóma í þessu, að eigin hagsmunir eigi aldrei að vera ráðandi því, að uppljóstra kvisi um aðra, heldur kemur það einúngis rèttvísinni við.

*Forseti*: þar eð nú tekur enginn til máls, þá vil eg biðja þíngmenn að gánga til atkvæða um 11. viðaukagrein nefndarinnar og breytingaratkvæði þau, sem við hana eiga.

Síðan var gengið til atkvæða um 55. tölulið, og hann felldur með 34 atkvæðum gegn 8.

Orðabreytíngin í 56. tölulið þótti ekki þurfa að koma til atkvæða, en að því leyti, sem hann snerti upphæðina á sektunum, var hann tekinn undir atkvæði, og felldur með 34 atkvæðum gegn 5.

*Forseti*: Eg hef, eins og þíngmenn sjá, sett spurníngarmerki við breytíngaratkvæðið undir 57. töluliðið, vegna þess að mèr var ekki ljóst, hvort það ætti að koma hèr til atkvæða eða ekki. Nefndin hefur að vísu gjört nokkrar breytíngar á greinunum úr tilskipuninni frá 11. sept. 1816, en einúngis þær, sem henni hefur þótt vera nauðsyn á. Sektunum hefur hún þar á móti skipað samkvæmt tilskipuninni. Mèr er það og eigi ljóst, hvort að hèr skuli gjöra þær breytíngar á eldri laga-

boðum, sem ekki leiðir nauðsynlega af þessu lagaboði, svo að eg ætla að biðja þíngmenn, að gánga til atkvæða um það, hvort þetta breytíngaratkvæði skuli hèr koma undir atkvæði eða ekki.

Síðan gengu menn til atkvæða um þetta, og urðu 17 atkvæði með, en 20 móti því, að breytíngaratkvæðið yrði borið upp til atkvæðagreiðslu. En af því að framsögumaður gat þess, að 20 væri ekki meiri hluti þíngmanna, svo að hèr yrði að hafa við nafnakall, þá lèt forseti að nýju greiða atkvæði með nafnakalli, og sögðu

| já: | nei: |
|---|---|
| Sigurður Gunnarsson. | Björn Halldórsson. |
| Hallgrímur Jónsson. | Árni Böðvarsson. |
| Jón Guðmundsson. | Guttormur Vigfússon. |
| Magnús Stephensen. | Páll Pálsson. |
| Kristján Kristjánsson. | Páll Sigurðsson. |
| Hannes Stephensen. | Magnús Austmann. |
| Jón Sigurðsson, hreppstjóri. | Jóhann Briem. |
| Magnús Gíslason. | Gísli Magnússon. |
| Guðmundur Einarsson. | Jens Sigurðsson. |
| Brynjólfur Benediktsen. | Guðmundur Brandsson. |
| Jón Sigurðsson, kandídat. | Jakob Guðmundsson. |
| Jósep Skaptason. | Sveinbjörn Hallgrímsson. |
| Stefán Jónsson. | Páll Melsteð, sýslumaður. |
| Eggert Briem. | Þorvaldur Sivertsen. |
| Þórður Sveinbjörnsson. | Ó. E. Johnsen. |
| Pètur Pètursson. | L. Johnsen. |
| Þórður Jónasson. | Ásgeir Einarsson. |
| | Þórarinn Kristjánsson. |
| | Sveinn Níelsson. |
| | Ólafur Briem. |
| | Jón Jónsson, frá Múnkaþverá. |
| | Jón Jónsson, frá Grænavatni. |
| | Björn Jónsson. |
| | Helgi G. Thordersen. |
| | Halldór Jónsson. |

Þannig var því þá hrundið með 25 atkvæðum móti 17, að breytíngaratkvæðið skyldi upp berast.

Því næst var 11. viðaukagrein nefndarinnar undir 58. tölulið samþykkt með 36 atkvæðum gegn 5.

Að því búnu lèt forseti taka 12. viðaukagrein nefndarinnar til umræðu, ásamt breytíngaratkvæði því, sem við hana hafði verið gjört.

*Þ. Jónasson*: Mèr sýnist það öldúngis óþarft, sem tekið er fram í breytíngaratkvæðinu við þessa grein; því það stendur í aukatekjureglugjörðinni frá 10. sept. 1830, að sýslumenn skuli hafa til eða löggilda kvarða og mæliker handa þeim, sem um það biðja, og geta utanríkis-verzlunarmennirnir þá einnig snúið sèr til sýslumannsins í þessu efni, og þetta hefur nefndin án efa haft fyrir augum, og þótt óþarfi, að taka það fram, sem svo lægi beint við.

*J. Skaptason*: Eg vissi það nú ekki, að sýslumenn mundu ætíð hafa nógu marga kvarða og mælikeröld til, hvað mörg utanríkisskip sem híngað kynnu að koma, þegar eg bjó til breytíngaratkvæði mitt við þessa grein, og efast eg líka mikillega um það, er hinn 6. konúngkjörni þíngmaður núna sagði, að þeir hafi leyfi til, að löggilda mæliker, kvarða eður reizlur fyrir verzlunarmenn, hvort heldur þessir eru utanríkis- eður innanríkismenn. En eg álít það varða miklu, sem eg hef þar farið fram á; því hitt getur bæði orðið ágreiníngsefni og orsök til grunsemi, að útlendíngar hafi þær vogir og mæla, sem Íslendíngar ekki þekkja, og menn vita það líka, að vogir og mál annara þjóða muna mikið frá því, sem hèr er tíðkað. Þetta gæti nú komið sèr harla illa og valdið miklum misskilníngi, þegar bændur færu, eins og þeim er títt, að spyrja: „Hvað kostar pundið? — lóðið? — alinin?“ og Svíar, Hamborgarmenn eða Norðmenn, sem eru oss einna næstir, og hafa máske líkastar vogir og mælikeröld vorum, segðu, að það kostaði svo eða svo mikið. Eg vil taka til dæmis, að bóndi kaupir sèr í buxur eða treyju, og til tekur álnatalið, af því hann veit, hve margar álnir hann áður hefur brúkað til sama; en þegar hann kemur heim til sín úr kaupstaðnum, þá vantar nú upp á efnið, og þegar svona er komið, getur hann ekki bætt úr þessu, en það ollir óánægju með verzlunarmanninn. Það er og kunnugt, að Frakkar t. a. m. hafa tugatölu, sem bændur hèr á landi gætu ekkert áttað sig í. Þess vegna vildi eg endilega, að það væri ákveðið í lögunum, að utanríkismenn gætu fengið innlendar vogir og mælikeröld til kaups eða láns, og að sýslumennirnir sæju þeim fyrir því.

*G. Brandsson*: Mundi það ekki geta verið, að það, sem

stendur í breytíngaratkvæðinu, felist í sjálfri grein nefndarinnar, þar sem segir: „og svo í hinum íslenzku verzlunarlögum yfir höfuð“. Úr því geta nú hinir lögfróðu menn skorið.

*J. Skaptason*: Spurníngin er hèr um það einúngis, hvort að hin eldri löggjöf sè nóg í þessu efni, og það efast eg um.

*Framsögumaður*: Fyrir hönd nefndarinnar get eg skírskotað til þess, sem hinn háttvirti 6. konúngkjörni þíngmaður sagði áðan; því hún áleit það vera skyldu sýslumanna, að gegna því, sem farið er fram á í breytíngaratkvæðinu, og heyrði til þeim störfum, sem þeim væru þegar áður skipuð, og lægi líka svo beint við, að það væri óþarfi, að ítreka það á ný.

*J. Skaptason*: Af því eg hef nokkra stund verið hjá sýslumanni, þá get eg af eigin reynslu borið um það, að sýslumenn eigi ekki þess konar áhöld til, sem hèr ræðir um, til að lána þau út eður selja.

*Þ. Jónasson*: Sýslumenn þurfa ekki að eiga byrgðir af þessum áhöldum; einúngis eru þeir skyldir til, að löggilda þau, og það virðist mèr nægja.

*J. Skaptason*: Útlendir eiga þá að fara að láta smíða þau, þegar þeir eru komnir híngað, og það held eg að tefja mundi verzlun þeirra.

*Á. Böðvarsson*: Eg held líka, að ef sýslumenn ættu að eiga eður fara að láta smíða þessi áhöld, vogir og mæla, þá þyrfti að breyta köllunarbrèfum þeirra; því eptir þeim munu þeir að eins vera skyldir til, að löggilda vogir og mælikeröld verzlunarmanna, en hitt er þeim víst ekki nè verður gjört að skyldu, að þeir skuli eiga þau sjálfir, og finnst mèr slík byrði naumast verða þeim lögð á herðar, og sumir af þeim mundu varla hafa efni á, að kaupa þau eða eiga, í óvissri von um, hvort út mundu gánga eður ei, þar sem í slíkum áhöldum stendur ekki svo alllítið fè.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg hugsaði, að meiníngin væri sú, að þegar menn greindi á, þá skyldi sýslumaður skera úr ágreiníngnum, og bera að löggilda vigt og mæli, sem hann ætti að hafa undir höndum.

*J. Skaptason*: Eg verð að halda það nauðsynlegt fyrir hina útlendu verzlunarmenn, að þeir viti fyrir fram, hvort þeir geti brúkað sínar vogir og mæla hèr eða ekki, og þess vegna verður einhver ákvörðun að standa um það í lagaboðinu.

*H. Stephensen*: Eg veit ekki, hvort það er öldúngis nauð-

synlegt, að allar þjóðir, sem híngað kynnu að koma til verzlunar, brúkuðu danskar vogir og mæla, sem hèr eru tíðkanlegir. Eg gjöri ráð fyrir, að yfirvaldið eða sýslumaðurinn á hverjum stað þekkti mismuninn, og held eg, að það væri þá nóg, að hann birti hlutaðeigendum það, svo að utanríkismenn gætu selt þeim mun ódýrara, sem mælar þeirra og vogir væru minni en hjá Dönum, eða því dýrara, sem þeir kynnu að vera stærri.

*J. Skaptason*: Þar sem hinn 1. þíngmaður úr Borgarfjarðarsýslu segir, að það sè nóg, að sýslumaðurinn birti muninn á hinum útlendu vogum og mælum, þá held eg, að það sè ekki hægt fyrir hann, að leggja hvern mann á knè sèr, sem vill kaupa nokkuð. Eg held, að það væri þá mun hægra fyrir einn mann útlendan, að kynna sèr vog og mæli landsins, en fyrir alla landsmenn, að læra það.

*Ó. E. Johnsen*: Eg held, að þíngmaðurinn úr Húnavatnssýslu viti ekki af því, að það er nýlega kominn út pèsi um útlenzka vigt og mæli, og eru menn einmitt farnir að búa sig undir þetta væntanlega verzlunarfrelsi.

*Þ. Jónasson*: Það held eg að væri ógjörníngur, að hver þjóð, sem híngað kæmi til verzlunar, brúkaði sína eigin mæli og vigt; það við gengst ekki heldur annarstaðar, svo eg viti til. Enda gæti og, eins og hèr hagar til, risið út af því mikill ágreiníngur, og maður væri kannske ekki æfinlega við höndina, til að skera úr þrætunni. Eg veit líka til þess, að þó hin þýzka eða svo kallaða Hamborgaralin einstöku sinnum kynni að hafa verið brúkuð hèr af kaupmönnum, hefur þessa ekki verið gætt í verðinu, og er eg hræddur um, að svo mundi fara yfir höfuð.

*J. Skaptason*: Með tilliti til þess, sem þíngmaðurinn úr Barðastrandarsýslu sagði áðan, þá læt eg hann vita, að eg þekki pèsann hans vel, en eg veit líka hitt, að hann er ekki í hvers manns höndum, pèsinn sá, og eg efast um, að allir geti haft full not af honum, þó að þeir eigi hann, eður geti æfið áttað sig í honum, þegar verzla skal.

*Þ. Jónasson*: Þeir geta þá kannske tekið með sèr Kramers reikníngsbók, og haft hana í vasanum.

*J. Skaptason*: Þeir þurfa þá fyrst að skilja dönsku.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Að sönnu þekki eg pèsann, sem um er verið að tala, ekki mikið, en mèr leikur þó efi á, að hann sè alstaðar áreiðanlegur, svo eg veit ekki, hvort það er vert fyrir menn, að fara mjög eptir honum.

*P. Pètursson*: Þó að umræðurnar um þetta breytíngaratkvæði sèu nú farnar að lengjast, svo að eg haldi, að þær fari bráðum að nálgast hina lengstu alin, þá verð eg þó að bæta við þær fáeinum orðum. Mèr virðist, að það mæli mikið fram með breytíngaratkvæðinu, að þar er skýrt tekið fram, að munur sè á útlendum mæli og vigt og innlendum; því eg held, að þorri manna hèr á landi þekki ekki annan mæli eða vigt, en hinn danska. Þó að sýslumenn eigi eptir eldri lögum að hafa þess konar áhöld til, þá er þó betra, að taka það fram í þessu nýja lagaboði, og eg get ekki sèð, að þessarí ákvörðun sè hèr fremur of aukið, en mörgum öðrum, sem teknar eru úr gildandi lögum, einkum þegar það getur orðið til skilníngsauka.

*Framsögumaður*: Nefndinni þótti engin brýn nauðsyn til, að fallast á þetta breytíngaratkvæði; því að henni virðist nógu skýrar reglur vera til um þetta mál, svo ekki sè nauðsyn á neinum nýjum greinum, og yfir höfuð munu lögreglustjórarnir gá að því, sem þeim er fyrir lagt, og vera búnir undir það.

*J. Skaptason*: Það hefur að undanförnu verið álitið nauðsynlegt, að hafa *jústeraðar* vogir og mæliker, og mæli eg fram með mínu breytíngaratkvæði; en áhrærandi 60. breytíngaratkvæði, þá er spursmál um, hvort eldri lög geta uppálagt sýslumönnum, að búa sig undir það, sem hèr er til tekið, og af því eg mikillega efast um, að sú skylda hvíli á þeim, hef eg gjört hið umtalaða breytíngaratkvæði.

*Þ. Sivertsen*: Eg veit ekki, hvort sýslumenn muna til þeirrar lagaskyldu, að þeir eigi að löggilda lóð og reizlur, eins og mèr þó heyrðist farið fram á; þó eru þær vogir einmitt, sem brúkast í verzlunarviðskiptum manna; en hvað sem um það er, þá ætla eg ekki að veita breytíngaratkvæði þessu mitt jákvæði; eg held þau gömlu verzlunarlög greiði fullvel úr þessu, og verzlunin sjálf, og það eiginlega viðkomi hinni umboðslegu umsjón. Eg held, ef breytíngaratkvæðið ætti að verða að lögum, þá mundi jafnmikil þörf á, að lögbjóða, að utanríkismenn hefðu túlka, eða sýslumenn hefðu þá einnig við höndina handa þeim; því oss mun varla kunnugra spánskt túngumál t. a. m., heldur en að þekkja spánska vigt.

Síðan kvaddi forseti til atkvæða, og var 59. breytíngaratkvæði fellt með 36 gegn 4; 60. var samþykkt af 38 gegn 4, en 61. var álitið fallið, af því viðaukagrein nefndarinnar var samþykkt.

Síðan var 6. gr. frumvarpsins tekin til umræðu.

*Framsögumaður*: Nefndin hefur álitið, að þessi grein um hefndargjaldið mundi að engum notum verða, eins og það hefur ekki að notum orðið híngað til. Stjórninni hefur einnig sjálfri þótt efunarmál, hvort nokkurn tíma þurfi á því að halda.

Síðan var leitað atkvæða um 6. gr., og var hún felld með 39 atkvæðum gegn 3.

Síðan var 7. gr. tekin til umræðu.

*Framsögumaður*: Tilskipunin frá 1. september 1819 hefur aldrei verið birt hèr á landi, og eg sè ekki, að það verði neitt gagn að því, þó greinin væri við tekin. Þau skip, sem greinin vill banda á móti, eru einmitt aðgengilegust fyrir efnalitla menn að kaupa, og ef þessi grein verður tekin, þá bægir hún landsmönnum frá, að eignast þau skip, sem hentugust eru hèr í landi. Nefndinni sýndist og, að hagnaður landsmanna væri miklu framar skertur með þessari grein, en hagnaður utanríkismanna.

*Þ. Jónasson*: Þó eg reyndar ekki haldi, að 7. gr. frumvarpsins fái hèr mikla þýðíngu, þar sem eg gjöri ekki ráð fyrir, að híngað muni koma mörg útlend skip af þeirri stærð, sem hèr ræðir um, þykir mèr þó ísjárvert mjög, að hafna greininni; því það getur komið í bága við innlend skip. Eg get hugsað mèr, að landsmenn, þegar þeim vex fiskur um hrygg, og flutníngarnir verða svo frjálsir, eins og gjört er ráð fyrir, efni sèr upp á þilfarsbáta eða smáskútur til flutnínga hèraða á milli; enda fæ eg ekki sèð, hvers vegna hèr er breytt frá reglu, sem alstaðar annarstaðar er gætt og algeng; og auðsèð er það, að það getur verið atvinnuvegur fyrir hina efnaminni, að flytja þannig vörur til annara hafna. Eg fyrir mitt leyti vil því ráða til, að greininni sè haldið óbreyttri, að minnsta kosti að svo stöddu.

*Framsögumaður*: Það yrði býsna- óheppileg mótsögn, ef 7. gr. yrði haldið, og 8. gr. samþykkt; því þar er gefinn kostur á, að flytja vörur til annara staða á Íslandi á þeim skipum, sem kaupmenn hafa tekið á leigu, en hèr yrði einmitt bægt frá, að hafa til þess þau skipin, sem hentugust eru. Mèr virðist því 7. gr. með öllu óþörf.

*P. Pètursson*: Eg er samdóma hinum 6. konúngkjörna þíngmanni í því, að 6. og 7. gr. stjórnarfrumvarpsins væru þær greinir, sem helzt mættu missast, og því gjörði eg það breyt-

ingaratkvæði við stjórnarfrumvarpið, að þessar greinir væru úr felldar, en með því skilyrði, að nefndarálitið yrði fellt; en úr því það er ekki, þá álít eg mig ekki bundinn við breytíngaratkvæði mitt. Eg get ekki verið samþykkur framsögumanni í því, að 7. gr. sè með öllu óþörf; því ef öllum þjóðum væri leyft, að hafa hèr smáskútur, þá get eg ímyndað mèr, að það kæmi í veg fyrir, að menn hèr í landi rèðust í, að byggja þilfarsbáta, og að það hamlaði landsmönnum frá atvinnuvegi, sem þeir hefðu tækifæri til að nota sèr til vöruflutnínga, ef 7. gr. væri haldið

*Framsögumaður*: Það er auðsjáanlegt, að ef 7. gr. er lögtekin, þá verður meiníngin, að fastakaupmenn megi flytja farma á öllum utanríkisskipum, þeim er þeir hafa tekið á leigu, en ef hún fèlli, þá verður þeim fyrirmunað, að taka öll hin smáu utanríkisskip á leigu, og þá vil eg spyrja, hvort það er að hlynna að fastakaupmönnum, að banna þeim það.

*Þ. Jónasson*: Það hlynnti bæði að þeim og að bændum vorum, ef greininni væri haldið; því eg gjöri ráð fyrir, að þegar flutníngarnir eru orðnir frjálsir, muni landsmenn finna hvatir til, að eignast og koma sèr upp flutníngsskipum, en þegar útlendir menn geta verið jafnt um hituna með þeim, þá held eg áhugi landsmanna hljóti að dofna í þessu tilliti, og þetta einmitt hefur stjórnarfrumvarpið viljað fyrirbyggja.

*Framsögumaður*: Útlendir menn eru ekki jafnt um hituna; því þeir hafa ekki annað leyfi, en að leigja fastakaupmönnunum skip sín

*Þ. Jónasson*: Það er einmitt það, sem eg er hræddur við.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg hugsaði, að það væri landsmönnum sjálfum í hag, að þeir gætu fengið smærri skip, til að mynda dekksbáta frá Norvegi, til kaups, heldur en að byggja þau sjálfir, þar þau eru landsbúum hentugri en stórskipin til vöruflutnínga milli hafna og staða í landinu sjálfu.

Síðan var leitað atkvæða um 7. gr., og var hún felld með 39 atkvæðum gegn 3.

Síðan var 8. gr. stjórnarfrumvarpsins tekin til umræðu.

*J. Skaptason*: Þegar eg skar aptan af 13. gr. í nefndarálitinu, þá hafði eg það fast í huga, að hvorki mundi það vera mögulegt, að halda vörð á því, að lausakaupmenn seldu ekki aðra vöru en þá, sem þeim væri leyft að selja, og svo þótti mèr það ekki sanngjarnt, að landsmenn á fjarlægum stöðum

mættu ekki kaupa af lausakaupmanni þá smávöru, sem þeir annars yrðu að kaupa af fastakaupmanninum fyrir hærra verð.

*Framsögumaður*: það er auðsèð á 68. breytíngaratkvæðinu, að nefndin hefur í fyrstu fallizt á stjórnarfrumvarpið; því hún hefur engu breytt í því, nema því eina, um tiltekna vigt og mæli, af því nefndinni þótti það of takmarkað, þegar t. a. m. ekki mætti vega nema það, sem stæði á 5, 10, eða 15 lýsipundum, og henni sýndist, að með því takmarkaði maður of mikið aðflutnínga og verzlun fastakaupmannanna. Af því að nefndin gat þannig ekki sèð, að þessi takmörkun leiddi til neins góðs, og hún var sannfærð um, að ekki yrði hægt, að hafa svo tilsjón með því, að þetta boð væri haldið, að ekki yrði út af brugðið, vegna þess til tók hún bæði minna mál og vigt, en stjórnin hafði gjört. En aptur á móti gat nefndin ekki fallizt á, eins og sumir vilja, og 65. breytíngaratkvæðið fer fram á, að selja mætti *allar vörur;* það þótti nefndinni ísjárvert. 66. breytíngaratkvæðinu þótti nefndinni reyndar ekki móti mælandi að því leyti, að þar er tekið enn meira fram, að bóndinn geti fengið allar búnauðsynjar sínar; en nefndinni þótti ekki samt brýn nauðsyn til, að bæta við þessum almennu orðatiltækjum. Nefndin kannast og fúslega við, að ekki sè svo hægt, að setja fasta ákvörðun um það, hverjar nauðsynjavörur eigi að taka til; því einum þykir það nauðsynjavara, sem hinum þykir óþarfavara; samt getur hún ekki verið hrædd um, að mikil brögð verði að því, að kaupmenn brjóti þessa ákvörðun, sem nefndin hefur stúngið upp á; því þeir sitja optast nær hver um annan, og gæta hver að öðrum; þess vegna sýndist nefndinni, að halda sig við þessar tilteknu vörutegundir, en sleppa takmörkuninni um mæli og vigt.

*B. Jónsson*: Eg vil gjöra skiljanlegt, hvað eg meinti með breytíngaratkvæði mínu. Eg vildi nefnilega bæta inn í greinina öllu því, sem eg áleit nauðsynlegt fyrir búandi mann, og það, sem eg hafði í huga, að helzt væri nauðsynlegt til húsabygginga, var *cement,* múrgrjót, hella og kalk, og til skipa útgjörða, færi, aunglar og járnfestar; og ekki get eg skilið, að heldur verði farið í kríngum lagaboðið fyrir því, þó þessar vörutegundir sèu til teknar svona, eins og eg hef gjört, yfir höfuð.

*K. Kristjánsson*: Eg verð að játa það, að eg er með öllu samdóma þíngmönnum þeim, sem vilja leyfa fastakaupmönn-

um, að selja alla vöru, en verð að vera mótfallinn nefndinni; því eg held, að ógjörlegt sè, að leiða það í lög, sem maður sèr í hendi sinni að ekki verður haldið, og ekki er til annars, en vekja úlfbúð milli kaupmanna; því eg held, að hún sè nóg samt, þó menn gjöri ekki gyllíngar til, að auka hana, og því vil eg heldur leyfa ótakmarkað að verzla, til að fyrirbyggja þann ágreiníng, sem auðsjáanlega flýtur af greininni, eins og hún er í nefndarálitinu. Eins get eg ekki verið mönnum samdóma í því, að ekki megi misbrúka mæli og vigt.

*þ. Jónasson*: Mèr skilst þó ekki betur, en að nefndin hafi farið hèr meðalveg, og að hún sè öldúngis á rèttri stefnu; því hún hefur tekið til alla þúnga nauðsynjavöru, og það eru einmitt þessar vörur, sem landsmönnum liggur mest á að fluttar sèu til þeirra. Ekki get eg heldur verið greininni fráhverfur af því, þó eg sjái, að fara megi í kríng um hana; þetta má segja um næstum öll lagaboð, að það má fara í kríng um þau af þeim, sem svo eru lyntir, og þau koma út engu að síður.

*L. Johnsen*: Eg verð að álíta, að það sè ekki einúngis hægt, að fara í kríng um þetta lagaboð, heldur sýnist mèr, að það sè ómögulegt, að því verði fylgt.

*G. Brandsson*: Með tilliti til þess, er fulltrúi Norðurþíngeyjarsýslu áðan mælti, þá held eg, að kaupmenn flytji ekki *cement*, kalk eða múr, nema því að eins, að það hafi verið pantað hjá þeim áður, og því vil eg ætla, að það sè nóg, sem nefndin hefur stúngið upp á að flytja og selja megi. Þar eru þeir hlutir til teknir, sem flestum eru helzt ómissanlegir, og margt það, sem þíngmaðurinn hefur til tekið í breytíngaratkvæði sínu, kemur saman við nefndaruppástúnguna, svo sem kostnaður til skipa, húsa og sjávaraflaútgjörðar, sem er að miklu leyti innifalinn í viði, járni, steinkolum, salti og hampvöru. En hvað viðvíkur mæli og vigt, þá hugsa eg, að flestir muni fallast á, að ekkert sè unnið við, að takmarka það. Eg var á þessari meiníngu á alþíngi hinu síðasta, þegar tilrætt varð um takmörkun á vigt og mæli, og hef eg ekki breytt síðan þessari skoðun minni, sem eg þá hafði.

Af því enginn tók framar til máls, þá lèt forseti gánga til atkvæða.

*Forseti* kvaðst álíta, að 64. breytíngaratkvæðið væri fallið, þar eð búið væri að fella 7. gr. stjórnarfrumvarpsins, sem breyt-

íngaratkvæðið væri bundið við. Lèt hann því greiða atkvæði um tölulið 65, og fóru atkvæði á þessa leið:

65. breytíngaratkvæði var fellt með 27 atkvæðum gegn 13;
66. —— — — — 28 — — 12;
67. —— samþykkt með 37 — — 4;
68. eða 13. gr. nefndarálitsins samþykkt með 37 — 4;
69. eða 8. gr. frumvarpsins var þá álitin fallin.

Síðan leitaði forseti atkvæða þíngsins um, hvort málið skyldi koma til 3. umræðu, og var það samþykkt í einu hljóði.

*Forseti* afhenti þá framsögumanni nefndarálitið með þeim breytíngum, sem á því voru orðnar, og bað hann, að búa það undir 3. umræðu.

Síðan leitaði forseti álits þíngmanna um, hvort prenta skyldi frumvarpið, eins og það þá var orðið, eða það skyldi taka afskriptir af því. Sumum þótti reglulegra, að það væri prentað; en aptur þótti öðrum, að ekki væri tími til þess, og eptir nokkrar umræður fèllust allir þíngmenn á, að fela forseta og framsögumanni það á hendur, að gjöra hvort af þessu tvennu, sem þeir sæju að við mætti koma.

*Forseti* kvaðst ekki geta ákveðið fund næsta dag, og sagði síðan fundi slitið.

---

## 15. fundur, 6. d. ágústm.

Allir á fundi. Gjörðabók frá síðasta fundi lesin og samþykkt.

*Forseti* lèt þá taka til þriðju umræðu í verzlunarmálinu, og voru komin fram í því breytíngaratkvæði þannig löguð:

Við 3. gr.

*1.* *Nefndin*: Að seinasta klausan; „Einnig sè — Þorlákshöfn“, falli úr.

*2.* *Frá 15. mönnum*: Að eptir orðin: „*til verzlunar*“, bætist inn í: „*einnig flytja og selja timburfarma á Þorlákshöfn*“, en niðurlag greinarinnar frá orðunum: „Einnig sè þeim leyft“ o. s. frv., falli burtu.

Við 4. gr.

*3.* *Frá 10 mönnum*: Að 4. gr. orðist þannig: „Til þess, að mega verzla á Íslandi, skulu utanríkismenn vera skyldir

til, eins og híngað til hefur verið, að leysa íslenzk leiðarbréf fyrir hverja ferð fram og aptur; en fyrir þau skal gjalda álls 3 rbdd. af lestarrúmi hverju frá 1. jan. 1852; þar á móti skal frá sama tímabili af þeim létt því leiðarbréfa- og lesta- gjaldi, er áður hefur verið".

4. *Nefndin*: Að seinasta klausan: „Þau skip, sem flytja eingaungu — ókeypis", falli úr.

5. *Nefndin*: Að klausunni: „þar á móti skal — 28. des. 1836 § 13", verði þannig breytt: „þar á móti skal frá sama tímabili af létt því leiðarbréfa- og lesta- gjaldi, er áður hefur verið".

Við 6. — 11. gr.

6. *Frá 10 mönnum*: Að 6., 7., 8., 9., 10. og 11. gr. úr frumvarpi nefndarinnar úr fellist, en að í þeirra stað komi 5. gr. í stjórnarfrumvarpinu með þeirri breytíngu í tilvitnunum til nefndarfrumvarpsgreinanna, sem nauðsynleg er, nefnilega: „2. gr." fyrir: „3. gr".

Við 8. gr.

7. *Nefndin*: Að í staðinn fyrir: „skal hann sýna lögreglustjóranum", verði sett: „skal sýna lögreglustjóranum", og í staðinn fyrir: „jafnskjótt og hann hefur hafnað sig", verði sett: „jafnskjótt og skipið hefur hafnað sig".

Við 9. gr.

8. *Nefndin*: Að svo verði orðað: „Á hverjum stað, sem nokkuð er af fermt eða fermt, skal gefa lögreglustjóranum skýrslu um það", o. s. frv.

Við 10. gr.

9. *Frá 10 mönnum*: Að síðustu orðum greinarinnar frá: „hlýtur sá", o. s. frv., sè þannig breytt: „sekt þessi fellur í almennan sjóð".

Við 11. gr.

10. *Nefndin*: Að upphafið verði svo orðað: „Það er skylda hvers lögreglustjóra, sem á að segja yfir", o. s. frv. Í staðinn fyrir: „í lagaboði þessu" verði sett: „í lögum þessum". Seinasta klausan verði þannig orðuð: „Fyrir að rannsaka skipsskjöl þeirra og rita á þau tekur lögreglustjóri endurgjald" o. s. frv.

*11. Nefndin*: Að síðustu stingur nefndin upp á, að lögboð þetta verði látið heita:
„Lög um siglíngar og verzlun á Íslandi“.

Því næst vakti forseti máls á því viðvíkjandi þíngsköpunum, að nú í þessari umræðu, sem væri hin þriðja í þessu máli, væri hverjum þíngmanni ekki leyft, að tala nema tvisvar; og tók framsögumaður, *J.* kandíd. *Sigurðsson*, þá orðið, og stakk upp á, að breytíngaratkvæðum þeim, er fram hefðu komið til þessarar umræðu, yrði skipt í kafla, og að rætt yrði um hvern kafla tvisvar af hverjum þíngmanni, en skaut því máli að öðru leyti til forseta. Kvaðst þá forseti ekki vera á móti framsögumanni, en stakk upp á því, að breytíngaratkvæðunum yrði skipt í tvo kafla þannig, að í fyrra kaflanum yrði 1. til 5. breytíngaratkvæðis, og í seinni kaflanum 6. til 11. breytíngaratkvæðis. Jafnframt gat hann þess, að það væri undir þínginu komið, hvort atkvæðagreiðsla skyldi fara fram öll í einu á eptir, eða við hvern kafla, en lèt samt í ljósi meiníngu sína, að honum fyndist það vera eðlilegra, að atkvæðagreiðslan færi fram öll í einu, og að það mundi trauðlega koma mönnum til, að gleyma þeirri meiníngu, sem sèrhver hefði í hverju breytíngaratkvæði.

*Framsögumaður*: Eg vildi, áður en farið er að ræða um efni breytíngaratkvæðanna, taka einn hlut fram viðvíkjandi forminu við atkvæðalistann og breytíngaratkvæðin, að eg álít það nauðsynlegt, að við breytíngaratkvæðin væru bókuð nöfn þeirra manna, sem gjöra þau, svo þau kæmu í tíðindin, og get eg þessa af þeirri orsök, að nöfnin stóðu ekki á atkvæðalistanum.

*Forseti*: Eg vildi ekki lengja listann meira, en eg áleit það nægilegt, að nöfn manna væru lesin upp fyrir þínginu.

*Framsögumaður*: Eg tók þetta ekki fram af annari orsök en þeirri, að það ekki skyldi gleymast; en eg hef komizt að raun um, að margir þíngmenn hafa skilið þíngsköpin svo, að þó þeir skrifi undir breytíngaratkvæðin, þá þurfi þeir ekki að vera þeim samþykkir, heldur einúngis að vilja láta þau koma undir atkvæðagreiðslu; og þetta mundi geta valdið mikilli óreglu; því með því getur svo farið, að öll sömu breytíngaratkvæðin, sem felld voru við aðra umræðu, verði tekin upp aptur, og yrði það

hin mesta töf; en það er auðsèn meiníng þíngskapanna, að hver sá, sem skrifar undir breytíngaratkvæði, hann skuli ekki skrifa nafn sitt, nema því að eins, að hann fallist á það, sem hann skrifar undir; því annars yrði það til óendanlegs trafala og óreglu. Eg leyfi mèr nú að skjóta því til forseta og þíngsins, hvort menn í þetta sinn vilji leiðrètta þennan hlut nú, eður hvort menn vilja hafa þetta einúngis til bendíngar til eptirkomandi tíðar. Það er öldúngis ekki meiníng mín, að vilja spilla fyrir breytíngaratkvæðunum, sem þíngið vill aðhyllast, en eg hafði einúngis þann tilgáng, að fyrirbyggja óreglu.

*Forseti*: Eg neita því ekki, að ef mikið er gjört af því, sem hinn heiðraði framsögumaður hefur tekið fram, þá getur það valdið mikilli óreglu, það eru nú raunar komin fleiri breytíngaratkvæði við þessa þriðju umræðu, en þíngið, ef til vill, vonaðist eptir, en ef stránglega væri farið í þess konar hluti, og menn færu að gjöra rannsókn út úr þeim, þá mundu ýmisleg vandkvæði koma upp. Eg segi fyrir mig, að þó eitthvert breytíngaratkvæði væri, sem eg ekki að öllu leyti gæti samþykkt, þá getur vel verið, að eg vildi skrifa undir það, og það einmitt af þeirri orsök, að eg áliti það svo mikilsvert, að eg vildi láta það koma til atkvæðagreiðslu, og að það væri órèttvíst, að kúga minna hlutann, þegar undir vissri tölu er komið. Eg er viss um, að það er meiníng framsögumannsins, og það er líka mín meiníng, að það sè ekki til neins í þetta skipti, að fara nákvæmara í þennan hlut, en èg vil samt ekki undanfella, að áminna þíngmenn um, að halda góðri reglu í þess háttar tilfellum, og að taka sèr þennan hlut til eptirþánka.

*H. G. Thordersen*: Eg tek til máls viðvíkjandi þessum hlut, af því nafn mitt stóð undir einu breytíngaratkvæðinu, en eg segi það hreint út, að eg ætla aldrei að setja nafn mitt undir nokkurn hlut, sem eg ekki á eptir ætla að kannast við.

*K. Kristjánsson*: Eg er að miklu leyti samþykkur hinum háttvirta konúngkjörna þíngmanni, er þegar mælti, en eg verð hins vegar að gjöra þá athugasemd, að það getur þó hæglega skeð, að menn finni gilda og góða ástæðu til, að snúa aptur. Þegar eg í fyrstu skrifaði nafn mitt undir breytíngaratkvæði það, sem nú er umtalsefnið, þá gat eg ekki vitað, hvað margir mundu skrifa nöfn sín, eða hvað margir mundu verða með og mót, því eg ritaði nafn mitt meðal hinna fyrstu, en vildi þó ekki skorast undan að vera með, þar eð breytíngaratkvæðið þó

að nokkru leyti sneri í þá átt, er eg vildi. Eg er nú þannig orðinn einn af þeim tíu mönnum, sem gjört hafa breytíngaratkvæði við 4. grein, en eg veit nú með *vissu*, að því verður ekki framgengt, og því þykir mèr heldur ekkert að því, að kannast við það opinberlega, að eg segi mig nú úr tölu þessara 10 manna; því þegar eg sè berlega, að því getur ekki orðið framgengt, þá gæti það ekki orðið til annars, að halda lengra út í þetta, en til að skaða málefnið yfir höfuð, og það vil eg fyrir mitt leyti á engan hátt.

*Framsögumaður* skaut því til forseta, hvort lengur skyldi tala um þetta mál að sinni, og kvaðst álíta það einúngis tímatöf, en forseti sagðist helzt vilja, að hætt yrði þessari ræðu, og spurði, hvort nokkur vildi verða til, að koma í stað þess þíngmanns, sem sagði sig úr tíu manna flokkinum, og gaf *Þ. Kristjánsson* sig fram.

*G. Einarsson*: Eg verð þó að biðja hinn háttvirta forseta, að leyfa mèr að tala fáein orð viðvíkjandi því umræðuefni, sem nú hefur verið hreift, og vil eg þá geta þess, að eg er einn af þeim mönnum, sem gaf nefndarálitsuppástúngunni, um að jafnt skipagjald væri lagt á alla, jákvæði mitt. Eg er líka einn af þeim, sem gaf nafn mitt undir breytíngaratkvæði það, sem nú er umtalsefnið, nefnilega að á Dönum hvíli það sama leiðarbrèfa- og lesta-gjald, sem hefur verið, en utanríkismenn lúki í skipagjald 3 rbdd., svo að það kæmist á framfæri til 3. umræðu. Það kunna nú sumir að álíta, að eg sè orðinn á tveim skoðunum, eða að eg sè svo hverflyndur, að eg haldi með þessu málefninu í dag, en sè því sama móthverfur á morgun. En eg get ómögulega fundið það með sjálfum mèr, að það væri rètt, að bera mèr slíkt á brýn, þó að eg gæfi nafn mitt undir breytíngaratkvæði þetta. Það er nefnilega mín lifandi sannfæríng, að það sè skylda þíngsins yfir höfuð og hvers einstaks manns sèr í lagi, að stuðla til þess, að málefnin verði sem grandgæfilegast rædd og skoðuð, og þess vegna eigi menn að styrkja til þess, að þau breytíngaratkvæði geti komið til þriðju umræðu, sem manni þykja þó umtalsverð, enda þótt maður sè í raun og veru annarar sannfæríngar. Svo er um þetta breytíngaratkvæði, sem nú er umræðuefni, að eg áleit það þess vert, að það kæmi til umræðu, og þess vegna ritaði eg undir það; en það er engan veginn (*Forseti*: Eg vil óska, að þíngmaðurinn fari ekki lengra fram í þetta mál. *G. Einarsson*: Eg skal nú strax

sleppa því.) þar með sagt, að eg hafi ætlað mèr, að mæla með því, eða gefa því atkvæði mitt, og eg ætla mèr það ekki.

*Forseti* sagði, að umræðu skyldi lokið um þennan hlut, og tveir sögðu sig úr tíu manna flokki breytíngaratkvæðisins.

*P. Pètursson* gat þess, að það gæti vel verið, að sumir hefðu viljað láta bera atkvæðið upp einúngis til þess, að setja það undir atkvæðagreiðslu, og að það væri sitt hvað, að vilja stuðla til, að einhver skoðun fái framgáng á þínginu, eins og henni væri eðlilegt, og það, að framfylgja henni sjálfur.

*Forseti* sleit þá umræðunni, og sagði, að fyrst atkvæðið hefði undirskript tíu manna, þá mundi hann setja það til atkvæðagreiðslu þíngsins.

*Framsögumaður*: Eg vil ekki harðlega mótmæla forseta í þessum hlut, en eg vil þó geta þess, að það við gengst á öðrum þíngum, að menn gánga úr, og aðrir fá tækifæri til, að koma í staðinn þeirra, sem úr gánga. Eg skal þá byrja að tala um breytíngaratkvæði þau, sem eru fram komin við þessa þriðju umræðu, og get eg þess þá fyrst, að nefndin hefur stúngið upp á því, að sú klausa falli úr þriðju grein, sem getið er í um Þorlákshöfn. Nefndinni sýndist það lýta frumvarpið, ef það kæmi fram sem lög, og það ekki einúngis í forminu, heldur líka að efninu til; því það er nokkuð undarlegt, að hefjast upp úr manns máli með annan eins stað og Þorlákshöfn; það mætti þá allt eins taka fram Dyrhóla, Krossvík, Straumfjörð, og fleiri staði. Nefndin áleit því rètt, að sleppa þessari klausu, en hitt er annað, hvort þeim þíngmönnum, sem framfylgja því, að klausunni verði haldið, ekki sýnist það eðlilegra, að uppástúnga sèr í lagi verði gjörð um það, heldur en að setja það hèr inn í þessa grein; því það er þó að fara út í aðra sálma. Hvað viðvíkur breytíngaratkvæðinu við 4. grein, þá er það, sem nefndin hefur stúngið upp á, ekki annað en orðabreytíng, en efnið er hið sama, og var tilgángurinn sá, að misskilníngur sá hyrfi, sem eg hef orðið var við að komið hefur af greininni, eins og hún var áður, og sett væru almennari orðatiltæki í staðinn. Nefndin hefur enn fremur stúngið upp á því, að sleppt verði niðurlagi þessarar greinar, sem komst inn við aðra umræðu, að þau skip, sem eingaungu flytja timburfarma til Íslands, skuli sleppa við allt gjald; því það er auðsætt, að mönnum verður hagkvæmara, að flytja blandaðan farm, þó menn eigi að gjalda

af honum lestagjald, og þá er ólíklegt, að menn fari að flytja einúngis timburfarma híngað, til þess að komast hjá þessu litla tveggja dala gjaldi. Þá er það breytíngaratkvæði borið upp við 4. grein, að leggja 3 dala gjald á utanríkismenn, en mèr virðist þessi mismunur frá uppástúngum nefndarinnar vera svo þýðíngarlítill, að hann lýsi ekki öðru en grundvallarreglu einni, sem þar að auki ekki væri rètt. Það, sem hèr kemur til álita, er sú einfalda spurníng: *Eigum vèr*, og eigum vèr *nú*, að sleppa öllum mun á utanríkis- og innanríkis-skipum? Hitt var með öllu ástæðulaust, sem konúngsfulltrúi sagði við aðra umræðu, að nefndin hafi stúngið upp á, að fara með innanríkismenn, *að Íslandi undan skildu*, eins og með utanríkismenn; þetta hefur nefndin hvorki munnlega nè skriflega sagt, og enginn þíngmanna. Það hefur engum dottið í hug, að gjöra greinarmun á milli Dana og Íslendínga. En hitt er í umræðu, hvort nú eigi að gjöra utanríkismönnum jöfn kjör við þau, sem Íslendíngar og Danir hafa, og það er uppástúnga nefndarinnar, að kjör þessi verði jöfn hèr, eins og þau eru jöfn í Danmörku. Það er kunnugt, að Danir hafa gjört samníng við mörg önnur lönd, og í þeim samníngum stendur, að skip frá öðrum löndum skuli hafa jafnan rètt og innanríkisskip; en það er undan tekið, að þetta jafnrètti nái ekki til nýlendanna, og þar með Íslands, Færeyja og Grænlands. Það er með öðrum orðum, að allur mismunurinn í þessu efni er sprottinn af því, að stjórnin hefur farið með Ísland, einkum í verzlunarmálinu, sem nýlendu. Nefndinni sýndist nú tími til, að enda þennan mismun, eins og allar nýlendureglur. Þetta er og bersýnilega samkvæmt tilgángi stjórnarinnar sjálfrar; því hún getur ekki neitað oss um jafnrètti lengur í þessari grein, og þau lög, sem ekki væru byggð á jafnrètti, gætu ekki verið nema til bráðabyrgða. Nú hefur nefndinni sýnzt tími til, að gjöra jafna reglu fyrir alla, og það væri undarlegt af oss, að fram fylgja mismuninum í þessu efni með tilliti til Íslands, þar sem vèr viljum í öllu öðru eiga jafnrètti við samþegna vora í öðrum hlutum ríkisins. Með tilliti til 3 dala gjaldsins, þá er enn einn ójöfnuður við það, nefnilega sá, að utanríkisskip, sem koma án farms, og það mundi opt verða um spánsk skip, sem sæktu híngað fisk, yrðu eptir því að borga eins hátt gjald og þau skip, sem hafa farm; og annar óhagnaður er sá enn, að ef 3 dala gjald er tekið, þá má fara utan við lagaboðið, og komast hjá gjaldinu með því,

að gjöra samníng við innlendis-kaupmenn, og láta farminn gánga undir þeirra nafni. Þess vegna hefur nefndinni fundizt það bezt fara, að setja gjaldið lágt og einfalt, og láta það gánga jafnt yfir alla.

*M. Stephensen*: Að því leyti, sem framsögumaðurinn áleit það lýti, að taka þessa ákvörðun um Þorlákshöfn inn í lagaboðið, þá get eg ekki verið því samþykkur, vegna þess, að ásigkomulag suðurhluta landsins er sérstaklegt og hvergi jafnhafnalaust hèr á landi, þar sem á 100 mílna svæði ein einasta höfn er til auk Þorlákshafnar. Það sýnist þó, sem flestir eigi að hafa gagn af verzluninni, en það fer öðruvísi, ef 3 hinar fjölmennustu sýslur landsins eiga að sækja í einn kaupstað, þar sem einn kaupmaður verzlar, auk allra annara nauðsynja, einnig við þann allan, sem þeir þurfa. Það er reynslan búin að sýna í nokkur ár, að fastakaupmenn ekki hafa notað leyfið, til að flytja vörur í Þorlákshöfn, og sama mun verða framvegis, og það svo lengi, sem kaupmenn vita, að sveitamenn verða að sækja á kauptúnin, hvað óhagánlega sem þau eru sett, og örðugt til þeirra að ná.

*P. Sigurðsson*: Eg er því samþykkur, að það sè þörf fyrir oss sýslubúa, að fá þetta leyfi, og eg get ekki sèð, að það þurfi að komast í bága við lagaboðið; það eru, hvort sem er, opt einstök leyfi gefin í almennum lagaboðum, og finnst mèr vera mikil þörf á, að kaupmönnum verði gjört hægt um flutnínga þar; Dyrhólaey er mikið hættulegri höfn, og eg get ekki annað, en mælt fram með því, að þetta leyfi fáist.

*G. Magnússon*: Eg hef áður gefið jákvæði mitt fyrir því, að utanríkismönnum væri leyft að flytja timburfarma til Þorlákshafnar. Eg játa reyndar, að þetta leyfi á ekki alls kostar vel inn í aðrar ákvarðanir nefndarálitsins, en nauðsynin er hèr svo ber og brýn, að eg get ekki annað, en ráðið fastlega til, að leyfi þetta sè veitt. Áður hefur borið til orða á alþíngi, að sett væri kauptún í Þorlákshöfn, og hafa flestir játað, að mikil nauðsyn væri á því, en það hefur þó orðið þessu til tálmunar, að mönnum hefur þótt legan við Þorlákshöfn ótrygg. Eg þekki nú leguna vel, og játa, að hún er ekki óhult fyrir miklum hafvindum, en allt að einu hefur reynslan þó sýnt, að skip hafa getað lagt þar að landi, af fermt þar og tekið farm aptur; þetta hafa skip gjört úr Keflavík fyrir nokkrum árum. Menn kynnu nú að segja, að kaupmenn frá öðrum verzlunarstöðum

á landinu gætu sent timbur til Þorlákshafnar; en eg vil svara, að þetta leyfi hafa þeir haft um nokkur ár og ekki notað það. Nú þætti mèr fýsilegt að vita, hvort Norðmönnum eða öðrum utanríkismönnum færi eins, að þeir notuðu ekki þetta leyfi, þó þeim væri veitt það, og sjá allir, hversu miklu hægra yrði fyrir verzluninni, ef menn mættu flytja beinlínis timbur til Þorlákshafnar, heldur en ef það ætti að gánga í gegnum Vestmannaeyjar eða aðra kaupstaði. Ef leyfi þetta verður ekki notað, þá verður ekkert tjón að því fyrir hina íslenzku verzlun, og sakar þá ekki, þó það sè veitt; en ef það verður notað, þá verður það ómetanlegur hagur fyrir meira en fimmta hlut alls landsins, það er fyrir Árnessýslu, Rángárvallasýslu og Skaptafellssýslurnar báðar, og er næsta ísjárvert fyrir þíngmenn, að gjalda neikvæði við slíkri ákvörðun.

*Framsögumaður*: Eg vil einúngis geta þess, að það er sitt hvað, hvað menn álíta nauðsynlegt fyrir einstök hèröð, og hvað menn eigi að taka í lagaboð. Það væri hið mesta ólag af þínginu, ef þetta yrði tekið upp í lagaboð; því það er grein, sem hvergi á við, og sem lýtir lagaboðið; það er lángt um betra, að biðja um það sèr á parti, þó það sè spursmál, hvort tími sè til þess nú. En eg vil þó bæta því við, að þíngmennirnir hafa enga vissu fyrir því, að utanríkismenn muni nota sèr þetta leyfi, til að koma á Þorlákshöfn, fremur en innanríkismenn híngað til; því bæði er hún ekki árennilegur staður, og þar að auki liggur Eyrarbakki þar rètt hjá, sem er bæði stærra og alkunnara kauptún.

*J. Briem*: Síðan eg kom austur, hefur optast verið timburekla á Eyrarbakka.

Með tilliti til þess, sem framsögumaður sagði í hinni fyrri ræðu sinni, og nú tók upp aptur, að ákvörðun um timburflutnínga til Þorlákshafnar væri svo sèrstaklegs eðlis, að hún ætti ekki heima í svo almennu lagaboði, sem þetta er, er nú er verið um að ræða, heldur ætti hún heima í sèrstöku lagaboði, þá finnst mèr í þessu vera nokkur mótsögn eða ósamkvæmni við það, er hann sagði, þá þetta mál var rætt hèr um daginn. Þegar til rætt varð um, hvort taka ætti greinirnar úr tilskipuninni frá 1816 inn í lög þessi, sagði hann, að það færi bezt á og væri hagfeldast fyrir útlenda menn, að allar þær ákvarðanir, sem snerta hina útlendu verzlun, og þeir þyrftu að vita, væru að finna á einum og sama stað, í sama lagaboði, og

held ég það sè rètt álitið. Nú er hèr farið fram á, að útlendir menn megi flytja timbur á Þorlákshöfn, og verði það samþykkt, þá er vitaskuld, að hinir útlendu menn þurfa að vita, að það sè leyfilegt, og er ég fullkomlega á, að ákvörðun um þetta eigi heima einmitt í þessum hinum almennu lögum, en ekki í sèrstöku lagaboði.

*St. Jónsson*: Eg gaf atkvæði mitt á móti þessari ákvörðun um Þorlákshöfn, og var það engan veginn af því, að eg vildi misunna löndum mínum þess hagnaðar, sem þeir gætu hlotið þar af, heldur hinu, að mèr þótti þessi grein engan veginn eiga hèr við, og það mundi að engum notum koma, að slíta Þorlákshöfn út úr því sambandi, sem hún var áður sett í við önnur kauptún hèr á landi. Árið 1849 var beðið um, að löggilda þetta kauptún ásamt nokkrum fleirum, og þar á meðal Sauðárkrók, en stjórnin hefur ekki svarað enn upp á það, og því áleit eg óþarfa, að taka fram um Þorlákshöfn sèr í lagi, að eg vonast eptir, að svar komi frá stjórninni, og það sem fyrst að verða má, annars hefði eg líka viljað gjöra breytíngaratkvæði, eða þó heldur uppástúngu, viðvíkjandi Sauðárkróki og hinum öðrum stöðum, sem honum stóðu jafnhliða í þessu efni; því ekki einúngis Skagfirðíngar, heldur og líka margir Húnvetníngar, beiddu um, að sá staður yrði löggilt kauptún. Eg ímyndaði mèr, að stjórnin mundi gefa svar viðvíkjandi öllum þeim stöðum í einu, svo það var ekki af vangá, að eg sleppti því áður. Að öðru leyti held eg, að menn ekki vinni mikið með þessu, hvað Þorlákshöfn snertir; því að leyfið fæst líklega bráðum eptir fyrri uppástúngum; hèr er einúngis umtalsefnið, að utanríkismenn fái að flytja þángað trjávið, en það eru litlar líkur til, að utanríkismenn byrji að sigla upp þær hafnir, sem eru annmörkum bundnar, eins og opt hefur verið sagt hèr á fyrri þíngum um Þorlákshöfn, og því held eg, að hlutaðeigendum sè enginn skaði gjörður, þó henni sè sleppt út úr þessu máli.

*Framsögumaður*: Eg get ekki kannast við þá mótsögn, sem þíngmaðurinn úr *Árnessýslu* þóttist finna; því þó rètt sè, að taka í lögboð það, sem beint þarf með, til að gjöra það greinilegt, þá leiðir ekki þar af, að allt hið sèrstaklegasta, sem ætti í einhverju tilliti skylt við lagaboðið, ætti að koma þar inn í. Það er hið sèrstaklega gagn þessa staðar, sem gjörir,

að það á ekki við, að taka hann fram sèr í lagi, framar en hvern annan stað, sem gæti þegið, að fá timburfarma.

*Halld. Jónsson*: Eg verð að taka það fram, að eg hef sèð mig um hönd viðvíkjandi þessu breytíngaratkvæði; mèr finnst það í rauninni ekki eiga við í almennu lagaboði. Eg ímynda mèr, að ef enginn fastur verzlunarmaður verður til, að flytja timburfarma á Þorlákshöfn, þá sèu ekki mikil líkindi til, að útlendir menn gjöri það. Það getur og hæglega hlotizt óregla af, ef utanríkismenn fá leyfi til, að flytja timbur á þennan eina stað fyrir utan kaupstaðina, þegar þar að auki ekki má flytja þángað annað en timbur.

*Jak. Guðmundsson*: Þegar 4. gr. nefndarálitsins var borin upp til atkvæða, þá gaf eg atkvæði á móti henni af fleirum en einni ástæðu. Mèr þótti fyrst og fremst greinin ekki vel orðuð í endanum. Framsögumaðurinn gat þess nú fyrir skemmstu, að nefndin hefði nú viljað varast, að sá misskilníngur gæti orðið, að menn kynnu að álíta eptir orðum greinarinnar Dani einasta undan þegna 14 marka og 36 skildínga gjaldinu, en ekki utanríkismenn 50 rbdd. gjaldinu. Eg var einn þeirra, sem vakti máls á, að þessi misskilníngur gæti á orðið, en eg efaðist þó einúngis um það, hvort greinin væri rètt orðuð, en engan veginn um hitt, hver að væri meiníng nefndarinnar; en nú hefur nefndin orðað hana mikið ljósara, þar sem hún hefur nú tekið upp endann af hinu nýja breytíngaratkvæði við grein þessa. Annað kom mèr og til, að mótmæla grein þessari, nefnilega það; að eptir uppástúngu nefndarinnar er nýr tollur lagður á Dani; og það var einmitt þessi nýi tollur, sem eg var hræddur um að mundi raska um of hinni núverandi verzlun, og spilla kaupverzlun vorri í bráð, meðan utanríkismenn kæmu hèr fáir. En hvað þessa jafnaðarreglu milli innan- og utanríkis- manna snertir, þá hef eg haft og hef enn þá sannfæríngu, að hún sè sú eina rètta grundvallarregla, þegar algjörlega frjáls verzlun ætti að komast á. En það varð nú að lokunum einúngis ágreiníngsefnið milli þíngmanna, hvort betra væri og hyggilegra nú í bráð, að gjöra lög þessi til bráðabyrgða þannig, að þau rýmkuðu nokkuð um verzlunina, svo menn gætu því fremur vænt þess, að þau yrðu fullgilt hið bráðasta, eða þá hitt, að gjöra þau nú þannig úr garði, að þau ákvæðu fullkomið verzlunarfrelsi, þó menn á þann hátt byggju að mega vænta þess, að verða að bíða þeirra nokkuð lengur. Eg var á þeirri mein-

íngunni, að það væri hyggilegra, að sættast á þessi bráðabyrgðalög í þetta skipti, en þó með því skilyrði, að tollurinn yrði svo færður niður á utanríkismönnum frá því, sem á er kveðið í stjórnarfrumvarpinu, að þeim yrði ekki gjört örðugt, að keppa við innanríkismenn um, að verzla hèr, og þess vegna studdi eg að því, þegar mitt upphaflega breytíngaratkvæði var fallið, að nýtt breytíngaratkvæði yrði borið upp við greinina, sem hèldi hinni núverandi verzlun óraskaðri, en ákvæði utanríkismönnum sama toll, og eg hafði áður gjört. Eg gjörði þetta með fram til þess, að sjá, hvort meiri hluti þíngsins væri mèr ekki meðmæltur í því, að vilja ekkert í þýngja hinni núverandi verzlun; en nú sè eg, að tilgángur minn er farinn (*P. Pètursson*: Engan veginn.), svo honum getur ekki orðið framgengt, því eg hef lagt mig eptir, að fá að vita með vissu meiníngar þíngmanna, og hversu þeir ætluðu að greiða atkvæði sitt í þessu máli, og hef eg komizt að því, að mjög margir eru öldúngis fráhverfir bráðabyrgðalögum í þessu efni, og sumir þeirra, sem áður voru mèr samdóma, hafa nú skýlaust sagt mèr rètt fyrir fundinn, að þeir væru frá horfnir, auk þess, sem að nú 3 menn hafa nú hèr á fundinum sagt sig frá hinu nýja breytíngaratkvæði. Það er nú ætíð vani minn, þegar eg hef einhverja þá skoðun, sem eg fyrir mitt leyti álít rètta og skynsamlega, en hún ekki fær framgáng, þá að taka þá skoðun eða það atkvæði, sem gengur næst minni skoðun, og halda með því, en láta það ekki ráðast af handahófi, hvort það, sem eptir minni skoðun er verst, eða þá ekki neitt, verður ofan á. Hèr er nú ekki um að gjöra nema tvær greinir; hin fyrri er sú upphaflega uppástúnga nefndarinnar, en hin síðari er hið nýja breytíngaratkvæði. Það væri því bæði heimskulegt og illgjarnt af mèr, ef eg nú ekki vildi styðja þá meiníngu, sem gengur minni næst, þegar minni meiníngu getur ekki orðið framgengt á annað borð, og þess vegna álít eg það ekki einúngis tilgángslaust, heldur og líka óskynsamlegt, að gefa atkvæði fyrir breytíngaratkvæðinu, en á móti því, sem eg verð þó að játa um, að eg vilji mikla heldur að verði ofan á, en ekki neitt.

*P. Pètursson*: Af því að eg þarf nú ekki að gjöra neina syndajátníngu í verzlunarmálinu, né eyða laungum tíma til þess, að búa til málsmildarræðu um það, hvernig eg hafi farið að breyta meiníngu minni frá því í fyrra dag, þá skal eg ekki lengja þíngræðurnar til muna með því, að vera fjölorður um breytíngarat-

kvæði þau, sem nú eru komin fram í þessu máli. Það sem að mínu áliti er einna merkilegast, það er breytíngaratkvæðið við 4. gr. Nefndarálitið kemur með nýja grundvallarreglu inn í verzlun vora og öll viðskipti vor við Dani, þar sem það vill leggja jafnmikið afgjald á verzlun utanríkis- og innanríkis-manna. Þetta er aðalatriði málsins, og um það var svo mikið talað við aðra umræðu, að eg get ekki skilið í öðru, en að flestum hljóti nú að vera það ljóst, hve miklu þetta mál skiptir.

Við aðra umræðu bar eg upp það breytíngaratkvæði, að utanríkismenn skyldu greiða 5 rbdd. af hverju lestarrúmi í skipum þeim, sem þeir koma híngað með til verzlunar, í stað þess að minni hluti nefndarinnar hafði stúngið upp á 4 rbdd. 5 dala gjaldið þótti mèr vera sanngjarnt, einkum þegar borgun fyrir leiðarbrèf væri þar í innifalin. Þetta þótti mèr sanngjarnt, segi eg, bæði þegar eg leit til þess ógnarlega munar, sem er á þessu gjaldi, og því, sem verið hefur, og til hins, að nefndarálitið hefur veitt utanríkismönnum meira frelsi í verzlun sinni, en eg hygg tíðkist í nokkru öðru landi, bæði með því, að leyfa þeim, að fara inn á alla verzlunarstaði, og selja landsmönnum alls konar óhófs- og óþarfa-varníng. Hèr á ofan bættist sú skoðun fyrir mèr, að alþíngi hefur einlægt, og seinast í hitt eð fyrra eða 1849, haldið fast við 5 dala gjaldið, og að það er komið að nokkru leyti í staðinn fyrir gjaldið *einn af hundraði*, sem sèst af tilskipun 1816 (Svo?). Eg hef því engan veginn með fúsu geði fallizt á það 3 rbdd. gjald, sem stúngið er upp á í þessu breytíngaratkvæði. En það eru nokkurs konar neyðarúrræði; því að hèr er ekki um að velja, nema það og uppástúngu nefndarinnar. Og þegar ekki er um að gjöra nema þetta tvennt, þá er breytíngaratkvæðið að því leyti betra, sem það ekki hrapar inn á nýja grundvallarreglu, sem mèr virðist í mörgu tilliti vera mjög ísjárverð og í ótíma upp borin; því það liggur þó í augum uppi, að hjá því getur naumast farið, að meginhluti af verzlun vorri verði að minnsta kosti fyrst um sinn við Dani, og að þær álögur, sem að vèr þannig legðum á þá, lenti á sjálfum oss, en eg sè enga ástæðu til að svo komnu, að ráða til, að leggja nýjar álögur á almenníng hèr. Að stjórnin hafi haft sama skilníng og nefndin á jafnrètti þjóða í verzlunarmálinu, verð eg að efast um, og eg held, að þetta sè komið af nokkrum misskilníngi á venjulegu skipsafgjaldi og því, sem hèr er komið

í tolls stað, og eg efast um, að það sè mögulegt, að gefa stjórninni nægar og sennilegar ástæður fyrir því, að vèr einmitt nú yfirgefum þá grundvallareglu, sem alþingi einlægt hefur fylgt, og eg held, að sú ósamkvæmni hljóti að vekja vantraust stjórnarinnar á tillögum vorum, þegar vèr höfnum því annað árið, sem vèr biðjum um hitt árið, og að þessi aðferð þíngsins hljóti að veikja það traust, sem nauðsynlegt er fyrir hvert þíng, að stjórnin beri á því og samhljóðun þess við sjálft sig, svo að stjórnin síður eptir en áður taki uppástúngur þíngmanna til greina, og því síður gefi þeim löggjafarvald. Eg segist halda, að það sè ómögulegt, að gefa stjórninni nægar og sennilegar ástæður fyrir því, að vèr einmitt nú, þvert á móti frumvarpi hennar, yfirgefum þá grundvallarreglu, sem alþíngi hefur einlægt fylgt, og það tjáir ekki að segja, að það sè eðlilegt, að skoða Dani sem útlenda þjóð, úr því menn ætli að biðja um aðskilda löggjöf og aðskilinn fjárhag; því einmitt þetta ætti að gjöra oss varkárari í verzlunarmálinu. Það hefði verið allt öðru máli að gegna, ef að einhverjar þvíngandi útvortis kríngumstæður hefðu neytt oss til þessa; en engar þess konar kríngumstæður hafa átt sèr stað síðan 1849, þegar alþíngi seinast stakk upp á þessum 5 dala tolli af utanríkismönnum. Og þó að nefndinni kunni að hafa þótt það vera samkvæmt álitsskjalinu í stjórnarskipunarmálinu, að láta þessa frjálsu verzlun vera samfara aðgreiníngu á löggjöf og fjárhag, þá verð eg þvert á móti að álíta, að ákvörðunin um verzlunina eigi einmitt að vera afleiðíng af aðskilnaðinum, og eg vil spyrja alla skynsama menn hèr á þínginu, og alla skynsama menn á landinu, hvort það sè hyggilegt, að vera þá einmitt að ota tolli að Dönum, þegar menn eru að biðja þá um aðskilnað á fjárhag og löggjöf.

*Framsögumaður*: Nefndin hefur ekki neitað því, að grundvallarregla hennar um jafnrètti innanríkis- og utanríkis-skipa í hinni íslenzku verzlun væri ný, en henni þótti nú vera kominn tími til þess, að þessi nýja skoðun kæmist á, en hin gamla skoðun hætti. En hver er þá sú hin gamla skoðun? Einmitt sú, að Ísland væri ekki annað en nýlenda, og þannig hefur verið farið með málefni þess, ekki sízt hvað verzlunina snertir. Eg játa nú, að nefndinni þótti kominn tími til þess, að þessi gamla skoðun hætti, og að ekki væri lengur farið með Ísland eins og nýlendu. Þetta kom og fram á alþíngi 1845,

að það vildi ekki hafa nýlenduskoðunina á Íslandi; því þá var kvartað yfir þeim böndum, sem væru á verzluninni; en 1849 var það kannske af hæversku fyrir alþíngi, að það bað einúngis um slíkan mismun á tollinum, sem ekki hamlaði verzluninni hèr. Og 1849 gaf stiptamtmaðurinn yfir Íslandi þínginu undir fótinn í þessu máli með því að segja: „Það hefur líka ætíð verið gagnstætt grundvallarreglu stjórnarinnar, að láta útanríkisskip borga meiri toll en innanríkisskip, og ef því 1. uppástúngunni í álitsskjali þíngsins hefði átt að fylgja, þá gat það að eins verið *til bráðabyrgða*, unz utanríkisskip fengju jafnrètti með innanríkisskipum". Því í þessum orðum stiptamtmannsins liggur bendíng til þíngsins, að það hefði átt að biðja um jafnrètti fyrir allar þjóðir, til þess að verzla hèr. Allur sá munur, sem menn gjörðu nú á tollinum, hversu lítill sem hann væri, hlýtur einmitt að vera byggður á eða vera leifar af hinni gömlu skoðun, og hagga þeirri grundvallarreglu, sem stjórnin hefur sjálf kannazt við að væri rètt. Það er því ekki rètt vegna grundvallarreglunnar, að þíngið fallist á breytíngaratkvæði það, sem nú hefur verið borið upp við 4. gr. í frumvarpinu. Eg er líka viss um, að enginn danskur maður tekur það illa upp fyrir oss, þó vèr gjörum öllum þjóðum jafnt undir höfði í verzlun við oss, þar sem þeir þó leyfa öllum þjóðum jafnt, að verzla við sig. Danir mundu miklu fremur liggja oss á hálsi fyrir það, ef vèr færum sjálfir að setja oss skör neðar, en samþegnar vorir, og þyrðum ekki að líta framan í þá. Eg get nú ekki gjört að því, þó að hinn 5. konúngkjörni þíngmaður vilji ekki fallast á þessa skoðun, en eg gjöri samt ráð fyrir því, að hann vilji ekki láta fara með Ísland eins og nýlendu í verzluninni, heldur að það fái hana svo frjálsa, sem unnt er.

*P. Pètursson*: Ef hinn heiðraði framsögumaður getur sannað það, að breytíngaratkvæði það, sem hèr er gjört við 4. gr. nefndarálitsins, mundi leiða til þess, að farið yrði með Ísland eins og nýlendu, þá játa eg, að það mundi veikja skoðun mína á kostum þess fram yfir nefndarálitið. En mèr virðist, að sá misskilníngur komi fram í nefndarálitinu, að nefndin hafi blandað saman tolli og skipsafgjaldi, og ekki gætt þess, að það skipsafgjald, sem hèr ræðir um, kemur auðsjáanlega í staðinn fyrir toll. Þetta er nú tekið fram í frumvarpi stjórnarinnar, og þar að auki hefur hinn háttvirti forseti við aðra umræðu máls þessa skýrt þínginu ljóslega frá því.

*Halld. Jónsson*: Eg vildi einúngis leyfa mèr að svara fám orðum upp á það, sem hinn háttvirti 5. konúngkjörni þíngmaður kom með í ræðu sinni áðan, að það mundi veikja traust stjórnarinnar á þínginu hèr, ef það breytti skoðun sinni. Þetta þykir mèr nú merkileg saga og harla ótrúleg; því eg held varla, að það mundi koma fyrir, nema því að eins, að stjórnin sæi, að þíngið breytti skoðun sinni til hins verra. Þvert á móti held eg, að það hlyti að styrkja traust stjórnarinnar á þínginu, ef hún sæi, að það breytti skoðun sinni til hins betra. Hinn sami konúngkjörni þíngmaður lýsti því og yfir, að hann vildi ekki auka tekjur af verzluninni að svo komnu. En eg verð þó að álita, að sá viðauki, sem nefndin hefur stúngið upp á, verði ekki óþarfur, hvernig svo sem fjárhagsviðskiptum Íslands og Danmerkur verður hagað. Það er auðsjáanlega ekki það sama fyrir landið, hvort það fær jafnmikið gjald af utanríkisskipum einum, eða öllum, sem hèr hafa verzlun; því það liggur í augum uppi, að það gæti heldur orðið verzluninni til hnekkis, ef það lægi eingaungu á nokkrum skipum, heldur en ef því væri jafnað niður á öll.

*B. Jónsson*: Hinn háttvirti 5. konúngkjörni þíngmaður benti hinum 2. fulltrúa úr Reykjavíkurbæ á, að það væri ekki nauðsyn fyrir mann, að rekja skoðun sína; en ei að síður ætla eg að lýsa því yfir, að eins og þíngbókin mun sýna var eg við aðra umræðu máls þessa á því, að það væri hagfeldara, að leggja enga nýja álögu á Dani fyrst um sinn, en leggja jafnt gjald á hina útlendu verzlun því, sem nú er á hinni innlendu, í 5 næstu árin. Þegar eg sá nú, hvað breytíngaratkvæðinu leið, og að því varð ekki framgengt, þá áleit eg rèttara, að aðhyllast það, er mèr þótti sanngjarnara, en það var að leggja heldur 2 rbdd. gjaldið á alla verzlunarmenn, en 5 rbdd. á utanríkismenn eina, og þess vegna gaf eg því þá jákvæði mitt. Eg vil nú leyfa mèr að koma með eitt dæmi, til þess að sýna með því, hvernig eg hef litið og lít enn á mál þetta. Þeir menn, sem hèr búa nærlendis, skyldu nú hafa alla sína verzlun við kaupmenn þá, sem í Reykjavík búa, og vera í reikníngum hjá þeim, eins og eg gjöri ráð fyrir að líka sè. Nú skyldu aðrir nýir menn koma lángt að, t. a. m. norðan úr landi eða austan af Síðu, sem aldrei hefðu haft hèr reiknínga fyrri í Reykjavík, og bjóðast til, að verzla við kaupmennina, ef þeir fengju sama verðlag og sömu kosti, og hinir fyr nefndu. Þá skyldu nú

kaupmennirnir svara: „Nei, það getið þèr ekki fengið; vèr verðum að leggja nýjar álögur á yður“. „Og því þá það?“ „Af því að þèr eruð svo lángt að komnir, og hafið haft miklu meiri kostnað og erfiðleika fyrir því, að sækja híngað, en hinir, og af því, að þèr hafið heldur aldrei komið híngað áður“. Mèr finnst nú þessi aðferð vera öldúngis gagnstæð öllum verzlunaranda og fjarleit öllum kaupmannsreglum, að gjöra þeim sem örðugast fyrir, er menn vilja hæna að sèr til verzlunar. Eg er þess vegna á því, að hèr eigi bezt við jafnrètti, og því meira sem eg hugsa um það, því framar styrkist sannfæríng mín um, að það sè samkvæmast högum og ástandi lands vors, að vèr gjörum öllum jafnlètt, að verzla við oss.

*Á. Böðvarsson*: Áður en gengið er til atkvæða um 4. gr. nefndarálitsins og breytíngaratkvæði það, sem við hana á, vil eg enn einu sinni láta í ljósi meiníngu mína um það, hvers vegna eg við aðra umræðu neitaði hinum jafna tolli. Mèr finnst það nefnilega, eins og nú stendur á fyrir oss, ekki *póli-tiskt* rètt, að leggja þar á nokkurn toll, sem ekki var áður, og ekki heldur, eins og á stendur, þó sannað yrði, að vèr legðum tollinn á sjálfa oss, er nefndarmenn hafa þó að nokkru leyti haft sem rèttlætíng fyrir álögum tollsins. Eg verð nú alveg að vera samþykkur höfuðaugnamiði nefndarinnar, að bezt eigi við, að allir hafi jafnfrjálsan aðgáng að oss í verzluninni, og eg vildi óska, að allar þjóðir gjörðu sig þess sem fyrst maklegar. En eg er samt ekki enn kominn í nægan skilníng um, að ekki sè Dönum neinn skaði, þó á verzlun þeirra hèr sè nú lagður tollur af því, að hann er jafn við aðrar þjóðir. Mundi það ekki t. a. m. vera hnekkir verzlun Dana, ef vèr nú legðum á þá 50 dala gjald á lestarrúm hvert, eins fyrir það, þó það hèldist á útlendum þjóðum. Eg ímynda mèr, að þeir mundu gjöra slíkt hið sama, og hinar þjóðirnar hafa gjört, að koma híngað alls ekki. Hèr er nú reyndar öðru máli að gegna, þar sem tollurinn er settur svo lágur, ekki nema 2 rbdd. Þess vegna játa eg fúslega, að stefna nefndarálitsins sè sanngjörn og rètt í sjálfu sèr, en sökum kríngumstæðanna þori eg samt ekki að gefa þessum jafna tolli atkvæði mitt, þó það sè nú öðruvísi orðið en áður, þegar meiníngin er hin sama. Eg þykist og hafa sýnt það með dæminu, sem eg tók, að jöfnuðurinn sè hèr ekki einhlítur.

*J. Skaptason*: Hinn háttvirti 5. konúngkjörni þíngmaður

sagði það áðan, að nefndin hefði inn fært nýja grundvallarreglu í verzlun vor Íslendínga við Dani; en þessi nýja grundvallarregla er, að láta alla, bæði fastakaupmenn og lausakaupmenn, borga jafnmikið gjald, svo að eptir þessari grundvallarreglu er jöfnuðurinn öldúngis hinn sami og áður; því þeir hafa híngað til verið tollfríir hvorirtveggja. Þess vegna er þessi grundvallarregla nefndarinnar öldúngis ekki ný, heldur einmitt gömul.

*Framsögumaður*: Eg gat ekki betur sèð, en það kæmi fram sami misskilníngur í orðum þíngmannsins úr Snæfellsnessýslu, sem hjá öðrum hefur lýst sèr hèr á þíngi, að nefndin vilji láta Dani sæta harðari kostum í verzluninni en Íslendínga. En í þessu er engin hæfa; því það er þvert á móti tilgángur nefndarinnar, eins og sjálfsagt er, að Danir og Íslendíngar hafi jafnan rètt. Nefndin byggir á því, að vèr eigum að hafa þennan jöfnuð við að vorri hálfu, jafnvèl þó að stjórnin hafi að sínu leyti ekki gjört það, heldur skoðað Ísland eins og nýlendu. Nefndin vill og, að utanríkismenn njóti sama rèttar hèr, eins og Danir láta þá njóta hjá sèr. Það er þess vegna ekki annað en misskilníngur, að nefndin hafi viljað gjöra nokkurn mun á Dönum eða öðrum innanríkismönnum og Íslendíngum, og vil eg biðja menn, að hafa það hugfast.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg var einn af þeim, sem gaf jákvæði mitt fyrir breytíngaratkvæðinu um Þorlákshöfn við aðra umræðu þessa máls, en eg sè, að nefndin hefur nú viljað sleppa þeirri klausu öldúngis úr, þó hún áður fengi atkvæðafjölda, en aptur hafa 10 menn stúngið upp á því, að ákvörðuninni um Þorlákshöfn væri stúngið inn í 2. gr. í nefndarinnar uppástúngum, og eg get ekki sèð, að hún eigi þar illa við; því þá verður greinin þannig orðuð: „Utanríkismenn mega sigla upp öll löggild kauptún á Íslandi til verzlunar; einnig flytja og selja timburfarma á Þorlákshöfn". Þar á móti kann eg ver við, að hún hefði verið látin standa þar í greininni, sem nefndin hafði sett hana. Hvað nú 4. gr. í nefndarinnar uppástúngum viðvíkur, þá hef eg áður látið það í ljósi, að það væri ósanngjarnt, að láta Dani og Íslendínga sæta sömu kostum og utanríkismenn, sem annaðhvort sýndu oss litla eða enga sanngirni, og skírskota eg því til þess, sem eg hef áður sagt um það efni; og gefa skyldi eg atkvæði mitt fyrir 5 rbdd. tolli frumvarpsins, ef þess væri kostur. Hann er tekinn úr tilskip-

uninni frá 11. september 1816, eða ér samkvæmur henni, og þurfa menn í því tilliti ekki annað, en að lesa 17. gr. í henni.

*Forseti*: Eg skal leyfa mèr að benda hinum háttvirta 1. konúngkjörna þíngmanni á það, að nú getur ekki annað komið til umræðu og atkvæða, en breytíngaratkvæðið um 3 rbdd. tollinn og nefndarálitið.

*H. Stephensen*: Það er nú líka að því komið fyrir mèr, að eg má gjöra játníngu mína, þó það sè ekki nein syndajátníng; því að um daginn gaf eg breytíngaratkvæðinu um Þorlákshöfn atkvæði mitt; en meðnefndarmenn mínir hafa tekið fram þær ástæður, sem hafa snúið mèr til þess, að breyta þessu jái mínu í fullkomnasta nei. Auk þess að eg verð að álíta það óhæfu, þrátt fyrir ræðu hins 1. konúngkjörna þíngmanns, að slík ákvörðun sè höfð í almennum lögum, þá sè eg og annan annmarka á breytíngaratkvæðinu, en það er, að það út rýmir jafnrèttinu á milli danskra og útlendra lausakaupmanna; því að hinum dönsku lausakaupmönnum er ekki fyrir það leyft, að flytja og selja timbur á Þorlákshöfn, heldur einúngis hinum útlendu. Og það vildi eg sízt að sæist eptir nefndina eða þíngið, að þeim væri slíkur ójöfnuður gjör, Dönum. Það er nú búið að tala mikið um 4. gr. nefndarálitsins, svo að eg álít það óþarfa fyrir mig, að fjölyrða um hana, en eg vil þó einúngis benda þíngmönnum á, hvernig mèr skilst að fara muni eptir breytíngaratkvæði því, sem nú er borið upp við hana um 3 rbdd. tollinn; því ef að því verður framgengt, þá sè eg ekki betur, en að 3 rbdd. gjaldið leggist einnig á hvert lestarrúm á öllum þeim timburförmum, sem til Íslands koma frá utanríkismönnum (*Jón Guðmundsson*: Mikið rètt!), en eg ímynda mèr, að engum þyki neinn hagnaður í því, að þetta kæmist á.

*Forseti*: Eg held, að það sè misskilníngur, að þetta 3 rbdd. gjald lenti á öllum timburförmum, sem híngað yrðu fluttir, þó að breytíngaratkvæðinu yrði framgengt; því það er skýlaust tekið fram í ástæðum frumvarpsins, að það skuli framvegis haldast í gildi, sem ákveðið er um gjaldfrelsi fyrir timburfarma í opnum brèfum frá 1. júní 1821 og 22. marz 1839, og eptir rèttri lagaþýðíngu yrðu þessi sèrstaklegu lög allt eins að vera gildandi fyrir það, þó nefndarálitið fengi framgáng.

*H. Stephensen*: Hèr er nú ekki lengur verið að ræða um stjórnarfrumvarpið, heldur um nefndarálitið með þeim breytíngum, sem við það eru gjörðar, og ef breytíngaratkvæðið fengi

framgáng, liggur það eptir minni ætlun beint við, að 3 rbdd. gjaldið legðist einnig á alla timburfarma.

*Forseti*: Það er þó sjálfsagt, að nefndarálitið, hvort sem það verður samþykkt eða ekki, kemur öldúngis í staðinn fyrir frumvarp stjórnarinnar, svo að ákvarðanirnar í hinum nýnefndu opnu brèfum um tollfrelsi á timburförmum verða eins gildandi hèr eptir fyrir það.

*G. Einarsson*: Jafnvel þó að hinir innlendu verzlunarmenn hafi ekki notað sèr það leyfi, að mega flytja timburfarma á Þorlákshöfn, þá kynnu menn að hugsa, að utanríkismenn yrðu fúsari til þess. En allt um það vildi eg ráða uppástúngumönnunum til þess, að kalla aptur breytíngaratkvæði sitt, en koma heldur með nýja sèrstaka uppástúngu um þetta; því þá ætla eg, að margir mundu verða henni samþykkir. Og eg fyrir mitt leyti skyldi þá stuðla til þess, að henni yrði framgengt, en nú get eg ekki annað, en gefið atkvæði mitt móti því, að þessi ákvörðun sè tekin inn í þessa lagauppástúngu.

*Á. Böðvarsson*: Hvað það snertir, sem hinn heiðraði framsögumaður mælti áðan, að eg mundi skilja nefndarálitið á þá leið, að þar væri gjörður munur á Dönum og Íslendíngum hvað verzlunarfrelsi snertir, þá verð eg að láta hann vita, að það var ekki svo, heldur var það meiníng mín, að þíngið með því, að samþykkja 4. gr. nefndarálitsins, gjörði bæði Íslendíngum og Dönum í sameiníngu þýngri kosti, en það þyrfti með, í samanburði við aðrar þjóðir; því það finnst mèr óþarfi.

*Framsögumaður*: Eg get nú ekki sèð neina verulega bót í því, þó að 4. gr. í nefndarálitinu yrði orðuð þannig: „Utanríkismenn mega sigla upp öll löggild kauptún á Íslandi til verzlunar; einnig flytja og selja timburfarma á Þorlákshöfn", eins og hinn háttvirti 1. konúngkjörni þíngmaður mælti fram með; en það sè eg, að Þorlákshöfn fær betri styrk hjá þessum þíngmanni núna, en hún hefur fengið hjá honum á hinum fyrri þíngum, og er það gott fyrir hana. Það er þó auðsèð, að slík ákvörðun í almennu lagaboði væri mjög undarleg, og það lægi þá eins beint við að segja: „einnig í Grindavík, einnig á Bátsendum, einnig á Þórshöfn", og þannig mætti þá telja upp alla þá staði á Íslandi, sem vel þættu liggja við timburflutníngum.

*Jón Guðmundsson*: Hinn háttvirti forseti gat þess í ræðu sinni áðan, að eptir hinni eldri löggjöf væru timburfarmar

gjaldfríir, þó að breytíngaratkvæðinu við 4. gr. nefndarálitsins yrði framgengt. En þessu get eg ekki verið samþykkur; því það er bert, að ef svo væri, þá hefði ekki þurft við aðra umræðu málsins, að taka breytíngaratkvæði hins 2. þíngmanns úr Reykjavík, um undanþágu timburfarma undan tollinum, til atkvæða. En nú var það gjört, og samþykkt og tekið inn í 4. gr. nefndarálitsins, og með því hefur þíngið látið það álit í ljósi, að timburfarmar væru ekki eptir eldri löggjöf skýlaust undan þegnir álögum. Og þar sem nú með því breytíngaratkvæði, sem þessir 10 menn eða 7, eða hvað þeir eru nú orðnir margir, nú bera upp, er einmitt stúngið upp á, að ný grein komi í stað 4. gr., eins og hún var orðin við aðra umræðu, en í þessari nýju grein er ekkert talað um, að timbur sè frítt, þá liggur það beint við, að þetta 3 rbdd. gjald, sem breytíngaratkvæðið fer fram á, verði einnig lagt á timburfarma, ef þjóðfundurinn gefur því atkvæði. Eg hef nú tekið þetta fram, því ef að timburfarmar væru skýlaust gjaldfríir eptir hinni eldri löggjöf, mundi ekki hinn háttvirti forseti hafa látið breytíngaratkvæði þíngmannsins úr Reykjavík koma til umræðu nè atkvæða, en þetta er þó einmitt gjört, bæði af honum og þínginu. Það er nú ekki margt annað, sem eg þarf eða get bætt við það, er meðnefndarmenn mínir hafa sagt. Hvað timburflutníngana til Þorlákshafnar snertir, þá verð eg að vera því eins ósamþykkur, að breytíngaratkvæðið um það sè tekið inn í þetta frumvarp, eins og eg mundi verða því samþykkur, ef gjörð væri um það ný uppástúnga; því til þess vil eg af alefli stuðla, að landsmönnum sè hvervetna gjört sem hægast fyrir hvað verzlun og vöruflutnínga snertir. Hinn 1. þíngmaður úr Árnessýslu hefur ætlað að mæla breytíngaratkvæðinu bót, þegar hann sagði, að ef engir utanríkismenn kæmu til Þorlákshafnar, þá gæti ekki breytíngaratkvæðið bagað verzlunina; en það er ekki heldur það, sem nefndin er hrædd um, heldur einmitt, að það bagi frumvarp nefndarinnar og gjöri það óskipulegt. Hvað nú ræðu hins 5. konúngkjörna þíngmanns viðvíkur, þá er þegar búið að svara flestu í henni. En það var þar eitt meðal annars, sem mèr þótti kynlegt, en það var, að hann sagði, að stjórninni mundi blöskra ósamstemman í þíngum vorum.

*P. Pètursson*: Eg hef aldrei sagt það.

*Jón Guðmundsson*: Jú, það er víst; því eg skrifaði orð-

in upp eptir þíngmanninum, þegar hann talaði þau, og eg vil biðja skrifarana, að gæta að því hjá sèr.

*P. Pètursson*: Jú, það vil eg líka biðja þá um.

*þíngskrifararnir*: Ekki höfum við bókað þessi orð eptir þíngmanninum.

*Jón Guðmundsson*: Hann sagði þó öldúngis víst eitthvað á þá leið, eða að stjórnin mundi verða hissa á þeirri ósamkvæmni, sem lýsti sèr hèr á þíngum, ef nefndarálitinu yrði framgengt. En eg vil spyrja hinn háttvirta þíngmann, hvers vegna stjórnin hefur þá ekki gengið að 5 rbdd. tollinum, sem alþíngi stakk upp á 1845. Og þó að stjórnin hafi síðan, eptir því sem stiptamtmaðurinn yfir Íslandi 1849 sagði, leitað álits hjá mörgum hinum helztu mönnum í ríkinu um þennan 5 dala toll, þá hefur þó þessi blessaður tollur ekki komizt á hingað til. Með þessu hefur stjórnin einmitt sýnt það, að henni geðjast ekki að honum. Að sönnu hefur hún nú stúngið upp á 5 rbdd. tollinum í frumvarpi því, sem lagt hefur verið fyrir þetta þíng; en því hefur stjórnin ekki gjört hann að lögum, þar sem þíngið hefur stúngið upp á honum áður tvisvar sinnum? Hinn sami þíngmaður gat og þess, að hann fyndi enga ástæðu til þess, að búa til nýjar álögur á almenníng, eins og nefndarálitið gjörði með því, að leggja einnig gjald á innanríkismenn. En mundi ekki hið sama verða ofan á, ef 5 dala gjaldinu á hina útlendu verzlun yrði framgengt, eins og hann er að berjast fyrir? Eg er hræddur um, að við það yrðu ekki álögurnar á alþýðu mikið vægari. Það má nú annars benda hinum heiðraða þíngmanni á, hvers vegna stjórnin mun ekki hafa fallizt á 5 dala uppástúngu alþíngis; því þegar rætt var um verzlun Færeyínga á umdæmaþínginu í Hróarskeldu hèrna um árið, þá var það tekið fram, að ef verzlunin á Færeyjum ætti að verða frjáls, þá yrði að gæta þess, að allar þjóðir fengju jafnrètti, til þess að það yrði ekki sama kákið úr því, og með verzlunina á Íslandi. Þessu jafnrètti í verzluninni hefur og stjórnin sjálf farið fram við aðrar þjóðir, eins og hinn heiðraði framsögumaður hefur áður á vikið. Að öðru leyti er eg samþykkur þeirri skoðun, sem hèr hefur komið fram á þínginu í dag, að það sè rèttara, til þess að spilla ekki fyrir góðu málefni, að slaka til, heldur en að berja fram einhverja meiníngu, sem maður veit að ekki getur fengið framgáng.

*Ó. E. Johnsen*: Hvað nú breytíngaratkvæðinu um timbur-

flutníngana á Þorlákshöfn viðvíkur, þá verð eg að lýsa því yfir, að eg get ómögulega verið því meðmæltur; því mèr finnst það eiga svo illa við nefndarálitið sem verzlunarlög, að mèr liggur við að segja, eins og einn góður maður hefur áður sagt, að það komi þar inn í eins og fjandinn úr sauðarleggnum, og eg vil með engu móti láta spilla svo kostulegu verki, eins og nefndarálitið er. Ekki get eg heldur fallizt á breytíngaratkvæðið um 3 rbdd. gjaldið; því mèr finnst það lýsa einhverjum aumíngjaanda, og líkara því, að Grænlendíngar mundu hafa gjört slíkt breytíngaratkvæði; en eg vil nú vera frjáls Íslendíngur, og enginn Grænlendíngur.

*P. Pálsson*: Eg man þó ekki betur, en að þessi þíngmaður, sem nú settist niður, bæri upp breytíngaratkvæði við aðra umræðu einmitt við þessa 4. gr. í nefndarálitinu, en hann yfirgaf það aptur, og fèllst eingaungu á nefndarálitið. Eg felldi mig bezt við þetta 28. breytíngaratkvæði, og gaf því þess vegna, ásamt nokkrum þíngmönnum, atkvæði mitt, en því varð nú ekki framgengt, og má tala margt bæði með því og móti, sem eg vil ekki lengja þíngræður með að þessu sinni. Nú var eg aptur einn af þeim, sem fèllust á hið nýja breytíngaratkvæði við 4. gr. í nefndarálitinu; en þegar eg sè, að því getur nú ekki orðið framgengt, þá vil eg ekki fylgja því fast fram, og kemur það ekki af neinum gúnguskap, heldur af því, að eg vil ekki skemma málefnið að endilaungu.

*Ó. E. Johnsen*: Eg verð að þakka hinum heiðraða þíngmanni fyrir það, að hann tók að sèr breytíngaratkvæðið mitt, þó eg hefði sjálfur sleppt því, en það gjörði eg með breyttri sannfæríngu minni.

*J. hreppst. Sigurðsson*: Mèr er það nú óglöggt, við hvaða reglu að breytíngaratkvæðið um 3 rbdd. gjaldið er bundið. Þá eg las fyrst nefndarálitið, sá eg, að hèr var um 2 reglur að gjöra, nefndarinnar og stjórnarfrumvarpsins, og eg hèlt, að jafnrèttisregla sú, sem nefndarálitið fylgdi, væri einmitt hin rètta; og mèr þótti jafnaðarreglan allt af viðkunnanlegri, en sú regla, sem stjórnarfrumvarpið fylgdi með 5 rbdd. tollinn; en mèr þótti það nokkurt efunarmál, hvort að nú væri kominn rèttur tími til, að bera upp þessa jafnrèttisuppástúngu, sem nefndarálitið fer fram á; því eg ímyndaði mèr, að það kynni að verða málefninu til fyrirstöðu, af því það mundi verða óvinsælt hjá Dönum, og að þeir kynnu að draga mál þetta und-

ir ríkisdaginn, svo að vèr fengjum enga eður litla áheyrslu; en af því eg vildi ekki spilla fyrir svo mikilvægu málefni, þá hallaðist eg að frumvarpi stjórnarinnar í þeirri von, að það mundi fást, sem þar væri farið fram á. En þegar eg nú sá, að minni hluti nefndarinnar lækkaði þennan toll, þá hallaðist eg að því, af því það munaði ekki mikið frá uppástúngu stjórnarinnar, en kynni að vera nokkuð aðgengilegra fyrir utanríkismenn. Nú er búið að fella bæði uppástúngu minna hluta nefndarinnar og frumvarpsins sömuleiðis, og með því eg viðurkenni, að jafnaðarreglan sè rètt, hvort sem hún fæst nú eða ekki, þá hallast eg nú að áliti nefndarinnar, en ekki að breytíngaratkvæðinu.

*G. Brandsson*: Það hefur nú verið margrætt um það, hvaða reglu stjórnin hafi viljað fylgja fram í verzlunarmálinu, og margir hafa sagt, að þessi regla hafi verið jafnrètti, og því til sönnunar hafa þeir borið fyrir orð stiptamtmannsins á alþíngi 1849, þar sem hann segir, að það hafi *ætíð* verið skoðun stjórnarinnar, að öllum þjóðum ætti að gefast kostur á, að verzla með jöfnum rètti; en eg held nú, að reynslan sýni það einmitt, að þetta hafi ekki ætíð verið skoðun hennar, og það tjáir ekki að segja það, fyrst það verður ekki sannað, eins og ekki er heldur hægt, hvað hina íslenzku verzlun snertir. Framsögumaðurinn, sem 1849 var í verzlunarmálinu, og nú er einn af nefndarmönnum í hinu sama máli, svaraði ræðu stiptamtmannsins á þá leið, að 5 rbdd. tollurinn væri til þess, að hin danska verzlun umturnaðist ekki allt í einu, að hverju fastakaupmönnum hèr gæti orðið skaði mikill, og það sama held eg að enn mætti segja. Að sönnu álít eg, að grundvallarregla nefndarinnar sè í raun og veru hin rètta, en annað mál er það, hvort hún er á hentugum tíma upp borin. Eg get ímyndað mèr, að það yrði hægra, að koma henni við seinna; enda er ekki sèð, að af henni flyti strax mikill hagur, á meðan ágæti hinnar útlendu verzlunar er öldúngis óreynt; því eg hef ætíð lítið traust á mjög snöggum breytíngum, í hverju sem vera skal.

*S. Hallgrímsson*: Það er hvorttveggja, að tollálögur hafa lengi verið þrætuepli á milli þjóðanna, enda hafa þær líka verið mikið þrætuefni milli þessara þíngmanna. Eg neita því engan veginn, að sumir af þeim, sem mest hafa mælt í móti jafnaðarrèttishugmynd nefndarinnar, er leggja vill 2 dala tollinn jafnt á allar þjóðir, hafa otað fram allískyggilegum grílum, sem

sannarlega hafa gjört sitt til, að aptra mönnum frá, að aðhyllast nefndarálitið í þessari grein; en eins og eg sagði seinast, þá getur mèr ekki betur sýnzt, en að framsögumaður hafi brugðið því ljósi upp á þínginu, að hver maður verður að sjá, að grílur þessar eru ekki annað en skuggamyndir. Eg ætla því ekki að láta þær hafa neinar *ákrifur* á huga minn í atkvæðagreiðslunni um þetta mál, og eg álít það skyldu mína, að vera þá að eins varkár, þegar um veruleg hræðslugæði er að gjöra; en hitt er ekki verðugt, að hræðast einberar skuggamyndir og grílusvipi eina, og vegna þeirrar hræðslu víkja frá því, sem maður hefur þó játað að væri rètt og sönn grundvallarregla.

*Framsögumaður*: Hinn heiðraði 2. þíngmaður úr Skaptafellssýslu sagði áðan, að við 2. umræðu þessa máls hefði hann fallizt á 28. breytíngaratkvæði, sem að stíngur upp á 14 marka gjaldi af utanríkismönnum, þar sem nefndin stíngur upp á 2 dala gjaldi. Það er því auðsèð, að þegar 28. breytíngaratkvæðið var fallið, þá voru 2 dalir nær honum en 4 rbdd., sem minni hluti nefndarinnar stakk upp á. Nú er enn komið nýtt breytíngaratkvæði, sem fer fram á 3 rbdd., svo að þíngmaðurinn er enn nær nefndarinnar uppástúngu, heldur en þessa breytíngaratkvæðis. Eg get því ekki sèð neina samkvæmni í því, að hann vill nú fallast á 3 dala gjaldið, sem liggur tveim mörkum fjær honum, en uppástúnga nefndarinnar. Hinn 2. þíngmaður úr Gullbríngusýslu beiddist áðan sönnunar á þeim orðum stiptamtmannsins á alþíngi 1849, að það hafi ætíð verið skoðun stjórnarinnar, að fylgja fram jafnrètti í verzluninni, og eg held, að eg geti sannað honum það, ef hann vill, ekki að sönnu á hinni íslenzku verzlun, heldur á allri annari verzlun Dana. Þetta sýna nefnilega allir þeir verzlunarsamníngar, sem Danir hafa gjört við aðrar þjóðir allt síðan á umliðinni öld, og það fram á þennan dag. En satt er það, að í þessum samníngum kemur þetta jafnrètti hvergi fram á hinni íslenzku verzlun; því þeir undan taka einmitt allir Ísland, Færeyjar og Grænland, ásamt öðrum nýlendum Danakonúngs. En nefndinni fannst það nú rètt, að lýsa því yfir, að nú væri og tími til kominn, að fara að byggja á þessari grundvallarreglu, einnig hvað verzlun Íslands áhrærir; því þó menn ætluðu nú að hafa það eins og hnykk við stjórnina, að láta hana ekki vita sína sönnu meiníngu, fyr en síðar, þegar fullt löggjafarvald væri fengið,

þá held eg, að það mundi lítið stoða; því stjórnin mundi sjá, að ekki væri undir því að eiga.

*G. Brandsson*: Eg verð að biðja framsögumanninn, að gæta þess, að eg talaði einúngis um hina íslenzku verzlun; því eg áleit hana aðalumtalsefnið núna.

*L. Johnsen*: Þegar mál þetta kom til annarar umræðu hèr á þínginu, lýsti eg því yfir, að eg gæti ekki fallizt á nefndarálitið viðvíkjandi tollinum, og var eg þá þess vegna með breytíngaratkvæði minna hluta nefndarinnar. Nú var eg aptur einn af þeim, sem báru upp breytíngaratkvæðið um 3 dala tollinn, og er eg enn ekki kominn á aðra skoðun, en þá sem eg hafði í öndverðu á máli þessu, svo eg fylgi fram þessu sama breytíngaratkvæði; því þó sumir sèu þegar búnir að veita því nábjargirnar, og einn hafi haldið yfir því lánga líkræðu, þá get eg þó ekki álitið, að það sè fallið enn. Eg vil nú ekki fara að tala um grundvallarreglu nefndarinnar; hún er máske rètt, en eg held, að það sè ekki sem heppilegastur tími til þess, að fylgja henni nú fram. Eg ætla ekki heldur að fara að tala um grílur þíngmannsins úr Borgarfjarðarsýslu; því eg hef ekki orðið þeirra var, og get því ekki hræðzt þær. Það var ekki af hugleysi, að eg vildi ekki fallast á uppástúngu nefndarinnar um 2 rbdd. tollinn, og það er ekki heldur af þrákelkni eða ástæðulaust, að eg verð að fylgja þessu breytíngaratkvæði fram, heldur af því, að eg álít það svo mikils umvarðandi málefni, og þess vegna vildi eg óska, að þíngmenn íhuguðu það vel, áður en til atkvæða er gengið. Það hafa þegar margar þúsundir radda hljómað um það, að frjáls verzlun fengist, það er að segja um það, að allar þjóðir mættu koma til Íslands til verzlunar, og eg er viss um, að allir þíngmenn æskja þess; en vèr ættum þá ekki heldur, að fara neinu því fram, sem gæti orðið þessu til fyrirstöðu, eða sem vèr seinna meir þyrftum að iðrast eptir. Það væri og ábyrgð fyrir oss, ef það hlytist af aðgjörðum vorum, að ekkert verzlunarfrelsi fengist.

*K. Kristjánsson*: Þíngmaðurinn, sem núna settist niður, sagði í tölu sinni, að hann hefði ekki orðið var við neinar grílur, og þyrfti því ekki að hræðast þær, en hann endar þó ræðu sína með því, að játa, að hann hræðist þessar grílur. Eg játa það fyrir mitt leyti, að eg hef verið mótfallinn nefndarálitinu, en á annan hátt og af öðrum ástæðum, heldur en hann og svo margir aðrir. Eg hef allt af skoðað verzlunina frá sjónarmiði lands-

ins, og skoðað hana þá bæði sem fasta verzlun og lausa verzlun. Það var tilgángur minn, að leggja nokkurn toll á þessa lausu verzlun, sem samsvaraði þeim meiri kostnaði, er hin fasta verzlun er bundin. En þegar eg nú sá, að þessi skoðun var fallin um koll, og gat ekki orðið framgengt á þínginu, þá áleit eg óþarfa, að berjast lengur fyrir eintómum hugarburði, og hef eg því fylgt þessu breytíngaratkvæði, sem hèr ræðir um til grafarinnar, einmitt til að spara þíngmönnum tíma og umræður út af því.

*Forseti* skaut því til þíngsins, hvort það vildi heldur gefa atkvæði um öll breytíngaratkvæðin í einu lagi, eða þá fyrst um fyrri kaflann, og af því nokkrir þíngmenn æsktu þess, að heldur væru greidd atkvæði um fyrsta kaflann, þá lèt forseti gánga til atkvæða, og urðu þau á þessa leið:

1. breytíngaratkvæði var samþykkt með 26 atkvæðum gegn 13.
2. breytíngaratkvæði var frá þessum 15 mönnum: *M. Stephensen, B. Halldórssyni, J. Briem, P. Sigurðssyni, L. Johnsen, Ó. Briem, Jak. Guðmundssyni, M. Gíslasyni, Þ. Kristjánssyni, H. G. Thordersen, P. Melsteð* sýslumanni, *P. Pálssyni, J.* bónda *Jónssyni, G. Magnússyni, Þ. Sveinbjörnssyni;* var það þá álitið fallið, þegar hið 1. var samþykkt.
3. breytíngaratkvæði var frá þessum 10 mönnum: *L. Johnsen, K. Kristjánssyni, P. Pálssyni, G. Einarssyni, Þ. Sivertsen, J.* hreppst. *Jónssyni, M. Austmann, Ó. Briem, Á. Böðvarssyni, S. Nielssyni;* var það fellt með 26 atkvæðum gegn 14.
4. breytíngaratkvæði nefndarinnar var samþykkt með 22 atkvæðum gegn 19.
5. breytíngaratkvæði var samþykkt án atkvæðagreiðslu.

Síðan var ræddur seinni kaflinn, 6. — 11. breytíngaratkvæði.

*Framsögumaður*: Það eru einkum 2 breytíngaratkvæði í þessum kafla, sem eg finn ástæðu til að fara nokkrum orðum um. Annað er 6. breytíngaratkvæði, sem er þess efnis, að 6. — 11. gr. í frumvarpi nefndarinnar falli úr, en í þeirra stað komi 5. gr. í stjórnarfrumvarpinu. Eg get ekki annað sèð, en verði þessu framgengt, þá sè það einmitt til þess, að gjörspilla málinu; því verði þessar greinir teknar burtu, og farið eptir því, sem breytíngaratkvæðið og 5. gr. stjórnarfrumvarpsins ætlast til, þá verður hægt, að misskilja lagaboðið í mörgum at-

síðum. Hitt breytíngaratkvæðið, sem er 9. töluliður á atkvæða listanum, er um það, að sektin gángi í „almennan sjóð". En af því að breytíngaratkvæðið til tekur svona óákveðið, að sektin skuli gánga í *almennan sjóð*, þá getur enginn vitað, hvaða sjóður hèr er meintur; það getur eins vel verið jafnaðarsjóðurinn, fátækrasjóðurinn, eins og jarðabókarsjóðurinn; því allir þessir sjóðir eru almennir sjóðir. Líka var samkynja breytíngaratkvæði, sem borið var upp við 2. umræðu þessa máls, vísað frá af þínginu. Af þessum ástæðum er eg í vafa um það, hvort 9. breytíngaratkvæðið geti komið til atkvæða eða ekki, og skýt eg því til úrlausnar hins háttvirta forseta.

*Forseti*: Eg verð að vera heldur á því, að þetta breytíngaratkvæði komi ekki til atkvæða, og það því heldur, sem það til tekur einúngis, að sektin skuli gánga í *almennan sjóð*. Það væri öðru máli að gegna, ef það tæki til, að sektin skyldi gánga í jarðabókarsjóðinn, og vil eg því skjóta því til atkvæða þíngmanna, hvort þeim lízt, að breytíngaratkvæðið komi til atkvæða eða ekki.

Síðan fór atkvæðagreiðsla fram, og voru 22 atkvæði móti því, að breytíngaratkvæðið kæmi til atkvæða, en 10 með.

*Jón Guðmundsson*: Framsögumaður tók fram, hver afleiðíngin yrði, ef 6. breytíngaratkvæðið fengi framgáng, og þarf eg því ekki, að skýra það betur fyrir þínginu; eg vil því einúngis geta þess, að mèr finnst það vera formgalli á þessu breytíngaratkvæði, og að það standi ekki á sínum stað. Því það er aðgætandi, að 5. gr. stjórnarfrumvarpsins gripur ekki yfir 6. gr. í frumvarpi nefndarinnar, því hún er tekin upp úr tilskipuninni frá 11. september 1816, 1. og 2. gr., og er verulegur partur úr henni, og er skírskotað til hennar í 3. gr. stjórnarfrumvarpsins, og yrði nú 6. breytíngaratkvæðinu framgengt, þá yrði 6. gr. í frumvarpi nefndarinnar hreint að falla burtu, og skýt eg því þess vegna til hins háttvirta forseta, hvort honum sýnist ekki, eins og mèr, að breytíngaratkvæðið eigi ekki við á þeim stað, þar sem það er borið upp.

*Framsögumaður*: Mèr finnst það ekki vera fullkomin ástæða til, að fylgja fram formvillu þessa breytíngaratkvæðis; því eg er ekki viss um, nema uppstúngumenn ætlist til, að 5. gr. falli burt, svo ekkert komi í staðinn. Eg get ímyndað mèr, að meiníng þeirra kunni að vera á þá leið.

*Forseti*: Eg verð að vera hinum heiðraða framsögumanni

samþykkur í því, að það sè ekki formsins vegna neitt á móti því, að hún komi til atkvæða, og svo get eg ekki sèð, að það spilli frumvarpi nefndarinnar, þó 6. gr. falli; því hún stendur þó í tilskipun frá 11. sept. 1816.

*Jón Guðmundsson*: Eg get þó ekki sèð, að það sè þörf á, að fella 6. gr. úr, fyrst að stjórninni þótti hún áríðandi árið 1816; en auðsèð er það, að 6. gr. fellur burt, ef 6. breytíngaratkvæðið fær framgáng. En að öðru leyti finn eg ekki ástæðu til, að mæla á móti breytíngaratkvæðinu, meðan að þeir, sem báru það upp, koma ekki fram með neitt því til málbóta, en vil þó einúngis fyrst um sinn skírskota til þess, sem eg tók fram um daginn við 2. umræðu þessa máls, og sem nefndin hefur skýrt frá í ástæðum sínum, hvers vegna að hún hefur tekið hið helzta úr tilskipuninni frá 1816.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Eg hef ætíð skilið það svo, að þetta frumvarp nefndarinnar ætti að vera almenn verzlunarlög, og svo hafa þeir kallað það, feður þess, þegar þeir voru að útskúfa Þorlákshöfninni; en þó það sè nú álitið svo, þá vil eg sýna, að tilskipun frá 1816 er lángt frá að vera orðin óþörf fyrir því, hvort heldur fyrir sýslumenn eða framandi þjóðir. Það er þá fyrst í 3. gr. í tilskipuninni frá 11. sept. 1816, að það er gjörður munur á dönskum skipum með dönsku fólki á, og utanríkisskipum með utanríkisfólki á, og mèr virðist slíkur greinarmunur yfrið sennilegur; því það má segja um þjóðirnar eins og um hvern einstakan mann, að hver er sjálfum sèr næstur. En eg vil sleppa þessu, og það mundi ekki fá hèr stóra áheyrn; því það samþýðist ekki þá *stóru* grundvallarskoðun nefndarinnar, jafnrèttið. Það undrar mig því ekki, þó ekkert hèr að lútandi finnist hjá nefndinni. Það er samt margt fleira ómissandi í tilskipuninni, þó þetta gángi frá, og sem ekki finnst í nefndarfrumvarpinu. Í 6. gr. er getið um, hvernig að skuli fara, ef utanríkisskipið vantar heilbrigðisskírteini; hvergi finn eg það í nefndaruppástúngunum, og það er þó eins þarflegt fyrir sýslumanninn að vita, hvað hann gjöra skuli, þegar svona á stendur, eins og líka fyrir þann útlenda, að vita, að hann verði hèr ei fyrir ólögum. Í 7. gr. er utanríkismanninum bannað, að verzla í tjöldum eða skúrum á landi, og uppástúnga um, að það megi leyfast, er nú fallin hèr á þínginu, þó er ekkert bann á móti því að finna í frumvarpi nefndarinnar. Í 8. gr. er sagt hvernig að skuli fara, þegar svo ber undir, að utanríkisskip

koma á smákauptúnin, áður en þau koma á aðalverzlunarstaðinn sjálfan, þar sem yfirvaldið á að rita á skipsskjölin. Engin ákvörðun um þetta finnst í nefndarálitinu. Í 7. gr. eru útlendir menn skyldaðir til, að hlýða landsins almennu lögum yfir höfuð; en nefndinni hefur ekki þótt það nauðsynlegt, og átti það þó ekki illa við jafnréttið. Í 12. gr. er getið um, hvað gjöra skuli af leiðarbréfinu, þegar útlenda skipið kemur aptur heim til sín, og er þetta í mörgu tilliti áríðandi; en nefndinni hefur ekki þótt nauðsyn á, að vita neitt um, hvað um það yrði. Í sömu grein er það líka tekið fram, að leiðarbréfið skuli ekki gilda nema fyrir eina ferð; en eg man ekki, hvort það er berlega bannað í framvarpi nefndarinnar (*Framsögumaður*: Jú, í 4. gr.). Í 17. gr. er sagt fyrir, hvernig gjöra skuli leiðarbréfa-borgunina óhulta, og um borgunarmátann; en ekkert er um það í uppástúngu nefndarinnar. Það er og mikið mögulegt, að útlend skip komi híngað leiðarbréfalaus, svo sem t. a. m. að skip frá Frakklandi, sem ekki væri leigt híngað, kynni að leggja hèr að höfnum neyðar vegna, og verða leigt hèr af innlendum; þá til tekur tilskipunin, að slík skip taki hèr leiðarbréf, og sýni þau verzlunarfulltrúanum danska, þegar út kemur, en það er ekki eitt orð um þetta hjá nefndinni. Þessi ráðstöfun í tilskipuninni er nú að sönnu einkum gjörð fyrir dönsk skip; en hún er eins nauðsynleg fyrir útlend skip, og eins þurfa þau að fylgja einhverjum reglum, sem tryggjandi eru. Eg sè því ekki annað, en að útlend skip verði að eiga tilskipunina frá 1816, allt að einu þó nefndarálitinu verði framgengt; því það er hvorki heilt nè hálft, heldur allt á tíníngi, svo eg get ekki sèð, því nefndin fór að taka nokkuð úr tilskipuninni, þegar hún tók það ekki allt, sem þar var nauðsynlegt í fyrir útlendra verzlun hèr. Því síður var og þörf á þessum úrtíníngi, sem eg er sannfærður um, að tilskipunin frá 1816 muni vera og hafa verið í útlendra höndum; því stjórnin sendi án alls efa *exemplör* af henni til allra verzlunarfulltrúa sinna árið 1816. Eg get því ekki fundið neina ástæðu fyrir þessum ófullkomna lagasamtíníngi, og held rèttast, að sleppa öllu því úr, sem tekið er úr tilskipuninni frá 1816, þegar hana verður að við hafa, hvort sem er, bæði hèr í landi af sýslumönnum, og erlendis af hinum útlendu.

*Framsögumaður*: Ef að nefndin hefði stúngið upp á því, að tilskipunin frá 11. september 1816 skyldi vera af máð, þá

hefði hinn konúngkjörni þíngmaður haft nokkuð fyrir sèr; en nú hefur nefndin ekki farið fram á það, og því held eg, að hann hafi ekkert sannað með ræðu sinni. Eg get ekki kannazt við aðra eða meiri galla á uppástúngu nefndarinnar, heldur en á stjórnarfrumvarpinu; en enginn gat ætlazt til, að nefndin byggi til ný lög, eða hún skyldi byggja á allt öðrum grundvelli, en frumvarp stjórnarinnar er byggt á. En þar sem hinn konúngkjörni þíngmaður sagði, að tilskipunin frá 1816 mundi vera í allra höndum, þá verður það ekki sannað af því, þó stjórnin kunni að hafa sent hana öllum verzlunarfulltrúum 1816; því það eru ekki allt af hinir sömu verzlunarfulltrúar, heldur hafa margir komið síðan, og tilskipunin mun þó varla hafa gengið í erfðir, eins og föst eign embættisins. Eg held það yrði því eins nauðsynlegt nú og áður, að stjórnin lèti gjöra safn af öllum íslenzkum verzlunarlögum, þegar verzlunin yrði laus.

*J.* hreppst. *Sigurðsson*: Eg vil fastlega mæla með því, að hvert lagaboð beri sína eiginlegleika með sèr í útþrykkilegum orðum, og eg veit til, að flestir alþýðumenn óska eptir því. Tilvitnanir í önnur lög eru mjög óhentugar alþýðu, þar fæstir af þeim hafa mörg lög í höndum, eða eru svo lögfróðir, að þeir viti, hvað þar og þar kann að standa í gömlum lögum. En þar sem hinn háttvirti 1. konúngkjörni þíngmaður gat þess, að útlendir menn væru ekki skyldaðir til eptir frumvarpi nefndarinnar, að hlýða landslögum, þá vil eg benda honum á 11. gr. nefndarálitsins.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Bæði bæjarfógetinn og sýslumenn ættu að geta sýnt það í lögunum, að hinir útlendu menn væru skyldir til, að hlýða landsins almennu lögum, en það geta þeir ekki, nema þeir hafi fleira við að styðjast en nefndaruppástúngurnar, og sèr í lagi tilskipunina frá 11. september 1816, sem þó nefndin hefur þótzt hafa tímt úr það nauðsynlega. Það getur nú skeð, að þetta sè mest nauðsynlegt fyrir bæjarfógetann og sýslumennina, en eg verð líka að álíta það nauðsynlegt fyrir utanríkismenn, að vita, að þetta og þetta sèu lög en ekki ólög.

*Jón Guðmundsson*: Eg get ekki skilið, að útlendir menn hafi verið nokkru nær, þegar tilskipunin kom út 1816, en þeir verða nú, þó frumvarp nefndarinnar fengi lagagildi, og því síður eru þeir nær að vita um hin eldri lög, þó þeir sjái tölur hins háttvirta konúngkjörna þíngmanns; því það er auðsjáan-

lega meiníng hans, eins og sjá má af breytíngaratkvæðinu, að tilskipunin frá 1816 hafi enn lagagildi, og nefndin hefur heldur ekki farið öðru fram. Hins sama ætlast og frumvarp stjórnarinnar til, að minnsta kosti þær greinirnar, sem þar er skírskotað til. En þó það sè ekki beinlínis tekið fram í frumvarpi nefndarinnar, að útlendir menn eigi að hlýða landslögum, þá held eg, að það sè svo greinilega orðað í 11. gr. tilskipunarinnar frá 1816, sem tekin er inn í þetta frumvarp, að engin þörf sè, að fara um það fleiri orðum.

*Þ. Sveinbjörnsson*: Í 11. gr. nefndaruppástúngunnar er nefnt einúngis „verzlunarlög", en í tilskipuninni, 7. gr., er útlendum mönnum gjört að skyldu, að hlýða landsins almennu lögum, hvar um ekkert finnst í 11. gr.

*Framsögumaður*: Ef tilskipunin frá 1816 er ein af tilskipunum um verzlunarlög Íslendinga, þá eru þeir skyldir til, að hlýða henni, og hún vísar þá til landslaganna.

*P. Pètursson*: Eg verð að vera samdóma hinum 1. konúngkjörna þíngmanni. En viðvíkjandi því, sem þíngmaður Skaptfellínga sagði, að stjórnarfrumvarpið gæfi ekki færi á, að kynna sèr tilskipunina frá 1816, þá verð eg að álíta, að stjórnin einmitt gefi það, þar sem hún í frumvarpinu bendir til vissra greina í þessari tilskipun. En þar eð nefndin nefnir ekki á nafn nokkra grein í tilskipuninni, þá er það einmitt nefndin, sem gefur mönnum ekki tækifæri til, að kynna sèr tilskipunina; því það sèst bezt á því, að nefndin ætlast ekki til, að menn kynni sèr hana, að hún vitnar ekki til hennar, en tekur sumar greinir hennar upp í sitt frumvarp, og hefði það þá verið betra, að hún hefði tekið allar greinirnar; því hitt á illa við, eins og hún hefur gjört, að taka einúngis nokkrar.

*Framsögumaður*: Eg hugsaði, að það þyrfti ekki að taka það optar fram, en gjört hefur verið, að í þessu efni eru hinir sömu gallar á frumvarpi stjórnarinnar og á frumvarpi nefndarinnar, ef menn eiga annars að kalla það galla.

*P. Pètursson*: Eg get ekki neitað því, að mèr þykir undarleg sú sönnunaraðferð, sem nefndin hefur stundum við. Eg verð að álíta enn sem fyr, að það sè einmitt stjórnarfrumvarpið, sem gefur mönnum færi á, að kynna sèr tilskipunina frá 1816, en ekki nefndarfrumvarpið; því mismunurinn er sá, og er það verulegur munur, að stjórnarfrumvarpið til greinir greinirnar í tilskipuninni frá 1816, en nefndin gjörir það ekki, heldur tek-

ur nokkrar greinir inn í uppástúngu sína af hendi hófi; þess vegna geta útlendir menn ekki vitað af öðru en því, sem stendur í nefndaruppástúngunni.

*Framsögumaður*: Nefndin hefur í því fylgt bendíngu stjórnarfrumvarpsins, að hún hefur tekið þær greinir inn í álit sitt, sem henni þótti ríða mest á, og sem útlendum mönnum var mest nauðsyn á að vita, áður þeir færu af stað. En af því útlendir menn geta ekki sèð allt þar, sem þeir þurfa að sjá, heldur er þeim vísað til annara laga, þá leiðir þar af, að þeir fara kannske að spyrja sig fyrir hjá einhverjum verzlunarfulltrúanum, hvort ekki sè annað lagaboð til, og þá verður einhver svo góðviljaður, að hann segir þeim, að til sèu þessi merkilegu lög frá 11. sept. 1816. Og skil eg ekki, til hvers það er, að þæfa um þetta lengur, nema ef mönnum fyndist ástæða til, að láta lagafrumvarpið vera styttra.

*G. Brandsson*: Þegar mál þetta var rætt í hlutfallsnefnd þeirri, sem eg var í, þá man eg til þess, að það kom til orða, hvort það ætti að taka greinir þær, sem stjórnarfrumvarpið vitnar til, inn í nefndarálitið, eða vitna einúngis til þeirra, og þá man eg ekki betur, en að hinn 5. konúngkjörni þíngmaður væri á því, að þær væru teknar inn í, eins og nefndin hefur gjört; enda voru flestir ef ekki allir í þeirri nefnd á sama máli. Að hann þá lèt í ljósi þessa skoðun sína, hlýtur hann því að muna ekki síður en eg.

*Forseti*: Eg vona, að þíngmenn banni mèr ekki að geta þess, áður en gengið er til atkvæða, að eg verð að vera hinum 1. konúngkjörna þíngmanni samþykkur í því, að eg tel þetta mikinn galla á nefndarálitinu, sem getur orðið því til fyrirstöðu.

Síðan var gengið til atkvæða, og fór atkvæðagreiðslan á þessa leið:

6. breytíngaratkvæði var frá þessum 10 mönnum: *Þ. Sveinbjörnssyni, P. Pèturssyni, L. Johnsen, P. Melsteð*, sýslumanni, *Þ. Jónassyni, M. Gíslasyni, Þ. Kristjánssyni, Þ. Sivertsen, H. G. Thordersen, B. Halldórssyni*; var það fellt með 33 atkvæðum gegn 7.

7., 8. og 10. breytíngaratkvæði voru samþykkt án atkvæðagreiðslu.

9. breytíngaratkvæði var frá þessum 10 mönnum: *J.* hreppst. *Sigurðssyni, P. Pèturssyni, G. Brandssyni, Þ. Kristjánssyni, M. Gíslasyni, G. Einarssyni, St. Jónssyni, P.*

*Sigurðssyni, Þ. Sveinbjörnssyni, M. Austmann;* gat það ekki komið til atkvæða.

Þó að 11. breytíngaratkvæðið væri ekki nema orðabreytíng, þá áleit forseti, að betra væri, að það kæmi til atkvæða, og var það samþykkt með 29 atkvæðum.

Þessu næst var framsögumanni falið á hendur, ásamt einum skrifaranna, að færa frumvarpið til rètts máls, eins og það þá var orðið.

*H. Stephensen:* Eg vil leyfa mèr, áður en fundi er slitið, að biðja hinn háttvirta forseta, að tilkynna konúngsfulltrúa, að ómögulegt verður fyrir þíngið, að ljúka við störf sín hinn 9. dag ágústm., eins og konúngsfulltrúi hefur áður vonazt eptir, og vil eg bera það upp nú, svo að konúngsfulltrúinn geti látið þíngið vita í tíma, hvernig að verður farið.

*Forseti* kvaðst skyldi bera þetta upp fyrir konúngsfulltrúa, sem þá var genginn af fundi.

Því næst lèt forseti lesa upp frumvarpið í verzlunarmálinu, eins og það þá var orðið, og var það svona lagað:

## LÖG

### *um siglingar og verzlun á Íslandi.*

*1. gr.*

Frá 1. d. janúarm. 1852 skal öllum innanríkismönnum vera heimilt, að taka utanríkisskip á leigu, og hafa til verzlunar sinnar á Íslandi með sama rètti og innlend væru.

*2. gr.*

Utanríkisskipum skal leyft vera, að hleypa inn á þessar hafnir á Íslandi: Reykjavík, Stykkishólm, Ísafjörð, Akureyri, Seyðisfjörð og Vestmannaeyjar, þó ekki sè neyð fyrir hendi; en ekki mega þau verzla eða taka farm, nema þau hafi eða leysi leiðarbrèf.

*3. gr.*

Frá 1. d. janúarm. 1852 mega utanríkismenn sigla upp öll löggild kauptún á Íslandi til verzlunar, þó svo, að þeir komi fyrst inn á einhverja af höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr. Í verzlun sinni við kaupmenn í aðalkaupstöðum þessum eru þeir ekki bundir við neinn tíma, en við aðra mega þeir ekki verzla nema 4 vikur á hverjum stað.

*4. gr.*

Til þess, að mega verzla á Íslandi, skulu allir, bæði utan-

ríkis- og innanríkis- menn vera skyldir til, eins og hingað til hefur verið, að leysa íslenzk leiðarbrèf fyrir hverja ferð fram og aptur, en fyrir það skal gjalda alls 2 rbdd. af lestarrúmi hverju frá 1. d. janúarm. 1852; þar á móti skal frá sama tímabili af lètt því leiðarbrèfa- og lesta- gjaldi, er áður hefur verið.

*5. gr.*

Stjórnin skal sjá um, að leiðarbrèf til Íslands geti fengizt í Kaupmannahöfn, hjá hinum dönsku verzlunarfulltrúum á hagkvæmum stöðum, og hjá lögreglustjórum á höfnum þeim, sem nefndar eru í 2. gr.

*6. gr.*

Sá, sem vill fá íslenzkt leiðarbrèf, skal skýra frá nafni skipsins, heimili og stærð, og frá nafni eigandans.

*7. gr.*

Hver sá utanríkismaður, sem siglir til Íslands til verzlunar, skal, auk leiðarbrèfs, hafa vöruskrá, sem skýrir frá öllum tegundum farmsins, og fullgild skilríki fyrir því, að hvorki mislíngar nè bóla nè aðrar næmar sóttir gángi þar, sem skipið fer frá, eður meðal skipverja. Þessi skilríki skal hann sýna verzlunarfulltrúanum, og láta hann rita á þau til staðfestíngar. Fyrir þetta starf á verzlunarfulltrúinn 6 skk. af lestarrúmi hverju.

*8. gr.*

Öll þau skjöl, sem nú voru talin, skal sýna lögreglustjóranum, bæði í aðalkaupstöðum og útkaupstöðum, jafnskjótt og skipið hefur hafnað sig, en lögreglustjórinn ritar á þau.

*9. gr.*

Á hverjum stað, sem nokkuð er af fermt eða fermt, skal gefa lögreglustjóranum skýrslu um það. Allt, sem er af fermt, skal rita á vöruskrána.

*10. gr.*

Öll afbrigði gegn reglum þeim, sem framan eru taldar, eða ef vöruskráin reynist raung, varða 50 til 100 rbdd. sektum; en sèu þau ítrekuð, þá tvöfalt meiri, og má svo gánga eptir sektunum, að leggja skipið í löghald, og selja við opinbert uppboð jafnmikið af farminum, sem við þarf í sektina og kostnaðinn, sem þar af leiðir; hlýtur sá, sem upp ljóstrar, fjórðúng sektanna, en þrír hlutir gánga í fátækra sjóð þar á staðnum.

*11. gr.*

Það er skylda hvers lögreglustjóra, sem á að segja yfir

löggiltum kauptúnum, að sjá um, að utanríkismenn gæti alls þess, sem fyrir er skipað í lögum þessum og í hinum íslenzku verzlunarlögum yfir höfuð. Fyrir að rannsaka skipskjöl þeirra og rita á þau, tekur lögreglustjóri endurgjald eptir aukatekjureglugjörð 10. september 1830, 62. gr.

*12. gr.*

Kaupmönnum þeim, sem hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, skal leyft, að senda skip þau, er þeir eiga sjálfir, eða hafa á leigu, frá verzlunarstöðunum til annara staða, er við sjó liggja, og ei að eins sækja þángað farma af íslenzkum vörum, og flytja vörur þær, er þeir hafa selt landsbúum á verzlunarstöðunum, heldur einnig kaupa þar íslenzkar vörur, og selja innbúum það, sem þeir þurfa með til bús síns af kornvöru, steinkolum, við salti, tjöru, járni og hampvöru.

Margir af þíngmönnum höfðu beðizt þess skriflega af forseta, að greidd yrðu atkvæði um nefndarfrumvarpið í heilu lagi með nafnakalli. Þá lèt forseti greiða atkvæði, og fór atkvæðagreiðslan á þessa leið, að þeir sögðu

já:

Þórarinn Kristjánsson.
Páll Melsteð, sýslumaður.
Sigurður Gunnarsson.
Guttormur Vigfússon.
Hallgrímur Jónsson.
Jón Guðmundsson.
Páll Pálsson.
Páll Sigurðsson.
Magnús Stephensen.
Magnús Austmann.
Jóhann Briem.
Gísli Magnússon.
Jens Sigurðsson.
Guðmundur Brandsson.
Kristján Kristjánsson.
Jakob Guðmundsson.
Hannes Stephensen.
Sveinbjörn Hallgrímsson.
Jón Sigurðsson, hreppstjóri.
Magnús Gíslason.
Árni Böðvarsson.
Guðmundur Einarsson.
Þorvaldur Sivertsen.
Brynjólfur Benediktsen.
Ó. E. Johnsen.
Jón Sigurðsson, kandidat.
L. Johnsen.
Ásgeir Einarsson.
Jósep Skaptason.
Sveinn Níelsson.
Stefán Jónsson.
Eggert Briem.
Ólafur Briem.
Jón Jónsson, frá Múnkaþverá.
Jón Jónsson, frá Grænavatni.
Björn Jónsson.
Björn Halldórsson.
Halldór Jónsson.

En þeir sögðu

nei:

| | |
|---|---|
| Þórður Sveinbjörnsson. | Pètur Pètursson. |
| Helgi G. Thordersen. | Þórður Jónasson. |

Nefndarálitið var þá samþykkt með 38 atkvæðum gegn 4.

*Forseti* vakti þá máls á því, með því nefndarálitið í stjórnarskipunarmálinu væri þá prentað, hve nær breytíngaratkvæðin í því undir aðra umræðu skyldu vera til sín komin, og var ákveðið með samþykki þíngmanna, að það skyldi vera um hádegisbil næsta dag, en þó mætti lengja þann frest nokkuð fram eptir deginum, ef til þess yrði mælzt.

*Forseti* kvaðst ei geta ákveðið fund næsta dag, og sagði síðan fundi slitið.

---

## 16. fundur, 9. d. ágústm.

Allir á fundi. Gjörðabók frá síðasta fundi lesin og samþykkt.

*Konúngsfulltrúi*: Fundur þessi hefur nú þegar staðið í 5 vikur, og er nú sá dagur kominn, að störfum fundarins, eptir því sem eg þann 22. f. m. lèt yður vita, átti að vera lokið. Fundurinn hefur fengið nægan tíma til, að ræða og segja álit sitt um þau 3 mál, sem eg, eptir skipun vors allramildasta konúngs, lagði fyrir fundinn. Það er því harla leiðinlegt, að fundurinn hefur ekki lokið ætlunarverki sínu, og má eingaungu um það kenna aðferð fundarins. Fundurinn hefur varið óviðurkvæmilega laungum tíma, til að búa til þíngsköp, og það *enda þótt fundurinn hefði fyrir sèr þíngsköp alþíngis*, og þó nú fundurinn hefði álitið þíngsköp alþíngis ónóg fyrir sig, er það samt víst, að ekki var rètt, að verja svo laungum tíma, til að búa til öldúngis ný þíngsköp, og það því síður, sem einúngis var um einn fund að gjöra. Fundurinn hefur þar að auki samþykkt þau þíngsköp, sem lángt um fremur hafa tálmað aðgjörðum hans, heldur en þíngsköp alþíngis hefðu gjört.

Fundurinn hefur ekki notað þá kraptana, sem hann hefur haft yfir að ráða; jafnvel þó fundarmenn sèu margir, hefur fundurinn þó hartnær falið þeim sömu mönnum, að fjalla um öll þau mál, sem fyrir fundinn hafa verið lögð; þessi aðferð hefur haft það í för með sèr, sem og er eðlilegt, að þeir, sem

í nefndirnar voru kosnir, hafa ekki getað lokið af starfa sínum á þeim tíma, sem 3 nefndir, sem hefðu haft sína nefndarmenn hver, hefðu getað leitt málin til lykta.

Einúngis eitt af þeim málum, sem fundurinn fèkk til umræðu, er á enda kljáð; hin tvö önnur: „Um stöðu Íslands í ríkinu“, og „Um kosníngar til alþíngis“, eru enn þá óbúin. Um hið síðar nefnda mál er enn þá alls ekki komið nefndarálit til fundarins, og hvað hið fyr nefnda mál snertir, þá eru að vísu 2 nefndarálit komin um það til fundarins í fyrra dag; en álit meira hluta nefndarinnar er svo úr garði gjört, að fundurinn ekki hefur nokkra heimild til, að taka það til umræðu, og máli þessu gæti því ekki orðið frekar framgengt, nema því að eins, að því væri vísað aptur til nefndarinnar til nýrrar og löglegri meðferðar. Þessi tvö mál eru þannig líkt á veg komin, og þá eg lagði þau fyrir fundinn, og lengíng þíngtímans um fáa daga, en ekki getur verið tiltökumál nema að eins um fáa daga, gæti því ekki haft annan árángur en þann, að landið fengi að bera enn þá fleiri útgjöld til einkis gagns, en þegar hvíla á því.

Til að baka landi þessu fleiri óþarfaútgjöld, en orðið er, finn eg alls ekki ástæðu, og mun eg því, samkvæmt þeim myndugleika, sem vor allra-mildasti konúngur hefur gefið mèr til þess, og sem eg hef lagt fyrir fundinn, nú þegar enda fund þennan.

*Og lýsi eg þá yfir í nafni konúngs* (*J.* kandíd. *Sigurðsson*: Má eg biðja mèr hljóðs, til að forsvara aðgjörðir nefndarinnar og þíngsins? *Forseti*: Nei.), *að fundinum er slitið.*

*J.* kandíd. *Sigurðsson*: Þá mótmæli eg þessari aðferð.

*Konúngsfulltrúi* (Um leið og hann og forseti gengu burt úr sætum sínum): Eg vona, að þíngmenn hafi heyrt, að eg hef slitið fundinum í *nafni konúngs*.

*J.* kandíd. *Sigurðsson*: Og eg mótmæli í *nafni konúngs* og *þjóðarinnar* þessari aðferð, og eg áskil þínginu rètt til, að klaga til konúngs vors yfir lögleysu þeirri, sem hèr er höfð í frammi.

Þá risu upp þíngmenn, og sögðu flestir í einu hljóði:

*Vèr mótmælum allir!*

Á meðan þessu fór fram, þokuðust þeir, konúngsfulltrúinn og forseti, út úr þíngsalnum; en er þeir voru komnir út, kallaði einn þíngmanna:

„*Lengi lifi konúngur vor,* **Friðrekur hinn sjöundi**"! og tóku þíngmenn undir í einu hljóði.

Síðan var gengið af fundi.



# I.

## Frumvarp

til

laga um ákvarðanir nokkrar, áhrærandi siglíngar og verzlun á Íslandi.

---

### 1. gr.

Kaupmönnum þeim, sem hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, skal vera heimilt, að taka utanríkisskip á leigu og hafa til verzlunar sinnar á Íslandi, en sækja skulu þeir til þess íslenzkt leiðarbrèf, og skal þá um slík skip fara eptir því, sem boðið er um dönsk skip, sem höfð eru til verzlunar þegna Danakonúngs á Íslandi, að því undan skildu, að eigi skal mega hafa skip þau til neinna fiskiveiða, og skal einnig gætt þess, sem fyrir er mælt í 7. gr. laga þessara. Svo skulu og leiðarbrèf þau, sem þurfa fyrir hverja kaupferð, gefin út annaðhvort af innanríkisráðgjafanum eða, eptir fyrirlagi hans, af stiptamtmanninum yfir Íslandi, eins og boðið er í tilsk. 11. sept. 1816, 14. gr.

### 2. gr.

Utanríkisskipum skal leyft vera frá 1. júní 1852, að hleypa inn í Reykjavíkurkaupstað, þó ekki hafi þau íslenzk leiðarbrèf, og þó ekki sè neyð fyrir hendi, og skal það, sem á kveðið er í tilsk. frá 13. júní 1787, kap. I, 11. gr., um dönsk skip, einnig ná til þeirra, að því einu undan skildu, að þau mega ekki vera að fiskiveiðum við landið.

### 3. gr.

Frá 1. apríl 1852 skal innanríkisráðgjafinn mega veita utanríkismönnum leyfi til, að sigla upp Ísland með utanríkis-

skipum án takmarkana þeirra, sem ákveðnar eru í tilsk. 11. sept. 1816, 1. og 2. gr., um tölu skipanna, og nær senda skuli inn beiðni um það; þó skulu skip þessi fyrst koma til Reykjavíkurkaupstaðar, eða einhvers af hinum öðrum verzlunarstöðum á Íslandi, er settir kynnu að verða jafnsíðis henni, og skal það vera skipráðendum leyfilegt, án þess þeir sèu bundnir við neinn legutíma, að selja verzlunarmönnum þeim, sem þar eru búsettir, vörur þær, af hverju tægi sem eru, er þeir hafa meðferðis, og eins að selja öðrum landsbúum kornvöru, timbur og við, steinkol, og salt, um 3 vikna tíma í hverri kaupferð, á höfn þeirri eða höfnum þeim, sem getið var, og loksins, þegar þeir eru búnir að bera alveg af skipi farm þann, er þeir hafa að flutt, í Reykjavík eða öðrum höfnum þeim, er kynnu að verða settar jafnsíðis henni, að fara á aðra staði á Íslandi, til þess að sækja þángað farm. Þó má eigi hafa slík skip til fiskiveiða á meðan þau hafa íslenzk leiðarbrèf, og skal að öðru leyti gætt þess, sem ákveðið er í 7. gr. laga þessara. Enn fremur er innanríkisráðgjafanum falið á hendur, að sjá svo fyrir, að leyfi þau, sem hèr getur um, geti fengizt hjá verzlunarfulltrúum dönsku stjórnarinnar á hagkvæmum stöðum.

4. gr.

Fyrir leyfi þau, sem getið er í undanfarandi grein, skal greiða 5 rbdd. af hverju lestarrúmi skipsins fyrir ferðina fram og aptur, auk venjulegs gjalds fyrir leiðarbrèf.

5. gr.

Að öðru leyti skal það, sem ákveðið er í tilsk. 11. sept. 1816, 4., 5., 10., 11. og 12. gr., ná til skipa þeirra, sem getið er í 3. gr. laga þessara, en samt svo, að verzlunarfulltrúi dönsku stjórnarinnar á þeim stað, er skipið fer frá, skal rita ekki að eins á leiðarbrèfið, heldur einnig á vöruskrá skipsins; að um staði þá, er sigla má upp, sè vísað til þess, sem ákveðið er hèr að ofan í 3. gr. laga þessara, og að yfirvaldinu sè fengin önnur eins skýrsla yfir vörur þær, sem bornar eru á skip eða af skipi á hverjum stað, og boðið er um innlend skip. Svo skal og fara eptir tilsk. 11. sept. 1816, 9. gr., um öll afbrot gegn reglum þeim, sem ákveðnar eru um verzlun skipsins.

6. gr.

Konúngur getur, nær sem vill, ákveðið, að einstakar útlendar þjóðir, eptir kjörum þeim, er hin danska siglíng sætir í eignarlöndum þeirra, skuli eigi mega njóta rèttinda þeirra, sem veitt eru siglíngu utanríkismanna á Íslandi með lögum þessum, nema því að eins, að þær greiði fyrir það aukagjald, er verða má allt að 20 rbdd. af lestarrúmi hverju.

7. gr.

Utanríkisskip, 15 lesta eða þaðan af minni, skal þó, hvernig sem á stendur, ekki mega hafa til vöruflutnínga, hvorki milli ýmissa staða á Íslandi, nè milli Íslands og annara landa konúngs.

8. gr.

Kaupmönnum þeim, er hafa fasta verzlunarstaði á Íslandi, skal leyft, ef þeir gæta þess, sem ákveðið er að öðru leyti um hinar íslenzku siglíngar, að senda hafskip þau eða flutníngsskip, er þeir eiga sjálfir, eða hafa tekið á leigu á löglegan hátt, frá verzlunarstöðunum þar á landi til annara staða, er við sjó liggja, og eigi að eins hlaða þar skipið með íslenzkum vörum, eða flytja á því skipi vörur þær, er þeir hafa selt landsbúum í verzlunarstöðunum, heldur einnig kaupa íslenzkar vörur þar á staðnum, og selja innbúum það, sem þeir þurfa með til bús síns af kornvöru, steinkolum, timbri og við og salti; þó skulu þeir ekki mega hafa meðferðis minni mælikeröld en hálftunnumál, nè minni vigt, en 5 lýsipunda lóð með tilheyrandi skálum.

# Ástæður

til

lagafrumvarps um ákvarðanir nokkrar, áhrærandi siglíngar og verzlun á Íslandi.

---

Alþíngi beiddist þegar árið 1845 mikilvægra breytínga á lögum þeim, sem nú eru um hina íslenzku verzlun.

Eptir að rentukammerið hafði skrifazt á við verzlunarráðið, og fengið um það vorið 1849 álit stiptamtmanns þess, sem þá var yfir Íslandi, ítrekaði alþíngi árið 1849 bænir þær, er bornar höfðu verið upp af þínginu 1845, en þó með nokkrum takmörkunum í allmerkilegum atriðum og með ýmsum öðrum breytíngum.

Ef með öllu ætti að um steypa skipulagi því, sem verið hefur híngað til á hinni íslenzku verzlun, þá er hætt við, að þvílíkt los kæmist á verzlun þessa, að af því kynni að hljótast vandræði, jafnvel í tilliti til vörubyrgða landsins. Samt hefur bæði alþíngi og stiptamtmaður mælt fram með nokkrum breytíngum, sem ekkert að marki virðist að verða haft á móti, hvernig sem á málið er litið. Breytíngar þessar ættu þá að vera í því fólgnar, að uppsigling landsins yrði gjörð frjálsari fyrir utanríkisskip, en verzlunin dregin meira að hinum eðlilegu aðalhöfnum landsins og þeim föstu verzlunarstöðum, sem þar eru nú. Ef breyta ætti skipun þeirri, sem híngað til hefur verið, þá yrði það ekki gjört með öðru móti, en að taka upp sjávarvarðhald í stað leiðarbréfanna, er híngað til hafa verið við höfð til umsjónar með hinni íslenzku verzlun; en sjávarvarðhaldi slíku yrði eigi komið við, nema með ærnum kostnaði, og mundi það leggja þýngra band á verzlunina, heldur en þó leiðarbréf þurfi að sækja. Það virðist því fremur ástæða til, að fara að uppástúngum þeim, er alþíngi hefur borið upp, einkum um lækkun á tolli þeim, er lagður er á verzlun utanríkisþjóða með tilsk. 11. sept. 1816, 3. gr., sem innanríkis-

verzlunarmönnum er með því veitt nokkur ívilnun, er með engu móti er ósanngjörn, á meðan hið nýja skipulag er að komast í kríng

Að því, er snertir efni frumvarpsins, má fyrst gjöra aðalathugasemd þá, að öll hin óeðlilega stefna, sem komizt hefur inn í hin íslenzku verzlunarlög, er einkum af því sprottin, að menn hafa skoðað verzlunina frá sjónarmiði fyrir utan landið, og því að eins haft fyrir sjónum skipaferðir til landsins, og tekið undir eitt bæði fiskiveiðar og vöruflutnínga og verzlunina sjálfa. Endurbótina á lögum þeim, sem nú eru, verður því að byggja á skoðun málsins frá sjónarmiði Íslands, og verða menn að leitast við, að svo miklu leyti sem verður, án þess að verzlun þeirri, sem nú er, verði hastarlega umturnað, að að greina ákvarðanirnar um þetta þrennt, sem er hvert öðru svo ólíkt. Stiptamtmaðurinn tók það þegar fram, að það væri því að eins æskilegt, að rýmkað væri um rètt útlendra þjóða, til að taka þátt í hinni íslenzku verzlun, að verzlunin væri um leið dregin meira að tilteknum verzlunarstöðum, og að leitast ætti við á hinn bóginn, að koma upp verulegri íslenzkri verzlunarstètt, og hefur einnig alþíngi það, er haldið var 1849, verið tilleiðanlegt til, að aðhyllast álit þetta, eins og síðar mun verða betur drepið á við 3. gr. frumvarps þessa.

Um hinar einstöku greinir frumvarpsins er þessa að geta:

## Til 1. greinar.

Ákvörðun þessi er í aðalatriðunum tekin eptir uppástúngu alþingisins 1845, 6. atriði, er ítrekað var óbreytt 1849. Þó er það, sem segir um „íslenzka kaupmenn, eða þá, sem búfastir eru á Íslandi“, orðað nákvæmar, eptir því sem ástæður alþíngis benda til, þar sem verzlunarmenn þessir eru þar kallaðir: „íslenzkir kaupmenn, sem hèr eru búsettir“, og samkvæmt tilgánginum, sem er að gjöra þeim, sem hafa fasta verzlun á Íslandi, hægra fyrir með verzlunarfyrirtæki þeirra. Þar á móti er bætt við ákvörðun um, að eigi megi hafa utanríkisskip til fiskiveiða, er vanalegt íslenzkt leiðarbrèf annars veitir leyfi til.

Að öðru leyti hefur stiptamtmaður þegar árið 1849 mælt fastlega fram með ákvörðun þessari, og hefur einnig nefnd stórkaupmannafèlagsins viðurkennt, að vörubyrgðir Íslands væru mest komnar undir blómgun hinnar föstu verzlunar, og

er það sanngjarnt, þegar leyft er utanríkismönnum, að gjöra út utanríkisskip til Íslands, að þá sè um leið einnig veitt innanríkis-verzlunarmönnum leyfi til, að gjöra út útlend skip, þegar þeim getur orðið hagnaður að því, jafnvel með nokkuð betri kjörum, en útlendum verzlunarmönnum.

Það, sem á kveðið er í niðurlagi greinarinnar, hefur dæmi fyrir sèr í 14. gr. tilskipunarinnar 11. sept. 1816. Aptur fellur með þessu burt heimild sú, er rentukammerið hefur veitt stiptamtmanni til þess, að leyfa, að tekin sèu útlend skip á leigu til vöruflutnínga frá Íslandi, án þess jafavel til þess þyrfti reglulegt leiðarbrèf, en þó með því skilyrði, að eigi væru nógu mörg dönsk skip við landið, og er það harla torvelt fyrir embættismann þennan, að skera úr, hvort svo sè.

Að öðru leyti er þegar í opnu brèfi 7. marz 1787, 4. gr., getið íslenzkra leiðarbrèfa, einúngis fyrir farminn, og voru leiðarbrèf þau ætluð handa innlendum skipum, er höfðu alsíra-leiðarbrèf, er enn þá eru til hjá stiptamtmanni til útbýtíngar, ef þeirra væri beiðzt, þó varla muni það hafa komið fyrir í mörg ár.

### Til 2. gr.

Það, sem hèr er stúngið upp á, er reyndar ekki beinlínis byggt á neinni uppástúngu frá alþíngi, en að nokkru leyti er það nauðsynlegur partur úr hinum öðrum ákvörðunum, er stúngið er upp á í lögum þessum, og að nokkru leyti miðar ákvörðunin til, að veita því lagaheimild og koma reglu á það, sem nú þegar gengst við, þó fremur sè í fjarlægum úthöfnum, heldur en á hinum stærri verzlunarstöðum. Það getur varla heldur verið efunarmál, að ákvarðanirnar í tilsk. 13. júní 1787, kap. 1, 3. gr., um komu utanríkisskipa til landsins, sèu of harðar og þurfi lagfæríngar, og stakk stiptamtmaður einnig þegar upp á því. Með þessu móti má líka vísa hinni frakknesku stjórn, er hún hefur sótt um, að mega stofna fasta spítala á landi fyrir frakknesku fiskiskipin bæði á Dýrafirði og á Austfjörðum, til Reykjavíkur, og eru þar nú þegar teknir til lækn-ínga einstöku frakkneskir sjómenn, er orðið hafa fyrir meiðslum. Þessu virðist hægast komið í lag með því, að heimfæra það, sem á kveðið er í tilsk. 13. júní 1787, 1. kap., 11. gr., um dönsk skip, er koma til Íslands án þess að hafa íslenzkt leiðarbrèf, einnig til útlendra skipa, en ab binda leyfið við Reykja-

vík eingaungu, sem er sá eini staður á landinu, er lögreglustjórnin hefur nægan styrk, til þess að geta stýrt til friðar, þegar á þarf að halda, þar sem á utanríkis-fiskiskipum venjulega er fjöldi manna (20—30 manns á hverju skipi), og þeir vaxir sjálfræði miklu á landi,

Grein þessi er þar að auki í nánu sambandi við hinar aðrar ákvarðanirnar í lögum þessum; því, ef þessa grein vantaði, þá hefðu útlend skip enga heimild til, að leggja inn á hafnir á Íslandi til þess, að bjóðast til leigu (en til þess á stiptamtmaður að geta veitt leiðarbrèfin), eða til þess, að bíða eptir íslenzkum leiðarbrèfum, er þau hafa beðizt hjá innanríkisráðgjafanum, og gæti það opt verið þeim áríðandi, en á hinn bóginn mun hvorumtveggja tilgángi þessum geta orðið fullkomlega náð, þó ekki sè þeim leyft, að koma nema á einn stað á landinu.

Til 3. greinar.

Ákvörðun þessi fer meðalveg milli þess, er alþíngi hefur stúngið upp á um rýmkun á verzlun útlendra manna, og þess, sem íslenzkir verzlunarmenn þeir, sem búsettir eru í Kaupmannahöfn, hafa beðizt í þessu efni. Ef utanríkis-lausakaupmönnum væri að öllu veitt jafnrètti við danska, þá mundi það mjög svo losa um hina föstu verzlun, sem híngað til hefur verið á Íslandi, og er slíkt ekki veitt útlendum þjóðum í nokkru öðru landi, þar sem verzlun er talin meðal atvinnuvega, en aptur á hinn bóginn er ekki vant, að neita þeim, að selja af skipi beinlínis stórgjörðar vörur hverjum sem hafa vill um ákveðið tímabil. Korn, timbur, steinkol og salt eru vörur þær, er alþíngi hefur stúngið upp á að lækkaður væri á tollur, og er með því viðurkennt, að aðflutníngur þeirra sè mest varðandi fyrir landið. Þegar takmarkaður er verzlunarrètturinn á þann veg, sem stúngið er upp á í greininni, er aptur á móti engin ástæða til, að banna skipunum, að liggja fram yfir 4 vikur á höfnum þeim, þar sem þeim er leyft að verzla, þar eð eigi ber að taka til þess neina þá höfn, er eigi sè nógu stór. Þetta á sèr einkum stað um hafnirnar í Reykjavík, á Ísafirði og Akureyri, og væri þess vegna ekkert því til fyrirstöðu, að taka til nú þegar í lögum þessum þær tvær hafnir, er síðast voru nefndar, ef á stöðum þessum væri yfirvald og læknir. Þessu kann, ef til vill, að verða komið í lag að minnsta kosti á Ísa-

firði, áður en frumvarp þetta verður lögleitt, og á Akureyri er þegar búsettur læknir. Í Múlasýslunum mundi Seyðisfjörður líklega verða helzti verzlunarstaðurinn, en þar vantar bæði yfirvald og læknir.

Með tilsk. 13. júní 1787, I. kap., 14. gr., er þegar leyft skipum þeim, sem á löglegan hátt eru við höfð til íslenzkrar verzlunar, að taka farm hvar sem er við sjó („á nokkrum öðrum stað við sjó"), og er slík ákvörðun öldúngis nauðsynleg vegna þess, hvað erfitt er um vöruflutnínga.

Til 4. greinar.

Samkvæmt öllu skipulagi því, sem farið er fram á í lögum þessum, og byggt er á tilsk. 11. sept. 1816, kemur gjald það, sem hèr getur um, einnig í stað 14 marka gjalds þess, er innanríkis-kaupmenn verða að greiða fyrir vöruflutnínga beinlínis til útlendra ríkja, og verður þá mismunurinn á því, sem hin útlenda verzlun á að greiða, sjaldnast meiri, en 2 rbd. 4 mörk af lestarrúmi hverju, og verður því síður kvartað yfir því, sem eigi er með því lagður hærri skattur á utanríkisskip (því þegar útlend skip eru tekin á leigu af innanríkis-verzlunarmönnum, er gjaldið ekki greitt), en aptur fæst í aðra hönd rèttur, eigi að eins til að kaupa íslenzkar vörur, heldur einnig til að selja af skipi þær stórgjörðari vörur, er getið er hèr á undan, auk þess að selja má vörur, hverjar sem eru, kaupmönnum þeim, sem hafa fasta verzlun, án þess maður sè bundinn við neinn tíma, eða til tekið sè, hvað selja megi minnst af hverri vöru. Að láta gjaldið fara hækkandi eða lækkandi eptir ásigkomulagi vara þeirra, er að fluttar eru, verður ekki við komið, á meðan eigi eru settir umsjónarmenn við afferminguna. Aptur á mót helzt það framvegis í gildi, sem á kveðið er um gjaldfrelsi fyrir timburfarma í opnum brèfum 1. júní 1821 og 22. marz 1839, og er stjórnardeild innanríkismálanna nú farin að beita ákvörðuninni í niðurlagi brèfsins 1. júní 1821 til þess, að gjöra utanríkis-timburkaupmönnum þessum að skyldu, að greiða 14 marka gjaldið, þegar þeir flytja til utanríkisstaða íslenzkar vörur, er taka upp meir en helmínginn af lestarrúmi skipsins, svo að minna beri á því, hvað timburskipum þessum er vilnað í í samanburði við hina dönsku verzlunarmenn; því sá var ekki tilgángurinn með lagaboð þau, sem getið var, að greiða fyrir vöruflutníngum til útlanda með slíkum skipum,

heldur að eins að uppörfa til timburflutnínga með þeim til landsins.

Að ákveða gjald fyrir leiðarbrèf auk skipagjaldsins er reyndar á móti uppástúngu alþingis, en virðist þó mega til sanns færa, af því skipagjaldið af lestarrúmi hverju er lækkað svo stórmikið.

Til 5. greinar.

Þau eð ákvarðanirnar í tilsk. 11. sept. 1816, 4.—12. gr., eiga ekki að öllu leyti við, eins og nú stendur á, þar sem þó á hinn bóginn að nokkru leyti ekki verður án þeirra verið, þá eru í grein þessari teknar fram breytíngar þær á reglum þessum, er nauðsynlegar eru, og skal þess þá getið: að óyggjandi er, að meiri vissu má öðlast um vörur þær, sem í farminum eru, þegar ritað er á vöruskrána, eins og stjórnardeild utanríkismálanna sèr um að gjört verði, heldur en ef ritað er að eins á leiðarbrèfið; að þó eigi hafi skipin meðferðis heilbrigðisskrá, þá skal eigi, eins og boðið er í tilsk. 11. sept. 1816, fyrir þá sök fortakslaust vísa skipinu frá, þegar búið er að koma á sóttvarnaráðstöfunum á höfnum þeim, er skipin sigla til, sem nú þegar á sèr stað um Reykjavík, en að öðru leyti snertir mál það ekki verzlunarlöggjöfina, heldur sóttvarnalögin; og að eigi verður utanríkis-lausakaupmönnum þeim, er fá verzlunarleyfi eptir frumvarpi þessu, veitt að öllu jafnrètti við innanríkislausakaupmenn, og á því ekki við að öllu leyti um þá það, sem á kveðið er í tilsk. 11. sept. 1816, 7. og 8. gr., en á hinn bóginn ber 3. gr. lagafrumvarpsins sèr í lagi með sèr, að grundvallarreglurnar í tilsk. 13. júní 1787, I. kap., 13. og 14. gr., einnig eiga sèr stað um kaupmenn þessa.

Til 6. greinar.

Það virðist sjálfsagt, að eigi mega skip þjóða þeirra, er eiga í stríði við ríkið, eða flögg þau, er eigi eru viðurkennd í Danmörku, koma til Íslands, og þarf því varla að taka það fram í lögunum, þótt orðin „utanríkis-skip“ sèu almenn. Frumvarpið miðar þannig til, að veita öllum þjóðum, sem eru í vináttu við ríkið, jafnan rètt til, að sigla upp Ísland, en áskilja þó um leið, að leggja megi á sèrlega álögu sem hefndargjald fyrir þjóðir þær, sem þrátt fyrir þessar nýju ákvarðanir vilja ekki láta leiðast til, að gjöra sanngjarna samnínga. Þetta

kemur að nokkru leyti heim við uppástúngu nefndar stórkaupmannafèlagsins í Kaupmannahöfn. Það getur reyndar verið mikið efunarmál, hvort taka eigi nakkurn tíma til slíkra úrræða, en það virðist þó varlegra, að áskilja sèr heimild til þess í lögunum sjálfum.

### Til 7. greinar.

Með því svo mikil rèttindi eru veitt utanríkisskipum með frumvarpi þessu á ferðum þeirra til Íslands fram yfir það, sem verið hefur híngað til, þá virðist á hinn bóginn vera full ástæða til, að heimfæra til Íslands grundvallarreglu þá, sem þegar er leidd í lög með opnu brèfi 1. sept. 1819, að því er snertir hluttekníngu slíkra skipa í vöruflutníngum innalendra staða á milli.

### Til 8. greinar.

Það, sem hèr er á kveðið, er samkvæmt uppástúngum alþíngis 1849, 8. og. 9. atriði, en nokkuð nákvæmar orðað. Þess er áður getið, að með tilsk. 13. júní 1787, 14. gr., er þegar leyft, að taka vörur í skip á þeim stöðum, er við sjó liggja. Sömuleiðis hafa flutníngar til ýmissa staða, er við sjó liggja, á vörum þeim, er keyptar hafa verið áður á verzlunarstöðunum, lengi við gengizt og fengið heimild að minnsta kosti með lángri venju. Það, sem nýtt er í tèðri ákvörðun, er því einkum, að selja megi þeim, sem búa við sjó, „nauðsynja- og þúngavöru", en það hefur þótt rèttast, að taka fram, hverjar vörur þessar skuli vera.

---

# II.

# Frumvarp

til

## laga um stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins og um ríkisþíngskosníngar á Íslandi.

---

1. gr.

Grundvallarlög Danmerkurríkis frá 5. júní 1849, sem tengd eru við lög þessi, skulu vera gild á Íslandi. Þó skal þess gætt, sem hèr á eptir segir um, hversu gundvallarlaganna 2. gr. verði heimfærð til Íslands.

2. gr.

Í málefnum þeim, sem eingaungu snerta Ísland út af fyrir sig, skal konúngur og ríkisþíngið eigi hafa á hendi löggjafarvaldið, heldur skal konúngur hafa það á hendi samkvæmt grundvallarlaganna 18.—21. gr., með þeirri tilhlutun af alþíngishálfu, sem því er nú veitt eða eptirleiðis kann að verða veitt.

Til málefna þessara skal telja:

1, Dómaskipun og meðferð mála að því leyti ekki snertir hæstarètt.
2, Viðskipti manna á milli að því leyti, sem þau eigi skulu hafa lagagildi fyrir utan Ísland.
3, Afbrot og hegníngar, nema brot sèu drýgð gegn ríkisstjórninni eða gegn friði þjóðfèlagsins.
4, Kirkjumálefni á Íslandi sjálfu innan þeirra takmarka, sem sett kunna að verða fyrir löggjöfina um þau með kirkju-

skipunarlögunum, eins og þau skulu lögð í hinum einstöku greinum fyrir Ísland, eptir að alþíngi hefur látið í ljósi álit sitt um þau.

5, Málefni þau, er snerta menntun og uppfræðíngu, að fráskildri hinni lærðu skólamenntun.

6, Sveitamálefni, fátækrastjórn, og ráðstafanir þær innanlands, er miða til almenníngsheilla, t. a. m. póstgaungur í landinu, vegir, heilbrigðisstjórn og fyrirkomulag spítalanna, svo og atvinnuvegir í landinu, að því leyti það snertir ekki almennt gagn ríkisins eða hátign ríkisins.

7, Innanlandsstjórn á málefnum þeim, sem nefnd eru hèr að ofan, að því leyti sambandið við hina almennu ríkisstjórn ekki með því er snert.

8, Tekjur og útgjöld, er snerta eingaungu Ísland sjálft, og lögð eru til landssjóðs fyrir Ísland sèr í lagi, eptir því, sem ákveðið er í 6. og 7. gr. hèr á eptir

3. gr.

Verði ágreiníngur um, í hverjum málefnum löggjafarvaldið skuli framkvæmt eptir 2. gr. gundvallarlaganna, og í hverjum samkvæmt 2. gr. í lögum þessum, þá skal löggjafarvald ríkisins, ef þörf er til, skera úr því.

4. gr.

Í ríkissjóðinn skulu framvegis renna skattar þeir, sem híngað til hafa verið goldnir á Íslandi, og ekki eru beinlínis-skattar (t. a. m. erfðagjald og skattur af fasteignasölu, skipa- og verzlunar-gjöld, gjöld fyrir leyfis- og veitínga-brèf, o. s. frv.), og önnur slík gjöld, sem á Íslandi kunna að verða lögð á eptir 51. gr. grundvallarlaganna, svo og nafnbótaskatturinn og tekjurnar af konúngsjörðunum.

Enn fremur ber að gjalda í ríkissjóðinn alþíngiskostnað þann, er sjóður þessi hefur híngað til borgað fyrir fram, og eins aðrar kröfur, er ríkissjóðurinn hefur tilkall til.

5. gr.

Úr ríkissjóðnum skulu goldin laun til amtmanna, biskupsins, dómandanna í yfirdóminum, landlæknisins, kennaranna við hina lærðu skóla, og til þess umboðsmanns eða þeirra umboðsmanna, sem heimta tekjur ríkissjóðsins, svo og eptirlaun em-

bættismanna þessara. Sama er einnig um hin önnur útgjöld til hinna lærðu skóla, kostnað þann, er leiðir af veru hinna íslenzku ríkisþíngsmanna á ríkisþínginu, og útgjöld til póstferða millum Danmerkur og Íslands.

6. gr.

Í landssjóð þann, sem stofna skal fyrir Ísland, skulu renna bæði þeir beinlínis-skattar, sem híngað til hafa verið goldnir (eptirgjald af sýslum, þínggjöld, sem eru í umboði, konúngstíund, lögmannstollur og lögþíngisskrifaralaun), að undanskildum nafnbótaskatti, og önnur beinlínis-gjöld, sem hèr eptir kunna að verða á lögð. Sömuleiðis skal sjóður þessi eiga tekjur þær, sem konúngi bera af strandi. Enn fremur skal mega leggja til sjóðs þessa gjöld þau, sem híngað til hafa verið greidd til amtsjafnaðarsjóðanna, en landssjóðurinn taki þá að hinu leytinu að sèr útgjöld þau, sem híngað til hafa verið greidd úr sjóðum þessum. Eins skal vera um tekjur spítalanna, og það, sem afgángs verður af löggæzlusjóðnum, þegar búið er að greiða útgjöld þau, sem nú eru lögð á sjóð þennan. Að endíngu skal það, sem til er af kollektupeníngunum, og endurgjaldið fyrir mjölbóta-peníngana, fengið landssjóðnum.

7. gr.

Landssjóður Íslands skal bera útgjöldin til alþíngis, og til innanlandsstjórnar, að því leyti útgjöld þessi eigi eru goldin úr ríkissjóðnum, samkvæmt 5. gr., svo og eptirlaun embættismanna þeirra, er rètt eiga til eptirlauna og eigi fá laun úr ríkissjóðnum.

8. gr.

Konúngur ætlar ekki að leggja ný útgjöld á landssjóðinn, eða hækka þau, sem nú eru á kveðin, nè leggja á nýja eða hærri skatta til landssjóðsins, en nú eru, nema með samþykki alþíngis.

9. gr.

Það skal á kveðið með lagaboði sèr í lagi fyrir Ísland, hvert vald verði veitt alþíngi í æðri stjórn innanlandsmálefna, líkt því, sem kann að verða á kveðið um æðri sveitastjórnir í Danmörku.

10. gr.

Þegar frumvörp til breytínga á lögum þeim, sem gilda fyrir Ísland, verða lögð fyrir ríkisþíngið, vegna sambands þess, sem málið er í við almennt gagn ríkisins, ætlar konúngur að leita um það áður álits alþíngis, að svo miklu leyti sem verða má.

11. gr.

Íslendíngar skulu kjósa 4 menn til þjóðþíngsins og tvo menn til landþíngsins.

## I. Þjóðþíngið.

*Kosníngarrèttur og kjörgengi.*

12. gr.

Kosníngarrètt til þjóðþíngsins á hver maður, sem hefur óflekkað mannorð og innlends manns rèttindi, þegar hann er fullra þrjátíu ára að aldri, og eigi það, sem til er tekið í greinunum hèr á eptir, ekki heíma hjá honum. Eigi skal álíta mannorð þess manns óflekkað, sem sekur er orðinn að lagadómi um nokkurt það verk, sem svívirðilegt er eptir almenníngsáliti.

13. gr.

Sá maður hefur eigi kosníngarrètt, sem öðrum er háður, nema hann veiti heimili forstöðu.

14. gr.

Enginn á kosníngarrètt, sem þiggur eða hefur þegið af sveit, nema það sè endurgoldið, eða honum sè gefið það upp.

15. gr.

Svo á maður og eigi kosníngarrètt, ef honum er settur fjárhaldsmaður, eða bú hans er uppboðs- eða þrota- bú.

16. gr.

Loksins skal sá einn eiga kosníngarrètt, sem hefur verið heimilisfastur hið síðasta ár, áður en kosið er, í kjörfylki því, sem hann er í, þegar kosníngar fara fram. Eigi maður heimili

á fleirum stöðum en einum, þá skal hann sjálfur mega ráða því, á hverjum staðnum hann vilji neyta kosníngarréttar síns.

17. gr.

Kjörgengur til fulltrúa á þjóðþíngið er hver maður, sem hefur óflekkað mannorð og innlends manns réttindi, þegar hann er fullra tuttugu og fimm ára að aldri, og eigi það, sem til er tekið í 13., 14. og 15. gr., ekki heima hjá honum.

*Kjörskrár.*

18. gr.

Í Reykjavíkur-lögsagnarumdæmi og í hverjum hrepp skal kjörstjórn semja skrár yfir kjósendur þá, sem þar eiga heimili. Kjörstjórn í Reykjavíkur-lögsagnarumdæmi skal vera bæjarstjórnin, en í hreppunum skulu í kjörstjórninni vera hreppstjórinn eða hreppstjórarnir í hreppnum og prestur sá eða prestar, sem búa þar í hreppnum; en í hreppum þeim, þar sem ekki verða eptir reglu þessari að minnsta kosti þrír menn í kjörstjórninni, þá skal sýslumaður nefna í kjörstjórnina einn eða fleiri menn, sem heimilisfastir eru í hreppnum, til þess tölu þessari verði náð. Kjörstjórnin skal kjósa sér sjálf forseta.

19. gr.

Á kjörskránum skulu full nöfn kjósanda, aldur þeirra og staða og heimili standa í dálkum, en kjósendum skal þar raða eptir stafrófsröð.

20. gr.

Kjörskrár skulu samdar einu sinni á ári hverju. Skal þar við hafa, sem undirstöðu, kjörskrána fyrir hið undanfarna ár, en sleppa kjósendum þeim, sem dánir eru síðan, eða hafa tekið sér heimili annarstaðar, eða misst kosníngarrétt (12., 13., 14. og 15. gr.), og bæta aptur þeim við, sem fengið hafa kosníngarrétt síðan, eða verða búnir fyrir kosníngardaginn að fullnægja þeim kröfum, sem gjörðar eru með tilliti til aldurs og heimilis. Skal í því skyni rita nöfn þeirra manna, sem ekki hafa öðlazt enn þá hæfilegleika þá, sem nú var getið, þegar vænta má, að þeir öðlist þá á því ári, sem fer í hönd og

kjörskráin á að gilda fyrir, á skrá sèr í lagi, og skal þar berlega til tekinn sá dagur á árinu, þegar þeir verða annaðhvort þrítugir að aldri, eða hafa verið heimilisfastir eitt ár í kjördæminu.

21. gr.

Þessi leiðrètting á kjörskránum og viðauki við þær skal fara fram í marzmánuði, og skal það starf vera á enda fyrir mánaðarlokin. Skulu kjörstjórnir þær, sem getið er í 18. gr., leysa úr efasemdum þeim, sem af því kunna að rísa, en leita áður skýrslna þeirra, sem við þarf.

22. gr.

Frá 1. degi til 12. dags aprílmánaðar — og eru báðir þeir dagar taldir með — skulu kjörskrárnar liggja til sýnis í þínghúsinu í Reykjavík, og á einhverjum hagkvæmum stað fyrir hreppsbúa í hverjum hrepp. Skal það auglýsa við kirkjustefnu eða á annan hátt, sem bezt þykir henta, með að minnsta kosti 8 daga fyrirvara, á hvaða stað skrárnar verði lagðar fram.

23. gr.

Þyki nokkrum sèr vera ránglega sleppt úr kjörskránum, eða þyki manni einhver sá vera þar nefndur, sem eigi hafi það til að bera, er veiti kosníngarrètt, þá skal hann bera fram brèflega bón sína um, að hann sè settur á skrána, eða kröfu sína um, að öðrum sè þar sleppt, áður en þrír dagar sèu liðnir, eptir að tími sá er á enda, sem kjörskrárnar skulu liggja fram til sýnis, og skal hann í stuttu máli leiða til rök þau, sem krafa hans er byggð á.

24. gr.

Á athugasemdir þær, sem þannig eru komnar fram við kjörskrárnar, skulu kjörstjórnirnar leggja úrskurð á almennum fundi, sem haldinn skal á hinum næstu 14 dögum. Til fundar þessa skal boða bæði þá, sem borið hafa fram athugasemdir við skrána, og þá, er mótmæli eru hafin í gegn, og skal hinum síðar nefndu fengið í hendur eptirrit af mótmæla-brèfinu gegn þeim. Skal þá leysa úr efasemdum þeim, sem risið hafa, eptir skírteinum þeim, sem málspartarnir leggja fram, og

vitnisburðum þeim, sem þeir leiða, og skal stuttur úrskurður um þætuefnið ritaður í gjörðabók kjörstjórnarinnar. Samkvæmt úrskurðum þessum skal leiðrètta kjörskrárnar, og skal forseti kjörstjórnarinnar rita síðan undir hana nafn sitt.

25. gr.

Sè einhver óánægður með úrskurð kjörstjórnarinnar, er neitar honum um kosníngarrètt, þá getur hann heimtað eptirrit af úrskurðinum borgunarlaust, og borið síðan málið undir lagadóm. Rekstur mála þessara skal vera eins og í gestarèttarmálum. Málspartarnir þurfa ekki að gjalda borgun fyrir dómarastörf fyrir undirdómi. Amtmaðurinn í því amti skal skipa verjanda fyrir kjörstjórn þá, sem stefnt er. Fái hlutaðeigandi málspartur dóm fyrir kosníngarrètti sínum, skal færa til nafn hans á kjörskránni, jafnskjótt og hann leggur fram eptirrit af dóminum.

26. gr.

Kjörskrárnar skulu vera gildar frá 1. maí til 30. apríl næsta árs. Eptir þeim skulu kosníngar fram fara til þjóðþíngsins, sem þurfa á því ári, en gæta ber þess þó jafnframt, að þeir menn, sem settir eru á aukaskrána (20. gr.), eiga ekki atkvæðarètt, nema þeir verði búnir að fullnægja kröfum þeim fyrir kosníngardaginn, sem gjörðar eru með tilliti til aldurs og heimilis.

*Kjörfylki og fulltrúaefni.*

27. gr.

Kosníngar til þjóðþíngsins skulu fara fram í kjörfylkjum, og skal Reykjavíkurkaupstaðar-lögsagnarumdæmi, Gullbríngu- og Kjósar-, Árness-, Vestmannaeyja-, Rángárvalla- og Vestur-Skaptafells-sýslur vera hið 1. íslenzka kjörfylki, Borgarfjarðar-sýsla og Vesturamtið hið 2. íslenzka kjörfylki, Húnavatns-, Skagafjarðar- og Eyjafjarðar-sýslur hið 3. íslenzka kjörfylki, og Þíngeyjar-sýsla, Múla-sýslurnar og Austur-Skaptafells-sýsla hið 4. íslenzka kjörfylki.

28. gr.

Engan má taka til greina við kosníngar til þjóðþíngsins, sem ekki hefur boðizt sjálfur fram, og skal að minnsta kosti

einn af kjósendunum í kjörfylkinu hafa mælt fram með honum.

29. gr.

Tilkynníngarbrèf um þann, sem bjóðast vill fram til kosníngar, og um þann eða þá, sem veita honum meðmælíngu, skal sent vera sýslumanninum í sýslu þeirri, sem sá staður er í, þar sem kosníngin er til lykta leidd (37. gr.), en í Reykjavík bæjarfógetanum, að minnsta kosti 3 vikum fyrir kosníngardaginn, en þeir skulu aptur jafnskjótt senda kjörstjórninni í kjörfylkinu eptirrit af tilkynníngarbrèfinu, og skulu þeir auglýsa tafarlaust efni þess fyrir hreppsbúum og kaupstaðarbúum við kirkjustefnu, eða á annan hátt, sem henta þykir.

30. gr.

Fulltrúaefnið þarf ekki að færa sönnur á kosníngarrètt sinn fyrir kjörstjórnunum. Komi fram mótmæli eða jafnvel sannanir gegn kosníngarrètti fulltrúaefnis á kjörþíngum þeim, sem haldin eru í sýslunum, þá geta kjörstjórnirnar að sönnu ekki bannað umræður um mál það, en þeir mega heldur ekki fyrir þá sök skorast undan, að bjóða fulltrúaefnið fram til kosníngar. Enginn má samtíða bjóðast fram til kosníngar fleirum kjörfylkjum en einu. Breyti nokkur á móti því, og verði hann kosinn, þá verður kosníng hans ógild.

*Kjörþíngi og stjórn þeirra.*

31. gr.

Kosníngar til þjóðþíngsins eiga að fara fram á almennum þíngum, sem halda skal sèr í lagi fyrir hvert af kjördæmum þeim, sem til eru greind í 1. gr. laganna um kosníngar til alþíngis, en þó á sama degi í sama kjörfylki, að því leyti sem því verður við komið.

32. gr.

Stiptamtmaður skal á kveða og auglýsa kosníngardaginn að minnsta kosti 6 vikum á undan, og ber honum þar að auki sèr í lagi að tilkynna það bæjarfógetanum í Reykjavík og sýslumönnunum svo fljótt sem verður, en þeir eiga að á kveða þíngstað og stund, og tilkynna það forsetum kjörstjórnanna. Ber síðan forsetum þessum að sjá um, að dagur og stund og

þingstaður verði auglýstur fyrir innbúum við kirkjustefnu og á annan hátt, sem þykir eiga bezt við, með að minnsta kosti 14 daga fyrirvara.

33. gr.

Kveldinu fyrir kosníngardaginn skulu forsetar kjörstjórnanna í hreppunum vera komnir á kjörþíngisstaðinn með kjörskrár hreppanna, og skulu forsetar þessir ásamt sýslumanninum vera kjörþíngisstjórnin í sýslu þeirri. Kjörþíngisstjórn þessi skal velja sèr sjálf forseta. Í Vestmannaeyjum skal kjörstjórnin ásamt sýslumanninum sitja í kjörþíngisstjórninni, og í Reykjavíkur-lögsagnarumdæmi skal bæjarstjórnin vera kjörþíngisstjórn.

34. gr.

Kjörþíngisstjórnin, sem þannig er löguð, skal því næst láta kjósa þjóðþíngismanninn fyrir kjörfylkið. Forseti kjörþíngisstjórnarinnar skal taka til starfa með því, að lesa upp fyrir kjósendum, sem á þíngi eru, nöfn þeirra manna, sem boðizt hafa fram til kosníngar, og þeirra, sem mæla fram með þeim; því næst má hefja umræðu um fulltrúaefnin undir stjórn forseta.

35. gr.

Forseti skal gjöra enda á umræðunum, þegar honum þykir hæfa, og skal hann síðan láta menn gánga til atkvæða um fulltrúaefni þau, sem boðið hafa sig fram.

36. gr.

Atkvæðin skal greiða við allar kjörskrárnar undir eins, og skal forseti skipta skránum á milli þeirra manna, sem sitja í kjörþíngisstjórninni. Auk þessa skal við hverja skrá setja einn af kjósendum þeim, sem staddir eru á þíngi, og skal kjörþíngisstjórnin einnig mega setja einn af kjósendum, ef þess þykir þörf, til að hafa á hendi þann starfa, að taka á móti atkvæðum, sem annars hvílir á þeim, sem í kjörþíngisstjórninni sitja. Eigi skal forseti sjálfur eiga neinn þátt í, að taka á móti atkvæðum. Kjósendur skulu greiða atkvæði sín munnlega í þeirri röð, sem hver einn gengur fram til kosníngar. Eptir að sá maður úr kjörþíngisstjórninni, sem settur er við kjörskrána, hefur viðurkennt kjósandann, skal hann rita nafn þess, sem kjósandinn hefur gefið atkvæði sitt, við nafn kjósandans

á sjálfri kjörskránni. Kjósandi sá, sem settur er honum til aðstoðar, skal rita á atkvæðaskýrslu sèr í lagi nafn kjósandans við hliðina á nafni fulltrúaefnis þess, sem hann hefur gefið atkvæði sitt. Áður en kjósandinn víki frá, skal lesa upp fyrir honum bæði nafn hans sjálfs og þess manns, sem hann hefur kosið, til fullvissu um, að hvortveggja bókunin sè rètt og að þeim beri saman. Þegar engir fleiri gefa sig fram, til að greiða atkvæði, og forseti hefur þó skorað á þá um það, skulu þeir, sem í kjörþíngisstjórninni sitja, bóka atkvæði sjálfra sín og rita nöfn sín undir kjörskrána og atkvæðaskýrsluna, og er með því atkvæðagreiðslunni lokið. En áður þíngi sè slitið, skulu allir þeir, sem í kjörþíngisstjórninni sitja, rita nöfn sín undir allar kjörskrárnar og skýrslurnar og innsigla þær, og skulu þær því næst fengnar í hendur þeim, sem valdir verða — hvort heldur það eru einn eða fleiri — af hinum öðrum, til að sitja í hinni almennu kjörnefnd, sem setja skal, til að leiða til lykta kosnínguna fyrir kjörfylkið, eptir því sem segir í næstu grein.

37. gr.

Þessi sameiginlega kjörnefnd skal eiga sèr fund á 8. degi eptir kosníngardaginn, og skulu, auk sýslumannsins á kjörstaðnum eða bæjarfógetans í Reykjavík, í nefnd þeirri vera fulltrúar frá kjörþíngisstjórnum sýslnanna. Skulu þær sýslur, þar sem fólkstalan er minni en 3000 manns, senda einn fulltrúa, en þær, sem hafa meiri fólksfjölda en 3000 manns, tvo slíka fulltrúa. Þessir menn skulu vera komnir á kjörstað kjörfylkisins á þeim tíma, sem sagt var, og hafi þeir meðferðis hinar innsigluðu skár og skýrslur, sem fengnar hafa verið þeim í hendur, eptir því sem áður er sagt. Þeir fá borgaðan ferðakostnað fram og aptur. Verði nefndarmaður frá einhverri sýslu vegna óviðráðanlegra tálmana ekki kominn á hinum ákveðna tíma, mega þeir, sem komnir eru, bíða hans í tvo sólarhrínga. Kjörstaðir skulu vera: Reykjavík fyrir 1. kjörfylki, Stykkishólmur fyrir 2., Akureyri fyrir 3., og Ketilstaðir fyrir 4. kjörfylki.

38. gr.

Hin almenna kjörnefnd skal velja sèr sjálf forseta, en hann skal taka innsiglin frá skránum á almennum fundi, og skal

hann síðan láta telja saman atkvæði þau, sem greidd eru með hverju fulltrúaefni.

39. gr.

Sá er kosinn, sem fengið hefur flest atkvæði. Hafi fleiri jafnmörg atkvæði, skal forseti láta kasta hlutkesti, og skal það ráða. Skal það auglýst þar jafnskjótt á fundinum, hver kosinn er, og skal einnig tilkynna það kjörstjórnunum, en þær skulu aptur lýsa því fyrir almenníngi.

40. gr.

Hafi ekki boðizt fram nema eitt fulltrúaefni í kjörfylki nokkru, þá skal að eins greiða atkvæði með eða móti honum, og þarf þá fulltrúaefnið að fá meira en helmíng atkvæða þeirra, sem greidd verða, til þess að verða kosinn. Hafi hann ekki fengið svo mörg atkvæði, skal stefna saman nýju kjörþíngi með þriggja vikna fresti að minnsta kosti, og skal því lýsa, eins og skipað er fyrir í 32. gr. Hafi þá ekki boðizt fram neitt annað fulltrúaefni, þá álítist hann kosinn, án þess gánga þurfi til atkvæða á ný.

## II. Landþíngið.

*Landþíngiskjördæmi.*

41. gr.

Kosníngar til landþíngsins fyrir Ísland skulu fengnar í hendur alþíngi. Skal telja hina íslenzku landþíngismenn sinn með hvorum flokki þeirra tveggja, sem nefndir eru í kosníngarlögunum 16. júní 1849, 37. gr., og skal sá þeirra, sem kosinn er með fleiri atkvæðum, teljast með fyrri flokkinum. Sèu þeir báðir kosnir með jafnmörgum atkvæðum, skal hlutkesti ráða, með hvaða flokki hvorn þeirra skal telja.

*Kjörgengi.*

42. gr.

Kjörgengur til fulltrúa á landþíngið er hver maður fullra 40 ára að aldri, sem hefur óflekkað mannorð og innlends manns rèttindi, sè ekki bú hans uppboðs- eða þrota-bú, og hafi hann annaðhvort goldið á hinu síðasta ári 200 rbdd. í beinlínis-skatt til lands- eða sveita-stjórnarinnar, eða geti

hann sannað, að árstekjur hans hafi afdráttarlaust numið 1200 rbdd. Landþíngismennirnir skulu hafa verið heimilisfastir á Íslandi hið síðasta ár fyrir kosnínguna. En á meðan ekki verða eptir reglu þessari svo margir kjörgengir menn á Íslandi, að það verði að minnstakosti 1 af hverjum 1000 innbúum landsins, þá skal tiltölu þessari náð með því, að bæta þeim við, sem næstir hinum gjalda hæstan skatt, eptir reglum þeim, sem hèr á eptir til greinir.

*Kjörgengisskrár.*

43. gr.

Landþíngiskosníngar skulu fram fara eptir skrá, sem samin skal á ári hverju yfir þá, sem kjörgengir eru. Til undirstöðu fyrir henni skal kjörstjórnin í hverjum hrepp (í Reykjavík bæjarstjórnin) fá sýslumönnunum í hendur, en þeir aptur senda stiptamtmanninum yfir Íslandi, skýrslu yfir þá, sem í hreppnum (eða kaupstaðnum) eiga heimili og að öðru leyti eru kjörgengir til landþíngsins, og hafa á hinu síðasta ári — en það skal teljast frá 1. janúar til 31. desember — annaðhvort sannað, að fastar árstekjur þeirra hafi numið 1200 rbdd., eða goldið beinlínis til landstjórnarinnar eða sveita- eða bæjar-stjórnarinnar hina hæstu skatta, eptir upphæð þeirri, sem ákveðin skal af stiptamtmanni á ári hverju; skal skýrsla þessi vera komin til stiptamtmanns fyrir 15. apríl. Enginn má skorast undan, að veita kjörstjórninni skírteini þau, sem þurfa kunna, til þess að skýrslan verði rètt samin.

44. gr.

Við ákvörðun skattaupphæðarinnar skal, auk nafnbótaskatts, til greina taka eigi að eins konúngs- og fátækra-tíund, skattinn, gjaftollinn og lögmannstollinn, heldur einnig auka-útsvar til fátækra, sem jafnað er niður í hreppunum, gjöld til vegabóta og ferja, til þínghúsa-bygginga og viðurhalds þeirra, gjöld til jafnaðarsjóðs amtsins, alþíngiskostnað og fl., hvort heldur gjöld þessi eru greidd í peníngum eða með landaurum; svo má einnig leggja saman gjöld þau, sem menn kynnu að greiða í fleiri hreppum en einum.

45. gr.

Að því er tekjurnar snertir, þá skal kjörstjórnin í hverjum

hrepp, en í Reykjavík bæjarstjórnin, skora á þá, sem ætla, að þeir hafi haft afdráttarlausar árstekjur, er nemi 1200 rbdd., á hínu síðasta ári, frá 1. janúar til 31. desember, og kjörgengir eru að öðru leyti, að segja til þess, og skal kjörstjórnin gjöra um, hvort rètt sè sagt frá, en leita áður um það skýrslna þeirra, sem þarf.

46. gr.

Þegar reiknaðar eru tekjurnar, skal draga frá útgjöld þau, sem á þeim liggja. Þannig ber við fasteign að draga frá eigi að eins skatta og útgjöld í almennan sjóð og kostnað þann, sem varið er til að halda eigninni við eða hafa hennar not, heldur einnig leiguna af peníngum þeim, sem standa í fasteigninni; frá tekjum af atvinnuvegi skal draga kostnaðinn, til að halda atvinnuveginum fram; frá embættistekjum skulu dregin útgjöld til skrifstofuhalds m. fl., eptirlaun þau, sem goldin eru af embættistekjunum, o. s. frv. Að öðru leyti skulu ekki að eins tekjur í peníngum til greina teknar, heldur einnig það, sem goldið er í landaurum, leigulaus hús eða önnur þvílík hlunnindi, og skal það allt metið til peníngaverðs.

47. gr.

Þess ber enn fremur að gæta, þegar tekjurnar eru reiknaðar, að eigi er það nóg, þó maður hafi árið sem leið haft afdráttarlaust tekjur þær, sem á kveðið er, heldur verður einnig að standa svo á tekjum þessum, að þær verði álitnar stöðugar, eða gjöra megi ráð fyrir, að þær fáist á ári hverju með hèr um bil sömu upphæð.

48. gr.

Eptir skýrslum þeim, sem koma frá kjörstjórnunum (43. gr.), skal stiptamtmaður ásamt manni, sem til þess skal nefndur af yfirdóminum, en sè þó ekki sjálfur einn af dómendum, og forseta bæjarfulltrúanna í Reykjavík, áður 8 dagar sèu liðnir, semja aðalskrá yfir þá, sem kjörgengir eru. Skal á skrá þá setja að eins svo marga af þeim, sem gjalda minni skatt en 200 rbdd., að hlutfalli því verði náð, sem getur um í 42. gr. Skal mönnum raðað eptir skattgjalds-upphæðinni, og standi svo á, að fleiri menn gjaldi jafnháan skatt, en eigi er þörf á, að þeir sèu allir teknir á skrána, þá skal stiptamtmaður og menn

þeir, sem nefndir voru sem undirbúníngskjörstjórn, kasta um það hlutkesti, og skal það ráða.

49. gr.

Af skrá þeirri, sem þannig er samin, skal stiptamtmaður síðan senda eptirrit til allra kjörstjórnanna, og skal stiptamtmaður sjálfur staðfesta eptirrit þau. Eiga kjörstjórnirnar síðan að leggja fram skrána almenníngi til sýnis um 14 daga á hentugum stað í hverjum hrepp, og skal auglýsa það áður með 8 daga fresti, á þann hátt sem bezt þykir við eiga. Þyki mönnum nokkuð að skránni, skal senda um það athugasemdir bréflega til stiptamtmanns, áður en mánuður sè liðinn frá þeim tíma, er skráin hafði legið til sýnis, og á þá undirbúníngskjörstjórnin (sbr. 48. gr.) að leggja úrskurð á athugasemdir þessar, áður en 3 vikur sèu liðnar í seinasta lagi, en áður skal hún leita nákvæmra skýrslna, svo fljótt og haganlega sem verður; svo skal hún einnig áður, ef þess þykir þurfa og kríngumstæðurnar leyfa það, kalla fyrir sig bæði þá menn, sem borið hafa upp athugasemdir við kjörgengisskrána, og þá, sem mótmælin snerta. Standi til reglulegur alþíngisfundur á sama ári, skal undirbúníngskjörstjórnin einúngis leita skýrslna þeirra, sem fengnar verða, viðvíkjandi athugasemdum þeim, sem fram eru komnar, en senda síðan, jafnskjótt og alþíngi er sett, forsetanum á þínginu bæði kjörgengisskrána og allt það, sem snertir athugasemdir þær, sem getið var, og leggur alþíngi síðan úrskurð á málið. Þeim, sem neitað er um kjörgengi, er heimilt, að bera úrskurðinn undir dóm, líkt og á kveðið er í 25. gr. Vanræki nokkur það, sem þarf til þess, að verða tekinn á skrána, þá má hann kenna sjálfum sèr um, og má ekki kjósa hann við þær kosníngar, sem skráin er samin fyrir, þó hann sè hæfur að öðru leyti. Þó má þann setja á skrána, sem fær dóm fyrir því, að hann sè kjörgengur, áður en kosníngar fara fram.

50. gr.

Skrá þá, sem þannig er samin, skal á ári hverju leiðrètta og auka, á þeim tíma og með þeim hætti, sem þegar er fyrir skipað, og er hún þá gild frá 15. júlí á því ári til 14. júlí næsta ár fyrir kosníngar þær, sem koma fyrir til landþíngsins á því tímabili.

*Kosníngin.*

51. gr.

Þegar kjósa skal til landþíngsins, skal alþíngi það, sem þá er haldið, flýta kosníngunni sem mest verður. Forseti skal til þess á kveða vissan dag, og láta prenta kjörgengisskrána og útbýta henni meðal þíngmanna. Þurfi þíngið að leggja úrskurð á athugasemdir við kjörgengisskrána, samkvæmt 45. gr., þá skal forseti sjá um, að svo sè gjört, og að skráin sè leiðrètt eptir því, áður en gengið er til kosnínga.

52. gr.

Forseti skal fá hverjum alþíngismanni atkvæðisseðil, og skal þíngmaðurinn síðan þar á rita nöfn svo margra manna, sem kjósa skal til landþíngsins og á kjörgengisskránni standa. Standi á atkvæðisseðli nokkrum fleiri nöfn eða færri en tvö, eða nöfn, sem ekki standa á skránni, þá er atkvæðisseðillinn ógildur.

53. gr.

Alþíngismenn skulu skila af sèr atkvæðisseðlum sínum í þeirri röð, sem forseti tekur til. Þegar forseti hefur tekið við seðlunum og talið þá, skal hann lesa þá upp, en skrifararnir bóki atkvæðin, og skal síðan telja þau saman.

54. gr.

Þeir menn skulu vera kosnir, sem fengið hafa flest atkvæði; þó þarf, eigi kosníngin að vera gild, meir en helmíng atkvæða þeirra, sem greidd eru. Fái ekki svo margir menn, sem kjósa skál, við fyrstu atkvæðagreiðslu svo mörg atkvæði, sem þarf, þá skal jafnskjótt gánga til annarar atkvæðagreiðslu um þann fulltrúa, eða þá, sem eptir er að kjósa. Verði kosníngin þá ei að heldur til lykta leidd, skal í þriðja sinni greiða atkvæði um þá tvo menn, ef einn fulltrúi er enn ókosinn, eða fjóra, ef tvo fulltrúa skal kjósa, er fengu flest atkvæði í annari atkvæðagreiðslu, en voru þó eigi kosnir; hafi fleiri fengið jafnmörg atkvæði, skal hlutkesti ráða því, um hvern þeirra eigi aptur að greiða atkvæði. Nú verður eigi að heldur við þriðju atkvæðagreiðslu kosníngunni lokið, og skal þá í næsta sinn aptur að eins greiða atkvæði um þá, sem í þriðja sinni fengu

flest atkvæði, og halda svo á fram, ef þörf gjörist. Ef tveir menn fá jafnmörg atkvæði, ráði með þeim hlutkesti.

55. gr.

Forseti á alþíngi skal tafarlaust tilkynna kosníngurna þeim, sem kosnir eru, og skora á þá, að segja til, hvort þeir vilji þiggja kosnínguna. Hver sem ekki afsalar sèr kosníngunni áður en 14 dagar sèu liðnir upp frá því, þá skal svo meta, að hann hafi þegið kosníngu.

## III. Almennar ákvarðanir.

56. gr.

Kosníngar frá Íslandi til ríkisþíngsins skulu fara fram í fyrsta sinni árið 1853, en síðan skal þeim haga eptir hinum almennu kosníngatíðum til ríkisþíngsins. Nú þarf að kjósa nýjan ríkisþíngsmann fyrir Ísland á tímabili þessu, þá skal hin nýja kosníng vera gild um eins lángan tíma, og sá hefði átt eptir, sem kosið er fyrir.

57. gr.

Nú verður ríkisþíngið leyst upp, eða önnur deild þíngsins, þá skal ráðgjafi innanríkismálefnanna sjá um, að hinar nýju kosníngar fari fram á Íslandi svo fljótt, sem verða má eptir kríngumstæðunum og ákvörðunum þessa lagaboðs.

58. gr.

Þeir, sem kosnir eru til ríkisþíngsmanna fyrir Ísland, fá kjörbrèf til sönnunar því, að þeir sèu kosnir. Kjörbrèf skal semja eptir formi því, sem skipað skal fyrir af hlutaðeigandi ráðgjafa, og eiga þau að vera bæði á dönsku og íslenzku. Undir kjörbrèfin fyrir þjóðþíngismennina skulu allir þeir, sem í kjörnefndinni (36.—38. gr.) sitja, rita nöfn sín, en undir kjörbrèfunum fyrir landþíngismenn skal vera nafn forseta á alþíngi og skrifaranna þar.

59. gr.

Óræki nokkur verk þau, sem hann eptir lögum þessum er skyldur að gjöra, þá sekist hann 10 til 200 rbdd., nema brot hans varði stærri hegníngu, eptir því sem lög bjóða.

60. gr.

Með tilliti til ferðakostnaðar og daglauna, sem ríkisþingsmönnum ber, þá fer um það eptir kosníngarlögunum frá 16. júní 1849, 79. gr., einnig að því, er hina íslenzku ríkisþíngsmenn snertir.

## IV. Ákvörðun um stundar sakir.

Að því, er snertir kosníngarnar til ríkisþíngsins í fyrsta sinni, skal stjórninni heimilt, að breyta tímum þeim, sem ákveðnir eru í lagaboði þessu, eptir því sem á stendur, eða að fela það á hendur stiptamtmanninum á Íslandi.

# Grundvallarlög

## Danmerkurríkis.

---

# Vèr Friðrik hinn Sjöundi,

af guðs náð Danmerkur konúngur, Vinda og Gauta, hertogi í Slèsvík, Holsetalandi, Stórmæri, Þèttmerski, Láenborg og Aldinborg,

**Gjörum öllum mönnum kunnugt:** Eptir að Vèr höfðum af frjálsum konúnglegum vilja og mætti áformað, að láta út gánga ný grundvallarlög fyrir Danmerkurríki, eptir samkomulagi við Vora trúu þegna, og þar eð svo gæfusamlega hefur til tekizt, að Vèr höfum orðið ásáttir í öllum greinum við ríkisfund þann, sem haldinn hefur verið fyrir Danmerkurkonúngsríki um efni grundvallarlaga þessara, eptir frumvarpi því, sem Vèr höfðum látið leggja fyrir ríkisfundinn, sem undirstöðu fyrir umræðunum, höfum Vèr nú — þó með skilyrði því, að frestað sè skipun alls þess, sem snertir stöðu hertogadæmisins Slèsvík, þángað til friður er á kominn — samþykkt svo látandi grundvallarlög Danmerkurríkis, eins og þau skulu óbrigðulega haldin af Oss, og eptirkomendum Vorum á hinu danska konúngssæti, sem hèr segir:

## Grundvallarlög Danmerkurríkis.

### I.

#### 1. gr.

Stjórnarformið skal vera takmörkuð konúngsstjórn. Konúngsvaldið skal gánga í erfðir.

2. gr.

Löggjafarvaldið skal konúngur og ríkisþíngið hafa í sameiníngu. Framkvæmdarvaldið skal konúngur hafa. Dómsvaldið skulu dómendur hafa.

3. gr.

Hin evangelisk-lúterska kirkja skal vera þjóðkirkja Danmerkurríkis, og skal stjórnin fyrir því veita henni aðstoð sína.

II.

4. gr.

Erfðatal það, sem í konúngalögunum er á kveðið, skal standa óraskað, sem áður; verður því eigi breytt, nema konúngur stíngi upp á því, og hið sameinaða ríkisþíng samþykki það, og þarf til samþykkis þessa þrjá fjórðúnga atkvæða þeirra, sem greidd verða.

5. gr.

Konúngur getur ekki haft stjórn á hendi í nokkru því landi, sem eigi heyrir undir hið danska konúngsveldi, nema ríkisþíngið leyfi það.

6. gr.

Konúngur skal vera evangelisk-lúterskrar trúar.

7. gr.

Konúngur er fulltíða, þegar hann er fullra 18 ára að aldri.

8. gr.

Áður en konúngur tekur við stjórninni, skal hann sverja eið þann, sem hèr segir, fyrir hinu svo nefnda ríkisþíngi:

„Eg lofa og sver þennan eið, að halda grundvallarlög Danmerkurríkis; hjálpi mèr svo guð og hans heilaga orð.“

Standi ekki ríkisþíng yfir, þegar konúngaskipti verða, skal eiðinn leggja fram skrifaðan fyrir ríkisráðinu, en endurnýja hann síðan fyrir ríkisþínginu sameinuðu.

9. gr.

Þyki konúngi þörf á, að ríkisstjóri sè settur, annaðhvort

sökum fjærvistar eða sökum vanheilsu sinnar, þá skal hann stefna saman ríkisþínginu, og leggja fyrir það lagafrumvarp um það.

10. gr.

Verði konúngur ófær til, að hafa stjórnina á hendi, skal ríkisráðið stefna saman ríkisþínginu. Fallist þá hið sameinaða ríkisþíng með þrem fjórðúngum atkvæða þeirra, sem greidd verða, á, að þörf sè til, þá skal velja ríkisstjóra, og skipa lögráðendur, ef nauðsyn þykir til bera.

11. gr.

Sè við því að búast, að konúngsefnið muni eigi verða fulltíða, þegar konúngur deyi, eða verða óhæft annara hluta vegna, til að hafa stjórnina á hendi, þá skal með lagaboði ákveða ríkisstjóra, en konúngur skal skipa lögráðendur. Ríkisstjórinn má eigi vera meðal þeirra.

12. gr.

Ríkisstjórinn skal sverja eið þann, sem konúngi er boðið, og skal hann neyta í nafni konúngs allra rèttinda hans, meðan hann er ríkisstjóri; þó má hann eigi stínga upp á breytíngu á ríkiserfðunum.

13. gr.

Nú deyr konúngur, og skal ríkisþíng það, sem næst á undan hefur verið kosið, koma saman á 14. degi eptír lát konúngs, án þess því sè stefnt saman.

14. gr.

Sè ekki konúngsefni til, eða geti ekki konúngsefnið eður ríkisstjórinn tekið þegar í stað við stjórninni, þá skal ríkisráðið hafa hana á hendi, þángað til ríkisþíngið er búið að ráða úr, hvað gjöra skuli.

15. gr.

Sè ekki konúngsefnið eða ríkisstjórinn viðstaddur, þá skal hið sameinaða ríkisþíng setja frest, nær hann eigi að vera kominn heim aptur. Sè konúngsefnið ekki búið að ná lögaldri, eða hann sè ófær annara hluta vegna, til að hafa stjórn-

ina á hendi, og sè ekki settur ríkisstjóri nè lögráðendur, þá skal hið sameinaða ríkisþíng setja ríkisstjóra og skipa lögráðendur. Sè ekkert konúngsefni til, þá skal hið sameinaða ríkisþíng velja konúng og ákveða erfðirnar eptirleiðis.

16. gr.

Konúngsmötuna skal með lagaboði ákveða fyrir stjórnartíð hans. Þar með skal og til tekið, hverjar hallir og aðrar ríkiseignir undir konúngsmötuna heyri.

Konúngsmatan verður ekki sett í veð fyrir skuld.

17. gr.

Handa þeim, sem af konúngsættinni eru, má með lagaboði ákveða árlegan fjárstyrk. Peníngum þessum má ekki eyða utanríkis, nema ríkisþíngið leyfi.

III.

18. gr.

Konúngur er ábyrgðarlaus; hann er heilagur og friðhelgur. Ráðgjafarnir hafa stjórnarábyrgðina.

19. gr.

Konúngur velur ráðgjafa sína og víkur þeim úr völdum. Undirskript konúngs undir ákvarðanir þær, sem snerta löggjöf og stjórn, skal gefa þeim fullt gildi, þegar einn ráðgjafi skrifar undir með honum. Ráðgjafinn, sem skrifar undir, ábyrgist ákvörðunina.

20. gr.

Ráðgjafana má ákæra fyrir embættisrekstur þeirra. Þjóðþíngið getur ákært þá, en ríkisdómurinn skal dæma þá.

21. gr.

Allir ráðgjafarnir saman eru ríkisráðið. Forsetadæminu stýrir þar sá, sem konúngur nefnir fremstan þeirra.

Öll lagafrumvörp og áríðandi stjórnartilhaganir skal bera undir ríkisráðið. Fyrirkomulag þess og eins ráðgjafaábyrgðina skal ákveða með lagaboði.

22. gr.

Konúngur skal veita öll embætti þau, sem hann hefur veitt híngað til. Breytíngu má á þessu gjöra með lagaboði. Engan þann má nefna til embættismanns, sem eigi hefur innlends manns rèttindi.

Konúngur getur vikið þeim frá embætti, sem hann hefur veitt það. Eptirlaun embættismanna skulu ákveðin samkvæmt eptirlaunalagaboðinu.

Konúngur á vald á, að flytja embættismenn úr einu embætti í annað án samþykkis þeirra, þó svo, að þeir einskis í missi af embættistekjum, og að þeim sè gefinn kostur á, að kjósa, hvort þeir vilji heldur embættaskiptin, eða þá lausn frá embætti með eptirlaunum þeim, sem hinar almennu reglur ákveða.

Frá reglu þessari má með lagaboði undan skilja ýmsa embættismannaflokka, auk embættismanna þeirra, sem nefndir eru í 78. gr.

23. gr.

Konúngur hefur hið æðsta vald yfir land- og sjó-liðinu.

Hann boðar stríð og semur frið, og gjörir samnínga og verzlunarskilmála, og segir þeim upp; en eigi getur hann með gjörníngum slíkum afsalað neinum hluta landsins, nè ráðið yfir neinum ríkistekjum, nè lagt neina aðra skuldbindíng á ríkið, nema ríkisþíngið leyfi það.

24. gr.

Konúngur stefnir saman reglulegu ríkisþíngi á ári hverju. Án samþykkis konúngs má það eigi eiga setu lengur en tvo mánuði.

Breytíngar á ákvörðunum þessum má gjöra með lagaboði.

25. gr.

Konúngur getur stefnt saman ríkisþínginu til aukafunda, og ræður hann þá, hvað lánga setu það skal eiga.

26. gr.

Konúngur getur frestað fundum hins reglulega ríkisþíngs um tiltekinn tíma, en samt eigi lengur en um tvo mánuði;

nema ríkisþíngið samþykkist það, og ekki nema einu sinni á ári því, sem þíngið á næst að hafa reglulegan fund.

27. gr.

Konúngur getur leyst upp ríkisþíngið, annaðhvort allt þíngið eða aðrahvora deild þess; sè einúngis annað þíngið upp leyst, þá skal fresta fundum hins þíngsins, þángað til ríkisþíngið allt getur aptur átt setu, og skal það vera áður en 2 mánuðir sèu liðnir, frá því þíngið var leyst upp.

28. gr.

Konúngur getur látið leggja fyrir ríkisþíngið lagafrumvörp og aðrar uppástúngur.

29. gr.

Samþykkis konúngs þarf til þess, að nokkur ákvörðun ríkisþíngsins geti fengið lagagildi. Konúngur skipar, að birta lögin, og sèr um, að þeim sè fullnægt.

30. gr.

Þegar mikið liggur á, getur konúngur gefið út bráðabyrgðalög, meðan þíngið stendur ekki yfir, en eigi mega samt slík lög koma í bága við grundvallarlögin, og ætíð skulu þau lögð undir næsta ríkisþíng þar á eptir.

31. gr.

Konúngur getur náðað menn og veitt almenna uppgjöf á sökum; ráðgjafana getur hann að eins með samþykki þjóðþíngsins þegið undan hegníngum þeim, sem ríkisdómurinn hefur lagt á þá.

32. gr.

Konúngur veitir sumpart sjálfur, sumpart lætur hann hlutaðeigandi stjórnarvöld veita leyfi þau og undantekníngar frá lögunum, sem vant hefur verið að veita, eptir reglum þeim, sem fylgt hefur verið híngað til.

33. gr.

Konúngur á vald á, að láta slá penínga, samkvæmt því sem lögin bjóða.

IV.

34. gr.

Deildir ríkisþíngsins eru þjóðþíngið og landþíngið.

35. gr.

Kosníngarrètt til þjóðþíngsins á hver maður, sem hefur óflekkað mannorð og innlends manns rèttindi, og er fullra 30 ára, nema hann:

*a,* sè háður einhverjum einstökum manni, og sè ekki sjálfur búsettur;

*b,* þiggi eða hafi þegið sveitarstyrk, sem ekki hefur verið gefinn honum upp eða er borgaður;

*c,* sè eigi fjár síns ráðandi;

*d,* hafi eigi verið heimilisfastur í eitt ár í kjördæmi því eða bæ, sem hann er í, þegar kosníngar fara fram.

36. gr.

Kjörgengi til þjóðþíngsins á hver maður, sem hefur óflekkað mannorð og innlends manns rèttindi, og er fullra 25 ára að aldri, ef það, sem til tekið er í 35. gr., *a, b, c,* á ekki heima hjá honum.

37. gr.

Tala þjóðþíngismanna skal vera eptir tiltölu hèr um bil 1 af hverjum 14000 innbúa. Kosníngar skulu fara fram í kjördæmum, en stærð kjördæmanna skal ákveðin í kosníngarlögunum. Kjördæmi hvert skal velja einn mann meðal þeirra, sem á kjörþíngi hafa boðið sig fram.

38. gr.

Þjóðþíngismenn skulu valdir fyrir 3 ár, og fá þeir daglaun.

39. gr.

Kosníngarrètt til landþíngsins á hver sá, sem hefur kosníngarrètt til þjóðþíngsins eptir 35. gr. Þeir, sem kosníngarrètt eiga, skulu velja kjörmenn úr sínum flokki, samkvæmt ákvörðunum þeim, sem í kosníngarlögunum verða gjörðar.

40. gr.

Kjörgengur til landþíngsins er hver sá, sem hefur óflekkað

mannorð og innlends manns rèttindi, og sè eigi bú hans uppboðs- eða þrota-bú, ef hann er fullra 40 ára að aldri og á hinu seinasta ári hefur annaðhvort goldið 200 ríkisdali í beinlínis skatt til ríkisins eða til sveitar, eða getur sannað, að árstekjur hans hafi numið 1200 ríkisdölum.

Í kjördæmum þeim, þar sem eigi eru nógu margir kjörgengir menn eptir þessari reglu, að tiltölu þeirri við innbúafjöldann, sem til skal tekin í kosníngarlögunum, skal bæta við tölu hinna kjörgengu svo mörgum af þeim, sem mestan skatt gjalda í kjördæminu, að hlutfall þetta náist.

41. gr.

Kosníngar til landþíngsins skulu fara fram í stærri kjördæmum, og skal þau ákveða í kosníngarlögunum. Í hverju þessara kjördæma skulu kjörmenn halda fund, og greiða atkvæði um svo marga menn, sem kjósa skal fyrir kjördæmið, og skulu að minnsta kosti þrír fjórðúngar þeirra, sem kosnir verða, hafa átt fast heimili í kjördæminu hið seinasta ár, áður kosníngar fara fram. Til þess kosníngar sèu gildar, þarf meir en helmíng af atkvæðum þeim, sem greidd verða.

42. gr.

Á landþínginu skulu ætíð sitja hèr um bil helmíngi færri menn en á þjóðþínginu.

43. gr.

Landþíngismenn skulu valdir fyrir 8 ár. Helmíngur þeirra skal fara úr þínginu 4. hvert ár. Þeir fá jafnmikil daglaun og þjóðþíngismenn.

44. gr.

Þegar búið er að gefa ný sveitastjórnarlög, má með lagaboði fá kosníngar til landþíngsins í hendur hinum stærri sveitastjórnarnefndum (í ömtum eða landsálfum).

V.

45. gr.

Hið árlega ríkisþíng skal koma saman fyrsta mánudag í október - mánuði, hafi konúngur ekki stefnt því saman áður.

46. gr.

Þar á ríkisþíngið að koma saman, sem stjórnin hefur aðsetur sitt. Þegar eitthvað sèrlegt ber að höndum, getur konúngur stefnt því saman á einhverjum öðrum stað í ríkinu.

47. gr.

Ríkisþíngið skal vera friðhelgt. Sá, sem brýtur gegn friði þess og frelsi, eða býður eitthvað, sem þar að lýtur, eða hlýðir slíku boði, verður sekur um drottinssvik.

48. gr.

Bæði þíngin eiga, hvort um sig, rètt á, að stínga upp á lagaboðum og samþykkja þau fyrir sitt leyti.

49. gr.

Þíngin geta, hvort um sig, sent konúngi ávarp.

50. gr.

Þíngin geta, hvort um sig, sett nefndir af þíngmönnum í þínginu, til að rannsaka málefni, sem eru áríðandi fyrir almenníng. Nefndir þessar skulu eiga rètt á, að heimta skýrslur, munnlegar og brèflegar, bæði af embættismönnum og einstökum mönnum.

51. gr.

Engan skatt má á leggja, nè breyta, nè af taka, nema með lagaboði. Svo má og eigi kalla menn til herþjónustu, nè taka ríkislán, nè selja neina af eignum krúnunnar, nema slíkt sè með lagaboði ákveðið.

52. gr.

Undir eins og reglulegt ríkisþíng er sett, skal í hvort skipti leggja fram frumvarp til laga um ríkisfjárhaginn fyrir hið næsta ár, og skal þar í vera áætlun um tekjur og útgjöld ríkisins.

Fjárhagslaga-frumvarpið skal fyrst rætt á þjóðþínginu.

Fyr, en búið er að samþykkja fjárhagslögin, má engan skatt heimta. Engin útgjöld skulu eiga sèr stað, sem eigi eru byggð á þeim.

53. gr.

Þíngin skulu, hvort um sig, kjósa 2 reikníngsskoðunarmenn, og skal þeim veita laun fyrir starfa sinn. Þessir menn eiga að gagnskoða hinn árlega ríkisreikníng og gæta þess, að tekjur ríkisins sèu þar allar til taldar, og að ekkert hafi verið út goldið, nema eptir fjárhagslögunum. Þeir geta krafizt, að fá allar skýrslur þær og skjöl, sem þeim þykir þurfa.

Síðan skal leggja hinn árlega ríkisreikníng með athugasemdum reikníngsskoðunarmanna fyrir ríkisþíngið, og skal það leggja á úrskurð um hann.

54. gr.

Enginn útlendíngur getur eptirleiðis öðlazt innlends manns rèttindi, nema með lagaboði.

55. gr.

Ekkert lagafrumvarp má samþykkja á þíngi að fullnustu, fyr en það hefur verið rætt þar þrisvar.

56. gr.

Hafi eitthvert lagafrumvarp verið fellt af öðruhvoru þínginu, þá má ekki aptur taka það til umræðu í sömu deild á því þíngi.

57. gr.

Þegar búið er að samþykkja eitthvert lagafrumvarp á öðru þínginu, skal leggja það fyrir hitt þíngið, eins og það var samþykkt; sè því þar breytt, skal senda það aptur hinu fyrra þínginu; verði því enn breytt, sendist það á ný til hins þíngsins. Verði menn eigi að heldur á eitt sáttir, þá skal hvort þíng um sig, ef annaðhvort þíngið krefur þess, kjósa jafnmarga þíngmenn í nefnd, er segja skal álit sitt um ágreiníngsatriðin. Að því búnu skal hvort þíng um sig leggja á úrskurð eptir því, sem nefndarmenn hafa farið fram á.

58. gr.

Þíngin skulu, hvort um sig, skera úr, hvort þíngmenn þeirra sèu löglega kosnir.

59. gr.

Sèrhver nýr þíngmaður skal, undir eins og búið er að

viðurkenna, að kosníng hans sè gild, vinna þann eið, að hann skuli halda grundvallarlögin.

60. gr.

Ríkisþíngsmenn eru eingaungu bundnir við sannfæríngu sína, en eigi við reglur frá kjósendum sínum.

Embættismenn þeir, sem kosnir verða til ríkisþíngsins, þurfa ekki leyfi stjórnarinnar til að þiggja kosnínguna.

61. gr.

Meðan ríkisþíngið stendur, má ekki taka neinn ríkisþíngsmann fastan fyrir skuldir án samþykkis þíngs þess, sem hann er í, nè heldur setja hann í varðhald, eða höfða mál gegn honum, nema hann sè staðinn að glæp. Enginn ríkisþíngsmaður verður krafinn til reikníngsskapar utanþíngs fyrir það, sem hann hefur talað á ríkisþínginu, nema þíng það, sem hann er í, leyfi.

62. gr.

Komist sá, sem löglega er kosinn, í einhverjar þær kríngumstæður, sem svipta kjörgengi, missir hann rètt þann, er kosníngunni fylgir. Þó skal enginn missa sæti á landþínginu, þó hann flytji sig í annað kjördæmi einhvern tíma á því tímabili, sem hann er kosinn fyrir.

Það skal með lagaboði ákveða, nær kjósa þurfi um aptur, þegar einhver ríkisþíngsmaður fær embætti með launum.

63. gr.

Ráðgjöfunum skal heimilt, að sitja á ríkisþínginu sökum embættisstöðu sinnar, og eiga þeir rètt á, að biðja sèr hljóðs við umræður málanna, svo opt sem þeir vilja, en verða að öðru leyti að gæta þíngskapa, Ekki skulu þeir neyta atkvæðisrèttar, nema þeir sèu jafnframt ríkisþíngsmenn.

64. gr.

Hvort þíng skal velja sèr forseta sjálft, og einn eða fleiri varaforseta.

65. gr.

Hvorugt þíngið má samþykkja neitt, nema fleiri sèu á fundi og greiði þar atkvæði, en helmíngur þíngmanna.

66. gr.

Heimilt er hverjum ríkisþíngsmanni, að bera upp sèrhvert almennt málefni á þíngi því, sem hann er í, ef þíngið leyfir það, og beiðast þar um skýrslu ráðgjafanna.

67. gr.

Hvorugt þíngið má taka við neinni bænarskrá, nema hún sè lögð fram af þíngmanni, sem þar á setu.

68. gr.

Þyki þínginu ekki ástæða til, að leggja úrskurð á eitthvert málefni, þá getur það vísað því til ráðgjafanna.

69. gr.

Þíngin skal halda í heyranda hljóði. Þó getur forseti eða svo margir þíngmenn, sem til tekið verður í þíngreglunum, krafizt, að öllum utanþíngsmönnum sè vísað burt, og skal þá þíngið skera úr, hvort málefnið skal ræða í heyranda hljóði eða á heimulegum fundi.

70. gr.

Þíngin skulu, hvort um sig, ákveða reglur um, hvernig verkum skuli niður skipa, og allt fara reglulega fram.

71. gr.

Þá er ríkisþíngið sameinað, þegar þjóðþíngið og landþíngið koma saman á fund.

Til að leggja þar úrskurð á málin, þarf meir en helmíngur þíngmanna úr hvorutveggja þínginu að vera við staddur og greiða atkvæði. Hið sameinaða ríkisþíng velur sjálft forseta sinn, og setur sèr þínglög.

## VI.

72. gr.

Í ríkisdóminum skulu sitja 16 menn, sem kosnir skulu til 4 ára, helmíngurinn af landþínginu meðal landþíngismanna, en helmíngur af æðsta dómi landsins, meðal þeirra, sem í honum sitja. Ríkisdómurinn skal sjálfur velja sèr forseta úr flokki sínum.

Um rekstur málanna fyrir ríkisdómi skal ákveða nákvæmari reglur með lagaboði.

73. gr.

Ríkisdómurinn skal dæma mál þau, sem þjóðþíngið höfðar gegn ráðgjöfunum.

Svo getur og konúngur með samþykki þjóðþíngsins látið ákæra aðra menn fyrir ríkisdóminum um glæpi þá, sem honum þykja mjög háskalegir fyrir ríkið.

74. gr.

Skipun dómsvaldsins verður eigi ákveðin, nema með lagaboði.

75. gr.

Dómsvald það, sem fylgt hefur sumum fasteignum, skal með lagaboði af taka.

76. gr.

Dómarastörfin skal að greina frá yfirvaldsgjörðum, samkvæmt reglum þeim, sem ákveðnar verða um það með lagaboði.

77. gr.

Dómendur skulu eiga rètt á, að leysa úr öllum spurníngum um embættistakmörk yfivalda. Þó getur sá, sem þar um leitar úrskurðar, ekki komið sèr hjá, að hlýða í bráð yfirvaldsboðinu, með því að skjóta málinu til dóms.

78. gr.

Dómendur skulu í embættisverkum sínum fara einúngis eptir lögunum. Þeim má eigi víkja úr embætti, nema með dómi, nè heldur flytja þá í annað embætti gegn vilja þeirra, nema þegar svo stendur á, að verið er að koma nýrri skipun á dómstólana. Þó má gefa þeim dómara, sem er fullra 65 ára gamall, lausn frá embætti, en eigi skal hann missa neins í af launum sínum.

79. gr.

Jafnskjótt og að svo miklu leyti því verður við komið, skulu dómar allir fara fram munnlega og í heyranda hljóði. Í óbótamálum og í sakamálum þeim, er spretta af afbrotum gegn landsstjórninni sjálfri, skal taka upp kviðu.

## VII.

80. gr.

Skipulag þjóðkirkjunnar skal ákveða með lagaboði.

81. gr.

Leyfilegt er, að stofna fèlög, til að þjóna guði með þeim hætti, er bezt á við hvers eins sannfæríngu, þó með því skilyrði, að ekkert sè kennt nè framið, sem stríðir gegn góðu siðferði og reglu.

82. gr.

Enginn er skyldur, að greiða gjöld til annarar guðsþjónustu, en hans eigin, nema gjöld þau, er greidd eru af eign; þó ber sèrhverjum þeim, sem ekki sannar, að hann sè í einhverjum þeim trúarbragðaflokki, sem viðurkenndur er í landinu, að greiða til skóla gjöld þau, sem lögboðið er að gjalda til þjóðkirkjunnar, og eigi eru greidd af eign.

83. gr.

Kjör trúarbragðaflokka þeirra, sem á greinir við þjóðkirkjuna, skal nákvæmar ákveða með lagaboði.

84. gr.

Enginn má neins í missa af borgaralegum og þjóðlegum rèttindum fyrir sakir trúarbragða sinna, nè heldur má nokkur fyrir þá sök skorast undan nokkurri almennri fèlagsskyldu

## VIII.

85. gr.

Sèrhver sá, sem tekinn er fastur, skal leiddur fyrir dómara, fyr en sólarhríngur sè um liðinn. Megi ekki þá jafnskjótt láta hann lausan aptur, ber dómaranum, svo fljótt sem verður, og í seinasta lagi áður en 3 dagar sèu liðnir, að leggja á úrskurð, er byggður sè á tilgreindum ástæðum, um að hann skuli setja í varðhald; en megi láta hann lausan mót veði, þá ber dómaranum, að ákveða með úrskurðinum, hvert eða hvað mikið veðið skuli vera.

Úrskurði þeim, sem dómarinn segir upp, má hinn hlutaðeigandi þegar skjóta sèr í lagi til æðri dóms.

Engan má hepta fyrir þá ávirðíng, er að eins varðar fjársekt eða einföldu fángelsi.

86. gr.

Heimilið er friðhelgt. Ekki má gjöra húsleit, nè kyrrsetja brèf eða önnur skjöl og rannsaka þau, nema eptir dómsúrskurði, ef lögin gjöra ekki sèrlega undantekníngu.

87. gr.

Eignarrètturinn er friðhelgur. Engan má skylda til, að láta af hendi eign sína, nema almenníngsþörf krefji; þarf til þess lagaboð, og komi fullt verð fyrir.

88. gr.

Öll bönd þau, er hamla frelsi í atvinnuvegum og jafnrètti manna til atvinnu, og eigi eru byggð á almenníngsheillum, skal af taka með lagaboði.

89. gr.

Sá, sem ekki getur sjálfur sèð fyrir sèr og sínum, og sè hann ekki skyldu-ómagi annars manns, skal eiga rètt á, að fá styrk úr almennum sjóði, þó með því móti, að hann gángist undir skyldur þær, er lögin áskilja þar um.

90. gr.

Hafi foreldrar ekki efni á, að láta uppfræða börn sín, skal veita þeim kennslu ókeypis í alþýðuskólunum.

91. gr.

Hver maður á rètt á, að láta í ljósi á prenti hugsanir sínar; þó verður hann að ábyrgjast þær fyrir dómi. Yfirskoðun rita og aðrar slíkar tálmanir fyrir prentfrelsið skal aldrei mega taka upp aptur.

92. gr.

Rètt eiga menn á, að stofna fèlög í sèrhverjum löglegum tilgángi, án þess leyfi þurfi að sækja til þess. Ekkert fèlag skal mega leysa upp með stjórnarráðstöfun. Þó má banna fèlög um sinn, en þá verður þegar að höfða mál gegn þeim, til þess þau verði leyst upp.

93. gr.

Rètt skulu menn eiga á, að safnast saman vopnlausir. Lögreglustjórnin á rètt á, að vera við almennar samkomur. Banna má mannfundi undir berum himni, þegar óttast má fyrir, að af þeim standi óspektir.

94. gr.

Í upphlaupum má eigi bera vopn á menn, fyr en búið er í nafni konúngs og laganna þrem sinnum og þó árángurslaust að biðja mannþyrpínguna að skilja, nema svo sè, að ráðizt sè á hermennina að fyrra bragði.

95. gr.

Sèrhver vopnfær maður skal vera skyldur til, að taka sjálfur þátt í vörn föðurlandsins, eptir því sem lögin fyrir skipa.

96. gr.

Rètti sveitafèlaganna, til að ráða sjálf málefnum sínum með umsjón þjóðfèlagsins, skal skipa með lagaboði.

97. gr.

Öll sèrleg rèttindi, er lögin hafa bundið við aðal eða nafnbætur, skulu vera af tekin.

98. gr.

Engin lèni nè erfðaóðul má eptirleiðis stofna; en það skal með lagaboði á kveðið, hvernig þau, sem nú eru, geti orðið að frjálsri eign.

99. gr.

Ákvarðanir þær, sem gefnar eru í 85., 92. og 93. gr., skulu að eins vera gildar fyrir stríðsliðið með þeim takmörkunum, sem leiða af herþjónustulögunum.

## IX.

100. gr.

Uppástúngur um breytíngu á grundvallarlögum þessum eða viðauka við þau skal bera upp á reglulegu ríkisþíngi. Verði ákvörðun sú, sem um það er tekin, samþykkt óbreytt af hinu næsta reglulega ríkisþíngi, og fallist konúngur á hana, þá

skulu bæði þíng upp leyst og nýjar kosníngar fara fram bæði til þjóðþíngsins og landþíngsins. Verði ákvörðunin samþykkt í þriðja sinn af hinu nýja ríkisþíngi, hvort heldur það er á reglulegu þíngi eða á aukaþíngi, og verði hún staðfest af konúngi, þá verður hún að grundvallarlögum.

---

## Ákvarðanir um stundarsakir.

1.

Ákvörðunin í 16. gr., að konúngsmötuna skuli á kveða með lagaboði, skal ekki eiga sèr stað um konúng þann, sem nú er. Svo skal og það, sem fyrir er mælt í 17. gr., ekki vera því til fyrirstöðu, að fjárstyrk þeim, sem þar getur um, sè eytt utanríkis að svo miklu leyti, sem slíkt hefur heimild í samníngum, sem þegar eru í gildi.

2.

Þángað til eptirlaunalög þau, sem heitið er í 22. gr., koma út, skal sèrhver embættismaður, sem veitt er lausn samkvæmt boðum greinar þessarar, fá eptirlaun eptir reglum þeim, sem híngað til hefur verið fylgt.

3.

Ákvörðun sú, sem gefin er í 78. gr., að eigi megi víkja dómendum úr embætti, nema með dómi, og heldur ekki flytja þá í annað embætti að þeim fornspurðum, skal ekki eiga sèr stað um dómendur þá, sem nú eru, þegar þeir hafa jafnframt önnur störf á hendi.

4.

Þángað til búið er að koma annari skipun á meðferð sakamála, skal svo að fara um áfríun þá af varðhaldsúrskurðum, sem getið er um í 85. gr., sem borgaralegt mál væri, nema hvað stefnufresturinn skal vera eins og í aukarèttarmálum, og skal kærandi eigi þurfa að við hafa stimplaðan pappír, nè greiða neina borgun fyrir meðferð málsins fyrir dómi. Honum skal veitt færi á, að leita ráða hjá málaflutníngsmanni um það, sem snertir áfríunina, og skal mega leggja fram ný skilríki í málinu fyrir yfirdóminum.

---

Og skulu þá með þessu vera af tekin konúngalög þau, sem fyrirrennari Vor á konúngssætinu, hinn sæli konúngur Friðrik hinn þriðji gaf út 14. nóvember 1665, samkvæmt umboði því, sem honum var til þess gefið af hverri stètt fyrir sig, og skulu að eins gildar ákvarðanir þær í konúngalögum þessum, sem standa í 27.—40. gr. um erfðatalið, og staðfestar eru í 4. gr. í grundvallarlögunum, og það, sem fyrir er skipað í 21. og 25. gr. um karla þá og konur, sem af konúngsættinni eru, þángað til þessu kann að verða breytt með nýjum lögum um konúngsættina.

*Gefið í höll Vorri Kristjánsborg, 5. júní 1849.*

Undir hendi Vorri og innsigli.

# Ástæður

til

## lagafrumvarps um stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins og um kosníngar á Íslandi til ríkisþíngsins.

---

Samkvæmt kosníngarlögunum 7. júlí 1848, 1. gr., nefndi hans hátign konúngurinn 5 fulltrúa fyrir Íslands hönd til fundar þess, er lagt var fyrir frumvarp það til grundvallarlaga ríkisins, sem staðfest var síðan af konúngi 5. júní 1849.

Jafnframt þóknaðist konúngi með brèfi 23. sept. 1848, að bjóða stiptamtmanninum á Íslandi, að birta það landsmönnum, að þó konúngur þannig kríngumstæðanna vegna hefði orðið að láta hluttekníngu þá, er Íslendíngum bæri að tiltölu við aðra þegna í ráðagjörðum þjóðfundarins um stjórnarskipunina, koma fram á annan hátt, en á kveðið var um innbúana í hinum dönsku umdæmum, væri það þó ekki ásetníngur sinn, að aðalákvarðanir þær, er nauðsynlegar kynnu að vera vegna sèrlegs ásigkomulags Íslands, til þess að staða lands þessa í fyrirkomulagi ríkisins yrði ákveðin í hinum einstöku greinum, skyldi verða samþykktar, fyr en búið væri að láta Íslendínga sjálfa gefa til kynna álit sitt um það á þíngi sèr í lagi í landinu sjálfu.

Grundvallarlögin voru síðan samþykkt án neins sèrlegs skilyrðis fyrir Íslands hálfu; aptur voru áskildar sèrlegar ákvarðanir fyrir Ísland í 18. og 37. gr. í kosníngarlögum þeim til ríkisþíngsins, er lögð voru sömuleiðis fyrir ríkisfundinn og komu út 16. júní 1845.

Eptir það voru 28. sept. 1849 gefin út lög um kosníngar til þjóðfundar þess á Íslandi, sem heitið var í fyr nefndu kon-

úngsbrèfi 23. sept. 1848, og hafa síðan kosníngar farið fram eptir þeim; verður það því nú aðalætlunarverk þíngs þessa, sem stefnt er saman með boðunarbrèfi 16. maí 1850, að segja álit sitt um lagafrumvarp það, er prentað er hèr að framan, og miðar til, að ákveða þær aðalákvarðanir, sem vegna sèrlegs ásigkomulags Íslands mega virðast nauðsynlegar, til þess ákveðin verði staða lands þessa í fyrirkomulagi ríkisins, og undir eins að efna það, sem áskilið er í kosníngarlögunum 16. júní 1849 viðvíkjandi ríkisþíngskosníngum á Íslandi.

Þar eð konúngalögin, einkum í 19. gr., ásamt boðunarbrèfinu 4. sept. 1709, er birt voru með konúngalögin, hafa þegar ákveðið, að Ísland sè partur úr ríkinu, svo að eigi getur það orðið umræðuefni, og eptir að konúngur hefur, með því að staðfesta grundvallarlögin, samþykkt þjóðlega stjórnarskipun innan takmarka þeirra, er sett eru með konúngalögunum, þá getur nú að eins orðið umtalsefni, á hvern hátt þörf sè til, vegna sèrlegs ásigkomulags Íslands, að ákveða nákvæmar stöðu þess, svo hin nýja stjórnarskipun, sem ákvörðuð er með grundvallarlögunum, geti öðlazt þar fullt gildi.

Hvað því nú viðvíkur, hvort sleppa ætti einstökum greinum í grundvallarlögunum, eða laga þær, þegar grundvallarlögin væru lögleidd á Íslandi, virðist það sjálfsagt, að ekki þarf að fella úr greinir þær, er snerta þá hluti, er eigi eiga sèr stað á Íslandi, t. a. m. 98. gr., þar eð það liggur í augum uppi, að þær geta ekki átt þar við, og eins er um þær greinir, sem virðast kynni þörf á að laga, vegna þess hvernig á stendur þar á landinu, t. a. m. 85. og 90. gr., að þær verður að skilja á þann veg, að eigi má heimta, að þeim sè fylgt beinlínis eptir orðunum, þegar það liggur bert fyrir, að því getur með engu móti orðið við komið. Stjórninni hefur því þótt frágángssök, að taka hinar einstöku ákvarðanir grundvallarlaganna fyrir, og laga þær eptir þörfum Íslands, og hefur hún því heldur kosið, að láta grundvallarlögin fá þar gildi, og að eins bæta við ákvörðunum þeim, sem fullgild ástæða er til vegna fjarlægðar landsins og stöðu þeirrar, er það hefur átt híngað til.

Aðalákvarðanir þær, er þannig ákveða stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins, má finna í fyrri hluta frumvarpsins, sem eru 10 greinir. Af því, sem þegar er sagt í konúngsbrèfi því, 23. sept. 1848, er þjóðfundi þessum á Íslandi er stefnt

saman eptir, leiðir, að Ísland kemur í frumvarpi þessu einkum fram sem partur af ríkinu, eða er skoðað í viðskiptum þess við ríkið. Nú er það sjálfsagt, að öll þau mál, er snerta að eins Ísland sem hluta af ríkisheildinni, verða að heyra undir hina æðstu ríkisstjórn, og þá undir konúng og ríkisþíngið í sameiníngu, ef löggjafarmál eru. Vald þetta hlyti ríkisþíngið að hafa, hvort sem Íslendíngar ættu þar fulltrúa eða ekki, en rèttsýni virðist samt að bjóða, að gefinn sè Íslendíngum kostur á, að senda þjóðkjörna menn á ríkisþíngið, eins og er um önnur umdæmi ríkisins, og að ákveðin sè tala fulltrúa þessara samkvæmt tiltölu þeirri við fólksfjöldann, sem til er tekin í grundvallarlögunum. Eru því í síðari hluta frumvarpsins ákvarðanir um kosníngar á Íslandi. bæði til þjóðþíngsins og landþíngsins, og er í ákvörðunum þessum leitazt við, að laga sem bezt verður aðalreglurnar í grundvallarlögunum og í kosníngarlögunum 16. júní 1849 eptir því, sem á stendur á Íslandi.

Að svo mæltu um aðalefnið skal nú horfið til hinna einstöku greina í fumvarpinu.

Til 1. greinar.

Þegar þíngið á Íslandi hefur tjáð álit sitt um lagafrumvarp þetta, verður það lagt fyrir ríkisþíngið. Lögum þeim, sem þar á eptir verða gefin, verður þá sjálfsagt þínglýst ásamt grundvallarlögunum, og hefur því ekki þótt þörf á að til greina, frá hvaða tíma grundvallarlögin skuli hafa gildi. Það virðist að öðru leyti vart geta komið í bága við 2. gr. grundvallarlaganna, að konúngur og ríkisþíngið í sameiníngu leiði í lög ákvarðanir um, hvernig koma skuli fyrir ríkisstjórninni í einstökum umdæmum ríkisins, og hefur stjórnin álitið, að með þessu móti mætti veita Íslandi í málum þeim, er eingaungu snerta landið út af fyrir sig, stjórn þá, er kunnugri sè högum landsins, en ríkisþíngið væri, ef það ætti, samkvæmt grundvallarlögunum, að taka beinlínis þátt einkum í löggjöfinni um mál þau, sem getið var.

Til 2. greinar.

Orð þau, sem hèr eru höfð, til að lýsa málum þeim, sem undan skilin eru löggjafarvaldi ríkisþíngsins, eru að mestu leyti tekin úr alþíngistilskipuninni 8. marz 1843, 1. gr. Það hefur

samt þótt nauðsynlegt, eins og sèst af því, sem síðar segir, að til taka nákvæmar helztu mál þau, er heyra skuli þannig undir alþíngi, til þess að komast hjá efasemdum eptirleiðis. Þar sem vísað er til ákvarðananna í grundvallarlögunum um ráðgjafaábyrgðina, þá er auðvitað, að þetta ber einúngis að skilja um almenna ábyrgð þeirra fyrir ríkisþínginu og ríkisdóminum, og verður því um ábyrgðina fyrir það, sem einn eða fleiri ráðgjafar gjöra viðvíkjandi stjórn Íslands, að fara að eins eptir þeim almennu reglum, sem fyrir er sagt í grundvallarlögunum. Þar á móti heldur alþíngi rètti sínum, til að bera fram kærur, eptir tilsk. 28. maí 1831, 5. gr.

Þegar því næst er litið til hinna einstöku atriða í grein þessari, þá sèst af því, að ríkisþínginu er að eins áskilin hluttekníng í þeim málum, er snerta beinlínis ríkishátignina eða almennt gagn ríkisins. Þar sem t. a. m. hinn æðsti dómur er sameiginlegur fyrir Ísland og aðra parta ríkisins, þá leiðir af því, að eigi verður breytt reglunum um sambandið milli dóms þessa og undirdómstólanna, nema með lagaboði, sem samþykkt er af ríkisþínginu, og á þetta sèr t. a. m. stað um ákvarðanir þær, er nú eru um það, hverjum málum áfría megi til hæstarèttar. Svo verður einnig, þegar tekin verður upp hin nýja meðferð á málum, er heitið er í 79. gr. grundvallarlaganna, löggjafarvald ríkisins að ákveða breytíngu þá, sem þá verður gjörð, á sambandi æðsta dómsins við dómstólana á Íslandi. Að því er snertir ákvarðanir um rèttindi einstakra manna, þá liggur það í augum uppi, að þegar ætlazt er til, að þær skuli vera gildar alstaðar í ríkinu — og er það t. a. m. æskilegt um lögaldurinn — þá verður eigi svo almennt gildi ákveðið af hinu sèrlega löggjafarvaldi fyrir Ísland einu saman. Það er einnig auðsætt, að löggjöfin um eiginleg brot gegn ríkisstjórninni og um afbrot gegn almennum friði eða gegn skipun þjóðfèlagsins, eins og henni er nú fyrir komið, t. a. m. upphlaup, samsæri, o. s. frv., getur eigi heldur verið ólík í einstökum pörtum ríkis þess, sem er veruleg eining, en að öðru leyti er löggjöfin um afbrot og hegníngar talin meðal hinna innlendu málefna. Að því leyti því næst er á kveðið, að hin almennu kirkjuskipunarlög, eins og þeim kann að verða fyrir komið, skuli heimfæra til Íslands, eptir að alþíngi hefur látið í ljósi álit sitt um þau, og þeim hefur verið breytt, eins og þarf, þá er þetta eðlileg afleiðing af því, að þjóðkirkjan er sú sama á

Íslandi og í Danmörku, og getur því varla komið til máls, að mismunar nokkur verði á grundvallarreglum þeim, er lögin verða byggð á, heldur að eins, að breytt verði einstökum ákvörðunum eptir því, sem á stendur á Íslandi. Skólamálefnin eru í nánu sambandi við háskólann, og eru óaðskiljanlegur partur af allri hinni æðri menntun, sem vafalaust verður að álíta almennt ríkismálefni; þar að auki eru útgjöldin til skólanna á Íslandi greidd úr ríkissjóðnum, og væri þetta, þó ekki væri annað, næg ástæða til, að alþíngi getur vart átt neinn vissan eða yfirgripsmikinn þátt í fyrirkomulagi skólamálefnanna, enda kemur það ekki opt fyrir, að þetta þurfi að ákveða með eiginlegu lagaboði. Hin önnur atriði í grein þessari er eigi þörf á að útlista nákvæmar; einúngis ber þess að geta, að nauðsyn þótti, að taka einnig fram í ákvörðunum þessum skilyrði það, að eigi sè neitt framið gegn ríkishátigninni og sameiginlegu gagni ríkisins, þar eð svo mætti við bera, að komið gætu í bága við það sumar þær ráðstafanir, er í snöggu áliti kynnu virðast að snerta eingaungu landið út af fyrir sig, t. a. m. reglur um fiskiveiðar útlendínga, o. s. frv. Þetta var einnig því nauðsynlegra, sem stjórninni hefur, sökum fjarlægðar Íslands og einkennilegs ásigkomulags, svo og til hægðarauka, þótt mega leggja undir aðgjörðir alþíngis eigi allfá þvílík málefni, er í rauninni eru ríkismálefni eptir eðli sínu, en reyndar ekki nema að því leyti, sem málefni þau koma fyrir í landinu sjálfu.

Til 3. greinar.

Þó leitazt hafi verið við, að til greina svo nákvæmlega, sem verða mátti, helztu málefni þau, er skuli vera undan skilin valdi ríkisþíngsins, er samt eigi loku fyrir skotið, að vafi geti risið stöku sinnum, og þótti því eigi mega vanta ákvörðun um, hvernig leysa skyldi úr þeim vafa. Það liggur svo beint við, að eigi verði farið öðruvísi að, en í greininni stendur, í þeim málum, sem snerta ríkishátignina og sameiginlegt gagn ríkisins, að ekki þarf um það lengri útskýríngar.

Til 4. greinar.

Þegar að greina á það, sem Ísland leggur til almennra ríkisútgjalda og til sèrlegra útgjalda Íslands, þá er nauðsynlegt, að lagðar sèu ákveðnar tekjur til hvors um sig. Þessu kynni

nú reyndar að verða komið fyrir á þann hátt, að Ísland greiddi víst gjald til ríkisins, er ákveðið væri eptir fólksfjölda og efnahag í samanburði við hina aðra parta ríkisins, en ákvarðað væri aptur með sérlégum íslenzkum skattalögum, á hvern hátt gjaldið ætti að leggja á landsbúa. En bæði er það, að mikil og, ef til vill, ókljúfandi vandkvæði eru á, að finna þá réttu tiltölu, og Ísland gæti með engu móti greitt svo mikinn hluta af hinum almennu ríkisútgjöldum, sem eptir því, sem næst liggur við, yrði að leggja á það, og á hinn bóginn kemur slíkt skipulag naumast alls kostar vel heim við rétta skoðun á viðskiptum einstaks landsparts við allt ríkið, enda mundu einnig flestöll lögin um skatta þá, er eigi eru beinlínis-skattar, heyra þegar undir vald ríkisþíngsins eptir ákvörðununum hér á undan og sambandi þeirra við hina almennu ríkisskipun. Það hefur því þótt einfaldast og réttast, að ákveða sinn tekjustofn handa hvoru, ríkinu og landinu, og lofa svo hvorutveggja, að færa sér hann í nyt eptir því, sem þörfin krefur, og virðist þá bezt fara, að setja takmörkin, eins og þau eru í lagafrumvarpi þessu, þannig, að lagðir séu til ríkissjóðsins skattar þeir, sem eigi eru beinlínis-skattar, og þar að auki nafnbótaskatturinn, en aðrir beinlínis-skattar, sem þar að auki hafa á Íslandi einkennilegan uppruna og skipulag, sèu, að frá skildum nafnbótasköttunum, lagðir til landssjóðsins. En þegar skattatekjum ríkissjóðins frá Íslandi þannig var fækkað, þá var því meiri nauðsyn á, að áskilja sjóði þessum, eins og áður, tekjurnar af hinum konúnglegu fasteignum þar. Þó eignir krúnunnar á Íslandi hafi aðmestu leyti uppruna sinn frá afteknum pápiskum stiptunum, eða frá eignum, sem lagðar hafa verið til andlegra þarfa, en síðan hafa verið dregnar inn í ríkissjóðinn, þá getur þetta því síður orðið tekið til greina, sem líkt er ástatt í nærri öllum Prótestanta-löndum, og hefur einnig átt sér stað í Danmörku. Eigi má heldur missa sjónar á því, að nú sem stendur er farið með öll fjárhagslög Íslands, sem part af hinum almennu ríkisfjárhagslögum; sérlegu stjórnarlífi Íslands hlýtur því að fara mikið fram við það, að lögð verða undir álit alþíngis eins skattalög þau, er einkum útheimta, að tekið sé sérlegt tillit til einkennilegs ásigkomulags landsins. Loksins á Ísland eptir frumvarpi þessu þátt í ríkisþínginu, og munu fulltrúar landsins, sem þar sitja, þannig eiga kost á, að benda til þess, sem vert er að til greina sé tekið Íslands vegna. Svo er því einnig heitið í 10. gr. frum-

varpsins, að leita skuli álits alþíngis, verði því við komið, áður en breytt verði, auk annara, skattgjaldslögum þeim, er nú gilda fyrir Ísland, og það jafnvel þó breytíngin sjálf sè undir ríkisþínginu komin. Í niðurlagi greinarinnar er ríkissjóðnum að eins áskilið endurgjald fyrir það, sem hann hefur lagt út, og aðrar fjárheimtur, t. a. m. leigur og gjöld upp í jarðaverð og lán.

Til 5. greinar.

Útgjöld þau, sem til skal færa í ríkisfjárhagslögunum eptir grein þessari, eru sumpart laun og eptirlaun til hinna æðstu embættismanna, er má álíta sem beinlínis erindsreka ríkisstjórnarinnar, jafnvel þó þeir sèu settir að nokkru leyti, til að hafa á hendi landsstjórn, sumpart útgjöld til ríkisþarfa þeirra, er snerta Ísland beinlínis.

Til 6. greinar.

Í þessari grein er það nákvæmar til greint, hverjar af tekjum þeim, er híngað til hafa verið goldnar til ríkisins, skuli leggja til hins íslenzka landssjóðs. Því er einnig heitið, að nýir beinlínis-skattar og gjöld, er samþykkt verða af konúngi og alþíngi, skuli sömuleiðis renna í sjóð þennan. Þegar borin er saman ákvörðun þessi við 4. og 8. gr., þá sèst, að ríkisþíngið á eigi þátt í, að leggja aðra skatta á Ísland en þá, sem ekki eru beinlínis-skattar (nema nafnbótaskattinn, sem er sèrstaklegs eðlis), og að nýir beinlínis-skattar verða ekki lagðir á, nema með samþykki alþíngis, og að þeir eigi að renna inn í landssjóðinn. Þetta er að vísu mjög stór tilhliðrun, og mætti hafa margt og mikið á móti því, sem byggt væri á góðum rökum, en á hinn bóginn mælir það fram með ákvörðun þessari, hve torvelt yrði fyrir ríkisþíngið, að dæma um beinlínis-skatta á Íslandi, og hve mikil áhrif nýjar beinlínis-álögur geti haft á eignarástand manna, og á hinn bóginn er þess vænt, að eigi muni slíkur aðgreiníngur á sköttum þurfa að verða því til fyrirstöðu, að sköttum þeim, sem eigi eru beinlínis-skattar, yrði stundum, ef til vill, breytt í beinlínis-skatta, þar sem þá, ef á þyrfti að halda, allajafna mætti bæta ríkissjóðnum upp andvirði hinna fyr töldu skatta með ákveðnu ársgjaldi, er landssjóðurinn gengist undir að greiða ríkissjóðnum, og yrði þá landssjóðurinn aptur að leita sèr endurgjalds fyrir fè það með nýjum beinlínis-álögum, og yrði það að verða samþykkt af alþíngi,

eins og einnig ríkisþíngið yrði að samþykkja, að teknir væru af hinir fyr nefndu skattar. Með ákvörðun þeirri, að tekjur jafnaðarsjóðanna skuli mega leggja til landssjóðsins, er haft tillit til þess, að svo kynni að fara, þegar fram liðu stundir, að amtaskiptíngin yrði álitin óhentug, og að landið vildi takast á hendur, sem heild, útgjöld þau, er legið hafa á ömtunum. Af niðurlagi greinarinnar má sjá, að ætlazt er til, að lagðir verði til landssjóðsins sjóðir nokkrir, er ætlaðir eru til sèrlegra þarfa Íslands, en híngað til hafa verið beinlínis undir ríkisstjórninni. Af kollektupeníngunum eru nú til 14,265 rbdd.; þá 300 rbdd., sem goldnir hafa verið híngað til á ári hverju úr ríkissjóðnum til garðaræktar, púðurs, í styrk til handiðnamanna, o. fl., má álíta sem endurgjald fyrir mjölbótapeníngana, og verður þá landssjóðurinn að taka að sèr útgjöld þau, en fær í staðinn gjald þetta borgað á ári hverju

Til 7. greinar.

Það leiðir beinlínis af ákvörðununum í 6. gr., að landssjóðurinn verður að greiða öll útgjöld þau, er snerta innanlandsstjórn Íslands, og eigi eru lögð á ríkissjóðinn, og hefur fyrir því ekki þótt nauðsyn á, að greina til öll þessi einstöku útgjöld, og á konúngur með, að til taka þau nákvæmar, nær sem vera skal, með tilhlutun alþíngis. Þó er sjálfsagt um það, að embættismenn þeir, sem híngað til hafa átt rètt til eptirlauna, sem ríkisembættismenn, eptir reglum þeim, sem verið hafa í gildi híngað til, missa eigi rètt þennan, þó landssjóðurinn sè látinn gjalda laun þeirra eptirleiðis, og er því ákvörðun um það tekin inn í greinina. Hið sama verður einnig að eiga sèr stað um embættismenn þá, er fá laun sín í aukatekjum og eigi eru nefndir í 5. gr. Einhver helztu útgjöldin, er lögð verða á landssjóðinn, eru til hèraðslækna og annara heilbrigðisráðstafana (að frá teknum laununum til landlæknisins), en málefni þessi eru svo sèrstaklegs eðlis á Íslandi, að torvelt mundi ríkisþínginu, að dæma um þau.

Til 8. greinar.

Það er í sjálfu sèr auðsætt, að eigi má veita fulltrúaþíngi landsdeildar nokkurrar sèr í lagi jafnyfirgripsmikinn rètt, til að ákveða skatta, og ríkisþíngið hefur, og er það einnig samkvæmt þeirri ólíku stöðu, sem stjórnin stendur í til þínga þessara hvors um sig, þar sem stjórnarábyrgð ráðgjafanna að eins

snertir það, sem viðvíkur ríkisþínginu. Engu að síður er Íslandi veitt í grein þessari allt það, er veita mátti, ef samband landsins við ríkið átti ekki með öllu að raskast.

Til 9. greinar.

Það er að öllu samkvæmt boðum alþíngistilskipunarinnar, að þíngið sjálft taki þátt í því, er miðar til, að auka rèttindi þess, en samt hefur það þótt eiga vel við, að gefa alþíngi nú þegar von um, að það auk hluttekníngar þeirrar, sem það nú hefur í hinni íslenzku löggjöf sèr í lagi, skuli einnig eiga nokkurn þátt í stjórn ýmissa innanlands-málefna, t. a. m. í að skoða reikmínga og leggja úrskurð á þá, og í að sjá um eða taka þátt í innanlandsstjórn í ýmsum greinum. Það á ekki heima í þessum lögum, að útlista þetta nákvæmar, en fyrirmynd fyrir því, sem veitt getur orðið í þessu efni, mun koma fram í skipun sveitastjórnarinnar í hinum stærri umdæmum í konúngsríkinu.

Til 10. greinar.

Eins og drepið er á hèr að framan, veitir ákvörðun þessi, ásamt því, að Ísland hefur fulltrúa á ríkisþínginu, næga vissu fyrir, að í þeim almennu lögum, er um leið snerta gagn Íslands sèr í lagi, verði þessa hæfilega gætt. Að öðru leyti er auðsætt, að loforð það, sem gefið er, getur ekki verið takmarkalaust, vegna þess að kríngumstæðurnar kunna eigi ætíð að leyfa, að leitað sè álits alþíngis; en því má örugglega treysta, að ríkisþíngið muni sjálft hafa vakandi auga á því, að leitað verði álits alþíngis, svo fljótt sem verður, í eiginlegum löggjafarmálum, er snerta Ísland, áður en ríkisþíngið ræður nokkuð það af um mál þessi, sem æskilegt væri að leita álits alþíngis um áður, og má því heldur koma þessu við, sem til breytíngar á hinum eiginlegu íslenzku lögum útheimtast ný sèrleg lagaboð fyrir Ísland, jafnvel þó breytíngarnar hafi atvikazt af, og hljóti á endanum að verða staðfestar með úrskurðum konúngs og ríkisþíngsins.

Til 11. greinar.

Tala ríkisþíngsmanna þeirra, sem sendir skulu frá Íslandi, er hèr á kveðin eptir 37. og 42. gr. grundvallarlaganna.

I.

Til 12. — 17. greinar.

Skilmálarnir fyrir kosníngarrètti til þjóðþíngsins og kjörgengi til þjóðþíngismannns eru ákveðnir í greinum þessum samkvæmt 35. og 36. gr. grundvallarlaganna og 1.—7. gr. kosníngarlaganna 16. júní 1849.

Til 18. greinar.

Á Íslandi eru eigi, sem stendur, sveitastjórnir, er líkja megi við hinar dönsku sveitastjórnir, nema í Reykjavíkurkaupstaðar-lögsagnarumdæmi (tilsk. 27. nóvemb. 1846). Reglan í dönsku kosníngarlögunum 16. júní 1849, 8. gr., að bæjar- eða sveitar-stjórnin skuli láta semja kjörskrárnar, varð því að eins heimfærð til lögsagnarumdæmis þessa, en utan Reykjavíkur varð að mynda stjórn sèr í lagi, til að hafa á hendi störf þau, er snerta kosníngarnar og lögð eru í Danmörku á bæja- eða sveita-stjórnirnar. Nú með því að líkast er með hreppunum á Íslandi og með sveitafèlögum þeim, sem myndast í Danmörku af sóknunum eða prestaköllunum, þá hefur virðzt bezt henta, að fela samníngu kjörskránna í hverjum hrepp á hendur kjörstjórn, og að í henni væru látnir sitja hreppstjórinn eða hreppstjórarnir, sem forstöðumenn sveitarinnar, og prestar þeir, sem þar eiga heima í hreppnum, en samt með skilyrði því, að í kjörstjórninni skuli ætíð vera að minnsta kosti 3 menn, og getur því sýslumaður, sem forstöðumaður hinnar stærri kjördeildar, skipað mann að auki í kjörstjórnina, ef á þarf að halda. Kjörstjórnin má sjálf kjósa sèr forseta, líkt og á kveðið er um bæja- og sveita-stjórnir í Danmörku.

Til 19. og 20. greinar.

Greinir þessar eru að öllu samkvæmar kosníngarlögunum 16. júní 149, 9. og 10. gr.; eru ákvarðanir þessar í sjálfu sèr hentugar, og virðist ekkert vera því til fyrirstöðu, að þeim sè fylgt á Íslandi.

Til 21. greinar.

Til samníngar og leiðrèttíngar kjörskránna er hèr ætlaður allur marz-mánuður (í lögunum 16. júní 1849, 11. gr., eru til þess ákveðnir 14 dagarnir síðustu í febrúar), bæði til þess

að kjörstjórnin hafi nógu lángan tíma, til að leita skýrslna þeirra, er þurfa, og af því öll kosníngaskipunin er miðuð við, að þjóðþíngiskosníngar skuli fara fram um leið og alþíngiskosníngarnar, að því leyti því verður við komið; með því má komast hjá óþörfum umsvifum og tímatöf, og undir eins koma því til leiðar, að þjóðþíngiskosníngarnar fari fram á undan kosníngunum til landþíngsins, samkvæmt grundvallarreglunni í 76. gr. grundvallarlaganna.

Til 22. greinar.

Kjörskránum er hèr ætlað að liggja fram til sýnis nokkuð lengri tíma, en eptir kosníngarlögunum 16. júní 1849, 12. gr., en líkt því, sem á kveðið er í lögum um ríkisþíngskosníngar á Færeyjum 29. desemb. 1850, 12. gr. „Hreppur“ er á flestum stöðum í frumvarpi þessu sömu þýðíngar og „*Commune*“ í lögunum 16. júní 1849.

Til 23. og 24. greinar.

Greinir þessar eru að öllu samkvæmar 13. og 14. gr. í lögunum 16. júní 1849, að því undanteknu, að kjörstjórn kemur í 24. gr. í stað sveitastjórnar, og að kjörstjórnin verður að hafa gjörðabók sèr í lagi, þar eð varla mun vera til nein sameiginleg gjörðabók fyrir hreppinn, sem hæfileg sè til þess, og einkum virðist gjörðabók fátækra-málefnanna ekki verða höfð til þess.

Til 25. og 26. greinar.

Greinir þessar eru að öllu samkvæmar 16. og 17. gr. í lögunum 16. júní 1849, nema hvað á kveðið er í hinni fyrnefndu grein, að amtmaður skuli skipa valinkunnan mann, til að halda uppi vörn fyrir kjörstjórnina, vegna þess að eigi eru til málaflutníngsmenn á Íslandi; svo má og, að því er snertir tíma þann, sem ákveðinn er í 26. gr., vísa til þess, sem sagt er hèr á undan.

Til 27. greinar.

Við kjörfylkjaskiptíngu þá, sem hèr er ákveðin, er haft tvennt fyrir augum; á annan bóginn, að eigi verði ferðirnar til aðalkjörstaðarins í kjörfylkinu örðugri nefndarmönnum þeim, sem sendir verða úr kjörþíngisstjórnum sýslnanna, en þörf er

á, og á hinn bóginn, að fylgt sè, sem bezt verður, boðinu í 37. gr. grundvallarlaganna, og er þó reyndar ákvörðun þessi eigi álitin svo skuldbindandi í Danmörku, að eigi megi út af henni bregða, eins og líka orðin í greininni sjálfri og reglugjörð sú um kjördæmaskiptínguna, sem tengd er aptan við lögin 16. júní 1849, gefa til kynna. Eptir skírteinum þeim, sem stjórnin hefur í höndum, er þetta fólksfjöldinn í kjörfylkjunum:

| | | | |
|---|---|---|---|
| í 1. | kjörfylki | ..... | 18,340 |
| - 2. | —— | ..... | 16,800 |
| - 3. | —— | ..... | 12,057 |
| - 4. | —— | ..... | 11,780 |

Til 28. greinar.

Grein þessi samsvarar 23. gr. í lögunum 16. júní 1849, en hún er aptur byggð á 37. gr. í grundvallarlögunum. Það hefur því reyndar ekki getað orðið umtalsefni, hvort hentugt sè í sjálfu sèr á Íslandi, að binda kosnínguna við skilmála þann, að fulltrúaefnið bjóðist fram sjálfur til kosníngar, en þess ber þó að geta, að með því er ráðin bót á þeim helzta galla, sem er á kosníngu þeirri í kjörhlutum, er að öðru leyti virðist eiga bezt við, eptir því sem háttað er þar í landi, en það er, að atkvæðin gætu að öðrum kosti hæglega farið svo á dreif, að fjærri færi, að kosníngin yrði sannur vottur almenníngsálitsins í kjörfylkinu. Það kynni einnig, ef til vill, að verða auðveldara fyrir kjósendur, að finna menn þá, sem hæfir eru til að sitja á ríkisþínginu, þegar lögin skora á þá, að gefa sig fram sjálfir og að leggja sig undir dóm kjósanda.

Til 29. greinar.

Þar eð kjörnefnd sú, sem leggur saman atkvæðin á kjörstaðnum , myndast fyrst úr kjörþíngisstjórnunum, þá er engin aðalstjórn til, er senda mætti tilkynníngarbrèf um þá, sem bjóðast vilja fram til kosníngar, og það virðist því liggja næst við, að nefna til sýslumanninn á aðalkjörstaðnum í kjörfylkinu (í Reykjavík: bæjarfógetann), til að veita brèfum þessum móttöku; er hann og bezt fallinn til, að sjá um, að brèfin verði hæfilega birt, enda mun einnig mega ráð fyrir gjöra, að hann öðrum fremur leggi alúð á, að leysa starf þetta vel af hendi. Tíminn fyrir tilkynníngu þessari er svoleiðis ákveðinn, að á annan bóginn þurfi fulltrúaefnið ekki að ráða sig fyr en í sein-

ustu lög, og að kjósendur á hinn bóginn geti í tíma fengið að vita efni tilkynníngarbrèfanna, og ráðgazt um, hverjum þeir eigi að gefa atkvæði sín, og er þetta því fremur áríðandi, sem því verður ekki komið við, vegna þess kosníngarnar fara fram í kjörhlutum, að fulltrúaefnin komi sjálf fram á kjörþíngum, en það er mikilsvarðandi atriði í hinum dönsku kosníngarreglum. Að öðru leyti má þess geta þegar á þessum stað, að kosníngaskipun sú, sem hèr er farið fram á, er hin sama, og lögleidd er fyrir Færeyjar með lögunum 29. desemb. 1850, með breytíngum þeim, sem nauðsynlegar eru, eptir því sem á stendur á Íslandi.

Til 30. greinar.

Þessi grein samsvarar að öllu 25. og 26. gr. laganna 16. júní 1849; sbr. lögin 29. desemb. 1850, 19. gr.

Til 31. greinar.

Alþíngiskjördæmin eru í frumvarpi þessu látin vera deildir af þjóðþíngiskjörfylkjunum, og hefur til þess gengið, bæði að æskilegt virðist, eins og þegar er á minnzt, að alþíngiskosníngar fari fram um leið og þjóðþíngiskosníngarnar, að því leyti því verður við komið, og þar að auki, að menn eru nú þegar vanir því á Íslandi, að koma saman á stærri kjörþíngum. Eptir frumvarpinu um alþíngiskosníngarnar eru sýslurnar alþíngiskjördæmi, en samt svo, að nokkrum lögsagnar-umdæmum þeim, sem 2 sýslur eru í, er skipt í kjördæmi, sitt fyrir hvora sýslu (t. a. m. Mýra- og Hnappadals- sýslur, Austur- og Vestur-Skaptafells - sýslur), og er með því gjört innbúum hægra fyrir, að koma á kjörþíngin. Þar sem þannig er ástatt, verður þá að setja mann í stað sýslumanns í sýslu þeirri, þar sem hann getur ekki sjálfur staðið fyrir kjörþíngisstjórninni.

Til 32. greinar.

Það leiðir af fjarlægð landsins, að eigi verður kosníngardagurinn ákveðinn nema af einhverjum embættismanni í landinu sjálfu; en það virðist æskilegt, að til sè sameiginleg aðalstjórn yfir öllu því, sem snertir kosníngar, og getur varla annar orðið tekinn til þess en stiptamtmaðurinn. Aptur verður að fela á hendur sýslumanni, er gengur í stað kjörþíngisstjórnarinnar, að ákveða þíngstað og stund, og með því, hvað frestur-

inn er látinn vera lángur, er sèð um, að allar ákvarðanir þessar verði kunnar kjósendum samtíða.

Til 33. greinar.

Kjörþíngisstjórnin í kjörfylkisdeildinni (sýslunni) er lögað eptir fyrirmynd þeirri, sem er í lögunum 16. júní 1849, 19. gr., nema hvað forsetar kjörstjórnanna eru, til þess að komast hjá umsvifum, látnir sitja í kjörþíngisstjórninni, án þess þeir þurfi að vera valdir til þess, og situr þar að auki í stjórninni sýslumaður, sem einnig hefur að öðru leyti störf á hendi við kosníngarnar, eins og sèst á því, sem áður er getið. Það, sem á kveðið er um Reykjavík og Vestmannaeyjar, er byggt á því, að kjörhlutir þessir eru, hvor um sig, ekki nema einn hreppur.

Til 34. og 35. greinar.

Greinir þessar samsvara 23. gr. og fyrri liðnum af 24. gr. í lögunum 29. desemb. 1850. Hinar einstöku ákvarðanir í greinunum leiðir beinlínis af kosníngaskipun þeirri, sem hèr er farið fram á, og er það einkennilegt við hana, að eigi er önnur atkvæðagreiðsla við höfð en sú, sem fram fer við kjörskrárnar, og að fulltrúaefnið þarf ekki sjálft að koma fram á kjörþíngi.

Til 36. greinar.

Grein þessi er að öllu samkvæm 34. gr. í kosníngarlögunum fyrir Danmörku, og virðist ekkert geta orðið því til fyrirstöðu, að heimfærð sè til Íslands aðferð þessi, sem vart má efast um að sè hentug, og er hún því einnig tekin inn í frumvarpið til laga um alþíngiskosníngar. Aptur á móti er ákvörðuninni í niðurlaginu við bætt, og er hún byggð á því, að atkvæðin verða seinna lögð saman á öðrum stað.

Til 37. greinar.

Á það hefur þegar verið drepið hèr að framan, að ekki hefur þótt tiltækilegt, að heimfæra hina dönsku kosníngaskipun til Íslands vegna þess, hvernig þar stendur á, einkum hvað kjörfylkin eru víðlend og ferðalög þar örðug; var því, ef til vill, enn meiri ástæða til þar, en á Færeyjum, að heimta ekki svo mikið af kjósendum, að áhugi þeirra á kosníngunum að öllum líkindum mundi deyfast, eða, ef til vill, hverfa með

öllu. Með því nú tvöfaldar kosníngar virðast ekki vera í miklum metum á Íslandi, og þar eð regla sú, sem hèr er valin, getur, eins og optar hefur verið getið, orðið kjósendum til hægðar að því leyti, sem kosníngarnar til þjóðþíngsins og til alþíngis geta fram farið í einu, þá hefur þótt gild ástæða til, að taka hana fram yfir hina, sem fyr var nefnd, og þess heldur, sem það í nokkuð líkum kríngumstæðum hefur verið viðurkennt, að hún sè hentug. Það varð því að á kveða fundarstað í kjörfylki hverju, þar sem fulltrúar frá kjörþíngisstjórnum sýslnanna ættu að mæta með atkvæðaskýrslurnar og mynda allir saman kjörnefnd, er leiða skyldi kosnínguna til lykta, með því að telja saman atkvæðin; svo varð og að á kveða þeim fundartíma, en taka þó jafnframt til greina, að svo gæti viljað til, að einhver gæti ekki orðið kominn á hinum ákveðna tíma vegna óviðráðanlegra tálmana. Það þótti þar að auki hæfa, að farið væri nokkuð eptir því, hvað ólíkt er háttað kjörhlutum þeim, er senda fulltrúa til kjörnefndarinnar, og að því sýslur þær, sem hafa mestan fólksfjölda, sèu látnar hafa 2 fulltrúa í nefnd þessari. Við ákvörðun kjörstaðanna hefur verið höfð svo mikil hliðsjón, sem varð, til þess, hvað hagkvæmast væri fulltrúunum, og kynnu þeir, ef til vill, einnig að geta sameinað önnur erindi við ferð þessa, sem þeir þar að auki fá borgaða.

Til 38. greinar.

Ákvarðanir þessar miða til, að veita svo mikla vissu, sem orðið getur, fyrir, að rètt sèu talin saman atkvæðin.

Til 39. greinar.

Grein þessi er samkvæm 36. gr. í lögunum 16. júní 1849 í aðalákvörðununum. Þeirri ákvörðun er bætt við, að birta skuli fyrir almenníngi, hver kosinn er, þar eð innbúar kjörfylkisins eru ekki við staddir, eins og vanalegt er í Danmörku, og má þó á hinn bóginn gjöra ráð fyrir, að þeim sè annt um kosnínguna.

Til 40. greinar.

Grein þessi samsvarar 29. gr. í lögunum 29. desemb. 1850, og miðar hún til, að reisa skorður við því, að sá verði ekki þjóðþíngismaður, sem meiri hluti kjósanda er ekki ánægður

með, en á hinn bóginn er jafnframt hugsað fyrir því, að vegur sè til, að fá fulltrúa fyrir kjörfylkið, ef kjósendum tekst ekki, að fá neinn annan til, að bjóða sig fram til kosníngar.

Það er á kveðið í frumvarpinu um alþíngiskosníngarnar, að kjörskránum fyrir hina einstöku hreppa skuli skila aptur hreppunum, þegar kosníngin sè til lykta leidd. Eptir 36. gr. í frumvarpi þessu á þar á móti að hafa þjóðþíngiskjörskrárnar meðferðis til kjörstaðarins, þegar lokið er kosníngunni í kjörhlutunum, svo að talin verði þar saman atkvæðin. Á hinn bóginn getur ekkert orðið því til fyrirstöðu, þegar búið er þannig að leiða kosnínguna að öllu til lykta, að einnig þjóðþíngiskjörskrárnar verði sendar aptur hreppunum, en það hefur samt þótt ísjárvert, að ákveða þetta skýlauslega, þar eð ekki er í nefndinni fulltrúi frá hverjum hrepp, og kynni það þá að olla eins mikilli fyrirhöfn, að senda skrárnar aptur, eins og þó skráin væri rituð í tvennu lagi, er með því yrði komizt hjá, að skila henni aptur.

## II. Landþíngið.

### Til 41. greinar.

Með því að þegar er til þíng fyrir allt Ísland, er hèr samkvæmt grundvallarlaganna 44. gr. á kveðið, að landþíngismennirnir skuli kosnir af alþíngi. Ákvörðunin í niðurlagi greinarinnar er viðbætir við 37. gr. í hinum dönsku kosníngarlögum. Íslenzku landþíngismennirnir eru taldir sinn með hvorum flokki landþíngsins, bæði í því skyni, að jafnmargir menn verði í hvorum flokka þessara, eins og hefur verið híngað til (26, að með töldum færeyska landþíngismanninum), og til þess Ísland verði ekki fulltrúalaust á þínginu, ef ekki skyldi geta fram farið ný kosníng fyrir Ísland á því ári, er annar flokkurinn fer úr þínginu, einkum vegna þess, að eigi væri á því ári haldið reglulegt alþíngi, og eigi væri heldur aðrar ástæður til, að stefna saman þínginu til aukasamkomu.

### Til 42. greinar.

Grein þessi er samkvæm 40. gr. í grundvallarlögunum, og 59. gr.; sbr. 61. og 62. gr. í lögunum 16. júní 1849. Um ákvörðunina í niðurlagi greinarinnar má vísa til þess, sem á eptir kemur.

Til 43. greinar.

Þar eð sjá má fram á, að nauðsynlegt muni verða, að bæta þeim við á kjörgengisskránni til landþíngsins, sem gjalda hæstan beinlínis-skatt, til þess að náð verði tiltölu þeirri við fólksfjöldann, sem ákveðin er, og þar eð einnig má fyrir því ráð gjöra, að mikill mismunur muni verða milli skattgjalds þess, sem er lagaskilmáli fyrir kjörgenginni, og skattaupphæðar þeirrar, sem þannig mun í reyndinni optast verða tekin til greina, þá hefur þótt nauðsynlegt, til þess að komast hjá töf og öðrum vandkvæðum, að láta stiptamtmanninn ákveða fyrir hvert ár, hvílík skattgjalds-upphæð sú skuli vera, er talin skuli með á skýrslum kjörstjórnanna. Það má einnig sjá á því, sem á eptir kemur, að það hefur orðið að fela embættismanni þessum á hendur áríðandi starf við samníngu kjörskránna; lík ákvörðun er í færeysku kosníngarlaganna 45. gr.

Til 44. greinar.

Hèr er leitazt við, að gefa leiðbeiníng um, hvað telja eigi að rèttu lagi með beinlínis-sköttum, eptir því, hvernig á stendur á Íslandi. Stjórnin þykist mega gjöra sèr von um sèrlega aðstoð þíngsins einkum í þessu atriði, er það þekkir svo vel til.

Til 45., 46. og 47. greinar.

Greinir þessar samsvara að öllu lögunum 16. júní 1849 57., 58. og 59. gr.

Til 48. greinar.

Stiptamtmaðurinn er hèr settur í staðinn fyrir forseta þann í landþíngiskjörstjórninni, sem konúngur kýs eptir lögunum 16. júní 1849, 52. gr., og eru því störf þau, sem nefnd eru í 60. gr. tèðra laga, falin á hendur honum ásamt tveimur tilkvöddum mönnum, og hefur þótt eiga vel við, þar eð ekki eru amtssveitafèlög á Íslandi, að annar þessara manna væri kosinn af mönnum í frjálsri stöðu, eins og eru þeir í yfirdóminum, en samt eigi úr flokki dómandanna sjálfra, þar eð vera má, að yfirrètturinn þurfi að leggja dóm á kærur yfir skránni. Að því leyti hinar aðrar ákvarðanir í grein þessari um samníngu skráarinnar eru frábrugðnar dönsku kosníngarlögunum, þá kemur það til af því, að stiptamtmaður hefur þegar áður, eins og hèr að ofan er greint, ákveðið skattgjaldsupphæð þeirra

manna, er setja má á kjörþíngisskrárnar í hreppunum, og er þá auðvitað, að ekki er þörf á, að bæta mönnum síðar við á skrána, eins og gjört er ráð fyrir í hinum dönsku kosníngarlögum, 61. gr. Þetta er einnig samkvæmt kosníngarlögunum fyrir Færeyjar, 50. gr.

Til 49. greinar.

Grein þessi samsvarar í aðalatriðunum 63. gr. laganna 16. júní 1849; þó eru tímabilin lengd töluvert vegna þess, hvað erfitt er um samgaungur. En þar eð alþíngi má álíta í rauninni sem hina rèttu kjörstjórn við landþíngiskosníngarnar, þá er áskilið, að þíngið skuli leggja úrskurð á mótmæli gegn kjörgengisskránni á þeim árum, þá það heldur reglulega fundi. Nú þarf reyndar aldrei að halda á skránni, nema þegar alþíngisfundur er, en á Íslandi verður ekki fyrir sèð, hve nær alþíngi kunni að verða stefnt saman til aukafundar, einkum til að kjósa landþíngismenn, og virðist því æskilegt, að skráin verði einnig leiðrètt þau árin, er eigi bera upp á reglulegir fundir alþíngis, svo hún sè í lagi, ef kjörfund kynni að þurfa að halda á því ári. Með þessu móti má þess einnig vænta, að fundurinn geti orðið miklu styttri, heldur en ef þíngið ætti að leggja áður úrskurð á athugasemdir við skrána, og því þá, ef til vill, þætti ástæða til, að leita áður skýrslna því viðvíkjandi.

Til 50. greinar.

Þessari grein ber í aðalefninu saman við lögin 16. júní 1849, 64. gr., nema hvað breytt er tímabilunum og sleppt viðaukaskránni, er vart mundi geta orðið búin á alþíngi.

Til 51. greinar.

Þar eð fyrri skráin er gild þángað til 14. júlí, mun aukaþíng það, er stefnt yrði saman fyrir þann tíma, geta optast nær kosið eptir skrá þeirri, sem leiðrètt hefur verið af næsta reglulega þíngi þar á undan, og þarf því ekki að halda á skrá þeirri, sem undirbúníngskjörstjórnin hefur leiðrètt, nema þegar kosníngin fer seinna fram. Þegar alþíngi á sjálft að leggja úrskurð á athugasemdirnar við skrána, þá verður að ætla tíma nokkurn til starfs þess, og er fyrir því á kveðið, að hin nýja skrá skuli vera gild frá 15. júlí, og mun samt verða tími til, að kjósa upp aptur í sömu alþíngissetu, ef sá, sem kosinn

er, afsalar sèr kosnínguna, og sè hann ekki mjög lángt frá Reykjavík (sbr. 55. gr.).

Til 52. og 53. greinar.

Í greinum þessum er ákveðin aðferð sú, sem við skal hafa, þegar kosnir eru landþíngismenn á alþíngi, og er hún í aðalatriðunum samkvæm reglu þeirri, er tíðkast við kosníngar í öðrum þvílíkum samkomum. Hinar einstöku ákvarðanir munu varla þurfa frekari útskýríngar.

Til 54. greinar.

Grein þessi ákveður nákvæmar það, sem boðið er í grundvallarlögunum, 41. gr. síðasta lið; er hún samkvæm 58. gr. laganna 29. desemb. 1850, og má ætla, að hún sè svo skilmerkileg, sem þarf.

Til 55. greinar.

Grein þessi er samkvæm 73. gr. hinna dönsku kosníngarlaga, nema hvað frestur sá, sem veittur er þeim, sem kosinn er, til að segja til, hvort hann vilji þiggja kosnínguna eða ekki, er lengdur, vegna þess hvernig á stendur á Íslandi.

III.

Stjórninni hefur ekki þótt gjörandi, að ákveða, að fyrstu kosníngar skuli fara fram fyr en árið 1853, þegar litið er bæði til þess, hve nær gjöra má ráð fyrir, að lög þessi geti komið út og orðið send til Íslands, og til undirbúnings þess, sem nauðsynlegur er undir kosníngarnar. Niðurlag greinarinnar samsvarar 75. gr. hinna dönsku kosíngarlaga.

Til 57. greinar.

Það mun vart geta tekizt, ef ríkisþíngið verður uppleyst, eða önnur deild þess, að láta nýjar kosníngar á Íslandi altènd fara fram svo snemma, að ríkisþíngsmenn geti komið þaðan á næsta ríkisþíng, sem stefnt verður saman þar á eptir, og varð því ekki annað gjört, en að ákveða það, sem í greininni stendur.

Til 58. greinar.

Grein þessi samsvarar 77. gr. hinna dönsku kosníngarlaga,

með breytíngum þeim, er nauðsynlegar eru eptir ákvörðunum lagafrumvarps þessa.

Til 59. greinar.

Þessi grein er samkvæm 78. gr. hinna dönsku kosníngarlaga, nema hvað vægasta sekt er hèr látin vera 5 rbdd., þar sem hún er í nefndum lögum ákveðin til 10 rbdd.

Til 60. greinar.

Eptir því, sem 79. gr. kosníngarlaganna 16. júní 1849 hefur híngað til verið skilin, munu hinir íslenzku ríkisþíngsmenn einnig geta vænzt, að fá venjuleg daglaun um tíma þann, er þeir neyðast til að vera í Danmörku bæði fyrir og eptir þíng.

## VI.

Að endíngu hefur þótt rèttast, að stínga upp á líkri ákvörðun um stundarsakir um hinar fyrstu ríkisþíngskosníngar, og finnst í hinum dönsku og færeysku kosníngarlögum.

---

# III.

## Frumvarp

til

### laga um kosníngar til alþíngis.

---

1. gr.

Á alþíngi skulu eptirleiðis sitja 30 þjóðkjörnir menn, og skal kjósa

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| fyrir | Reykjavíkurkaupstað . . . . . . | | 1 | fulltrúa |
| — | Gullbríngu- og Kjósar- sýslu | | 2 | — |
| — | Árnes | — | 2 | — |
| — | Rángárvalla | — | 2 | — |
| — | Vestmannaeyja | — | 1 | — |
| — | Vestur- Skaptafells | — | 1 | — |
| — | Austur- Skaptafells | — | 1 | — |
| — | Borgarfjarðar | — | 1 | — |
| — | Mýra | — | 1 | — |
| — | Hnappadals | — | 1 | — |
| — | Snæfellsnes | — | 1 | — |
| — | Dala | — | 1 | — |
| — | Barðastrandar | — | 1 | — |
| — | Ísafjarðar | — | 2 | — |
| — | Sranda | — | 1 | — |
| — | Húnavatns | — | 2 | — |
| — | Skagafjarðar | — | 2 | — |
| — | Eyjafjarðar | — | 2 | — |
| — | Þíngeyjar | — | 2 | — |
| — | Norðurmúla | — | 2 | — |
| — | Suðurmúla | — | 1 | — |

og áskilur konúngur sèr þar að auki að nefna, sem áður, sex alþíngismenn, fjóra af veraldlegri stètt og tvo af andlegri.

2. gr.

Kosníngarrètt til alþíngis á hver maður, sem kosníngarrètt hefur á Íslandi til þjóðþíngsins eptir lögunum frá..., og geldur til sveitar af efnum sjálfs sín.

3. gr.

Kjörgengur til fulltrúa á alþíngi er hver maður, sem kjörgengur er til fulltrúa á þjóðþíngið eptir lögunum frá . . ., ef hann á að minnsta kosti 10 hundruð í jörðu á Íslandi, eða heldur jörð, sem byggð er honum æfilángt, og er 20 hundruð að dýrleika, eða á þar múrhús eða timburhús, er metin sèu eigi minna en 1000 rbdd. með löglegri virðíngargjörð, er eigi sè meira en 6 ára gömul. Skyldu eigi verða svo margir kjörgengir menn eptir reglu þessari í kjördæmi nokkru, að 1 verði kjörgengur af 100 hverju innbúanna í kjördæminu eptir hinu síðasta fólkstali, skal bæta við tölu hinna kjörgengu svo mörgum þeirra, sem gjalda mesta skatta í kjördæminu eptir manntalsbókinni, að hlutfall þetta náist.

4. gr.

Kjörstjórnir þær, sem getið er í lögunum frá..., skulu hafa skrár yfir þá, sem eiga kosníngarrètt og kjörgengi til alþíngis í Reykjavíkurkaupstað og í hrepp hverjum. Skulu skrár þessar samdar einu sinni á ári hverju, og skal leggja til grundvallar skrárnar yfir þá, sem kosníngarrètt eiga til þjóðþíngsins; þó skal, samkvæmt 2. gr., á skránni yfir þá, sem kosníngarrètt eiga til alþíngis, sleppa þeim, er eigi gjalda til sveitar af efnum sjálfra sín; svo skal og á skránni yfir þá, sem kjörgengi eiga til þíngsins, sleppa þeim, er eiga kosníngarrètt, en hafa ekki það til að bera, er kjörgengi til alþíngis er bundin við eptir 3. gr., en aptur bæta þeim við á skrána, sem eru á milli 25 og 30 ára að aldri, og hafa að öðru leyti það til að bera, er nú var getið. Sýslumaður og bæjarfógeti skulu vera skyldir til, þegar þess er beðizt, að láta kjörstjórnunum í tè skýrslur þær, er þarf til að semja skrárnar.

5. gr.

Kjörskrár þessar skulu vera samdar fyrir lok marzmánaðar. Úr efasemdum þeim, er út af því kunna að rísa, eiga kjörstjórnirnar að leysa eptir skýrslum þeim, er þær hafa leitað áður. Skulu síðan kjörgengisskrárnar úr hverjum hrepp í kjördæminu sendar sýslumanni, og skal hann, ásamt með tveimur tilkvöddum mönnum, eptir skránum semja skýrslu yfir alla þá, sem kjörgengir eru í kjördæminu fyrir 15. apríl, og skal þar við gætt þess, sem fyrir er mælt í 3. gr. að niðurlagi. Skýrsla þessi skal síðan liggja almenníngi til sýnis frá 16. til 30. apríl á hagkvæmum stað í sýslunni, og skal því lýsa 8 dögum áður við kirkjustefnu, og á annan hátt, er henta þykir. Mótmæli gegn kjörgengisskýrslunni skulu send sýslumanni, áður en frestur sá, sem nefndur var, sè á enda, en kjörþíngisstjórnin skal skera úr þeim í síðasta lagi á kosníngardeginum. Um það, hvernig skrárnar yfir þá, sem kosníngarrètt eiga, skuli liggja til sýnis, og úrskurðir leggjast á athugasemdir þær, er fram koma við þær, skal fara eptir sömu reglum, og skipaðar eru um kjörskrárnar til ríkisþíngsins í lögunum frá ..., 22.—25. gr.

6. gr.

Kjörskrárnar til alþíngis skulu vera gildar frá 1. maí til 30. apríl næsta árs, nema að því leyti, sem leiðrètta skal til fulls og alls kjörgengisskrárnar, áður en kosið er. Eptir kjörskránum skulu fram fara kosníngar þær til alþíngis, sem koma fyrir á því ári; þó skal bæta þeim við, sem settir eru á viðaukaskrána yfir þá, sem kosníngarrètt eiga, vegna þess þeir ná þrítugsaldri einhvern tíma á því ári, ef þeir hafa náð aldri þessum, áður en kosníngin fer fram.

7. gr.

Kosníngar skulu fram fara á kjörþíngum. Skal á kveða og auglýsa kosníngardag og stað og stund eptir sömu reglum, og skipaðar eru um kosníngar til ríkisþíngsins í lögunum frá ...., 32. gr., og skal þess gætt, ef kjósa á bæði til alþíngis og til þjóðþíngsins á sama ári, að kosníngar þá fari fram til hvorstveggja þíngsins í einu, ef því verður við komið.

8. gr.

Svo skal og kjörþíngisstjórnin fyrir kjördæmi hvert vera

mynduð á sama hátt, og skipað er fyrir um kjörþíngisstjórnina fyrir þjóðþíngiskosníngunum í 33. gr. í nefndum lögum, og sè kosið til hvorstveggja þíngsins í einu, þá skal sama kjörþíngisstjórnin stýra hvorritveggja kosníngunni.

9. gr.

Forseti kjörþíngisstjórnarinnar skal taka til starfa, með að brýna fyrir kjósendum, hve mikils varðandi kosníngin sè, og annist hann síðan, að hún fari fram sem skipulegast; en áður en gengið sè til kosníngar, skal kjörþíngisstjórnin leggja úrskurð á athugasemdir þær, er fram eru komnar við kjörgengisskrána fyrir sýsluna, eptir skýrslum þeim, sem til eru, sè ekki búið að gjöra það áður. Sýslumaður skal sjá um, að eptirrit af kjörgengisskránni sè lögð hjá hverri skrá, er greidd eru atkvæði við. Ef eitthvað þarf að leiðrètta í kjörþíngisskránni, samkvæmt úrskurðum kjörþíngisstjórnarinnar, þá skal hún sjá um, að það sè þegar gjört.

10. gr.

Atkvæði skulu greidd við allar kjörskrárnar undir eins, og skal forseti skipta skránum milli kjörþíngisstjóranna. Við hverja skrá skal þar að auki skipa einn af kjósendum þeim, sem þar eru staddir á þíngi, og getur einnig kjörþíngisstjórnin, ef þess er þörf, sett einn af kjósendum, til að hafa á hendi starfa þann við móttöku atkvæðanna, er lagður er á þá, sem í kjörþíngisstjórninni sitja. Eigi skal forseti eiga sjálfur þátt í, að veita atkvæðum móttöku. Kjósendur skulu greiða atkvæði munnlega í röð þeirri, er þeir gánga fram til atkvæðagreiðslu. Eptir að kjörþíngisstjóri sá, sem settur er við kjörskrána, hefur viðurkennt kjósandann, skal kjörþíngisstjórinn rita nafn þess manns, eða þeirra tveggja manna — en það fer eptir því, hvort kjósa á fyrir kjördæmi það einn alþíngismann eða tvo — er kjósandinn hefur gefið atkvæði sitt, til hliðar við nafn kjósandans sjálfs á kjörskránni. Sá af kjósendum, sem settur er til aðstoðar, skal rita á atkvæðaskýrslu sèr í lagi nafn kjósandans til hliðar við þess manns nafn, er kjósandinn hefur gefið atkvæði sitt. Áður en kjósandi víki burt, skal lesið upp fyrir honum bæði nafn sjálfs hans, og þess manns nafn eða þeirra, er hann hefur kosið, til fullvissu um, að hvortveggja bókunin sè rètt, og að þeim beri saman. Gefi nokkur atkvæði þeim

manni, sem á heima í kjördæminu, en eigi stendur á kjörþíngisskránni, eða þeim, sem á heima utankjördæmis, og sè eigi sannað fyrir kjörþíngisstjórninni, að sá maður sè kjörgengur, og vilji takast kosnínguna á hendur í því kjördæmi og engu öðru, þá skal kjósandanum skýrt frá því, svo hann geti kosið annan mann, ef hann vill. Skal þá kalla kjósanda þann fram aptur, þegar lokið er hinni annari atkvæðagreiðslu. Þegar eigi gjörast fleiri til að greiða atkvæði, og forseti þó hefur skorað á menn um það, skulu þeir, sem í kjörþíngisstjórninni sitja, bóka atkvæði sjálfra sín og rita nöfn sín undir kjörskrána og atkvæðaskýrsluna, og er með því atkvæðagreiðslunni lokið.

11. gr.

Kjörþíngisstjórnin skal leggja saman eptir öllum kjörskránum og atkvæðaskýrslunum atkvæði þau, sem greidd hafa verið með hverjum manni sèr í lagi. Sèu atkvæði greidd með þeim manni, sem á heima utankjördæmis, þá skulu atkvæði þau metast að engu, nema sannað sè áður fyrir kjörþíngisstjórninni, að hann sè kjörgengur, og vilji takast á hendur kosnínguna í því kjördæmi og engu öðru. Sömuleiðis eru atkvæði þau ógild, er greidd eru með þeim manni, er heima á í kjördæminu, en eigi stendur á kjörgengisskránni. Kosníngin skal bókuð í kjörbókinni og birt fyrir þíngheiminum. Kjörskrárnar skal fá aptur hlutaðeigandi hreppum, en atkvæðaskýrslurnar eiga að fylgja kjörbókinni, og skulu kjörþíngisstjórar rita nöfn sín undir hana.

12. gr.

Sá er kosinn, sem hefur fengið fleiri atkvæði, en nokkur annar. Eigi að kjósa tvo alþíngismenn fyrir kjördæmi það, þá skal sá vera annar þíngmaðurinn, sem þar næst hefur fengið fleiri atkvæði, en nokkur annar. Hafi fleiri menn fengið jafnmörg atkvæði, ráði hlutkesti, ef þörf er til.

13. gr.

Þíngmönnum þeim, sem kosnir eru, skal tilkynna kosnínguna með brèfi, og skulu allir kjörþíngisstjórarnir rita nöfn sín undir það; en sè einhver þeirra kosinn, þá nægir, að hinir skrifi undir. Kjörbrèf þetta skal þíngmaðurinn hafa með sèr

til skírteinis, þegar hann kemur á þíng. Kosnínguna skal einnig tilkynna stiptamtmanni, en hann skal aptur skýra stjórnarherra innanríkismálanna frá.

14. gr.

Hver maður, sem innankjördæmis býr, er skyldur til, þá er hann fær að vita, að hann er kjörinn, að tilkynna jafnskjótt forseta kjörþíngisstjórnarinnar brèflega, hvort hann tekur við kosníngunni eða eigi. Ef hann skorast undan, skal kjörþíngisstjórnin láta kjósa um aptur, og skal um það fara, eins og hèr að framan er sagt.

15. gr.

Alþíngismenn skulu kosnir fyrir 6 ár. Bæði við venjulegar kosníngar og þegar alþíngi er upp leyst, skulu kosníngar gilda frá hinum almenna kosníngardegi; en hafi þurft að láta almennar kosníngar fara fram á öðrum dögum í einum hluta landsins en í öðrum, þá skal gildi kosníngarinnar talið frá hinum síðasta af dögum þessum.

16. gr.

Þurfi að kjósa einstakan þíngmann, þá skal kosníng hans vera gild um svo lángan tíma, sem sá hefði átt eptir, er hinn nýi þíngmaður kemur í staðinn fyrir.

17. gr.

Óræki nokkur verk þau, sem lögð eru honum á herðar með lögum þessum, þá sekist hann 5 — 200 rbdd., nema brot hans varði harðari hegníngu eptir fyrirmælum laganna.

18. gr.

Reglulegar kosníngar til alþíngis eptir lögum þessum skulu í fyrsta sinni fara fram árið 1853. Almennar kosníngar ákveður konúngur, en eigi að kjósa í einstökum kjördæmum, þá skal kosníngin ákveðin af stiptamtmanni.

19. gr.

Með þessu er af tekið það, sem á kveðið er í tilsk. 8. marz 1843 um ráðgjafaþíng á Íslandi, 2. — 27. gr., að meðtöldum báðum þessum greinum. Svo eiga eigi heldur við eptirleiðis ákvarðanir þær í nefndri tilskipun, sem gjöra ráð fyrir, að varafulltrúar sèu kosnir.

# Ástæður

til

## lagafrumvarps um kosníngar til alþíngis á Íslandi.

---

Eptir að búið er þegar fyrir laungum tíma að koma nýju skipulagi á kosníngar í Danmörku, í staðinn fyrir reglur þær, er voru um kosníngar til umdæmaþínganna, en þíng þau voru einnig í þessu tilliti fyrirmynd alþíngis á Íslandi, eins og líka farið var eptir frjálsari kosníngarreglum á Íslandi við kosníngarnar til fundar þess, sem stefnt er saman í sumar, varð stjórnin að hugsa fyrir, að gjöra breytíngu á ákvörðunum þeim, er nú gilda um kosníngar til alþíngis. Þó nú svo mætti álíta, að það ætti bezt við, og væri bæði nytsamlegast og mest samsvarandi boðum alþíngistilskipunarinnar, að alþíngið skuli sjálft eiga hlut að máli, þar sem snertir framfarir og fyrirkomulag þíngsins, en þjóðfundur sá, sem nú verður haldinn, er fremur sèrstaklegs eðlis, þar sem ætlunarverk hans er einkum, að ráðgast um stöðu landsins í fyrirkomulagi ríkisins, þótti stjórninni þó eigi tiltækilegt, að fresta, þángað til nýtt alþíngi gæti orðið haldið, að leggja fram frumvarp um breytíngu á lögum þeim, sem nú gilda um kosníngar til alþíngis, heldur áleit hún rèttara, að hinar nýjari kosníngarreglur yrðu nú þegar heimfærðar við kosníngar þær, sem fyrir hendi eru til alþíngis.

En þótt það nú einkum lægi fyrir höndum, að heimfæra til Íslands í aðalatriðunum hinar sömu frjálsari reglur, sem byggð eru á dönsku kosníngarlögin, varð þó ýmsu að haga á annan hátt, vegna þess að kríngumstæðurnar eru ólíkar. Því ef litið er til, hvernig fulltrúaþínginu í landsparti þessum er fyrir komið í samanburði við fulltrúaþíng alls ríkisins, þá virðist næg ástæða til, að heimta nokkuð meiri vissu fyrir staðfestu

hjá fulltrúaþíngi því, sem fyr var nefnt, og eins má eigi missa sjónar á því, að ríkisþínginu er skipt í tvær þíngdeildir, þar það væri eigi samsvarandi réttum grundvallarreglum, að heimfæra, þar sem ekki er nema eitt þíng, kosníngarreglur þær, er eiga sér að eins stað fyrir aðra af þeim tveimur þíngdeildum. Nú/með því, að tvöfaldar kosníngar, er óneitanlega veita nokkuð meiri vissu í nefndu tilliti, virðast ekki hafa náð miklu hylli á Íslandi, þá lá það næst fyrir höndum fyrir stjórnina, að feta í öðru tilliti stig þann, sem greiddur hefur verið fyrir landþíngið, að heimta meiri vissu fyrir kjörgenginni. Annars gat stjórnin að nokkru leyti byggt frumvarp sitt á lögunum 28. sept. 1849, sem að mestu leyti voru samin eptir uppástúngum alþíngis, en þó var nauðsynlegt, að setja nokkrar skilmerkilegri og nákvæmari ákvarðanir í lög þessi, sem eigi er ætlað að gilda að eins í eitt skipti, eins og lögum þeim, er getið var, heldur fyrir lengra tímabil, og eins þótti það eðlilegt, að alþíngiskosníngarnar yrðu settar í nokkurs konar samband við kosníngar þær til þjóðþíngsins, er getur um í öðru frumvarpi, er lagt er fyrir þjóðfundinn, og mun þar að auki ekki verða alllítill hagur að því, þegar til verka á að taka, þar eð með því verður komizt hjá erfiðisauka og tímatöf og kostnaði.

Að svo mæltu um aðalefnið er að taka til athugasemdanna um hinar einstöku greinir.

## Til 1. greinar.

Það hefur opt verið talinn sem ókostur á þeirri skiptíngu landsins, er híngað til hefur verið, í kjördæmi, er samsvara lögsagnar-umdæmunum, að mikill mismunur er á fólksfjöldanum í hinum einstöku sýslum, og verður með því ójöfn tiltalan milli fulltrúatölunnar og fólksfjöldans. Í fumvarpi þessu er að nokkru leyti reynt til, að bæta úr bresti þessum, með því að veita lögsagnarumdæmum þeim, er hafa að tiltölu mestan fólksfjölda, eða hér um bil 3000 innbúa eða fleiri, rétt til, að kjósa tvo alþíngismenn, þar sem hinar aðrar sýslur kjósa ekki nema einn; en eigi verður því neitað, að galli sá, sem nefndur var, hverfur engan veginn til fulls og alls fyrir það.[1]) Tala alþíngis-

[1]) Þó stjórninni hafi virðzt vandkvæðin á, að koma á annari kjördæmaskiptíngu, yfirgnæfandi, þar sem ekki heldur af alþíngis hálfu hefur verið borin upp nokkur ósk um breytíngar í því tilliti, þá hefur stjórninni samt komið til hugar, að önnur skiptíng kynni, ef til vill, að

manna eptir greininni er minni, en eptir lögunum 28. sept. 1849, en aptur á móti stærri, en eptir tilskipun 8. marz 1843, og má

verða álitin hentug, og hefur hún því ekki viljað leiða fram hjá sèr, að sýna tilraun þá, sem í þessu tilliti hefur verið gjörð og hèr fylgir, og hafa menn leitast við með því, bæði að gjöra kjósendum hægra fyrir, og að koma í veg fyrir misjöfnur þær milli fólksfjölda og þíngmannatölunnar, sem eiga sèr stað í sumum kjördæmum, og er gjört ráð fyrir, að í kjördæmum þeim, þar sem fólksfjöldinn er mestur, verði kosnir 3 fulltrúar, í öðrum 2, og þar, sem fólkstalan er minnst, 1 fulltrúi.

## Kjördæmaskiptíng á Íslandi.

1. Kleifa-, Leiðvallar- og Dyrhóla-hreppar í Vestur-Skaptafellssýslu.
   Eyjafjalla-hreppur í Rángárvallasýslu.
2. Austur-Landeyja-, Vestur-Landeyja-, Fljótshlíðar-, Hvols-, Rángárvalla- og Landmanna-hreppar í Rángárvallasýslu.
   Vestmannaeyjasýsla.
3. Holtamannahreppur í Rángárvalla-sýslu.
   Villingaholts-, Gaulverjabæjar-, Stokkseyrar-, Sandvíkur-, og Hraungerðis-hreppar í Árnessýslu.
4. Skeiða-, Gnúpverja-, Hrunamanna-, Biskupstúngna-, Grímsness-, Ölfuss- og Selvogs-hreppar í Árnessýslu.
5. Grindavíkur-, Hafna-, Rosmhvalaness-, Vatnsleysustrandar- og Álptaness-hreppar í Gullbríngusýslu.
6. Reykjavíkur-lögsagnarumdæmi.
7. Seltjarnarnesshreppur, Mosfellssveit, Kjalarness- og Kjósar-hreppar í Gullbríngu- og Kjósar-sýslu.
   Þíngvallahreppur í Árnessýslu.
   Strandar-, Skilmanna- og Akraness-hreppar í Borgarfjarðarsýslu.
8. Leirár-, Skoradals-, Andakíls-, Lundareykjadals-, Reykholtsdals- og Hálsa-hreppar í Borgarfjarðarsýslu.
   Hvítársíðu-, Þverárhlíðar-, Norðurárdals-, Stafholtstúngna-, Borgar- og Álptaness-hreppar í Mýrasýslu.
9. Hraunhreppur í Mýrasýslu.
   Kolbeinsstaða-, Eyja- og Miklaholts-hreppar í Hnappadalssýslu.
   Staðarsveit, Breiðuvíkur-, Íngjaldshóls- og Brimilsvalla-hreppar og Eyrarsveit í Snæfellsnessýslu.
10. Helgafellssveit og Skógarstrandar-hreppur í Snæfellsnessýslu.
   Dalasýsla.
   Bæjarhreppur í Strandasýslu.

það virðast mátulegt, þegar haft er fyrir augum, bæði að landinu sè svo vel borgið, sem kostur er á, með fulltrúatölunni, og á hinn bóginn, að hve miklu leyti landið er fært um, að bera kostnað þann, sem af því rís. Að konúngur hefur áskilið sèr rètt til, að nefna jafnmarga menn til þíngsins og áður, er byggt á sèrstaklegri stöðu alþíngis, þar sem þíng þetta er fulltrúaþíng fyrir einstakan landspart og því eigi skipt í deildir, og hefur einnig bæði í þessu tilliti og í reglunum um kjörgengi verið höfð hliðsjón til stöðu alþíngis, sem æðri sveitastjórnar, og til hluttekníngar þeirrar, er í því skyni kynni að verða veitt þínginu í stjórn innlendra mála.

Til 2. greinar.

Kosníngarrètturinn til alþíngis er bundinn við hina sömu skilmála og kosníngarrètturinn til þjóðþíngsins, að eins með þeirri tilbreytíngu, að hinn hlutaðeigandi á að gjalda til sveitar af efnum sjálfs sín, og finnst ákvörðun sú einnig í lögunum 28. sept. 1849. Það er auðsætt, að eptir þessu getur ekki orðið sèrlega örðugt, að semja kjörskrár sèr í lagi fyrir alþíngi.

---

11. Gufudals-, Múla-, Flateyjar-, Barðastrandar-, Rauðasands-, Tálknafjarðar-, Dala- og Suðurfjarða-hreppar í Barðastrandarsýslu.
Auðkúlu-, Þíngeyrar- og Mýra-hreppar í Ísafjarðarsýslu.
12. Mosvalla-, Suðureyrar-, Hóls-, Eyrar-, Súðavíkur-, Ögur-, Reykjarfjarðar-, Nauteyrar-, Snæfjalla-, Grunnavíkur- og Slèttuhreppar í Ísafjarðarsýslu.
13. Árness-, Kaldrananess-, Hrófbergs-, Kirkjubóls- og Broddanesshreppar í Strandasýslu.
Geiradals- og Reykhóla-hreppar í Barðastrandarsýslu.
14. Húnavatnssýsla, að fráskildum Vindhælishrepp.
15. Skagafjarðarsýsla.
Vindhælishreppur í Húnavatnssýslu.
16. Eyjafjarðarsýsla.
17. Vesturhluti Þíngeyjarsýslu, allt að Jökulsá í Axarfirði.
18. Austurhluti Þíngeyjarsýslu.
Skeggjastaðahreppur í Norðurmúlasýslu.
19. Norðurmúlasýsla, að fráskildum Skeggjastaðahrepp.
20. Suðurmúlasýsla.
21. Bæjar-, Bjarnaness-, Borgarhafnar-, og Öræfa- (Hofs-) hreppar í Austur - Skaptafellssýslu.

Til 3. greinar.

Það er útlistað hèr að framan, fyrir hverjar sakir nauðsyn sè á, að binda kjörgengina við vissa skilmála. Nú með því að beinlínis-skattar, eptir því sem þeim er varið á Íslandi, geta ekki verið neinn hentugur mælikvarði, hefur stjórnin neyðzt til, að halda fasteignum sem almennum skilmála fyrir kjörgengi, og er í því tilliti haldið að mestu leyti óbreyttum reglum þeim, sem híngað til hafa verið settar fyrir kjörgengi til alþíngis, en samt þannig, að í þeirra stað geti til vara komið skattgjald, þegar tiltala sú, sem ákveðin er á milli hinna kjörgengu og innbúa kjördæmisins, ekki næst með öðru móti. Svo er og einkum sú breyting á gjörð, að liðin mega vera, eptir því sem hèr er á kveðið, 6 ár frá virðíngargjörð á húsi, þar sem á kveðið er í tilsk. 8. marz 1843, að ekki megi vera liðin nema 2 ár frá virðíngargjörðinni, eigi hún að vera gild.

Til 4. greinar.

Þar eð ekki er heimtað, að fulltrúaefni bjóðist fram við alþíngiskosníngar, er nauðsyn á, að semja kjörgengisskrár til leiðbeiníngar kjósendum. Að öðru leyti má um grein þessa vísa til samsvarandi ákvarðana í „frumvarpinu til laga um stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins og um ríkisþíngskosníngarnar“.

Til 5. greinar.

Þar eð það má virðast æskilegt til hægðarauka, að bæði kosníngar til þjóðþíngsins og alþíngis og undirbúníngurinn til hvorratveggja kosnínganna geti, að svo miklu leyti því verður við komið, orðið allt samferða, þá eru tímabilin á kveðin með hliðsjón til þessa. Samt verður að draga kjörgengisskrárnar saman í eina skýrslu fyrir allt kjördæmið, og virðist þá eiga bezt við, að fela sýslumanninum, sem yfirvaldinu í kjördæminu, á hendur, að semja skýrslu þessa, og heldur sýslumaður þá með því nokkru af starfa þeim, er hann híngað til hefur haft á hendi sem kjörstjóri. Þess ber og að gæta, að hann er eptir stöðu sinni bezt fær um, að sjá um, að fyllt verði upp tala hinna kjörgengu, eins og fyrir er mælt í 3. gr., þegar á því þarf að halda. Svo virðist eigi heldur neitt geta verið því til fyrirstöðu, að sýslumaður veiti móttöku athugasemdum þeim, sem fram kunna að koma við kjörgengisskrárnar fyrir frest

þann, er settur er, en á hinn bóginn verður úrskurðinn að leggja á athugasemdir þessar af kjörþíngisstjórninni allri í sameiníngu. Til þess, að komast hjá tímatöf á kosníngardeginum, mætti það virðast æskilegt, að úrskurðirnir yrðu felldir fyrir þann dag, og mætti á fundi þeim, er til þess væri haldinn, búa þar að auki sitt hvað annað í haginn undir kosnínguna, og ætti því í seinasta lagi að halda hann deginum fyrir kosnínguna, en að öðru leyti hefur þótt mega láta kjörþíngisstjórnina sjálfa ráða þessu.

Til 6. greinar.

Um tímabilin má vísa til athugasemdanna við greinina næst á undan. Eins og á kveðið er um þjóðþíngiskosníngar, skal einnig taka þá með, sem standa á aukaskránni, og fengið hafa kosníngarrètt fyrir kosníngardaginn.

Til 7. og 8. greinar.

Í ákvörðunum þessum er haft fyrir augum, að koma því svo fyrir, að kosníngar til þjóðþíngsins og til alþíngis geti farið fram í einu. Þetta verður því hægra, sem alþíngiskjördæmin eru deildir af þjóðþíngiskjörfylkjunum, og kosníngartíminn til þjóðþíngsins er einmitt helmíngi styttri en kosníngartíminn til alþíngis, svo að önnur hver þjóðþíngiskosníng verður samfara alþíngiskosníngunni, ef allt getur að öðru leyti orðið samtíða. Með þessu má spara töluverðan kostnað og ómak, eins og líka kjörþíngið verður merkilegra og vinnur fremur athygli manna, ef kosníngar til beggja þínga fara þar fram.

Til 9. greinar.

Ákvarðanirnar í niðurlagi þessarar greinar miða einúngis til, að gjöra kjósendum hægra fyrir, að kynna sèr kjörgengisskrárnar, sem, ef til vill, kynnu ekki að verða mönnum nógu kunnar vegna þess, hvernig þær eru samdar og birtar, og geta kjósendur þá með því gengið úr skugga um, hvort sá maður eða þeir menn, er þeir ætla að kjósa, standi á kjörgengisskránni.

Til 10. greinar.

Þessi grein er í aðalatriðunum samkvæm hinni samsvarandi grein í frumvarpinu um ríkisþíngskosníngarnar, og er þess

einúngis að geta, að það þótti rètt, að bæta við ákvörðun, er samsvaraði tilsk. 8. marz 1843, 31. gr., sökum þess, sem þegar var getið um kunnugleik manna um kjörgengisskrárnar, og vegna þess, að þær gilda ekki nema fyrir sýsluna.

Til 11. greinar.

Eptir tilsk. 8. marz 1843, 13. gr., var kjörgengi bundin við fasteign í því amti, sem kjördæmið var í, og var með því gjört ráð fyrir, að kjörgengisskrárnar fyrir öll kjördæmin í amtinu yrðu sendar til hvers einstaks kjördæmis í amtinu. Aptur er á kveðið í lögunum 28. sept. 1849, 15. gr., að enginn megi kjósa þann, sem utankjörþingis býr, nema það sè sannað fyrir kjörstjórum, að hann sè kjörgengur, og vilji takast kosninguna á hendur í því kjördæmi og engu öðru. Ákvörðun þessari hefur þótt rètt að halda, einkum vegna torfæra þeirra, sem eru á því, að kjósa upp aptur, en það virðist rèttara, að láta atkvæði þau vera ógild, sem gefin eru mönnum þeim, er eiga heima utankjördæmis, og eigi hafa fullnægt skilmálum þeim, er ákveðnir eru, þar eð tekið er við atkvæðum af einstökum manni úr kjörþingisstjórninni, eptir reglunum í frumvarpi þessu; en það er eigi tilhlýðilegt, að hann skuli geta lagt úrskurð á svo mikils varðandi mál, með því að neita kjósandanum um, að taka við atkvæði hans. Eptir því, sem hèr er farið fram á, verður úrskurðurinn þar á móti lagður á af kjörþingisstjórninni allri í sameiníngu, eins og eptir tilsk. 28. sept. 1849.

Til 12. greinar.

Áður voru menn á því máli, að aldur ætti að ráða, þegar tveir höfðu fengið jafnmörg atkvæði, en þessu er ekki fylgt í hinum dönsku kosníngarlögum, og virðist engin sèrleg ástæða vera til, eptir því sem á stendur á Íslandi, að halda slíkri ákvörðun; heldur virðist það vera einfaldast, að láta hlutkesti ráða.

Til 13. greinar.

Þessi grein er samkvæm lögunum 28. sept. 1849, 19. gr., nema hvað birta skal kosnínguna stiptamtmanni, en eigi hlutaðeigandi amtmönnum, vegna þess að stiptamtmaður eptir reglu

þeirri, sem frumvarp þetta og frumvarpið til laga um ríkisþíngskosníngar eru byggð á, er aðalstýrir kosníngamálefna.

Til 15. greinar.

Kosníngatíminn er ákveðinn samkvæmt tilsk. 8. marz 1843, 8. gr. Ákvörðunin í niðurlagi greinarinnar er tekin eptir dönsku kosníngarlögunum 16. júní 1849, 74. gr., með breytíngu þeirri, sem leiðir af hinum sèrlegu ákvörðunum um kosníngardaginn í frumvarpi þessu og frumvarpinu um ríkisþíngskosníngar.

Til 16. greinar.

Grein þessi er samkvæm tilsk. 8. marz 1843, 8. gr., og kosníngarlögunum 16. júní 1849, 75. gr.

Til 17. greinar.

Grein þessi finnst einnig í frumvarpinu um ríkisþíngskosníngar, og er samkvæm tilsk. 16. júní 1849, 78. gr., nema hvað vægasta sekt er, eptir efnahag manna á Íslandi, ákveðin til 5 rbdd., í staðinn fyrir að 10 rbdd. eru ákveðnir í Danmörku.

Til 18. greinar.

Í þessari grein er gjört ráð fyrir, að þjóðfundur sá, sem nú verður haldinn, komi að nokkru leyti í alþíngisstað, og því byrjar þíngið aptur reglulega samkomu á þeim tíma, sem til tekinn er í frumvarpinu.

---

# IV.

## Nefndarálit

### í stjórnarskipunarmálinu.

---

Þjóðfundurinn hefur kosið oss undirskrifaða í nefnd, til að segja álit vort um „frumvarp til laga um stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins og um ríkisþíngskosníngar á Íslandi".

Það liggur í augum uppi, að eins og við hverja nýja löggjöf um eitthvert málefni þarf vel að athuga það, sem hefur verið, og það, sem er, bæði í lífinu sjálfu og í lögum þeim, er hafa átt að stjórna því, þannig er það einkum áríðandi, þegar gjöra er um nýja stjórnarskipun; því þroski þjóðlífisins, eða dáð og dugnaður þjóðfèlagsins yfir höfuð, er að miklu leyti kominn undir því, að stjórnarskipunin samsvari þjóðlífi fèlags þess, sem hún er gefinn. Nú er það optsinnis sagt af þeim, er kynnzt hafa Íslendíngum, að þjóðlíf þeirra sè mest í sögunni, sè sögulíf. Og er það þá, þegar ákveða skal stjórnarskipun Íslands, því fremur nauðsynlegt, að íhuga, hver staða landsins hafi verið í þessu tilliti, hvernig hún hafi breyzt, og hver hún nú sè. Það er líka tekið fram í ástæðunum til frumvarpsins (bls. 30), að það beri að gæta stöðu þeirrar, er landið hefur átt híngað til. En með því flest hèr að lútandi er alkunnugt, viljum vèr láta það nægja, að drepa að eins á hin helztu atriði.

Saga Íslands er í því tilliti frábrugðin sögu flestra annara þjóða, að hún er hvað greinilegust í fornöld landsins. Tók það að byggjast seint á 9. öld, en snemma á hinni 10. öld skipuðu landsbúar stjórn sína; hèlzt þjóðstjórnarskipulag það, er þá

var samið, allt til þess, er landið gekk undir Noregskonúng 1264 eptir frjálsum sáttmála; hètu Íslendíngar, að gjalda konúngi skatt, en áskildu sèr aptur, að konúngur skyldi halda þeim við íslenzk lög, og að embættismenn skyldu innlendir vera, og sögðu sig lausa við samnínginn, ef út af væri brugðið af hendi konúngs. Ísland varð þannig frjálst sambandsland Noregs, að því leyti það kom undir sama konúng; hèlt það stjórnarskipun sinni sèr í lagi, með löggefandi þíngi, er líka hafði dómsvaldið á hendi. Árið 1380 varð sami konúngur í báðum ríkjunum, Noregi og Danmörku, og unnu Íslendíngar þá Ólafi konúngi Hákonarsyni hollustueið 1382; upp frá því varð Ísland sambandsland beggja ríkjanna; en stjórnarformið breyttist ekki í neinu. Voru konúngar hylltir hèr á landi sèr í lagi, og þannig var Friðrik hinn 3. hylltur hèr 1649. Þannig fór og einvaldserfðahyllíngin fram sèr í lagi hèr á landi 1662, að sínu leyti eins og í Noregi. Frá þeim tíma, eptir sem hinu ótakmarkaða einveldi jókst afl og magn, var farið að slengja saman hinni umboðslegu stjórn Noregs, Íslands og Danmerkur; þó hafði hver af þessum hlutum einveldisins sín lög út af fyrir sig, og í lagamálinu voru allt af nefnd 2 ríki, Danmörk og Noregur, og við hliðina á þeim konúngsins land Ísland, sem partur úr einveldinu, en ekki sem partur úr Noregi, og því síður úr Danmörku. Að vísu munu finnast spor til þess, að það hafi verið af Dönum á seinni tímum álitið sem nýlenda frá Noregi, en þó margir af landnámsmönnum væru frá Noregi, þá gjörði það engan mun í tilliti til rèttinda landsins; því innbúar þess höfðu frelsi frá upphafi og voru engum háðir, bjuggu sjálfir til stjórnarlögun sína, er landið naut í nokkur hundruð ára, þángað til það gekk undir Noregskonúng, en var þó sem heild út af fyrir sig, jafnsnjallt Noregi í öllum greinum. Löggjafarvaldið var þá í sameiníngu hjá konúngi og alþíngi, þó með þeim mismun, að konúngur gat ekki eptir gamla sáttmála gefið lög án samþykkis þíngsins, en þar á móti mátti þíngið gjöra ýmsar samþykktir, án þess að leita staðfestíngar konúngs. Þessu síðast nefnda valdi hèlt alþíngi, ekki einúngis þángað til erfðahyllíngin fram fór 1662, heldur allt til þess þíngið var lagt niður um næstliðin aldamót, jafnvel þó það neytti þess ekki á seinustu árunum. Stjórnarlagsskrá sú, sem þegnar Friðriks konúngs hins 3. fólu honum á hendur að semja eptir stjórnarbreytínguna, er dagsett 14. nóvb. 1665, og nefnist

„konúngalög“; í þeim er það á kveðið í 19. gr., að ríkin, Danmörk og Noregur, og öll önnur krúnunni tilheyrandi lönd, skyldu vera óskipt og ódeild undir einum og sama einvöldum erfðakonúngi; samt sem áður neyddist konúngurinn til 1814, að sleppa Noregi, en hélt eptir hinu forna sambandslandi Noregs, Íslandi. En við hvorugt þetta breyttist staða landsins, eða gat orðið breytt að neinu, í sambandi við ríkið; það hélt réttindum sínum eptir sem áður, og varð á engan hátt háð neinum öðrum hluta einveldisins.

Að öðru leyti má þess geta, að hvorki konúngalögunum nè konúngsbrèfi frá 4. septemb. 1709, er þau voru birt með, er þínglýst hèr á landi.

Árið 1831 bar svo til, að konúngur setti fjögur ráðaneytisþíng fyrir þessa fjóra hluta einveldisins: Danmörk, Slèsvík, Holsetaland og Ísland; en hvað Danmörk og Ísland snerti, þá setti hann ekki sitt þíngið fyrir hvern af þessum landshlutum, eins og þeirra sèrstaklega staða og ólíka ásigkomulag hefði mátt ráða til, heldur var haft meira tillit til fólksfjöldans, og Danmörku skipt í 2 þíng, Eydana og Jóta, og Íslendíngum boðið, að eiga þíng saman við Eydàni; en bráðum fóru að heyrast raddir, er mæltu á móti þessari tilhögun; Danmörk óskaði, sem landsheild fyrir sig, að fá eitt þíng, og Ísland óskaði, að fá þíng fyrir sig; samt var í 9 ár verið að berjast við, að búa til kosníngarlög fyrir Íslendínga, eptir hverjum þeir skyldu kjósa fulltrúa til þíngs Eydana, þángað til Kristján konúngur lèt það í ljósi á 8. missiri ríkisstjórnar sinnar, að Íslendíngar gætu ekki haft gagn af þíngi saman við Dani, þar sem þeir hefðu og þyrftu að hafa aðra löggjöf en Danir, og lagði því þann úrskurð á 20. maí 1840, að á Íslandi skyldi upp aptur rísa alþíngi hið forna, og var það stofnsett 8. marz 1843. Nú leið og beið, þángað til Friðrik hinn 7. tók við ríkinu; þá lýsti hann því yfir, 28. janúar 1848, að hann vildi stofnsetja ríkisþíng fyrir landshlutana Danmörk, Slèsvík og Holsetaland, en Láenborg (er kom undir krúnuna 1814, í staðinn fyrir Noreg) og Ísland skyldu ekki taka þátt í þessu ríkisþíngi, en að öðru leyti halda þíngum sínum með sama rètti og áður. Þessi skipun á einu þíngi fyrir áður nefnda þrjá ríkishluta virtist ekki í neinum þeirra að ná hylli manna; varð þá hin mikla stjórnarbreytíng í Danmörku, er byrjaði í marz 1848. Ráðgjafastjórn sú, er þá var stofnuð,

virtist að hníga að þeirri skoðun, að hertogadæmin, Holsetaland og Láenborg, hverjir landshlutar eru í hinu svo nefnda þýzka sambandi, ættu að fá stjórn út af fyrir sig, en hertogadæmið Slèsvík, konúngsríkið Danmörk og lönd konúngsins, Færeyjar og Ísland, ættu að skoðast sem nokkurs konar heild út af fyrir sig, og þessa heild vildu Danir á ríkisfundinum veturinn 1848—49 nefna Danmerkurríki, til aðgreiníngar frá hinu svo nefnda konúngsríki Danmörk, er einúngis inniheldur í sèr Jótland og eyjarnar. En á tèðum ríkisfundi voru ekki þjóðkjörnir fulltrúar, nema einúngis frá Danmörku, og þess vegna lýstu ráðgjafar konúngs því yfir, að grundvallarlög þau, er lögð voru fyrir fundinn, gætu ekki, eptir því sem ástatt var, verið nema til bráðabyrgða hvað Slèsvík og Ísland snerti, eins og líka konúngurinn hefur geymt landshlutum þessum rètt sinn í tilliti til þeirra ákvarðana, er nauðsynlegar mættu þykja, til að ákveða stöðu og stjórnarlögun þeirra.

Hvað Ísland sèr í lagi snertir, flýtur það líka beinlínis af því, hvernig Ísland fyrst sameinaðist Noregi, og síðan Danmörku, að konúngur vor getur ekki löglega sleppt hinni ótakmörkuðu einveldisstjórn sinni yfir landinu, sem byggð er á hollustueiði þeim, er landsmenn unnu Friðriki hinum 3. árið 1662, nema eptir samkomulagi við þegna sína á Íslandi. Og að þetta sè meiníng konúngsins, sèst bæði á brèfi hans frá 23. sept. 1848, og á því, að hið konúnglega frumvarp, sem lagt er fyrir þjóðfundinn, er þannig lagað, að fundurinn einmitt með því er kvaddur til, að segja álit sitt um, hvort og að hve miklu leyti grundvallarlögin frá 5. júní 1849 skuli vera gild á Íslandi.

Þegar við fyrstu umræðu frumvarpsins kom öllum nefndarmönnum saman um, að það þyrfti töluverðra breytínga við. Í þessu tilliti getur maður hugsað sèr þrennslags aðferð; fyrst þá, að allar breytíngarnar sèu teknar inn í frumvarpið sjálft, eins og stjórnin hefur ætlazt til, og grundvallarlögin frá 1849 sèu síðan lögg ilt í 1. gr. að því leyti, sem þar á er ekki breytíng gjörð í eptirfylgjandi greinum. Önnur aðferðin er sú, að taka hinar einstöku ákvarðanir grundvallarlaganna fyrir, og laga þær eptir þörfum Íslands, eins og stjórnin hefur bent til í ástæðunum til frumvarpsins (bls. 39). Þá er hin þriðja aðferðin, hvorki að laga grundvallarlögin nè *lögleiða* þau ólöguð, heldur einúngis að segja álit sitt um þær aðalákvarðanir, er frumvarpið inniheldur, og þær, sem að öðru leyti kynnu að

þykja nauðsynlegar, til að ákveða stöðu og stjórnarlögum Íslands.

Einn af nefndarmönnum hefur aðhyllzt fyrstu aðferðina; en meiri hluti nefndarinnar getur engan veginn fallizt á, að lögleiða hèr þau lög, er innihalda margar greinir, er annaðhvort alls ekki eiga hèr við, eða sem með engu móti getur orðið við komið, vegna þess hvernig ástatt er hèr á landi. Að vísu er það borið fram af stjórninni í ástæðunum til frumvarpsins, bls. 39, að henni virðist það sjálfsagt, að ekki þurfi að fella úr greinir þær, er alls ekki eiga við á Íslandi, þar eð það liggi í augum uppi, að þær geti ekki átt þar við, og eins sè um þær greinir, sem þörf væri á að laga eptir því, sem á stendur hèr á landi, að þær verði að skilja á þann veg, að eigi megi heimta, að þeim sè fylgt beinlínis, þegar það liggi bert fyrir, að því geti með engu móti orðið við komið. En þessar ástæður virðast meiri hluta nefndarinnar aldeilis ónógar; því eptir þeim yrði það komið undir hvers eins geðþótta, að hve miklu leyti hann áliti, að hinum einstöku ákvörðunum laganna yrði við komið, og það yrði þannig einlæg óvissa um, að hve miklu leyti þeim eigi að fylgja, en slík óvissa er öldúngis óhæfileg í hverju lagaboði sem er, hvort það er heldur skoðað í tilliti til skyldna eða rèttinda, en þó allra-óviðurkvæmilegust í grundvallarlögum, sem af öllum mannlegum lögum eru hin mest umvarðandi, af því þau eiga að tryggja hin æðstu rèttindi manna, og sem þess vegna þurfa að geta fest rætur hjá þjóðinni, og áunnið ást og virðíngu hennar; en við þessu geta menn engan veginn búizt um þau lög, sem í mörgum greinum ekki eiga hèr við, eins og stjórnin sjálf hefur viðurkennt.

Enn fremur er það takandi til greina, að grundvallarlögin frá 5. júní 1849 eru einúngis við tekin af einum hluta einveldisins, nefnilega konúngsríkinu Danmörku, og innihalda líka allt það sèrstaklega, er viðkemur þessum landshluta, svo það èr ekki annað sýnna, en að þeim verði bráðum breytt, að minnsta kosti að forminu, þegar stjórnarskipun kemst á fyrir allt konúngsveldið.

Á meðan allt stjórnarskipulag ríkisins þannig er á reyki, getur nefndinni ekki heldur þótt það tiltækilegt, að brúka hina aðferðina, að taka grundvallarlögin öll fyrir, og laga þau eptir þörfum Íslands, jafnvel þó hún geti ekki fallizt á þær ástæður, er stjórnin hefur talað fyrir því, að henni þyki það frágángssök, með því þessar ástæður virðast ekki fremur að gilda

um grundvallarlög, en önnur lög, sem þó fyr tèð aðferð hefur verið brúkuð við að undanförnu, eins og alkunnugt er.

Vèr getum þannig engan veginn lagt það til, að þjóðfundurinn veiti 1. gr. frumvarpsins samþykki sitt.

Þegar vèr annars vegar lítum á, að hve miklu leyti ákvarðanirnar í frumvarpi því, sem stjórnin hefur lagt fyrir oss, geti fullnægt sèrstökum þörfum lands þessa, svo einstakt sem það er og afskekkt frá öðrum hlutum Danaveldis, og frábrugðið þeim á allan veg, að þjóðerni, túngumáli og sögu, að lögum, venjum og landsháttum, en hins vegar á þann vafalausa rètt, er vèr höfum áður leitt rök að, að Ísland eigi á því, ekki að eins að hafa *jafnrètti við aðra aðalhluti Danaveldis* í hverri þeirri stjórnarskipun, sem kæmist á yfir allt einveldið, að lokinni einvaldsstjórn Danakonúnga, heldur einnig á því, að fá stjórnarskipun með öllu út af fyrir sig, þá varð meiri hluta nefndarinnar í augum uppi, að hvorki gætum vèr nè mættum gánga að þeim kostum, sem hèr eru gjörðir Íslendíngum á, að taka þátt í stjórnarhögum sjálfra sín. Engum hluta Danaveldis getur verið það óhagkvæmara og óeðlilegra, heldur en Íslandi, að eiga flestöll mál sín í sameiníngu við hið eiginlega konúngsríki Danmörk, og að verða að eiga fulltrúa á ríkisþíngi Dana, og eiga úrskurð allra mála sinna undir dönskum ráðgjöfum, sem eru ábyrgðarlausir fyrir vorri þjóð.

Það þótti bæði hinni dönsku stjórn og Íslendíngum óhafandi og órètt, að mál vor skyldi verða að leggja undir ráðgjafarþíng Dana, og Ísland að eiga þar fulltrúa, og þótti sú tilhögun vera til beinnar fyrirstöðu bæði málalyktum vorum og öllum þjóðlegum framförum sjálfra vor; og ætlum vèr auðsætt, að byggja megi á hinni sömu skoðun og hinum sömu ástæðum það, að eins sè sú tilhögun nú óhafandi, og rèttum lyktum málefna vorra til fyrirstöðu, en oss og þjóðerni voru til beins hnekkis og apturfarar, ef vèr nú skyldum verða að senda fulltrúa á ríkisþíng Dana. Mál þau öll, er Íslandi viðkoma, eru nefnilega svo einkar-sèrstaklegs eðlis, að flestir danskir ríkisþíngsmenn hljóta að dæma um þau og greiða atkvæði í blindni, og hafa hinir vitrustu meðal Dana játað þetta þráfaldlega, en Ísland er hins vegar svo fámennt í samanburði við þau hèruðin, sem senda fulltrúa til ríkisþíngsins, að það getur ekki átt kost á, að eiga á því þíngi nema fáeina menn; en þeir mundu litlu sem engu orka nè á vinna, sízt í þeim

málum, sem Dönum þætti á miklu standa að rèðust þeim í hag, en það mundu og opt vera einmitt þau mál, er Íslendíngum stæði á afarmiklu hvernig lyki. Þar að auki væri jafnfáum mönnum ekki trúandi fyrir skuldbindandi atkvæðum í jafnmikilvægum málefnum, er mundu þá eiga undir ríkisþíngið, og nálega öll velferð lands þessa gæti verið undir komin. Það mundi og valda óbærilegum kostnaði, að senda menn hèðan á ríkisþíngið, þar sem kostnaður af því mundi verða allt að helmíngi meiri, en þó alþíngi væri haldið árlega í landinu sjálfu. Nú gjörir stjórnarfrumvarpið að vísu kost á því í orði kveðnu, að kostnað þann skuli greiða úr ríkissjóðnum; en eptir þeim rètti, sem ríkisþínginu er áskilinn í 4. gr. frumvarpsins í krapti 51. gr. hinna dönsku grundvallarlaga, þá getum vèr hvorki vænt þess nè ætlazt til, að Danir beri þann kostnað til lángframa svo, nè annan, að þeir leggi ekki jafnmiklar álögur á Íslendínga, til þess að vinna upp hallann, enda er þetta bæði sjálfsagt og eðlilegt. Þar til hallar það ekki alllítið þjóðrèttindum vorum, ef fulltrúar vorir mega ekki við hafa móðurmál sitt á ríkisþínginu, heldur hljóta að tala útlendu máli, og er þetta óþolandi band á kjörgenginni til ríkisþíngsins, að verða að gánga fram hjá hvað góðu fulltrúaefni sem er, ef hann skilur ekki og talar dönsku til hlítar; menn væru fyrir það bundnir við, að kjósa ekki að eins lærða menn, heldur yfir höfuð siglda menn, og þá embættismenn eður embættismannaefni; en af þeim er ekki þèttskipaðra en svo hjá oss, eins og alkunnugt er, að varla er nóg, til að skipa með embættin, auk heldur að 6 slíkir hinir nýtustu menn, þeim er vel væri trúandi fyrir setu á ríkisþínginu, sèu aflögum.

En hvað nú hins vegar viðvíkur jafnrètti því, sem vèr höfum sýnt að framan að Íslendingar eigi jafnmikla heimtíng á, og aðrir hlutar Danaveldis, þá hefur og stjórnin sjálf viðurkennt þetta þráfaldlega, bæði í hinni sèrstöku löggjöf þessa lands og ýmsum öðrum efnum, en þó hvað beinast og fyllilegast, þegar Kristján konúngur 8. veitti oss alþíngi og lagði fyrir, að því skyldi fyrir koma svo líkt hinu forna alþíngi, sem fremst mætti verða. Nú var að vísu ekki hægt, eptir því sem á stóð, þegar alþíngi var stofnað 1843, nè til þess ætlandi, að því yrði skipað eða fyrir komið á annan eður frjálslegri veg, en öðrum ráðaneytisþíngum í ríkinu; því þetta var jafnrètti, eins og þá stóð; en þegar við stofnun alþíngis var þó skipun konúngs

sú, að það skyldi verða svo líkt hinu forna alþíngi, sem hafði löggjöf alla og stjórn þessa lands á hendi, eins og öllum er kunnugt, sem fremst mætti verða. Af þeim ástæðum mun því og hafa verið farið fram í þeirri bænarskrá hèðan 1848, sem prentuð er í stjórnartíðindunum s. á., að konúngur veitti alþíngi jafnrètti í þeim málum, er Ísland snerta, sem ríkisþíngi Dana yrði veitt í þeirra málum, eður með öðrum orðum, að alþíngi Íslendínga fengi jafnfullt löggjafarvald í vorum málum, eins og ríkisþíngið hlyti í dönskum málum, og er það alkunnugt af allra-hæstum úrskurði 23. sept. s. á., hve mildilega konúngur vor tók þeirri bæn.

Með öllum þessum ástæðum fyrir augum sèr getur nefndin með engu móti lagt það til, að hinn heiðraði þjóðfundur fallist á, að þessari aðal- og undirstöðu-grein í stjórnarskipun Íslands sè fyrir komið á þann veg, sem stúngið er upp á í frumvarpinu, og vèr getum ekki dulizt við, að það er því furðulegra og óskiljanlegra, að hin danska ráðgjafastjórn skuli hafa farið þessu fram við oss, þrátt fyrir það, hvað lík tilhögun hefur reynzt óhafandi bæði fyrir Íslendínga og Dani, og þrátt fyrir það, hve skýlauslega hin fyrri stjórn og hinir síðustu einvöldu konúngar vorir hafa viðurkennt rètt Íslendínga til jafnrèttis í þessum efnum, sem stjórnin einmitt um sama leyti, sem þetta frumvarp er frá henni út gefið, hefur í öðru frumvarpi, því er lagt var fyrir merkismannafundinn í Slèsvík í maí þ. árs, stúngið upp á svo miklu frjálslegra fyrirkomulagi á stjórnarmálefnum Slèsvíkur og stöðu þess landshluta í konúngsveldinu, og má þó vera auðsætt hverjum manni af því, sem skýrt er frá hèr að framan, að hvorki hin forna undirstaða fyrir sambandi Íslands við Danmörku, nè afstaða og fjarlægð þess, nè viðkenníngar konúnganna og stjórnarinnar að undanförnu, gefa hina fjærstu átyllu til þess, að þraungva skuli á nokkurn veg fremur jafnrètti Íslands við aðra hluta konúngsveldisins, heldur en Slèsvíkur.

En svo mjög, sem ráðgjafastjórnin vill þraungva rètti vorum með frumvarpi þessu, hefur hún þó í aðra röndina viðurkennt í því, að alþíngi hlyti að hafa nokkurn hluta löggjafarvaldsins, og það einmitt í þeirri grein þess, sem ekki þykir á minnstu standa, þar sem segir í 8. gr. frumvarpsins, „að konúngur ætli ekki að leggja ný útgjöld á („til landsjóðsins“ er að vísu bætt við), eða hækka þau, sem nú eru ákveðin, *nema með*

*samþykki alþíngis*". En meiri hlutinn hlýtur að taka skýrt fram, að þessi aðgreiníng, sem stjórnin gjörir á *„ríkissjóð"* og *„landssjóð"*, og á þeirri heimtíng, sem annar sjóðurinn eigi að eins á beinlínis -, en hinn á óbeinlínis - sköttum, er jafnóeðlileg og óhafandi í alla staði, þegar til framkvæmdanna kemur, sem hún er óvanaleg og óþekkt í öllum löndum, þar sem um þann rètt er að tala, sem hèr er; en þessi óeðlilega og hvívetna óþekkta aðgreining hlýtur að eiga upptök sín annars vegar í því, hve mikla og ókljúfandi agnúa stjórnin sjálf finnur á því, að hneppa oss Íslendínga svo gjörsamlega inn í hið nú svo kallaða Danmerkurríki, eður skoða og fara með oss, sem vèr værum sveit eður hèrað í því ríki, en hins vegar af því, að stjórnin getur þó ekki á hinn bóginn neitað því með öllu, að alþíngi hljóti að hafa nokkurt löggjafarvald.

En undir eins og það má vera hverjum manni í augum uppi, að alþíngi Íslendínga hlýtur, eptir því sem fyr segir, að hafa fullt löggjafarvald ásamt konúnginum í öllum þeim málum, sem ekki eru og hljóta að vera sameiginleg fyrir alla aðalhluta konúngsveldisins, þá flýtur og beinlínis þar af, að fyrirkomulagi framkvæmdarstjórnarinnar og allrar stjórnarathafnar verður að haga á þann veg, að það geti samþýðzt annars vegar við löggjafarvaldið í landinu, en hins vegar við þá yfirstjórn í öllum sameiginlegum málum konúngsveldisins, sem nauðsynleg er til þess, að samteingíng allra aðalhluta þess geti haldizt, og hljótum vèr nú að fara nokkrum orðum um þá grein stjórnarskipunarinnar, einkum með tilliti til þess, sem upp á er stúngið í 2. gr. stjórnarfrumvarpsins.

Þar er Íslendíngum gjörður kostur á, að í málefnum þeim, sem eingaungu snerta Ísland, „skuli þeir og ríkisþíngið eigi hafa á hendi löggjafarvaldið, heldur skuli konúngur hafa það á hendi samkvæmt grundvl. 18.—21. gr., með tilhlutun af alþíngis hálfu". Að því leyti sem sjálft löggjafarvaldið áhrærir, þá er um það tekið fram hèr að framan allt, sem þurfa þykir; en hins vegar mundi það leiða beint af þessari uppástúngu, að aðal- og æðsta stjórnarathöfnin fyrir Ísland yrði í höndum hinna dönsku ráðgjafa, sem bæði mundu vera helzt til of fjærri og helzt til of ókunnugir til þess, að stjórna oss svo, að við væri unandi, enda hlýtur öllum að þykja það skipta afarmiklu, hvort Íslendíngar eigi yfir sèr í hinni æðstu stjórn *einvaldan konúng*, eins og áður var, eða *ráðgjafana í Danmörku*, sem í rauninni eru

ekki annað en halds- og traustsmenn hinnar dönsku þjóðar, eða með öðrum orðum, að eiga yfir sèr þann flokk hennar, sem í hvert sinn rèði mestu, og öll mál sín undir honum; enda mundi og Íslendínga skorta allar þær tryggíngar fyrir því, að dönsku ráðgjafarnir leystu stjórnarverk sín vel og dyggilega af hendi, sem Danir hafa, þar sem þeir eiga að ábyrgjast þau fyrir ríkisþínginu, og ef einhverjum ráðgjafanum yrði það, að brjóta lög og rètt á Íslendíngum í stjórnarathöfninni, þá ætlum vèr þann rètt og þá viðrèttíngu lèttvæga og einskis verða, sem fengist með þeirri aðferð, sem í ástæðunum er stúngið upp á (bls. 41), að kæra málið fyrir konúnginum eptir 5. gr. í tilsk. 28. maí 1831; því þar sem konúngur er sjálfur takmarkaður í allri stjórn sinni eptir grundvallarlögunum yfir höfuð, og ábyrgðarlaus eptir grundvl. 19. gr., og engin undirskript hans hefur fullt gildi, nema einhver ráðgjafanna undirskrifi líka (grundvallarl. 19. gr.), þá ætlum vèr það mundi opt geta að borið, að sá væri burtu úr ráðgjafavöldum, sem verið væri að ákæra, þegar til ætti að taka, og mundu menn þá bæði grípa í tómt um viðrèttínguna, og hafa skaðann svo búinn, en þó mundi optar hitt bera að, að það stæði einmitt næst þeim hinum sama, sem verið væri að bera sig upp undan, að leggja úrlausn á kærumálið ásamt konúnginum.

Það segir sig því reyndar sjálft, að eins og þetta fyrirkomulag bæði löggjafar- og framkvæmdar- valdsins er óhafandi einkum við oss Íslendínga, eins hlýtur öll hin æðri stjórnarathöfn á málefnum vorum að fara fram í landinu sjálfu, eins og fullt löggjafarvald hlýtur að vera í höndum fulltrúaþíngsins í landinu, ásamt og í höndum konúngsins; konúngur hlýtur sumsè að velja sèr ráðgjafa, því fremur hèr heldur en í hverjum öðrum aðalhlutum konúngsveldisins, sem fjarlægð þess er margfalt meiri frá konúnginum sjálfum. Þessir ráðgjafar hljóta að ábyrgjast stjórnarverk sín bæði fyrir konúnginum og fyrir alþíngi; þeir hljóta og að vera íslenzkir menn, bæði vegna hins frábrugðna móðurmáls vors, sem fæstum útlendíngum mun takast að læra til hlítar, og einkum sakir kunnugleika þess og þekkíngar, sem slíkir menn verða að hafa á öllum frábrugðnum og sèrstaklegum högum lands vors. Hins vegar leiðir það beinlínis bæði af þessu fyrirkomulagi stjórnarinnar hèr á landi, og einkum af hinni miklu fjarlægð þess frá aðsetri konúngsins, að Íslendíngar hljóta að eiga *erindisreka* af sinni hendi hjá

konúnginum, bæði til þess að bera fram fyrir hann málefni þau, bæði af hendi landsbúa og einkum alþíngis, sem konúngi ber að útkljá og staðfesta, og svo til þess að eiga setu í ríkisráði konúngs ásamt ráðgjöfunum úr öðrum aðalhlutum konúngsveldisins, og taka jafnan þátt með þeim í meðferð og úrslitum allra þeirra mála, sem kynnu að verða sameiginleg fyrir Ísland og aðra hluta veldisins. Þessi maður hlýtur og að vera íslenzkur maður, kosinn af konúnginum, og ábyrgjast verk sín öll bæði fyrir honum og alþíngi.

Vèr höfum hèr að framan drepið lítið eitt á það, hve óvanaleg, óeðlileg og óhafandi að sè aðgreiníng sú, sem gjörð er í 4.—7. gr. frumvarpsins á *ríkissjóðnum* og *landssjóðnum*, á *óbeinlínis-sköttum*, sem ríkissjóðurinn á einn að eiga rètta heimtíngu á, og ríkisþíngið eitt á að mega hækka og lækka að vild sinni, og á *beinlínis-sköttum*, sem eingaungu eiga að renna í landssjóðinn, og „konúngur ætlar ekki að hækka", nema með samþykki alþíngis, og höfum vèr getið þess áður, að stjórnin hefði hlotið að leiðast til þessarar óeðlilegu aðgreiníngar, annars vegar af því, að allt þetta skipulag, sem hún hefur stúngið upp á um stöðu Íslands í ríkinu, er í sjálfu sèr næsta óeðlilegt og fjarstætt því fyrirkomulagi, sem hlýtur að grundvallast, þegar eins stendur á og hèr, en sumpart af því, að stjórnin hefur á hinn bóginn orðið að viðurkenna, að vèr hlytum að eiga víst nokkur ráð á og hafa víst nokkur afskipti af fjárhagsefnum sjálfra vor. En eins víst og það er, að þessi síðari skoðun stjórnarinnar fer í rètta stefnu, eins er aptur óvinnandi, að finna neinar gildar eða skynsamlegar ástæður fyrir því, að skipta fjárhagnum í sundur, líkt og frumvarpið fer fram á, til þess að leggja einúngis vissan hluta af honum undir umráð alþíngis.

En eins og alþíngi hlýtur að hafa fullt löggjafarvald í öllum málum, er Íslandi viðkoma, svo er og óaðskiljanlegt frá því valdi, eins og hèr stendur á, að það eigi fullan rètt á, að ákveða alls konar skatta, eins beinlínis sem óbeinlínis, og að hafa öll ráð um inngjöld og útgjöld landsins, svo að ekkert verði um það ákveðið í neinni grein án samþykkis þíngsins, en aptur leiðir bæði af þessu og hinu, að öll hinn æðri stjórnarathöfn verður að eiga aðsetur sitt og fara fram í landinu sjálfu, að fjárhagur landsins verður að vera að fullu og öllu aðskilinn frá fjárhag hvers annars aðalhluta í konúngsveldinu.

Eins og þetta er eðlilegra í sjálfu sèr, eins er það og öldúngis samkvæmt skoðun og ráðstöfunum stjórnarinnar að undanförnu, þar sem fjárhagur Íslands hefur verið um mörg ár hafður sèr í lagi í ríkisreikníngunum, og það eptir beinum skipunum konúnganna, seinast eptir úrskurði Kristjáns konúngs 8. 15. júní 1840, og konúngsbrèfi 5. janúar 1842; þetta sama er að sjá í aðaláætluninni 1825, og svo í öllum hinum seinni áætlunum og ríkisreikníngum.

Hèr mætir nú nefndinni sú hin vafamikla spurníng, sem bæði landsbúar og Danir munu hreifa við þetta atriði, *hvort Ísland sè þess um komið, að bera sig sjálft* án nýrra sèrdeilislegra og óbærilegra skattaálaga, einkum þar sem stjórnarskipun sú, sem leiðir beint af framanskrifuðum ástæðum að muni verða að stínga upp á, hljóti annars vegar að verða svo margfalt kostnaðarsamari, en nú er, en hins vegar liggi það og beint við eptir því fyrirkomulagi, að Íslandi hljóti að gjörast, að leggja það fè árlega til almennra ríkisnauðsynja, þeirra er það tæki þátt í, sem ekki geti álitizt allítið í samanburði við fátækt og mannfæð lands þessa. Nefndin hefur nú sem grandgæfilegast yfirvegað þetta mikilvæga atriði málsins, og þó hún hafi komizt að þeirri niðurstöðu, að inngjöld Íslands sèu, eins og nú stendur, ekki meiri, en rúmar 22000 rbdd. auk tilkalls þess, sem landið á til endurgjalds úr ríkissjóðnum fyrir andvirði hinna seldu Skálholts og Hólastóls jarða, o. s. frv., en ekki veiti af, að inngjöldin yrðu allt að 60,000 rbdd. árlega, ef nægja ætti með hinni nýju stjórnarskipun, þá sèr meiri hlutinn samt engar sèrlegar nè óyfirvinnanlegar tálmanir fyrir því, að auka megi inngjöldin þannig, án þess að auka neitt tilfinnanlega álögur á þeim, sem nú bera svo að segja eingaungu skattabyrðina, og án þess að telja eins og í hendi sèr það ýms konar fè, sem Ísland álízt annars vegar að eiga heimtu á úr ríkissjóðnum, heldur að eins með því, að leggja jafnar álögur á þá almennu skattstofni, sem nú eru undan þegnir öllu gjaldi, með því að láta skattgjaldið koma jafnar niður á gjaldþegna eptir efnahag þeirra, og einkum með því, að leggja nokkrar álögur á verzlun landsins, þegar hún yrði gefin frjáls við allar þjóðir; en vèr treystum því, að þess muni ekki lángt að bíða hèðan af; en oss telst svo, að álögur þessar á verzlunina þurfi hvorki að verða svo miklar eða tilfinnanlegar, sem þær álögur, sem stjórnarráðin hafa áður stúngið upp á. Hins vegar

er þess vel að gæta, að engu minni kostnað mundi leiða af stjórnarskipun þeirri, sem upp á er stúngið í frumvarpinu, þar sem það er víst, eins og nú stendur, að inngjöld þau, sem ætluð eru ríkissjóðnum, jafnast engan veginn við útgjöld þau, sem þaðan er ráðgjört að greiða til embættismannanna, sem nefndir eru, og til skólans, en þar við bætist þó sá afarkostnaður, sem mundi leiða af setu íslenzkra fulltrúa á ríkisþínginu, og nefndinni virðist ljóst af 4. gr. frumvarpsins, saman borinni við 51. gr. dönsku grundvallarlaganna, að ríkisþínginu sè áskilinn beinn rèttur til, að ráða yfir öllum óbeinlínis-sköttum í landinu, verzlunargjöldum sem öðru, og vèr getum ekki gjört ráð fyrir öðru en því, sem þaðan liggur beint við, að ríkisþíngið neyti þessa rèttar til þess, að ákveða og auka hina óbeinlínis-skatta hjá oss þannig, að ríkissjóðurinn geti að minnsta kosti orðið með öllu skaðlaus af þeim viðskiptum, en vèr sjáum landinu engan meiri hag af því, að Danir leggi á oss skatta, heldur en sjálfir vèr, heldur að högum vorum sè með því miklu ver komið en áður, og rèttindum vorum gjörsamlega traðkað.

Að síðustu er það eptir öllu framan töldu atkvæði meira hluta nefndarinnar, að þjóðfundurinn geti með engu móti gengið að þessu frumvarpi stjórnarinnar, heldur eigi að greiða atkvæði móti öllum þess greinum.

En verði nú þjóðfundurinn á sama máli og meiri hluti nefndarinnar í þessu efni, þá álítum vèr það skyldu fundarins, að láta konúnginum í ljósi álit sitt um, hverjar ákvarðanir þykja nauðsynlegar, til að ákveða stjórnarlögun lands þessa; því bæði skýrist þar við, hvers vegna fundurinn hafi ekki getað fallizt á frumvarpið, og líka er það áríðandi fyrir hans hátign, að fá að vita, hvað Íslendíngar vilja í þessu efni, og hvernig þeir hugsa að því geti orðið fyrir komið, og líka virðist oss, að sú sè skýlaus tilætlun konúngsins, eptir brèfinu frá 23. sept. 1848. Með þessu eina móti er það líka mögulegt, að þetta mál geti orðið leitt til lykta, annaðhvort með því, að konúngurinn samþykki uppástúngur fundarins, eða þá láti semja nýtt frumvarp um stjórnarlögun landsins með hliðsjón af þessum uppástúngum, og leggi það svo aptur fyrir þíng hèr á landi. Einnig hefur þjóðin kröfu á, að fundurinn greiði svo fyrir máli þessu, sem honum framast er unnt, og því höfum vèr líka álitið oss skylt, að benda á þær aðalákvarðanir, er oss virðast nauðsyn-

legar, til að ákveða stjórnarlögun Íslands og stöðu þess í konúngsveldinu, og leyfum vèr oss nú að koma fram með uppástúngur vorar í þessu efni, og bæta þar aptan við nokkrum athugasemdum:

*I.*

1. Ísland hefur konúng og konúngserfðir saman við Danmörku. Hver önnur málefni skuli vera sameiginleg með Íslandi og Danmörku eða öðrum hlutum einveldisins, er komið undir samkomulagi.
2. Konúngur tekur nafn Íslands í titil sinn.
3. Ákvarðanir þær, sem standa í grundvallarlögum Danmerkurríkis frá 5. júní 1849, 4.—7. og 9.—17. gr., um konúngserfðir, ríkisstjóra, o. fl., ná einnig til Íslands. Verði þessum ákvörðunum breytt, þá á Ísland þar í atkvæðisrètt, og sömuleiðis ef það kemur fyrir, að velja skal konúng og ákveða erfðirnar eptirleiðis (grundvallarl. I. 15. gr. í niðurlagi).
4. Ísland skal eiga *erindisreka* af sinni hálfu hjá konúnginum. Erindisreki þessi skal vera íslenzkur maður, kosinn af konúngi; hann skal eiga setu og atkvæði í ríkisráðinu, eins og aðrir ráðgjafar konúngs, í þeim málum, sem kunna að verða sameiginleg og Ísland varða.
5. Í löggjöf um hin sameiginlegu mál tekur Ísland jafnan þátt að tiltölu við aðra hluti konúngsveldisins eptir því fyrirkomulagi, sem þar á verður.
6. Kostnað til hinna sameiginlegu mála greiðir Ísland eptir fólksfjölda og efnahag í samanburði við hvorttveggja í hinum hlutum veldisins. Upphæð þess, er Íslandi ber þannig að greiða, verður fast ákveðið í eitt skipti eptir uppástúngu konúngs og samþykki alþíngis.

   Alþíngi ákveður, hversu greiða skuli tillag þetta, en ekki má þíngið lækka það úr því, sem það verður ákveðið, eða neita því.

*II.*

7. Í öllum öðrum málum, er áhræra Ísland, og ekki verða sameiginleg, þá er *löggjafarvaldið* hjá konúnginum og alþíngi í sameiníngu, *framkvæmdarvaldið* hjá konúnginum, *dómsvaldið* hjá dómendunum í landinu sjálfu.

III.

8. Þegar konúngur tekur við stjórn, skal hann sverja svo feldan eið:

*Eg lofa og sver, að vernda rèttindi Íslands, og stjórna því eptir lögum þess; hjálpi mèr svo guð og hans heilaga orð!*

Sama eið skal ríkisstjóri sverja. Eiðinn skal leggja fram skrifaðan í ríkisráðinu og afhenda erindisreka Íslands; síðan skal birta hann á næsta alþíngi og geyma í skjalasafni þíngsins.

9. Konúngur er heilagur og friðhelgur.

10. Ályktanir alþíngis hafa því að eins lagagildi, að konúngur samþykki. Þegar konúngur hefur samþykkt, lætur hann birta lögin, og sèr um, að þeim sè fullnægt.

11. Konúngur veitir öll embætti í landinu, eins og híngað til.

Allir embættismenn skulu skilja og tala íslenzkt mál til hlítar.

Konúngur getur vikið þeim frá embætti, sem hann hefur veitt það. Hann á og vald á, að flytja embættismenn úr einu embætti og í annað án samþykkis þeirra, þó svo, að þeir í missi einkis af tekjum sínum, og að þeim sè gefinn kostur á, hvort þeir vilja heldur embættaskiptin eða þá lausn með eptirlaunum.

Frá reglu þessari má undan skilja ýmsa embættismannaflokka auk þeirra, sem nefndir eru í 39. gr.

12. Konúngurinn setur íslenzka menn til ráðgjafa, er hafa á hendi alla hina æðstu stjórnarathöfn í landinu.

13. Konúngurinn er sjálfur ábyrgðarlaus. Ráðgjafarnir hafa alla ábyrgð stjórnarinnar bæði fyrir konúngi og fyrir alþíngi.

14. Undirskript konúngs undir ákvarðanir þær, sem snerta löggjöf og stjórn á Íslandi, hefur því að eins fullt gildi, að einn hinna íslenzku ráðgjafa skrifi undir með honum. Sá, sem það gjörir, tekst á hendur ábyrgðina.

15. Erindisreki Íslands hjá konúngi ber fram fyrir hann allar ályktanir frá alþíngi og önnur mál, þau er þurfa konúngs úrskurðar eða samþykkis, bæði frá ráðgjöfunum og öðrum mönnum í landinu. Erindisrekinn skal ábyrgjast öll þau verk sín bæði fyrir konúnginum og fyrir alþíngi.

16. Konúngur getur vikið ráðgjöfunum og erindisrekanum úr völdum.
17. Ábyrgð ráðgjafanna og erindisrekans verður ákveðin með lögum.
18. Konúngur getur látið leggja fyrir alþíngi lagafrumvörp og aðrar uppástúngur.
19. Konúngur getur leyst upp alþíngi; beri það að, skulu kosníngar á ný fram fara um allt land, og alþíngi haldið árið eptir.
20. Konúngur hefur vald til, að náða menn og veita uppgjöf á sökum. Ráðgjöfum og erindisrekanum má hann þó því að eins gefa upp sakir, að alþíngi samþykki.
21. Konúngur veitir sumpart sjálfur, en sumpart lætur hann hlutaðeigandi stjórnarvöld veita leyfi þau og undanteknían frá lögum, sem vant hefur verið að veita eptir reglum þeim, sem fylgt hefur verið híngað til.
22. Þegar brýn nauðsyn krefur, getur konúngur gefið út bráðabyrgðalög milli alþínga; eigi mega samt slík lög koma í bága við grundvallarlögin, og ætíð skulu þau lögð undir næsta alþíngi þar á eptir

*IV.*

23. Alþíngi Íslendínga ræðir öll mál í einni málstofu; það kemur saman annaðhvort ár, fyrsta virkan dag í júlímánuði, á þeim stað, sem stjórn landsins hefur aðsetur sitt. Á því eiga setu 36 þjóðkjörnir menn.

Um kosníngarrètt og kjörgengi til alþíngis og annað, er að kosníngum lýtur, verður ákveðið í kosníngarlögunum.
24. Alþíngi skal í hvert sinn eiga setu í fimm vikur, en lengur því að eins, að konúngur samþykki.
25. Embættismenn má kjósa til þíngs, og þurfa þeir ekki leyfi stjórnarinnar, til að þiggja kosníngu.
26. Ráðgjafarnir eiga rètt á, að sitja á alþíngi og biðja sèr hljóðs, þegar þeir vilja, en gæta skulu þeir þíngskapa að öðru leyti; atkvæði hafa þeir því að eins, að þeir sèu kosnir þíngmenn.
27. Sèrhver þíngmaður skal vinna þann eið, þegar hann hefur fengið setu á alþíngi, að hann skuli halda grundvallarlögin.
28. Alþíngi er friðhelgt; sá, sem brýtur gegn friði þess og frelsi, eða býður eitthvað, sem þar að lýtur, eða hlýðir slíku boði, verður sekur um drottinssvik.

29. Meðan alþíngi stendur, má ekki taka nokkurn þíngmanna fastan fyrir skuldir, nè höfða mál gegn honum án samþykkis þíngsins, nema hann sè staðinn að glæp.

Engan þíngmann má kæra utanþíngs fyrir ræður sínar eða atkvæði á þíngi, nema með þíngsins leyfi.

30. Engan skatt má á leggja, nè breyta, nè af taka, nema með lagaboði, ekki heldur taka lán, nè skuldbinda landið til neinna fjárútláta, og enga þjóðeign selja, nema slíkt sè með lagaboði ákveðið.

31. Á hverju alþíngi skal leggja fram frumvarp til laga um fjárhag landsins fyrir hin næstu 2 ár, með greinilegri áætlun. Engin útgjöld mega eiga sèr stað, nema þau, sem á fjárhagslögunum eru byggð. Skatta má ekki heimta, nema um það tímabil, sem fjárhagslögin leyfa.

32. Alþíngi kýs 2 menn, til að skoða landsreikníngana, og skal þeim veita laun fyrir starfa sinn. Þessir menn eiga að gagnskoða hina árlegu landsreikninga, gæta þess, að tekjur landsins sèu þar allar taldar, og að ekkert hafi verið út goldið, nema eptir fjárhagslögunum; þeir geta krafizt, að fá allar skýrslur þær og skjöl, sem þeim þykir þurfa.

Síðan skal leggja landsreikníngana fyrir næst umliðin 2 ár með athugasemdum skoðunarmanna fyrir alþíngi, og skal það leggja á úrskurð um þá.

33. Alþíngi hefur rètt á, að bera upp lagafrumvörp og samþykkja fyrir sitt leyti; einnig að bera fyrir konúng ávörp og uppástúngur.

34. Alþíngi getur sett nefndir af þíngmönnum, til að rannsaka málefni, sem eru áríðandi fyrir almenníng. Nefndir þessar skulu eiga rètt á, að heimta skýrslur, munnlegar og skriflegar, bæði af embættismönnum og öðrum.

35. Alþíngi getur ákært ráðgjafana og erindisrekana fyrir embættisverk þeirra.

36. Alþíngi ákveður sjálft þíngsköp sín, og velur embættismenn sína.

*V.*

37. Skipun dómsvaldsins og fyrirkomulag dómstólanna á Íslandi verður ákveðið með lögum.

38. Það skal ákveðið með lögum, hversu þau mál skuli rannsaka og dæma, sem alþíngi höfðar gegn ráðgjöfunum og erindisrekanum fyrir embættisverk þeirra.

39. Dómendum má eigi víkja úr embætti nema með dómi, nè heldur flytja þá í annað embætti gegn vilja þeirra, nema þegar svo stendur á, að verið er að koma á nýrri skipun á dómstólana.

40. Dómendur skulu eiga rètt á, að leggja dóm á, hvort yfirvöld hafa gengið út fyrir rètt takmörk embættis síns. Þó getur sá, sem þar um leitar dómsatkvæða, ekki komið sèr hjá, að hlýða í bráð yfirvaldsboðinu, með því að skjóta málinu til dóms.

*VI.*

41. Hin evangeliska lúterska kirkja er þjóðkirkja á Íslandi.

42. Á Íslandi er fullt trúarbragðafrelsi. Enginn má neins í missa af borgaralegum og þjóðlegum rèttindum fyrir sakir trúarbragða sinna, nè heldur má nokkur fyrir þá sök skorast undan nokkurri almennri fèlagsskyldu.

*VII.*

43. Lögin skulu ná jafnt yfir alla.

44. Helgi hvers manns er undir vernd laganna.

45. Engan má setja í varðhald, nema hann sè staðinn að glæp, eða eptir dómaraúrskurði.

46. Engan má setja í varðhald fyrir þær ávirðíngar, er að eins varða fjársekt eður einföldu fángelsi.

47. Engan má draga frá sínu löglegu varnarþíngi.

48. Heimilið er friðhelgt. Ekki má gjöra húsleit nè rannsaka skjöl manna, nema í þeim tilfellum og með þeirri aðferð, sem lög á kveða.

49. Eignarrètturinn er friðhelgur. Enginn er skyldur, að láta af hendi eign sína, nema almenníngsþörf krefji, og eptir því sem lög skipa fyrir, og komi fyrir fullt verð.

50. Hver maður á rètt á, að láta í ljósi hugsanir sínar á prenti, en ábyrgist fyrir dómi rit sitt. Yfirskoðun rita af stjórnarinnar hálfu og aðrar slíkar tálmanir prentfrelsisins mega aldrei eiga sèr stað.

51. Rètt eiga menn á, að stofna fèlög í sèrhverjum löglegum tilgángi. Þyki fèlag gánga út fyrir rètt takmörk, má banna það um sinn, en ekkert fèlag verður leyst upp, nema eptir dómi.

52. Rètt eiga menn á, að safnast saman og halda fundi vopnlausir. Lögreglustjórnin á rètt á, að vera við almennar samkomur.

---

*Ákvarðanir til bráðabyrgða:*

1. Þángað til fyrirkomulag dómstólanna á Íslandi verður ákveðið með lagaboði, má skjóta íslenzkum málum til hæstaréttar í Danmörku.
2. Konúngur kallar alþíngi saman hið fyrsta sinn.

---

*Fyrir þessum uppástúngum leyfum vèr oss í fám orðum að færa eptirfylgjandi ástæður.*

*I.*

Meiri hlutinn varð að álíta það ókljúfandi fyrir þennan fund, að stínga upp á og taka fram, *hver* skyldi vera þau mál, sem yrðu sameiginleg jafnt fyrir Ísland og aðra hluta konúngsveldisins; því fyrst er það, að það er enn á huldu, hver verði sameiginleg mál fyrir alla aðalhluta veldisins yfir höfuð, svo leggur það sig og sjálft, að Ísland getur ekki tekið eður átt þátt í öllum þessum málum sakir hinnar miklu fjalægðar, og sakir kostnaðar, sem af þeim mundi leiða öllum saman; hins vegar var oss ljóst, að vèr hlytum að eiga þátt í nokkrum þeirra, en þar af leiddi þá aptur, að Íslendíngar hlytu að hafa jafnrètti, og bera jafnar byrðar við hina veldishlutana, bæði að kostnaðinum til, og að löggjöf og stjórnarathöfn í þeim málum; til þess sáum vèr nú ekki annan veg, en að stínga upp á, að Ísland heíði ráðgjafa hjá konúngi í þeim málum; en sá embættismaður mun og eptir uppástúngum vorum (sjá 15.—17. uppástúngugrein nefndarinnar) verða afarnauðsynlegur til þess, að bera fram öll þau mál af Íslands hálfu, sem þurfa aðgjörða og samþykkis konúngs, svo fjærri sem aðsetur hans er landi þessu, og því þykir oss vel til fallið og rètt, að nefna þann mann *erindisreka Íslands hjá konúngi.* En eins og vèr hlutum þannig að álíta rèttast, að opin stæði og óákveðin sèrhver spurníng um hin sameiginlegu mál yfir höfuð, eins var oss ljóst, að taka ætti skýrt fram allt, sem lyti að því, að yfir Íslandi væri hinn sami konúngur og Danaveldi, og að allt, er lyti að konúngserfðum, ríkisstjórn í forföllum konúngs, o. s. frv., skyldi vera sömu ákvörðunum bundið og í konúngsveldinu yfir höfuð, og vildum vèr því stínga upp á, að ákvarðanirnar í 4.—7. og 9.—17. gr. grundvallarlaganna 5. júní 1849 næði um þetta efni til Íslands, einúngis með því skilyrði, sem tek-

ið er fram í niðurlagi 3. uppástúngugreinarinnar, og sem vèr álítum öldúngis ómissandi.

Um kostnaðinn til hinna sameiginlegu mála, sem einnig ættu að ná til Íslands, finnst oss að eins nauðsyn að geta þess, að þó vèr teljum sjálfsagt, að hann sè greiddur af Íslands hálfu að rèttri tiltölu, annars vegar við fólksfjölda og efnahag lands þessa, en hins vegar eptir því, sem þetta hvorttveggja er í hinum aðalhlutunum, þá treystum vèr þó því, að þegar konúngur vor stíngur upp á upphæð gjalds þessa eptir 6. uppástúngugrein, þá muni hann mildilega líta á það atriði, sem virðist að vera haft talsvert tillit til, bæði í grundvallarlögunum 5. júní 1849, 17. gr., og svo í öðrum grundvallarlögum, að fè það, sem greitt verður af Íslands hálfu til sameiginlegra mála, eyðist ekki hèr í landinu, heldur berst út úr því; en þetta er því tilfinnanlegra fyrir þetta land, sem hèr eru minni peningar í veltu en í öðrum löndum, og færri og fábrotnari atvinnuvegir, til þess að koma á og við halda slíkri veltu.

*II.*

Meiri hlutinn ætlar í aðalástæðunum gegn stjórnarfrumvarpinu sèu næg rök leidd að því, að alþingi hljóti að hafa löggjafarvald ásamt konúnginum; en þar af leiðir aptur beinlínis, að allt dómsvaldið hlýtur að eiga aðsetur í landinu sjálfu.

En hitt fannst oss ógjörandi, að bera upp að þessu sinni nokkrar beinar uppástúngur um skipun dómsvaldsins og fyrikomulag dómstólanna, heldur hlyti það að bíða uppástúngufrumvarps frá stjórninni og atkvæða alþingis, og eru á þessum ástæðum byggðar uppástúngurnar í V. kafla, og 1. bráðabyrgðauppástúngnaákvörðunin í niðurlaginu.

*III.*

Vèr höfum þegar getið þess í ástæðunum við I. kafla, að vèr álítum nauðsynlegt, að taka skýrt fram allt, sem lyti að hinum æðstu yfirráðum konúngsins yfir þessu landi, að svo miklu leyti sem þau geti sameinast þeim afskiptum sjálfrar þjóðarinnar af stjórnarhögum sínum og hluttöku hennar í þeim, sem leiðir af hinu frjálslega fyrirkomulagi stjórnarinnar, er hèr hlýtur að komast á. Í þessum kafla höfum vèr því tekið fram öll hin helztu atriði, er með tilliti til þessa ákveða vald konúngsins, og þykir því síður þörf, að taka fram ástæður fyrir þessum uppástúngum, sem þær eru samkvæmar aðalákvörðunum þeim, sem finnast í flestum grundvallarlögum þeirra landa, þar sem á sèr

stað takmörkuð einvaldsstjórn með fullu neitunarvaldi hjá konúnginum.

En þó er hèr stúngið upp á einni þeirri ákvörðun, sem ekki á sèr stað, það vèr til vitum, í öðrum löndum, og það er í 15.—17. gr. um erindisreka Íslands hjá konúngi, og er hans að vísu þegar getið í 4. gr. og í ástæðunum við I. kafla, en þótt það ætlunarverk hans, sem þar er getið, sè annars eðlis, en hèr er ráðgjört. En þessi ákvörðun er nauðsynleg afleiðíng af fjarlægð þessa lands frá konúnginum, og sáum vèr ekki annað fært, en að ætla þessum manni, að bera fram fyrir konúnginn öll þau mál frá Íslandi, sem heyra undir úrlausn hans eður staðfestíngu.

## IV.

Meiri hlutanum þótti rètt, að taka þegar fram í þessum grundvallaruppástúngum það helzta um fyrirkomulag alþíngis, eins og gjört er í 23. gr., en taka þó ekki fram fleira nè frekara, en það er, heldur geyma hitt annað, sem að því lýtur, kosníngarlögunum. En þær ákvarðanir, sem hèr eru teknar fram, fannst oss að leiddi beint af ásigkomulagi þjóðarinnar og landsins. Og sama er að segja um uppástúngurnar í 24.—36. gr., að þar er farið því einu fram, sem öllum löggefandi þíngum er áskilið, þar sem er takmörkuð konúngsstjórn.

## V.

Um ákvarðanirnar í þessum kafla eru þegar teknar fram nokkrar ástæður við II. kafla. Það virtist einnig miður hæfilegt, að bera upp að þessu sinni beina uppástúngu um, hverir rannsaka skyldi og dæma mál þau, er höfðuð kynnu verða gegn erindisrekanum og ráðgjöfunum, og þótti bezt hlýða, að fresta uppástúngum um það fyrirkomulag ásamt hinu, um skipun dómsvaldsins yfir höfuð; sama virtist oss um beina uppástúngu um innleiðslu kviðdóma hèr á landi. Aptur virtist oss, eptir því sem hèr stendur á, brýn nauðsyn, að gjöra beina uppástúngu um það, sem er í 30. gr.; því hèr eru óglöggari, en víða annarstaðar, takmörkin milli framkvæmdarvaldsins og dómsvaldsins, þar sem hvorttveggja þetta vald er opt sameinað í embætti eins og sama mannsins.

## VI.

Trúarbragðafrelsi allra kristinna trúarflokka er áður lögleitt hèr á landi með tilsk. 17. nóvembr. 1786; en oss fannst hættulaust, að heimila fullt trúarbragðafrelsi eins hèr og í flest-

um öðrum löndum, þegar á hinn bóginn væri tekið skýlaust fram, að hin evangeliska lúterska kirkja skyldi vera þjóðkirkja í landinu.

*VII.*

Hèr eru að eins ákveðin slík almenn rèttindi, sem áskilin eru í öðrum grundvallarlögum.

---

Þær tvær uppástúngur, sem hèr eru bornar fram til bráðabyrgða, leiðir beint af eðli hlutarins, og virðist óþarft, að færa til fleiri rök fyrir þeim.

En þó vèr að lyktum játum, að uppástúngur þessar geti ekki álitizt algjörð grundvallarlög í öllum atriðum, ætlum vèr þó hins vegar, að þær innihaldi flestar þær ákvarðanir, sem land þetta varða mestu, víst í bráð, og ef þjóðfundurinn samþykkir þær, og þær ná staðfestíngu konúngsins, þá megi þær verða næg undirstaða bæði svo frjálslegs skipulags hinnar ytri og innri stjórnar hjá oss, sem unnt er og oss hagar, sem og annars þess fyrirkomulags þjóðrèttinda og almennra skyldna, sem leiðir af slíkri stjórnarskipun hjá hverri þjóð.

Reykjavík 4. ágúst 1851.

*Jón Sigurðsson.* *E. Briem.* *Hannes Stephensen.*
forseti, framsögumaður. skrifari. *Jón Guðmundsson.* *K. Kristjánsson.* *H. Jónsson.* *J. Skaptason.* *St. Jónsson.*

Eg held mig til míns ágreiníngsatkvæðis.

*Þ. Sveinbjörnsson.*

---

*Ágreiníngsatkvæði Þórðar Sveinbjörnssonar í stjórnarskipunarmálinu.*

Með tilliti til fyrirheitis þess, sem gefið er í opnu brèfi frá 23. sept. 1848, varð eg að hafa það álit á stöðu þessa þings, og enn þá óhögguðu sambandi þess við ríkisstjórnina, að það sè ætlunarverk þíngsins, að láta í ljósi álit sitt, um frumvarp það, sem fyrir er lagt, til laga um stöðu Íslands í fyrirkomulagi ríkisins, og að þíngið gæti því að vísu ráðið stjórninni frá, að frumvarpið lögleiðist hèr eins og það er, ef það finnur næga ástæðu til þess, og líka stúngið upp á þeim breytíngum við það í ýmsum greinum, sem því kynnu að virðast hagannlegar vegna sèrlegs ásigkomulags landsins; en eg ætla, að hvorki

þíngið né nefnd sú, er þíngið hefur sett í þessu máli, hafi köllun eða vald til, að búa til nýtt frumvarp, sem byggt sè á undirstöðu og grundvallarskoðun gagnstæðri þeirri, sem frumvarpið er byggt á. Þó eg á aðra hliðina ekki geti samþýðzt þá aðferð, sem stjórnin hefur valið, til að innleiða hèr í landi grundvallarlög Danmerkur, sem að öllu er ólík þeirri aðferð, er híngað til um lángan aldur hefur verið við höfð um hina dönsku löggjöf, sem hèr hefur átt að lögleiðast, þá get eg á hina hliðina, og af áður greindum ástæðum, ekki verið samþykkur þeirri aðferð samnefndarmanna minna, að búa til nýtt frumvarp nú þegar, og ætla sèr að koma því inn á þíngið í stað stjórnarfrumvarpsins. Eg verð að álíta þá aðferð eðlilegasta og samkvæmasta köllun og tilgángi þjóðfundarins, að taka stjórnarfrumvarpið fyrir, og láta álit sitt í ljósi um hinar einstöku greinir þess, og samkvæmt þessu hef eg ráðið til nokkurra breytínga á frumvarpinu, sem eg nú í fám orðum skal gjöra grein fyrir.

### Við 1. gr.

Af því að nokkrar greinir í grundvallarlögum Danmerkurríkis geta alls ekki átt við á Íslandi, eins og líka viðurkennt er í ástæðum stjórnarfrumvarpsins, og af því einkennilegt ásigkomulag landsins heimtar, að sumu í þessum grundvallarlögum sè vikið við og snúið í það horf, sem geti fullnægt þörfum lands þessa, hverja skoðun stjórnin sjálf hefur haft, og þess vegna með breytíngum sínum í frumvarpinu gjört margar greinir grundvallarlaganna hèr óheimfærandi, þá hef eg breytt síðari hluta greinarinnar þannig, „að grundvallarlögin skuli vera hèr gild, *að svo miklu leyti* því má hèr við koma, og þar á ekki er breyting gjör í eptirfylgjandi greinum“.

### Við 2. gr.

Eg er frumvarpinu samdóma í því, að ríkisþíng Dana eigi ekki að fá hlutdeild í löggjafarvaldinu í þeim málum, sem eingaungu snerta Ísland, vegna þess einkennilega eðlis, sem þessi mál hafa; en að hinu leytinu þótti það hagkvæmast fyrir landið, vegna fjarlægðar þess frá Danmörku og ýmissa annmarka, sem þar af leiðir, að fela þessa hlutdeild á hendur mönnum í landinu sjálfu, sem konúngur í þeim málum veitti stjórnarherravald, og virðist slíkt skipulag ekki geta haft nein truflandi áhrif á stjórn ríkisins yfir höfuð, þar sem um svo sèrstakleg málefni er að gjöra, eins og líka það er auðvitað, að í

þeim málum getur ekkert lagaboð fengið lagagildi, nema konúngur samþykki það; þar á móti mundi slík tilhögun vera mjög að skapi landsmanna, og samvinna þessara stjórnarmanna og alþíngis leiða af sèr ýtarlega og vandvirka umhugsun og rannsókn íslenzkra mála, áður en þar að lútandi lagaboði veitt væri fullkomið lagagildi. Í staðinn fyrir tilvitnun til dönsku grundvallarlaganna 18.—21. gr. hef eg því viljað skjóta inn í greinina hèr að lútandi ákvörðun.

Við 3. gr.

Sú breyting á 3. gr. stjórnarfrumvarpsins, sem eg fer fram á, viðvíkur einúngis þeirri aðferð, sem hafa eigi, til að jafna það tilgreindu ágreiníngstilfelli. Eg fæ ei betur sèð, en að sú tilbreytíng, er eg stíng upp á, gefi enn meiri vissu fyrir, að málefnin verði ýtarlega skoðuð bæði frá ríkisins og Íslands hálfu, án þess hún þó leiði til, að takmarka löggjafarvald ríkisins yfir höfuð, þar eð úrslit málsins að lokunum er komið undir úrskurði konúngs og ríkisráðsins. Annars virðist það leiða af sjálfu sèr, að slíkt ágreiníngstilfelli muni sjaldan koma fyrir, og lúta þá mest að hinni ytri hlið eða formi málanna.

Við 4. gr.

Þessi grein er nokkuð nákvæmar orðuð en í frumvarpinu, en meiníngin sama. Ástæður helztu breytingarinnar má sjá við 6. gr., sem er nýmæli.

Við 5. gr.

Eptir þessari grein verða útgjöld úr ríkissjóðnum minni, en gjört er ráð fyrir í stjórnarfrumvarpinu; því þar er ætlazt til, að 6 menn fyrir Íslands hönd eigi setu á ríkisþínginu, en hèr að eins 1. Ástæður breytíngarinnar eru við 12. gr., sem er nýmæli.

Við 6. gr.

Eptir 5. gr. stjórnarfrumvarpsins stíng eg upp á að komi ný grein, sem miða á til þess, að burt rýma þeim ótta, sem gjöra þykir mega ráð fyrir hjá landsmönnum fyrir því, að óbeinlínistollar kynnu að verða hækkaðir um skör fram eða nýir á lagðir, og virðist ekki þessi takmörkun geta tekið fram fyrir hendur á hinni æðri stjórn landsins málefna (og samþýðist hún því grundvallarreglu frumvarpsins), nè heldur geta verið því til fyrirstöðu, að ríkissjóðnum verði endurgoldið það, sem hann leggur út í landsins þarfir; en þar á móti virðist hún leiða til skynsamlegrar hagsýni og yfirvegunar í fjárútgjöldunum, og geta

fullnægt sanngjörnum kröfum landsmanna, er þannig veitist atkvæðisrèttur, þegar um nýjar óbeinlínis álögur er að gjöra. Greinin sezt meðal breytínganna.

Við 7., 8. og 9. gr.

Þessar eru, eptir því sem sagt er hèr næst á undan, 6., 7. og 8. gr. frumvarpsins. Eg finn enga ástæðu til, að stínga upp á neinum breytíngum við þessar greinir.

Við 10. gr.,

sem er 9. gr. frumvarpsins. Hèr er fyrri hluta 9. gr. frumvarpsins haldið óbreyttum, en síðari hlutanum sleppt, af því hèr kann, hvað innanlandsmálefni snertir, að verða nokkuð öðruvísi ástatt, en með sveitastjórnir í Danmörku; það tekna dæmi virðist því ekki vera viðeigandi, eða hafa neina sèrlega þýðíngu.

Við 11. gr.,

sem er 10. gr. frumvarpsins. Það, sem stendur í frumvarpsgreininni, að í þar tilgreindum málum skuli leita álita alþíngis, þegar því verði við komið, eður: „að svo miklu leyti, sem verða má“, þótti mèr allt of óákveðið, og þess vegna er því sleppt, með því nauðsyn þótti til bera, að engu lagaboði, sem gilda á fyrir Ísland, væri breytt, án þess álits alþíngis væri áður leitað, og það sýnist vera fullkomin trygging á sambandi málsins við almennt gagn ríkisins, að úrslit þess er í höndum ríkisþíngsins. Ekki get eg heldur sèð, að þau tilfelli geti að borið, að slíkri löggjöf þurfi svo bráðlega að breyta, að ei geti setið nægur tími fengizt, til að leita álits alþíngis.

Við 12. gr.

Grein þessi er nýmæli, og sezt því meðal breytínganna.

Vegna þeirra ókljúfandi örðugleika, sem á því verða, að senda hèðan svo marga menn á ríkisþíng Dana, eins og til eru teknir í stjórnarfrumvarpinu, bæði af því, að hèr vantar meðalstètt, er kjósa mætti menn af til slíkrar ferðar, og bændur eru því í mörgu falli ekki vaxnir, en embættismenn mega ekki missast frá embættum sínum, án stórvægilegs skaða fyrir embættisfærsluna, þótti mèr það tiltækilegast, að til nefna einúngis einn mann hèðan á ríkisþíngið, er sæti í báðum málstofum í þeim málum, er snerta Danmörku og Ísland sameiginlega, og virðist hann með þeirri tilhögun, sem hèr er farið fram á, geta gjört hið sama gagn landinu, og þó fleiri ættu þar setu; en úr því ekki eru til teknir fleiri menn, en þessi eini, þá

virðist eðlilegast, að alþíngi velji hann; því þá eru öll líkindi til, að sá verði til þess kjörinn, sem landsmenn hafa gott traust á, eins og líka með þeim hætti verður komizt hjá brotnum, umsvifamiklum og kostnaðarsömum kosníngum, hvers vegna eg líka ræð til, að sleppa úr stjórnarfrumvarpinu greinum þess, 11. til 61. incl., en ætlast til, að þessi eina komi í þeirra allra stað.

Við 13. gr.

Við þessa grein, sem líka er nýmæli, finn eg óþarft að tala. Hún er byggð á kosníngarlögunum til ríkisþíngs Dana 16. júním. 1849, 79. gr.

Eptir þessum fáorðu ástæðum finn eg mig orsakaðan til, að stínga upp á því, að gjörðar sèu eptirfylgjandi breytíngar í stjórnarfrumvarpinu og viðaukar við það:

1. gr. Úrfellist: „sem tengd eru við lög þessi"; í staðinn fyrir: „þó skal þess — til Íslands" setjist: „að svo miklu leyti því má þar við koma, og þar á ekki er breytíng gjör í eptirfylgjandi greinum.

2. gr. Í staðinn fyrir: „samkvæmt — 21. gr." setjist: „með aðstoð þeirrar stjórnar, er hann skipar í landinu sjálfu, og með þeirri tilhlutun af alþíngis hálfu", o. s. frv.; undir tölulið 8 setjist „7 og 8", í staðinn fyrir „6 og 7".

3. gr. Í staðinn fyrir: „þá skal — úr því" setjist: „útnefnir alþíngið, ef því svo sýnist, 2 menn, sem ásamt þeim eina, er nefndur er í 12. gr. laga þessara, af landsins hálfu semji í Kaupmannahöfn um ágreiníinginn við aðra 3 af ríkisþíngsins hálfu. Verði ei meðal þessara 6 manna lok felld á ágreiníngsefnið, sker konúngur úr með ríkisráði sínu.

4. gr. Frá orðunum: „slík gjöld" við bætist: „sömu tegundar", og orðist síðan: „sem á Íslandi kunna að verða á lögð eptir 6. gr. laga þessara, svo og nafnbótaskatturinn, og tekjurnar af þeim þjóðeignum, hverra afgjöld híngað til fallið hafa í konúngssjóð. Enn fremur ber að gjalda í ríkissjóðinn alþíngiskostnað þann, er konúngssjóðurinn hefur borgað fyrir fram, og sem enn þá ekki er endurgoldinn, sem og aðrar skuldakröfur, er konúngssjóðurinn nú hefur tilkall til.

5. gr. Eptir orðin: „til hinna lærðu skóla" setjist: „kostnað þann, er leiðir af veru Íslands eina fulltrúa á ríkisþínginu (12. og 13. gr.) og útgjöld", o. s. frv.

6. gr. er nýmæli og orðist þannig: „Vilji ríkisþíngið leggja

óbeinlínis-skatta eða önnur slík gjöld sömu tegundar, og sem nú ekki á liggja, á Íslands innbúa eða verzlun þess, verður þar um að leita samþykkis frá alþíngi, áður það verði að lögum. Sè neitað um samþykkið, sendir alþíngi 2 fulltrúa til Kaupmannahafnar, er ásamt þeim eina, sem nefndur er í 12. gr. laga þessara, semji um það, sem á milli ber, við aðra 3 menn af ríkisþíngsins hálfu. Greini þá enn á, sker konúngur úr með ríkisráði sínu.

7., 8. og 9. gr. setjist fyrir 6., 7. og 8. gr. frumvarpsins óbreyttar.

10. gr. (frumvarpsins 9. gr.). Úti látist: „líkt því — Danmörku“.

11. gr. (frumvarpsins 10. gr.). Niðurlag greinarinnar orðist þannig: „Vill konúngur um það áður leita álits alþíngis“; úrfellist: „að svo miklu leyti sem verða má“, eins og líka greinir frumvarpsins 11.—61. incl., en í þeirra stað komi

12. gr., sem er nýmæli og orðist þannig: „Einn mann skulu Íslendíngar jafnan eiga á ríkisþíngi Dana, og skal hann kosinn af alþíngi til 6 ára. Skal hann gæta rèttinda landsins í báðum málstofum ríkisþíngsins í þeim málum, sem snerta Danmörku og Ísland sameiginlega, og ætíð vera 1 af þeim, er eptir 3. og 6. gr. laga þessara nefnast af Íslands hálfu, ef ágreiníngur verður.

13. gr. er og nýmæli, og orðist þannig: „Um ferðakostnað og daglaun handa þeim manni, sem fyrir Íslands hönd mætir á ríkisþíngi Dana, og sem getið er um í 5. og 12. gr., fer eptir kosníngarlögunum frá 16. júním. 1849, 79. gr.

Reykjavík 30. d. júlím. 1851.

*Þ. Sveinbjörnsson.*

---

*Með þeim breytíngum, sem minni hluti nefndarinnar hèr að framan hefur stúngið upp á, verður því frumvarpið þannig hljóðandi:*

1. gr.

Grundvallarlög Danmerkurríkis frá 5. júlí 1849 skulu vera gild á Íslandi, að svo miklu leyti því má þar við koma, og þar á ekki er breyting gjör í eptirfylgjandi greinum.

2. gr.

Í málefnum þeim, sem eingaungu snerta Ísland út af fyrir

sig, skal konúngur og ríkisþíngið eigi hafa á hendi löggjafarvaldið, heldur skal konúngur hafa það á hendi með aðstoð þeirrar stjórnar, er hann skipar í landinu sjálfu, og með þeirri tilhlutun af alþíngis hálfu, sem því er nú veitt, eða eptirleiðis kann að verða veitt.

Til málefna þessara skal telja:

1. Dómaskipun og meðferð mála, að því leyti ekki snertir hæstarétt.
2. Viðskipti manna á milli að því leyti, sem þau eigi skulu hafa lagagildi fyrir utan Ísland.
3. Afbrot og hegníngar, nema brot sèu drýgð gegn ríkisstjórninni eða gegn friði þjóðfèlagsins.
4. Kirkjumálefni á Íslandi sjálfu innan þeirra takmarka, sem sett kunna að verða fyrir löggjöfina um þau með kirkjuskipunarlögunum, eins og þau skulu löguð í hinum einstöku greinum fyrir Ísland, eptir að alþíngi hefur látið í ljósi álit sitt um þau.
5. Málefni þau, er snerta menntun og uppfræðingu, að fráskildri hinni lærðu skólamenntun.
6. Sveitamálefni, fátækrastjórn, og ráðstafanir þær innanlands, er miða til almenníngsheilla, t. a. m. póstgaungur í landinu, vegir, heilbrigðisstjórn og fyrirkomulag spítalanna, svo og atvinnuvegir í landinu, að því leyti það snertir ekki almennt gagn ríkisins eða hátign ríkisins.
7. Innanlandsstjórn á málefnum þeim, sem nefnd eru hèr að ofan, að því leyti sambandið við hina almennu ríkisstjórn ekki með því er snert.
8. Tekjur og útgjöld, er snerta eingaungu Ísland sjálft, og lögð eru til landssjóðs fyrir Ísland sèr í lagi, eptir því sem á kveðið er í 7. og 8. gr. hèr á eptir.

3. gr.

Verði ágreiníngur um, í hverjum málefnum löggjafarvaldið skuli framkvæmt eptir 2. gr. grundvallarlaganna dönsku, og í hverjum samkvæmt 2. gr. í lögum þessum, útnefnir alþíngið, ef því svo sýnist, 2 menn, sem ásamt þeim eina, er nefndur er í 12. gr. laga þessara, af landsins hálfu semji í Kaupmannahöfn um ágreiníngimn við aðra 3 af ríkisþíngsins hálfu; verði ei meðal þessara 6 manna lok felld á ágreiníngsefnið, sker konúngur úr með ríkisráði sínu.

4. gr.

Í ríkissjóðinn skulu framvegis renna skattar þeir, sem híngað til hafa verið goldnir á Íslandi, og ekki eru beinlínis-skattar (t. a. m. erfðagjald og skattur af fasteignasölu, skipa- og verzlunar-gjöld, gjöld fyrir leyfis- og veitínga-bréf, o. s. frv.), sem og önnur slík gjöld sömu tegundar, sem á Íslandi kunna að verða á lögð eptir 6. gr. laga þessara, svo og nafnbótaskatturinn og tekjurnar af þeim þjóðeignum, hverra afgjald híngað til fallið hafa í konúngssjóð. Enn fremur ber að gjalda í ríkissjóðinn alþíngiskostnað þann, er konúngssjóðurinn hefur borgað fyrir fram, og enn þá ekki er endurgoldinn, sem og aðrar skuldakröfur, er ríkissjóðurinn nú hefur tilkall til.

5. gr.

Úr ríkissjóðnum skulu goldin laun til amtmannanna, biskupsins, dómandanna í yfirdóminum, landlæknisins, kennaranna við hina lærðu skóla, og til þess umboðsmanns eða þeirra umboðsmanna, sem heimta tekjur ríkissjóðsins, svo og eptirlaun embættismanna þessara. Sama er einnig um hin önnur útgjöld til hinna lærðu skóla, kostnað þann, er leiðir af veru Íslands eina fulltrúa á ríkisþíngi Dana (12. gr.), og útgjöld til póstferða milli Danmerkur og Íslands.

6. gr.

Vilji ríkisþíng Dana leggja óbeinlínis-skatta eða önnur slík gjöld sömu tegundar, sem nú ekki á liggja, á Íslands innbúa eður verzlun þess, verður þar um að leita samþykkis frá alþíngi, áður það verði að lögum. Sè neitað um samþykkið, sendir alþíngi 2 fulltrúa til Kaupmannahafnar, er ásamt þeim eina, er nefndur er í 12. gr. laga þessara, semji um það, sem á milli ber við aðra 3 af ríkisþíngsins hálfu. Greini þá enn á, sker konúngur úr með ríkisráði sínu.

7. gr.

Í landssjóð þann, sem stofna skal fyrir Ísland, skulu renna bæði þeir beinlínis-skattar, sem híngað til hafa verið goldnir, (eptirgjald af sýslum, þínggjöld, sem eru í umboði, konúngstíund, lögmannstollur og lögþíngisskrifaralaun), að undan skildum nafnbótaskatti, og önnur beinlínis-gjöld, sem hèr eptir kunna að verða á lögð. Sömuleiðis skal sjóður þessi eiga tekjur þær, sem konúngi bera af strandi. Enn fremur skal mega leggja til sjóðs þessa gjöld þau, sem híngað til hafa verið greidd til amtsjafnaðar-sjóðanna, en lands-sjóðurinn

taki þá að hinu leytinu að sèr útgjöld þau, sem híngað til hafa verið greidd úr sjóðum þessum. Eins skal vera um tekjur spítalanna og það, sem afgángs verður af löggæzlusjóðnum, þegar búið er að greiða útgjöld þau, sem nú eru lögð á sjóð þennan. Að endíngu skal það, sem til er af kollektupeníngunum, og endurgjaldið fyrir mjölbótapeníngana fengið landssjóðnum.

8. gr.

Landssjóður Íslands skal bera útgjöldin til alþíngis og til innanlandsstjórnar, að því leyti útgjöld þessi eigi eru goldin úr ríkissjóðnum samkvæmt 5. gr., svo og eptirlaun embættismanna þeirra, er rètt eiga til eptirlauna, og eigi fá laun úr ríkissjóðnum.

9. gr.

Konúngur ætlar ekki að leggja ný útgjöld á landssjóðinn, eða hækka þau, sem nú eru ákveðin, nè leggja á nýja eða hærri skatta til landssjóðsins, en nú eru, nema með samþykki alþíngis.

10. gr.

Það skal ákveðið með lagaboði sèr í lagi fyrir Ísland, hvert vald veitt verði alþíngi í æðri stjórn innanlands-málefna.

11. gr.

Þegar frumvörp til breytínga á lögum þeim, sem gilda fyrir Ísland, verða lögð fyrir ríkisþíngið, vegna sambands þess, sem málið er í við almennt gagn ríkisins, vill konúngur um það áður leita álits alþíngis.

12. gr.

Einn mann skulu Íslendíngar jafnan eiga á ríkisþíngi Dana, og skal hann kosinn af alþíngi til 6 ára. Skal hann gæta rèttinda landsins, í báðum málstofum ríkisþíngsins, í þeim málum, sem snerta Danmörku og Ísland sameiginlega, og ætíð vera 1 af þeim 3, er eptir 3. og 6. gr. laga þessara nefnast af Íslands hálfu, ef ágreiníngur verður.

13. gr.

Um ferðakostnað og daglaun handa þeim manni, sem fyrir Íslands hönd mætir á ríkisþíngi Dana, og sem getið er um í 5. og 12. gr., fer eptir kosníngarlögunum frá 16. júní 1849, 79. gr.

---

# Nefndarálit

## um frumvarp stjórnarinnar til kosníngarlaga til alþíngis.

Nefnd sú, sem hèr er undir skrifuð og hinn heiðraði þjóðfundur fól, að segja álit sitt um þetta lagafrumvarp, komst brátt að þeirri niðurstöðu, þegar hún hafði lesið og yfirvegað stjórnarfrumvarpið, að víst þyrfti að stínga upp á nokkrum breytíngum í frumvarpinu, til þess að það gæti orðið viðunandi kosníngarlög framvegis til alþíngis.

Hin mikilvægasta breytíng er sú, að þar sem í frumvarpinu er stúngið upp á í 3. gr., að kjörgengin skuli bundin annaðhvort við 10 hundraða fasteign, eður æfifesta ábúð á 20 hundraða jörð, eður eign kaupstaðarhúsa, eður við eitthvert ótiltekið skattgjald, þá álítur nefndin víst, að öll slík bönd sèu óhafandi á Íslandi, bæði á kosníngarrètti, en þó einkum á kjörgengi; því svo ískyggilegt sem það er, eins og hèr stendur á, að binda *kosníngarrètt* við þess konar fjárstofna, þá er það þó margfalt ískyggilegra, að binda á þann veg *kjörgengina*, þar sem auður hefur hèr á landi aldrei verið nè getað verið neinn vottur skynsemi og hygginda, nè annara þeirra kosta, er góður þjóðfulltrúi þarf að hafa til að bera, og er þetta tekið svo skýrt fram í álitsskjali hins síðasta alþíngis til konúngs, 31. júlí 1849 (Alþíngist. 1849, bls. 709—714), og svo berlega viðurkennt af stjórninni í kosníngarlögunum 28. sept. 1849, að óþarft virðist nú, að fara um það fleiri orðum.

Yfir höfuð getur nefndinni ekki skilizt, hvaða gildar ástæður stjórnin hafi nú getað haft fyrir því, að hverfa í þessu atriði aptur til ákvarðananna í alþíngistilsk. 8. marz 1843, sem Íslendíngum hefur frá upphafi geðjazt svo illa, og sem 2 und-

undanförnu alþingi (1847 og 1849) hafa leitt ljós rök að ekki eigi hèr við, og af beðið með miklum atkvæðafjölda, en sneiða hjá hinum miklu frjálslegri ákvörðunum í þessu efni, sem eru í kosningarlögunum 1849, sem einmitt voru byggðar á almennum bænarskrám frá Íslendingum, á miklum atkvæðafjölda alþingis 1849, og sem víst mestum hluta þjóðarinnar hafa verið að skapi í flestum greinum. Nú segir stjórnin að vísu í inngángsástæðunum fyrir frumvarpinu, „að þessi þjóðfundur (sem kosið var til eptir þessum frjálsu kosningarlögum) sè fremur sèrstaklegs eðlis“, og „þó það einkum hafi legið fyrir höndum, að heimfæra til Íslands í aðalatriðunum hinar sömu frjálsari reglur, sem byggð eru á dönsku kosningarlögin, þá virðist næg ástæða til, að heimta nokkuð meiri vissu fyrir staðfestu hjá fulltrúaþingi því (þ. e. á Íslandi), heldur en fyrir fulltrúaþingi alls ríkisins, sem skipt er í tvær þíngdeildir“, *„og því hafi legið næst, að feta í öðru tilliti stig þann, sem greiddur hefur verið fyrir landsþíngið, að heimta meiri vissu fyrir kjörgenginni“*. En þó nefndin játi fúslega, að það sè miklu meiri trygging fyrir rèttum og góðum málalyktum, að hafa tvær málstofur heldur en eina, *þar sem á sèr stað sá stèttamunur og ástandsmunur manna og þjóðarmagn og fulltrúafjöldi, að þessi skipting fulltrúavaldsins eigi við*, og því megi þar vel eiga við yfir höfuð, að hafa bundnari kjörgengi til annarar málstofunnar en hinnar, þá getur nefndin samt ekki fallizt á, að þetta band, sem upp á er stúngið, eigi við hèr á landi, af því það gefur enga frekari nè áreiðanlegri vissu fyrir, að með því móti fáist betri fulltrúaefni, eins og sýnt er fram á hèr að framan og optsinnis er tekið fram á hinum fyrri þíngunum.

Nefndin hlaut því að færast nær og nær þeirri skoðun, sem hún ætlar að ríki hjá flestum hinum skynsamari mönnum hèr á landi, að það verði bæði hættulaust með öllu, og eigi hèr bezt við eptir öllu ásigkomulagi þjóðarinnar, að kosningarrèttur og kjörgengi sèu sem minnst bundin við hið ytra ástand manna, og að yfir höfuð beri að binda hvorttveggja þeim einum böndum, sem gjört er í kosningarlögunum 28. sept. 1849, 3. og 4. gr., en þær ákvarðanir eru næsta samkvæmar þeim, sem eru um það efni í kosningarlögunum til þjóðþingsins.

En samt er það í einu atriði þessara lagaboða, sem meiri hluti nefndarmanna álítur að full ástæða sè til að bregða frá,

og það er, að hver sá eigi kosníngarrètt, sem er fullra 25 ára að aldri. Að vísu virðist í fljótu áliti ekki vera alllítil trygg-íng fyrir skynsamlegum kosníngum í reynslu þeirri og þekk-íngu á ýmsum opinberum tilhögunum, er þeir menn, sem eru 30 ára og eldri, opt hafa aflað sèr fram yfir hina, sem eru á árabilinu milli 25 og 30 ára; en á hinn bóginn er þess aptur vel að gæta, að þessir hinir ýngri menn hafa opt meiri áhuga á alþjóðlegum málum, en sumir hinna eldri, og þar til er það óskiljanlegt hverjum manni hèr á landi, og þess vegna mjög ógeðfelt, að hver sá, sem fjár síns er fullráðandi, og er fyrir aldurs sakir órækur, bæði til hvers embættis í landinu sem er og til alþíngisfulltrúa, megi ekki einnig greiða atkvæði til full-trúakosnínganna. Meiri hlutinn hyggur því, að ástæðurnar fyrir því, að binda kosníngarrèttinn að eins við 25 ára aldurinn, sèu yfirgnæfandi, og muni engar ískyggilegar afleiðíngar hafa í för með sèr.

En þó nefndin hljóti þannig að aðhyllast svo óbundnar kosníngar og kjörgengi, sem nú er skýrt frá, fannst henni þó nauðsyn á hinn bóginn, að tryggja, svo sem unnt er, skynsam-legar kosníngar, og hefur hún velt því efni grandgæfilega fyrir sèr á ýmsan veg, og mörgum uppástúngum verið hreift í nefnd-inni í þá stefnu, en um eina þeirra varð hún ásátt, og það er sú, að því að eins skyldi nokkur maður geta orðið þjóðfulltrúi fyrir nokkurt kjördæmi, að hann hlyti meiri hluta allra þeirra atkvæða kjósandanna, sem greidd væru og gild. Að vísu sást henni ekki yfir þann annmarka á þessu, sem virðist að liggja beint við í fljótu áliti, að með því móti mætti reka að því, að allir kjósendur þyrftu að greiða atkvæði að nýju, en það mundi gjöra mörgum kjósendum kosníngarnar ógeðfeldar, og jafnvel aptra sumum frá, að koma á kjörfundinn, en hins vegar þótti þessi ákvörðun vera bein uppörfun fyrir kjósendur, bæði til að halda prófkosníngar, og til að koma sèr á annan veg niður á því fyrir kjörþíngið, og sameinast um það, hverja tiltækilegast mundi vera að kjósa; en þar með mundi næsta mjög vekjast áhugi og yfirvegun manna um hin helztu fulltrúa-efni, og væri með svo felldu bæði meiri líkindi fyrir því, að heppilega yrði kosið, og að sjaldnast mundi að bera, að kjósa þyrfti um aptur, og aptur fyrir það girt, að tjón yrði að því, þó atkvæði kjósanda færi á við og dreif, og fyrir það skotið loku, að nokkru sinni yrði sá alþíngismaður, sem kosinn væri

að eins með fáeinum atkvæðum allra þeirra, sem greiddi þau.

Af því nefndin hefur í áliti sínu um stjórnarlagamálið ráðið frá því í einum anda, að kosníngarlög þau, sem stúngið er upp á til ríkisþíngs Dana í 11.—60. gr. stjórnarlagafrumvarpsins, verði samþykkt af hinum heiðraða þjóðfundi, og af því henni þykja allmikil líkindi fyrir, að svo fari, þá hlýtur hún og samkvæmt þessari skoðun að stínga upp á þeim viðaukum og breytíngum í þessu frumvarpi stjórnarinnar, sem beint leiðir af því, að í því er gjört ráð fyrir þeim lögum og skírskotað til þeirra, sem ekki eru til, og aldrei verða til að öllum líkindum.

Að svo fyrir mæltu leyfum vèr oss að stínga upp á þessum eptirfylgjandi breytíngum við frumvarp þetta og hverja einstaka grein þess, af þeim ástæðum, sem við hverja þeirra verða teknar fram, að svo miklu leyti, sem það er ekki þegar gjört í inngángsástæðunum hèr að framan.

Við 1. gr.

Með því nefndin álítur það ógjörandi, að skipta landinu í kjördæmi með hèr um bil jöfnum fólksfjölda, þá verðum vèr að vera fastir á þeirri skoðun, sem stjórnin hefur fylgt í frumvarpi þessu, að yfirgnæfandi ástæður sèu fyrir því, að halda hinni gömlu kjördæmaskipun eða lögsagnarumdæmunum, eins og þau eru nú; en eptir þessu sjáum vèr enga ástæðu til, að skipta Mýra- og Hnappadals-sýslu í 2 kjördæmi, og það því síður, sem hún er ein af hinum fámennari (hèr um bil 2300 manns), og Hnappadalssýsla sèr í lagi hefur lítið yfir 500 innbúa.

Þar á móti álítum vèr nauðsynlegt, að halda kjördæmaskiptunum í Þíngeyjarsýslu; því Suður- og Norður-Þíngeyjarsýslur geta ekki átt kjörþíng saman, jafnvel þó þær sèu nú gjörðar að einu lögsagnarumdæmi. Skaptafellssýslurnar hafa eigi heldur getað átt kjörþíng saman, og því virðist það vel til fallið, að gjöra kjördeildir þær, er þar hafa áður verið, að kjördæmum, eins og gjört er í frumvarpinu.

Hvað fulltrúatölunni viðvíkur, þá virðist meiri hluta nefndarinnar, bæði yfir höfuð, og einkum með tilliti til þess, að vèr treystum því, að alþíngi fái löggjafarvald, að ekki megi færri þjóðkjörnir menn eiga þar setu en 36. Til að ná þessari tölu álítur meiri hlutinn það rèttast, eins og hèr stendur á, að hvert lögsagnarumdæmi kjósi 2 fulltrúa, að undan teknum 2 hinum fámennustu sýslum: Vestmannaeyjasýslu og Strandasýslu.

Að kjósa 2 fulltrúa í hverju kjördæmi hefur þann kost við

sig, að kjósendum þar við gefst færi á, að sjá um, að hjá fulltrúum kjördæmisins sè bæði almenn menntun og þekkíng á því einstaklega, og er mjög líklegt, eptir því er vèr þekkjum til, að annar fulltrúinn verði einhver sá embættismaður, er menn bera mest traust til. En aptur væri það til hægðarauka fyrir kjósendur, að skipta sýslum þeim, er hafa 2 fulltrúa, í 2 kjördæmi, og þykir oss það mega vera falið hlutaðeigandi amtmanni á vald, að gjöra slík skipti, þar sem það mætti þykja nauðsynlegt.

Með tilliti til þess, að konúngi er í niðurlagi greinarinnar áskilinn rèttur til, að nefna sex menn til þíngsetu, þá skiljum vèr ekki, að það geti átt við eptir því fyrirkomulagi, er vèr treystum að verði á þínginu, úr því konúngur vor hefur heitið Íslandi hinu sama frelsi, sem hann hefur veitt þegnum sínum í Danmörku, auk þess að það kynni að hafa mjög ísjárverð áhrif á kosníngarnar í gagnstæða átt, og því verðum vèr að ráða frá, að þessi ákvörðun verði samþykkt.

Við 2. gr.

Í þessa grein verður að bæta ákvörðunum þeim, sem vísað er til, og álítum vèr, að eigi þurfi að breyta þeim, nema í tilliti til aldursins, eins og áður er getið, og líka virðist oss óþarfi og óviðkunnanlegt, að svipta mann kosníngarrètti, þó hann hafi flutt búferlum á því ári, þá kosið er.

Við 3. gr.

Það eru áður leidd rök að því, að grein þessari þurfi að breyta, og er hún nú löguð eptir stjórnarskipunarfrumvarpinu, 17. gr.

Við 4. gr.

Frumvarpið ætlast til, að hèr verði stofnaðar kjörstjórnir í hverjum hrepp, og að forsetar þeirra sitji í sýslukjörstjórninni ásamt sýslumanni, og taki hver fyrir sig við atkvæðum hreppsbúa sinna; en nefndinni sýnist, að þessi kosníngaraðferð sè allt of umsvifamikil, og mundi valda ærnum kostnaði, þegar svo margir kjörstjórar skyldu fá ferð sína borgaða; því opt er 10 til 14 hreppar í sýslu, og sumir í fjarska, auk þess að mjög torvelt yrði, að fá húsrúm fyrir svo margbrotna atkvæðagreiðslu. Oss virðist þar á móti hagfeldast, að fylgja í þessu tilliti reglunum í kosníngarlögunum 28. sept. 1849, að prestur og hreppstjóri semji kjörskrá fyrir hverja sókn, er liggi

um tiltekinn tíma við sóknarkirkjuna, og að auk sýslumanns séu tveir valinkunnir menn í kjörþíngisstjórninni.

Við 5. til 8. gr.

Eptir því sem að framan er á vikið, þarf bæði að auka greinir þessar, að því leyti sem í þeim er vísað til annars lagafrumvarps, og líka að breyta þeim nokkuð að innihaldi, sèr í lagi hvað kjörstjórnirnar og kosníngaraðferðina snertir. Líka þykir rèttast, að til taka kosníngartíma þann, er hentugastur virðist hèr á landi, þegar á allt er litið, þó svo, að amtmenn megi gjöra undantekníngu þar frá, ef nauðsyn krefur, í einhverju kjördæmi, t. a. m. í Austur-Skaptafellssýslu, ef sýslumaður stýrir kosníngum í báðum sýslunum.

Við 9. gr.

Í þessari grein þarf orðabreytíngar við, að því leyti vèr gjörum ekki ráð fyrir öðrum kjörgengisskrám, en kjörskránum.

Við 10. gr.

Af því vèr höfum stúngið upp á öðru fyrirkomulagi á kjörstjórnunum, en ráð er fyrir gjört í greininni, þá verður að gjöra á henni breytíngar þær, er beinlínis fljóta þar af. Líka virðist oss óþarfi, að bjóða kjörstjórnunum, að leggja úrskurð á kjörgengi fulltrúaefnanna, þar eð það verður skylda þíngsins, að dæma um, hvort fulltrúarnir séu rèttkjörnir til þíngsins; sbr. 30. gr. í stjórnarskipunarfrumvarpinu.

Við 11. gr.

Þessa grein verður að laga samkvæmt breytíngunni á greinunum á undan.

Við 12. gr.

Í þessa grein verður að bæta handi því á kosníngunum, sem áður er getið, að til fulltrúakosníngar þurfi meira en helmíng atkvæða.

Við 13. til 17. gr.

Þessar greinir virðast oss ekki þurfa neinnar verulegrar breytíngar við.

Við 18. gr.

Þar eð vèr álítum nauðsynlegt, að hinar almennu kosníngar fari fram árið áður, en þíng skal haldið, þá viljum vèr ráða til, að breyta ártalinu „1853“, og setja „1852“. Líka virðist oss nauðsyn bera til, að kosníng í einstökum kjördæmum verði ákveðin af kjörstjóra; því ef fulltrúi fær forföll skömmu fyrir þíng, er ekki tími til, að leita stiptamtmanns aðgjörða.

Af framan töldum ástæðum leyfum vèr oss að stínga upp á, að eptirfylgjandi breytíngar verði gjörðar við hinar einstöku greinir, og með þeim ráðum vèr til að frumvarpið verði viðtekið af þjóðfundinum.

*Við 1. gr.*

1. Að í staðinn fyrir: „30 þjóðkjörnir" sè sett: „36 þjóðkjörnir".
2. Að fyrir Reykjavíkurkaupstað skuli kjósa . . 2 fulltrúa,

| | | | |
|---|---|---|---|
| fyrir | Borgarfjarðarsýslu . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Mýra- og Hnappadals-sýslur . . . . . | 2 | — |
| — | Skaptafellssýslu . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Dalasýslu . . . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Barðastrandarsýslu . . . . . . . . . | 2 | — |
| — | Suður-Þíngeyjarsýslu . . . . . . . . | 1 | — |
| — | Norður-Þíngeyjarsýslu . . . . . . . | 1 | — |
| — | Suður-Múlasýslu . . . . . . . . . . | 2 | — |
| en fyrir hin kjördæmin, eins og stendur í frumvarpinu, | til samans | 20 | — |
| | alls | 36 | — |

3. Að seinasta kafla greinarinnar: „og áskilur konúngur . . . . tvo af andlegri", sè sleppt.

*Við 2. gr.*

Að þessi grein sè þannig orðuð:

„Kosníngarrètt til alþíngis á hver sá maður, sem hefur óflekkað mannorð og innlends manns rèttindi, er 25 ára að aldri, þá er kjósa skal, og fjár síns fullráðandi, og geldur til sveitar af efnum sjálfs sín.

Eigi skal álíta mannorð þess óflekkað, sem sekur er orðinn að lagadómi um nokkurt það verk, sem svívirðilegt er eptir almenníngsáliti; ekki heldur neinn sá, sem mál hefur verið höfðað á hendur um slíkt verk, nema hann sè dæmdur alsýkn saka.

Sá maður hefur eigi kosníngarrètt, sem er öðrum háður sem hjú, og ekki heldur sá, sem er af vinnuhjúastètt, þó hann einhverra hluta vegna eigi með sig sjálfur það ár, er kosníngar fara fram.

Svo á maður og eigi kosníngarrètt, ef hann hefur þegið af sveit, nema það sè endurgoldið, eða honum sè gefið það upp.

Kosníngarrèttar ber að neyta í því kjördæmi, sem kjósandi er heimilisfastur í, þegar kosið er".

*Við 3. gr.*

Að greininni sè breytt, og hún þannig orðuð:

„Kjörgengur til fulltrúa á alþíngi er hver maður, sem hefur kosníngarrètt eptir 2. gr.

Líka má kjósa til fulltrúa þann mann, sem að öðru leyti er kjörgengur, þó hann hafi ekki goldið til sveitar“.

*Við 4. gr.*

Að þessari grein sè breytt, og hún orðuð þannig:

„Í hverri sókn skal presturinn og hreppstjórinn, eptir ráðstöfun kjörstjóra, semja skrá yfir kjósendur þá, er þar eiga heimili. Í Reykjavíkurkjördæmi semja skrá þessa dómkirkjupresturinn og oddviti bæjarfulltrúanna.

Á kjörskránum skulu full nöfn kjósanda, aldur þeirra og staða og heimili standa í dálkum, en kjósendum skal þar raða eptir boðleið.

Síðan skal í viðaukagreinum á sama hátt til greina

1. þá, sem á næsta árshríng ná 25 ára aldri, ef þeir að öðru leyti hafa kosníngarrètt, og skal berlega til tekinn fæðíngardagur þeirra;
2. þá, sem eru kjörgengir eptir 2. gr., án þess að þeir leggi til sveitar (því kjörskráin er líka kjörgengisskrá)“.

*Við 5. gr.*

Að henni sè breytt, og orðuð þannig:

„Kjörskrárnar skulu samdar í marzmánuði árið áður, en alþíngi það, er kjósa á til, skal haldið. Þær skulu samdar í tvennu lagi, og skal bæði senda þær kjörstjóra svo fljótt sem verður, og líka skulu þær frá 1. apríl liggja til sýnis í þínghúsinu í Reykjavík og við hverja kirkju í landinu. Skal það auglýsa á þann hátt, er bezt þykir henta, með nægum fyrirvara. Þyki nokkrum einhver sá vera nefndur á kjörskránum, sem ekki hafi það til að bera, er veiti kosníngarrètt eða kjörgengi, eður að nokkrum manni sè þar ránglega sleppt, á hann, ef hann vill hafa leiðrèttíng þess, að tjá það kjörstjóra, og leiða rök til, að minnsta kosti 4 dögum fyrir kjörþíng, en kjörstjórnin leggur úrskurð á allar þess konar kærur, í síðasta lagi á kosníngardeginum“.

*Við 6. gr.*

Að henni sè breytt, og þannig orðuð:

„Eptir kjörskránum skulu kosníngar til alþíngis fram fara. Skrár þessar gilda fyrir kosníngar þær, er fyrir koma í næstu

6 ár, eða til 3 þínga, með leiðrèttíngum þeim og viðaukum, er þurfa.

Skulu því prestar og hreppstjórar hvert ár í marzmánuði leiðrètta skrárnar; skulu þá úr þeim numdir kjósendur þeir, er dáið hafa, eða flutt burt, eða misst kosníngarrètt, en aptur skal við bætt kjósendum þeim, sem hafa tekið sèr þar heimili eður öðlazt kosníngarrètt. Á sama hátt skal leiðrètta og auka viðaukagreinir þær, sem getið er í 4. gr. að framan.

Liðrèttíngar þessar skal síðan senda kjörstjóra".

*Við 7. gr.*

Að hún verði orðuð þannig:

„Kosníngar skulu fram fara í seinni hluta júnímánaðar. Þó mega amtmenn gjöra á því breytíngu, ef sèrstaklegt ásigkomulag einhvers kjördæmis útheimtir það. Amtmenn skulu ákveða kosníngardaginn. Kjörstjórar skulu ákveða þíngstað og stund, og sjá um, að dagur og stund og þíngstaður verði auglýstur á vanalegan hátt með að minnsta kosti 14 daga fyrirvara".

*Við 8. gr.*

Að hún verði svo orðuð:

„Kjörstjórar eru bæjarfógetinn í Reykjavík og sýslumenn, hver í sinni sýslu. Þar sem sýslu er skipt í 2 kjördæmi, má amtmaður nefna annan mann til kjörstjóra í öðru þeirra.

Í hverri kjörstjórn skulu ásamt kjörstjóra sitja 2 valinkunnir menn, er hann kveður til þess starfa".

*Við 9. gr.*

1. Að í staðinn fyrir „kjörþíngisstjórn" sè sett „kjörstjórn", og í staðinn fyrir „kjörgengisskrá" sè sett „kjörskrá".
2. Að þessari klausu: „sýslumaður skal ... atkvæði við", sè sleppt.

*Við 10 gr.*

Að hún sè þannig orðuð:

„Skal að svo búnu gánga til kosnínga. Kjörstjórnarmennirnir skulu þá fyrst rita atkvæði sín í kjörbækurnar. Síðan gánga hinir kjósendurnir fram, og greiða atkvæði munnlega í þeirri röð, sem á er kveðin. Atkvæðin skulu kjörstjórnarmennirnir rita í tvær bækur; í aðra bókina skal fyrst rita nafn kjósandans, og síðan til hliðar þár við nafn þess manns eða þeirra tveggja manna (en það fer eptir því, hvort kjósa á fyrir kjördæmi það einn alþíngismann eða tvo), er kjósandinn hefur gefið atkvæði sitt; en í hina bókina skal fyrst rita nafn þess manns eða þeirra tveggja manna, sem kosnir eru, og til hliðar

þar við nafn kjósandans sjálfs. Áður en kjósandi víki burt, skal lesið upp fyrir honum bæði nafn sjálfs hans og þess manns nafn eða þeirra, er hann hefur kosið, til fullvissu um, að hvortveggja bókunin sè rètt, og að þeim beri saman. Enginn má kjósa þann, sem utankjördæmis býr, nema það sè sannað fyrir kjörstjórninni, að hann vilji takast kosnínguna á hendur í því kjördæmi og engu öðru. Ekki þarf að færa sönnur á kjörgengi þess manns, er kjósendur gefa atkvæði sitt; en ef kjörstjórnin hefur annaðhvort vissu eða grun um, að einhver sá, sem atkvæði er gefið, sè ekki kjörgengur, þá skal hún benda kjósendum til þess, en alþíngi skal dæma um, hvort þíngmenn sèu rèttkjörnir".

*Við 11. gr.*

Að henni sè breytt, og þannig orðuð:

„Þá er atkvæðagreiðslu er lokið, skal kjörstjórnin leggja saman atkvæði þau, sem greidd hafa verið með hverjum manni sèr í lagi, og kveða það svo upp fyrir þíngheiminum".

*Við 12. gr.*

Að greininni sè breytt, og hún orðuð þannig:

„Sá er kosinn til fulltrúa, sem hefur fengið meira en helmíng atkvæða. Ef enginn, eða, ef tvo skal kjósa, ekki nema annar, hefur fengið meiri hluta atkvæða, skal kjósa á ný, til að fá þann eða þá, sem vantar. Náist enn ekki svo mörg atkvæði, sem þarf til fulltrúakosníngar, skal velja um þá tvo, eða, ef tvo skal kjósa, um þá fjóra, sem flest atkvæði hafa hlotið. Hafi fleiri menn fengið jafnmörg atkvæði, ráði hlutkesti, ef þörf er til".

*Við 14. gr.*

Að í staðinn fyrir „kjörþíngisstjórn" sè sett „kjörstjórn".

*Við 18. gr.*

Að í staðinn fyrir „1853" sè sett „1852", og í staðinn fyrir: „af stiptamtmanni" sè sett: „af kjörstjóra".

Reykjavík 9. ágústmánaðar 1851.

*Jón Sigurðsson* forseti. *E. Briem* skrifari og framsögumaður. *Jón Guðmundsson.*

*Hannes Stephensen. K. Kristjánsson. H. Jónsson.*

*J. Skaptason. St. Jónsson.*

Eg held mig til míns breytíngaratkvæðis.

*Þ. Sveinbjörnsson.*

---

*Ágreiningsatkvæði Þórðar Sveinbjörnssonar í alþingis-kosníngamálinu.*

Þegar eg set mèr fyrir sjónir, að mögulegt sè, að alþíngi það, sem eptir stjórnarlagafrumvarpinu á að stofnast hèr í landi, geti orðið, í hið minnsta í innlendum málefnum, löggefandi, get eg ekki annað en fundið, hve stór nauðsyn sè á, á hvern þann hátt, sem beztur má verða, að tryggja kosníngarnar til þessa þíngs, svo ekki sè að öllu leyti hleypt til skipbrots, og lagt í vald blindrar hendíngar, hverjir ráða skulu hèr á landi lögum og lofum eptirleiðis. Eg hef því á engan hátt getað fallizt á meiníngu minna heiðruðu meðnefndarmanna í þessu máli, þegar þeir vilja láta kosníngar til þíngsins vera að öllu óbundnar, og vilja kasta frá sèr hverju því bandi, sem af upplýstum þjóðum (reyndari í slíku, en vèr Íslendíngar) hefur verið á lagt því til tryggíngar, að þekkíng og reynsla nóg í stjórnar- og löggjafar- málum geti átt sæti á þíngi. Mèr stendur ótti af, að hugsa til þess, að lögin, þetta band borgaralegs fèlagsskapar og tryggíng borgaralegra rèttinda, sèu í föðurlandi mínu fengin í hendur einhverri tilviljun; því svo kalla eg það, þegar kosníngar alþíngismanna takmarkalaust eru fengnar einni einustu stètt í hendur, og það þeirri stètt, sem eins hèr og annarstaðar er leiðitömust við flokkaforíngja, af því hún, eptir stöðu sinni, ekki hefur haft færi á í stjórnarmálefnum og löggjöf, að afla sèr nægrar þekkíngar, þó hana hvorki skorti gáfur nè þekkíngu að öðru leyti. Það frumvarp stjórnarinnar, sem hèr liggur fyrir mèr, hefur á tvöfaldan hátt viljað búa um það, að kosníngarnar mættu verða tryggari, og að fengizt gæti, ef ekki vissa, þá þó líkindi fyrir, að þíngið hvorki skorti þekkíngu nè áhuga á opinberum málefnum, bæði með því, að geyma konúngi vorum rètt til, að kjósa 6 menn á þíngið, og líka með að setja fasteignarstofn, sem skilyrði fyrir kjörgenginni. Án efa gefur það fyrra nokkurn óhultleika, en það síðara þar á móti lítinn sem engan. Hvað sem um það fyrra er að segja, þá er mèr um hið síðara óhætt að fullyrða, að það hèr mundi valda mikilli óánægju, og er í sjálfu sèr ekki rèttvíst, af því það úti lokar frá þessum borgaralegu rèttindum, kjörgenginni, allmarga upplýsta dugandismenn, en veitir þau aptur fáeinum, hverra sumra hverra helzti hæfilegleiki til þíngsetu er, að þeir eiga 10 hndr. í jörðu, opt og tíðum fengin með einberri tilviljun, arfi eða gjöf. Um konúngskosníngarn-

ar er það að minni meiníngu að segja, að þó þær án efa veiti nokkura vissu fyrir, að þekkíng og reynsla líka fái að tala með á þínginu, þá er það þýðíngarlítið á löggefandi þíngi, á meðan sú tíð varir, að konúngur og þjóð skoðast í fólksmeiníngu sem 2 stríðandi kraptar, er hver vilji annan yfirbuga. Þeir konúngkjörnu mega því optast við búast, að verða í minni hlutanum, stundum máske með fram af því, að þeir eru konúngkjörnir, og máske sjái þar missmíði, sem hinir engin sjá, eða ekki vilja sjá. Mèr er það og allefasamt, hvort konúngur geti skyldað þá til þíngsetu, er ekki vilja, en viljugur ætla eg enginn konúngkjörinn fari. Að minni meiníngu næðist stjórnarinnar tilgángur með því, að alþíngisseta, eða máske rèttara sagt skylda til að sitja á alþíngi, væri bundin við viss hin æðri embætti í landinu. Sá, sem sækir um embættið, veit þá, að hverju hann í því tilliti á að gánga. Þessi embætti ætla eg ættu að vera nú sem stendur:

1. Þau 2 amtmannaembætti.
2. Landsyfirrèttarins 3 embætti.
3. Biskupsembættið.
4. Lectorsembættið við prestaskólann.
5. Rectorsembættið við hinn lærða skóla.
6. Landlæknisembættið.
7. Landfógetaembættið.

Ef svo færi, að amtmannaembættin af tækjust, og stjórnarmenn yrðu skipaðir hèr í landi, gætu 2 þessara komið í hinna stað. Af þessum 10 mönnum, með venjulegum þíngmannalaunum, ætlast eg til að myndazt gæti nokkurs konar yfirhús *(lögrètta)*; því eg held nauðsynlegt, að þínginu verði tvískipt, ef flokkadráttanna áverkanir á þíngsins ályktanir ættu að gjörast óskaðvænar. Á þennan hátt yrði í lögrèttunni sèð fyrir öllum landsins aðalmálefnum, dóms- og framkvæmdar-valdi, kirkju- og skóla-málefnum, heilbrigðis- og fjárhags-efnum. Í undirhúsinu *(lögbergi)* ætlast eg til, að þeir þjóðkjörnu þíngmenn sitji, um hverra tölu og kosníngarmáta eg strax skal tala. Eg veit, að margur kann að segja, að þessi mín uppástúnga lýsi mèr sem konúngkjörnum, svo ófrjálslynd sè hún; en eg bið það athugað, að þetta er það sama frelsi, sem land þetta hafði, þegar það var sem frjálsast, eða máske rèttara sagt engum háð, nema sjálfu sèr. Aldrei hefur löggjöf og stjórn hèr í landi verið í almúgans hendi. Hvorttveggja var fyrrum hjá þeim svo

nefndu *goðum*, sem með ráðgjöfum sínum, sem þeir völdu að eigin vild til lögrèttusetu með sèr, rèðu hèr fyrir lögum og lofum. Eg fæ ei betur sèð, en að með engu verði betur fullnægt úrskurði Kristjáns konúngs 8. frá 20. maí 1840, en með því, að færa inn í alþíngi vort þá sömu höfðíngjastjórnarundirstöðu, sem var í *alþíngi hinu forna*.

Skoði èg efnahag þessa lands yfir höfuð, ætla eg kröptum þess sè fullboðið, þegar 20 væru hinir þjóðkjörnu fulltrúar, og að því væri nefndur einúngis 1 fyrir hvert lögsagnarumdæmi; en af því þau eru að eins 19, mætti það fólksríkasta á landinu, Árnessýsla, kjósa 2. Ástæða væri máske líka til, að leggja Vestmannaeyjar saman við Rángárvallasýslu til eins kjördæmis, og að þetta kjördæmi þannig einnig kysi 2 fulltrúa. Að fara hèr að fólksmergð í kjördæmunum yfir höfuð, virðist mèr ómögulegt, svo að í nokkru lagi fari, og sama er um það að segja, að skipta sýslunum upp í öðruvísi löguð kjördæmi, sem líka án efa mundi vera mjög óvinsælt, af því að sèrhver sýsla frá aldaöðli er orðin vön við, að skoða sig sem óaðskiljanlega heild, og mundi því hver hluti hverrar sýslu verða óviljugur til, að sækja kosníngaþíng inn í aðra. Eg sè að sönnu, að stjórnin í frumvarpi þessu ætlast til, að í allt fái 36 menn alþíngissetu með þeim konúngkjörnu, en þó mèr þyki 30 nóg, og það hafi optar en sjaldnar sýnt sig, að ekki er allt unnið með höfðatölunni, væri eg þó ekki ótilleiðanlegur til, að þessi tala næðist, með því að láta fleiri af þeim fólksríkari sýslum kjósa 2 fulltrúa, enda þótt engin þessara nái fólkstölu Árnessýslu, þó undir því skilyrði, að þínginu væri skipt, eins og eg áður hef stúngið upp á. Væri og þessi viðhögun við höfð, og þeir 10 sjálfkosnu embættismenn fengju setu á þínginu, ætla eg engan kjörstofn þurfi, til að tryggja þjóðkosníngarnar, og að aðferðin megi vera að öllu leyti eptir kosníngarlögunum frá 28. sept. 1849, frá 3. gr. til enda, með þeim breytíngum, sem af því leiðir, að ekki væru 2 alstaðar kosnir fyrir hvert kjördæmi. Eg er líka að öllu samþykkur mínum heiðruðu meðnefndarmönnum, að meiri hluti allra atkvæða þurfi, til að verða rèttkjörinn alþíngismaður, og mundi ákvörðun um það haganlegast skotið inn í miðju 18. gr. í áður nefndum kosníngarlögum.

Að eg, hvað kosníngaraðferðina snertir, að öllu vík frá frumvarpinu, er af því, að öll sú viðhögun, sem þar er farið

fram á, með kjörskrár og fleira þar að lútandi, er byggð á þeim grundvelli, að eignarstofn þurfi til kjörgengi, eins og eg ekki heldur get annað en verið mínum heiðruðu meðnefndarmönnum samþykkur í því, að sú kosníngaraðferð, sem 10. gr. getur um, er allt of umsvifamikil, og, eptir sem hèr á stendur með húsrúm og fleira, ómöguleg.

Af framan skrifuðu er það auðsætt, fram á hverjar breytíngar eg mundi fara í stjórnarinnar frumvarpi til laga um kosníngar til alþíngis, ef kríngumstæðurnar leyfðu, að það yrði rætt til hlítar.

Reykjavík 9. ágústmánaðar 1851.

*Þ. Sveinbjörnsson.*

# VI.

## Erindisbréf konúngsfulltrúa.

---

**Frederik den Syvende,** etc. etc. *Vor synderlige Bevaagenhed! I Henhold til Patent af 16. Mai f. A., hvormeð Vi til Möde i Reykjavik den 4. Juli d. A. haver sammenkaldet den Forsamling, hvilken Vi ifölge allerhöiest Rescript af 23. Sept. 1848 ville höre, forinden de Grundbestemmelser, der med Hensyn til Islands særegne Forhold maatte være nödvendige for at ordne denne Statsdels forfatningsmæssige Stilling i Riget, endeligen vedtages, give Vi Dig hermed tilkjende, at det er Vor Villie, at Du, som Vor Commissarius, aabner Forsamlingen paa den ovennævnte Dag, og derefter forelægger samme det af Os i saa Henseende bifaldte Udkast, tilligemed et Udkast til Lov angaaende Valgene til Althinget. Saa er det og Vor Villie, at Du endvidere forelægger bemeldte Forsamling et af Os bifaldet Udkast til Lov indeholdende nogle Bestemmelser om Skibsfart og Handel paa Island. Og ligesom Vi ville have Dig overdraget den samme Myndighed og Deeltagelse i Forhandlingerne, som ved Frd. 8. Martz 1843 er tillagt vor Commissarius ved Althinget, saaledes skal Du være bemyndiget til, i Analogie med bemeldte Forordnings § 41, at vælge en Tilforordnet enten af Forsamlingens Medlemmer eller udenfor samme, der skal indtræde i Dit Sted, naar Du maatte finde for godt, og iövrigt yde Dig Understöttelse ved Udövelsen af Din Function. Endeligen ville Vi have*

# Útleggíng bréfsins.

**Friðrik hinn sjöundi,** o. s. frv., boðar sèrlega hylli sína. Með opnu brèfi dagsettu 16. d. maímánaðar f. á. höfum vèr stefnt til fundar í Reykjavík hinn 4. dag júlímánaðar þ. á. þíngi: því, er vèr samkvæmt allrahæstu konúngsbrèfi 23. d. septemberm. 1848 viljum heyra að máli, áður aðalákvarðanir þær, sem vegna sèrstaklegs ásigkomulags Íslands kynnu að vera nauðsynlegar, til að koma fyrir í skipulegt lag stjórn þessa hluta ríkisins, verða að lögum; því boðum vèr þèr nú þann vilja vorn, að þú sem fulltrúi vor setjir þíngið ákveðinn dag, og leggir svo fram frumvarp það í þessu efni, er vèr höfum fallizt á, ásamt öðru frumvarpi *til laga um kosningar til alþíngis.* Svo er það og vilji vor, að þú enn fremur leggir fyrir þetta þíng frumvarp eitt til laga um ákvarðanir nokkrar, áhrærandi siglíngar og verzlun á Íslandi, er vèr höfum fallizt á. Og eins og vèr viljum selja þèr í hönd hið sama vald og hluttekt í þíngmálum, sem veitt er fulltrúa vorum á alþíngi eptir tilskipun 8. d. marzm. 1843, svo skal þèr og vera fullheimilt, að taka þèr aðstoðarmann, annaðhvort úr flokki þíngmanna eður utanþíngs, og skal hann gánga í þinn stað, þegar þèr svo líkar, og að öðru leyti ljá þèr fulltíngi sitt, til að reka sýslun þína. Loks felum vèr þèr á hendur, að ákveða, hve lengi þíngseta skuli vera, og slíta þíngstörfum, er þèr virðist tilefni til; skaltu svo senda stjórnarherra innanríkis-

*Dig overladt, at tage nærmere Bestemmelse om, hvorlænge Forsamlingen skal være samlet, samt naar Du dertil maatte finde Anledning, at slutte Forhandlingerne, og har Du da at indsende de af Forsamlingen afgivne Betænkninger over foranförte Lovudkast til Vor Indenrigsminister. Denne Vor Ordre har Du paa fornöden Maade at bringe til alle Vedkommendes Kundskab. Dermed skeer Vor Villie. Befalende Dig Gud.*

**Skrevet paa Vort Slot Frederiksborg, den 19. Mai 1851.**

Under Vor kongelige Haand og Segl.

Frederik R.

---

**Rosenörn.**

**Til**

Stiftamtmand Grev **Trampe**, etc.

málefnanna álit þíngsins um lagafrumvörp þau, er áður eru talin.

Þessa skipun vora áttu að birta, svo sem þörf er á, öllum þeim, er hlut eiga að máli.

Þetta er vor vilji. Vertu guði falinn.

Ritað í höll vorri Friðriksborg, 19. dag maímánaðar 1851.

# VII. Reikningur

*yfir alþingiskostnað árið 1849.*

| | I. Fæðispeningar og ferðakosnaður alþíngismanna: | Fæðispeningar. | | Ferðakostnaður. | | Alls. | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | rbdd. | skk. | rbdd. | skk. | rbdd. | skk. |
| | A) *hinna konúngkjörnu:* | | | | | | |
| 1. | Konferenzráðs Þ. Sveinbjörnssonar . . . . . . . . | 114 | „ | „ | „ | 114 | „ |
| 2. | Biskups H. G. Thordersens . . . . . . . . . . . | 117 | „ | „ | „ | 117 | „ |
| 3. | Yfirrèttardómara Th. Jónassens . . . . . . . . . | 24 | „ | „ | „ | 24 | „ |
| 4. | Jústizráðs J. Thorstensens . . . . . . . . . . . | 114 | „ | „ | „ | 114 | „ |
| 5. | Assessors K. Kristjánssonar . . . . . . . . . . | 114 | „ | „ | „ | 114 | „ |
| 6. | Prófasts Halld. Jónssonar . . . . . . . . . . . | 123 | „ | 40 | „ | 163 | „ |
| 7. | Prófessors Dr. P. Pèturssonar . . . . . . . . . | 21 | „ | „ | „ | 21 | „ |
| 8. | Sýslumannns Th. Gudmundsens . . . . . . . . . | 87 | „ | „ | „ | 87 | „ |
| | A) *hinna þjóðkjörnu:* | | | | | | |
| 9. | Stiptprófasts Árna Helgasonar . . . . . . . . . | 114 | „ | „ | „ | 114 | „ |
| 10. | Hreppstjóra Guðmundar Brandssonar . . . . . . . | 129 | „ | 5 | „ | 134 | „ |
| 11. | —— Jóns Þórðarsonar . . . . . . . . . | 144 | „ | 20 | „ | 164 | „ |
| 12. | Assessors J. Johnsens . . . . . . . . . . . . | 343 | „ | 60 | „ | 403 | „ |
| 13. | Sýslumanns Jóns Guðmundssonar . . . . . . . . | 135 | „ | 30 | „ | 165 | „ |
| 14. | Prófasts Hannesar Stephensens . . . . . . . . . | 141 | „ | 16 | „ | 157 | „ |
| 15. | Hreppstjóra H. Helgasonar . . . . . . . . . . . | 135 | „ | 20 | „ | 155 | „ |
| 16. | Kammerráðs C. Magnúsens . . . . . . . . . . . | 156 | „ | 34 | „ | 190 | „ |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 17. | Umboðsmanns Þ. Sivertsens . . . . . . . . . . | 162 | „ | 34 | 32 | 196 | 32 |
| 18. | Hreppstjóra Eyjólfs Einarssonar . . . . . . . . . | 165 | „ | 40 | „ | 205 | „ |
| 19. | Skjalavarðar Jóns Sigurðssonar . . . . . . . . . | 303 | „ | 60 | „ | 363 | „ |
| 20. | Sáttasemjara Ásgeirs Einarssonar . . . . . . . . | 150 | „ | 25 | „ | 175 | „ |
| 21. | Umboðsmanns R. M. Ólsens . . . . . . . . . . | 144 | „ | 34 | „ | 178 | „ |
| 22. | Jóns bónda Samsonssonar . . . . . . . . . . . | 162 | „ | 14 | „ | 176 | „ |
| 23. | Umboðsmanns St. Jónssonar . . . . . . . . . . | 159 | „ | 31 | „ | 190 | „ |
| 24. | Hreppstjóra Jóns Jónssonar . . . . . . . . . . | 165 | „ | 35 | „ | 200 | „ |
| 25. | Umboðsmanns Jakobs Pètursonar . . . . . . . . . | 174 | „ | 38 | „ | 212 | „ |
| 26. | Stúdents Guttorms Vigfússonar . . . . . . . . . | 219 | „ | 80 | „ | 299 | „ |
| 27. | Hreppstjóra Sigurðar Brynjólfssonar . . . . . . . . | 234 | „ | 81 | „ | 315 | „ |
| 28. | Prófasts Páls Pálssonar fyrir dvöl hans í Reykjavík, til að setjast, ef við þyrfti, í varaþíngmannssæti . | 15 | „ | „ | „ | 15 | „ |
| | | 4,063 | „ | 697 | 32 | 4,760 | 32 |

II. Annar kostnaður.

*a.* til aukaskrifara:

| | | | |
|---|---|---|---|
| — Kandídats B. Halldórssonar . . . . . . . . . . . . . . | 114 rbdd. | | |
| — Stúdents B. Gunnarsens . . . . . . . . . . . . . . | 114 — | | |
| — Th. Thorstensens, skrifara forseta . . . . . . . . . . . | 114 — | | |
| — Skólakennara P. Gudjohnsens fyrir þýðíngar . . . . . . . . | 83 — | 425 | |
| flytjist | | 5,185 | 32 |

| | | rbdd. | skk. |
|---|---|---|---|
| | fluttir | 5,185 | 32 |
| *b.* | fyrir ýmsar skriptir, einkum eptir þíng, ritun þíngbókar, samanlestur hennar og ferð aukaforseta til Reykjavíkur í þarfir þíngmálefna, þýðíngar og fleira til ýmissa | 398 | 84 |
| *c.* | fyrir skriffaung | 52 | 90 |
| *d.* | fyrir bókband og þíngbækur tillagðar | 167 | 8 |
| *e.* | fyrir ýmsar lagfæríngar á húsbúnaði alþíngis, bogagrindur fyrir innan tilheyrendur, og fleira | 87 | 46 |
| *f.* | til dyravarðarins á alþíngi fyrir að annast um þvott á alþíngissalnum, gæta reglu og fleira | 57 | „ |
| *g.* | prentunarkostnaður | 1,547 | 89 |
| *h.* | fyrir að semja yfirlit og registur þíngtíðindanna | 30 | „ |
| *i.* | fyrir lestur prófarkanna | 130 | „ |
| *k.* | til innkaupa bókasafns handa alþíngi þíngsetuárið 1849 | 100 | „ |
| | Samtals | 7,756 | 61 |



## Prentvillur og leiðrèttíngar.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Bls. | 6 | línu | 18: | atkvæði; f. atkvæði, |
| — | 16 | — | 37: | liggur f. liggur, |
| — | 31 | — | 22: | sameinast f. sameinazt |
| — | 45 | — | 34: | Sveinbjönsson f. Sveinbjörnsson |
| — | 58 | — | 31: | um f. um- |
| — | 65 | — | 7: | ljós f. ljós. |
| — | 69 | — | 28: | uppústúngu f. uppástúngu |
| — | 81 | — | 30: | aðgjörða. f. aðgjörða“. |
| — | 87 | — | 13: | fram f. fram, |
| — | 137 | — | 1: | verða er of aukið |
| — | 150 | — | 34: | landisns f. landsins |
| — | 163 | — | 32: | síðan f. áður en |
| — | 273 | — | 40: | eigi vantar fyrir aptan mèr. |
| — | 290 | — | 22: | frumsögumaður f. framsögumaður |
| — | 299 | — | 15: | nefndariunar f. nefndarinnar |
| — | 310 | — | 30: | juredisk f. juridisk |
| — | 315 | — | 14: | Brynjólfnr f. Brynjólfur |
| — | 315 | — | 38: | þinsköpin f. þíngsköpin |
| — | 321 | — | 34: | 2 gr. f. 2. gr. |
| — | 322 | — | 12: | Sreinbjörnsson f. Sveinbjörnsson |
| — | 327 | — | 39: | lögjafann f. löggjafann |
| — | 337 | — | 33: | 42. f. 43. |
| — | 340 | — | 17: | lýtur f. lítur |
| — | 346 | — | 13: | oss f. vor |
| — | 363 | — | 22: | höndur f. hendur |
| — | 401 | — | 22: | 2. f. 2 |
| — | 403 | — | 1: | atkvæða f. atkvæða- |
| — | 489 | — | 29: | fumvarp f. frumvarp |
| — | 504 | — | 40: | Danmöku f. Danmörku |

